# Þad
# Nyja Testament
Vors
## DROTTENS og FRELSARA
# JEsu Christi
med
## Formaalum og Utskijringum
hins Sæla
## D. MARTINI LUTHERI;
epter þeirre Annare Edition Bibliunnar a Islendsku,
einnig med
Stuttu Innehallde sierhvers Capitula, og Citatium.

1747.

# Bækur hins Nya Testamentesins.

# Formaale yfer hid Nya Testamentum.

Eins lijka sem þad Gamla Testamented er ein Book, j hvørre GUDs Løgmaal og Bodord eru skrifud, þar med og eirnenn Giørningar, bæde þeirra sem þau hafa hallded, og ecke hallded, So er og þad Nya Testamented ein Book, j hvørre Evangelium og GUDs Fyrerheit eru uppskrifud, jafn framt Giørningum, bæde þeirra sem þeim hafa truad, og hinna sem þeim hafa ecke truad. Þviad Evangelium er eitt Griskt Ord, og merker a Norrænu Gledelegann Bodskap, god Nymæle, Liufleg Tijdende, eitt æskelegt Siguroop, um hvørt Menn syngia, seigia og fagna. Lijka so sem þa skiede þa ed David vann hinn mikla Goliath, þa kom eitt æskelegt Siguroop, og ny Huggunar Tijdende, a medal Juda Folks, af þvi ad þeirra hinn Ogurlege Fiandmann vard jhel sleigenn, enn þeir til Frelsis og Fagnadar Leyster og Skickader, af hvøriu þeir sungu, dønsudu, og nærsta feaner urdu. Lijka so er nu þetta GUDs Evangelium og Nya Testamentum, einn Fagnadar Bodskapur og Tijdende, hvør ed fyrer Postulanna framburd hlioda um allann Heim, um þann Riettferduga David, sa ed vid Synd, Dauda, og Dioflenn bardest, og yfervann, Sa sem ad þar med hefur alla þa sem j Syndum voru herteckner, med Daudanum plaagader, og af Dioflenum yferbugader ann þeirra Verdleiks Endurleyst, Riettlatt, Lijfgad, og Farsællega giørt, So og til Fridar skickad, og GUDe aptur heimfært, hvar fyrer þeir syngia, og GUDe þacker giora, fagna, og æfinlijfu hann lofa, ef þeir trua annarsørugglega, og stadfaster blijfa j Trunne.

Þvilijkt Siguroop og Huggunar Bodskapur, edur Evangelisk og Gudleg Ny Tijdende, kallast og eitt Nytt Testamentum, af þvi, ad lijka so sem eitt Testamentum er þad, nær ad Banvænn Madur skipar Gotse sijnu, þad sem epter hans Dauda skal af nefndum Ørfum ytskiptast, lijka so hefur Christur fyrer sitt Lijflaat, befalad og boded slijkt Evangelium epter sinn Dauda ut ad bera um allann Heim, og þar medur øllum þeim er trua, til eignar giefed all sitt Gots, Þad er, sitt Lijf, med hvøriu hann Daudann uppsvelgde, sitt Riettlæte, hvar med hann Syndernar afmaade, og sitt Hiaalpræde, þar hann eylijfa Fyrerdæming med yfervann. Nu sær sa hinn volade Madur, sem j Syndum, Dauda og Helvijte er reyrdur, eckert liufleg ar heyrt, enn slijkann Dyrdlegann Huggunar Bodskap af Christo, þvi ma hans Hiarta af innstu Root fagna og vidglediast, ef hann truer annars, ad þad sie Sannindi.

Nu hefur GUD slijkre Tru til styrktar, þetta sitt Evangelium og Nya Testamentum margfalldlega fyrerheited, j hinu Gamla Testamentenu, fyrer Munn sinna Spaamanna, epter þvi sem Paall Postule seiger. Rom. 1. C. Eg em utvalenn til ad predika GUDs Evangelium, hvørin hann hefur adur fyrerheited, fyrer sijna Spaamenn j Heilagre Skrifst, af sijnum Syne, sem fæddur er af Davids Sæde, og etc. Og þad vier utskyrum nockrar þær Greiner, þa var þetta þad fyrsta Fyrerheit, þad sem hann sagde til Høggormsins. Gen. 3; Eg mun Fiandskap setia mille þijn og Kvinnunnar, og j mille þijns Sædis og hennar Sædis, þad sama skal þitt Høfud j sundur meria, og þu munt bijta hann j Hælenn. Christur er þad Sæded þessarar Konu; Sa er Dioflsins Hofud, þad er Syndena, Daudann, Helvijte, og allann hans Krapt hefur sundur mared, þviad ann þessa Sædis fær eingenn Manna, Syndena, Daudann, nie Helvijte fordast. Item. Gen. 22. sagde hann til Abrahams; J þijnu Sæde skulu allar Kinkvijsler a Jørdu blessadar verda. Christur er þad Abrahams Sæde, seiger Paall Postule, Gal. 3. Hvør ed blessad hefur allann Heim fyrer Evangelium, þvi hvar sem Christur er eige, þar er enn su Bølvan sem fiell yfer Adam, og Børn hans, þa er hann hafde syndgast, so ad aller hlióta sijdann, Syndum, Dauda og Helvijte eigenleger og seker ad vera. Enn j giegn þessare Bølvan, blessar nu þetta Evangelium alla Verølld, med þvi ad þad opinberlega kallar, Hvør hann truer a þetta Abrahams Sæde, sa skal blessadur vera, þad er, af Syndum, Dauda og Helvijte kvittadur, blijfande so eylijflega Riettlaatur, Sæll og Lifande, so sem sialfur Christur seiger, Joh. 11. Hvør hann truer a mig sa mun alldrei deya.



Item,

Item, so sagde Hann þad David til 2 Sam. 7. þa hann sagde, Eg mun uppvekia þitt Sæde epter þig, hann skal uppbyggia mijnu Nafne eitt Hus, og eg mun ad eylijfu Stol hans Kongsrijkis stadfesta, eg vil hans Fader vera, enn hann skal minn Sonur vera. og etc. Þad er nu Rijked Christi, sem þetta Evangelium afseiger, hvørt ad er eitt Eylijft Rijke, eitt Lijfsins Rijke, Saalnhialparennar, Riettlætesins Rijke; Þangad koma, ur Herteknungu Syndarennar og Daudans, aller þeir er trua. Þvilijk Fyrerheit Evangelij finnast enn vijdar hia ødrum Spaamønnum, so sem Miche. 5. C. Og þu Bethlehem Ephrata sem ert lijtil j bland Þusunda Juda; Ut af þier skal mier koma sa sem vera skal Herra j Jsrael. Item, Hoseæ. 13. Eg vil þa leysa ut af Helvijte, og fra Daudanum vil eg þa frelsa. Daude, eg skal vera þier Eitur, Helvijte, eg skal vera þier ein Plaaga.

Fyrer þvi er Evangelium eige annad, enn ein Predikun af Christo, Guds og Davids Syne, sem er Sannur Gud og Mann, sa er fyrer oss hefur med sijnum Dauda og Upprisu, allra Manna Synder, Dauda og Helvijte yfersttijged, þeirra sem a hann trua. Nu þo ad Evangelium kunne ad vera stutt eda laung Ordræda, eda kunne einn ad skrifa faaordt, enn annar Laungordt, Sa skrifar Langordt sem Ord Christi og margar giørder utskrifar, so sem ad giora Fiorer Gudspiallamenn, Enn sa skrifar þad stutt og faaordt, sem ecke talar um Verkenn eda Giørder Christs, helldur stuttlega tilteiknar, hvørnenn hann hefur fyrer sinn Dauda og Upprisu, Synder, Dauda og Helvijte yferunned, fyrer þa sem a hann trua. So sem þeir Sancte Petur og Paall giøra.

Af þvi athuga þad vandlega, ad þu giører ei Christ ad Moysen, nie af Evangelio eina Logmaals edur Setninga Book, sem hingad til skied hefur, og enn heyrest j nockrum Formaalum hins Heilaga Hieronymi, þviad Evangelium krefur eigennlega ege vorra Verka, þad vier verdum þar fyrer fromer og farsæler, helldur fordæmer þad slijk Verk, enn krefur Riettrar Truar a Christum, ad hann hafe fyrer oss Synder, Dauda og Helvijte yferunned, og hefur so, eige fyrer vorra Verka saker, helldur fyrer sijnar sialfs Giørder, Dauda og Pijnu giort oss froma, lifande og Farsæla, so ad vier meigum oss tilreikna hans Dauda og Sigurvinning, lijka sem þad være vor eigenn tilverknadur.

Enn þo ad Christur j Evangelio, lijka einnenn þeir S. Petur og Paall giefe morg Bodord og Kienningar, utleggiande so Logmaaled, þa skulum vær þad þo ad jøfnu reikna, øllum ødrum Verkum og Velgiørdum Christi, og lijka sem þad, ad vita Christi Verk og giørder, er enn eige ad vita þad rietta Evangelium, þviad þar med veistu enn eige ad hann hafe Synd, Dauda, og Diofulenn yferunned, So er og enn eige riettlega skiled þad Evangelium, þott þu viter þvilijk Bodord, og Kienningar, helldur þa su Roddinn kiemur, su er so seiger, ad Christur sie þinn eigenn, medur sijnu Lijferne, Lærdome, Verkum, Lijflaate, Upprisu, og allt þad hann er, hefur, giører og megnar.

So siaum vier nu, ad eige þreynger hann, helldur hijrlega til sijn ladar, þar hann seiger, Sæler eru þeir Voludu, og etc. Og Postularner tijdka og þesse Ord, Eg aaminne, eg bid og beide ydur; so Menn sia allstadar, ad Evangelium er eingenn Logmaals Book, Helldur ein eigenleg Predikun af Christs Velgiørningum, su oss kunngiørest og til Eignar er giefenn, ef vier truum, Enn Moyses j sijnum Bokum, þiaaer, þreynger, skielfer, slær og straffar Ooaurlega, Þviad hann er Logmaals skrifare og Framm filgiare. Þadann kiemur og þad, ad Truudum er eckert Logmaal sett, fyrer hvort hann Riettlaatur verde fyrer Gude, epter þvi sem Paall Postule seiger, 1 Timoth. 1. af Þvi ad hann er fyrer Truna Riettlættur, Lijfgadur, og Farsæll giordur, og Þarf eige annars vid, enn ad auglysa slijka Tru med Verkunum. Nu, hvar ed Truenn er, þa fær hun sig eige folged. Helldur auglyser hun sig, utsprettande med goodum Verkum, Jaatar og vidurkiennir þetta Evangelium fyrer Alþydu, hættande sijnu Lijfe þar ut fyrer, og allt hvad hann stundar edur giører, þa streiger hann allt til sijns Naaunga Nytsemdar, honum til hiaalpar, eige einasta j þvi, ad koma honum til þvilijkrar Naadar, helldur jafnvel stirkiande hann medur Gots, Lijf og Æru, lijka sem ad hann sier ad Christur hefur vidur sig giort, epterfilgiande so Dæmum Christi. Þad var og Christi Meining, Þann tijd hann gaf oss j skilnad eckert annad Bodord, enn Kiærleikann, hvar af ad vier skylldum þeckia, hvørier hans Læresveinar og Riettruader være, þviad þar sem Verkenn og Kiærleikurenn utfliota eige, þa er þar eingenn Riett Trua, þar hondlar og Hiartad ecke enn nu Evangelium, þor er og Christur enn eige riettelega þecktur, Þvi sia nu til, ad þu hager þier so j þessum Nya Testamentis Bokum, ad þu kunner Þær ad lesa a þennann haatt.

# S. Matthei Evangelium

## I. Capitule.

Ættartala JEsu (I) fra Forfedrunum. (II) fra Kongungunum. (III) fra Yfer-Herrunum.

I. Þesse er su Book um Fæding JEsu Christi, Sonar (a) Davids, Sonar Abrahams.

(a) Abrahams og Davids er getid einkum af Þvi, ad Christur var Þeim fyrerheitenn og lofadur.

2. Abraham gat Isaac. Isaac gat Jacob. Jacob gat Juda og Brædur hans.

3. Juda gat Pharez og Saram af Thamar. Pharez gat Hezron. Hezron gat Ram.

4. Ram gat Aminadab, Aminadab gat Nahasson, Nahasson gat Salma.

5. Salma gat Boas, af Rahab, Boas gat Obed, af Ruth, Obed gat Jesse.

II. 6. Jesse gat Kongenn David, David Kongur gat Salomon, af þeirre sem var Hustru Urie.

7. Salomon gat Roboam, Roboam gat Abia, Abia gat Assa.

8. Assa gat Josaphat, Josaphat gat Joram, Joram gat Osia.

9. Osia gat Jotham, Jotham gat Achas, Achas gat Ezechia.

10. Ezechia gat Manasse, Manasse gat Amon, Amon gat Josia.

11. Josia gat Jechonia og Brædur hans, um Babiloneskann Herleidingar tijma.

III. 12. Og epter Babiloneska Herleiding, gat Jechonia Sealthiel, Sealthiel gat Zorobabel.

13. Zorobabel gat Abiud, Abiud gat Eliachim, Eliachim gat Asor.

14. Asor gat Zadoch, Zadoch gat Achin, Achin gat Eliud.

15. Eliud gat Eleasar, Eleasar gat Mathan, Mathan gat Jacob.

16. Jacob gat Joseph, Mann Mariu, af hvorre ed fæddur er JEsus sa er kallast Christur.

17. Aller Ættlider fra Abraham allt ad David, eru fiortan Lider. Og fra David allt til Babiloneskrar Herleidingar eru fiortan Lider. Og fra Babiloneskre Herleidingu allt til Christum eru fiortan Lider.

18. Enn JEsu Christi Fæding gieck til a þennann hatt. Nær ed Maria hans Moder var trulofud Joseph, adur enn þaug komu samann, fanst hun oliett af Heilogum Anda.

19. Enn Joseph Madur hennar var riettvijs, og villde þvi ei (b) ofrægia hana, enn þeinkte sier þo leynelega ad skilia vid hana.

(b) (Ofrægia) Þad er, hann villde ei giøra henne minkun fyrer Folkenu, sosem hann hefde mätt epter Løgmalenu. Og hrosar S. Mattheus Fromleika Josephs, ad hann upgaf sinn Riett fyrer Kiærleikans Saker.

20. Enn sem hann huxade þetta, Sia! þa vitradest honum Eingell Drottens i Draume, og sagde, Joseph Sonur Davids, þu skallt ecke ottast ad taka Mariam þijna Kvinnu til þijn, þviad hvad med henne fædt er, þad er af Heilogum Anda.

21. Og hun mun Son fæda, og hans Nafn skalltu JEsus kalla, þviad hann mun frelsa sitt Folk af þeirra Syndum.

22. Enn allt þetta skiede, so ad upfylltist hvad sagt er af Drottne fyrer Spamannenn, er seiger.

23. * Siaed ein Mey mun þungud verda og Son fæda, og hans Nafn skal kallast Emanuel, hvad er þydest, Gud med oss.

* Es 7, 14.

24. Enn þa Joseph vaknade af Svefne, giorde

A

giørde hann so sem Eingell Drottens hafde honum bodid, og tok sijna Ecktakonu til sijn og kiende hennar eige (c) þar til hun fædde Son sinn frumgetin, og kallade hans Nafn JEsus.

(c) (Þar til) þetta a ei so ad skiliast, ad Joseph hafe kient Mariam þar epter, helldur er þetta Skriptarennar Ord, tak so sem Gen. 8. Hrafninn kom ecke aptur þar til Jørdinn var þur, þar meinar ecke Skriftenn, ad Hrafnenn hafe sijdann aptur komid, so filger þad og ecke epter hier, ad Joseph hafe kient Mariam þar epter.

## II. Capitule.

(I) Noekrer Vitringar leita ad JEsu: (II) Herodes vill rœda hann af Døgum.

Gudspialled a þrettanda.

I. Nær JEsus var fæddur j Bethlehem a Gydingalande, j tijd Herodis Kongs, Sia! Þa komu (a) Vitringar af Austurlande til Jerusalem, og søgdu.

(a) (Vitringar) þeir sem S. Mattheus kallar Magos, edur Vitringa, voru natturleiger Meistarar og Prestar.

2. Hvar er sa nijfædde Konungur Gydinga? Vier høfum sied hans Stiørnu j Austurlande, og erum komner ad tilbidia hann.

3. Enn er Herodes Kongur heyrde þad, skielfdest hann, og øll Jerusalem med hønum.

4. Og liet samannsafna øllum Kiennimannna Hofdingium og Skriftlærdum Lijdsins, og spurdest fyrer af þeim, hvar Christur skyllde fædast?

5. Enn þeir søgdu hønum, til Bethlehem j Judea. Þviad so er skrifad fyrer Spaamannenn.

6. * Og þu Bethlehem a Judalande, ert (b) ongvaneigenn hin minsta a medal Hofdingia Juda, þviad af þier mun koma Hertuge, sa er Herra skal vera yfer mitt Folk Israel. * Mich. 5, 1.

(b) (Ongvaneigenn) Bethlehem var litel ad sia, af þvi kallar Micheas hana litla, Enn Evangelistinn leggur þar vid (Ongvanneigenn) af þvi ad hun var nu upphafenn, þa JEsus Christur var fæddur.

7. Þa kallade Herodes Vitringana til sijn heimuglega, og jnnelega adspurde þa, a hvørium tijma ad Stiarnann hefde lœated sia sig?

8. Og vijsade þeim til Bethlehem, og sagde, Fared þier og spiried jnnelega ad Barnenu, og nær þier finnid þad, þa kunngiørid mier þad aptur, so eg kome eirnenn ad tilbidia þad.

9. Sem þeir høfdu nu Kongenum heyrt, foru þeir af stad, og Sia, ad Stiarnann sem þeir høfdu sied j Austurlande, gieck framme fyrer þeim, allt þar til hun kom, og stod þar uppyfer, hvar Barnid var.

10. Enn er þeir sau Stiørnuna, gløddust þeir harla miøg.

11. Og geingu j husid jnn, og fundu þar Barnid med Mariu Moder sinne, fiellu framm, og tilbœadu þad, og ad opnudum sijnum Fiaarsioodum, gafu þeir þvi, Gull, Reykelsi, og Mirru.

12. Og Gud skipade þeim j Draumi ad þeir fære ei aptur til Herodem, og foru so annann Veg aptur i sitt Land.]

13. Enn þa þeir voru j burt farner, Sia, ad Eingell Drottens vitradest Joseph j Draume og sagde, Statt upp og tak Barnid og Modur þess til þijn, og fly j Egyptaland, og ver þar allt þangad til eg seige þier, Þviad þad er epterkomande, ad Herodes mun leita Barnsins ad fyrerfara þvi.

14. Og hann stod upp, tok Barnid og Modur þess til sijn um Nott, og for j Egyptaland.

15. Og var þar allt til Dauda Herodis, So þad uppfylltest hvad sagt er af Drottne fyrer Spaamannenn, er seiger, * Af Egyptalande kallade eg Son minn, *Osee, 11, 1.

Gudspiallded a Sunnud. mille Attadags og þrettanda.

II. 16. Þa Herodes sa nu ad hann var gabbadur af Vitringunum, vard hann æfareidur, og sende ut, og liet drepa øll Børn til Bethlehem, og j øllum hennar Endemørkum, tvævetur og þadan af yngre, eptir þeim tijma sem hann hafde utspurt af Vitringunum.

17. Þa uppfylltist hvad sagt er fyrer Jeremiam Spaamann, sem seiger.

18. * J Rama hefur heyrst kall mikellar Kveinunar, Ops, og Ylfranar, Rachel æpte

æpte Born sijn, og villde ei huggast lꜳta,
þviad þad var(c)utgiort um þaug. *Jer. 31, 15.
(c) (Vtgiort um þaug) þessa mꜳlsgrein setur Mat-
theus sierdeilislega jnn, so hann þar med avijsade
hvørninn um Christendomenn tilstæde, þvi þad
syuest so alltijd fyrer Verolldunne, so sem ut være
giørt um Christenndomenn, samt verdur hann fur-
daunlega bivaradur af Gude, a mote allre Helvijtis
Magt, og menn sia hier a þessum Børnum, hvørnenn
Riettchristenna manna Efne standa i Krosse og
Motgange.
19. Enn þa Herodes var daudur, Sia,
ad Eingell Drottins byrtist Joseph j Draumi,
a Egyptalande, og sagde.
20. Stattu upp og tak Barnid og Moder
þess til þijn, og far til Israels jardar, þviad þeir
eru Dauder sem leitudu epter lijfe Barnsins.
21. Hann stod upp, tok Barnid og Moder
þess til sijn, og kom j Israels land.
22. Enn þa hann heyrde, þad Archelaus
rijkte j Judea, j stadenn Fodur sijns Herodis,
ottadest hann þangad ad fara, Og j Draume
fieck hann Bifalning af Gude, og for j Alfur
Galilea Lands.
23. Og kom og bygde j þeire Borg sem hiet
Nazareth, So þad uppfyllteſt hvad sagt er
fyrer Spꜳmennena * ad hann skyllde Nazareus
kallast. * Es. 11, 1. Cap. 60, 21.

## III. Capitule.

(I) Johannes Skijrare predikar og (II) skijrer JEsum.

I. 1. Aþeim tijma kom Johannes Skijrare, og
predikade j Eydemørku Gydinga-
lands og sagde.
2. Giøred Jdran, Himnarijke er nalægt.
3. Þvi hann er sa af þeim ad sagt er fyrer
Esaiam Spꜳmann, sem seiger, * Þar er ein
Predikara Rodd j (a) Eydemørku, reidid til
Veg DROTtens, og giøred hans Stigu
rietta. * Es. 40, 3.
(a) (Eydemørku) þetta ꜳtte ad vera Gydingum eitt
vijst Teikn, ad Messias kiæme, þegar ad Menn heyrdu
eirn Predikara, ecke j Jerusalem j Musterenu, edur
Skolanum, helldur j Eydemørku sem so Predikade;
DRottinn kiemur, so sem Johannes giørde.
4. En Johannes hafde klædnad af Ulfballs
hꜳrum, og Olarbellte um sijnar Lendar,
hans Matur voru Eingespretur, og Skogar-
hunang.
5. Þa gieck og ut til hans Stadurenn Je-
rusalem, og allt Gydingaland, og øll Lønd
hia Jordan.
6. Og lietu sig skijra af hønum j Jordan,
jatande sijnar Synder.
7. Enn þa hann sa nu marga Phariseos og
Saduceos koma til sinnar Skijrnar, sagde
hann til þeirra, Þier Nødrukin, Huor kiende
ydur ad flya fyrer tilkomande Reide?

Aptan-Saungs-Texte a Kongs-Bænadagenn.

8. Af þvi giøred verdugann Avøxt Jd-
ranar.
9. Og þenked ecke ad þier villdud seigia med
sialfum ydur, ad Abraham høfum vær fyrer
Fødur, eg seige ydur, megtugur er Gud upp ad
vekia Abraham Børn af Steinum þessum.
10. Af þvi nu er Øxenn allareidu sett til
Rotar Trianna, Þvi mun hvørt þad Trie
sem ecke giører godann Avøxt, upphøggvast,
og j Elld kastast.]
11. Eg skijre ydur j Vatne til Jdranar,
enn sa epter mig kiemur er mier sterkare, hvørs
Sko ad eg er eige verdugur ad bera, hann mun
skijra ydur med Heilogum Anda og Ellde.
12. Hvørs Varpskupla er j hans hende,
og hann mun hreinsa sinn Lafa, og Hveitenu
safna j sijna Kornhlødu, enn Agnernar bren-
na j oslꜳckvannlegum Ellde.

Gudspialled a Sunnudaginn i Føstu Jugang.

II. 13. Aþann tijma kom JEsus af Galilea
ad Jordan til Johannem, ad hann
skijrdist af hønum.
14. Enn Johannes varnade hønum þess
og sagde, Mier er þorf ad eg skijrest af þier, og
þu kiemur til mijn?
15. JEsus sagde til hans, Lꜳt nu so vera,
þviad so hæfer oss allt (b) Riettlæte upp ad
fylla, Og þa liet hann þad epter hønum.
(b) (Riettlæte) allt Riettlæte fullkomnast, þa vier
aflegg um allt vort Riettlæte, og Verdugleika, so ad
Gud verde alleina halldenn Riettlꜳtur, og sa sem
giører þa Riettlꜳta sem trua, þetta giører Johan-

nes j Þvi, ad hann afleggur allt sitt Riettlæte, og vill
so sem eirn Syndugur Madur skyrast og Riettlatur
gioraſt af Christo. Þetta giører og Christur j Þvi
hann reiknar sier ecke sinn Verdugleika til, helldur
lætur sig skijra, og deyda so sem annann Syndugann
Mann.
16. Enn er JEsus var skijrdur, stie hann
jafnskiott upp ur Vatnenu. Og sia, ad Him-
narner lukust upp yfer honum, og Johannes sa
Guds Anda ofannstijga sem Dwfu og yfer
hann koma.
17. Og sia, ad Roddenn nidur af Himne
sagde, Þesse er Sonur minn Elskulegur, ad
hvørium mier vel þocknast.]

## IV. Capitule.

(I) JEsus freistast af Dioflenum: (II) predikar i
Galilæa: (III) kallar Postula: (IV.) Læknar Siuka.

Gudspialled Firsta Sunnudag i Føstu.

I. Þa var JEsus leiddur af Anda a Eyde-
mørk, uppa þad hann freystadur yrde
af Dioflenum.
2. Og þa hann hafde fastad fiorutijger
Daga og fiorutijger Nætta, hungrade hann
um siider.
3. Og Freistarenn gieck til hans og sagde,
Ef ad þu ert Sonur Guds, seig, ad Steinar
þesser verde ad Braudum.
4. Enn hann svarade og sagde, skrifad sten-
dur, *Madurenn lifer eige af einusamann
Braudi, helldur af sierhvøriu Orde sem framm
geingur af Guds Munne. * 5 Bok Mos. 8, 3.
5. Þa tok Diøfullenn hann med sier i Bor-
gena Helgu, og sette hann uppa Bust Muste-
resins.
6. Og sagde til hans: Ef þu ert Guds
Sonur fleyg þier hier ofan, þviad skrifad er,
* Hann mun bioda sijnum Einglum um þig,
ad a Høndum bere þeir þig, so ad þu steytir ei
Foot þinn vid nockrum Steine.
* Psalm. 91, 11.
7. Þa sagde JEsus til hans, enn aptur
stendur skrifad, * eige skalltu freista DRottens
Guds þijns. * 5 B. Mos. 6, 16.
8. Og enn aptur flutte Diøfullenn hann
med sier uppa ofurhaatt Fiall, og synde honum
øll Rijke Veralldar, og þeirra Dyrd.
9. Og sagde til hans, Allt þetta vil eg giefa
þier ef þu fellur framm og tilbidur mig.
10. Þa sagde JEsus til hans, Far fra
mier þu Sathan, þviad skrifad er, * DRot-
tenn Gud þinn skalltu tilbidia og honum einum
þiona. * 5 B. Mos. 6, 13.
11. Þa forliet Diøfullenn hann, og Sia, ad
Einglar komu til hans og þionudu honum.]
II. 12. Enn er JEsus heyrde þad Johannes
var gripinn, for hann til Galilea Lands.
13. Og forliet Borgena Nazareth, kom
og bio i Capernaum, hvør ed liggur vid Sia-
far sijdu i Endemørkum Zabulon og Neph-
talim.
14. So ad þad uppfylltest, hvad sagt er
fyrer Esaiam Spaamann sem seiger.
15. * Landid Zabulon, og Landid Neph-
talim vid Siafargøtu hinumeigenn Jordanar
og Galilea hin heidna. * Es. 8, 16. c. 9, 1.
16. Lydur sa er sat i mirkrunum hann sa
Lios mikid, og þeir sem saatu i Daudans stad
og skugga, þeim er eitt Lios upprunnid.
17. Þadann i fra tok JEsus ad Predika
og seigia, Giørid Idran, þviad Himnarijke
er nalægt.
III. 18. Enn er JEsus gieck med Sionum i
Galilea, leit hann tvo Brædur, Simon sa er
kallast Petrus, og Andream Brodur hans,
hvørier ed voru ad varpa Nete i Sioenn, þviad
þeir voru Fiskemenn.
19. Og hann sagde til þeirra, filgid mier ep-
ter, og vil eg giora ydur ad Fiskurum Manna.
20. Þeir forlietu jafnsnart sijn Net, og
filgdu honum epter.
21. Og er hann gieck framm leingra burt
þadan, sa hann adra tvo Brædur, Jacob Son
Zebedei og Johannem Brodur hans, vera i
Skipe med Fødur sijnum Zebedeo, Net sijn
ad bæta, Og hann kallade þa.
22. Og þeir forlietu strax Skipid og Fødur
sinn, og filgdu honum epter.
IV. 23. Og JEsus for j kring um allt Gali-
lealand, kiennande j þeirra samkunduhusum,
og predikade Evangelium Rijkesins, og læk-
nade

nade oll Sottarfelle, og oll Kranckdæme med Folkenu.

24 Og hans Rikte barst ut um allt Syrland, og þeir færdu honum alla þa sem kranker voru af margvijslegum Sottarferlum og Pijslum, og þa er Dioful hofdu, Tunglamein, eda Icktsiuker voru, og hann læknade þa alla.

25. Og margt folk filgde honum epter ur Galilea, ur þeim tiu Borgum, fra Jerusalem ur Judea, og ur þeim Hierodum er voru hinumeigenn Jordanar.

## V. Capitule.

JEsus talar: (I) um þaa Rett-Sælu Menn: (II) um Lærdom og Liferne Hinna Andlegu: (III) um Retta Meining Logmaalsins.

Gudspialled a Allra Heilagra Messu.

I. Enn er hann sa folkid, gieck hann uppa eitt Fiall, og sette sig nidur, og hans Læresveinar geingu til hans.

2. Og hann lauk sinn munn upp, kiende þeim og sagde.

3. Sæler eru þeir sem andlega eru Volader, þviad þeirra er Himnarijke.

4. Sæler eru þeir sem harma, þviad þeir munu huggader verda.

5. Sæler eru Hogværer, þviad þeir munu Jardrijke (a) erfa.

(a) (Erfa) Verolldinn ætlar ad erfa Jordena, og ad veria sitt, þegar hun giorer Ofbellde, En Christur kienner ad menn skule erfa Jordena med Hogværd.

6. Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Riettlætenu, þviad þeir skulu sadder verda.

7. Sæler eru Miskunsamer, þviad þeir munu Myskun hliota.

8. Sæler eru hreinhiartader, þviad þeir munu Gud sia.

9. Sæler eru þeir sem (b) fridenn giora, þviad þeir munu Guds Born kallader verda.

(b) (Fridenn giora,) frammfilgia og hallda fridenn a medal annara, so sem Christur giørde oss frid hia Gude.

10. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætisins saker offsokter verda, þviad þeirra er Himnarijke.

11. Sæler erud þier, nær Mennerner forsmaa ydur, og offsokn veita fyrer mijnar saker, og tala j giegn ydur alla Vondsku, ef þeir þad liuga.

12. Fagned þier og verid glader; þad skal vel bitalast ydur a Himnum, þviad so hafa þeir offsokt Spaamennena þa ed fyrer ydur voru.]

II. 13. Þier erud (c) Sallt Jardar, Nu ef Salltid deifist, j hvoriu verdur þa salltad? Þad duger þad til einskis meir, nema ad þad verdur utsnarad, og verdur fottroded af Monnum.

(c) (Sallt) Þegar Lærefedurner linna þui ad kienna Guds Ord, þa verda þeir yferfallner af Manna Logum, og verda burt þreyngder.

14. Þier erud Lios Veralldar, Su Borg sem a Fiallenu liggur fær ei folgist.

15. Og eige tendra Menn Liosid og setia þad under Mæleask, helldur yfer Liosahalldenn, so ad þad lysi ollum þeim sem j husinu eru.

16. Leatid so ydvart Lios lysa fyrer Monnunum, so ad þeir siae ydar Godverk, og dyrke Fodur ydar a Himnum.

17. Þier skulud ei meina ad eg sie komenn Logmaalid edur Spaamennena upp ad leysa, Eg em ei kominn ad leysa, helldur upp ad fylla.

18. Þviad eg seige ydur, fyrer sann, þangad til Himen og Jord forgeingur, mun eige hinn minste Bokstafur edur Titill af Logmaalenu forganga, þar til ad allt þad skiedur.

19. Hvor sem nu (d) uppleyser eitt af þessum minstu Bodordum, og kienner þad lydnum so, sa mun (e) kallast minstur j Himnarijke, enn hvor þad giorer og kienner, hann mun (f) mikell kallast j Himerike.

(d) (Uppleyser) So giorer Paapista Selskapur, Þeir seigia ad þesse Christi Bodord sie ecke Bodord, helldur Radlegging.

(e) (Ad kallast hinn mindste) þad er einskis ad aktast, burtkastast og utskaafast.

(f) Þad er ad vera mikell og Ypparlegur.

Gudspialled VI. Sunnud. epter Trinitat.

III. 20. Þviad eg seige ydur, nema so sie ad ydart Riettlæte sie betra en hinna Skriftlærdu, og (g) Phariseara, þa munud þier eige koma j Himnarijke.

(g) Phariseanna Riettlæte er folgid ad eins j Utvortis Giørningum, og Asynd, En Christur ukrefur Riettlæte Hiartans.

 21. Þier

21. Þier hafid heyrt ad sagt er til hinna Gømlu, * Þu skallt eige mann vega, enn hvør ed mann vegur, hann verdur Doms sekur.

* 2 B. Mos. 20, 13. 5 B. Mos. 5, 17.

22. Enn eg seige ydur, hvør hann er reidur Brodur sijnum, hann verdur Doms sekur. Enn hvør sem til Brodur sijns seiger, Racha, hann verdur Rads sekur, enn hvør ed seiger, Þu Afglape, hann verdur sekur Helvijtis Ellds.

23. Fyrer þvi nær þu offrar þijna Gaafu a Alltared, og þier kiemur þar til hugar þad Broder þinu hafe nockud a mote þier.

24. Þa laattu þar þijna Gaafu fyrer Alltarenu, og gack aadur ad sætta þig vid Brödur þinn, og kom þa ad offra þijna Gaafu.

25. Vertu snarlega samþyckur þijnum Motstodumanne, a medann þu ert enn a Veige med honum, so ad ei selie þig þinn Motstodumadur Domaranum, og Domarenn selie þig Þienaranum, og verder þu j Dyplyssu kastadur.

26. Ad sønnu seige eg þier, ad þu munt ei þadann wtfara þar til þu borgar hinn sijdasta Pening.]

27. Þier hafed heyrt ad sagt er til hinna Gømlu, * Þu skallt ei Hoordom dryia.

* 2 B Mos. 20, 14.

28. Enn eg seige ydur, ad hvør hann lijtur Konu til ad girnast hennar, sa hefur þegar drigt Hoor med henne j sijnu Hiarta.

29. Enn ef þitt hægra Auga hneyxlar þig, þa kipp þvi ut og kasta þvi fra þier, þviad betra er þier ad einn þinna Lima farist, og ecke kastist allur þinn Lijkame j Helvijte.

30. Og ef þijn Hægre Hond hneyxlar þig, þa snijd hana af og kasta fra þier, þviad betra er þier ad einn þinna Lima farest, enn ad allur Liikame þinn kastest j Helvijte.

31. So er og sagt, ad * hvør ed skilur sig vid sijna Eigenkonu, saa skule giefa henne skilnadarskraa. * 5 B. Mos. 24, 1.

32. Enn eg seige ydur, Hvør hann skilur sig vid sijna Eigenkonu (ad undantekenne Hoorunarsok sa giorer þad, ad hun verdur Hoordoms kona, Og hvør ed fastnar þa sem fra Manne er skilenn, sa drijger Hoor.

33. Þier hafed enn framar heyrt, ad þad er sagt til hinna Gømlu, ad * eige skuler þu rangt sveria, Og þu skallt Gude þitt Sære luka.

* 3 B. Mos. 19, 12. 2 B. Mos. 20, 7.

34. Enn eg seige ydur, ad þier skulud olldungis ecke (h) sveria, hverke vid Himenenn, þviad hann er Guds Sæte.

(h) (Sveria) hier eru aller Eydar og Svárdagar fyrerbodner sem menn giora sialfkrafa, enn þa ofs verdur þad bifalad, edur Kiærleikinn og Naudsyn og Gagn Naungans edur Guds Æra þad utkrefur, þa er þad godgiørd.

35. Eige helldur vid Jordena, þviad hun er Skør hans Fota, eige vid Jerusalem, þviad hun er Borg hins mikla Konungs.

36. Þu skallt og eige sveria vid Hofud þitt, þviad þu kannt ei ad giora eitt Haar hvijtt edur Svart.

37. Enn ydar Ræda sie Ja, Ja, Nei, Nei, Enn hvad framm yfer þad er, þad er af hinu vonda.

38. Þier hafed heyrt ad þar er sagt, * Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn.

* 2 B. Mos. 21, 24. 3 B. Mos. 24, 20. 5 B. Mos. 19, 21.

39. Enn eg seige ydur, ad þier skulud ei (i) briotast j giegn jllu, helldur ef nockur slær þig a þijna hægre Kinn, þa biod honum hina adra.

(i) (Briotast j mote) Þad er, eingenn skal hefna sijn sialfur, helldur yfervallded sem fyrer Sverdenu rædur, Rom. 13.

40. Og vilie nockur vid þig Log þreyta, og þinn Kyrtel af þier hafa, þa laat honum og þinn Mottul lausann.

41. Og ef nockur neider þig um Milu eina, þa gack med honum tvær.

42. Gief þeim er þig bidur, og vert ei afundenn þeim er af þier vill Laan taka.

43. Þier hafed heyrt ad sagt er * Elska skalltu Naunga þinn, og Ovin þinn at hatre hafa.

* 3 B. Mos. 19, 18. Ordsk. 24, 29. Cap. 20, 22.

44. Enn eg seige ydur, Elske þier Ovine ydar, Blessed þa er ydur bølva, giorid þeim gott er ydur hata, og bidied fyrer þeim er ydur giora skada, og offsokn veita.

45. So

45. So ad þier sieud Born Fodurs ydar þess a Himnum er, þvi hann lætur sijna Sol uppganga yfer vonda og yfer goda, og lætur rigna yfer Rœngloata.

46. Þvi ef þier elsked þa er ydur elska, Hvort Verdkaup hafed þier fyrer þad? Giora eige þad sama (k) Tollheimtumenn?

(k) (Tollheimtumenn) kallast a latinu Publicani, og þad voru þeir sem keiptu af Romverium Rentu og Tolla, og voru giarnann ogudleiger Heidingiar, ietter þar til af Romverium.

47. Og þo þier loated kiært ad eins vid Brædur ydur, Hvad giored þier ad sierlegra? Giora og eige Tollheimtumenn hid sama?

48. Fyrer þvi verid algiorder, so sem ydar Fader a Himnum er algiordur.

# VI. Capitule.

JEsus talar um Margskonar Idkaner Gudhrædslunnar.

Giætid ad ydar Olmosum, ad eige giefed þier þær fyrer Monnunum, so ad þier sioaest af þeim, annars hafed þeir eckert Verdkaup hia ydrum Fodur sem a Himnum er.

2. Nær þu giefur Olmosu, þa skalltu eige Ludur þeyta loata fyrer þier, so sem Hræsnarar giora j Skolum og a Strætum, so ad þeir Heidrest af monnunum. Sannlega seige ed ydur, ad þeir hafa sijn laun uttekid.

3. Enn nær þu giefur Olmosu, þa loat þijna vinstre Hond eige vita hvad hin Hægre giorer.

4. So ad þijn Olmusa sie j leyne, og Fader þinn sa j leynum sier, mun giallda þier opinberlega aptur.

5. Og nær þu bidur, skalltu eige vera so sem Hræsnarar, hvorium giarnt er ad standa og bidiast fyrer j Skolum, og a Gatnahornum, so ad þeir siaest af Monnum, Sannlega seige eg ydur, ad þeir hafa sijn Laun uttekid.

6. Enn nær þu bidst fyrer, þa gack jnn j þitt Svefnhus, og lyk Dyrunum aptur, og bid þu Fodur þinn j leynum, og Fader þinn sa j leynum sier, mun þier þad obenberlega aptur giallda.

7. Og nær þier bidied, skulud þier eige margmæluger vera so sem Heidingiar giora, Þviad þeir meina, ad af sinne margmælge munu þeir heyrder verda.

8. Fyrer þvi skulud þier eige þeim lijkiast, Þviad Fader ydar veit hvors þier hafed þorf, aadur enn þier bidied hann.

9. Af þvi skulud þier so bidia. Fader vor þu sem ert a Himnum. Helgest þitt Nafn.

10. Tilkome þitt Rijke. Verde þinn Vilie so a Jordu sem a Himne.

11. Gief þu oss j Dag vort daglegt Braud.

12. Og fyrergief oss vorar Skullder, so sem vier fyrergiefum vorum Skulldunautum.

13. Og jnnleid oss ecke j Freistne. Helldur frelsa þu oss fra jllu. Þviad þitt er Rijked, og Maattur og Dyrd um Allder Allda Amen.

14. Þviad ef þier fyrerloated Monnunum sinn brest, þa mun ydar Himneskur Fader og so fyrergiefa ydur.

15. Enn ef þier fyrerloated eige Monnunum sinn brest, þa mun ydar Fader og eige fyrergiefa ydur ydar Brot.

16. Nær þier fastid, þa skulud þier ei vera kaamleiter so sem Hræsnarar, þviad þeir afminda sijna Asionu, so ad þeir synest fyrer Monnunum ad þeir faste. Sannlega seigi eg ydur, ad þeir hafa uttekid sijn Laun.

17. Enn nær þu fastar, þa smyr þu hofud þitt, og þvo þitt Andlit.

18. So ad eige skijne fyrer Monnunum þad þu faster, helldur fyrer Fodur þijnum sem er j leyne, Og Fader þinn sa er j leyne sier, hann mun þier þad opinberlega apturgiallda.

19. Eige skulud þier ydur Fiarsiodum safna a Jordu, hvar Molur og Rid etur þa, og hvar Þiofar meiga epter grafa og stela.

20. Helldur safnid ydur Fiesiodum a Himne, hvar ed hvorke ma Molur nie Rid granda, og hvar Þiofar fa ei stoled nie epter grafed.

21. Þviad hvared ydar Siodur er, þar er ydart Hiarta.

22. Augad er Lios Lijkamans, Ef Auga þitt er einfallt, þa er allur Lijkame þinn skiær.

23. Enn

23. Enn ef Auga þitt er Skalkur, þa er allur Lijkame þinn Mirkur, Þvi ef þad Lios sem ad er j þier, er Mirkur, hve mijkel munu þa Mirkrenn sialf?

Gudspialled XV. Sunnud. epter Trinit.

24. Eingenn kann tveimur Herrum ad þiona, Annad hvort þa afræker hann þann eina, og elskar hinn annann, Ellegar hann hydest þann eina, og fyrerlytur hinn annann, Þier geted ei Gudi þionad og Mamon.

25. Fyrer þvi seige eg ydur, Vered ei Hugsiuker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og ei fyrer ydrum Lijkama, hvoriu þier skulud klædast. Er ei Lijfed meir enn Fædann? og Lijkamenn meir enn Klædenn?

26. Siaed Fuglana under Himnenum, þeir ed hvorke soa nie uppskiera, og eige safna þeir j Kornhlødur, og ydar Himneskur Fader hann fæder þa þo, Erud þier ei miklu framar enn þeir?

27. Eda hvor ydar gietur auked med sinne Ahyggiu Alen eina ad Leingd sinne?

28. Og hvar fyrer erud þier hugsiuker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Liliugrøsum, hvornenn þau vaxa, þau vinna hvorke nie spinna.

29. Eg seige ydur, ad Salomon j allre sinne Dyrd var ei so skrYddur sem eitt af þeim.

30. Nu ef Gud skryder so Grased a Akre, þad j Dag stendur, og a Morgun verdur j Ofn kastad, Skyllde hann ei miklu framar þad vid ydur giora? O þier Lijteltruader.

31. Fyrer þui skulud þier ecke hugsiuker vera og seigia. Hvad munum vier eta, eda hvad munum vier drecka, eda hvoriu munu vier klædast?

32. (Efter þessu ollu sækier Heidenn Þiod) þviad ydar Himneskur Fader veit þier þurfed alls þessa vid.

33. Leited first Guds Rijkes, og hans Riettlætis, og mun ydur allt þetta tillegiast.

34. Og fyrer þvi skulud þier ei Onn ala annars Morguns, af þvi ad Morgundagur mun kvijda fyrer sialfum sier hera, Hvorium Deige næger sijn (a) Pianing.]

(a) (Pianing) þad er daglegt erfide, hann vill vier skulum lata oss nægia þad vier erfidum daglega og vera ecke framar hugsiuker.

## VII. Capitule.

JEsus talar um margskonar Hindraner Gudhrædslunnar.

Eige skulud þier (a) dæma, so ad þier verded ei dæmder.

(a) Þad er Guds ad dæma, Þar fyrer, hvor sem dæmer ann Guds skipunar, hann tekur heidurenn fra Gude og þetta er Bialkenn. Mar. 4, 24.

2. Þviad med hvorium Dome þier dæmed, munud þier dæmder verda, Og med hvorre Mælingu þier mæled, mun ydur endurmællt verda.

3. Enn hvad sier þu Ogn j Auga Brodur þijns, og ad þeim Bialka sem er j sialfs þijns Auga, goaer þu ecke?

4. Eda Hvornenn dyrfest þu ad seigia Brodur þijnum? Broder, Leyf ad eg drage ut Ognena af Auga þijnu, og sia, ad Bialke er j sialfs þijns Auga.

5. Þu Hræsnare, Drag first ut Bialkann af þijnu Auga, og gief þa giætur ad, ad þu faaer utdreiged Ognena af þijns Brodurs Auga.

6. Eige skulud þier gefa (b) Hundum (c) Helgedomenn, og varped ei helldur Perlum ydar fyrer (d) Svijn, so ad eige trode þau þær med Fotum sier, og ad snuest þau, og ydur j sundur slijte.

(b) Hundar eru þeir sem Orded offækia.

(c) Helgedomurenn er Guds Ord, af hvoriu aller Hluter helgast.

(d) Svijn eru þeir sem dreckter ern j Lijkamlegre Vellyst, og Orded einskis ackta.

7. Bidied, og mun ydur giefast, leited og munud þier finna, knyed a, og mun fyrer ydur uppløked.

8. Þviad hvor ed bidur, hann odlast, Hvor ed leitar hann finnur, og fyrer þeim ed a knyr mun uppløked.

9. Hvor er sa Madur a medal ydar, ef Sonurenn bidur hann um Braud, ad hann biode þeim Stein?

10. Elleg

10. Ellegar ef hann bidur um Fisk, ad hann biode hønum þa Høggorm?

11. Nu ef þier sem þo erud Vonder, kunned ad giefa godar Giafer Børnum ydar, hvad miklu meir mun ydar Fader sa a Himnum er, giefa þeim gott er hann bidia?

12. Allt hvad þier vilied Mennerner giøre ydur, þad skulud þier og þeim giora, þad er Løgmaaled og Spaamennerner.

13. Ganged inn um hid þraungva Port, þviad þad Port er vijdt, og sa Vegur er breidur sem leider nidur til Fortopunar, og þeir eru marger sem a hønum reika.

14. Og þad Port er þraungt, og sa Vegur er mior, sem til Lijfsins leider, og þeir eru faaer er hann rata.

Gudspialled VIII. Sunnud. epter Trinit.

15. Vakted ydur fyrer Fals=Spaamoñum, sem til ydar koma j Klædum Saudanna, enn jnnann til eru þeir glepsande Ulfar.

16. Af Avoxtum þeirra meiged þier þa kienna. Verda nockud Vijnber saman lesenn af Þyrnum? ellegar Fijkiur af Þystlum?

17. So mun hvert gott Trie giøra godann Avoxt, enn hvert vondt Trie vondann Avoxt.

18. Gott Trie gietur ei fært vondann Avoxt, og ei helldur gietur vondt Trie fært godann Avoxt.

19. Hvørt þad Trie sem ei færer godann Avoxt, mun af høggved verda og j Elld kastast.

20. Fyrer þvi meiged þier af þeirra Avoxtum þeckia þa.

21. Þeir munu ei aller sem til mijn seigia. Herra, Herra, jnn ganga j Guds Rijke, helldur þeir sem giora vilia mijns Fødurs j Himnenum.

22. Marger munu til mijn seigia a þeim Deige. Herra, Herra, høfum vier ei spaad j þijnu Nafne, høfum vier eige i þijnu Nafne Diøfla utreked, høfum vier ecke j þijnu Nafne mørg Kraptaverk giørt?

23. Og eg mun þa jaata fyrer þeim, ad alldrei þeckta eg ydur, fared fra mier aller Illgiørdamenn.]

24. Fyrer þvi, hvør hann heyrer þesse mijn Ord og (e) giører þau, þeim lijke eg vid einn Vitrann Mann, sem byggde upp sitt Hus yfer Hellustein.

(e) (Giører þaun) Hier utkrefur Christur eirnen Truna, þviad hvar Truan er ecke, þar hallda Menn og ecke helldur Bodordeb, Rom. 3, 31. Og øll Godverk sem skie j utvortis aalite aan Truarennar, eru Synd.

25. Og er Steypedogg giørde, og Vatsfloded kom, og Vindar bliesu, og dundu a Hwsenu, þa fiell Hwsed ei ad helldur, Þviad þad var Grunndvallad yfer Helluna.

26. Og hvør hann heyrer þesse mijn Ord, og giører þau eige, hann er lijkur þeim Faavijsum Manne, sem uppbygde sitt Hwss a Sande.

27. Þa nu Steype Dogg giørde, og Vatsfloded kom, og Vindar bliesu, og dundu ad þvi Hwse, þa fiell þad, og þess fall vard miked.

28. Og þad skiede þa JEsus hafde lycktad þessa sijna Rædu, ad Folked furdade hans Kienning.

29. Þviad hann Predikade Vollduglega, og eige lijka sem hiner Skriptlærdu.

## VIII. Capitule.

Dasemdarverk JEsu er hann for nidur af Fiallenu.

Gudspialled III. Sunnudag epter Þrettaanda.

Enn er hann gieck ofan af Fiallenu, filgde hønum margt Folk epter.

2. Og sia, ad Lijkþraar Madur kom, tilbad hann og sagde, Herra, (a) Ef þu villt, þa kanntu vel ad hreinsa mig.

(a) (Ef þu villt) Truenn veit eckert, helldur forlætur hun sig uppa Guds Raad.

3. Og JEsus utriette sijna Hønd, snart hann, og sagde, Eg vil, vert þu hreinn, Og jafnsnart vard hann af sinne Lijkþraa hreinn.

4. Og JEsus sagde til hans, Sia til, seig þad ei neinum, Helldur far þu, og syn þig Kiennemanneñum, og offra þa Gaafu, er Moses baud, til Vitnisburdar yfer þeim.

5. Enn þa JEsus gieck jn j Capernaum, kom til hans einn Høfuds Madur, bidiande hann.

6. Og sagde, Herra, Þion minn liggur heima og er Jctsiukur, og kvelst þunglega.

7. JEsus sagde til hans, Eg vil koma og lækna hann.

8. Hofudsmadurenn svarade og sagde, Herra, Eg em ei verdugur ad þu ganger under mitt Þak, helldur seig þu eitt Ord, og mun minn Þion Heilbrigdur verda.

9. Þvi eg em og Madur, Yfervalldenu undergiefenn, hafande under mier Strijds Menn, Og (b) nær eg seige þessum, far, þa fer hann, Og ødrum kom þu, þa kiemur hann, Og Þræle mijnum, giør þetta, og hann giører þad.

(b) (Nær) þad er, Sieu mijn Ord so Kroptug, Hvad miklu kroptugare eru þa þijn Ord.

10. Þa JEsus heyrde þad, undradest hann, og sagde til þeirra er honum epter filgdu, Sannlega seige eg ydur, slijka Tru hefe eg eige funded j Jsrael.

11. Enn eg seige ydur, þad marger munu koma af (c) Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Jsaac, og Jacob j Himnarijke.

(c) (Austre) þad er, Heidingiar munu inntakast, Þvi þeir munu trua, Enn Gydingar og Verk-helger munu j burt rekast.

12. Enn Rijkesins Børn munu verda utrekenn j hin ytre Myrkur, þar vera mun Oop og Tannagnistran.

13. Og JEsus sagde til Hofudsmannsins, Gack hiedan, verde þier epter þvi sem þu truer. Og hans Þion vard heill a þeirre sømu Stundu.]

14. Og JEsus kom j Hws Peturs, og leit, ad Moder Konu hans loa, og hafde Koldu.

15. Þa tok hann um Hond hennar, Og Kaldann forliet hana. Og hun stod upp og þionade þeim.

16. Enn um Kvollded, færdu þeir marga Diøfulooda til hans, Og hann rak Andana wt med Ordenu, og læknade þa alla er kranker voru.

17. So ad upfylltest hvad sagt er fyrer Esaiam Spaamann, sem seiger, *Hann tok vora Veikleika uppa sig, og vora Siukdoma bar hann. *Esa. 53, 7.

18. Og er JEsus leit margt Folk kringum sig, baud hann þeim, ad þeir fære yfer um, hinu meigen Siovarins.

19. Og eirn Skriptlærdur gieck ad, og sagde til hans, Meistare, eg vil filgia þier (d) hvert þu fer.

(d) (Hvert sem þu fer) Sumer vilia ecke filgia Christo, nema þeir vite aadur, hvort þeir eige ad filgia honum, Þess vegna fravijkur Christur þessum, so sem þeim er ecke truer, helldur vill aadur fyrer fram fullvijs um esaed vera.

20. JEsus sagde til hans, Refar hafa Holur, og Fuglar Loptsins Hreidur, Enn Mannsins Son hefur eige, hvar hann sitt Hofud ad hneigie.

21. Og einn annar af hans Læresveinum sagde til hans, Lavardur, lofa mier fyrst ad fara og greptra Fodur minn.

22. JEsus sagde til hans, Filg þu mier epter, og laat þa Daudu, greptra (e) sijna Daudu.

(e) (Sijna Daudu) sumer bera fyrer sig goda Giørninga, ad þeir ei vilia filgia Christo edur trua, Enn Christur utmaalar þa Giørninga ad vera Dauda og onytsamlega.

Gudspialled IV. Sunnudag epter Þrettaanda.

23. Og hann stie a Skip, og hans Læresveinar filgdu honum.

24. Og sia, ad mikell Stormur giordest j Sionum, so ad Skiped huldest einnen Bylgium, enn hann svaf.

25. Og Læresveinarner geingu ad honum, og voktu hann upp, og søgdu, Herra, hialpa þu oss, vær forgongum.

26. Þa sagde hann til þeirra, Hvad hrædest þier so, þier Lijteltruader? Hann reis þa upp, og hastade aa Vindenn og Sioenn, Þa vard Logn miked.

27. Enn Mennerner undrudust, og søgdu, Hvilijkur Madur er þesse, ad Vindur og Sior eru honum hlydug.]

28. Og hann kom yfer um Sioenn, j Bygder Gergeseners Manna, þar hlupu tveir Diøfuloder j mote honum, komande ur Grøfum

Frammlidenna, þeir ed miøg voru olmer, so ad eingenn mœatte um þann veg fara.

29. Og sia, ad þeir kølludu og søgdu, Hvad høfum vær med þig, O JEsu Guds Sonur? Komstu hingad ad kvelia oss adur en tijme er til?

30. En þar var langt j burt fra þeim, mikel Hiord-Svina j Haganum.

31. Þa bœdu Dioflarner hann og søgdu, Ef þu rekur oss ut, þa leyf oss ad fara j Svinahiørdena.

32. Og hann sagde, Fared burt. En þeir fooru ut, og hlupu j Svijnahiørdena. Og sia, ad øll Svijnahiørdenn fleygde sier med Ys mikelle j Sioenn, og þau drecktust j Vatnenu.

33. Enn Hirdararner flydu, og komu j Borgena, kunngiørdu allt þetta, og hvornen til hefde geinged med þem Diøfulodu.

34. Og sia, þa gieck øll Borgenn ut j mote JEsu. Og er þeir soau hann, bœdu þeir hann burt fara af þeirra Landamerkium.

## IX. Capitule.

Kraptaverk JEsu er hann kom til sinnar Borgar Kapernaum.

Gudspialled XIX. Sunnud. epter Trinitatis.

Þa stie hann a Skip, og for yfer um aptur, og kom j (a) sijna Borg.

(a) (Sijna Borg) þad er Kapernaum.

2. Og sia, þa færdu þeir til hans einn Icktsiukann, saa er j Sæng laa. Enn sem JEsus sa þeirra Tru, sagde hann til hins Icktsiuka, Vertu hughraustur Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergiefnar.

3. Og sia, ad nockrer af Skriptlærdum søgdu med sialfum sier, Þesse Gudlastar.

4. Og sem JEsus sa þeirra Huganer, sagde hann, Hvar fyrer huged þier so Vondt j ydrum Hiortum?

5. Hvørt er audvelldara ad seigia? Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, eda ad seigia, Statt upp og gack?

6. Enn so ad þier vited, þad Mannsins Son hefur Magt a Jordu Synder ad fyrergiefa, þa sagde hann til hins Icktsiuka, statt upp, tak Sæng þijna, og gack heim.

7. Og hann stod upp, og gieck heim.

8. Þa Folked soa þetta, undradest þad, og priisade Gud, sa ed þvijlijka Magt hafde Mønnunum giefed.]

9. Og er JEsus gieck þadan, sa hann eirn Mann sitia j Tollbudenne, Mattheum ad Nafne, og sagde til hans, Filg þu mier, Og hann stood upp, og filgde hønum.

10. Og þad skiede er hann sat til Bords j Hwsenu, Sia, þa komu marger Tollheimtumenn, og Bersynduger, og satu til Bords med JEsu og hans Læresveinum.

11. Þa Pharisæi sau þad, søgdu þeir til hans Lærisveina, Þvi etur ydar Meistare med Tollheimturum, og Syndurum?

12. Þa JEsus heyrde þad, Sagde hann til þeirra, Heilbrigder hafa ei Læknarans þorf, helldur þeir sem kranker eru.

13. Enn fared þier burt, og nemed hvad þad er (a Miskun hefe og þocknan og ei a Offre) Eg er komenn til ad kalla Synduga til Idranar, og (b) ecke þa Riettlœtu.

(b) (Ecke þa Riettlœtu) þad er alla Menn, þvi þar er eingenn Riettlœtur, Rom. 3, 10. Pharisei hielldu sig fyrer Riettlœta, þad þeir eru þo ecke. Og S. Paall seiger, 1 Tim. 1, 15. Ad Christur sie komenn i Heimenn, Synduga Sœluhólpna ad giøra.

14. Þa komu Johannis Læresveinar til hans, og søgdu, Hvar fyrer fostum vier, og Pharisei so miøg, enn þijner Læresveinar fasta ei?

15. JEsus sagde til þeirra, Hvornen ma Brudkaups Folked (c) syrgia, so leinge sem Brudgumenn er med þeim? Enn sa tijme mun koma, ad Brudgumenn mun fra þeim takast, þa munu þeir fasta.

(c) (Syrgia) Þar er tveggia Handa Sorg, su eina, er Menn sialfer utvelia sier, og taka sier til, so sem Munkar sijnar Reglur, Og so sem Baals Prestar stungu sig sialfer. Þessa Sorg helldur allur Heimurenn og Pharisei, og Johannis Læresveinar hielldu eirnen hana mikla ad vera, en Gud aktar hana ecke. Hin ønnur Sorg er su, sem oss verdur tilskickud af Gude, an vorra Kiøra. Lijdum vier hana viliuglega, þa er þad riett og Gude þægelegt.

 16. (d)

16 (d) Eingenn setur Boot af nyu Klæde a gamallt Fat, Þviad Botenn glidnar fra Fatenu aptur, og verda so slitenn verre.

(d) (Eingenn setur Boot) Þad er, Menn kunna ecke ad høndla þennann nya Lærdom, med Gømlum Holldlegum Hiørtum, Og hvar Mann Predikar hann fyrer Holldlegu Folke, Þar verdur ecke annad af enn Verra. Þad er ecke nema til verranEiginns, so sem Menn nu sia, ad þa kiennt verdur um Þad andlega Frelsed, þa utleggur Hollded Þad um sitt Frelse til Þverudar.

17. Og eige loata Menn nytt Vijn j fornar Floskur, annars spreingiast Floskurnar, og Vijned spillest, og Floskurnar fordiarfast. Helldur loata Menn nytt Vijn j nyiar Floskur, og verdur so hvørtveggia forvarad.

Gudspialled XXIV. Sunnud. epter Trinit.

18. Sem hann var þetta ad tala vid þa, Sia, þa kom einn af Hofdingiunum, og fiell fyrer hønum nidur, og sagde, Herra, Dotter mijn er ny sealud, Enn kom og legg þijna Hønd yfer hana, so verdur hun lifande.

19. JEsus stod upp, og filgde hønum epter, og hans Læresveinar.

20. Og sia, ein Kvinna hver ed Blodfall hafde haft j tolf oar, gieck a bak til vid hann, og snerte falld hans Klæda.

21. Þviad hun sagde med sialfre sier, Ef eg mætte ad eins snerta hans Klædnad, munda eg heilbrigd verda.

22. Þa snerest JEsus vid, leit a hana, og sagde. Vertu hughraust mijn Dotter, þijn Trua hefur hialpad þier. Og Konann vard heil a þeirre sømu Stundu.

23. Og er JEsus kom j Foringians Hus, og sa (e) Pijpubloasarana, og ys Folksins.

(e) (Pijpubloasara) Þeir voru hafder vid Lijke Framlidenna, so sem nu hia oss eru Hringingar, og Saungvar, yfer þeim Daudu, og merker Þad, ad Menn þeckia og fornema Daudann fyrer Løgmoaled.

24. Sagde hann til þeirra, Fared fra, þviad Stulkann er ecke daud, helldur sefur hun. Og þeir doarudu hann.

25. Enn er Folked var ut drifed, gieck hann jnn, og took um Hønd hennar. Þa stod Stulkann upp.

26. Og þetta Rickte barst ut um allt þad Land.]

27. Og er JEsus gieck burt þadan frammleingra, filgdu honum epter tveir Menn Blinder, þeir ed kolludu og søgdu, þu Sonur Davids, miskuna ockur.

28. Og er hann kom jnn j Hwsed geingu hiner Blindu til hans. Og JEsus sagde til þeirra, Trued þid ad eg kunne ad giora yckur þetta? Þa søgdu þeir til hans, ja Herra.

29. Þa snart hann þeirra Augu, og sagde, Verde yckur epter Tru yckar.

30. Og þeirra Augu lukust upp. Og JEsus hotade þeim og sagde, Siaed til, ad þad fae ei nockur ad vita.

31. Enn þeir geingu ut, og utdreifdu hans Rickte um allt þad Land.

32. Þa þesser voru nu utgeingner, Sia, þa hofdu þeir til hans þann Mann, sem Dumbe var og Diøfuloodur.

33. Og ad utreknum Diøflenum, talade hinn Moallause, og Folked undradest þad, og sagde, Alldrei hefur slijkt sied vered j Jsrael.

34. Enn Pharisei søgdu, Hann rekur Diøfla ut fyrer Diøflahøfdingiann.

35. Og JEsus gieck umkring j øllum Borgum og Kauptunum, kiennde j þeirra Samkundu hwsum, og Predikade Evangelium Rijkesins, og læknade allshoattadar Sotter, og allskins Krankdæme hia Folkenu.

36. Og er hann leit Folked, soa hann aumur a þvi, þviad þeir voru vannegna ordner, og tvistrader, sem þeir Sauder er øngvann Hirder hafa.

37. Þa sagde hann til sinna Læresveina, Kornskierann er mikel, enn Verkmennerner foaer, fyrer þvi bidied Herrann Kornskierunnar, ad hann sende Verkmenn j sijna Kornskieru.

# X. Capitule.

(I) Þeir tolf Læresveinar eru utsender: (II) Þeirra kiør: (III) leyfelegur flotte: (IV) Medkenning um JEsum: (V) Elska til JEsu.

I. Og hann kalladi tolf sijna Lærisveina til sijn, og gaf þeim Magt yfer ohreina Anda ad þeir ræke þa ut, og ad lækna allskins Sotter og allra handa Meinlæte.

2. Enn þeirra tolf Postula Nøfn eru þesse, sa fyrste Simon, sa er kallast Petur, og Andreas Broder hans, Jacob Son Zebedei og Johannes Broder hans.

3. Philippus, og Bartholomeus, Thomas, og Mattheus Tollheimtare, Jacob Alphei Son, (a) Lebbæus, ad vidurnefne Thaddæus.

(a) (Lebbeus) Þad er sa gode Judas.

4. Simon af Cana, og Judas Ischarioth, sa ed forried hann.

5. Þessa tolf utsende JEsus, biodande þeim, og sagde, farid ei a gøtu Heidennar Þiodar, og ganged eige jnn j Borger Samverskra Manna.

6. Helldur gangid til þeirra fortapadra Sauda af Husi Israels.

7. Farid ut, predikid, og segid þad Himnarijke er nalægt.

8. Lækned Siuka, hreinsed Lijkþraa, uppvekied Dauda, utreked Diofla. Fyrer eckert hafed þier þad feingid, giefid þad og ut fyrer eckert.

9. Þier skulud eige (b) hafa Gull, ei Silfur, nie Kopar j Lindum ydar.

(b) (hafa) þad kallast hier, ad hafa so sem Agiarner hafa Mammon, og festa Þar vid Hiarta sitt, og hafa Bukforg, hvad ad hindrar Predikunar embættid; helldur til naudþurftar og nautnar. So hafde Christur sialfur Peninga, Pung og Braudkarfer.

10. Og ei helldur Tøsku til vegferdar, ei tvo Kyrtla, eige Skoo, ongvann Staf, þviad verdur er Verkamadurinn sinnar Fædu.

11. Þa þier jnngangid i nockra Borg, edur Kauptun, þa spyried ad, hvort þar sie nockur j henne sem þess sie verdur, og þar hia þeim sama blijfid, þar til þier farid burt þadaun.

12. Nær þier jnnganged j nockurt Hus, þa heilsid þvi.

13. Og ef þad sama Hus er þess verdugt, mun ydar Fridur koma yfer þad, enn ef þad er eige verdugt, þa mun ydar Fridur til ydar aptur hverfa.

14. Og hvor hann medtekur ydur eige, og eige heyrer ydvarre Rædu, gangid utaf þvi Husi eda Borg, og (c) hristid Duptid af ydrum Fotum.

(c) (Hristed) so olldungis eckert skulud þier medtaka af þeim, ad þier skulud einneigenn hrista þeirra dupt af skom ydar, so ad þeir meige vita, ad þier hafed ecke leitad ydur abata edur nytsemdar, helldur þeirra Saluhialpar.

15. Sannlega seige eg ydur, Ad bærelegra mun verda Landenu Sodome og Gomorre a Doms Deige, helldur enn þeirre somu Borg.

II. 16. Siaed. Eg sende ydur so sem Saude a millum Varga, fyrer þvi verid forsiáler so sem Hoggormar, og einfallder sem Dufur.

17. Enn vaktid ydur fyrer Mønnum, þviad þeir munu ofurselia ydur fyrer sijn Raadhus, og j sijnum Samkunduhusum munu þeir ydur strykia.

18. Og þier munud leidder verda fyrer Lands Høfdingia og Konga, minna vegna, til Vitnisburdar yfer þa og yfer Heidenn Lyd.

19. Enn nær þeir framselia ydur nu, þa verid ei hugsiuker, hvorninn eda hvad þier skulud tala, þviad þad mun ydur a þeirre stundu giefid vera, hvad þier eiged ad tala.

20. Þviad þier erud eige þeir sem tála, helldur er þad Ande ydvars Fødurs, sa er talar fyrer ydur.

III. 21. Sa eine Broder mun selia annann j Dauda, og Fader Sonenn, og Nidiarner munu upprijsa a mote Forelldrunum, og þeim Fiorræde veita.

22. Og þier verdid ad hatre hafder af øllum Mønnum fyrer mijns Nafns Saker. Enn hvor hann er stadfastur allt til Enda, sa mun holpenn verda.

23. Enn nær þeir offækia ydur j einne Borg, þa flyed j adra, Sannlega seige eg ydur, ad þier munud eige (d) fullkomnad gieta Borgernar j Israel, þar til ad Mannsins Sonur kiemur.

(d) (fullkomnad) sem hann villde seigia, eg veit vel ad
þeir munu ofsækia ydur, Þvi Folk þetta mun ofsækia
Evangelium, og ecke snuast allt til Heimsins Enda.
24. Eige er Læresveinnenn yfer sijnum Mei-
stara, og ecke þionenn yfer Herranum.
25. Nægest Læresveinenum ad hann sie so sem
hans Meistare, og þionenn sem hans Herra.
Ef þeir hafa Husfødurenn Beelzebub kallad,
hvad miklu meir munu þeir þa hans Heima-
menn so kalla?
26. Af þvi ottist þa ecke, þvi eckert er so
hulid, ad eige verde augliost, og eckert er so
leyndt ad ecke faest ad vita.
27. Hvad eg seige ydur j Myrkre, þad ta-
lid j Liose, og hvad þier heyred j Eyra, þad
prediked a Ræfrum.
28. Og hrædest eige þa sem Lijkamann af-
lifa, og Saalena gieta ei liflaatid, helldur
hrædist þann framar sem Saalu og Lijfe gietur
tortijnt i Helvijti.
29. Kaupast eige Tveir Titlingar fyrer einn
Pening? þo fellur eige einn af þeim a Jord,
án ydars Fodurs (Vilia).
30. So eru og eirnenn øll ydar Høfudhaar
talenn.
31. Fyrer þvi ottest eige, þier erud mørgum
Titlingum betre.
IV. 32. Fyrer þvi, hvør hann medkienner mig
fyrer Mønnunum, þann vil eg medkienna fy-
rer mijnum Himneska Fødur.
33. Enn hver hann afneytar mier fyrer
Mønnunum, þeim vil eg afneyta fyrer mij-
num Himneska Fødur.
34. Þier skulud eige þeinkia, ad eg sie ko-
menn Frid ad senda a Jordena, eige kom eg
Frid ad senda, helldur Sverd.
35. Þviad eg er komenn til ad ysa Man-
nenn a mote Fødur sijnum, og Dotturena i
giegn Modur sinne, og Sonarkonuna i gegn
Modur Manns sijns.
36. Og Mannsins Hiu munu vera hans
Oviner.
V. 37. Hvør hann elskar Fødur og Modur
meir enn mig, sa er mijn eige verdugur. Og
hvør hann elskar Son edur Dottur yfer mig,
sa er mijn ei verdugur.
38. Og hvør hann tekur eige sinn Kross a sig
og filger mier epter, sa er mijn ei verdugur.
39. Hvør ed finnur sitt Lijf, sa mun tijna
þvi, og hvør sijnu Lijfe tijner minna vegna,
hann mun þad finna.
40. Hvør hann medtekur ydur sa medtekur
mig, og hvør mig medtekur, hann medtekur
þann sem mig sende.
41. Hvør hann medtekur Spaamann j
Spaamanns Nafne, sa fær Spaamanns laun,
hvør hann medtekur Riettlaatann j Riettlaats
Nafne, sa fær Riettlaats Laun.
42. Og hver hann giefur einum af þessum
Vesælingum eirn Bikar af kolldu Vatne ad
drecka j Læresveins Nafne, sannlega seige eg
ydur, ad þad mun eige hønum olaunad vera.

## XI. Capitule.

(I) Læresveinar Joh. Skijrara eru sender til JE-
sum; hver ed (II) avijtar nockra, og (III) huggar adra.

I. Og þad skiede er JEsus hafde lyktad
þessar Bodaner, til sinna tolf Lære-
sveina, gieck hann leingra fram ad kienna og
predika j þeirra Borgum.

Gudspialled Þridia Sunnud. i Adventu.

2. Enn þa Johannes heyrde j Bondunum
Verkenn Christi, sende hann Tvo af
sijnum Læresveinum og liet seigia hønum.
3. Ertu sa sem koma skal, eda eigum vier ad
vænta nockurs annars?
4. JEsus svarade og sagde til þeirra, fared
þid og kunngiørid Johanni aptur hvad þid
siaed og heyred.
5. Blinder fa Syn, Hallter ganga, Lijk-
þraer hreinsast, og Dauser heyra, Dauder
upprijsa, og Fatækum verdur Evangelium
bodad.
6. Og sæll er sa sem ecke hneikslar sig a mier.
7. Enn ad þeim burt geingnum, hof JE-
sus ad seigia til Folksins af Johanne, hvad
forud þier a Eydemørku ad sia? Villdud þier
sia Reyr sem Vindurenn blæs til og fra?
8. Eda hvad forud þier ut at sia? Villdud
þier sia Mann miuk-klæddann? Siaed, þeir
ed

ed miukann Klædnad hafa eru j Konganna Husum.

9. Eda hvad forud þier ut ad sia, villdud þier sioa Spoamann? Eg seige ydur, hann er meire enn eirn Spoamann.

10. Þviad hann er sa, af hvorium skrifad er, sia, * Eg sende minn Eingel fyrer þier, sa er þinn Veg skal tilreida fyrer þier.]

* Malach. 3, 1.

II. 11. Sannlega seige eg ydur, a medal allra þeirra sem af Konu eru fædder, er eige annar upkomenn sa meire sie enn Johannes Skijrare, enn hann sem (a) minne er j Himerijke, er honum meire.

(a) (minne) þad er Christur.

12. Enn j fra Dogum Johannis Skijrara og allt til þess nu er komid, þoler Himnarijke (b) Ofureflę, og þeir sem ofurefled giora hremma þad til sijn.

(b) Ofurefle) þa Mannsins Samvitska fornemur Evangelium, þa þreinger hun sier fram so ad einginn kann henne ad aptra.

13. Þviad aller Spoamenn og Logmoalid spoadu til Johannem.

14. Og ef þier vilied þad medtaka, þa er hann Elias, sa er koma skal.

15. Hvor eyru hefur ad heyra, hann heyre.

16. Enn vid hvad skal eg þessare Kinslod jafna? Lijk er hun þeim Bornum sem sitia a torge, hvor ed kolludu til sinna Stallbrædra.

17. Og sogdu, vier hofum fyrer ydur j Pijpur blasid, og þier villdud eige dansa, vær þuldum ydur vorar Rauner, og þier villdud eige groata.

18. Johannes er komenn, at ei og drack ei, og þeir seigia, hann hafe Dioful.

19. Mannsins Son er komenn, etur og dreckur, og þeir seigia, sioa, hvilijkur Ofoatsmadur, og Vijnsvelgiare, Vinur Tollheimtumanna og Syndugra, og Spekenn hlytur ad riettlætast loata af sinum Bornum.

20. Þa tok hann ad avijta þær Borger j hvorium giord voru flest hans Kraptaverk, þad þær hofdu ei betrad sig.

21. Vei þier Chorazin, vei þier Bethsaida, Þviad ef j Tyro og Sidon hefde giorst soddan Kraptaverk, sem hia ydur hafa giorst, hefdu þeir fyrer laungu j Seck og Osku jdran giort.

22. Enn þo seige eg ydur, ad Tyro og Sidon mun bærelegra vera a Deige Domsins, helldur enn ydur.

23. Og þu Capernaum sem allt til Himens ert uphafinn, munt nidur þrickiast allt til Helvijtis. Þviad ef j Sodoma hefdu þau Kraptaverk giorst, sem hia þier hafa giord verid, þa stæde hun enn j Dag.

24. Enn þo seige eg ydur þad, ad bærelegra mun vera Lande Sodoma a Domadeige, enn þier.

Gudsp. VI. Sunnud. epter Þrettanda, edur XXVI. Sunnudag ept. Trinitatis.

III. 25. A þeim sama tijma andsvarade JEsus og sagde, eg prijsa þig Fader og Herra Himens og Jardar, ad þu (c) dulder þetta fyrer Spekingum og Forvitringum, og opinnberader þad Ungbornum.

(c) (Þetta) þad er Evangelium og Truna.

26. Ad sonnu Fader, þviad so var þad þeckt fyrer þier.

27. Aller hluter eru mier j Valld giefner, af mijnum Fodur, og eingenn kienner Sonenn nema Faderenn; og eingenn kienner Fodurenn nema Sonurenn, og hvorium ad Sonurenn vill þad opinbera.

28. Komed til mijn aller þier sem ervidid, og þunga erud hladner, eg vil endurnæra ydur.

29. Taked a ydur mitt (d) Ok, og læred af mier, þvi eg em hogvær og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier Hvijld finna Soalum ydrum.

(d) (Ok) Krossenn er þeim harla liett Byrde, sem smacka Evangelium, og til þess finna.

30. Þviad mitt Ok er sætt, og mijn Byrde er liett.]

## XII. Capitule.

JEsus forsvarar (I) sina Lærisveina, og (II) sioalfann sig i gegn Phariseunum, sem (III) Syndgudu i mote Heilogum Anda, og (IV) beiddust Teikns.

I. A þeim tijma gieck JEsus um Kornsæde a Sabbathsdeige, og hans Læresveinar

sveinar voru hungrader, og toku ad tijna
Axenn af, og ad eta.
2. Enn er Pharisei sau þad, sogdu þeir til
hans, sia, þijner Læresveinar giora hvad eige
somer, a Sabbathsdogum ad giora.
3. Enn hann sagde til þeirra, hafed þier ei
lesid * hvad David giorde, nær hann, og þa er
med honum voru, hungrade? *1 Sam.21,6.
4. Hvornenn ad hann gieck jnn j Guds
Hus, og aat þar Skodunarbraudenn, hver
honum leyfdest ei ad eta, nie helldur þeim sem
med honum voru, nema einumsaman * Prestonum.
*2 B. Mos. 29, 33. 3 B. Mos. 24, 9.
5. Eda hafed þier eige lesid j Logmaalenu
* hvorsu ad Prestarner a Sabbathsdogum j
Musterenu briota Sabbathsdagenn, og eru
þo aan sakar?* 3 B. Mos. 24, 8. 4 B. M. 28, 9.
6. Enn eg seige ydur, ad sa er hier sem Musterenu
er meire.
7. Enn ef þier vissud hvad þad være (* a
Miskun hefe eg þocknan og eige a Offre) hefdud
þier ecke Saklausa fordæmt.
*Os. 6, 12.
8. Þvi Mannsins Son er Herra, eirnenn (a)
Sabbathsdagsins.

(a) (Sabbaths Dagsins) hvor hann truer a Christum,
hann er yfer ollum Logum, og skal ecke asakast
af Logmaalenu.

II. 9. Og hann gieck burt þadann leingra
framm, og kom j þeirra Samkunduhus.
10. Og sia, ad einn Madur var þar, sa
hafde visnada Hond. Og þeir spurdu hann
ad og sogdu, Er þad nockud riett ad lækna a
Sabbathsdogum? so ad þeir giæte aklagad
hann.
11. Enn hann sagde til þeirra, Hvor er sa
af ydur sem hefur eirn Saud, og ef hann fellur
a Sabbathsdogum j Gryfiu, sem ecke grijpe
hann og uppdrage?
12. Hvad miklu er Madurenn Saudnum
betre? Fyrer þvi leyfist a Sabbathsdogum
gott ad giora.
13. Þa sagde hann til Mannsins, Riettu
vot Hond þijna, og hann riette hana ut, og
hun vard heil, sem hin onnur.

14. Þa geingu Pharisei ut, og hielldu
Raad yfer honum, hvornenn þeir mætte honum
fyrerfara.
15. Enn er JEsus fornam þad, veik hann
þadann, honum filgde og margt Folk epter, og
þa alla læknade hann.
16. Og bannade þeim ad þeir giorde hann
openskarann.
17. So þad uppfylltest hvad sagt er fyrer
Esaiam Spaamann, er so seiger.
18. * Siaed, þad er minn Þion, hvern eg
utvalde, og minn Elskulegur, a hvorium Saala
mijn hefur þocknan, Yfer hann mun eg
Anda minn leggia, og sa skal Heidnum Domenn
kunngiora. * Esa. 42, 1. &c.
19. Eige mun hann kijfa nie kalla, og eige
mun nockur heyra hans kall a Strætum.
20. Marenn Reyr mun hann eige sundurmylia,
og riukanda Hor eige utslockva, þar
til hann utfærer Domenn til Sigurs.
21. Og Heidner munu a hans Nafn
vona.
22. Þa var til hans hafdur Diofulodur
Madur, sa er Blindur var og Maallaus, og
hann læknade hann, so ad hinn blinde og
Dumbe talade, og sa.
23. Og allt Folkid ottadest og sagde, Er
þesse ei Sonur Davids?
24. Enn er Pharisei heyrdu þad, sogdu
þeir. Eige rekur þesse Diofla odruvijs ut,
nema fyrer Beelzebub Dioflahofdingia.
25. Enn JEsus fornam þeirra Hugsaner,
og sagde til þeirra, Hvert Rijke j sialfu sier
sundurþyckt, mun eydast, og hvor su Borg
eda Hus sem j sialfu sier er sundurþyck, fær
ei staded.
26. Og ef eirn Sathan rekur annann ut,
þa er hann sundurþyckur a mote sialfum sier,
Hvornenn fær hans Rijke þa stadid?
27. Og ef eg utrek Diofla fyrer Beelzebub,
Fyrer hvorn verda þeir þa af ydrum
Bornum utrekner? Af þvi verda þeir og
ydrer Domendur.

28. Enn

28. Enn ef eg utrek Diöfla med Guds Anda, þa er Guds Rijke til ydar komid.

29. Eda hvernenn fær nockur jnngeingid j hins Ofluga Hus, og hans Bwshlutum j burt rænt, utan so sie hann binde cadur hinn Ofluga, og ræne sijdann hans Hws?

30. Hvor hann er eige med mier, sa er a mote mier, Og hvor eige med mier safnar, sa sundurdreifer.

III. 31. Fyrer þvi seige eg ydur, Allar Synder og Lastaner verda fyrergiefnar Mönnunum, Enn Lostun j mote Andanum mun ei fyrergiefast.

32. Og hvor hann talar nockud j mote Mannsins Syne, honum mun fyrergiefast, enn hvor ed talar nockud a mote Heilögum Anda, honum mun hvorke (b) fyrergiefast j þessum Heime ne ödrum.

(b) (Hvorke) þad sem Matthens seiger hier, (hvorke j þessare nie hinne Verolldu) þad seiger Marcus so; Hann er nu eilijfa Skulldskylldugur, ellegar til þess eylijfa Doms. Marc. 3, 29.

33. Annadhvort setied gott Trie, og mun Avoxturenn godur, ellegar setied vondt Trie og mun Avoxturenn vondur, þviad af Avextenum þeckiest Tried.

34. Þier Nödrukin, hvornenn meiged þier gott mæla, a medan þier erud Vonder? þad sem Hiartad er fullt af, þad flytur ut af Munnenum.

35. Godur Madur frammflytur gott af godum Siod sijns Hiarta, enn vondur madur af vondum Siod sijns Hiarta framflytur Vondt.

36. Enn eg seige ydur, af hvoriu þvi Fafeingu Orde, sem Mennerner tala munu þeir Reikningskap giora a ytsta Dome.

37. Af þijnum Ordum muntu Riettlætast, og af þijnum Ordum muntu fordæmast.

IV. 38. Þa svörudu nockrer ut af Skriftlærdum og Phariseis og sögdu, Meistare! vier villdum Teikn af þier sia.

39. Hann svarade og sagde til þeirra, Pettа vonda og Horunarsama Sleckte leitar Teikns, og þvi mun ei Teikn giefast, nema Teikn Jonæ Spaamans.

40. Þviad so sem * Jonas var j Kvide Hvalsins þria Daga og þriar Nætur, so mun Mannsins son vera midt j Jordu, þria Daga og þriar Nætur. *Jon. 2, 1.

41. Menn Ninive Borgar munu upprijsa a effsta Dome med þessare Kinslod, og munu hana fordæma, þviad þeir giordu Jdran epter Predikun Jonæ, Og sia, hier er meire enn Jonas.

42. Drottningenn af Sudre mun upprijsa a effsta Dome med þessare Kinslod, og mun hana fordæma, Þviad hun kom af Endemörkum Jardar ad heyra Speke Salomonis, Og sia, hier er meire enn Salomon.

43. Nær Ohreinn Ande er farenn ut af Mannenum, reikar hann um þurra stade leitande Hvijldar og finnur eige.

44. Þa seiger hann, Aptur vil eg snua j mitt Hws, þadann eg utfor, Og nær hann kiemur, finnur hann þad tomt, sopad og fagad.

45. Þa fer hann burt og tekur sio adra Anda med sier, þeir ed verre eru enn sialfur hann, og nær þeir eru jnnkomner, byggia þeir þar, Og verdur þa þess Manns sijdara verra þvi hinu fyrra, So mun og skie þessa vonda Kinslod.

46. Sem hann var enn þetta ad tala til Folksins, Sia, Þa stod Moder hans og Bræður þar fyrer utan, og villdu tala vid hann.

47. Þa sagde eirn til hans, sioa, ad Moder þijn og Brædur þijner standa ute, og vilia tala vid þig.

48. Hann svarade og sagde, til þess sem honum þetta kunngiorde, Hvor er mijn Moder, og hvorier eru mijner Brædur?

49. Og hann riette ut sijna Hond yfer sijna Læresveina og sagde, Siaed þar er mijn Moder og mijner Brædur.

50. Þviad hvor hann giorer vilia mijns Fodurs þess sem a Himnum er, sa er minn Broder, Syster og Moder.

## XIII. Capitule.

JEsus framsetur Imesiegar Epterlijkingar um Himna Rijke.

A þeim sama Deige, gieck JEsus utaf hu-
sinu, og sette sig nidur vid Siöenn.
2. Og margt Folk safnadest ad honum,
so hann stie a Skip, og sat, og allt folkid stod j
Fiörunne.
3. Og hann talade margt til þeirra j Epter-
lijkingum og sagde. Sia, Sa er sꝏde gieck
ut ad sꝏ.
4. Og þa hann sꝏde fiell sumt vid Veigenn,
og Fuglar komu og ꝏtu þad.
5. Enn sumt fiell i grytta Jord, hvar þad
hafde ei mikla Jord, og rann fliotlega upp,
þviad þad hafde eige Jardar dypt.
6. Enn sem Solenn rann upp skrælnadest
þad, og af þvi ad þad hafde eige Rot þa visna-
de þad.
7. Enn sumt fiell a millum Þyrna, og
Þyrnarner spruttu upp og kiæfdu þad.
8. Enn sumt fiell j goda Jord, og færde
Avoxt, sumt hundradfalldann, sumt sextug-
falldann, sumt þritugfalldann.
9. Hvør Eyru (a) hefur ad heyra, sa heyre.
(a) (hefur) Þar sem menn skilia Guds Ord, þar
Avaxtar þad sig, enn þar sem menn þad ecke skilia,
þar fer mønnum aptur, og Menn hneixlast a þvi.
10. Og Lærersveinarner geingu til hans og
sꝏgdu, Fyrer þvi talar þu til þeirra j Epterlij-
kingum?
11. Hann svarade og sagde, ydur er giefid
ad underſtanda Leynda doma Himnarijkis, enn
þeim er þad eige giefid.
12. Þvi hvør hann hefur, hønum mun
giefast so hann gnog hafe, Enn sa sem ei hefur,
af hønum mun og takast þad hann hefur.
13. Fyrer þvi þa tala eg til þeirra j Ep-
terlijkingum, þviad med siaande Augum sia
þeir eige, og med heyrande Eyrum þa heyra
þeir eige, þviad þeir skilia þad ei.
14. Og a þeim mun upfyllast Spꝏdomur
Esaiæ, er seiger, * Med Eyrunum munud þier
heyra, og munud þier þad ei skilia, og med
siaande Augum munud þier sia, og ei skinia.
* Esa. 6, 9. 10.
15. Þviad þessa Folks Hiarta er forhard-
nad, og þeirra Eyru eru þungheyrd, og þeirra
Augu saman-lykiast so ad þeir eige einusinne
med Augunum siae, og med Eyrunum heyre,
nie med Hiartanu skilie, til ad leidrietta sig so
ad eg hialpe þeim.
16. Enn Sæl eru ydar Augu, þad þaug sia,
og ydar Eyru, þad þau heyra.
17. Sannlega seige eg ydur ad marger
Spꝏmenn og Riettlꝏter fystust ad sia,
hvad þier siaed, og hafa þad ecke sied, og ad
heyra hvad þier heyred, og hafa þad eige heyrt.
18. Af þvi heyred Epterlijkingena um
Sꝏdmannenn.
19. Þa er nockur heyrer Orded Rijkesins,
og underſtendur þad ei, kiemur hinn vonde, og
hrifsar burt hvad sꝏd er j hans Hiarta, Þad
er sa vid Veigenn er sꝏdur.
20. Enn þad sem j grijtta Jord fiell, er sa,
þegar nockur heyrer Orded, og fliotlega med
fagnade medtekur þad.
21. Enn hann hafde eige Rot j sier, helldur
er hann vid um stundarsaker, nær ed Hrel-
lingar og Offsokner hefiast fyrer Ordsinssaker,
hneixlast hann jafnskiott.
22. Enn þad sem a millum Þyrna er sꝏd,
er sa þegar nockur heyrer Ordid, og Ahyggia
þessarar Veralldar og Svikseme rijkedæme-
sins kiefur Ordid, og færer ecke Avoxt.
23. Enn þad sem j goda Jord er sꝏd, er
sa nær nockur heyrer ordid og underſtendur
þad, og færer Avoxt, og sumt ber Hundrad-
falldann, sumt sextugfalldann, sumt þriatij-
gerfalldann.

Gudspialled V. Sunnud. epter Þrettanda.

24. Adra Epterlijking lagde hann þeim fyrer
og sagde, Himnarijke er lijkt þeim
Manne, sa er sꝏde godu Sæde j Akur sinn.
25. Enn þa menn svafu, kom hans Ovi-
nur og sꝏde Illgresi ibland Hveitesins, og
for j burt.
26. Enn er Sæded spratt upp og bar
Avoxt, þa auglystest og Illgresid.
27. Þa geingu Þienararner til Husfo-
dursins og sꝏgdu, Herra, Sꝏder þu ei godu
sæde

sæde j Akur þinn, hvadann kiemur hönum þa Illgresid?

28. Hann sagde til þeirra, þad hefur Fiand-madurenn giort. Pa sögdu Þienararner, Villtu ad vær forum og utlesum þad?

29. Hann sagde, nei, so ad þier upprætid ecke Hveitid undereins, nær þier utlesid Illgresid.

30. Loatid hvertveggia vaxa asamt allt til Kornskurdar, og a Kornskieru Tijma, skal eg seigia til Kornskurdarmannanna, Lesid first Illgresid saman, og bindid þad j bindini til brennslu, enn Hveitenu samannsafnid j mijna Kornhlodu.]

31. Adra Epterlijking lagde hann framm fyrer þa og sagde, Himnarijke er lijkt einu (b) Mustards Korne, þad einn madur tok og soade j Akur sinn.

(b) (Mustardskorn) Þar er eckert ont virdelegra Ord enn Evangelium, og er Po eckert kroptugra, Þvi Þad giorer Riettlæta Þa sem trua a Þad. Lögmaalid og Verkenn giora þad ecke.

32. Hvad ad minst er allra Soada, enn nær þad sprettur upp, er þad stærst allra Koalgrasa, og verdur eitt Trie, so ad Fuglar Himensins koma og byggia under þess Kvistum.

33. Eina adra Epterlijking talade hann til þeirra. Lijkt er Himnarijke Syrdeige, þad ein Kona tok og blandade vid þria Mælera Miols, þar til þad fyrdest allt j giegn.

34. Þetta allt talade JEsus j Epterlijkingum til Folksins, og fyrer utan Epterlijkingar talade hann ecke til þeirra.

35. So ad uppfylltest hvad sagt er fyrer Spamannenn þann er seiger, * minn Munn vil eg uppliuka j Epterlijkingum, og heimuglega hlute mun eg nimæla fra upphafi Veralldar. * Psal. 78, 2.

36. Þa liet JEsus Folkid fra sier fara, og kom heim, og hans Læresveinar geingu til hans, og sögdu, uthyd þu oss þa Epterlijking um Illgresed a Akrenum.

37. Hann svarade og sagde til þeirra, Hann sem saaer godu Soade er Mannsins Sonur.

38. Enn Akurinn er Heimurenn, goda Soadid eru Rijkesins Born, enn Illgresid eru Born þess Vonda.

39. Ovinurinn sa þeim soade er Dioful-lenn, enn Kornskierutijmenn er Ending Veralldar, Kornskurdarmennerner eru Einglarner.

40. Þvi lijka sem nu verdur Illgresid utlesid, og j Ellde brendt, so mun og skie j enda þessarar Veralldar.

41. Mannsins Son mun utsenda sijna Eingla, og þeir munu samann safna ur hans Rijke ollum Hneixlunum, og þeim er Rangindе giora.

42. Og þeir munu kasta þeim j Elldsins Ofn, þar mun vera Groatur og Tannagnistran.

43. Enn þa munu Riettloater lioma sem Sol j Riike Fodurs þeirra. Hvor Eyru hefur ad heyra sa heyre.

44. Em aptur þa er Himnarijke lijkt einum (c) folgnum Fiesiod a Akre, hvörn ed Madur fann og falde hann, og af þeim fagnade sem hann hafde yfer honum, gieck hann burt, og sellde allt hvad hann hafde, og keypte þann sama Akur.

(c) (Fiesiod) sa folgne Fiarsiodur er Evangelium, sem oss giefur Raad og Riettlæte aa vorrar Forskulldunar, Þar fyrer gledur hann mann, Þa hann verdur fundenn, Þad er, giefur goda Samvitsku, hvoria Menn kunna ecke ad fa med nockrum til verknade, Þetta Evangelium er og so su Perla.

45. Og en aptur er Himnarijke lijkt þeim Kaupmanne, er ad godum Perlum leitade.

46. Og þa hann fann eina forkostulega Perlu, for hann og sellde allt hvad hann hafde, og keypte þa somu.

47. Og enn aptur er Himnarijke lijkt Nete þvi sem j Sio var kastad, med hvoriu af ollu Fiskakini dreigid verdur.

48. Enn nær þad er fullt, draga þeir þad j fioruna, sitia sijdann og samannlesa hina godu j Kierolld, enn vondum kasta þeir ut.

49. So mun og skie j enda Veralldar, ad Einglar

Einglar munu utfara, og hina vondu fra Riettlaatum skilia.

50. Og þeim munu þeir kasta j elldsins Ofn, hvar vera mun Op og Tannagnistran.

51. Og JEsus sagde til þeirra, Hafid þier allt þetta understadid? þeir sogdu, ja Herra. Þa sagde hann.

52. Fyrer þvi hver sa Skriftlærdur sem til Himnarijkis (d) mentadur er, hann lijkist þeim Husfodur sem framm bar af sijnum Fiarsiod (e) Nytt og Gamallt.

(d) (mentadur til himnarijkis) Er ad hialpa himnarijke til framm kvæmdar ad kienna ødrum og koma þeim til himnarijkis.

(e) (Nytt) er Evangelium, þad gamla er Løgmaalid.

53. Og þad skiede þa JEsus hafde endad þessar Epterlijkingar, ad hann gieck þadan.

54. Og kom til sinnar Fosturjardar, og kiende þeim j þeirra Samkunduhusum, so ad þeim hnyckte vid og sogdu, Hvadan kiemur þessum slijk Speke og Kraptar?

55. Er þesse ei Timbursmidsins Son? Heiter hans Moder ecke Maria? og Brædur hans Jacob og Joses, Simon og Judas.

56. Og hans Systur, eru þær ei allar hier hia oss? Hvadan kiemur þessum þa allt þetta?

57. Og þeir hneixludust a honum. Enn JEsus sagde til þeirra, eirn Spaamadur er hverge j minne Virdingu enn j sijnu Fodur Lande, og j sijnu eigenn husi.

58. Og ei giorde hann þar morg Teikn fyrer saker Vantruar þeirra.

## XIV. Capitule.

(I) Johannes er halshoggvinn: (II) JEsus mettar Fimm Þusund Manna: (III) Stiller Stormenn. (IV) Læknar marga.

I. 1. A þeim tijma heyrde Herodes (a) Fiordungs Hofdinge Rikted af JEsu.

(a) (Fiordungs Hofdinge) Gydinga-lande med þvi sem þar til la, var skipt j 4. Hofdingiadoma, þar fyrer kølludu menn þa Høfdingia, Tetrarchas, þad er fiordungs Hofdingia.

2. Og hann sagde til sinna Þienara, þesse er Johannes Skijrare, hann er fra daudum upprisinn, og þvi gioraſt þesse Kraptaverk af honum.

3. Þviad Herodes hafde fangad Johannem, bundid hann og j fangelsi sett, fyrer saker Herodias Husfru Philippi Brodur hans.

4. Þviad Johannes hafde til hans sagt, þad er ecke riett ad þu hafer hana.

5. Og hann hefde giarnann aflijfad hann, enn hann ottadest Folked, þviad þad hiellt hann fyrer eirn Spaamann.

6. Enn er Herodes hiellt sinn Fædingardag, dansade Dotter Herodias midt frammi fyrer þeim, og þad lijkade Herodes vel.

7. Af þvi lofade hann henni med Eyde ad giefa henni hvors hun æskte.

8. Og epter þvi hun var aadur tilleggiud af Modur sinni, sagde hun, Gief mier a Diske Hofud Johannis Skijrara.

9. Og Kongurinn vard hriggur, Enn þo fyrer Eidsins saker og þeirra er med honum til Bordsins saatu.

10. Baud hann ad þad giæfist henni, og hann sendi ut og afhofdadi Johannem i Mirkva-stofu.

11. Og var hofud hans borid a Diske og giefid Stulkunni, og hun færdi Modur sinne.

12. Þa komu Lærisveinar hans og toku hans Lijkama og grofu, komu og kunngiørdu þad JEsu.

II. 13. Þegar JEsus heyrde þad, for hann þadann a einu Skipe alleina til Eydemerkur, og þa folkid heyrde þad, filgde þad honum a Fæti ur Stodunum.

14. Og JEsus gieck framm og leit þann mikla Mug, og sa aumur a þeim, og læknade þa af þeim sem Kranker voru.

15. Ad Kvollde geingu hans Lærisveinar til hans og sogdu, þetta er ein Eydemørk, og Nottenn fellur a, Laat folkid fra þier, ad þad gange j Kauptunenn, og kaupe sier Fædu.

16. Enn JEsus sagde til þeirra, Þeir hafa þess ei þorf, ad þeir gange burt, giefid þier þeim ad eta.

17. Þeir sogdu, Vier hofum ecke hier nema fimm Braud, og tvo Fiska.

18. Hann sagde; Færid mier þaug hingad.

19. Og

19. Og hann baud Folkinu ad setiast nidur a grasid, og tok þau fimm Braud og tvo Fiska, leit til Himens, þackade, og braut þaug, og fieck sijnum Læresveinum Braudenn, enn Læresveinarner geafu þaug Folkenu.

20. Og þeir snæddu aller og urdu sadder, og þeir toku upp þær leifar er afgeingu, tolf Karfer fullar.

21. Enn þeir sem etid hofdu voru nær fimm þusund Manna, undann teknum Konum og Bornum.

III. 22. Og jafnsnart neydde JEsus sina Læresveina til ad þeir geinge a Skip, og fære fyrer honum yferum, þar til hann liete Folkid fra sier.

23. Og er hann hafde Folkid fra sier lated gieck hann eirnsamall uppa Fiallid ad bidiast fyrer. Og um kvolldid var hann eirn þar.

24. Enn Skipid var þa midt a Sionum, og hrakteft j Bilgiunum, þviad Vindurenn var þvert j mote.

25. Enn um fiordu (b) vakt Næturinnar, kom JEsus til þeirra gangandi a Sionum.

(b) (vakt) fordum tiid var Nottunne skipt j Fiorar vakter, og voru þrijr tijmar j hvørre Vakt.

26. Enn er Læresveinarner sau hann a Sionum ganga, hræddust þeir, og sogdu, þad være Skrimsl, og kolludu upp af hrædslu.

27. Enn JEsus talade strax til þeirra og sagde, verid Hughrauster, eg em hann, ottist ei.

28. Enn Petur svarade honum og sagde, ef þu ert þad Herra, þa biod mier ad koma til þijn a Vatnenu.

29. Og hann sagde, kom hingad. Og Petur stie af Skipinu og gieck a Vatninu ad hann kiæme til JEsu.

30. Enn er hann leit megnann Vind, ognade honum og tok ad sockva, kallade og sagde, Herra hialpa þu mier.

31. Enn JEsus riette jafnsnart Hondina og greip hann, og sagde til hans, þu Lijtiltruadur, þvi efadest þu?

32. Og þeir stigu inn j Skipid, og Vindinn stillte.

33. Enn þeir sem a Skipenu voru, komu og fiellu framm fyrer honum, og sogdu, sannlega ertu Guds Sonur.

IV. 34. Og þeir foru yfer um, og komu til Landsins Genesareth.

35. Og er Folkid j þeim sama Stad vard vart vid hann, sendu þeir ut um allt þad Land allt j kring, og færdu til hans alla Vanfæra Menn.

36. Og badu hann um, ad þeir mættu ad eins snerta Falld hans Fata. Og aller sem hann snertu urdu heilbrigder.

## XV. Capitule.

(I) JEsus virder einkis þaa Guds Dijrdkun sem menn smijda sier sialfar: (II) Læknar Dottur þeirrar Canversku Kvinnu, og marga adra: (III) Mettar fiogur þusund Manna.

I. Þa komu til hans Skriftlærder og Pharisei af Jerusalem, og sogdu.

2. Þvi ofur troda þijner Læresveinar Olldunganna Uppsetninga, med þvi þeir þvo eige sijnar Hendur er þeir Braud eta?

3. Hann svarade og sagde til þeirra, fyrer þvi ofurtroded þier þa Guds Bodord fyrer ydvarn Uppsetning?

4. * Þvi Gud hefur skipad, heidra skalltu Fodur þinn og Modur, og hvor hann bolvar Fodur eda Modur sa skal Dauda deyia.

* 2 B. Mos. 20, 12. 5 B. Mos. 5, 16.

5. Enn þier kiennid, ad hvor hann seiger til Fodur eda Modur; þad er ein (a) Geafa, hvor ef ad hun er af mier, þa kanntu holpenn verda.

(a) Geafa) Ordinn eru miog oskilinn, enn su riecta Meining er, ad Pharisei kiendu orietilega ad Gudi være þeckara ad Offrad være, enn ad menn hialpudu forelldrum sijnum j þeirra fatækt, so ad ef Bornenn offrudu fyrer Foreldrana, og giordu þeim annars eckert til goda, þa hefdi þaug ooglega giort, hvad þeim bære Forelldrunum ad giora.

6. Af þvi skier þad, ad eingenn heidrar Fodur sinn nie Modur framarmeir, og hafid so onytt giort Guds Bodord fyrer ydar Uppsetnings Saker.

7. Þier Hræsnarar, vel hefur Esaias spaad af ydur, og sagt.

8. * Þesse Lydur nalægest mig med sijnum Munni, og heidrar mig med vorum sijnum.

* Es. 29, 13.

9. Enn þeirra Hiörtu eru langt fra mier, ad onytu þiona þeir mier, a medann þeir kienna þær Kienninger sem ecke eru annad enn Bodord Manna.

10. Og hann kallade Folkid til ſijn, og ſagde til þeirra, heyred þier og underſtanded þad.

11. Hvad er jnngeingur j Munnenn, þad ſaurgar ei Mannenn, helldur hvad er framm af Munnenum geingur þad ſaurgar Mannenn.

12. Pa geingu hans Læreſveinar ad honum og ſøgdu, veitſtu ad þa ed þeir Phariſei heyrdu þad Ord, hneixluduſt þeir?

13. Enn hann ſvarade og ſagde, oll (b) Plantan hvoria minn himneſkur Fader plantar eige, mun uppræta ſt.

(b) (Plantan) allur Lærdomur og Verk ſem Gud verkar ecke j Manneñum eru Synd, og hier ſia Meñ hvørſu ſialfræde Vilienn orkar einſkis.

14. Laatid þa fara, þeir eru blinder og blindra Leidtogarar, ef Blindur leider annann Blindann, þa falla þeir baader j Grøfena.

15. Pa ſvarade Petur og ſagde til hans, þyd oſs þeſſa Epterlijking.

16. JEſus ſagde til þeirra, erud þier enn ſo Skilningslauſer.

17. Skynied þier eige enn nu, ad allt hvad j Munnenn jnngeingur, þad hverfur j Magann, og verdur fyrer edlelega vaas utſkufad.

18. Enn hvad af Munnenum framgeingur, þad kiemur af Hiartanu, og þad ſaurgar Mannenn.

19. Þviad utaf Hiartanu koma vondar Hugſaner, Manndrap, Hordomur, Frillulijfe, Þiofnadur, Liugvitnan, Laſtaner.

20. Þetta eru þeir hluter ſem Mannenn ſaurga, enn med oþvegnum Hondum ad eta ſaurgar ecke Mannenn.

Gudſpialled II. Sunnudag i Foſtu.

II. 21. Enn JEſus gieck j burt þadann, og for j Landſkalfur Tyri og Sidonis.

22. Og ſia ad Canverſk Kona gieck utaf þeim ſømu Takmørkum, kallade epter honum og ſagde, o Herra Sonur Davids, miſkuna þu mier, mijn Dotter kvelſt jlla af Dioflinum!

23. Og hann ſvarade henne eige Orde: hans Læreſveinar geingu til hans, baadu hann og ſøgdu, gior henne urlauſn af þvi hun kallar epter oſs.

24. Enn hann ſvarade og ſagde, eg em ei ſendur nema til fortapadra Sauda af Huſi Iſraels.

25. Enn hun kem og fiell nidur fyrer honum og ſagde, hialpa mier HErra.

26. Enn hann ſvarade og ſagde, þad er eige tierlegt, ad taka Braudid fra Børnunum, og kaſta þvi fyrer Hundana.

27. Enn hun ſagde, ja HErra, enn þo eta Hundar af Molum þeim ſem detta af Bordum Drottna þeirra.

28. Pa ſvarade JEſus og ſagde til hennar, o þu Kona, mikel er þijn Trua, verde þier ſo ſem þu villt, og a þeirre ſømu Stundu vard hennar Dotter heilbrigd.]

29. Og JEſus gieck þadann leingra aframm, og kom til Siafarins j Galilea, og gieck uppa eitt Fiall og ſette ſig þar.

30. Og margt Folk dreif til hans, havande med ſier Hallta, Blinda, Mallauſa, Vanada, og marga adra, og ſnørudu þeim framm fyrer Fætur JEſu, og hann læknade þa.

31. So ad Folkid undradeſt er þad ſaa Mallauſa mæla, og Vanada heila, Hallta ganga, Blinda ſiaande, og vegſomudu Gud Iſraels.

III. 32. Og JEſus kallade ſijna Læreſveina til ſijn, og ſagde, mig aumkar yfer Folkid, þviad þeir hafa nu þria Daga hia mier verid og hafa ecke til Matar, og faſtande vil eg þa ecke fra mier fara laata, ſo ad eige verde þeir hungurmorda a Veigenum.

33. Pa ſøgdu Læreſveinarner til hans, hvadann tokum vær ſo morg Braud j Eydemørku, ad vier ſedium med ſafnmargt Folk?

34. JEſus ſagde til þeirra, hvørſu morg

Braud hafed þier? þeir sogdu, sio, og fa Fiskakorn.

35. Og hann baud Folkenu ad þad settest nidur a Jordena.

36. Og tok þaug sio Braud og Fiska, og er hann hafde þackad, braut hann þaug, og gaf Læresveinum, og hans Læresveinar gaafu þaug Folkenu.

37. Og þeir aatu aller og urdu sadder, og toku upp þad sem yfer var af Leyfunum, sio Karfer fullar.

38. Enn þeir sem etid hofdu voru fiorar þusunder Manna fyrer utan Konur og Born.

39. Og er hann hafde Folkid fra sier lâtid, stie hann a eitt Skip, og kom j Endemerkur Magdalalands.

## XVI. Capitule.

JEsus talar. (I) um Teikn og Surdeig Phariseanna: (II) um Lykla Himnarijkes: (III) um Pijsl sijna.

I. Pa geingu Pharisei og Saducei til hans, freistandi hans, og bædu hann ad syna sier Teikn af Himne.

2. Enn hann svarade þeim og sagde, a Kvolldenn seiged þier, þad verdur godur Dagur, þviad Himen-rode er.

3. Og a Morgna seiged þier, j Dag verdur hreggvidre, þviad Himenenn er raudur og dimmur. Þier Hræsnarar, Himensins Asian kunned þier ad dæma, kunned þier þa ecke og ad dæma (a) Teikn þessara Tijma?

(a) (Teikn) Cristur meinar hier þaug Teikn sem eru hans Jardteikn og Furduverk, sem fyr var sagt ad skie skyllde j Tijd Christi.

4. Þesse vonda og Hórunarsama kinslod æsker Teikns, og henne skal eckert Teikn giefid verda, nema Teikn Jonæ Spamans. Og hann forliet þa, og gieck j burt.

5. Og er hans Læresveinar voru yfer um farner, hofdu þeir gleymt Braud med sier ad taka.

6. Enn JEsus sagde til þeirra, siaed til, og vakted ydur fyrer Surdeige þeirra Phariseara og Saduceara.

7. Pa þeinktu þeir med sier og sogdu, þad mun vera þad vær hofum ei Braud med oss tekid.

8. Enn er JEsus fornam þad, sagde hann til þeirra, þier Lijtiltrwader, hvar fyrer hugsed þier um þad þo ad þier hafed ei Braud med ydur haft?

9. Skilied þier enn ecke? minnest þier ecke a þau fimm Braud a medal fimm Þusunda! eda hvorsu margar Karfer ad þier tokud þa upp?

10. Og elge a þaug sio Braud a medal fiogra Þusunda, og hvorsu margar Karfer ad þier tokud þa upp?

11. Hvar fyrer skilied þier þa eige, ad eg sagde ydur ei af Braudenu, þo eg segde, vaktid ydur fyrer Surdeigi þeirra Phariseis og Saduceis.

12. Pa underst odu þeir ad hann hafde eige sagt þeim þad þeir skylldu vara sig vid Surdeige Braudsins, helldur vid Lærdome Phariseanna og Saduceanna.

II. 13. Pa kom JEsus j Landsaalfur Borgarennar Cesarea Philippi, og spurde sijna Læresveina ad og sagde, hvad seigia Menn til, hvor Mannsins Son sie?

14. Peir sogdu, sumer seigia þu siert Johannes Skijrare, enn adrer, þu siert Elias, sumer ad þu siert Jeremias, edur eirn af Spamonnonum.

15. Hann sagde til þeirra, hvern seiged þier mig þa ad vera?

16. Pa svarade Simon Petrus, og sagde, þu ert Christur Sonur Guds Lifanda.

17. Enn JEsus svarade og sagde til hans, Sæll ertu Simon Jonas Son, þviad Holld og Blod birte þier þad eige, helldur minn Himneske Fader.

18. Og eg seige þier, þu ert (b) Petrus, og yfer þennann Hellustein mun eg uppbyggia mijna Christne, og (c) Port Helvijtanna skulu eige megn hafa j giegn henne.

(b) (Cepha a Syrlendsku) Petur a Grisku, a Islendsku Hellubiarg. Og aller Christner Menn eru Petri vegna þeirrar Jatningar sem Petur giorer hier, þvi hun er þad Hellubiargid uppa hvad ad Petur og aller Petrar eru bygder, Jatningenn er almenneleg, so er og Nafnid.

(c) Port Helvijtis er oll Makt a mote Christnenne, so sem er Daudenn, Helvijte, Verslldlegur Vijsdomur og Makt.

19. Og

19. Og þier mun eg giefa Lykla Himna-rijkis, og allt hvad þu bindur a Jørdu, skal a Himnum bundid vera, og allt hvad þu leysir a Jørdu, skal a Himnum leyst vera.

20. Þa fyrerbaud hann sijnum Læresveinum ad þeir segde þad nockrum, ad hann være JEsus sa Christus.

III. 21. Þadann j fra tok JEsus til ad auglysa fyrer sijnum Læresveinum, hvernenn honum byriade ad ganga til Jerusalem, og margt ad lijda af Olldungunum, þeim ypperstu Prestum, Skriftlærdum, og Lijflaatenn verda, og a þridia Deige upp ad rijsa.

22. Enn Petur tok hann til sijn, atalde hann og sagde, HErra þirm sialfum þier, þad hende þig ongvanneiginn.

23. Enn hann snerest vid og sagde til Peturs, far fra mier Satan, þu ert mier hneixlanlegur, þviad þu skilur eige hvad Guds er, helldur hvad Mannanna er.

24. JEsus sagdi þa til sinna Lærisveina, ef nockur vill mier eptersilgia, þa afneite hann sialfum sier, og take sinn Kross uppa sig og filge mier epter.

25. Þviad hver hann vill sitt Lijff forvara, sa mun þvi tijna, enn hver sijnu Lijfe tijner fyrer mijnar Saker, sa mun þad finna.

26. Þvi hvad stodar þad Mannenn þo hann vinne allann Heimenn, enn feinge tion a sinne Sealu? Edur hvad mun Madurenn fa giefed, þar hann Sealu sijna med endurleyse?

27. Þviad þad mun skie, ad Mannsins Son mun koma j Dyrd sijns Fødurs, med sijnum Einglum, og þa mun hann gialda hvørium sem einum epter sijnum Verkum.

28. Sannlega seige eg ydur, ad nockrer standa þeir hier, sem (d) Daudann munu eigi smacka, þar til ad þeir sig Mannsins Son komande j sijnu Rijke.

(d) Christur meinar til þeirrar Forklaringar sem skede a Fiallenu Tabor a hvøria minnst verdur j eptersilgiande Capitula.

## XVII. Capitule.

(I) JEsus forklaarast a Fiallenu. (II) Læknar Þann Dløfulloda og Tunglsiuka; (III) talar um sinn Dauda; (IV) Lætur greida Skatt-galld fyrer sig og Petur.

Gudspialled annadhvert VI. Sunnud. epter Þrettanda. Ellegar XXVII. Sunnud. epter Trinitatis.

I. Og sex Døgum þar epter, tok JEsus med sier Petrum og Jacobum, og Johannem Brodur hans, og hafde þa afsijdis uppa eitt hoatt Fiall.

2. Og Auglystest fyrer þeim, og hans Asiana skein sem Sol, enn hans Klæde urdu so biort sem Lios.

3. Og sia ad honum birtust þeir Moyses og Elias, og toludu vid hann.

4. Enn Petur ansade og sagde til JEsu, HErra, hier er gott ad vera. Ef þu villt, þa vilium vier giora þriar Tialldbwder, þier eina, Moyse eina, og Elie eina.

5. Og þa er hann var þetta ad tala. Sia ad biart Sky umskygde þa, og sia, ad ein Rodd ur Skyenu sagde, þesse er Sonur minn Elskulegur, ad hvørium mier vel þocknast, honum skulud þier heyra.

6. Og er Læresveinarner heyrdu þad, fiellu þeir framm a sijnar Asianer og urdu miøg hrædder.

7. Enn JEsus gieck til þeirra, tok a þeim og sagde, standed upp og vered eige hrædder.

8. Enn er þeir litu upp sijnum Augum, sau þeir ongvann, nema JEsum alleina.

9. Og er þeir geingu ofann af Fiallenu, baud JEsus þeim og sagde, þier skulud ongvum þessa Sion seigia, þar til ad Mannsins Son er upprisinn af Dauda.]

10. Og hans Læresveinar spurdu hann ad og søgdu, hvad seigia hiner Skriftlærdu þa, þad Elias hlioti oadur ad koma?

11. JEsus svarade og sagde til þeirra, Elias a ad sønnu oadur ad koma, og alla Hlute ad lagfæra.

12. Enn eg seige ydur þad, Elias er alla reidu komenn, og þeir þecktu hann eige, helldur giordu þeir vid hann hvad hellst þeir villdu. So mun og Mannsins Son verda af þeim ad lijda.

13. Þa underskodu Læresveinarner, þad hann hafde sagt af Johanne Skijrara.

II. 14. Og er þeir komu til Folksins, gieck eirn Madur til hans og fiell til Fota hønum.

15. Og sagde HErra! miskuna þu Syne mijnum, þviad hann er Tunglsiukur, og er herfelega pijndur, opt fellur hann a elld og þrꜳttsinnis j Vatn.

16. Eg hafde hann og til þinna Læresveina, og þeir gꜳtu hønum ecke hialpad.

17. Enn JEsus svarade og sagde, O þu vantruud og Rꜳngsnuinn Kinslod, Hvørsu leinge skal eg hia ydur vera? Hvørsu leinge a eg ydur ad lijda? Hafid hann hingad til mijn.

18. Og JEsus hastade a hann, og Diøfullinn for utaf hønum, og Sveirnenn vard Heilbrigdur a sømu Stundu.

19. Þa geingu Læresveinarner heimuglega til JEsu, og søgdu, Fyrer þvi gꜳtum vær eige rekid hann ut?

20. JEsus svarade og sagde til þeirra, Fyrer ydar Vantruar saker, Þvi eg seige ydur fyrer sann, Ef þier hefdud Tru so sem Mustards Korn, mættud þier seigia Fialle þessu, Far þu hiedan og þangad, Og munde þad fara, og eckert munde ydur omøgulegt vera.

21. Enn þetta Kin rekst eige ut nema med Bæn og Føstu.

III. 22. Enn sem þeir sijsludu um j Galilea, sagde JEsus til þeirra, Epterkomande er, þad Mannsins Sonur mun ofurselldur verda j Manna Hendur.

23. Og þeir munu Lijflꜳta hann, og a þridia deige mun hann upprijsa, Og þeir urdu nærsta hriggver.

IV. 24. Og er þeir komu til Capernaum, geingu þeir ad Petre sem Skatt-giallded uppbꜳru, og søgdu, Ydar Meistare, plagar hann eige ad giallda Skatt?

25. Hann sagde, ja. Og er hann kom heim, kom JEsus firr ad hønum og sagde, Hvad lytst þier Simon, af hverium taka Jardleger Kongar Toll edur Skattpening? af sijnum Børnum, edur af annarlegum?

26. Petur sagde til hans, af annarlegum, JEsus sagde þa til hans, þa eru Børnenn (a) frij.

(a) (Frij) Þo ad Christur være frij, Þa gaf hann samt Skatt, Naunganum til Þocknunar, So er einn Christinn uppa sijn eigenn blijte j allastade frij, og giefur sig þo velviliuglega til ad þiena Naunganum.

27. Enn so ad vier sieum þeim ei ad Hneixlan, þa far til Siafar, og kasta ut Aunglenum, og þann Fisk sem firstur kiemur upp tak hann, og er þu opnar hans Gin, muntu finna (b) Stater, þa sømu tak þu og gief hønum fyrer mig og þig.

(b) (Stater) er eitt Lod, Þegar þad er Silfur, Þa er þad so mikid sem halft Gylline.

## XVIII. Capitule.

JEsus talar (I) um Audmykt og Hneixlaner (II) um sijna Miskunseme: (III) um Brodurlega aminning, Straff og Fyrergefning.

Gudspialled a Michaelis Messu.

I. A þeirre sømu Stundu, geingu Læresveinarner til JEsum, og søgdu, Hvør er mestur j Himerijke?

2. JEsus kallade eitt Barn til sijn og sette þad midt a millum þeirra.

3. Og sagde. Sannlega seige eg ydur, nema þier snuest og verdid so sem Smabørn munud þier eige koma j Himnarijke.

4. Hvør sialfur sig læckar so sem Barn þetta, sa er mestur j Himnarijke.

5. Og hvør sem medtekur eitt þvilijkt Barn j mijnu Nafne, sa medtekur mig.

6. Enn hvør hann hneixlar eirn af þessum enu Smꜳu, sem a mig trua, þarfara være hønum ad Mylnusteirn heingest um Hals hønum, og være j Sioo søktur þar hann er diwpastur.

7. Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner. Þar hliota þo Hneixlaner ad koma, enn þo sie Vei þeim Manne fyrer hvørn ed Hneixlanenn kiemur.

8. Enn ef þijn Hønd eda þinn Fotur hneixlar þig, þa snijd hann af og snara hønum fra þier, Betra er þier jnn ad ganga til Lijfsins Halltur og handarvane en þad þu hafer tvær

Hendur edur tvær Fætur, og verder j eylijfann Elld kastadur.

9. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þa slijt þad ut og snara þvi fra þier, betra er þier Eineygdum inn ad ganga til Lijfsins, enn þad þu hafer tvo Augu og verder j helvijtskann Elld kastadur.

10. Siaed til ad þier forsmaaed eige eirn af þessum Smælingium, Þviad eg seige ydur, ad þeirra Einglar a Himnum sia alltijd mijns Fodurs Auglit a Himnum.]

II. 11. Þviad Mannsins Son er komenn, ad giora holpid hvad fortapad var.

12. Hvad virdest ydur? Ef einhvor Madur hefur hundrad Sauda, og villist eirn af þeim? Skilst hann eige vid þa niju og Nijutyger a Fiollum uppe, og fer ad leita ad þeim sem villtist?

13. Og ef so skier, ad hann finnur hann, Sannlega seige eg ydur, ad hann fagnar meir yfer honum, enn yfer hinum niju og Niutijger sem eige villtust.

14. So er eige vilie Fodurs ydar sem a Himnum er ad eirn af þessum Smaaun tapest.

III. 15. Enn ef Brodur þinn brytur vid þig, far þu, og straffa hann a millum þijn og hans eins samans, Ef hann heyrer þig, þa hefur þu þinn Brodur unned.

16. Enn ef hann heyrer þig ei, þa tak eirn edur tvo til þijn, so ad j munne tveggia edur þriggia Votta stande oll Maalefne.

17. Nu ef hann heyrer eige þeim, þa seig þad Samkundunne. Enn ef hann heyrer ei Samkundunne, þa hallt hann sem annann Heidingia, og Tollheimtumann.

18. Sannlega seige eg ydur, Hvad hellst þier binded a Jordu, skal og a Himnum bundid vera, og hvad hellst þier leysed a Jordu, skal leyst vera a Himne.

19. Frammveigis seige eg ydur þad, ef tveir af ydur samtaka a Jordu um hvorn hlut sem þad er, ad þeir vilia bidia, skal þeim veitt vera af mijnum Fodur sem a Himnum er.

20. Þviad hvar tveir eda þrijr samansafnader eru j mijnu (a) Nafne, þar em eg midt a millum þeirra.

(a) (Nafne) epter minne skipan og mier til Vegsemdar, Þa geingur þad alltsamann vel til.

21. Þa gieck Petur til hans og sagde, Herra, Hvorsu opt skal eg mijnum Brodur, þem sem vid mig brytur, fyrergiefa? er þad nog Siosinnum?

22. JEsus sagde til hans, Eg seige þier, eige siosinnum, helldur siotygesinnum siosinnum.

Gudspialled XXII. Sunnud. epter Trinitat.

23. Fyrer þvi er Himnarijke lijkt þeim Konunge sem reikna villde vid Þiona sijna.

24. Og er hann tok til ad reikna, kom eirn fyrer hann, sa er honum var skyldugur um tiju Þusund Punda,

25. Enn þa hann hafde eige til hvad hann skyllde gialllda, baud Herrann ad selia hann og hans Hwsfru og hans Born, og allt hvad hann aatte, og borga med.

26. Þa fiell sa Þion framm, tilbad hann og sagde, Herra, haf Þolinmæde vid mig, allt skal eg þier giallda.

27. Þa sa Herrann aumur a þeim Þioni, og liet hann lausann og gaf honum eirnenn upp skulldena.

28. Þa gieck sa same þion ut, og fann eirn af sijnum samlags þionum, sa var honum hundrad Peninga skylldugur, og hann greip hann, og tok fyrer Kverkar hans og sagde, gialllt mier hvad þu ert mier skylldugur.

29. Þa fiell hans samlags Þion framm, bad hann og sagde, haf þolinmæde vid mig, þvi allt skal eg þier giallda.

30. Enn hann villde eige, helldur for hann til og liet hann j Dyflitsu, þar til hann hafde borgad þad hann var skylldugur.

31. Enn er hans sam-þionar sau hvad skiede, urdu þeir miog hriggver vid, komu og undervijsudu sijnum Herra allt hvad giorst hafde.

32. Þa kallade hans Herra hann fyrer sig, og sagde til hans, Þu hinn vonde Þion, alla þessa Skulld gaf eg þier til, med þvi þu badst mig.

33. Skyllder þu þa eige miskunsamur vera vid þinn samlags þion, lijka sem eg var þier miskunsamur.
34. Og hans Herra vard reidur, og ofurselldi hann Kvolorонum, þangad til ad hann borgade allt hvad hann var skylldugur.
35. So mun og minn Himneskur Fader giora vid ydur, ef þier fyrergiefid eige af ydrum Hiortum hvor eirn sijnum Brodur hans Misgiorder.]

## XIX. Capitule.

JEsus (I). Læknar marga: (II) talar um Hionaband: (III) leggur Hendur yfer ung-Born: talar um hina Rijku.

I. 1. Og þad skiede sem JEsus hafde lyktad þessar Rædur, ad hann for af Galilea og kom j Endemerkur Gydinga-lands odrumeigin Jordanar.
2. Og margt Folk filgde honum epter, og þar læknade hann þa.
II. 3. Þa geingu Pharisæi til hans, freistudu hans og sogdu til hans, er þad nockud riett, ad Madurinn skilie sig vid sijna Eigenkonu fyrer hvoria sem eina Sok?
4. Enn hann svarade og sagde til þeirra, Hafed þier ei lesid, * ad sa er j upphafe skapade Mannenn, hañ giorde þad, ad vera skyllde eirn Madur og Kona. * 1 B. Mos. 1, 27.
5. Og sagde, * Fyrer þvi mun Madurenn forlaata Fodur og Modur, og vera hia Eiginnkonu sinne, og þaug tvo munu eitt holld vera. * 1 B. Mos. 2, 24.
6. So eru þaug nu eige Tvo, helldur eitt Hollд, Þar fyrer, hvad Gud hefur samanteingt, þad skal Madurinn eige j sundurskilia.
7. Þa sogdu þeir, Fyrer þvi baud * Moyses þa, ad giefast skyllde Skilnadarskra, og skilia sig vid hana? * 5 B. Mos. 24, 1.
8. Hann sagde til þeirra, Moyses hefur fyrer (a) Hardwod ydars Hiarta leyft ydur ad forlaata hwsfreyur ydar, enn af Upphafe var þad ecke so.

(a) (Hardwod) Sum Løg kienna, sum forbioda, þaug fyrre kienna þad besta, þau seirne forbioda þad vonda, so þar skule ecke verda verra af, Þar fyrer leyfa þaug margt af þvi sem illt er, so sem þad veralldlega Sverd giorer.

9. Enn eg seige ydur þad, Hvor sijna Eigenkonu forlætur (nema þad sie fyrer Hornunar sok) og giptest annare, sa driiger Hor. Og hvor frastilinne giptest, sa driiger og so Hor.
10. Þa sogdu Læresveinarner til hans, Ef so er hattad mannsins Maalefnum vid Eigenkonuna, þa er eige gott ad giptast.
11. Enn hann sagde til þeirra, Þetta Ord fa ei aller hondlad, helldur þeir, hvorium þad er giefid.
12. Þviad þa eru nockrer Gelldingar, sem so verda af Modurkvide fædder, og þeir Gelldingar eru nockrer hvorier af Monnum eru gelldter, og þar eru og lijka þeir Gelldingar sem sig (b) sialfa hafa gelldt fyrer Himnarijkis saker. Sa gripid getur hann gripe þad.

(b) (Sialfa) su Þridiaslags Gellding hlytur ad vera andleg, sem er eitt sialfviliugt Skijrlijfe. Annars være þesse eitt og hid sama sem hin, er skiedur lijkamlega.

III. 13. Þa voru Smaborn til hans hofd, so ad hann legde Hendur yfer þau, og bædest fyrer, Enn Læresveinarner avijtudu þa.
14. Enn JEsus sagde til þeirra, Laated Bornenn kyrr, og forbioded þeim ei til mijn ad koma, þviad slijkra er Himnarijke.
15. Og er hann hafdi Hendur yfer þau lagt, geck hann þadan.
IV. 16. Og sia, ad eirn gieck ad honum og sagde, Gode Meistare, Hvad skal eg þess gott giora ad eg eignest Eylijft Lijf?
17. Enn hann sagde til hans, Hvad kallar þu mig (c) Godann, eingenn er godur utañ alleina Gud. Enn ef þu villt til Lijfsins inngaanga, so hallt þu Bodordenn.

(c) (godann) Þad er ad skilia. Med þvi þu helldur mig fyrer einnugis Mann, þa mattu vita, ad ef eg være madur ad eins, og ecke Þar jafnframt sannur Gud, þa mætte eg ecki riettelega godur kallast, þvi aller Menn eru Vonder, og affallner.

18. Hann sagde þa til hans, Hvor hellst? JEsus sagde, * Ei skalltu Mann vega, Ei skalltu horast, Ei skalltu stela, Eige skalltu Liugvitne mæla. * 2 B. Mos. 20, 13.

19. Heidra skalltu Fødur þinn og Modur, og elska skalltu Naunga þinn so sem sialfann þig.
20. Pa sagde hinn unge Madur til hans, Þetta allt hef eg halldid j fra Barnæsku minne, Hvad brestur mig þa?
21. JEsus sagde til hans, Ef þu villt (d) algiordur vera, far burt og sel allt hvad þu hefur, og gief Fatækum, og muntu þa Siod hafa a Himne, og kom og filg mier epter.

(d) Algiorleg'eike, er ad hallda Guds Bodord riettelega, Þaraf er Þad augliost, ad Þesse unge Madur hafde ecke j Raun halldid Bodordinn, so sem hann meinte, og Þad lætur Christur hann Þar utaf vita, ad hann setur framm fyrer hann Þaug Bodordanna riettu verk, og dæmer, ad eingenn Rijkur, sa ed meir elskar Rijkdom sinn, enn Gud, verde saluhølpenn, a medal hvørra ad þesse unge Madur var einn, nu verda þeir þo saluhølpner sem hallda Bodordenn.

22. Og er hinn unge Madur heyrde þad Ord, gieck hann hriggur fra hønum, þviad hann hafdi miklar Eigur.
23. Enn JEsus sagde til sinna Læresveina, Sannlega seige eg ydur, ad einn Rijkur Madur kiemur torvelldelega j Himnarijke.
24. Og enn seige eg ydur, þad audvellldara er Ulfballdanum ad smiuga j giegnum Nalar auga, enn Rijkum Manne ad koma i Gudsrijke.
25. Og er hans Læresveinar heyrdu þad, urdu þeir miog ottaslegner, og sogdu, Hvør fær þa hialpast?
26. Enn JEsus leit vid þeim, og sagde til þeirra, Hia Mønnum er þad omøgulegt, enn hia Gude er allt møgulegt.
27. Pa svarade Petur og sagde til hans, Siadu, vier forlietum allt, og filgdum þier epter, Hvad skulum vier hafa j stadenn?
28. Enn JEsus sagde til þeirra, Sannlega seige eg ydur, ad þier, hvørier mier hafid epterfilgt, þier skulud j Endurfædingunne, þa er Mannsins Son situr a Stole sinnar Tignar, sitia eirnenn a tolf Stolum, dæmande tolf Kinkvijsler Jsraels.
29. Og hvør hann forlætur Hws eda Brædur, Systur, Fødur eda Modur, eda Eiginnkonu eda Børn, eda Akra fyrer mijns Nafns saker, sa mun hundradfalldt j stadinn taka, og erfa Eylijft Lijf.
30. Enn marger þeir sem eru firster, verda sijdaster, Og þeir sem sijdaster eru verda hiner firstu.

## XX. Capitule.

JEsus talar (I) um verka Menn i Vijngardenum: (II) um sinn dauda: (III) lastar Drambseme: (IV) læknar Tvo Blinda.

Gudspiall: d. I. Sunnud. i Nijuvikna Fostu.

1. Himnarijke er lijkt þeim Husfødur sem utgieck um Morgunenn, Verkamenn ad leigia j Vijngard sinn.
2. Enn ad giordum Samninge vid Verkamennena um einn Pening til Daglauna, sende hann þa j sinn Vijngard.
3. Og nær þridiu Stund gieck hann ut, og leit adra Jdiulausa standa a Torgenu.
4. Og sagde til þeirra, Fared þier og so j Vijngardenn, og hvad riett er mun eg giefa ydur.
5. Þeir geingu og þangad. Og enn gieck hann ut aptur, um siøttu og nijundu Stund, og giorde so lijka.
6. Enn um elleftu Stund gieck hann ut, og fann enn adra standa Jdiulausa, og sagde til þeirra, Hvar fyrer standed þier hier allann Dag Jdiulauser?
7. Þeir sogdu til hans, Þviad eingenn hefur leigt oss. Hann sagde til þeirra, Fared þier og j Vijngardenn, og hvad riett er skulud þier fa.
8. Enn þa Kvølld var komid, sagde Herrann Vijngardsins til sijns Radsmanns, Kalladu Verkamennena og gialld þeim Verdkaupid. Og tak til a enum Seinasta og allt til hins Firsta.
9. Pa komu þeir sem um elleftu Stund leigder voru, og hvør fieck sinn Pening.
10. Enn er hiner firstu komu, meintu þeir þad þeir mundu fa meira, og hvør þeirra fieck sinn Pening.

11. Og þa er þeir høfdu hann medtekid, mogludu þeir a mote Husfødurnum.
12. Og søgdu, Þesser seinustu hafa eina Stund Ervidad, og þu giorder þa oss jafna, vier sem borid høfum Byrde og Hita Dagsins.
13. Enn hann svarade og sagde til eins þeirra, Vinur, eige giøre eg þier oriett. Ertu ei asaattur ordenn vid mig um einn Pening?
14. Tak hvad þitt er, og far burt. Enn þessum seinasta vil eg gefa so sem þier.
15. Eda hef eg ecke Makt til ad giøra af mijnu hvad eg vil? Ertu þar fyrer Roangeygdur þo ad eg sie godgiarn?
16. So munu sijdaster verda hiner firstu, og firster hiner sijdustu. Þviad marger eru kallader, enn faer utvalder.]
II. 17. Og hann ferdadist upp til Jerusalem, og tok þa tolf Lærisveina sierilage til sijn a Veigenum og sagde til þeirra.
18. Siaid, Vier reisum nu upp til Jerusalem, og mannsins Son mun ofurseliast Prestahøfdingium og Skriftlærdum, og þeir munu hann fordæma til dauda.
19. Og ofurselia hann Heidingium til ad spottast og Hudstrykiast, og Krossfestast, Og a þridia deige mun hann uppaptur rijsa.
III. 20. Þa gieck Moder Zebedei Barna til hans, med Sonu sijna, fallande fyrer hann framm, og bad nockurs af honum.
21. Og hann sagde til hennar, hvad villtu? hun sagde til hans, lat þessa mijna tvo Sonu sitia j Rijke þijnu, einn til þinnar hægre Handar, og annann til þinnar vinstre Handar.

22. Enn JEsus svarade og sagde, þier vited eige hvors þier bidied, gieted þid þann (a) Kaleik drucked hvorn eg mun drecka, og þeirre Skijrn skijrst hvorre eg mun skijrast? Þeir søgdu til hans, ja vel.

(a) (Kaleik) þad er Sorg og Motgang, enn holldid vill ætijd vera dyrdlegt adur enn þad krossfestest, og upphafed adur enn þad nidurlægest.

23. Og hann sagde til þeirra, minn Kaleik munud þid ad Sonnu drecka, og þeirre Skijrn, hvorre eg skijrest, munud þid skijrast. Enn þad, ad sitia til minnar hægre og vinstre Handar, er eige mijn ydur ad giefa, helldur þeim, hvorium, þad er fyrerbuid af mijnum Fodur.
24. Og er þeir tiju heyrdu þad, þycktust þeir þeim tveimur Brædrum.
25. Enn JEsus kallade þa til sijn og sagde, þier vitid ad verallldleger Høfdingiar Drottna, og þeir ed vollduger eru hafa Makt.
26. So skal ei vera ydar a mille, helldur hvor hann vill ydar a mille Vollduguꝛ vera, sie sa ydar þienare.
27. Og hvor ydar sem fremstur vill vera, vere hann ydar þion.
28. Lijka so sem Mannsins Son kom eige ad hann liete sier þiona, helldur uppa þad hann þionade, og giæfe sitt Lijf til Endurlausnar fyrer marga.
IV. 29. Og þa er þeir geingu utaf Jericho, filgde honum margt Folk epter.
30. Og sia ad tveir Blinder satu vid Veigenn, og þa þeir heyrdu þad, ad JEsus gieck þar framm hia, kolludu þeir og søgdu, o HErra Sonur Davids miskuna þu ockur.
31. Enn Folkid hastade a þa, ad þeir þegde, enn þeir kolludu þvi meir og søgdu, o HErra Sonur Davids miskuna þu ockur.
32. Og JEsus stadnæmdest, kallade a þa og sagde, hvad vilied þid ad eg skule giøra ydur?
33. Þeir søgdu til hans, Herra, þad, ad ockar Augu upplukest.
34. Enn JEsus sa þar aumur a, snart Augu þeirra, og jafnskiott urdu þeirra Augu siaande aptur, og þeir filgdu honum epter.

## XXI. Capitule.

JEsus rijdur (I) jnn j Jerusalem: (II) Formæler Fijkiu-Trenu: (III) Vill ecke segia, hvert Valld hann hefde til at hreinsa Mustered: (IV) Kenner, ad storSyndarar gete og so orded Saaluhølpner: (V) seger þad fyrer framm, ad Guds Rijke skyllde takast burt fraa Gydingum.

Gudspialled I. Sunnudag i Adventu, og a Paalma Sunnudag.

I. Þa er þeir nu komu nærre Jerusalem, og voru komner til Bethphage vid fialled Oliveti,

Oliveti, sende JEsus ut two sijna Lære-
sveina.
2. Og sagde til þeirra, fared þid j þad
Kauptun sem syrer yckur er, og strax munud
þid finna Ösnu bundna, og Fola hia henne,
leysid þau og leidid til mijn.
3. Og ef einhvor seiger nockud til yckar þa
seigid, ad Herrann hafe þeirra þorf, og
jafnsnart mun hann laata þaug laus.
4. Enn allt þetta skiede so ad uppfylltest
hvad sagt er fyrer Spaamannenn, er seiger.
5. * Seiged Dotturinne Zion, sia, þinn
Kongur kiemur til þijn Hogvær, sitiande a
Ösnu og a Fola klifbærrar Ösnu.
* Sach. 9, 9.
6. Enn Læresveinarner geingu burt og gior-
du so sem JEsus hafde bodid þeim.
7. Og sóktu Ösnuna og Folann, og lógdu
yfer þaug sijn Klæde, og settu hann þar uppa.
8. Enn margt af Folkenu breidde sijn Klæ-
de a Veigenn, og adrer hiuggu Kvistu af
Trianum, og dreifdu þeim a Veigenn.
9. Enn þad Folkid sem fyrer gieck og epter
filgde, kallade og sagde, (a) * Hosianna
Syne Davids, Lofadur sie sa sem kiemur j
Nafne Drottins, Hosianna j Hærstum Hæ-
dum.] * Psalm. 118, 26.
(a) (Hosianna) Þijdist a Norrænu, æ hialpa þu,
edur, æ gief þu Luckn og Velferd.
10. Og er hann for jnn j Jerusalem, var
oll Borgenn uppvægd, og sagde, hvor er
þesse?
11. Enn Folkid sagde, þetta er JEsus
Spaamadur af Nazareth ur Galilea.
12. Og JEsus gieck jnn j Guds Mustere,
og rak ut alla Seliendur og Kaupendur j Mu-
sterenu, og Bordum Verdslunarmanna og
Stolum þeirra er Dwfur selldu, hratt hann
um.
13. Og sagde til þeirra, skrifad er, * mitt
Hus skal Bænahus kallast, enn þier hafid
giort þad ad Spillvirkia bæle. * Es. 56, 7.
14. Og til hans geingu Blinder og Hall-
ter j Musterid, og hann læknade þa.
15. Enn er Kiennemanna Hofdingiar og
Skriftlærder sau þa dasamlega Giorninga
sem hann giorde, og þad Bornenn kolludu j
Musterenn og sogdu, Hosianna þeim Syne
Davids, reiddust þeir.
16. Og sogdu til hans, heyrer þu nockud
hvad þesser seigia? JEsus sagde til þeirra,
hafed þier alldrei lesed þad, * af Munne Ung-
barna og Briostmylkinga hefur þu Lofid til-
reidt. * Ps. 8, 3.
17. Og hann forliet þa og gieck utaf Bor-
genne til Bethanien og dvalde þar.
II. 18. Enn ad Morgne er hann gieck aptur
til Borgarennar, hungrade hann.
19. Og hann sa eitt Fikiutrie vid Veigenn,
og gieck þangad ad, og fann eckert a þvi, ne-
ma einasta Blodenn, og sagde til þess, hie-
dan j fra vaxe alldrei nockur Avoxtur af þier,
og þad Fikiutrie visnade upp jafnsnart.
20. Og er Læresveinarner sau þad, undru-
dust þeir og sogdu, hvernenn er Fikiutried so
snart visnad?
21. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra,
sannlega seige eg ydur, ef þier hafid Truna og
efid eige, þa munud þier eige einasta giora
slijkt vid Fikiutried, helldur, ef þier segdud
þessu Fialle, tak þig upp og steing þier j Sioenn,
þa munde þad skie.
22. Og allt hvad þier bidied j Bænenne,
ef þier trued þvi, þa munud þier þad odlast.
III. 23. Og sem hann kom j Musterid, gein-
gu til hans, sem hann var ad kienna, Pre-
stahofdingiar og Olldungar Lydsins og sogdu,
ut af hvada Makt giorer þu þetta, og hvor
gaf þier þessa Makt?
24. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra,
eg vil og spyria ydur ad einu Orde, ef þier sei-
ged mier þad, vil eg seigia ydur ut af hvada
Makt eg giore þetta.
25. Skijrn Johannis, hvadann var hun,
hvort af Himne, edur af Monnum? Enn þeir
hugsudu med sier, og sogdu, ef vier seigium,
hun sie af Himne, þa seiger hann til vor,
þvi truduð þier honum þa eige?
26. Enn ef vier seigium hun hafe verid af
Monnum, þa meigum vær ottast Folkid,
hvad.

þviad aller hielldu Johannem fyrer Spąmann.

27. Og þeir svorudu JEsu og sögdu, vier vitum ei, hann sagde þa til þeirra, so seige eg ydur ei helldur af hvorre Makt eg giere þetta.

IV. 28. Enn hvad lijst ydur? Madur nockur hafde tvo Sonu, og gieck til hins firsta og sagde Son minn, far þu j Dag ad vinna j Vijngarde mijnum.

29. Enn hann svarade og sagde, ei vil eg þad giora: eptera Idrade hann þessa, og gieck j burt.

30. Og hann gieck til hins annars, og sagde slijkt hid sama, enn hann svarade og sagde, ja Herra, og for ecke.

31. Hvor af þeim tveimur giorde Födursins Vilia? þeir sögdu til hans, hinn firste, JEsus sagde til þeirra, sannlega seige eg ydur, ad Tollheimtarar og Putur meiga (b) firre komast j Himna Rijke enn þier.

(b) (firre komast) Þad er miklu mögulegra, ad Skiækiur og Skalkar verde sæluhölpner enn drambsamer helge-verkamenn, þviad hiner munu um sijder finna til sinna Synda, enn Þesser deyia j sijnum eigenn Heilaglelka, verde Þeim ei fundannlega a rietta leid snuid.

32. Johannes kom til ydar og kiende ydur hann rietta Veg, og eige trudud þier honum, enn Tollheimtu-Menn og Putur trudu honum. Og þo ad þier sæud þetta vel, giordud þier öngva Yferbot, so ad eptira hefdud þier honum truad.

V. 33. Heyred enn adra Epterlijking. Husfader nockur var þar, sa ed plantade Vijngard, og girdte j kriingum hann, og grof j honum Vijnpressu, og uppbygde Turn, og leigde hann sijdann Vijngards Monnum, og ferdadest Utannlands.

34. Enn þegar Avaxtartijmenn kom, sende hann sijna Piona til Vijngards Mannanna, ad þeir medtæke hans Avoxtu.

35. Pa toku Vijngardsmennerner hans Piona, þann eina strijktu þeir, annann aflijfudu þeir, hinn þridia gryttu þeir.

36. J annad sinn sende hann adra Piona ut, sem fleyre voru hinum firre, og þeim giordu þeir slijkt hid sama.

37. Par epter sende hann Son sinn til þeirra og sagde, þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum.

38. Enn er Vijngardsmennerner sau Soninn, sögdu þeir hvor til annars, þesse er Erfingenn, komed þier, og aflijfum vær hann, og leggium vier under oss hans Arfleyfd.

39. Og þeir gripu hann, og ráku hann ut af Vijngardenum, og aflijfudu hann.

40. Enn nær HErrann Vijngardsins kiemur, hvad mun hann giora vid þessa Vijngardsmenn?

41. Peir sögdu til hans, þeim vondum mun hann vondslega fyrerfara, og sinn Vijngard byggia ödrum Vijngardsmonnum, þeir ed honum Avoxt giallda j riettann Tijma.

42. JEsus sagde til þeirra, hafed þier alldrei lesid j Ritningunne, * þann Stein sem Byggendur hofdu utkastad, hann er ordenn ad Hyrningar Steine. Af Drottne er þad giort, og er undarlegt fyrer vorum Augum.

* Ps. 118, 22. Es. 28, 16.

43. Fyrer þvi seige eg ydur, ad Guds Rijke mun fra ydur takast, og Heidingium giefid verda, þeir sem þaraf avoxt færa.

44. Enn hvor yfer þennann Stein (c) fellur, hann mun sundur myliast, enn yfer hvorn hann fellur, þann mun hann sundur meria.

(c) (Fellur) aller munu steyta sig a Christo, sumer til yferbotar, enn sumer til Hneixlunar.

45. Og þa þeir yppurstu Prestar og Phariseí heyrdu hans Epterlijkingar, formerktu þeir, þad hann talade um þa.

46. Og leitudu vid ad grijpa hann, enn otthudust þo Folkid, þviad þad hiellt hann fyrer Spąmann.

## XXII. Capitule.

JEsus talar (I) um Utskufun Gydinganna, og ad Heidingiarner ættu ad medtakast: (II) kenner ad greida Skatt: (III) Predikar um Upprisuna: (IV) Spyr Phariseana, hver hann se?

Gudspialled XX. Sunnud. ept. Trinitatis.

I. Og JEsus svarade og talade j annad sinn j Epterlijkingum til þeirra, og sagde.

2. Himnarijke er lijkt þeim Konge sem Brudkaup giorde Syne sijnum.

3. Og sende ut sijna Þiona ad kalla Bodsmennena til Brudkaupsins, og þeir villdu eige koma.

4. J annad sinn sende hann adra Þiona ut, og sagde, seiged Bodsmønnunum, siaed mijna Maltijd hefe eg tilbuid, mijner Uxar og Alidfie eru slatrader, og allt er til reidubuid, komid til Brudkaupsins.

5. Enn þeir forsmadu þad, og geingu j burt, eirn a sinn Akur, enn annar til sinnar Sijslunar.

6. Enn nockrer gripu hans Þiona, dærudu þa og drapu.

7. Enn þa Kongurenn heyrde þad, vard hann reidur, og sende ut sinn Her, og fyrerfor þessum Mordingium og brennde Borg þeirra.

8. Þa sagde hann til sinna þiona, Brudkaupid er ad Sonnu reidubuid, enn Giesterner þeir voru þess eige verduger.

9. Fyrer þvi fared ut a Strætinn, og biodid til Brudkaupsins hvorium sem þier finned.

10. Og Þionarner geingu ut a Strætenn og samannsøfnudu ollum þeim þeir fundu, Vondum og Godum, og Bordenn urdu alskipud.

11. Þa gieck Kongurinn jnn ad sia Gestena, og hann sa þar Mann, eige klæddann (a) Brudkaups Klædum.

(a) (Brudkaupsklæde) Þad er Truenn, Þvíad Evangelium utskufar Verk-Heilogum og medtekur þa sem trua.

12. Og sagde til hans, Vinur, hvornenn gieckstu jnn hingad hafande ecke Brudkaups Klæde?

13. Enn hann þagde, Kongurinn sagde þa til sinna Þienara, bindid hans Hendur og Fætur, og kastid honum j ytstu Mirkur, þar mun vera Op og Tannagnistran.

14. Þviad marger eru kallader, enn fair utvalder.]

Gudsp. XXIII. Sunnud. epter Trinit.

II. 15. Þa geingu Pharisei burt, og hielldu raad, hvornenn þeir skylldu veida hann j Ordum.

16. Og sendu til hans sijna Lærisveina med Herodis Þienurum, og sogdu, Meistare, vier vitum ad þu ert sannsogull og kienner Guds Veg riettelega, og skeyter eige nockrum, þviad þu ser ei ad Mannvirdingum.

17. Fyrer þvi seig oss hvad þier lytst, er þad riett ad giefa Keisaranum Skatt, edur ei?

18. Enn þa JEsus formerkte þeirra flatskap, sagde hann, hvad freisted þier mijn Hræsnarar?

19. Syned mier Myntina Skattsins, og þeir feingu honum eirn Pening.

20. Og hann sagde til þeirra, hvors er þesse Mind og Yferskript?

21. Þeir sogdu honum, Keisarans, þa sagde hann til þeirra, giefed þa Keisaranum hvad Keisarans er, og þad Gudi sem Guds er.

22. Og er þeir heyrdu þad, undrudust þeir, forlietu hann og geingu j burt.]

III. 23. A þeim sama Deige geingu Saducei til hans, hvorier ed hallda upprisuna ei vera, og spurdu hann ad.

24. Og sogdu, Meistare, Moyses hefur sagt, * þa nockur andadest, og hefde eige Barn epter, þa skyllde hans Broder eiga hans Eigennkonu, og uppvekia sijnum Brodur Sæde. * 5 B. Mos. 25, 5.

25. Enn hia oss voru sio Brædur, hinn firste fastnade sier Konu, og hann andadest, og af þvi hann hafde eckert Sæd, liet hann Brodur sijnum epter sijna Eigennkonu.

26. Lijka sa annar og hinn þridie, allt til siounda.

27. Enn sijdast epter alla þa andadest og Konann.

28. Hvors þeirra sio verdur hun nu eiginkona j Upprisunne? þviad aller þeir hafa hana haft.

29. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra, þier villest, og vited ecke Ritningarnar, nie helldur Guds Krapt.

30. Þviad j Upprisunne munu þeir hvorki kvongast nie sig kvonga lꜳta, helldur eru þeir sem Einglar Guds a Himne.

31. Enn hafed þier ei lesed af Upprisu framlidenna, hvad af GUde er ydur sagt, er hann seiger.

32. * Eg er GUd Abrahams, og GUd Isaacs, og GUd Jacobs, enn GUd er ei GUd Daudra, helldur lifande Manna.

* 2 B. Mos. 3, 6.

33. Og er Folkid heyrde þetta, undradest þad hans Kienning.

Gudsp. XVIII. Sunnud. epter Trinit.

IV. 34. Enn þegar Phariseí heyrdu, þad hann hafde þaggad Saduceos, søfnudust þeir samann.

35. Og eirn Løgvitringur medal þeirra, freistade hans og sagde.

36. Meistare, hvort er hid ædsta Bodord i Løgmalenu? En JEsus sagde til hans.

37. * Elska skalltu DRottenn Gud þinn, af ølln Hiarta, af allre Sꜳlu, og af øllu Hugskote. * 5 B. Mos. 6, 5.

38. Þetta er hid hellsta og mesta Bodord.

39. Enn annad er þessu lijkt, * Elska skalltu Naunga þinn sem sialfann þig.

* 3 B. Mos. 19, 18.

40. J þessum tveimur Bodordum heinger allt Løgmꜳl og Spꜳmennerner.

41. Enn þegar Phariseí voru nu til samans, spurde JEsus þa ad.

42. Og sagde, Hvad virdest ydur um Christum, hvørs Son ed hann sie? Þeir søgdu Davids.

43. Hann sagde til þeirra, Hvorninn kallar David hann þa j Anda eirn DRottenn? er hann seiger.

44. * DRottenn sagde mijnum DRottne, Sit þu til minnar hægre Handar, þar til eg legg Ovine þijna til Skarar þinna fota.

* Psalm. 110, 1.

45. Nu ef David kallar hann DRottenn, Hvørnenn er hann þa hans Sonur?

46. Og eingenn gat hønum einu Orde svarad, og eige dyrfdest nockur uppfra þeim Deige, hann framar ad spyria.]

# XXIII. Capitule.

JEsus Rꜳdleggur (I) ad þeim se hlijdt er sæte a Mojes Stole: (II) Hropar Vei yfer Andlegum Hræsnurum: (III) Talar um Gudleyse Jerusalems Borgarlyds.

I. Þa talade JEsus til Folksins, og til sinna Læresveina.

2. Og sagde, A Mosis Stole sitia Skriftlærder og Phariseí.

3. Allt hvad þeir seigia ydur þier skulud hallda, þad halldid og giorid, en epter þeirra Verkum skulud þier eige giøra. Þviad þeir seigia þad, og giora ei.

4. Þeir samannbinda þungar Byrder og obærelegar, og leggia þær Mønnum a Herdar, enn sialfer vilia þeir ei ahræra þær fingre sijnum.

5. Þviad øll sijn Verk giøra þeir, ad þeir siaest af Mønnum. Sijn (a) Minningarblød breidka þeir, og falld sinna Klæda stæcka þeir.

(a) (Minningarblød) DRottenn hefur bodid Gydingum Num. 15, 38. 39. ad þeir skylldu giøra Bremingar, framann a sijnum Klædum, og leggia þær med blaum Silke Snurum, og sumar Bremingar skylldu þiena þar til, Ad so opt sem þeir litu þær, Mal. 1, 6. þa skylldu þeir minnast Bodorda DRottins, og giøra þaug. Nu so ad Pharisearner mætti synast sem jdnglegast minnuger Bodorda DRottins, þa stæckudu þeir miøg þessar Bremingar.

6. Þeir sitia giarnann Efst til Bords, og j Samkunduhusum.

7. Og vilia giarnann Kvediur a Torgum, og af Mønnum Rabbi kallader verda.

8. Enn þier skulud ei lꜳta kalla ydur Rabbi, þviad eirn er ydar Meistare Christur, enn þier aller erud Brædur.

9. Og ongvann skulud þier Fødur kalla a Jørdu, Þviad eirn er ydar Fader sa sem a Himnum er.

10. Og þier skulud ei lꜳta ydur Meistara kalla, þvi eirn er ydar Meistare Christur.

11. Sa sem ad mestur er ydar, sie hann
ydar Þienare.
12. Þvi hvor sialfann sig upphefur, sa mun
nidurlægast, og hvor sialfann sig nidurlæger,
hann mun upphafenn verda.

II. 13. Vei ydur Skriftlærdum og Phari-
seis, þier Hræsnarar, hvorier (b) apturloked
Himnarijke fyrer Mønnum, ei ganged þier þar
jnn, og þeim er þar jnn vilia ganga, þa losed
þier ei þar jnn.

(b) (Apturloked) Pharisei apturlokudu Himnarijke fyrer ødrum j þañ mata, at þeir settu sig upp j mote sønnum Lærdome sem Gud hafde opennberad j sijnu Orde, og frammsettu eirn annann uppdiktadann Lærdom, fyrer hvørn ecke opnadest Himnarijke, hell-dur Helvijte Mønnunnm.

14. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, Hvorier Eckna Hws uppe-
ted med yferhilmingu langra Bæna, Fyrer
þad munud þier þess meire Fordæming ødlast.
15. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, hvorier um kringum fared
Sio og Lond, so ad þier giored eirn ad Gydin-
ge, og nær hann er þad ordenn, giored þier hann
ad Barne Helvijtis, tvøfalldt meir enn þier
erud.
16. Vei ydur Blindum Leidtogurum, þier
sem seiged, hvor hann sver vid Musterid, þad er
eckert, enn hvor hann sver vid Gullid Muste-
resins, sa er sekur.
17. Þier Heimsker og Blinder, Hvort er
meira Gullid eda Musterid, hvort ed helgar
Gullid?
18. Og hvor ed sver vid Alltarid, þad er
eckert, Enn hvor hann sver vid þad Offur sem
a þvi er, sa er sekur.
19. Þier Heimsker og blinder, hvort er
meira Offrid edur Alltarid, þad sem Offrid
helgar?
20. Fyrer þvi, Hver hann sver vid Allta-
red, sa sver vid þad sama, og vid allt hvad þar
er uppa.
21. Og hvor hann sver vid Mustered, sa
sver vid þad og vid þann sem þar bygger jnne.
22. Og hvor hann sver vid Himenenn, sa
sver vid Guds Sæte, og vid þann sem þar
uppa situr.
23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, hvorier tiundid Myntu, Aneth
og Kumen, og yfergiefid þad hvad þyngst er j
Løgmaalenu, einkum Domenn, Miskun-
semd, og Truna, þetta biriade ad giora, og hitt
eige epter ad skilia.
24. Þier Blinder Leidtogarar, sem (c) syed
Mijfluguna, enn svelged Ulfballdann.

(c) (Syed) Þad er, þier giørid þrøngva Samvitsku Mønnum j þvi sem lijtils verdt er, og aktid einskis þad mest er verdt.

25. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, sem hreinum hallded hid ytra
Bikurum og Diskum, enn jnnann eru þeir
fuller Raans og (d) Ohoffseme.

(d) (Ohoffseme) meiningenn er, ad þeir hefde til sijns hripsad alla hlute, og lifad j Ofdryckiu og ohofe, ecke aktande um Gud nie Salena, þeirra Føt og Bikarar eru vel føgur, enn Maturenn og Drickurenn þar j er raan og ofneytsla.

26. Þu blindur Phariseare, hreinsa first
hid jnnra a Bikorum og Diskum, so ad hid
ytra verde og hreint.
27. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, hvorier lijker erud forfaagu-
dum Leidum Frammlidinna, hvor ed utann
synast føgur, enn jnnann eru þaug full af
Daudra manna Beinum, og allre oþeckt.
28. So erud og þier, hid ytra synest þier
ad vera goder fyrer Mønnunum, enn hid jnnra
erud þier fuller Hræsne og Odygda.
29. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis,
þier Hræsnarar, hvorier uppbygged Spaa-
manna Leidenn, og prijded Grafer Riettlaatra
manna.
30. Og seiged, Ef vier hefdum verid a Dø-
gum Fedra vorra, skylldum vær eige verid
hafa Hluttakande med þeim j Blode Spaa-
mannanna?
31. So bered þier sialfer ydur vitne, ad
þier erud þeirra Børn sem Spaamennena
aflijfudu.
32. Nu vel! Uppfylled mæling Fedra ydv-
vara.

33. Þier Eiturormar, þier Nodrukin, hvornenn vilied þier umflyia Helvijtska Fyrerdæming?

Gudspialled a Annann i Jolum.

III. 34. Fyrer þvi siaed, Eg sende til ydar Spaamenn, Spekinga, og Skriftlærda menn, og nockra af þeim munud þier aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier hyddstrykia j Samkunduhusum ydar, og af annare Borg j adra munud þier þa offækia.

35. So ad yfer ydur kome allt Riettlaatt Blod, sem a Jordena ut er hellt, j fra Blode Abels Riettlaata, allt til Blods Zachariæ Sonar (e) Barachia, hvorn þier draapud a mille Musteris og Alltarisins.

(e) (Barachias) Þesse Barachias hafde tvø Nøfn, Þviad 2 Paral. 42. heiter hann Jojada so sem tijdkanlegt er almennelega j Ritningunne og annarstadar med tvø Nøfn.

36. Sannlega seige eg ydur, ad allt þetta mun koma yfer þessa Kinslod.

37. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spaamennena, og gryter þa sem til þijn eru sender; Hvorsu opt hef eg viliad samannsafna Bornum þijnum lijka sem ad Hænann safnar Ungum sijnum under Vænge sier, og þier hafid eige viliad?

38. Siaed, Ydart Hws skal ydur j eyde laatid verda.

39. Þviad eg seige ydur, þier munud eige sia mig upp fra þessu, þar til þier seigid, Lofadur sie sa sem kiemur j Nafni DRottins.]

## XXIV. Capitule.

JEsus talar (I) um Jerusalems Foreydslu, og (II) um Ender Heimsens.

I. Og JEsus gieck utaf Musterinu, og hans Læresveinar geingu til hans, ad þeir synde honum Bygging Musterisins.

2. Enn JEsus sagde til þeirra, siaed þier ecke allt þetta? Sannlega seige eg ydur, ad hier mun eige vera Steirn yfer Steine, sa er eige mun nidurbrotinn verda.

3. Enn sem hann sat a Fiallenu Oliveti, geingu hans Lærisveinar til hans einslega, og sogdu, Seig oss hvonær þetta mun skie, og hvort Teikn er þinnar Tilkomu, og Veralldarennar Enda?

4. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra, siaed til ad eingenn ville ydur.

5. Þviad marger munu koma under mijnu Nafne, og seigia, Eg em Christur, og þeir munu marga villa.

6. Þier munud heyra Bardaga og Bardaga tijdende, siaed til, ad þier skielfest ecke, þviad allt þetta hlytur First ad skie, Þo er þa ei Enderenn komenn.

7. Þviad þar mun ein Þiod hefia sig upp j mote annare, og eitt Kongsrijke j mote odru og þar munu vera Drepsotter og Dyrtijd, og Jardskialftar ollumeigenn.

8. Þa munu hid firsta Harmkvælingarnar byriast.

9. Þa munu þeir ofurselia ydur j Hardkvæle, og ydur munu þeir Lijfe firra, og þier verded hatader af ollum Þiodum fyrer mijns Nafns saker.

10. Og þa munu marger Hneixlast, og innbyrdis hvor annann svikia, og hvor annann innbyrdis hata.

11. Og marger Fals-spaamenn munu sig þa upphefia, og marga afvega leida.

12. Og af þvi ad Ranglæted mun yfergnæfa, mun Kiærleikur margra kolna.

13. Enn hvor ed stadfastur blijfur allt til Enda, sa mun holpenn verda.

14. Og Evangelium Rijkesins mun predikad verda um allann Heim, til Vitnisburdar yfer allar þioder, og þa mun Enderenn koma.

Gudspialled XXV. Sunnud. epter Trinit.

15. Nær þier siaed nu (a) Svivirding eydeleggingarennar, af hvorre sagt er fyrer Spaamanninum Daniel, ad hun stendur j þeim Heilaga Stad, Hvor þad les hann hygge þar ad. * Dan. 9, 27.

(a) (Svivirding) Þesse Svivirding hlytur ad hafa fyrer Gude sagra utvortis Helgedoms asynd fyrer Veroldenne, med hvorre sa riette Helgedomur afmaest, so sem Pavans yferdrottnan og Gydinga og Heidingia Afgudadyrdkun var fordumtijdis.

16. Hvor þa er a Gydingalande, flye sa uppa fioll.

17. Og hvør hann er a Ræfre, fare sa ei ofann, nockud ad taka ur sijnu Hwsi.

18. Og sa sem a Akre er, snue hann ei aptur ad sækia Klæde sijn.

19. Vei þungudum og þeim sem hafa Børn a brioste a þeim tijma.

20. Bidied ad ydar flotte skie ei a (b) Vetur, edur a Sabbaths deige.

(b) (Vetur) Þad er Ordtæke, merkiande so mikid, Siaed til ad þier flyed a tiltækelegum tijma, Þvi Þad er ecke gott a Vetrartijma ad ferdast, og a Sabbathsdøgum var Þad Gydingum forbodid.

21. Þviad þa mun verda so stor Hørmung, hvilijk ad eige var j fra Upphafi Veralldar allt til þessa, og eige helldur verda mun.

22. Og nema þad ad þesser Dagar sieu styttter, verdur eingenn Madur holpenn, En fyrer Utvaldra saker þa skulu þeir Dagar styttast.

23. Enn ef nockur seiger þa til ydar, (c) Siaed, Hier er Christur, þar, edur þar, þa skulud þier ei þvi trua.

(c) (Siaed þier) þetta eru Þeir Flockar og Reglumenn, sem leitast vid ad lifa vel utvortis og i synelegum Verkum, sierdeilislega eru nu Herberge eda Svefnhus øll andleg Klaustur, enn Eydemørkenn er pilagrijms Ferder, Heilager Stader, og Þaug Klaustur sem standa langt fra Bygdum.

24. Þviad upp munu rijsa Falschristar, og Falsspœmenn, og þeir munu giøra stor Takn og Undur, so ad j Villu munu leidast (ef skie mætte) eirnenn Utvalder.

25. Siaed, Eg seige ydur þad fyrer.

26. Þar fyrer, nær þeir seigia til ydar, Siaed, Hann er a Eydemørku, þa ganged ei ut, Siaed hann er j Herberge, þa trued eige.

27. Þviad so sem Ellding utgeingur af Austre, og skijn allt til Vesturs, liika so mun vera Tilkoma Mannsins Sonar.

28. Þviad hvar hellst ad (d) Hræed er, þangad safnast Ernerner.]

(d) (Hræed) Þetta er Ordtæke sem hefur slika Meining, vid vilium finnast; hvar eg er; Þar skulud Þier og so vera. Eins og Hræid og Aurnenn finnast vel og Þeim Þarf ecke ad vijsa til samans.

II. 29. Enn strax epter Hørmung þessara Tijma, mun Sol, sem Tungl missa sitt Skin, og Stiørnur munu af Himnum hrapa, og Kraptar Himnanna munu hræra sig.

30. Og þa mun Teikn Mannsins Sonar birtast a Himne. Og munu þa grœta allar Kinkvijsler Jardar, og þeir munu sia Mannsins Son komande j Skyum Himens, med Krapte miklum, og Dyrd.

31. Og sijna Eingla mun hann utsenda, med Bason og storre Raust, og hans Utvøldum munu þeir saman safna af fiorum Vindum, fra einne Endingu Himens til annarar.

32. Af Fijkiutrienu læred eina Epterlijking. Nær ed þess Kvister gioraſt frioer, og Laufenn vt spretta, þa vited þier þad Sumared er j nœand.

33. Lijka so, nær ed þier siaed allt þetta, þa vited, ad þad er nærre fyrer Dyrum.

34. Sannlega seige eg ydur, ad þesse Kinslood mun eige forganga, þar til ad allt þetta (e) skier.

(e) (Skier) þad er, allt Þetta skal taka til ad skie, a þessum tijmum a medan Þier lifid.

35. Himen og Jord munu forganga, enn mijn Ord munu ei forganga.

36. Enn af þeim Deige og Stundu veit eingenn, og ecke Einglar a Himnum, nema minn Fader eirn saman.

37. Enn lijka sem var um Daga Noe, so mun og verda Tilkoma Mannsins Sonar.

38. Þvi so sem þeir voru a þeim Døgum fyrer Flooded, ad þeir œtu, þeir drucku, þeir * giptust og lietu gipta sig, allt til þess Dags, a hvørium Noe gieck j Ørkena.

* 1 B. Mos. 6, 2.

39. Og þeir sættu þvi ei þar til ad Floded kom og tok þa alla a burt. So mun og vera j tilkomu Mannsins Sonar.

40. Þa munu tveir a Akre vera, og mun eirn upptekenn, enn annar forlœtenn verda.

41. Tvær munu j einu Kvernhwse malande vera, og mun ein upptekenn, og ønnur forlœtenn verda.

42. Fyrer

42. Fyrer þvi vaked, þviad þier vited eige, a hvorre Stundu ydar HErra mune koma.

43. Enn þad skulud þier vita ad ef Hwsfaderenn visse a hvorre Stundu ed Þiofurinn kiæme, munde hann vaka, og lꝏta ei sitt Hws j sundurgrafa.

44. Fyrer þvi vered þier og reidubuner, þviad Mannsins Son mun koma, a þeirre Stundu þier meined ecke.

45. Enn hvør hann er trur Þion og forsiall, sem Herrann hefur sett yfer sijn Hiu, ad hann giefe þeim Fædu j riettann Tijma.

46. Sæll er sa Þion nær hans Herra kiemur, og finnur hann so gioranda.

47. Sannlega seige eg ydur, ad hann mun setia hann yfer øll sijn Audæfe.

48. Enn ef eirn af þeim vondu Þionum seiger j sijnu Hiarta, minn Herra dvelur enn nu leinge ad koma.

49. Og tekur ad sla sijna Samlagsþiona, etur og dreckur med Dryckiurwturum.

50. Þa kiemur HErra þess Þions, a þeim Deige sem hann vonar eige, og a þeirre Stundu er hann meinar ei.

51. Og mun j sundurparta hann, og mun giefa hønum Laun med Hræsnurum, þar mun vera Oop og Tannagnistran.

## XXV. Capitule.

JEsus talar (I) um Þær Tiju Jomfrur: (II) um Pundeð sem Þionunum var fenged i hendur: (III) Um Doms Dag.

I. Þa mun Himnarijke lijkt vera tiju Meyum, hvoriar ad toku sijna (a) Lampa, og geingu ut j mote Brudgumanum.

(a) (Lampa) Lampar sem ecke er Oleum j, eru Godverk aan Truar, þeir hliota aller ad slockna, þesse Oliu Krus er Truinn j Samvitskune til Guds Naadar. Hun giører Þau Godverk sem dugangleg eru, enn so sem eingenn giefur hier annare af sijnu Oleo, so a og hvør ad trua fyrer sig.

2. Enn fimm af þeim voru Favijsar, og fimm forsialar.

3. Þær sem Favijsar voru, toku sijna Lampa, enn toku þo ecke Vidsmior med sier.

4. Enn hinar Forsialu toku j sijnum kierum Vidsmior, med Lompunum.

5. Og er Brudgumenn giørde dvøl a ad koma, syfiade þær allar, og sofnudu.

6. Enn um Midnætte kom Kall, siaed, Brudgumenn kiemur, ganged þier ut j mote hønum!

7. Þa stodu upp allar þessar Meyar, og pryddu sijna Lampa.

8. Enn þær Favijsu søgdu til hinna Forsialu, giefid oss af Vidsmiøre ydru, þviad vorer Lampar slockna ut.

9. Hinar Forsialu svørudu og søgdu, ecke, so ma vera ad ei sie nog fyrer oss og so ydur, fared þier helldur til Sølumanna og kauped ydur sialfar.

10. Enn er þær geingu ad kaupa, kom Brwdgumenn, og þær sem reidubunar voru geingu med hønum jnn so til Brudkaupsins, og Hurdenne var apturlokad.

11. Ad sijdustu komu og hinar adrar Meyar, og søgdu, Herra, Herra, lwk þu upp fyrer oss.

12. Enn hann svarade og sagde, sannlega seige ed ydur, ad eg þecke ydur eige.

13. Fyrer þvi vakid, þviad þier vitid eige þann Dag nie Stund, a hvørre Mannsins Son mun koma.

II. 14. Lijka sem sa Madur er ferdadest utanlands, kallade sijna Þiona, og fieck þeim sitt Gots.

15. Og einum fieck hann fimm (b) Pund, enn ødrum tvø, hinum þridia eitt, hvørium einum epter sijnum Mætte, og ferdadest strax af stad.

(b) (Pund) Pund er Guds Ord sem oss er tiltruad, hvør Þvi vel framfilger, hann abatast miøg þar af, og kenner mørgum ødrum, enn hinu sem lætur Þad nidre liggia, hann fær lijtinn Agoda þar af, Þvi Þad er j sialfu sier ad eins Ord, enn Þad framm kvæmer meir fyrer suma enn suma, Þar fyrer kallast þad stundum fimm Pund, stundum tvø Pund.

16. Þa gieck sa til sem fimm Pund hafde med tekid, og kaupslagade med þeim somu, og vann þar med ønnur fimm Pund.

17. Lijka eirnenn sa sem tvø Pund hafde medteked, vañ og a tvø ønnur.

18. Enn sa eitt Pund hafde medtekid, for burt, grof i Jordu, og falde þar siins Herra Fie.

19. Enn epter langann Tijma lidinn, kom Herrann þessara Þiona, og hiellt Reikningskap vid þa.

20. Þa gieck sa til sem fimm Pund hafde medteked, og lagde onnur fimm Pund þar til, og sagde, Herra, fimm Pund fieckstu mier, sia, onnur fimm hefe eg a-unned.

21. Hans Herra sagde honum, ey þu gode og trulynde Þion! þu hefur verid Trwr yfer litlu, eg vil setia þig yfer mikid, gak jnn j þijns Herra Fognud.

22. Þa gieck og sa ad sem two Pund hafde medtekid, og sagde, Herra, two Pund fieckstu mier, sia onnur two Pund hefe eg med þeim a-unnid.

23. Hans Herra sagde til hans, ey þu hinn gode Þion, og Trwlynde! þu varst trur yfer litlu, eg vil setia þig yfer mikid, gack jnn j þijns Herra Fognud.

24. Þa gieck sa ad sem eitt Pund hafde medteked, og sagde, Herra, eg veit ad þu ert hardur Mann, þu uppskier hvar þu soader eige, og samansafnar hvar þu dreifder eige.

25. Og ottasleigenn for eg burt og falde Pund þitt j Jordu. Sia! þar hefur þu þad hvad þitt er.

26. Enn hans Herra svarade og sagde til hans, þu vondur Þion, og latur! visser þu ad eg skier upp hvar eg soade ei, og samannsafna hvar eg dreifde eige?

27. Þvi byriade þier ad fa minn Pening Veslunarmonnum, og nær eg kiæme, hefde eg hvad mitt er til mijn teked med okre.

28. Fyrer þvi taked af honum þad Pund, og giefed honum sem tiju Pund hefur.

29. Þviad hvor hann hefur, honum mun giefed verda, og mun hann nægd hafa, enn hvor ed eige hefur, fra þeim mun teked verda og þad hann hefur.

30. Og þeim onyta Þion kasted þier j hin ytstu Myrkur, þar mun vera Oop og Tanna-gnistran.

Gudspialled XXVI. Sunnudag epter Trinitatis.

III. 31. Enn þa Mannsins Son mun koma j sinne Dyrd, og aller Helger Einglar med honum. Haun mun þa sitia j Sæte sinnar Dyrdar.

32. Og allar Þioder munu samansafnast fyrer honum, og hann mun þa sundurskilia hvoria fra odrum, so sem Hirder sundurgreiner Saude fra Kidum.

33. Og Saudunum mun hann skipa til sinnar hægre Handar, enn Kidunum til vinstre.

34. Þa mun Kongurinn seigia til þeirra sem a hægre Hond eru, komed hier þier Blessader Fodur mijns, og eignist þad Rijke sem ydur var tilbuid fra Upphafe Veralldar.

35. Þviad hungradur var eg, og þier gaafud mier ad eta, þyrstur var eg, og þier gaafud mier ad drecka. Giestur var eg, og þier hystud mig.

36. Nakenn var eg, og þier klæddud mig. Siukur var eg, og þier vitiudud mijn. Myrkvastofu var eg, og þier komud til mijn.

37. Þa munu hiner riettlaatu svara og seigia, Herra, hvonar saum vær þig hungradann, og mettudum þig? edur þyrstann og gaafum þier ad drecka?

38. Eda hvonar saum vær þig Giestkomenn og hystum þig? Eda Nakenn og klæddum þig?

39. Eda hvonar saum vær þig Siukann, eda j Myrkvastofu, og komum til þijn?

40. Og Kongurenn mun svara og seigia til þeirra. Sannlega seige eg ydur, hvad þier giordud einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier.

41. Þa mun hann og seigia til þeirra sem til vinstre Handar eru, farid burt fra mier þier Bolvader j eylijfann Elld, þann sem fyrerbuinn er Fiandanum og hans Arum.

42. Hungradur var eg, og þier gaafud mier eige ad eta, þyrstur var eg, og þier gaafud mier eige ad drecka.

43. Giestur var eg, og þier hystud mig eige. Nakenn var eg og þier klæddud mig eige. Siukur

kur og j mirkvastofu var eg, og þier vitiudud mijn eige.

44. Pa munu þeir svara honum og seigia, Herra, hvønar saum vær þig hungradann, þyrstann eda Giest edur nakenn, siukann edur j mirkvastofu, og høfum þier ecke þionad?

45. Pa mun hann svara þeim og seigia, sannlega seige eg ydur, hvad þier giordud eige einum af þessum enum minstu, þad giordud þier mier eige. Og munu þeir ganga j eylijfar Pijsler, enn Riettlaater j eylijft Lijf.]

## XXVI. Capitule.

JEsus er (I) smurdur af einne Konu: (II) Er sølkinn af Judas: (III) Afneitast af Petre.

I. Og þad skiede, þa JEsus hafde lycktad alla þessa Rædu, sagde hann til sinna Læresveina.

2. Pier vitid, ad epter tvo Daga eru Paskar, og Mannsins Son mun ofurseliast, ad hann krossfestur verde.

3. Pa søfnudust samann þeir ædstu Prestar, og Skriftlærder, og Ølldungar Lydsins j Høll Kiennemannahøfdingians, þess er Caiphas hiet.

4. Og hielldu Road hvornenn þeir giæte med slægd gripid JEsum, og lijflaatid hann.

5. Enn þeir søgdu, eige a Hoatijdardeigenum, so ad eige verde Upphlaup med Folkenu.

6. Enn þa JEsus var nu j Bethania, j Hwsi Simonis hins spitelska.

7. Gieck ein Kona ad honum, hafande eitt Glas dyrdligs Smyrslavatz, og hun hellti þvi yfer Høfud honum, þar hann sat vid Bordid.

8. Enn er þad sau hans Læresveinar, þyckti þeir vid og søgdu, til hvørs er þesse Spilling?

9. Petta Vatn hefde matt seliast fyrer miked, og giefast Fatækum.

10. Enn þa JEsus fornam þad, sagde hann til þeirra, hvad erud þier ysner vid þessa Konu? þvi (a) gott Verk giørde hun a mier.

(a) (Gott Verk) þar ma sia ad Truenn alleina giører Verked gott, hvad hvørs Manns Skinseme hefde fordæmt þetta Verk, so sem Postularner sialfer giørdu, þvi þaug eru Verkenn best sem Madur veit ei hvad gód ad eru.

11. Fatæka hafed þier jafnann hia ydur, enn mig hafed þier ei alla Tijma.

12. Pad hun hellte sijnu Smyrslavatne yfer minn Lijkama, þad giørde hun ad eg yrde (b) greftradur.

(b) (Greftradur) læt:d þad so ske, þetta er þad seinasta sem hun giefur mier, þvi eg mun deya.

13. Sannlega seige eg ydur, hvar þetta Evangelium predikad verdur j øllum Heime, mun sagt verda, j hennar Minning, hvad hun hefur giørt.

II. 14. Pa gieck burt eirn af þeim tolf, sa er Judas Iscarioth hiet, til Kiennemannahøfdingianna.

15. Og sagde, hvad vilied þier giefa mier, eg vil selia ydur hann? Enn þeir budu honum þriatijge Silfurpeninga.

16. Padann j fra leitade hann lags ad svijkia hann.

17. Enn a firsta Sætabrauds Deige geingu Læresveinarner til JEsum, og søgdu til hans, hvar villtu ad vier tilreidum þier Paskalambid ad eta?

18. Hann sagde, fared þier j Borgena til nockurs, og seiged honum, Meistarenn lætur seigia þier, Minn Tijme er j nannd, hia þier vil eg Paska hallda, med Læresveinum mijnum.

19. Og Læresveinarner giørdu so sem JEsus hafde þeim bodid, og reiddu til Paskalambid.

20. Enn ad Kvollde komnu sette hann sig til Bords med þeim tolf.

21. Og er þeir oatu, sagde hann, sannlega seige eg ydur, ad eirn ydar mun svijkia mig.

22. Og þeir hryggdust miøg vid, og hvør eirn þeirra sagde til hans, er eg þad nockud Herra?

23. Enn hann svarade og sagde, sa er Hendenne drepur j Fatid med mier, sa mun mig forraada.

24. Mann=

24. Mannsins Son mun ad sönnu fara so sem skrifad * er af hönum, enn þo vei þeim Manne fyrer hvorn Mannsins Son verdur svikinn, betra være þeim sama Manne hann hefde alldrei fæddur verid. * Psal. 41, 10.

25. Pa svarade Judas, sa er forried hann og sagde, er eg þad nockud Rabbi? Hann sagde til hans, þu sagder þad.

26. Og þa þeir neyttu, tok JEsus Braudid, giörde þacker og braut þad, gaf þad Læresveinunum og sagde, taked og eted, þad er minn Lijkame.

27. Og hann tok Kaleikenn, giörde þacker, gaf þeim hann og sagde, drecked aller þar af.

28. Pad er mitt Blod, þess Nya Testamentis, hvert ed uthellist fyrer marga til Syndanna Fyrergiefningar.

29. Enn eg seige ydur, ad eg mun eige hiedann j fra (c) drecka af þessum Vijnvidar Avexte, allt til þess Dags, er eg mun drecka þad nytt med ydur j mijns Födurs Rijke.

(c) (Drecka) Pad er, vier munum hier epter öngva lijkamlega Umgeingne hafa til samans, og þetta skal vera vort Valete.

30. Og ad Loffsaungnum sungnum, geingu þeir til Fiallsins Oliveti.

31. Pa sagde JEsus til þeirra, a þessare Nottu munud þier aller Hneixlast a mier, þviad skrifad er, * Hirderenn mun eg sla, og Sauder Hiardarennar munu j sundurtvijstrast. * Sach. 13, 7.

32. Enn epter þad ad eg er upprisenn, mun eg ganga fyrer ydur j Galilea.

33. Petur svarade og sagde til hans. Og þo aller hneixlest a þier, þa skal eg þo alldrei hneixlast.

34. JEsus sagde til hans, Sannlega seige eg þier, ad a þessare Nottu aadur enn Hanenn galar, muntu afneita mier þrisvar.

35. Petur sagde til hans, Eirnenn þo mier byriade med þier ad deyia, skyllde eg eige neita þier, Slijkt hid sama sögdu og aller Læresveinarner,

36. JEsus kom þa med þeim, j þad Gerdistun, sem kalladest Gethsemane, og sagde til sinna Læresveina, Sitied hier a medann eg fer þangad og bidst fyrer.

37. Og hann tok med sier Petrum og þa tvo Sonu Zebedei, og tok þa til ad hriggiast, og titra.

38. JEsus sagde til þeirra, Hrigg er Saala mijn allt til Dauda, blijfid hier og vakid med mier.

39. Og hann gieck litlu einu frammleingra, fiell framm a sijna Asionu, bidiande og sagde, Fader minn, ef mogulegt er, þa lijde af mier Kaleikur þessi, þo ei so sem eg vil, helldur so sem þu villt.

40. Og hann kom til sinna Læresveina, og fann þa sofande, og sagde til Peturs, Hvert gaatud þier ecke eina Stund vakad med mier?

41. Vaked þier og bidied, so ad þier falled ei j Freistne, Andenn er fws, enn Holldid er breiskt.

42. J annad sinn gieck hann aptur burt, bad og sagde, Fader minn, sie þad ecke mogulegt ad þesse Kaleikur lijde fra mier, utann eg drecke hann, þa verde þinn Vilie!

43. Og hann kom og fann þa aptur sofande, þvi þeirra Augu voru full af Svefne.

44. Og hann liet þa kirra, og gieck j burt aptur, og bad j þridia sinn, og talade þau sömu Ord.

45. Pa kom hann til sinna Læresveina, og sagde til þeirra. Æ! vilied þier nu sofa og hvijlast, siaed, su Stund tekur ad nalgast, ad Mannsins Son mun ofurseliast j Syndugra Hendur.

46. Standed upp, og förum vær. Siaed, þar er sa er mig forrædur.

47. Og sem hann var nu enn ad tala. Sia. Pa kom Judas eirn af þeim tolf, og med hönum Flockur mikell med Sverdum og Stöngum, utsender af Kiennemanna Hofdingium, og Olldungum Lydsins.

48. Enn sa er hann forried gaf þeim Teikn og sagde, hvern hellst sem eg kysse sa er þad, grijpid hann.

49. Og jafnsnart gieck hann ad JEsu og sagde, heill siertu Rabbi! og kysste hann. 50.

50. Enn JEsus sagde til hans, Vinur hvar til komstu hingad? Þa geingu þeir þangad, og løgdu Hendur a JEsum og gripu hann.

51. Og sia, ad eirn utaf þeim sem med JEsu voru, riette ut Hondena, rickte sijnu Sverde, slo Þion Kiennemanna Høfdingians, og hio af hans Eyra.

52. Þa sagde JEsus til hans, sticktu þijnu Sverde aptur j sinn Stad. Þviad hvor sem Sverded tekur, hann mun fyrer (d) Sverde (e) farast.

(d) (Sverdid) Þeir taka Sverdid sem bruka þad fyrer utann Walldstiornar Embætte og Bifalning.

(e) (farast) Þad er, hann er fallenn under Sverdsins Dom, Þo ad Þeir sem Walld hafa yfer Sverdenu framfilge stundum ei Þeim Domi, annad hvørt vegna bota edur annars, so stadfester Christur Sverdid.

53. Edur meinar þu ad eg kunne ecke ad bidia minn Fodur, ad hann skickade mier meir enn tolf Legion Eingla?

54. Eda hvornenn uppfyllast þa Ritningarnar? So biriar ad allt skule skie.

55. A þeim tijma sagde JEsus til Flocksins, Þier erud utgeingner, lijka sem til annars Ræningia med Sverdum og Stongum ad hondla mig, Daglega hefe eg þo hia ydur setid, og kienndt j Musterenu, og þier hafid mig eige gripid.

56. Enn allt þetta er skied so ad uppfylldust Ritningar Spamannanna. *Þa forlietu hann aller Læresveinarner og flydu.

*Ps. 88/9.

57. Enn þeir sem JEsum hofdu gripid, leiddu hann til Caiphas þess ypparsta Prests, hvared Skriftlærder og Olldungar voru samankomner.

58. Enn Petur filgde honum epter a-leingdar, allt j Salenn Kiennemannahøfdingians, og gieck inn, sette sig hia Þienurunum, so ad hann sæe hvor Ender þar a yrde.

59. Enn þeir ædstu Prestar, og Olldungar og allt Radeb, leitudu Lingvitna j giegn JEsu, so ad þeir giæte Deydt hann.

60. Og fundu eingenn. Og þo ad morg Falsvitne geinge framm ad, þa fundu þeir eckert. Enn ad sijdustu geingu tveir Fals-Vottar framm.

61. Og søgdu, Hann hefur sagt, Eg giet nidurbrotid Mustere Guds, og epter þria Daga þad upp aptur byggt.

62. Sa ædste Prestur stod þa upp og sagde til hans, Svarar þu aungvu til þessa, sem þesser vitna j mote þier?

63. Enn JEsus þagde: sa Ædste Prestur ansade og sagde til hans, Eg sære þig fyrer lifanda Gud, ad þu seiger oss, Ef þu ert Christur Sonur Guds.

64. JEsus sagde, Þu seiger þad, Þo seige eg ydur, Hier epter mun þad skie, ad þier munud sia Mannsins Son sitia til hægre Handar Kraptarins, og komanda j Skyum Himens.

65. Þa reif Kiennemannahøfdingenn sijn Klæde, og sagde, Hann Gudlastade, Hvad þurfum vær Vitnanna vid? Sia, Þier heyrdud nu sialfer hans Gudlastan.

66. Hvad Virdest ydur? Þeir svorudu og søgdu, Hann er Daudans sekur.

67. Þa spyttu þeir j hans Asian, og bordu hann med Knefum, En adrer sloou hann j hans Andlit.

68. Og søgdu, Spaa þu oss Christe, hvor er sa er þig slo?

III. 69. Enn Petur sat þar utann fyrer j Salnum, Og Ambatt ein gieck ad honum og sagde, Og þ: varst med JEsu af Galilea.

70. Enn hann neitade fyrer øllum, og sagde, Eg veit eige hvad þu seiger.

71. Enn sem hann gieck ut um Dyrnar, leit hann ein onnur, og sagde til þeirra sem þar voru, Þesse var og med JEsu af Nazareth.

72. Og j annad sinn neitade hann aptur med Eyde, og sagde, Ei þecke eg þann Mann.

73. Og innan skams geingu þeir ad sem þar stodu, og søgdu til Peturs, Ad sonnu ertu einn af þeim, þviad þitt Maal openberar þig.

74. Þa tok hann til ad formæla sier og

sveria, eg þecke ei þann Mann. Og jafnsnart gol Hanenn.

75. Þa minntist Petur orda JEsu, er hann sagdi til hans, ædur enn Hanenn galar, muntu afneita mier þrisvar, Og hann gieck ut og griet beisklega.

## XXVII. Capitule.

JEsus er (I) æklagadur: (II) Fordæmdur: (III) Hæddur: (IV) Greftradur.

I. Enn ad Morgne hielldu aller ædstu Prestar og Olldungar Lydsins Raad mote JEsu, so ad þeir giætu hann lijflaatid.

2. Og þeir bundu hann og leiddu j burt, og afhendtu hann Landshofdingianum Pontio Pilato.

3. Þa er Judas sa er hann hafde forraaded, sea þad, ad hann var til Dauda dæmdur, Jdradest hann þess, og færde aptur þeim ædstu Prestum og Olldungum þa Þriatijger Silfurpeninga.

4. Og sagde, Jlla giørdi eg ad eg forrieed saklaust Blod. Enn þeir sogdu, Hvad kiemur þad vid oss? Sia þu þar fyrer.

5. Og hann snarade þeim Silfurpeningum j Musterid, skundade þadann, gieck j burt, og heingde sialfann sig.

6. Enn þeir ædstu Prestar toku Silfurpeningana og sogdu, Eige hæfer ad vier laatum þa j Guds Kistuna, þviad þad er Blods Peningur.

7. Enn þeir hielldu eitt Raad, og keyptu med þeim eirn Leirsmids Akur, Vegfarendum til greftrunar.

8. Fyrer þad er sa Akur kalladur Blodsakur allt til þessa dags.

9. Þa er uppfyllt hvad sagt er fyrer Jeremiam Spaamann, * seigiande, Þeir toku þa þriatijgu Silfurpeninga, er hinn Sellde var med bitaladur, hvorn þeir keyptu af Jsraels Bornum.

* Jer. 32, 6. 8. Saeh. 13, 13.

10. Og hafa giefid þa fyrer Leirkierasmidsakur, epter þvi sem DRottenn hafde mier bodid.

11. Enn JEsus stod framme fyrer Landsdomaranum, Og Landsdomarenn spurde hann ad, og sagde, Ertu Kongur Gydinga? Enn JEsus sagde til hans, Þu seiger þad.

12. Og sem hann æklagadest af þeim Ædstu Prestum og Olldungum, svarade hann ongvu.

13. Þa sagde Pilatus til hans, Heyrer þu ecke hvorsu hardlega þeir ægsaka þig?

14. Og eige svarade hann honum til nockurs Ords, so ad Landsdomarenn undradest þad næsta.

15. Enn a Hatijdardeigenum var Landsdomarenn vanur, Folkenu lausann ad laata eirn Bandingia, hvorn hellst þeir villdu.

16. Enn þa hafde hann eirn (a) Frabærann Bandingia, framar odrum, sa er Barrabas hiet.

(a) (Frabærann) Matthens meinar so, ad Pilatus villde framsetia þann argasta Mordingia, so Gydingar skylldu ecke kunna fyrer hann ad bidia, enn þeir hefde helldur sialfann Diøfulenn gefid lausann, enn þeir hefde bedid fyrer Guds Søn; so geingur þad til j Dag, og alltijd.

17. Sem þeir voru til samans komner, sagde Pilatus til þeirra, Hvørn vilied þier ad eg giefe ydur lausann, Barrabam eda JEsum, um hvorn ad sagt er, ad hann sie Christur?

18. Þviad hann vissi vel, ad þeir hofdu fyrer Haturs saker ofurselt hann.

19. Og sem hann sat a Domstolnum, sende hans Hvsfru til hans, og liet seigia honum, Haf þu eckert ad giora med þennann Riettlata, þviad margt hefe eg lided j Dag j Draume fyrer hann.

II. 20. Enn þeir ædstu Prestar og Olldungar riedu Folkenu, ad þad skyllde bidia um Barrabam, enn JEsum skylldu þeir deyda.

21. Landsdomarenn svarade þa og sagde til þeirra, Hvørn af þessum tveimur vilied þier ad eg laate ydur lausann? þeir sogdu, Barrabam.

22. Pilatus sagde til þeirra, Hvad skal eg þa giora vid JEsum, af hvorium sagt er ad hann sie (b) Christur? Þeir sogdu honum aller, laat hann krossfestast.

(b) (Christur) Pilatus talar uppa spie, til Gydinga, Þier seiged, þesse er Christur, Það er Kongur, sem þier kalled hann, enn mier lytst hann ein aum saklaus Mannskiepna. So talar og Marcus, hann er Christur; Johannes utleggur þesse Ord so, skal eg krossfesta ydvarn Kong.

23. Enn Landsdomarenn sagde, Hvad hefur hann þa jllt giort? Enn þeir kolludu þvi meir, seigiande, lꝏat krossfesta hann.

24. Þa er Pilatus sa það hann gat ecke adgiort, helldur það, ad þar yrde enn meira Upphlaup af, tok hann Vatn, og þvode Hendurnar fyrer Folkenu, Og sagde, Saklaus em eg af Blode þess hins Riettlꝏta, siaed þier til.

25. Þa svarade allur Lydur og sagde, Hans Blod kome yfer oss og yfer Born vor.

26. Þa gaf hann þeim Barrabam lausann, enn JEsum liet hann hwdstrykia og afhendte þeim hann, ad hann Krossfestest.

III. 27. Þa toku Strijdsmenn Landsdomarans JEsum med sier jnn i Pijnghwsid, og þeir sofnudu saman ad honum ollu Lidenu.

28. Og afklæddu hann, og logdu yfer hann eina Purpurakꝏpu.

29. Og flettudu Koronu af Þyrnum, og settu hana uppa hans Hofud, og Reyr i hans Hægre Hond, og beigdu Knie fyrer honum, spiodu hann og sogdu, Heill siertu Konungur Gydinga.

30. Og hræktu a hann, toku Reyrenn og bordu um Hofud honum.

31. Og epter það þeir hofdu spottad hann, færdu þeir hann ur Kꝏpunne, og færdu hann i sinn Klæduad, og leiddu hann ut, ad Krossfesta hann.

32. Enn i þvi þeir geingu ut, fundu þeir Mann af Cyrene, Simonem ad Nafne, honum þreingdu þeir til, ad hann bære hans Kross.

33. Og er þeir komu i þann Stad sem kallast Golgatha, hvad er þydest (c) Hausaskelia stadur.

(c) (Hausaskeliastadur) kallast þar sem aflijfader verda Sakamenn, so sem aftokustadur, Þvi þar plaga ad liggia margar hofudskeliar.

34. Gafu þeir honum Edik ad drecka Galle blandad, Og er hann smackade það, villde hann eige drecka.

35. Enn sem þeir hofdu krossfest hann, skiptu þeir Klædum hans, kastande þar um Hlutkeste, so ad uppfylldest hvad sagt er fyrer Spamannen, * Þeir skiptu med sier Klædum mijnum, og yfer mitt Fat kostudu þeir hlutkeste?

* Psal. 22, 19.

36. Og þar sꝏtu þeir og vardveittu hann.

37. Og uppyfer hans Hofdi festu þeir hans Daudasok skrifada a þennann hꝏtt, Þesse er JEsus Kongur Gydinga.

38. Þar voru og krossfester med honum tveir Ræningiar, eirn til hægre Handar og eirn til hinnar Vinstre.

39. Enn þeir sem þar geingu hia, hæddu hann skakande Hofud sijn.

40. Og sogdu, Þu sem nidurbrytur Guds Mustere, og uppbygger það aptur a þremur Dogum, hialpa þu sialfum þier, Ef þu ert Guds Sonur þa stijg ofann hingad af Krossenum.

41. Lijka so spottudu hann þeir ædstu Prestar med Skriftlærdum og Olldungum og sogdu,

42. Odrum hefur hann hialpad, sier sialfum getur hann ei hialpad, Ef hann er Kongur Israels stijge hann nu ofann af Krossenum, þa vilium vier trua honum.

43. Hann treyste Gude, hann frelse hann nu ef hann hefur lyst til hans, Þviad hann sagde, Eg em Guds Son.

44. Lijka eirnenn hæddu hann Ræningiarner þeir med honum voru Krossfester.

45. Og i fra siottu Stund giordist Myrkur yfer allt Landid til nijundu Stundar.

46. Og nærre nijundu Stund kallade JEsus hꝏrre roddu og sagdi, Eli, Eli, Lama sabachthani, það er Gud minn, Gud minn, Hvarfyrer forlietstu mig?

47. Enn nockrer af þeim sem stodu þar, þa þeir heyrdu það, sogdu þeir, hann kallar a Eliam.

48. Og jafnsnart hliop einn af þeim til, og tok

tok Niardarvott og fyllti af Ediki og setti hann
ofana Reyrlegg, og gaf honum ad drecka.
49. Enn adrer sogdu, bydid, latid sia til
hvort Elias kemur ad hialpa honum.
50. JEsus kalladi up hatt i annad sinn,
og gaf up Andann.
IV. 51. Og sia, ad Tialldid Mustteresins
sundurrisnade j tvo Parta fra ofanverdu allt
nidur j giegnum, Og Jordenn skalf, og Biorgenn
klofnudu.
52. Og Grafernar lokust upp, og marger
Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed svæfu.
53. Og geingu epter hans Upprisu ur
Grofunum, og komu j hina heilogu Borg, og
auglystust þar morgum.
54. Enn Hofudsmadurenn og þeir sem
med honum voru, ad vardveita JEsum, þa
þeir sau Jardskialftann og þad hvad þar skiede,
urdu þeir miog ottaslegner, og sogdu,
Sannlega var þesse Guds Sonur.
55. Þar voru og margar Konur, sem sau
þar uppa a-leingdar, hvoriar JEsu hofdu
epter filgt af Galilæa, og honum hofdu þionad.
56. Medal hvorra var Maria Magdalena,
og Maria Moder Jacobi og Joses, og Moder
þeirra Zebedei Sona.
57. Ad Kvollde kom nockur Madur rijkur
af Arimathia, Joseph ad Nafne, hvor ed og so
var eirn af Lærisveinum JEsu.
58. Hann gieck til Pilatum, og bad hann
um Lijkamann JEsu. Þa skipade Pilatus ad
honum skyllde fast hann.
59. Og Joseph tok vid Lijkamanum, sveipade
hann j hreinu Lierepte.
60. Og lagde j sijna eigenn nyia Grof,
hvoria hann hafde uthoggva latid j Steine,
og vellte ad Dyrunum Grafarennar storum
Steine, og gieck j burt.
61. Enn þar var Maria Magdalena og
onnur Maria, sitiande giegnt yfer fra Grofenne.
62. Og annann Dag þañ sem epter Adfangadagenn
er, sofnudust samann þeir ypperstu
Prestar, og Pharisei asamt til Pilatum.
63. Og sogdu, Herra, Vær minnunst a þad,
ad þesse Svikare sagde þa er hann lifde, Epter
þria Daga mun eg upprijsa.
64. Af þvi skipa þu ad forvara Grofena
allt til hins þridia Dags, so ad eige kome
hans Lærisveinar a Nottu og stele honum j
burt, og seige Folkenu ad hann sie upprisinn
fra Dauda, og verde hin seirne Svikenn argare
þeim fyrre.
65. Pilatus sagdi til þeirra, Þar hafed þier
Vardmennenna, fared og forvared sem þier
kunned.
66. Enn þeir geingu j burt og forvorudu
Grofena med Vardmonnunum, og innsigludu
Steinenn.

# XXVIII. Capitule.

JEsus (I) Rijs upp fra Daudum: (II) Bijdur þ:im Ellefu Postulum ad Predika og Skijra.

I. Ad (a) Kvollde Sabbathsdagsins, sa er
hefst hinn firste Heilagur Dagur j
Sabbathsdogunum ad Morgne, kom Maria
Magdalena, og hin onnur Maria ad sia Grofena.

(a) Ritningenn byriar Dagenn a fyrerfaranda Kvollde, og ender þess sama Kvollds er Morgunenn þar epter: so seiger Mattheus hier, ad Christur hafe upprisid um Morguneñ, sem var þegar kvolldid hafde enda, og sa firste Helge-Dagur byriadest, Þviad þeir tolldu þa sex Daga alla Helga, epter þann mikla Paska Dag, og uppbyriudu nærst epter þa Jærstu Paska Hatijd.

2. Og sia þar vard jardskialfte mikell.
Þviad Eingell Drottins kom nidur af Himne,
gieck þar ad, vellte Steinenum fra Dyrunum,
og sette sig þar uppa.
3. Og hans Asiana var sem Elldingur, og
hans Klæde hvijt sem Snior.
4. Enn Vardhalldsmennerner skielfdust af
otta, og urdu lijka sem være þeir Dauder.
5. Enn Eingell Drottens svarade og sagde
til Kvennanna, eige skulud þier ottast, þviad
eg veit, ad þier leited ad JEsu sem krossfestur
var.
6. Ei er hann hier, þvi hann er upprisinn,
so sem hann sagde, komed hier, og siaed þann
Stad hvar Herrann lä.

7. Gan-

7. Gangeð skyndelega og seigeð þad hans
Læresveinum, ad hann sie upprisinn af Dau-
da, og siaeð, ad hann mun ganga fyrer ydur j
Galilæam, þar munud þier sia hann, siaeð,
eg sagde ydur þad.
8. Og þær geingu skyndilega ut af Grøfin-
ne med Otta og Fagnade miklum, og hlupu
so ad þær undervijsudu þad hans Læresveinum,
og þa þær geingu ad kunngiøra þad hans Lære-
sveinum.
9. Sia þu, þa mætte þeim JEsus og sag-
de, Heilar sieuð þier! og þær geingu til hans
og hielldu um hans Fætur, og tilbǽdu hann.
10. Þa sagde JEsus til þeirra, eige skulud
þier ottast, farid og kunngiørid mijnum Bræ-
drum, ad þeir gange j Galileam, og þar skulu
þeir mig sia.
11. Enn medann þær geingu burt, sia, þa
komu nockrer af Vardhalldsmonnunum j
Borgena, og undervijsudu þeim ædstu Pre-
stum allt hvad til hafde bored.
12. Og þeir søfnudust samann med Ølldun-
gunum halldande Rꝍadstefnu, og gǽfu
Strijdsmønnunum ærna Peninga.
13. Og søgdu, seigeð, hans Læresveinar
komu um Nott og stalu honum a medann vær
svafum.
14. Og ef þad kaun ad heyrast fyrer Lands-
Domaranum, skulum vier stilla hann, og
giøra ad þier sieud trauster.
15. Og þeir toku Peningana, og giørdu
so sem þeim var kiennt. Og þesse Ordromur er
vijdfrægur ordenn medal Gydinga allt til þessa
Dags.
II. 16. Enn þeir ellefu Læresveinar geingu j
Galileam a eitt Fiall, þad er JEsus hafde þeim
fyrer skipad.
17. Og er þeir sau hann, tilbǽdu þeir
hann, enn nockrer efudu þad.
18. Og JEsus gieck til þeirra, talade vid
þa og sagde, allt Valld er mier gefid a Him-
num og a Jørdu.
19. Fyrer þvi gangeð þier ut, og læreð allar
Þioder, og skijreð þær j Nafne Fødur, So-
nar, og Heilags Anda.
20. Og kienneð þeim ad hallda allt hvad eg
baud ydur. Og siaeð, eg em med ydur alla
Daga, allt til Enda
Veralldar!

**Ender S. Matthei Gudspialla.**

# S. Marci Evangelium.

## I. Capitule.

JEsus er (I) Skijrdur af Johannes: (II) kallar Postula: (III) Giører Kraptaverk.

I. Þetta er upphaf Evangelii um JE-
sum Christum GUds Son, so
sem skrifad er j hia Spǽmønnunum.
2. * Sia eg sende minn Eingel fyrer þier,
sa ed tilreide þinn Veg fyrer þier. *Mal. 3, 1.
3. * Þar er ein Predikara Rødd j Eyde-
mørku, greideð þier Veg Drottins, og giø-
red hans Stigu rietta. * Esa. 40, 3.
4. Johannes var j Eydemørku, Skijrde
og predikade um Idranar Skijrnena, til Syn-
danna Fyrergiefningar.
5. Og þar gieck ut til hans allt Juda Land,
og þeir af Jerusalem, og þeir lietu aller Skij-
ra sig af honum i Jordan, jatande sijnar
Synder.
6. Enn Johannes var klæddur med Ulfallds
Hǽrum og eitt Olarbellte um hans Lendar,
og hann ǽt Eingespretтur og Skogarhunang.
7. Og predikade og sagde, þar kiemur einn
epter mig, sem er sterkare enn eg, hvørs
ad eg em eige verdugur, frammfallande upp
ad leysa þveinge hans Skofata.
8. Eg skijre ydur med Vatne, enn hann mun
skijra ydur med Heiløgum Anda.
9. Og þad skiede a þeim Døgum, ad JE-
sus kom af Galilea fra Nazareth, og skijrdist
af Johanne j Jordan.

10. Og strax stie hann upp ur Vatnenu, og sa Himenenn opnast, og Andann j Dwfu lijke ofann komande yfer hann.

11. Pa vard og Rodd af Himnum, þu ert Sonur minn Elskulegur, ad hvorium mier vel þoeknast!

12. Og þa strax dreif Andenn hann a Eydemork.

13. Þar var hann j fioratijgu Daga j Eydemorkunni, og freistadest af Satan, og hann var þar med Villudyrum, og Einglar þionudu honum.

II. 14. Enn epter þad er Johannes var gripenn, kom JEsus j Galileam, og predikade Evangelium af GUds Rijke.

15. So seigiande, sa Tijme er nu uppfylldur, og GUds Rijke nalægest, Jdrest þier og trued Evangelio!

16. Enn er hann gieck med Sionum j Galilea, sa hann Simonem, og Andream Brodur hans, latande sijn Net j Sioenn, þviad þeir voru Fiskarar.

17. JEsus sagde til þeirra, filged mier epter, og eg mun giora þad, ad þier verded Fiskarar Manna.

18. Strax forlietu þeir sijn Net, og filgdu honum epter.

19. Og þa hann var skammt burt þadann geingenn, sa hann Jacob Son Zebedei og Johannem Brodur hans, og þeir voru a Skipe, ad bæta ad Nete.

20. Og strax þa kallade hann a þa. Og þeir forlietu sinn Fodur Zebedeum j Skipenu hia Leigulidunum, og filgdu honum epter.

21. Þeir geingu j Capernaum, og strax um Sabbathsdagenn, gieck hann jnn j samkundu Hwsid, og kennde.

22. Og þeim ægde hans Kienning, þviad hann kiende þeim sem af (a) Vallde, enn eige sem hiner Skriftlærdu.

(a) (Vallde) Þad er, hann predikade af alvoru, og þad hann sagde þad hafde myndugleika, og var lifande so sem þad hefde bæde Hendur og Fætur, ecke so sem þeir slæmu Predikarar, sem sialfer ecke vita hvad þeir seigia.

III. 23 Og eirn Madur var þar j þeirra samkundu Hwsi, halldenn af Ohreinum Anda, sa kallade.

24. Og sagde. Hei, hvad hofum vær med þig ad giora JEsus af Nazareth? Komstu ad glata oss? Eg veit hvor þu ert, hinn Heilage GUds.

25. JEsus straffade hann og sagde, Þeige þu og far utaf honum.

26. Og sa ohreine Ande hreif hann, og kallade upp harre Roddu og for ut fra honum.

27. Og þeir hræddust aller, so ad þeir spurdu ad sijn a millum, og sogdu, hvad er þetta? Eda hvor er þesse hin nya Kienning? Þviad af Vallde skipar hann Ohreinum Ondum, og þeir hlijda honum.

28. Og hans Rikte gieck strax ut um Galilea hierod.

29. Þa geingu þeir strax ut af Samkundu-husinu, og komu til Husa Simonar og Andree med Jacobo og Johanne.

30. Enn Moder Hwsfreiu Simonar la þar Kronk j Koldu, og strax þa sogdu þeir honum til hennar.

31. Hann gieck þa til hennar, reiste hana upp og hiellt j Hond hennar, og strax þa miste hun Koldunnar, og þionade þeim.

32. Enn um Kvollded, þa Sol-sett var, fluttu þeir alls kins siuka Menn og Dioful-oda til hans.

33. Og allur Stadurenn safnadest fyrer Dyrunum.

34. Og hann hialpade Morgum Siukum sem þioader voru, af Imsum Sottum, hann rak og wt marga Diofla, og eige leyfde hann Dioflunum ad mæla, þviad þeir þeckti hann.

35. Og ad Morgne fyrer Dogun, stod hann upp, gieck wt, og for burt j eirn Eydestad, og badst þar fyrer.

36. Enn Simon og þeir ed med honum voru, skundudu epter honum.

37. Og þa þeir fundu hann, sogdu þeir honum, hvor Madur leitar ad þier.

38. Og hann sagde til þeirra, Gongum vær

vær j þessar nærstu Borger, so ad eg predike og
þar, þvi til þess kom eg.
39. Hann predikade og j þeirra Samkundu-
hwsum, um alla Galileam, og rak wt Diofla.
40. Og eirn Lijkþrꜳar Madur kom til hans,
bidiande hann med hneigdum Kniam, og
sagde til hans, ef þu villt þa fær þu mig vel
hreinsad.
41. Enn JEsus sa aumur a honum, riet-
te wt sijna Hønd, og hrærde hann, og sagde
til hans, eg vil, vertu hreinn.
42. Og þa hann sagde so, hvarf strax Lijk-
þraenn af honum, og hann vard hreinn.
43. JEsus hastade a hann, og rak hann
strax fra sier.
44. Og sagde honum, sia þu, ad þu sei-
ger þad ongvum, helldur * far þu og syn
þig Prestunum, og forna fyrer þijna Hrein-
sun, þvi sem Moyses baud, til Vitnisbur-
dar yfer þa. * 3 B. Mos. 14, 3.
45. Enn þa hann kom wt, hof hann upp,
og kunngiorde margt þar wtaf, og vijdfræg-
de þennann Giorning, so ad hann mꜳtte eige
sijdan openberlega jnn ganga j Borgena, hell-
dur var hann þar fyrer utann j Eydestodum,
og þeir komu til hans wr ollum Endemorkum.

## II. Capitule.

JEsus (I) læknar einn Limafalls Siukann: (II) kallar Mattheum: (III) Forsvarar sina Læresveina.

I. Og nockrum Dogum þar epter, gieck
hann aptur til Capernaum, og þad
vard augliost ad hann var j Husinu.
2. Strax sofnudust marger samann, so ad
þeir hofdu ecke Rum, og eirnenn fyrer utann
Dyrnar, og hann talade Orded fyrer þeim.
3. Og þar komu nockrer til hans, færande
eirn Iktsiukann, hvor et borenn var af fiorum.
4. Og þa er þeir gꜳtu ei komest til hans,
fyrer Folkenu, opnudu þeir Þekiuna uppyf-
er honum, og grofu þar j giegn, og lietu so
Sængena nidur sijga sem hinn Iktsiuke la j.
5. Enn er JEsus sa þeirra Tru, sagde hann
til hins Iktsiuka, Son minn, þijnar Syn-
der eru þier fyrergiefnar.

6. Enn þar voru nockrer Skriftlærder, sꜳ-
tu þar, og huxudu j sijnum Hiortum.
7. Þvi talar þesse slijka Gudlastan? Hvor
ma Syndernar fyrergiefa nema GUD eirn?
8. Og JEsus fann strax j sijnum Anda, ad
þeir þeinktu so med sier, og sagde til þeirra,
þvi þeinked þier þetta j ydrum Hiortum.
9. Hvort er audvelldara ad seigia til hins
Iktsiuka, þier eru þijnar Synder fyrerlꜳtnar?
Eda ad seigia, stattu upp og tak Sæng þijna,
og gack hiedann?
10. Enn ad þier vitid ad Manusins Sonur
hefur Valld til a Jordu, ad fyrergiefa Syn-
dernar, þa sagde hann til hins Iktsiuka.
11. Eg seige þier, statt upp, tak Sæng
þijna, og gack heim.
12. Og strax þa stod hann upp, tok Sæng
sijna og gieck wt þadann j allra Augsyn, so ad
aller ottudust, og heidrudu GUD, seigiande,
alldrei hofum vær slijkt sied.
II. 13. Og hann gieck enn ut aptur ad Sio-
num, og allt Folk kom til hans, og hann kien-
de þvi.
14. Enn þa er JEsus gieck framm hia, leit
hann Levi Son Alphei, sitiande hia Tollbw-
denne, og sagde til hans, filg þu mier epter,
hann stod upp og filgde honum epter.
15. Þad giordest, þa hann sat til Bords j
hans Hwsi, ad marger Tollheimtumenn, og
Bersynduger, settu sig til Bords med JEsu
og hans Læresveinum, þvi þeir voru marger
sem honum filgdu epter.
16. Og er hiner Skriftlærdu og Phariseí
sau þad, ad hann ꜳt med Tollurum og Ber-
syndugum, sogdu þeir til hans Læresveina.
Þvi etur og dreckur hann med Tollheimtu-
monnum og Syndugum?
17. Þa er JEsus heyrde þad, sagde hann
til þeirra, þeir sem heilbrigder eru þurfa eige
læknarans, helldur þeir sem siuker eru, eg er
komenn ad kalla Synduga, enn ecke Riettlꜳta
til Idranar.
III. 18. Og Johannis og Phariseanna Lære-
sveinar fostudu miog. Og þar komu nockrer
og

og sogdu til hans, þvi fasta Johannis og Phariseanna Læresveinar, enn þijner Læresveinar fasta ecke?

19. JEsus sagde til þeirra, hvornenn kann Brullaups-Folkid ad fasta, a medann Brudgumenn er hia þeim? So leinge meiga þeir ei fasta, sem þeir hafa Brudgumann hia sier.

20. Enn sa Tijme mun koma, ad Brudgumenn verdur fra þeim tekenn, og þa munu þeir fasta.

21. Eingenn saumar nija Klædisboot a gamallt Fat, þvi hin nya Bootenn glidnar fra hinu Forna, og verda sliturinn þa verre.

22. Og eingenn lætur nytt Vijn j forna Ledurbelge, annars spreinger Vijned Belgena, so ad Vijned spillest, enn Belgerner skiemmast, helldur skal nytt Vijn lꝏtast i nya Belge.

23. Enn þad skiede ad JEsus gieck um Sabbaths Dag yfer Korn-Akur, og hans Læresveinar toku til, j þvi þeir geingu, ad tijna Axenn.

24. Og Pharisei sogdu til hans, sia hvad þiner Læresveinar giora a Sabbathsdeige, þad er eige hæfer!

25. Hann sagde þa til þeirra, hafed þier eige lesid * hvad David giorde, þa hann þurfte vid, og hann hungrade og þa er med honum voru? *1 Sam. 21, 6.

26. Hvernenn hann geck jnn j GUDs Hus, j Tijd (a) Abiathars ypparsta Prests, og aat þaug (b) Skodunarbraudenn, sem ongvum leifdest ad eta nema Prestunum, og hann gaf þau þeim sem med honum voru.

(a) (Abiathar) er Abimelechs Son, þar fyrer seiger Ritningenn ad þad hafe skied j Abimelechs Tijd, þv: þeir voru Prestar samtijdis.

(b) (Skodunarbraud) heita epter Ebreskunne, Panis facierum, þad er þad Braud sem alltijd skyllde vera fyrer Augunum, eins og Guds Ord a æ ad vera fyrer vorum Hiortum Dag og Nott, Psal. 23. Parasti in conspectu meo Mensam.

27. Og hann sagde til þeirra, Sabbathsdagurenn er fyrer Mannsins saker giordur, enn eige Madurenn fyrer Sabbathsdagsins saker.

28. So er Mannsins Sonur eirn HErra og eirnenn Sabbathsdagsins.

## III. Capitule.

JEsus (I) læknar marga: (II) Kallar til sijn þa Tolf Postula: (III) Talar um Synd a mote Heilogum Anda: (IV) seger hver ad se hans Moder, og hverjer ad sen hans Brædur.

1 Hann gieck og jnn j Samkundu-husid aptur. Og þar var eirn sa Madur sem hafde visnada Hond.

2. Og þeir gꝏdu ad, hvort hann læknade hann a Sabbathsdeige, so ad þeir mættu aklaga hann.

3. Og hann sagde til Mannsins, þess sem visna hafde Hondena, Gack framm hingad.

4. Og hann sagde til þeirra. Hvort skulu Menn a Sabbathsdogum giora gott edur jllt? Lijfenu vid hallda, edur deyda? Enn þeir þogdu.

5. Hann leit þa til þeirra med Reidesvip, og angradest vid þeirra Forherdtu Hiortu, og sagde so til Mannsins, Riettu ut þijna Hond. Og hann riette hana ut, og hans Hond vard heil, lijka sem hin onnur.

6. Enn Pharisei geingu ut, og hielldu strax sijn Rꝏd med Herodis Þienurum, j mote honum, hvornenn hellst ad þeir feinge tortijndt honum.

7. Enn JEsus veik þadann til Siafar, med sijna Læresveina, Og margt Folk af Galilea, og ur Judea, þa fylgde honum epter.

8. Og þeir sem voru af Jerusalem, og Idumea, og þeir hinumeigenn Jordanar, og þeir sem byggdu j kringum Tyrum, og Sidonem, mikell Mannfiolde, sem heyrdu hvad hann giorde, og komu til hans.

9. Og hann sagde til sinna Læresveina, ad þeir skylldu lata honum Skip til reidu, fyrer Folksins saker, uppa þad þeir þreyngde honum eige.

10. Þviad hann læknade margann af þeim. Enn þeir trꝏdust ad honum aller þeir er plꝏgader voru, ad þeir mættu fa ad snerta hann.

11. Og nær ed Ohreiner Andar sau hann, fiellu

fiellu þeir nidur fyrer honum, og kolludu upp,
og sogdu, Þu ert Guds Sonur.
12. Enn hann straffade þa hardlega ad eige
openberudu þeir hann.
II. 13. Og hann gieck uppa eitt Fiall, og
kallade til sijn þa hann villde, og þeir komu til
hans.
14. Og hann skickade Tolf ad þeir være hia
honum, og ad hann sende þa ut ad Predika.
15. Og ad þeir hefde valld til Sotter ad
lækna, og Diofla ut ad reka.
16. Og Simone gaf hann Peturs Nafn.
17. Og Jacobo Syne Zebedei og Johanni
Brodur Jacobs, þeim gaf hann Nafned (a)
Boanerges, hvad utþydest Reidarþrumu
Born.

(a) (Boanerges) Reidarþrumunnar Born, og merker ad Johannes munde einkannlega skrifa Þad rietta Evangelium, hvort ad er ein merkeleg Predikun sem hræder. sundurknosar, og Umbreiter ollu, og giorer Jordena friosama.

18. Og Andream, og Philippum, og Bar-
tholomeum og Mattheum, og Thomam, og
Jacobum Son Alphei, og Thaddeum, og Si-
mon af Cana.
19. Og Judas Iscarioth, sa er sveik hann.
III. 20. Og þa er þeir komu til Herberges,
kom Folkid enn samann aptur, so ad þeir gâtu
eige matast fyrer þvi.
21. Og þa er þeir heyrdu þad, sem med
honum voru, geingu þeir ut og villdu hamla
honum, þviad þeir sogdu ad hann munde
ganga af (b) Vitenu.

(b) (Vitenu) þeir otttudust hann munde taka uppa sig ofmikla þianing so sem Menn plaga ad seigia, þu verdur af-sinna.

22. Enn hiner Skriftlærdu sem ofan
fra Jerusalem voru farner, sogdu, Hann
hefur (c) Beelzebub, og fyrer Diofla Hof-
dingia þa rekur hann Diofla ut.

(c) (Beelzebub) er so mikid sem ein Fluga, edur flugna Kongur, þviad so lætur Diofullenn forakta sig, af sijnum eigenn, sem eru þeir storheilogu.

23. Og ad þeim samankolludum, sagde
hann j Epterlijkingum til þeirra. Hvornenn
fær eirn Satan annann utrekid?
24. Þvi ef eitt Rijki tvistrast j sialfu sier,
þa fær þad ei staded.
25. Og ef eitt Hus osamþyckest j sialfu
sier, þa fær þad Hus ei stadeд.
26. Og ef Satan rijs upp j mote sialfum
sier og er vid sig sialfann osamþyckur, fær
hann ei stadid, helldur er þa vt giort um
hann.
27. Eingenn fær og jnnbrotest j Hws
hins Ofluga, og burt gripid hans Hwsbun-
ad, nema ad hann binde âdur hinn Ofluga,
og ræne sijdann hans Hws.
28. Sannlega seige eg ydur, allar Synder
fyrergiefast Mannanna Bornum, og eirnenn
Gudlastaner þar þeir lasta Gud med.
29. Enn sa er lastar Heilagann Anda,
hann hefur ongva fyrergefning ad Eylijfu,
helldur verdur hann sekur eylijfs Doms.
30. Þviad þeir sogdu, hann hefur ohrei-
nann Anda.
IV. 31. Og þa kom Moder hans og Bræ-
dur, og stodu uti fyrer, sendu til hans kallandi
a hann (og Folkid sat kringum hann.)
32. Og þeir sogdu til hans, sia, Moder þijn
og Brædur þijner þar ute, spyria ad þier.
33. Hann svarade þeim og sagde, Hvor
er mijn Moder og mijner Brædur?
34. Pa leit hann og um sig til Læresvei-
nanna er sâtu j kringum hann.
35. Og sagde, siaed, Þad er mijn Moder,
og mijner Brædur.
36. Þviad hvor ed giorer Guds Vilia, sa
er minn Broder, mijn Syster og mijn Moder.

## IV. Capitule.

JEsus (I) kenner med Epterlijkingum: (II) lætur Sioenn verda kirrann.

I. Og hann tok enn aptur ad kienna þeim
vid Sioenn, þar safnadest samann
margt Folk til hans, so ad hann vard ad stijga
â Skip, og sat a Sionum, og allt Folked stod
þar a lande, vid Sioenn.
2. Og hann predikade leinge fyrer þeim j

Epterlijkingum. Og j sinne Predikan, þa sagde hann til þeirra.

3. Heyred til. Sia, Eirn Sædmadur gieck ut ad sa.

4. Og þad vard j þvi hann saade, ad sumt fiell utann hia Veigenum, og þa komu Fuglar under Himnenum, og atu þad upp.

5. Enn sumt fiell j grytt Akurlende, þar þad hafde ecke mikla Jord, og rann fliotlega upp, þviad þad hafde øngva Jardardypt.

6. Og þa er Solenn gieck upp, skrældest þad, og af þvi þad hafde øngva Root, þa þornade þad.

7. Og sumt fiell j bland Þyrna, og Þyrnerner vöxu upp og kiæfdu þad, og þad færde øngvann Avoxt.

8. Og sumt fiell j goda Jord, og færde Avoxt, hvort ed upvox og friofgadest, Og sumt færde þritugfalldann og annad Sextugfalldann, og sumt Hundradfalldann Avoxt.

9. Og hann sagde til þeirra, Hvor hann hefur Eyru til ad heyra, sa heyre!

10. Og þa hann var eirnsamann, spurdu þeir sem hia honum voru med þeim tolf hann ad þessare epterlijkingu.

11. Og hann sagde til þeirra, Ydur er þad giefid ad vita Leyndardoma Guds Rijkes, enn til þeirra sem þar eru fyrer utan, þa skier þad allt j Epterlijkingum.

12. Ad þeir med siaande Augum siae þad, og skinie þo eige, Og med heyrande Eyrum heyre og underskande þo eige, So þeir snuest ecke, þad þeirra Synder eitt sinn mættu fyrergiefast.

13. Og hann sagde til þeirra, Kunned þier ecke ad skilia þessa Epterlijking? Hvornen munud þier þa kunna ad skilia hinar allar?

14. Sædmadurenn saaer Ordenu.

15. Enn þesser eru þeir sem utann hia Veigenum eru, hvar Orded verdur saad, og þa þeir hafa heyrt þad, kiemur Andskotenn skiott, og nemur burt Ordid þad saad var j þeirra Hiortu.

16. Lijka so eru þeir eirnenn sem saadust j grytta Jord, þvi nær þeir hafa heyrt Ordid, þa medtaka þeir þad strax med fagnade.

17. Og hafa øngva Root j sier, helldur hallda þeir vid um nockurn tijma, enn nær sier hreifer Motgangur og Offokn fyrer Ordsins saker, þa hneixlast þeir strax.

18. Og þesser eru þeir sem j bland Þyrnanna saadust, þeir sem heyra Orded.

19. Og þa er þessarar Veralldar Ahyggia og sviksamlegur Rijkdomur, og adrar fleyre Gyrnder ganga jnn og kiefia Ordid, so þad blijfur oavaxtar.

20. Og þesser eru þeir sem j goda Jord eru saader, er heyra Ordid og medtaka þad, og færa Avoxt, sumer þritugfalldann, sumer Sextugfalldann, og sumer Hundradfalldann.

21. Og hann sagde til þeirra, Kveikest nockud Liosid til þess ad þad setiest under Mæleask edur Bord? Ongvanneigenn, helldur ad þad setiest uppa eirn Kiertahialm.

22. Þviad þar er eckert hulid, ad þad openberest ei, Og þar er eckert leyndt, ad þad kunngiorest eige.

23. Hvor hann hefur Eyru ad heyra, sa heyre!

24. Og hann sagde til þeirra, Giæted ad, hvad þier heyred, Med þeim Mæler er þier mæled ut, þa mælest ydur jnn, og ydur sem þetta heyred skal vidaukast.

25. Þvi ad hvor hann hefur, þeim skal giefast, og hvor hann hefur eige, fra honum mun takast og eirnenn þad hann hefur.

26. Og hann sagde, Guds Rijke er so vared, sem þa Madur kastar Fræe j Jordena.

27. Og sofnar, og hann stendur upp Nott og Dag.

28. Enn Fræd græer og vex upp, so ad hann veit eige (þviad Jordenn færer af sier sialfre, j firstu Grased, þar næst Axed, og so þar næst fullt Hveite j Axinu.)

29. Og er þad hefur frammleidt Avoxtenn, þa sender hann strax Kornsigdena, þviad Kornskurdartijmenn er þa.

30. Og hann sagde, Hvoriu skulum vier

jafna

jafna Guds Rijke? Eda vid hvoriar Epter-
lijkingar vilium vier þvi samannlijkia?
31. So sem ad eitt Mustardskorn, þa þvi
verdur j Jord soad, er þad ollu Sæde minna,
a Jordunne.
32. Og þa þvi er soad, vex þad upp og ver-
dur øllum Kalgrøsum meira, og fær mikla
Kvistu, so ad Fuglar Himens kunna ad byg-
gia under þess Skugga.
33. Og j slijkum morgum Epterlijkingum
þa kiende hann þeim, epter þvi sem þeir þad
heyrt gatu.
34. Og ean Epterlijkinga þa talade hann
ei til þeirra. Enn sierdeilis þa lagde hann þad
allt ut fyrer sijnum Læresveinum.
II. 35. Og sama Dags ad Kvollde, þa
sagde hann til þeirra, Forum vær hier yferum.
36. Og þeir forlietu Folkid, enn toku hann
til sijn, sem hann var a Skip komenn, voru
þar og fleyre Skip hia honum.
37. Og þar giordest mikell Hvirfilvindur
so Bylgiurnar fiellu yfer Skipid, og þad fyll-
tist upp.
38. Enn hann sialfur var j Skutnum og
svaf a einum Kodda, Þeir voktu hann þa upp
og søgdu til hans, Meistare, Hirder þu ecke
um þad ad vier fortijnunst?
39. Og hann reis upp og hastade a Vin-
denn og sagde til Siafarens, þagna þu, og vert
hliodur. Og Vindenn lægde, og þar vard
Logn mikid.
40. Og hann sagde til þeirra, þvi erud
þier so hrædder? Eda hvoriu giegner þad þier
hafid ongva Tru?
41. Og þeir ottudust nærsta miøg, og søg-
du hvor vid annann, hvor er þesse? þviad
Vindur og Siór hlijda honum.

## V. Capitule.

JEsus rekur (I) Diofla ut: og giører (II) ønnur
Krapta Verk.

I. Og þeir komu hinumeigenn Siafarens,
j Bygder Gadarenorum.
2. Og er hann stie af Skipenu, þa hliop
strax i mote honum, ur Grøfum Frammli-
dinna Manna, eirn besetinn Madur af ohrei-
num Anda.
3. Sa er hafde sitt Hijbyle i Grøfum
Daudra Manna, og eingenn fieck hann bun-
ded, og ei med Vidium.
4. Þviad hann hafde opt bundenn vered
med Fiøtrum og Vidium, og hann hafde
Vidiurnar af sier slited, og Fiøturenn j sun-
dur broted, og eingenn fieck hann tamed.
5. Og alltjafnt Nætur og Daga var hann
a Fiollum, og j Daudra Manna Grøfum,
kallande og lemiande sig med Griote.
6. Enn þa er hann sa langt til JEsum,
hliop hann þangad, og fiell framm fyrer hø-
num.
7. Kallade hvarre Roddu og sagde, hvad
hefe eg med þig ad giora o JEsu Sonur Guds
hins hæsta? Eg sære þig fyrer GUD, ad þu
kvelier mig ecke!
8. Enn hann sagde til hans, far vt þu
ohreinn Ande af þessum Manne.
9. Og hann spurde hann ad, hvad er þitt
heite? Hann svarade og sagde, Legio er mitt
Heite, þviad vær erum marger.
10. Og hann bad hann mikelega ad hann
ræke þa ei burt ur þeirri Bygd.
11. Og þar var j þeim Stad hia Fiollunum
mikel Svinahiord a beit.
12. Og Dioflarner badu hann aller, og
søgdu, lofa oss þad, ad vær forum i Svi-
nenn.
13. Og JEsus leyfde þeim þad strax. Þa
foru þeir ohreinu Andar ut, og hlupu i Svi-
nenn. Og Svinahiordenn fleigde sier med
miklum þys j Sioenn, nær tveimur Þusun-
dum, og drucknudu þar j Sionum.
14. Og Svinahyrdararner flydu, og kunn-
giordu þad j Stadnum og j Landenu. Og
þeir geingu ut, ad sia hvad þar hafde giorst.
15. Og komu til JEsu, og sau þann sem
af Dioflunum hafde setenn vered, sitiande
klæddann og heilvita, og þeir hræddust.
16. Enn þeir sem þad hofdu sied, søgdu
þeim hvornenn giort hafde vered vid hann sem

af Dioflunum hafde setenn vered, og so fra Svinunum.

17. Og þeir hoofu upp ad bidia hann, ad hann fære j burt ur þeirra Landsaalfum.

18. Og er hann stie a Skip, tok sa til ad bidia hann sem af Dioflunum hafde setenn vered, ad hann mætte vera hia honum.

19. Enn JEsus lofade honum þad eige, helldur sagde hann til hans, far þu j þitt Hus og til þinna, og kunngior þeim hvad mikinn Velgiorning Drottenn hefur giort þier, og vered þier Lijknsamur.

20. Hann for þadan og tok til ut ad hropa umþær tiju Borger, hvad mikenn Velgiorning ed JEsus hafde honum giort, og hvor Madur undradest þad.

II. 21. Og þa ed JEsus for hingad yfer aptur a Skipenu, kom samann margt Folk til hans, og hann var vid Sioenn.

22. Og sia, þar kom og eirn af Foringium Samkunduhussins, Jairus ad Nafne, og þa er hann sa hann, fiell hann nidur fyrer Fætur hans.

23. Og bad hann mikelega og sagde, mijn Dotter er komenn adframm, kom og legg þijna Hond yfer hana, so hun verde heil, og life.

24. Og hann for med honum. Margt Folk filgde og honum epter, og þad þreyngde ad honum.

25. Og þar var ein su Kona, er haft hafde Blodfall j tolf Ar, hun hafde og miked þolad af Morgum Læknurum.

26. Og hun hafde og kostad þar til ollu sijnu, og þad stodade henne þo eckert, helldur vesnade henne miklu meir.

27. Þa hun heyrde af JEsu, kom hun med Folkenu a bak til og snart hans Klæde, þviad hun sagde, ef eg fæ ad eins ad snerta hans Klæde, þa mun eg heilbrigd verda.

28. Og jafnsnart þa uppþurkadest hennar Blodbrunnur, og hun fann a sijnum Lijkama, ad hun var heil ordenn af sinne Plaagu.

29. Og JEsus fann strax aa sialfum sier þann Kraft er utaf honum gieck, og snere sier vid til Folksins og sagde, hvor snart mijn Klæde?

30. Hans Læresveinar sogdu til hans, þu sier ad Folked þreynger ad þier, þo seiger þu, hvor snart mig?

31. Og hann skygndest j kring epter henne er þad hafde giort.

32. Enn Konann var hrædd og skialfande (þviad hun visse hvad hana hafde skied) og kom og fiell fyrer honum nidur, og sagde honum allann Sannleik.

33. Enn hann sagde til hennar, mijn Dotter, þijn Trua giorde þig heila, gack i Fride og vert heil af þinne Plaagu.

34. Þa hann var enn þetta ad tala, komu nockrer af Þienurum Samkunduforingians og sogdu, þijn Dotter er oudud, þvi omakar þu Meistarann leingur?

35. Og JEsus heyrde strax hvad þar sagdest, og hann sagde til Samkunduforingians, ottast þu eige, tru þu ad eins.

36. Og hann liet oungvann filgia sier, nema Petrum og Jacobum og Johannem Brodur Jacobs.

37. Og hann kom j Samkunduhofdingians Hws, og leit þar Bulldran, og þa er þar grietu miog og æptu.

38. Og hann gieck þangad jnnar, og sagde til þeirra, hvad bulldred þier og syted? Barned er eige daudt, helldur sefur þad.

39. Og þeir doarudu hann, enn hann rak þa alla ut, og tok med sier Fodur og Modur Barnsins, og þa er med honum voru, og gieck þangad jnn sem Barned laa.

40. Og hann tok j Hond Barnsins, og sagde til hennar, Talitha kumi, þad utlegst, Stulka eg seige þier, rijs upp.

41. Og þa strax reis stulkann upp og gieck, enn hun var tolf Ara gomul. Og þeir urdu omaatanlega Felmsfuller.

42. Og hann fyrerbaud þeim hardlega, ad þad skyllde eingenn vita, og sagde ad þeir skylldu giefa henne ad eta.

## VI. Capitule.

JEsus er (I) Smꝏdur: hann (II) sender Postula
ut: (III) Nockrer ætla ad hann se Johannes: (IV)
sedur 5000 Manna: (V) Gengur a Sionum. (VI)
læknar marga.

I. Og hann gieck þadann, og kom j sitt Fo-
sturland, og hans Læresveinar filgdu
honum epter.
2. Og er Sabbathsdagurinn kom, þa tok
hann til ad kienna j þeirra Samkundu Huse.
Og marger af þeim sem þad heyrdu undrudust
hans Kienning og sogdu, hvadann kiemur ho-
num slijkt? Eda hvor er su Speke sem honum
er giefenn? og slijk Kraptaverk er giorast fyrer
hans Hendur.
3. Er þetta ecke eirn Triesmidur, Sonur
Mariu, og Broder Jacobs, Joses, Jude,
og Simonar? Eru og hans Systur eige hier
med oss? Og þeir hneixludust a honum.
4. Enn JEsus sagde til þeirra, ad Spꝏ-
madur være hvorge i minna Gillde enn a sij-
nu Fosturlande, og hia sijnum Ættmonnum
og heima.
5. Hann fieck þar og ecke neitt Kraptaverk
giort, nema yfer faeina siuka, þa lagde hann
Hendur, og læknade þa.
6. Og hann undradest þeirra Vantru,
hann gieck og allstadar i kring j Kauptununum
er þar stodu j þyrping og kiende.
II. 7. Og hann kallade a þa tolf, og tok ad senda
þa tvo og tvo, gaf þeim og Valld yfer ohrei-
num Ondum.
8. Og baud þeim ad bera eckert a veg med
sier, nema eirn Staf, eige Pung, eige Braud,
eige Pening a Linda.
9. Helldur klædder Skofotum, og þad þeir
klæddust eige tveimur Kyrtlum.
10. Og sagde til þeirra, j hvort þad Hwss
hier ganged jnn, þa vered þar jnne til þess ad
þier fared þadann.
11. Og hvorier ad eige medtaka ydur, eda
heyra ydur eige, þa ganged ut þadann, og
hristed Dupt af Fotum ydar, til Vitnisbur-
dar yfer þa. Eg seige ydur fyrer sann, ad
lijdanlegra mun verda a efsta Dome, Sodo-
ma og Gomorra, enn þeim Stad.
12. Og þeir geingu ut og predikudu, þad
Menn skylldu giora Idran.
13. Og þeir rꝏku ut marga Diofla, smur-
du og marga Siuka med (a) Vidsmiore, og
læknudu þa.

(a) (Vidsmiøre) Þetta Vidsmiør giørde þa Siuku heilbrigda, hvar af sijdann uppdicktadest eitt Sacrament fyrer þa hinu daudvona, enn Þad matte helldur kallast smyrsla Vatn Magdalenu, med hvorix hun smurde Christum til sinnar Greftrunar.

III. 14. Enn þad kom fyrer Kong Herodes,
(þviad hans Nafn var nu kunnugt) og hann
sagde, Johannes Skijrare er Upprisinn af
Dauda, og þvi giorast slijk Kraptaverk af
honum.
15. Enn nockrer sogdu þad hann være E-
lias, enn nockrer ad hann være Spꝏmadur,
ellegar eirn af þeim Spꝏmonnum.
16. Og er Herodes heyrde þetta sagde
hann, þad er Johannes, sem eg hefe halshog-
gved, hann er nu upprisenn fra Dauda.
17. Þviad Herodes hafde sendt ut ad grij-
pa Johannem, og lukt hann j Myrkvastofu,
fyrer Saker Herodias Konu Philippi, Bro-
durs hans, þviad hann hafde gipst henne.
18. Enn Johannes sagde til Herodem, ei
er þad riett ad þu hafer Brodurkonu þijna.
19. Þvi veitte Herodias honum umsoat og
villde lꝏta aflijfa hann, enn gat þo eige.
20. Þvi Herodes ottadest Johannem, þvi
hann visse hann vera godann og helgann
Mann, og vardveitte hann og hlydde honum
j morgum Greinum, og heyrde honum giar-
nann.
21. Og þar kom eirn hentugur Dagur, ad
Herodes giorde a sinne Artijd eina Kvolld-
maltijd Hofdingium og Hofudsmonnum, og
hinum fremstu Monnum j Galilea.
22. Þa gieck Dotter Herodias þar jnn,
og dansade, og þad þocknadest Herodi vel, og
þeim er sꝏtu til Bordsins, þa sagde Kongu-
renn til Stulkunnar, bid af mier hvors þu
villt, eg vil veita þier þad.

23. Og hann sor henne eirn Eid, ad hvørs þu beidest af mier, þa skal eg giefa þier, allt jnntil Helmings af mijnu Kongs Rijke.

24. Hun gieck ut og sagde til Modur sinnar, Hvørs skal eg bidia? Enn hun sagde, um Høfud Johannis Skijrara.

25. Hun gieck þa strax med skunda til Kongsins, bad hann og sagde, eg vil ad þu giefer mier nu strax Høfud Johannis Skijrara a einum Diske.

26. Kongurinn hriggdest næsta miøg vid, og þo fyrer Eidsins Saker, og þeirra sem til Bordsins satu, þa villde hann ecke synia henne þess.

27. Og strax sende Kongurenn Bødulenn ut, og baud ad sækia hans Høfud: hann gieck af stad, og afhøfdade hann j Fangelsinu.

28. Og bar hans Høfud framm a Diske, og fieck þad Stulkunne, enn Stulkann fieck þad Modur Sinne.

29. Og er þad heyrdu hans Læresveinar, komu þeir, og toku hans Lijkama, og løgdu hann j eina Grøf.

IV. 30. Og Postularner komu tilsamans aptur til JEsu, og kunngiordu hønum allt þetta, og hvad þeir høfdu giørt, og kiennt.

31. Og hann sagde til þeirra, laatum oss ganga afsijdis j Eydemørku, og hvijlast þar litla stund; þviad marger voru þeir sem geingu fra og til, so þeir høfdu ei toom til ad eta.

32. Hann stie þar a Skip og for afsijdes j Eydemørk.

33. Og er Folkid sa þa j burt fara, þeckti hann marger, og hlupu þangad hvør med ødrum a Fæte ur øllum Stødunum, og komu fyrr enn þeir, og komu til hans.

34. Enn JEsus gieck ut og sa þad mikla Folk, og hann aumkade sig yfer þad, þviad þeir voru sem adrer Sauder, er ongvann Hirder hafa, og hann biriade eina langa Predikun.

35. Þa er Dagurenn var nu so sem lidenn, geingu hans Læresveinar til hans og søgdu, Hier er Obygd, og Dagurenn er umlidenn.

36. Laat þa fra þier, ad þeir fare burt um kringum liggiande Þorp, og kaupe sier þar Braud, þvi þeir hafa eckert ad eta.

37. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra. Giefed þier þeim ad eta, Og þeir søgdu til hans, Skulum vier þa fara ut og kaupa fyrer tvo hundrud Peninga Braud, og giefa þeim ad eta?

38. Enn hann sagde til þeirra, Hvørsu mørg Braud hafed þier? Ganged til og skoded, Og þa ed þeir høfdu þad rannsakad, søgdu þeir, Fimm, og Tvo Fiska.

39. Og hann baud þeim ad þeir settu sig aller nidur til ad eta, j adgreindum Hopum, a Grænt Gras.

40. Og þeir settust og skipudust nidur, Hundrad og hundrad saman, Fimmtijger og fimmtijger samann.

41. Og hann tok þaug fimm Braud og tvo Fiska, leit upp til Himens, giorde þacker, og braut Braudenn, fieck sijnum Læresveinum þaug, ad þeir legde fyrer þa, Og þeim tveimur Fiskum skipte hann og so med þeim øllum.

42. Og aller þeir aatu og urdu sadder.

43. Og þeir toku upp Molana, tolf Karfer fullar, og af Fiskunum.

44. Enn þeir voru sem etid høfdu fimm Þusunder Manna.

V. 45. Og jafnsnart þa neydde hann sijna Læresveina til, ad þeir fære a Skip, og færu fyrer hønum yfer um til Bethsaida, þar til hann skilde Folked vid sig.

46. Og þa er hann hafde skilid þad vid sig, for hann uppa eitt Fiall ad bidiast fyrer.

47. Og um Kvøllded, var Skiped a midium Sionum, enn hann eirn a lande.

48. Og hann sa ad þeir voru neydstadder, j þvi þeir reru, þviad Vindurenn var j moti þeim, Og nær um Fiordu Vakt Næturinnar, þa kom hann til þeirra gangande a Sionum, og hann villde ganga framm hia þeim.

49. Og er þeir sau hann gangande a Sionum, ætludu þeir Vofa vera munde, og kølludu upp.

50. Þviad þeir sau hann aller, og urdu

otta-

ottaslegner. Enn strax þa talade hann vid þa, og sagde til þeirra, verid ohrædder, eg em þad, ottest ecke.

51. Og hann stie a Skipid til þeirra, og Vindenn lygnde. Og þeir ottudust, og forundrudust ur mata.

52. Þviad þeim (a) skildest enn eige af Braudunum, og þeirra Hiortu voru forblindud.

(a) (Skildest eige) Þad er, Þer hefdu ætt af Þessu Epterdæme ad vera stirkvare j Trunne, so ad Þeir hefdu ecke ætt ad ottast eina Vofu.

VI. 53. Og er þeir voru yfer um farner, komu þeir j landid Genesareth, og leudtu þar.

54. Enn er þeir stigu af Skipenu, þecktu þeir hann strax.

55. Og hlupu ut j øll umliggiande Lond, toku til og fluttu saman þar um kring Siuka Menn a Sængum hvar hellst þeir heyrdu hann vera.

56. Og hvar ed hann gieck jnn j Kauptun, Stade og Þorp, þa løgdu þeir siuka Menn a Torgid, og bædu hann, ad þeir mættu snerta ad eins Falld hans Fata, og aller þeir ed hann snertu, þa urdu heilbrigder.

## VII. Capitule.

JEsus (I) forsvarar sijna Læresveina: (II) Rekur Diofsul ut: (III) Gefur Heyrn og Mæl.

I. Þar komu og til hans Pharisei, og nockrer af hinum Skriftlærdu, sem komner voru fra Jerusalem.

2. Og þa þeir sau nockra af hans Læresveinum, med (a) Almennilegum Hondum, þad er med ohvegnum hondum eta Braud, avijtudu þeir þad.

(a) (Almennileg.) Løgmæled kallar Þad Heilagt sem utvaled var til Guds Þionustu giørdar, og Þar Þvert a mote, þad allt almennelegt, sem var ohreint, og odugaulegt til GudsÞionustugiørdar.

3. Þviad Pharisei og aller Gydingar eta eige nema þeir þvoe optsinnis sijnar hendur, halldande so Olldunganna Setninga.

4. Og þa þeir koma af Torgum, þa eta þeir eige nema þeir þvoe sig, Og marger adrer hluter eru þeir, sem þeir hofdu undergeingest ad hallda, sem var þvottur Dryckiar-Kiera, Krusa, Kopar-kiera og Vorda.

5. Þa spurdu Pharisei og hiner Skriftlærdu hann ad, Þvi ganga þijner Læresveinar ei epter Setningum Olldunganna, helldur eta þeir Braud med ohvegnum Hondum?

6. Hann svarade og sagde til þeirra, Riett vel þa spaade Esaias af ydur Hræsnurum, sem skrifad er, * Folk þetta heidrar mig med Vorunum, enn þeirra Hiarta er langt fra mier. * Es. 29, 13.

7. Enn til onytis þiena þeir mier, med þvi þeir kienna soddann Lærdom, sem ecke er utann Mannanna Bodord.

8. Þier yfergiefed Guds Bodord og halldед Mannanna Uppsetninga, sem er, Krvoser og Dryckiar-kier ad þvo, og margt soddann, þa giored þier.

9. Og hann sagde til þeirra, fijnlega þa hafed þier aflagt Guds Bodord, ad þier mættud so geyma ydvarn Uppasetning.

10. Þviad Moyses sagde, * heidra skalltu Fodur þinn og Modur, enn ** hvor hann bolvar Fodur eda Modur, sa skal Dauda deyia. * 2 B. Mos. 20, 12. 5 B. Mos. 5, 16. ** 2 B. Mos. 21, 17. 3 B. Mos. 20, 9.

11. Enn þier kienned, þegar nockur seiger Fodur eda Modur (b) Corban, (þad er, ef eg offra þvi, þa kiemur þier þad meir til gagns) hann giører vel.

(b) (Corban) kallast ein Forn, og er stuttlega so miked sagt, kiære Fader! giarnan vil eg giefa þier Þad, enn þad er Corban, Þad er betur falled eg giefe Þad Gude enn Þier, og Þad kiemur Þier meir til gagns.

12. Og eige þa læted þier hann framar nockud giora Fodur sijnum nie Modur sinne.

13. Onyt giorande Guds Ord fyrer ydar Setninga, þa þier hafed sialfer uppasett, og margt annad þviliijkt þa giored þier.

14. Og hann kallade allt Folked til sijn og sagde til þeirra, heyred mig aller og understanded.

15. Þar er eckert fyrer utann Mannenn jnnfa-

jnnfarande j hann, þad hann fae saurgad, helldur þad sem ut af honum geingur, þad er sem Mannenn saurgar.

16. Hafe nockur Eyru ad heyra sa heyre!

17. Og er hann gieck jnn j Husid burt fra Folkenu, spurdu hans Læresveinar hann ad þessare Epterlijkingu.

18. Enn hann sagde til þeirra, erud þier þa og so (c) Skilningslauser? Og skilied þier enn eige, ad allt þad sem fyrer utan er, og jnnfer j Mannenn þad fær eige saurgad hann?

(c) (Skilningslauser) þad er, heimsker og øfuger vid ydar Naunga, ad þier forakted adra dæarlega og drambsamlega.

19. Þviad þad fer ei jnn j hans Hiarta, helldur fer þad j Magann, og geingur so ut epter edlelegre vega, hvør ed ut hreinsar allann Mat.

20. Og hann sagde, hvad ed utfer af Mannenum, þad saurgar Mannenn.

21. Þviad jnnann ad, ur Hiartanu Mannsins, þa frammganga vondar Hugrenningar, Hordomar, Frillulijfe, Manndrap.

22. Þiofnadur, Agyrne, Hreckier, Underhyggia, Otuckt, Illt Tillit, Gudslastaner, Drambseme, Heimska.

23. Allt þetta vondt þa geingur ut jnnann ad, og saurgar Mannenn.

II. 24. Hann stod upp, og for þadann j Landsvalfur Tyri og Sidonis, og gieck jnn j eitt Hus, og villde þad øngvann vita lata, enn fieck þo eige dulist.

25. Þviad ein Kona hafde heyrt af honum, hvørrar lijtel Dotter hafde ohreinann Anda, og hun kom og fiell nidur fyrer hans Fotum.

26. (Enn þad var ein Grisk Kona, af Syrophœnice) og hun bad hann ad reka ut Diøfulenn fra Dottur sinne.

27. En JEsus sagde til hennar, leyf þu ad Bornenn mettest æadur, þviad þad er eitilheyrelegt ad taka Braude d Barnanna og kasta þvi fyrer Hundana.

28. Enn hun svarade og sagde til hans, Ja HErra, þvi Smahundarner eta under Bordenu, af Molum Barnanna.

29. Og hann sagde til hennar, fyrer Saker þess Ords, þa far hiedann, Diøfullenn er utfarenn fra þinne Dottur.

30. Og hun gieck þadann i sitt Hus, og fann ad Diøfullenn var utfarenn, og Dotturena a eirnre Sæng liggiande.

Gudspialled XII. Sunnud. epter Trinit.

III. 31. Og þa hann gieck burt aptur ur Bygdarlage Tyri og Sidonis, kom hann til Siafarins j Galilea, midt a medal þeirra Tiju Stadanna.

32. Og þeir leiddu til hans Daufann Mann, þann er var næsta Stamur, og bædu hann ad hann villde leggia Hønd yfer hann.

33. Og hann tok hann af-sijdis fra Folkenu, og stack sijnum Fingrum j hans Eyru, hrækte ut og snart hans Tungu.

34. Leit upp til Himens, andvarpade og sagde til hans, Ephatha, þad er, opna þig!

35. Og strax þa opnudust hans Eyru, þa uppleystest og eirnenn hans Tungu hapt, og hann talade riett.

36. Og hann fyrerbaud ad seigia þad neinum, enn þvi meir er hann fyrerbaud þad, þess meir þa vijdfrægdu þeir þad.

37. Og Þeir undrudust þad nærsta miøg og søgdu, Allt hefur hann vel giort, Þvi Daufa lætur hann heyra, og Mællausa mæla.]

# VIII. Capitule.

JEsus (I) mettar fiøgur þusund Manna: (II) Talar um Surdeig Phariseæanna og Herodis: (III) Gefur Syn: (IV) Heyrer Medkienning um sig: (V) Talar um Kross og Hørmungar.

Gudspialled VII. Sunnud. epter Trinitat.

I A þeim Tijma þa þar var margt Folk, og hafde eckert til Matar, kallade JEsus sijna Læresveina til sijn, og sagde til þeirra.

2. Mig aumkar yfer Folkid, þad þeir hafa nu þria Daga hia mier dvaled, og hafa eckert til Matar.

3. Og ef eg læt þa fastande fra mier heim fara, verda þeir hungurmorda a leidenne, þviad sumer voru langt ad konner.

4. Hans Læresveinar svorudu honum, Hvadan tokum vier Braud hier a Øræfum, ad vier sedium þa med?

5. Og hann spurde þa ad, Hversu morg Braud þa hafed þier? Þeir sogdu, sio.

6. Og þa baud hann Folkenu ad setia sig nidur a Jordena. Og hann tok þaug sio Braudenn, þackade, og braut þaug, og fieck þaug sijnum Læresveinum ad þeir legde þaug framm, og þeir logdu þaug framm fyrer Folked.

7. Og þeir hofdu faeina Smafiska, og hann giorde þacker og baud þa framm ad leggia.

8. Enn þeir neyttu og urdu metter. Þeir toku og upp þad yfer var, sio Karfer med afgangsleifar.

9. Og þeir sem etid hofdu voru nær, fiorum þusundum, Og hann liet þa j burt fara fra sier.]

II. 10. Og strax þa stie hann a eitt Skip med sijnum Læresveinum, og kom j þær Landsaalfur er heita Dalmanutha.

11. Og Pharisei geingu ut, og toku ad hafa spurningar vid hann, freistudu hans og gyrntust af honum eitt Teikn af Himne.

12. Enn hann var þrungenn j sijnum Anda, og sagde, Til hvors sæker þesse Kinslod epter Teikne? Sannlega þa seige eg ydur, ad þessare Kinslod giefst eckert Teikn.

13. Og hann forliet þa og stie aptur a Skip, og for yferum.

14. Þeir hofdu og gleymt at taka Braud med sier, og hofdu ei nema eitt Braud med sier j Skipenu. Enn hann baud þeim.

15. Og sagde, Siaed til, og vared ydur vid Surdeige þeirra Phariseorum, og vid Surdeige Herodis.

16. Enn þeir hugsudu allt annad, og sogdu hver vid annann, þad er þad, ad vier hofum einginn Braud.

17. Og er JEsus fornam þad, sagde hann til þeirra, Hvad hugsed þier um þad, þo þier hafed ecke Braudenn? Skilied þier enn nu eckert, nie understanded? Hafed þier enn forherdt Hiortu j ydur?

18. Hafed þier Augu enn siaed ei, og hafed Eyru og heyred eige. Þier hugsed og eige þar epter.

19. Ad eg braut fimm Braud j millum fimm Þusunda, hversu margar Karfer fullar med afgangs leifar tokud þier þa upp? Þeir sogdu, Tolf.

20. Enn þa eg braut þaug sio a millum fiogra Þusunda, Hversu margar Karfer fullar med leifar tokud þier þa upp? þeir sogdu, sio.

21. Og hann sagde til þeirra, Hvorninn skilied þier þad þa ecke?

III. 22. Hann kom til Bethsaida, og þeir leiddu þa eirn blindann Mann til hans, og badu hann ad hann snerte hann.

23. Enn hann tok j hond hins Blinda og leidde hann utaf fyrer utann Kauptunid, spytte j hans Augu, og lagde sijnar Hendur yfer hann, og spurde hann ad, hvort hann sæe nockud.

24. Enn hann leit upp og sagde. Eg sie Mennena ganga lijka sem eg sæe (a) Trie.

(a) (Trie) Hann sa enn nu nockud Ogløgt, eins og þa Monnum synest Madur vera Trie, aaleingdar, So er og Upphafed a Christi Þeckingu veiklegt, enn þad verdur alltiafnt sterkara og stadfastara.

25. Þa lagde hann enn aptur Hendur yfer hans Augu, og baud honum enn upp ad (b) lyta, Og honum batnade so aptur, ad hann sa allt klaarlega.

(b) (Baud honum enn) Þad er, hann sagde Hvorninn sier þu nu?

26. Og hann sende hann til sijns Heimilis og sagde, gack eige jnn aptur j Kauptuned, seig þad og ecke neinum þar jnne.

IV. 27. JEsus gieck ut og hans Læresveinar, til þeirra Kauptuna hia Stadnum Cesarea Philippi, og a leidinne þa spurde hann sijna Læresveina ad og sagde til þeirra, Hvorn seigia Menn mig vera?

28. Þeir ansudu, þeir seigia þu sert Johannes

hannes Skijrare, enn adrer seigia þu siert Elias, enn sumer ad þu siert eirn af Spaamønnum.

29. Pa sagde hann til þeirra, Enn þier, Hvorn seiged þier mig vera? Pa svarade Petur og sagde til hans, Pu ert Christur.

30. Og hann þaggade þa, ad þeir segde þad ei neinum um hann.

31. Og hann tok til ad kienna þeim, þad Mannsins Sonur skyllde margt þola, og hrakenn vera af Olldungum, Hofudprestum og Skriftlærdum, og lijflatenn vera, og a hinum þridia Deige upp rijsa.

32. Hann talade og þetta Ord berlega ut, og Petur tok hann til sijn og tok ad atelia hann.

33. Enn hann snere sier vid, og leit til sinna Læresveina, hastade a Petrum og sagde, Vijk fra mier Satan, þviad þu skilur ei þad Gudlegt er, helldur þad sem Mannlegt er.

V. 34. Og ad samankølludu Folkenu, asamt hans Læresveinum, sagde hann til þeirra, Hvør hann vill filgia mier epter, afneite hann sialfum sier, og take sinn Kross a sig, og filge mier epter.

35. Þviad hvør hann vill behallda sijnu Lijffe, sa mun þvi tortijna, Og hvør hann lætur sitt lijf fyrer mijnar saker og Evangelii, sa mun behallda þvi.

36. Hvad stodar þad Mannenn þott hann ynne allann Heimenn, og lijde skada a sinne Saalu?

37. Eda hvad ma Madurenn þad giefa ad hann leyse sijna Saal med.

38. Enn hvør hann skammast mijn edur minna Orda, hia þessare Horunarsamre og Syndugre Kinslod, vid þann mun Mannsins Sonur skammast, þa hann kiemur med Heilogum Einglum, j Dyrd sijns Fodurs.

39. Hann sagde og til þeirra, Sannlega seige eg ydur, ad hier standa nockrer af þeim, hvørier eige smacka Daudann, þar til þeir sia Guds Rijke, med Krapte komande.

# IX. Capitule.

JEsus (I) um myndast a Fiallenu: (II) Rekur einn Mallleyses og Heyrnarleyses Anda ut fra Barne einu: (III) Talar um sinn Dauda: (IV) Straffar Metordagyrnd: (V) Bannar engum ad reka Diøfla ut: (VI) Talar um Hneixle, Elld, og Sallt.

I. Og sex Døgum þar epter, tok JEsus med sier Petrum, Jacobum og Johannem, og veik þeim einumsømum uppa eitt haatt Fiall sierdeilis, og forklaradest fyrer þeim.

2. Og Hans Klæde urdu skijnande, og næsta hvit sem Snior, so ad eingenn Litunarmadur a Jørdu kann so hvitt ad giøra.

3. Þeim birtest og Elias med Moyse, og hielldu eitt Samtal vid JEsum.

4. Petur svarade og sagde til JEsu, Rabbi, gott er hier ad vera, Og giørum hier þriar Tialldbwder, þier eina, og Moyse eina, og Elie eina.

5. Enn hann visse eige hvad hann sagde, af þvi þeir voru Ottaslegner.

6. Pa kom eitt Sky sem þa yferskygde, Og einn Rodd kom ur Skyenu, seigiande, Þesse er minn Elskulegur Sonur, heyred þier hønum.

7. Og strax þar epter litu þeir j kringum sig, og sau øngvann, nema alleina JEsum hia sier.

8. Og er þeir geingu ofan af Fiallenu, fyrerbaud JEsus þeim, ad þeir segdu þad øngvum, hvad þeir høfdu sied, þangad til ad Mannsins Sonur være upprisenn af Dauda.

9. Þeir hielldu og þvi Orde hia sier, spyriande sijn a mille, hvad þad være ad upprijsa af Dauda?

10. Og þeir spurdu hann ad, og søgdu, Hvad er þad þa sem hiner Skriftlærdu seigia, ad * Elias skule fyrre koma? *Malach. 4, 5.

11. Enn hann svarade og sagde til þeirra, Elias skal ad vijsu adur koma, og allt til lags færa, Þar ad auk mun Mannsins Son * margt lijda og forsmadur verda, so sem þar skrifad stendur. * Esa. 53, 5. Psal. 22, 7. 8.

12. Enn eg seige ydur, þad Elias er kominn, og þeir hafa giort honum hvad hellst þeir villdu so sem skrifad er af honum.

II. 13. Og hann kom til sinna Læresveina, og sa þar margt Folk kringum þa, og hina Skriftlærdu er spurdust a vid þa.

14. Og strax er allt Folked leit hann, felmtrade þvi, hlupu ad og heilsudu honum.

15. Og hann spurde þa hina Skriftlærdu, ad hvoriu spyriest þier um vid þa?

16. Enn eirn af Folkenu svarade og sagde, Meistare, eg flutte Son minn hingad til þijn, hann hefur Mallausann Anda.

17. Og þegar hann nær honum, þa slijtur hann hann, og hann froduseller, og gnyster Tonnum, og þornar upp, Og eg talade til þinna Læresveina ad þeir ræke hann ut, og þeir goatu þad eige.

18. Enn hann svarade honum og sagde, O þu vantruada Kinslod, hvorsu leinge þa skal eg hia ydur vera, eda hvorsu leinge a eg ad umlijda ydur? Færed hann hingad til mijn.

19. Og þeir færdu hann þangad til hans. Og strax er Andenn leit hann, sleit hann hann, og fiell a Jord og velltest um og frodusellde.

20. Hann spurde og hans Fodur ad, hvorsu langur tijme er fra þvi hann hrefte þetta? Enn hann sagde, fra Barnæsku.

21. Og optlega hefur hann fleygt honum j Elld og Vatn, ad hann fyrerfære honum. Enn ef þu orkar nockru, þa sia aumur a ockur og hialpa ockur.

22. Enn JEsus sagde til hans, Ef þu giætur truad, Truandum er allt mogulegt.

23. Og strax þa kallade Fader Barnsins upp med Tarum, og sagde, eg true Herra, hialpa þu minne Vantru.

24. Og er JEsus sa ad Folkid hliop ad, hastade hann a hinn ohreina Anda, og sagde til hans, þu Mallause og Daufe Ande, eg byd þier ad þu farer utaf honum, og farer ei framar j hann.

25. Þa kallade hann upp, og sleit hann miøg, og for utaf honum. Og hann vard sem være hann Daudur, so ad marger eirnenn sogdu, hann er Daudur.

26. En JEsus took j hans Hond, og reiste hann upp, hann reis þa upp.

27. Og þa hann kom heim, spurdu hans Læresveinar hann sierdeilislega ad, Þvi goatum vær ei drifed hann ut?

28. Enn hann sagde, Þetta Kin fæst med ongvu odru mote utreked, nema fyrer Bæner og Fostu.

III. 29. Og þeir geingu þadann, og ferdudust um Galileam, Hann villde og eige ad þad skyllde nockur vita.

30. Hann kiende sijnum Læresveinum, og sagde þeim, þad Mannsins Sonur skyllde seliast j manna Hendur, og þeir munde aflijfa hann, og þa hann være aflijfadur, munde hann a þridia Deige upp aptur rijsa.

31. Enn þeir underst odu eige þad Ord, þordu þo eige ad spyria hann ad.

IV. 32. Og hann kom til Capernaum, og sem hann var Heima, spurde hann þa ad, Hvad handtierudud þier ydar a mille a Veigenum?

33. Enn þeir þogdu, þviad þeir hofdu handtierad um a Veigenum, hvor þeirra mestur være.

34. Og hann sette sig, og kallade þa tolf og sagde til þeirra, Ef nockur vill firstur vera, sa skal ollum sijdastur vera og allra Þion.

35. Og hann tok eitt Barnkorn, og sette þad midt a millum þeirra, og hann fadmade þad, og sagde til þeirra.

36. Hvor sa sem medtekur eitt þvilijkt Barnkorn j mijnu Nafne, hann medtekur mig, og hvor hellst hann medtekur mig, sa medtekur ei mig, helldur hann, sem mig sende.

V. 37. Og Johannes svarade honum og sagde, Meistare, Vier saum eirn þann sem rak ut Diosla j þijnu Nafne, hvor ed ei filger oss epter, og vær fyrerbudum honum þad, af þvi hann filgde oss ei epter.

38. Enn JEsus sagde, Eige skulud þier fyrerbioda honum þad, Þviad eingenn er sa,

Ef hann giører Kraptaverk j mijnu Nafne, ad hann kunne þa strax jlla ad tala um mig.

39. Hvør hann er eige a mote oss, hann er med oss.

40. Þvi hvør sem ydur giefur ad drecka eirn Bikar Vatns j mijnu Nafne, af þvi þier erud Christi, Sannlega þa seige eg ydur, ad þad skal hønum ecke olaunad verda.

VI. 41. Og hvør hann hneixlar eirn af þeim hinum litlu sem a mig trua, hønum være betra ad Kvarnarsteirn byndest vid Hals hønum, og være so j Sio kastadur.

42. Og ef þijn Hønd hneixlar þig. Þa høgg hana af, betra er þier Handarvana jnn ad ganga til Lijfsins, enn hafande tvær Hendur og fara til Helvitis, j þann eylijfa Elld.

43. Hvar ed þeirra Madkur deyr eige, og þar þeirra Elldur sloknar ecke.

44. Og ef þig hneixlar Fotur þinn, þa høgg hann af, betra er þier holltum jnn ad ganga til Lijfsins, enn þad þu hafer tvo Fætur og kastest j Helvijte j þann eylijfa Elld.

45. Hvar ed þeirra Ormur deyr eige, og þeirra Elldur slocknar eige.

46. Hneixle þig þitt Auga, þa kasta þvi fra þier, betra er þier Eineygdum jnn ad ganga j Guds Rijke, enn ad þu hafer tvø Augu og kastest j Helvijtis Elld.

47. Hvar ed þeirra Ormur deyr eige, og þar þeirra Elldur sloknar eige.

48. Allt hlytur med Ellde ad (a) salltast, og hvørt Offur skal med Sallte salltast.

(a) (Salltast) J Gamla Testamentenu var allt Offur salltad, og af øllu Offre var þar nockud j Ellde uppbrenndt Þad færer Christur hier jnn, og vtleggur þad andlega, a þann hatt, Ad sa Gamle Madurenn verdur Krossfestur, Fortærdur og vel salltadur med Evangelio, so sem med Ellde og Sallte. Þvi Lijkamenn vor er þad rietta Offur, Rom. 12. Enn ef Salted misser sinn Krapt og Evangelium fordiarfast fyrer Mannlega Lærdoma, þa salltast hinn Gamle Madurenn ei, so vaxa þar þa Madkar, Enn Sallted er beiskt, Þar fyrer er þørf, ad hafa Þolennmæde og Frid i Salltenu.

49. Sallted er gott, Enn ef Sallted dofnar, med hvøriu skulud þier þa sallta þad?

50. hafid þier Sallted med ydur, og hafid þier Frid hvør vid annan.

# X. Capitule.

JEsus (I) talar um Hionaband: (II) tekur Ungbørn i Fadm: (III) talar um Hina Rijku: (IV) Predikar um sinn Dauda: (V) Raadleggur Lijtelæte: (VI) Giører einn Blindann Sieande.

I. Og hann biost burt og kom þar fra til Landamerkia Judalands hinumeigenn Jordanar, þar kom og enn aptur Flockum saman Folkid til hans, og sem hann plagade, þa tok hann enn aptur ad kienna þeim.

2. Pharisei geingu til hans, spurdu hann ad, ef Mannenum leyfest ad forlata sijna Hvøsfru? Freistande hans so.

3. Enn hann svarade og sagde, hvad hefur Moyses bodid ydur?

4. Þeir sogdu, Moyses * leyfde Skilnadarbrief ad skrifa, og vid ad skilia.

*5 B. Mos. 24, 1.

5. JEsus svarade og sagde til þeirra, vegna hardleika ydvars Hiarta þa skrifade hann ydur þetta Bodord.

6. Enn af Upphafe Skiepnunnar skapade Gud eirn Kallmann og Konu.

7. Þar fyrer skal Madurenn forlata Fødur og Modur, og skal vera samann vid sijna Konu.

8. Og þau tvø skulu vera eitt Holld af þvi ern þau nu eige tvø, helldur eitt Holld,

9. Hvad Gud hefur þa samteingt, þad skal Madurenn eige sundurskilia.

10. Og Heima spurdu hans Læresveinar aptur ad um hid sama.

11. Og hann sagde þeim, Hvør sem skilst vid sijna Eigennkonu, og giptest annare, sa dryger Hor med henne.

12. Og ef Konann forlætur sinn eigenn Mann, og giptest ødrum, hun horast.

II. 13. Og þeir færdu Ungborn til hans, ad hann ahrærde þau. Enn Læresveinarner atoldu þa sem þaug baaru.

14. Og er JEsus sa þad, reiddest hann, og

og sagde til þeirra, Leyfed Bornunum til mijn
ad koma, og banned þeim þad eige, þviad þvi-
lijkra er Himna Rijke.
15. Sannlega seige eg ydur, Hvor hann
medtekur eige Guds Rijke sem annad Ung-
barn, sa mun eige jnnganga j þad.
16. Og hann tok Þaug j Fang, og lagde
Hendur yfer Þaug og Blessade Þaug.
III. 17. Og þa hann var utgeingenn uppa
Veigenn, hliop þar eirn framm, og fiell a
Knie fyrer honum, og spurde hann ad, gode
Meistare, hvad skal eg giora so eg erfe Eylijft
Lijf?
18. Enn JEsus sagde til hans, þvi kallar
þu mig godann? Eingenn er godur nema Gud
eirn.
19. Bodordenn muntu kunna?* Þu skallt
eige Hordom drygia, eige Mann vega, eige
stela, eige skalltu Liugvitne mæla, þu skallt
öngvann svijkia, heidra þinn Fødur og Mo-
dur. *2B.Mos.20,13. 5 B. Mos. 5, 16 ꝛc.
20. Enn hann svarade og sagde til hans,
Meistare, allt þetta hefe eg vardveitt j fra
Barnæsku minne.
21. Enn JEsus horfde a hann, og elskade
hann og sagde til hans, (a) eitt þa brestur þig,
far, sel allt hvad þu hefur, og gief Fatækum,
og þa muntu hafa eirn Fiesiod a Himnum, og
kom, og filg þu mier epter, og tak Krossinn
uppa þig.

(a) (Eitt) þad er, Þig brestur Þad allt saman, Þvi
Þu villt heita godur, og Þo øngvu sleppa af þijnu
Gotse minna vegna, eda lijda nockud med mier, Þar
fyrer er vissulega Mammon Þinn Gud, og Þu elskar
hann meir enn mig.

22. Enn hann vard hriggur vid þesse Ord,
og gieck þadann syrgiande, þviad hann hafde
miklar eigner.
23. JEsus leit kringum sig, og sagde til
sinna Læresveina, hvorsu torvelldt er þeim
Rijku jnn ad ganga j Guds Rijke.
24. Enn Læresveinarner hræddust hans
Ord. Enn JEsus ansade enn aptur og sagde
til þeirra, kiæru Børn! hvorsu torvelldt er
þeim sem treysta a Rijkdomenn jnn ad ganga
j Guds Rijke.
25. Audvelldara er Ulfalldanum ad ganga
j giegnum nalar Augad, enn Rijkum jnn ad
ganga j Guds Rijke.
26. Þeir ottudust þa enn meir og søgdu sijn
a millum, hvør kann þa holpenn ad verda?
27. Enn JEsus leit til þeirra, og sagde,
hia Mønnum er þad omøgulegt, enn eige hia
Gude, þviad hia Gude er allt møgulegt.
28. Þa sagde Petur til hans, sia þu, vier
forlietum allt og høfum þier epterfilgt.
29. JEsus svarade og sagde, sannlega
seige eg ydur, ad eingenn er sa, hvor ad fy-
rerlætur Hws, edur Brædur, eda Systur,
eda Fødur, eda Modur, eda Eigennkonu, eda
Børn, eda Akra fyrer mijnar Saker, og
Evangelij.
30. Sa ed ei fær hundradfalldt aptur nu a
þessare Tijd, Hws, Brædur, og Systur, og
Modur, og Børn, og Akra med (b) Offsoknum,
og j epterkomande Heime Eylijft Lijf, og mar-
ger munu verda seinaster sem eru firster.

(b) (Med Offsoknum) hvør hann truer, hann mun
lijda Offsokn, og setia allt j Hættu Þar fyrer, samt
hefur hann gnog, Þvi hvørt hann kiemur, finnur
hann Fødur og Modur, Brædur og Gots meir enn
Þad var, er hann kunne nockurn Tijma vid adski-
liast.

31. Og þeir firster sem seinaster eru.
IV. 32. Enn þeir voru a Veigenum og fooru
upp til Jerusalem, og JEsus gieck fyrer þeim,
og þa sette hlioda vid, filgiande hønum þo
epter, og ottudust. Og JEsus tok þa tolf
aptur til sijn, og sagde þeim, hvad yfer hann
munde koma.
33. Sia, vier forum nu upp til Jerusa-
lem, og Mannsins Sonur mun seliast Kienne-
mannahøfdingium og Skriftlærdum, og þeir
munu fordæma hann j Dauda, og selia Hei-
dingium.
34. Þeir munu og spotta hann, og flein-
gia, spyta a hann, og lijflaata, og a þridia
Deige mun hann uppaptur rijsa.
V. 35. Þa geingu þeir Jacobus og Johan-
nes Syner Zebedei til hans og søgdu, Mei-

 stare,

stare, vid Vilium ad þu giorer fyrer ockur þad sem vid bidium þig.

36. Hann sagde til þeirra, hvad vilied þid ad eg skule giora yckur?

37. Þeir sögdu til hans, gief ockur ad vid sitium i þinne Dyrd eirn til hægre Hlidar þier, og annar til hinnar Vinstre.

38. Enn JEsus sagde til þeirra, þid vited ei hvors þid bidied, kunned þid ad drecka þann Kaleik, hvern eg mun drecka, og skijrast þeirre Skijrn hvorre eg mun skijrast?

39. Þeir sögdu honum, þad gietum vid, JEsus sagde þa til þeirra, ad sönnu munud þid drecka þann Kaleik hvorn eg dreck, og medur þeirre Skijrn skijrder verda, hvorre eg mun skijrast.

40. Enn ad sitia til minnar hægre og vinstre Hlidar, er eige mijn ad giefa yckur, helldur þeim sem þad er fyrerbuid.

41. Og þa er þeir tiju heyrdu þad, misþocknadest þeim vid Jacobum og Johannem.

42. Þa kallade JEsus þa og sagde til þeirra, þier vited þad, ad Veralldleiger Hofdingiar stiorna, og Vollduger a medal þeirra hafa Valld.

43. Enn þad skal ei so vera ydar a mille, helldur hvor hann vill vera mikell ydar a mille, sa skal ydar Þienare vera.

44. Og hvor hann vill ydar a mille Ædstur vera, sa skal allra ydar Þion vera.

45. Þviad Mannsins Sonur er eige komenn til þess ad lata þiona sier, helldur þad ad hann þionade, og giæfe sitt Lijf ut, til Endurlausnar Bitalings fyrer marga.

VI. 46. Þeir komu og til Jericho, og ad honum burtfarande ur Jericho, og hans Lærisveinum, og miklum Folksfiolda, sat einn Blindur, Bartimeus Son Timei, vid Veigenn, og þaa Ölmusu.

47. Og er hann heyrde ad þad var JEsus af Nazareth, tok hann til ad kalla og seigia, JEsus Sonur Davids, miskuna þu mier!

48. Og marger hostudu a hann, ad hann skyllde þeigia. Enn hann kallade þess miklu meir, Sonur Davids miskuna þu mier!

49. Og JEsus stod vid, og liet kalla a hann. Og þeir kolludu a hinn Blinda, seigiande til hans, vertu med godu giede, statt upp, hann kallar a þig.

50. Og hann kastade sijnum Klædum af sier, stod upp og kom til JEsu.

51. JEsus svarade og sagde til hans, hvad villtu ad eg skule giora þier? Enn hinn Blinde sagde honum, Rabboni, þad eg yrde sioande.

52. JEsus sagde til hanns, Gack hiedann, þijn Trua giorde þig holpenn, og strax þa sa hann, og filgde honum epter a Veigenn.

# XI. Capitule.

JEsus (I) rijdur inn i Jerusalem. (II) Formæler Fikiu-Trenu: (III) Hreinsar Jerusalems Mustere: (IV) Talar um Bænena. (V) Vill ecke seigia hvada Valld hann hafde til þess, ad hreinsa Mustered.

I. Og þa þeir komu nær Jerusalem til Bethphage og Bethania vid Fialled Vidsmiorsvidanna, sende hann tvo af sijnum Lærisveinum ut.

2. Og sagde til þeirra, ganged j þad Kauptun sem giegnt ydur er, og strax er þid komed þar inn, munud þid finna Fola bundinn, a hverium eingenn Madur hefur enn setid, leysed hann og leided hingad.

3. Og ef nockur seiger til ydar, þvi giored þier þad, þa seiged ad HErrann hefur þorf fyrer hann, og strax mun hann senda hann hingad.

4. Þeir geingu burt þadann, og fundu Folann bundenn hia Dyrunum ute a gatnamotenu, og leystu hann.

5. Og nockrir af þeim er þar stodu, sögdu til þeirra, hvad giored þid, leysande Folann?

6. Enn þeir sögdu til þeirra so sem JEsus hafde þeim bodid, og þeir leysdu þeim þad.

7. Og þeir færdu Folann til JEsu, lögdu þar a sijn Klæde, og hann setteste þar uppa.

8. Enn marger breiddu sijn Fot a Veigenn, enn nockrer hiuggu Kviste af Trianum, og dreifdu a Veigenn, og þeir er fyrer geingu og

hiner

hiner sem epter filgdu kolludu og søgdu, Hosanna.

9. Lofadur sie sa sem kiemur j Nafne Drottens.

10. Og lofad sie Rijke Fodurs vors Davids, þad ed kiemur j Nafne Drottens, Hosanna j Upphædum.

11. Og JEsus gieck jnn j Jerusalem og jnn j Musterid, og umskygnde alla hlute, og þa Kvølld var nu komed, gieck hann ut med þeim tolf til Bethania.

II. 12. Og annars Dags þa hann gieck ut af Bethania, hungrade hann.

13. Og hann sa aleingdar eitt Fikiutrie, þad er Laufblød hafde, þa gieck hann ad vita hvørt hann fynde nockud a þvi. Og þa hann kom þangad ad, fann hann eckert nema Laufblødinn alleina, þviad þa var eige Fiknanna Tijmenn kommenn.

14. JEsus svarade og sagde til þess, hier epter ete eingenn af þier avøxt ad eylijfu! Og hans Lærersveinar heyrdu a þad.

III. 15. Þeir komu og til Jerusalem, og JEsus gieck jnn j Mustered, tok til ut ad reka þa sem selldu og keyptu j Musterenu, Bordum þeirra er reidepeningum skiptu, og Stolum þeirra er Dufur selldu, hratt hann um.

16. Og ei lofade hann ad nockur bære nockud kier um Mustered.

17. Og hann kiende og sagde til þeirra, stendur þad eige skrifad, ad * mitt Hus skule kallast Bænahus af øllum Þiodum, Enn þier hafed giort þad ad ** Spillvirkia Bæle.

* Esa. 56, 7. ** Jer. 7, 11.

18. Og þetta kom fyrer þa Skriftlærdu og Kennemannahofdingia, og þeir þeinktu um hvørnenn þeir mættu fyrerkoma hønum, enn þeir ottudust hann, af þvi ad allur Lydur dadest ad hans Kienningu.

19. Og um Kvølldid gieck hann ut af Borgenne.

IV. 20. Og ad Morgne þa geingu þeir þar framm hia og sau Fikiutried þurt orded ad Rotum.

21. Og Petur minntest þar a og sagde vid hann, Rabbi, siadu Fikiutried, hvøriu þu formællter, er uppvisnad.

22. JEsus svarade og sagde til þeirra, hafed Tru til Guds!

23. Sannlega seige eg ydur, hvør hellst hann segde til þessa Fialls, lypt þu þier upp, og fleyg þier j Sioenn, og efade eige j sijnu Hiarta, helldur tryde ad þad munde so skie, hvad hann seiger, þa mun þad og skie hann, hvad hann seiger.

24. Fyrer þvi seige eg ydur, allt hvad hellst þier bidied j ydvare Bæn, trued ad þier ødlest þad, þa mun þad henda ydur.

25. Og nær þier standed og bidiest fyrer, þa fyrergefed ef þier hafed nockurskonar ødrum j giegn, so ad ydar Fader sem er a Himnum, fyrergiefe ydur ydar Brot.

26. Þviad ef þier fyrergiefed eige, þa fyrergiefur og eige ydar Fader ydur sem er a Himnum ydar Brot.

V. 27. Þeir komu og aptur til Jerusalem, og þa er hann gieck j Musterenu, komu til hans Hofudprestar, Skriftlærder og Olldungar.

28. Og søgdu til hans, ut af hvøriu Vallde giorer þu þetta? og hvør hefur giefed þier Valld til ad þu giorder þetta?

29. Enn JEsus svarade og sagde til þeirra, eg vil spyria ydur ad einu Orde, svared mier, þa mun eg seigia ydur af hvøriu Vallde eg giora þetta.

30. Skijrn Johannis, var hun af Himnum, eda af Mønnum? svared mier.

31. Þeir hugsudu med sier og søgdu, ef vær seigium ad hun være af Himne, þa seiger hann, þvi trudud þier hønum þa eige?

32. Enn ef vær seigium ad hun være af Mønnum, hrædunst vær Folkid, þviad aller hielldu ad Johannes være sannur Spamadur.

33. Og þeir svørudu og søgdu til JEsu, vær vitum eige. JEsus svarade og sagde til þeirra, þa seige eg og ydur eige, af hvøriu Vallde ad eg giore þetta.

XII. Ca-

# XII. Capitule.

JEsus (I) talar um einn Vijngard: (II) um Skatt: (III) um Uprisuna: (IV) um Løgmaaled: (V) um sijna Personu: (VI) Um tvo Skarfa einnar Eeckiu.

I. Hann tok og til ad tala vid þa j Epterlijkingum. Mädur plantade Vijngard og giørde Gard um, og grof þar Vijnpressu, og bygde þar upp Turn, og leigde hann Vijngardsmonnum, og ferdadest langt j burt.

2. Og er Tijme var komenn, sende hann Þion sinn til Vijngardsmannanna, ad hann tæke af Vijngardsmonnunum utaf Vijngardsins Avexte.

3. Enn þeir handtoku hann, og struktu, og lietu tomhendtann j burt fara.

4. Og enn aptur sende hann annann Þion til þeirra, og hann hofudlestu þeir Griote, og slepptu spottudum j burt.

5. Og þa enn aptur sende hann annann, og þann aflijfudu þeir, og fleyre adra; suma Hwdstryktu þeir, enn suma drapu þeir.

6. Þa hafde hann einn epter eirn einka Son, sem hann hafde kiærann, og þann sende hann seinastann til þeirra, og sagde, þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum.

7. Enn þeir hinu somu Vijngardsmenn søgdu sijn a mille, þesse er Erfingenn, komed þier, vegum hann, so verdur Arfurinn vor.

8. Og þeir høndludu hann og aflijfudu, og køstudu honum ut fyrer Vijngardenn.

9. Hvad mun nu Herrann Vijngardsins giora til? hann mun koma og tortijna Vijngardsmonnunum, og giefa Vijngardinn ødrum.

10. Hafed þier og eige lesid þessa Skrift? * þann Stein er Byggendur burt køstudu, hann er ordenn Hyrningar Steirn.

*Psalm. 118, 22. Esai. 28, 16.

11. Af Drottne er þad giort, og er undarlegt fyrer vorum Augum.

12. Og þeir leitudu vid ad handtaka hann, enn þeir ottudust Lydenn. Þviad þeir skildu vel þad hann sagde þessa Epterlijking uppa þa, og þeir forlietu hann og geingu j burt.

II. 13. Og þeir sendu til hans nockra af Phariseis, og Herodis Þienurum, ad þeir veidde hann j Ordum.

14. Og þeir komu og søgdu til hans, Meistare, vier vitum ad þu ert sannsøgull og skeyter eige neinum. Þviad þu ser ecke epter Mannvirdingu, helldur kienner þu GUds Veg rietteléga, er þad riett ad Menn skulu giefa Keisaranum Skatt edur eige? Skulum vier hann giefa edur ecke giefa?

15. Enn hann fornam þeirra Underhyggiu, og sagde til þeirra, þvi freisted þier mijn? Færed mier eirn Pening, ad eg siae hann.

16. Og þeir færdu honum hann, þa sagde hann, hvørs er þesse Mind og Yferskrift? þeir søgdu honum, Keisarans.

17. Þa svarade JEsus og sagde til þeirra, giefid þa Keisaranum hvad Keisarans er, og þad GUde sem GUds er. Og þa furdade a honum.

III. 18. Þa geingu Saducei til hans, þeir ed hallda, ad þar sie eingenn Upprisa, spurdu hann ad og søgdu.

19. Meistare, Moses skrifade oss, * ad ef nockurs Manns Broder lietest, og hefde Eigennkonu epter, og liete eingen Born epter sig, þa a Broder hans ad medtaka þa somu hans Eigennkonu, og uppvekia sijnum Brodur Sæde. 5 B. Mos. 25, 5.

20. Nu voru þar Sio Brædur, og hinn fyrste tok sier Eigennkonu, hann andadest, latande ecke neitt Sæde epter.

21. Og sa annar tok hana og andadest, liet og eige Sæde epter.

22. Og lijka hinn þridie, og eirnenn þeir sio toku hana aller, og lietu eige Sæde epter, seinast epter þa alla andadest og Konann.

23. Enn j Upprisunne þa er þeir rijsa upp, hvørs þeirra Eigennkona þa verdur hun, þviad þeir Sio høfdu hana til Eigennkonu?

24. Þa svarade JEsus og sagde til þeirra, er ei so ad þier villest, þar fyrer ad þier vited ei Ritningarnar, og eige helldur GUds Krapt.

25. Þviad þa þeir rijsa upp af Dauda, kvongast þeir eige, nie giptast, helldur eru þeir sem Einglar a Himnum.

26. Enn um þa Daudu, ad þeir skulu upprijsa, hafed þier ecke lesed j Moysis Bok, hvornenn sagde GUD til hans hia Skogar-runnenum og sagde? * eg em GUD Abrahams, GUD Isaacs, og GUD Jacobs.

* 2 B. Mos. 3, 6.

27. Eige er hann GUD Daudra, helldur GUD Lifendra, af þvi villest þier miøg.

IV. 28. Og eirn af Skriftlærdum gieck til hans, sa er heyrt hafde þa spyriast a, og saa þad, ad hann hafde svarad þeim vel, og spurde hann ad, Hvort er þad ædsta Bodord af øllum?

29. Enn JEsus svarade hønum, þad er þad ædsta Bodord af øllum. * Heyr þu Israel, DROttenn Gud vor er eirn Gud.

* 5 B. Mos. 6, 4. 5.

30. Og elska skalltu DROttenn Gud þinn af øllu Hiarta þijnu, og af allre Saalu þinne, og af øllu þijnu Hugskote, og af øllum Kroptum þijnum, Þetta er hid ædsta Bodord.

31. Enn annad er og þessu lijkt, * Elska skalltu Naunga þinn sem sialfann þig: Eige eru þar ønnur Bodord þessum meire.

* 3 B. Mos. 19, 18.

32. Og hinn Skriftlærde sagde til hans, Meistare! j sannleika sagder þu vel, þviad eirn er Gud, og eingenn er þar annar enn hann.

33. Og ad elska hann af øllu Hiarta, og af øllu Hugskote, af allre Saalu, og øllum Kroptum, Og ad Elska Naunga sinn sem sialfann sig, þad er øllum Brenne-fornum meira, og øllu Offre.

34. Enn er JEsus sa ad hann svarade vijslega, sagde hann til hans, Eige ertu langt fra Guds Rijke. Og eingenn þorde þa ad spyria hann framarmeir.

V. 35. JEsus svarade og sagde, er hann kiennde j Musterenu, Hvornen seigia Skriftlærder Christum vera Davids Son?

36. Enn David seiger sialfur fyrer Heilagann Anda, * DROttenn sagde mijnum DROttne, Sit þu til minnar hægre Handar, þar til eg legg þijna Ovine til Skarar þinna Fota. * Psalm. 110, 1.

37. Þar nefner David hann sinn DROttenn, Hvornenn er hann þa Sonur hans? Og margt Folk heyrde hønum giarnann.

38. Og hann kiennde þeim og sagde til þeirra, Vared ydur vid Skriftlærdum þeim sem ganga j sijdum Klædum, og lata giarnann heilsa sier a Torgum.

39. Og sitia giarnann efst j Samkundu husum og til Bords j Giestabodum.

40. Þeir uppeta Eckna hus, under hylmingu langrar Bænar, þeir munu og odlast þess stærre fordæming.

VI. 41. Og JEsus settest þvert yfer fra Guds Kistunne, og sa hvornenn Folkid varpadi Peningum j Gudskistuna, og marger Rijker logdu þar mikid j.

42. Enn þa kom ein Eckia fatæk, liet tvo skarfa jnn, þad er eirn Pening.

43. Hann kallade sijna Læresveina til sijn og sagde þeim, Sannlega seige eg ydur, ad þesse fatæka Eckia liet meir j Guds Kistuna, enn aller þeir sem lietu þar j.

44. Þviad aller lietu af þvi er þeim var afgangs, Enn þesse liet af Volæde sijnu allt hvad hun hafde, sijna Biørg alla.

## XIII. Capitule.

JEsus talar. (I) um Eydelegging Jerusalems Borgar: og (II) um Ender Veralldarennar.

I. Og þa hann gieck ut af Musterenu, sagde eirn af hans Læresveinum vid hann, Meistare, Sia, hvilijker Steinar, og hvilijk Bygging þetta er!

2. JEsus svarade og sagde til hans, sier þu allar þessar stooru Byggingar, Hier mun eige epterlaatast Steirn yfer Steine, sa er eige verde sundurbrotenn.

3. Og þa hann sat a Fiallenu Oliveti gegnt Musterenu, spurdu hann ad sierilage, Petrus, og Jacobus, og Johannes, og Andreas.

4. Seig þu oss nær allt þetta skal skie og hvort teikn skal verda, þa þetta skal allt fullkomnast?

5. JEsus svarade þeim og tok til ad seigia, Siaed til ad eige fae nockur villt ydur.

6. Hviad marger munu koma j mijnu Nafne og seigia, Eg em Christur, og munu marga villa.
7. Enn þa þier heyred af Bardøgum og hernadar tijdendum, ottest eige, þviad þessu byriar ad ske, Enn Endenn er þa þo enn ei.
8. Ein Þiod mun reisa sig upp j mote annare, og eitt Kongsrijke a mote ødru, og Landskialftar munu vera hier og þar, Hungur og Hrellingar munu og verda, þetta er Upphaf Eymdanna.
9. Enn siaed þier ydur fyrer, þviad þeir munu frammselia ydur j Roadstefnur og Samkunduhus, og þier munud stryckter verda, og fyrer Kenga og Hofdingia munud þier leiddir verda, minna vegna, til Vitnisburdar yfer þa.
10. Og Gudspiollum byriar ǽdur ad predikast a medal allra Þioda.
11. Þa þeir nu leida ydur og frammselia, sorged eige fyrer hvad þier skulud tala, vered ecke helldur þar um forþeinkter ǽdur, helldur hvad ydur giefst a þeirre sømu Stundu þad taled. Þviad ei erud þier þeir sem tala, helldur Heilagur Ande.
12. Eirn Broder mun selia annann j Daudann, og Fader Sonenn, Børnenn munu setia sig j mote Forelldrunum, og stirkia til ad deyda þa.
13. Og þier munud øllum verda ad hatre fyrer mijns Nafns saker, Enn hvor hann er stadfastur allt til Enda, hañ skal holpenn verda.
14. Enn þa þier siaed * Sviwirding Foreydslunnar af hvorre Daniel Spamadur seiger, ad hun stendur hvar eige byriade (Hvor ed þad les, hann understande þad) Hvor þa er a Gydinga lande, flye hann a Fioll.
* Dan. 9, 27.
15. Og hvor hann er uppa Ræfrenu, hann fare eige nidur j Husid, og kome ecke þar inn ad sækia nockud j sitt Hws.
16. Og sa sem er a Akre, hann snuest eige a bak sier aptur ad sækia Føt sijn.
17. Enn vei þungudum Konum og Briostmylkingum a þeim tijmum!
18. Enn Bidied ad flotte ydar verde eige um Vetur.
19. Þviad a þessum Døgum verda slijkar Hormungar, sem eige hafa verid hier til fra Upphafe Skepnunnar, þa sem Gud skapade, og allt til þessa, og eige helldur mun verda.
20. Og ef DRottenn stytte ecke þessa Daga, yrde eingenn madur holpenn, enn fyrer Utvaldra saker hvoria hann utvalde, hefur hann stytt þessa Daga.
21. Og ef nockur seiger þa til ydar, Sia, hier er Christur, eda sia, þar er hann, þa trued þvi ei.
22. Þviad upp munu rijsa marger Falschristar, og falsker Spamenn, og munu giora Teikn og Stormerke, til ad villa, ef verda mætte, eirnenn Utvalda.
23. Þvi siaed ydur fyrer, sie, Eg sagde ydur allt þetta fyrer.
II. 24. Enn a þeim tijma epter þessa Hormung, mun Solenn og Tunglid missa sitt Skin.
25. Og Stiornur munu hrapa af Himne og Kraptar Himnanna munu hræra sig.
26. Og þa munu þeir sia Mannsins Son komande j Skyum med storum Krapte og Dyrd.
27. Og þa mun hann utsenda sijna Eingla ad samansafna sijnum Utvøldum af fiorum Vindum, allt af enda Jardar, og til Himens enda.
28. Af Fikiutrienu þa læred eina Epterlijking, Þvi þa ed þess Kvistur gioreft frior, og fær Lauf, þa vited þier ad Sumared er j nand. So og nær þier siaed þetta ske.
29. Vited ad þad sie þa nalægt fyrer Dyrum.
30. Sannlega seige eg ydur, þesse Kinslod forgeingur eige, þar til allt þetta skier.
31. Himen og Jord munu forganga, enn mijn Ord munu eige forganga.
32. Enn af þeim Deige og Stundu veit eingenn, eige Einglar a Himnum, og eige Sonurenn, helldur Faderenn eirn.
33. Siaed til, Vaked og bidied, þviad þier vited eige nær tiid er.

34. So

34. So sem sa Madur er ferdadest langt burt, forliet sitt Hus, og gaf sijnum Pionum Yfervalld, sierhvorium sitt Verk, og baud Dyraverdenum ad hann vekte.

35. Pvi vaked nu, Pviad þier vited ei nær Herrann hussins kiemur, hvort hann kiemur ad Kvollde, eda um midnætte, edur þa Hanenn gelur, ellegar ad Morgne.

36. So ad el kome hann skyndelega, og finne ydur sofande.

37. Enn hvad eg seige ydur, þad seige eg ollum, Vaked þier!

## XIV. Capitule.

JEsus er (I) smurdur af einne Konu: (II) Insetur Sacramentum Altaresins: (III) Er svikinn af Judas: (IV) Petur afneitar honum.

I. 1. Enn epter tvo Daga þa voru Paskar, og Sætabraudsdagar, Og Hofudprestar og Skriftlærder leitudu epter, hvornenn þeir giætu hondlad hann med vielum, og lijstated.

2. Enn þeir sogdu, Eige þo um Hatijdena, so ei verde Upphlaup med folkenu.

3. Enn þa hann var j Bethania j Husi Simonar þess Spitelska, og sat vid Bord, kom ein Kona hafande Alabastrum, med omeingad og kostulegt Nardus Salve. Hun braut Glasid, og hellte þvi yfer Hofud honum.

4. Enn þar voru nockrer, sem stuggudust vid, og sogdu, til hvors skal þesse soonn?

5. Pviad þetta Salve matte seliast meir enn fyrer þriuhundrud (a) Peninga, og giefast Fatækum, Og þeir deilldu a hana.

(a) (Peninga) einn af þessum Peningum kostade nær þvi ad reikna hia oss, fimm Skilldinga Danska.

6. Enn JEsus sagde, Lated hana j fride, Til hvors stygged þier hana? Gott Verk giorde hun vid mig.

7. Fatæka hafed þier jafnan hia ydur, og nær þier vilied, meiged þier giora þeim gott, enn mig þa hafed þier eige jafnann.

8. Hun giorde þad hun kunne, Hun kom fyrerfram ad smyria minn Lijkama til minnar Greftrunar.

9. Sannlega seige eg ydur, hvar hellst j Heime ollum er þetta Gudspiall verdur predikad, þa mun seigiast j hennar Minning, hvad hun nu giorde.

II. 10. Enn Judas Iscarioth eirn af þeim Tolf, gieck burt til Hofudprestanna, ad hann forriede hann.

11. Og er þeir heyrdu þad, gloddust þeir, og þeir lofudu ad giefa honum Peninga. Og hann leitadest vid, hvornenn hann giæte forraded hann sem hægast.

12. Og a hinum firsta Sætabraudsdeige, þa Paskalambed offradest, seigia hans Læresveinar til hans, Hvort villtu vier forum og reidum til ad þu neyter Paskalambsins?

13. Og hann sende tvo af sijnum Læresveinum og sagde til þeirra, Ganged jnn j Stadenn, og Madur mun mæta ydur, berande Vatnskrws, filged honum epter.

14. Og hvar hellst hann geingur jnn, þa seiged Husherranum, Meistarenn lætur seigia þier, Hvar er þad Herberge, er eg kann ad neyta Paskalambsins, medur mijnum Læresveinum?

15. Og hann mun syna ydur eirn storann Sal, Steinlagdann, og tilbuenn, reided þier þar til fyrer oss.

16. Og Læresveinarner geingu ut, og komu jnn j Stadenn, og fundu so sem hann hafde sagt þeim, og biuggu til Paskalambed.

17. Og um kvollded kom hann med þa Tolf.

18. Og er þeir saatu til Bords, og aatu, Sagde JEsus, Sannlega seige eg ydur, ad eirn af ydur sa er etur med mier, forrædur mig.

19. Enn þeir urdu hriggver vid, og sogdu hvor epter annan til hans.

20. Er eg þad nockud, og hinn annar, Er eg þad nockud? Enn hann svarade og sagde til þeirra, Eirn af þeim Tolf, sa er dijfer i Fatid med mier.

21. Ad sonnu fer Mannsins Sonur hiedann, so sem skrifad er af honum, Enn * vei þeim

Manne, af hvørium Mannsins Sonur verdur forradenn, betra være þeim Manne ad alldrei hefde hann fæddur verid.

*Psal. 41, 10.

22. Og j þvi er þeir neyttu, tok JEsus Braudid, giørde þacker og braut þad, og gaf þeim þad og sagde, Taked þier, eted, Þetta er mitt Holld.

23. Og hann tok Kaleikenn, og giørde þacker, og gaf þeim hann og þeir drucku aller af hønum.

24. Og hann sagde til þeirra, þetta er mitt Blod, sem er þess Nija Testamentesins, sem fyrer marga uthellest.

25. Sannlega seige eg ydur, ad eg mun ei hiedan j fra drecka af þvi sem vex a Vijntrienu, allt til þess Dags, þa ed eg dreck þad nytt j Guds Rijke.

26. Og ad sungnum Loffsaungnum, geingu þeir ut til Fiallsins Oliveti.

27. JEsus sagde til þeirra Aller munud þier hneixlast a mier a þessare Nott, Þviad skrifad stendur, *Eg mun sla Hirderenn, og Sauderner skulu tvistrast. *Zachar. 13, 7.

28. Enn epter þad eg rijs upp, vil eg ganga fyrer ydur j Galilea.

29. Enn Petur sagde til hans, Og þo aller hneixlest þeir, þa vil eg þo ei hneixlast.

30. Og JEsus sagde til hans, Sannlega seige eg þier, ad j Dag, a þessare Nott, adur enn Hanenn galar tvisvar, muntu afneita mier þrisvar.

31. Enn hann talade enn framar, Þo ad mier byriade ad deya med þier, skyllde eg þo ei neita þier. Og slijkt hid sama søgdu þeir aller.

III. 32. Og þeir komu i þad Gierdis-Tun er hiet Gethsemane, og hann sagde til sinna Læresveina, Setiest þier hier, a medan eg geing burt og bidst fyrer.

33. Og hann tok med sier Petrum, Jacobum, og Johannem, og tok til ad skialfa, og titra.

34. Og sagde til þeirra, Saala mijn er nærsta hrygg allt til Dauda, blijfed hier og vaked.

35. Og þa gieck hann lijtt leingra framm, fell a Jord, og bad ef þad være møgulegt, ad su Stund lide hia.

36. Og sagde, Abba Fader minn, allt er þier møgulegt, tak burt þennann Kaleik fra mier, þo ei sem eg vil, helldur sem þu villt!

37. Og hann kom og fann þa sofande, og sagde til Petrum, Simon! sefur þu? kunner þu ei ad vaka eina Stund?

38. Vaked og bidied so þier falled ecke j freistne, Andenn er reidubuenn, en Holldid er veikt.

39. Hann gieck og enn burt aptur, og bad, og talade hin somu Ord.

40. Hann kom aptur og fann þa aptur sofande, Þviad þeirra Augu voru full af Svefne, og eige vissu þeir hvøriu þeir svørudu hønum.

41. Og hann kom j þridia sinn og sagde til þeirra, Æ, Vilied þier nu sofa og hvijlast, þad er noog, Stundenn er komenn, sia, Mannsins Sonur mun seliast i Syndugra hendur.

42. Standed upp, laatum oss ganga, Siaed, sa er mig forrædur hann er j nand.

43. Og strax sem hann var enn ad tala, kom Judas einn af þeim Tolf, og med hønum mikel Sveit, medur Sverdum og Staungum, fra Høfudprestunum, Skriftlærdum, og Olldungum.

44. Enn Svikarenn hafde giefed þeim eitt Teikn, og sagt, hvørn hellst eg kysse, sa er þad, grijped hann og leided vareygdarlega.

45. Og þa hann kom, gieck hann strax til hans og sagde til hans, Rabbi, Rabbi, og kyste hann.

46. Þa løgdu þeir sijnar Hendur a hann, og gripu hann.

47. Enn einn af þeim sem þar hia stod, dro

vt sitt Sverd, og slo Hofudprestsins Pion, og sneid af honum eitt Eyra.

48. JEsus svarade og sagde til þeirra, þier erud vtgeingner, so sem til annars Ræningia, med Sverdum og Staungum, ad grijpa mig.

49. Hvorsdaglega var eg j Musterenu hia ydur, og kiende, og ei gripud þier mig, helldur þad Ritningenn uppfyldest.

50. Og Læresveinarner forlietu hann aller og flydu.

51. Og þar var einn ungur Madur sem filgde honum epter, hann var klæddur Lijnklæde yfer bert Hørund. Og hann gripu onnur Ungmenne.

52. Enn hann sleppte Lijnklædenu, og flyde nakenn j burt fra þeim.

53. Og þeir leiddu JEsum til Hofudprestsins, þar ed saman voru komner aller þeir yppurstu Prestar, Olldungar og Skriftlærder.

54. Enn Petur filgde honum aaleingdar epter jnn j Hofudprestsins Sal, og hann var þar, og sat hia Pienurum, og vermde sig vid Liosed.

55. Enn Hofudprestarner og allt Raaded, leitudu Vitna j giegn JEsu, so ad þeir giætu sellt hann til Dauda, og fundu eingenn.

56. Marger baaru falsvitne j mote honum, enn þeirra Vitnesburder voru eige samlaatande.

57. Og þar stodu nockrer upp, og baaru Falsvitne j mote honum, og sogdu.

58. Vier hofum heyrt hann seigia, eg vil þetta Mustere nidurbriota, sem med Hondum er giort, og jnnann þriggia Daga uppbyggia eitt annad, þad ei er med Hondum giort.

59. Enn þeirra Vitnisburder komu enn þa eige saman.

60. Og Hofudpresturenn stod upp a medal þeirra, spurde JEsum ad og sagde, svarar þu ongvu til þess sem ad þesser vitna j mote þier?

61. Enn JEsus þagde og svarade ongvu. Pa spurde Hofudpresturenn hann enn aptur, ad, og sagde til hans, ertu Christur Sonur hins Blessada?

62. JEsus sagde honum, eg em, og þier munud sia Mannsins Son sitia a hægre Hond Kraptarins, og komanda med Skyum Himens.

63. Enn Hofudpresturenn reif þa sinn Kyrtel, og sagde, hvad þurfum vier meir Vitnisburda vid?

64. Pier heyrdud Gudlostunena, hvad synest ydur? enn þeir fordæmdu hann aller ad hann være Dauda sekur.

65. Pa toku nockrer ad spyta a hann, og birgia hans Asionu, og ad slaa hann med Knefum, og seigia til hans, spaa þu oss, og Pionarner slou hann Pustra j Andlitid.

IV. 66. Og Petur var þar nidur j Salnum, þa kom ein af Ambaattum Hofudprestsins.

67. Og þa hun leit Petrum verma sig, horfde hun a hann og sagde, og þu varst og med JEsu af Nazareth.

68. Enn hann neitade og sagde, eg þecke hann eige, og eige veit eg hvad þu seiger. Og hann gieck vt j Forgardenn, og Hanenn gool.

69. Og Ambaattenn saa hann, og tok aptur ad seigia þeim er þar hia stodu, þesse er einn af þeim.

70. Enn hann neitade enn aptur. Og litlum tijma þar epter, sogdu þeir aptur er hia stodu til Peturs, sannlega ertu einn af þeim, þviad þu ert einn Galileare, og þitt Maal hliodar so.

71. Enn hann tok ad formæla sier, og sveria, eige þecke eg þann Mann um hvorn þier taled.

72. Og Hanenn gool j annad sinn. Pa minntest Petur þess Ords, sem JEsus hafde sagt til hans, aadur enn Hanenn galar tvisvar, muntu afsveria mig þrisvar, og hann tok ad graata.

## XV. Capitule.

JEsus er (I) aaklagadur: (II) Dæmdur til Dauda: (III) Smaanadur, og (IV) greftadur.

I. Og strax um Morgunenn hielldu Hofudprestarner Radstefnu med Olldun=

dungunum, og Skriftlærdum, og þar ad auk øllu Raadenu, og bundu JEsum, leiddu hann burt og frammselldu Pilato.

2. Og Pilatus spurde hann ad, ertu Kongur Gydinga? enn hann svarade og sagde til hans, þu seiger þad.

3. Og Hofudprestarner aaklogudu hann hardlega.

4. Pilatus spurde hann aptur ad og sagde, svarar þu øngvu? sia hvørsu hardlega þeir aaklaga þig.

5. Enn JEsus svarade øngvu framar. So ad Pilatus undradest.

6. Enn hann var vanur ad giefa þeim lausann um Paaskahatijdena einn Bandingia, epter hvørium hellst þeir beiddust.

7. Enn þar var einn sa ed hiet Barrabas, med Upphlaupsmønnum bundenn, hvør j Upphlaupenu hafdi Vijg unned.

8. Og Folked gieck upp, og bad ad hann villde giøra sem hann var vanur.

9. Enn Pilatus svarade þeim, vilied þier ad eg giefe ydur (a) Gydinga Kongenn lausann?

(a) (Kong) Pilatus talar uppa spie, eins og hann villde seigia. Klaged þier þar uppa ad þesse auma Manneskia sie Kongur, þa meiged þier vera ofgal der Menn.

10. Þviad hann visse ad Hofudprestarner høfdu af Øfund afhendt hann.

11. Enn Hofudprestarner eggiudu Lijdenn, ad hann glæfe þeim miklu helldur Barrabam lausann.

12. Þa svarade aptur Pilatus og sagde til þeirra, hvad vilied þier þa ad eg skule giøra honum, hvørn þier aklaged, ad hann sie Kongur Gydinga?

13. Enn þeir kolludu þa aptur, krossfestu hann.

14. Pilatus sagde til þeirra, hvad jllt hefur hann giørt? enn þeir kolludu þvi meir, krossfestu hann.

15. Enn Pilatus þeinkte Folkenu fullnægiu ad giøra, gaf þeim lausann Barrabam, og frammsellde þeim JEsum, Hvodstryktann, ad hann krossfestur yrde.

II. 16. Enn Strijds-Þienararner leiddu hann j Þinghused, og kolludu samann allann Hoopenn.

17. Og færdu hann j Purpuraklæde, og fliettudu eina Þyrnekoronu, og settu a hann.

18. Og toku ad heilsa honum, heill siertu Konungur Gydinga.

19. Og slou hans Høfud med Reirnum, og hræktu a hann, fiellu a Knie og tilbaadu hann.

20. Enn þa þeir høfdu spottad hann, færdu þeir hann ur Purpuranum, og færdu hann j sijn eigenn Klæde, og leiddu hann ut ad þeir krossfestu hann.

21. Þeir þreyngdu og einum sem frammhia gieck Simone af Cirene, er komenn var af Akurlande (Fodur þeirra Alexandri og Ruffi) ad hann bære hans Kross.

22. Og þeir leiddu hann j þann Stad Golgatha, þad þydest Hausaskieliastadur.

23. Og þeir gaafu honum j Vijne Myrrham ad dricka, og hann tok þad eige til sijn.

24. Og þa þeir høfdu krossfest hann, skiptu þeir Klædum hans, og kostudu hlutum, hvad hvør skyllde hafa.

25. Enn þad var nær um (b) þridiu Stund, er þeir krossfestu hann.

(b) (Þridiu Stund) Gydingar skiptu sijnum Deige j fiøra Parta, af hvørium annar Parturenn var fra þridiu til siøttu Stundar, þad er hia oss, fra niundu, til tolftu, og er Middags Tijme, og þo ad Marcus seige ad Christus hafe vered krossfestur a þridiu Kluckustundu, og Johannes seiger (Cap. 19, 13) ad Christur hafe vered krossfestur um siøttu Kluckustund, þa eru þeir ecke hvør a mote ødrum, þviad Marcus aavijsar, ad þeir hafe teked til ad raadslaga um Christi Krossfestingu, nær þridiu Stundu, sem er hia oss su nijunda Stund hins fyrra hlutar Middeigis. Enn Johannes stingur uppa sialfann Tijmann, a hvørium Christur var negldur a Krossenn, sem var siøtta Kluckustund, þad er Middeiges Tijme.

26. Og þar var upp yfer honum skrifad, hvør Søk honum var giefinn, sem var, Kongur Gydinga.

27. Og med honum krossfestu þeir tvo Rei-
fara, eirn til hægre Handar, enn annann til
vinstre.
* 28. Pa vard SuRitning uppfyllt sem seigir,
medur Jllvirkium er hann reiknadur.
* Esa. 53, 15.
III. 29. Og þeir sem geingu þar framm hia,
hæddu hann, skoku Hofud sijn, og sögdu,
svei, hvernenn nidur-brytur þu Musterid, og
bygger þad upp a þremur Dogum?
30. Hialpa þu nu sialfum þier, og stijg
hier nidur af Krossenum.
31. Lijka eirnenn hæddu hann Hofudpre-
starner, sijn a medal, med Skriftlærdum,
og sögdu, odrum hialpade hann, sialfum sier
getur hann eige hialpad.
32. Sie hann Christur og Kongur Jsraels,
þa stijge hann nidur af Krossenum, ad vier
siaum, og meigum so trua. Og þeir ed med
honum voru Krossfester, forsmädu hann
eirnenn.
33. Og ad lidenne siöttu Stundu, urdu
Myrkur um allt Landid, allt nær til nijundu
Stundar.
34. Og um nijundu Stundu kallade JE-
sus upp hátt, og sagde, Eli Eli Lama Asab-
thani? hvad ed utleggst, GUd minn, GUd
minn! þvi forliestu mig?
35. Og nockrer af þeim er þar stodu hia, þa
þeir heyrdu þad, sögdu þeir, sia, hann kal-
lar a Eliam.
36. Enn eirn hliop ad, og fyllte upp Niar-
darvött med Edik, og látande uppa eirn Reir-
legg, gaf honum ad drecka, og sagde, lát
vera, siaum hvort Elias kiemur ad taka hann
ofann.
37. Enn JEsus kallade upp hárre Rod-
du, og uppgaf sinn Anda.
38. Og Tialdsed Musteresins rifnade sundur
j tvennt, fra ofanverdu allt nidur j giegnum.
39. Enn er Hofudsmadurenn sa þad,
hvor þar stod giegnt, ad hann kallade so, þa
ed hann liest, sagde hann, sannlega hefur þesse
Madur verid GUds Sonur.
40. Og þar voru og so Kvinnur sem langt
fra horfdu a þad, a medal hvorra ad var Ma-
ria Magdalena, og Maria hins litla Jacobs,
og Joses Moder, og Salome.
41. Pær honum hofdu epterfilgt þa hann
var j Galilea, og þionad honum, og mar-
gar adrar, hvoriar med honum hofdu uppfa-
red til Jerusalem.
IV. 42. Og þa ed Kvolld var komed (af þvi
þad var Adfanga Dagur, hvor ad er fyrer
Sabbathsdagenn).
43. Kom Joseph af Arimathia, eirn erlegur
Radherra, sa er og vonade epter GUds Rij-
ke, hann dirfdest ad ganga jnn til Pilatum,
og bad um Lijkamann JEsu.
44. Enn Pilatus undradest ad hann være
þegar latenn.
45. Og kallade Hofudsmannenn, og spur-
de hann ad ef hann være fyrer laungu anda-
dur? og er hann var þess vijs ordenn af Ho-
fudsmannenum, gaf hann Joseph Lijkamann.
46. Og hann keypte einn Lijnduk, tok hann
ofann, og sveipade hann j Lijndwknum, og lag-
de hann j eina Grof, hvor ed kloppud var j einn
Stein, og vellte Steine ad Grafar-Dyru-
num.
47. Enn Maria Magdalena og Maria Jo-
ses sau til hvar hann var lagdur.

## XVI. Capitule.

(I) JEsu upprisa og (II) Himnafor.
Gudspialled a. Paskadagenn.

I. Og er Sabbathsdagurenn var lidenn,
keyptu þær Maria Magdalena og
Maria Jacobi og Salome dyrdleg Smyrsl,
ad þær kiæme og smyrde hann.
2. Og miög snemma, a fyrsta Dag Vikun-
nar komu þær til Grafarennar, um Solar
uppruna.
3. Og hvor þeirra sagde til annarar, hvor
mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafar-
munnanum?
4. Og þær litu þangad, og urdu varar vid,
ad Steinenn var afvelltur, þviad hann var
nærsta mikell.

5. Og

5. Og þær foru jnn j Grøfena, og ſau eitt Ungemenne ſitia til hægre Handar, ſkryddann ſijdu Klæde hvitu, og þær urdu hrædddar.

6. Enn hann ſagde til þeirra, eige ſkulud þier hrædaſt, þier leited ad hinum kroſsfeſta JEſu af Nazareth, hann er uppriſenn og er eige hier, ſiaed þann Stad hvar þeir løgdu hann.

7. Ganged helldur burt og ſeiged hans Læreſveinum og Petre, þad hann mun ganga fyrer ydur j Galileam, þar munud þier ſia hann, epter þvi ſem hann ſagde ydur.]

8. Enn þær geingu ut ſkyndelega, og flydu fra Grøfinne, þviad komenn var yfer þær Skialfte og Hrædſla, og þær ſøgdu øngvum neitt, þviad þær voru hræddar.

9. Enn er JEſus hafde ſnemma Morguns uppriſid a firſta Deige Vikunnar, þa birte hann ſig firſt Mariu Magdalenu, fra hvorre hann haf de utrekid ſiø Diøfla.

10. Hun før og kunngiørde þeim ſem medur hønum høfdu verid, ſem hørmudu og grietu.

11. Og er þeir heyrdu ad hann lifde, og hann være opennberadur fyrer henne, þa trudu þeir ei.

12. Epter þad, þa er tveir af þeim ferdúduſt, opinnberade hann ſig þeim j annare Lijkingu, þa er þeir geingu um Þorpagrunderner.

13. Og þeir ſømu geingu burt, og kunngiørdu hinum ødrum, þeim trudu þeir og eige.

Gudſpialled a Upſtigningardag.

II. 14. Enn ſeinaſt er þeir Elleſu ſogtu til Bords, birte hann ſig, og aviitade þeirra Vantru, og Hiartans Hardudd, þad þeir høfdu eige truad þeim, ſem hann høfdu ſied uppriſenn.

15. Og hann ſagde til þeirra, fared ut um allann Heimenn, og prediked Evangelium allre Skiepnu.

16. Hvør hann truer og verdur ſkijrdur, ſa ſkal holpenn verda, enn hvør eige truer hann ſkal fordæmaſt.

17. Enn Teiknenn er þeim munu filgia ſem trua, eru þeſſe, j mijnu Naſne munu þeir Diøfla utreka, nijar Tungur tala.

18. Høggorma utreka, og ef þeir drecka nockud banvænlegt, ſkal þad þeim eige granda, yfer Siuka munu þeir ſijnar Hendur leggia, og þa mun þeim batna.

19. Og epter þad Drottenn hafde þetta talad vid þa, var hann uppnumenn til Himens, og ſitur til GUds hægre Handar.

20. Enn þeir geingu ut og predikudu allſtadar, og Drottenn var ſamverkande med þeim, og ſtadfeſte Orded fyrer medfilgiande Teikn.]

Ender Gudſpialla hins Heilaga Marci.

# S. Lucæ Evangelium.

## I. Capitule.

(I) um Getnad Johannis, og (II) JEſu: (III) Johannis Fæding.

I. Af þvi ad marger hafa ſier fyrer Hendur tekid, ad frammſetia og fra ad ſeigia þeim Hlutum, er a medal vor hafa tilborid.

2. So ſem þeir hafa oſs j Hendur feingid, ſem fra upphafe hafa þad ſialfer ſied, og Þienarar Ordſins hafa verid.

3. Þa hefur mier ſyndſt gott, epter þvi eg hefe uppſpurt þad alltſamann fra Upphafe, ad ſkrifa þad allt ſkickannlega þier til, minn gode Theophile, med Koſtgiæfne.

4. So ad þu kunner ad hafa viſſara Grundvoll a þeim Lærdome, j hvorium þu ert undervijſadur.

5. J Tijd Herodis Juda Kongs, var eirn Prestur er Zacharias hiet, af Skipte Abia, og hans Hwsfru var af dætrum Aarons, su er hiet Elisabeth.

6. Enn þaug voru bæde Riettlꜳt fyrer Gude, og geingu j øllum Bodordum og Setningum DRottins ostraffanlega.

7. Þau ꜳttu eckert Barn, þviad Elisabeth var Obyria, og bæde þaug voru vel Olldrud.

8. Enn so bar til, þa hann flutte Prestlegt Embætte fyrer Gude, a Tijma hans Skiptes.

9. Epter sidveniu Kiennemannsskaparins. Og er hønum hlotnadest ad hann skyllde veysa Reykelsinu, gieck hann jnn j Mustere DRottins.

10. Og allur Folksfioldenn var fyrer utann, og badst fyrer, um Reykelsis veysunartijmann.

11. Enn hønum birtest Eingell DRottins, standande a hægra Veg Reykelsis alltaresins.

12. Og Zacharias vard hræddur er hann sꜳ hann, og Otte kom yfer hann.

13. Enn Eingellenn sagde til hans, Ottast þu eige Zacharia, þviad þijn Bæn er heyrd, Og Elisabeth Eigennkona þijn mun þier Son fæda, og hann skalltu Johannes ad Nafne kalla.

14. Og þu munt af hønum Fognud og Glede hafa, og marger munu fagna af hans Fædingu.

15. Þviad hann mun verda mikell fyrer DRottne. Wijn og afeingann Dryck mun hann ei drecka, og þegar j Modur Kvide mun hann upfylltur verda af Heilogum Anda.

16. Og mørgum Jsraels Børnum mun hann snua til Guds DRottens þeirra.

17. Og hann mun fyrer hønum frammganga j * Anda og Krapte Elie, so ad hann snue Hiortum Fedranna til Barnanna, og Vantruudum til Kiænsku Riettlꜳtra, ad tilbua so DRottne reidubuid Folk.

* Malach. 4, 5. 6.

18. Og Zacharias sagde til Eingelsins, Af hvoriu skal eg þad vita? þviad eg er Gamall, og Hwsfru mijn er komenn til ꜳra sinna?

19. Eingellenn svarade og sagde til hans, Eg em Gabriel, Sa er framme fyrer Gude stendur, og eg em sendur ad tala vid þig, ad eg bode þier þetta.

20. Og sia, Ad þu munt mꜳllaus verda, og ei talad gieta, allt til þess Dags, þa þetta mun frammkoma, fyrer þvi ad þu truder eige mijnum Ordum, þaug er upp skulu fyllast a sijnum tijma.

21. Og Folkid beid epter Zacharia, og undradest þad hann dvalde so leinge j Musterenu.

22. Enn er hann gieck ut, gat hann eige talad vid þa. Og þeir formerktu, ad hann munde Syn sied hafa j Musterenu. Og hann bendte þeim og var Mꜳllaus.

23. Þad skiede og, þa er lidner voru Dagar hans Embættis, ad hann gieck heim j sitt Hws.

24. Enn epter þa Daga vard hans Hwsfru Elisabeth þungud, og leynde sier fimm Manude, og sagde.

25. Þannenn giorde DRottenn vid mig, a þeim døgum hann aleit mig, þa ed hann villde burt taka mitt Hneixle þad eg bar a millum Manna.

Gudspialled ꜳ Bodunardag Mariu.

II. 26. Enn a hinum sietta Manude var Gabriel Eingell sendur af Gude, j eina Borg j Galilea, sem heiter Nazareth.

27. Til eirnrar Meyar, er trwlofud var einum Manne er Joseph hiet, af Hwsi Davids, og Heite Meyarennar var Maria.

28. Og Eingellenn kom jnn til hennar og sagde, Heil siert þu (a) Nꜳdarfulla, DRottenn er med þier, (b) Blessud ert þu a medal Kvenna!

a) (Nꜳdarfulla) Epter Griskre Mꜳlisku hlyder Þad so, Þu sem hefur funded Nꜳd; Matth. 1, 18.

(b) (Blessud) Þad er a Norrænu, Þu hꜳtt-lofud.

29. Enn þa hun sꜳ hann, vard hun hrædd af hans Ordum, og þeinkte, Hvilijk Kvedia er þetta?

30. Og Eingellenn sagde til hennar, Ottast
þu eige Maria, þviad þu (c) Fannst Nad hia
Gude.

(c) (Fannst) Þad er, Þu hefur Naadugann Gud.

31. Sia, þu munt Getnad fa j Kvide
þijnum, og munt Son fæda, og hans Nafn
skallt þu JEsus kalla.
32. Hann mun mikell verda, og kallast
Sonur hins Hæsta. Og Gud DRottenn
mun giefa honum Stol sijns Fodurs Da=
vids.
33. Og hann mun vera Kongur yfer Hwsi
Jacobs ad eylijfu, hans Kongs Rijkis mun og
eingenn Ender verda.
34. Þa sagde Maria til Eingelsins, Hvor=
nenn skal þad ganga til, med þvi eg veit af
ongvum Manne?
35. Eingellenn svarade og sagde til hennar,
Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Krap=
tur hins Hæsta mun yferskyggia þig, af þvi,
ad þad hid Helga sem af þier mun fædast, skal
nefnast Sonur Guds.
36. Og siadu, Ad Elisabeth Frændkona
þijn geingur þungud ad einum Syne j hen=
nar Elle, og þesse er hennar siette Manudur,
sem halldenn var Obiria.
37. Þviad hia Gude er eingenn hlutur
omoattugur.
38. Enn Maria sagde, Sia, Eg em Am=
boatt DRottens, verde mier so sem þu hefur
sagt, Og Eingellenn skilde vid hana.]

Gudspialled a Vitiunardag Mariu.

39. ENn a þeim Dogum stod Maria upp
og gieck med flyter uppa Fiallbygder
til Juda Borgar.
40. Og kom j Hws Zacharie og heilsade
Elisabeth.
41. Og þad skiede so, þa ed Elisabeth heyr=
de Heilsun Mariu, ad Barnid spratt upp j
hennar Kvide. Og Elisabeth vard full af Hei=
logum Anda.
42. Kallade upp hoarre Roddu og sag=
de. (d) Blessud ertu a medal Kvenna, og
Blessadur er Avoxtur Kvidar þijns.

(d) (Blessud) A Norrænu, Lofud ertu.

43. Og hvadann kiemur mier þetta, ad
Moder DRottins mijns kiemur til mijn?
44. Siadu, Þa ed Rodd þinnar Kvedju
kom mier til Eyrna, spratt Barnid upp med
fagnade j mijnum Kvide.
45. Og Sæl ert þu sem truder, þviad þad
mun fullkomnast hvad þier var sagt af
DRottne. Og Maria sagde.
46. Sal mijn upphefur DRottenn.
47. Og Ande minn gledst j Gude Frelsa=
ra mijnum.
48. Þviad hann leit a sijna aumu Am=
boatt, Sia, Hiedann af munu mig Sæla
prijsa allar Ætter.
49. Þviad hann giorde mikla Hlute vid
mig, sa er Volldugur er, og hans Nafn er
Heilagt.
50. Og hans Miskunsemd varer aan
afloats, æ og alla tijma hia þeim sem hann
ottast.
51. Hann fremur Makt med sijnum Arm=
legg, og sundur dreifer Dramblootum j
þaunkum þeirra Hiarta.
52. Volldugum hrinder hann af Stole,
og uphefur Lijteloata.
53. Hungrada fyller hann Giædum, og
Rijka lætur hann fafeinga.
54. Hann minnest Miskunar, og hialpar
a fætur sijnum Þion Jsrael.
55. So sem hann talade til Fedra vorra,
Abrahams og hans Sædis ad eylijfu.
56. Og Maria var hia henne so nær sem
þria Manude, og for þar epter aptur til sijns
Heimkynnis.]

Gudspialled a Jons Messu.

III. 57. OG Elisabethar Tijd kom ad hun
skyllde fæda, og hun fædde,
einn Son.
58. Og er Grannar hennar og Naafræn=
dur heyrdu, ad DRottenn hafde giert mikla
Miskun a henne, samgloddust þeir med henne.
59. Og þad skiede a aattunda Deige þa
þeir komu ad umskiera Barnid, og nefndu
hann epter sijnum Fodur Zachariam.

60. Enn Moder hans svarade og sagde, Ongvanneigenn, helldur skal hann Johannes heita.

61. Þeir sogdu til hennar, Þar er þo eingenn j þinne Ætt sem so heiter.

62. Enn þeir bendtu Fodur hans, hvad hann villde ad hann hiete.

63. Og hann beiddest Hnefaspjallds, skrifade og sagde, Hann heiter Johannes. Og þeir undrudust aller.

64. Og jafnskiott laukst upp hans Munnur og Tunga, og hann talade, Lofande Gud.

65. Og Otte kom yfer alla hans Nagranna, og allt þetta sem skied var, vijdfrægdest um allar Fiallbygder j Judea.

66. Og aller þeir er þad heyrdu, logdu þad uppa Hiartad; og sogdu, Hvor grunar þig ad þetta Barn verde? þviad Hond DRottins var med honum.

67. Og Zacharias Fader hans fylltest af Heilogum Anda, spaade og sagde.

68. Lofadur sie Gud DRottenn Jsraels, þvi hann vitiade og frelsan giorde sijnu Folke.

69. Og hann uppreiste oss Sáluhialpar Horn, j Huse sijns Þions Davids.

70. So sem hann talade fordum, fyrer Munn sinna heilogu Spaamanna.

71. Ad hann frelsade oss j fra vorum Ovinum, af Hende allra þeirra sem oss hata.

72. Og giorde Miskunsemd vid Fedur vora, og minntest a sinn Heilagann Sattmaala.

73. Og a þad Sære er hann sor Fodur vorum Abraham, ad hann gæfi oss þad.

74. Ad vier leyster af Hende vorra Ovina, þionudum honum aan Otta, Alla vora Lijfdaga.

75. J heilagleika og Riettlæte, sem honum þocknast.

76. Og þu Barnkorn munt kalladur vera Spaamadur hins Hæsta, þviad þu munt fyrerrenna Auglite DRottens, ad tilbua hans Vegu.

77. Og ad giefa hans Folke (e) Skilning Sáluhialparennar, sem er j Fyrergiefningu Synda þeirra.

(e) (Skilning Sáluhialparennar) So ad þeir skulu vita, a hvorn hatt ad þeir verda Sáluhólpner, ecke fyrer Logmalsins Verk, helldur fyrer Syndanna Fyrergiefning.

78. Fyrer þa Hiartgrona Miskun Guds vors j hvorre hann vitiade vor, (f) Upprunnenn af Hædum.

(f) (Upprunnenn) Hier med skilst Christus Riettlætesins Sool, fyrer hvors Tilkomu, Hiortun skulu upplyst verda, til ad skilia Guds Rijkis Leyndardoma. Mal. 4, 2. Esa. 60, 1 2.

79. Ad lysa þeim j Myrkrum og j Dauðans skugga sitia, til ad greida Fætur vorar a Veg Fridarens.]

80. Enn Barned vox upp, og stirktest j Anda, og var a Eydemorkum, allt til þess er hann skyllde ganga framm fyrer Jsraels Folk.

## II. Capitule.

(I) Hversu ad JEsus fæddest: (II) Var umskorenn: (III) Var laatenn koma i Mustered: (IV) Samtal hans vid hina Lærdu.

Gudsp. a Firsta i Jolum.

I. Enn þad bar til j þann Tijma, ad þad Bod gieck ut fra Keisaranum Augusto, þad Heimurenn allur skyllde (a) Skattskrifast.

(a) (Skattskrifast) er hier þad, ad hvor atte ad giefa Ort Gulls fyrer hvort Hofud.

2. Og þesse Skattskrift var hin allra firsta, og skiede j þann Tijma þa Cyrenius var Landsstiornare j Syria.

3. Og aller foru ad laata skrifa sig nidur til Skatts, hvor til sinnar Borgar.

4. Þa for og Joseph af Galilea ur Borgenne Nazareth upp i Judeam, til Davids Borgar su er kallast Bethlehem, af þvi ad hann var af Huse og Kine Davids.

5. Ad hann liete skattskrifa sig, med Mariu sinne Trulofadre Kvinnu, sem var oliett.

6. Og er þaug voru þar, þa kom Tijmenn ad hun skyllde fæda.

7. Og hun fædde sinn frumgetinn Son, og vafde hann j Reifum, og lagde hann nidur j Jotuna, þviad þaug hofdu eckert Rwm j Giesta Herbergenu.

8. Og Fioarhirdarar voru þar j sama Bygdarlage, um Grandana vakande, sem voktudu Hiord sijna um Nottena.

9. Og sia, ad Eingell Drottens gieck til þeirra, og Drottins Birte liomade j kringum þa, og þeir urdu nærsta miog Ottaslegner.

10. Og Eingellenn sagde til þeirra, hrædest ecke, siaed, eg boda ydur mikenn Fognud, þann er skie skal ollu Folke.

11. Þviad j Dag er ydur Frelsarenn fæddur, sa ad er Christur Drottenn j Borg Davids.

12. Og hafed þad til merkis, þier munud finna Barnid Reifum vafed, og lagt vera j Jotuna.

13. Og jafnskiott þa var þar hia Einglenum margfiolde Himneskra Hersveita, sem losudu GUd og sogdu.

14. Dyrd sie GUde j Upphædum, og Fridur a Jordu, og Monnum (b) goodur Vilie.]

(b) (Godur Vilie) ad Mennerner skulu hafa Lyst og elsku þar af, bæde fyrer Gude, og innbyrdis hvor med odrum, og medtaka þetta med Þacklæte, og þessvegna giora, og laata ogiort, og lijda allt med Glede.

15. Og þa er Einglarner foru fra þeim til Himens, toludu Hirdararner hvor vid annann, Gongum vær til Bethlehem, og siaum þad Verk er þar er skied, sem Drottenn hefur openberad oss.

16. Og þeir komu med skunda, og fundu bæde Mariam og Joseph, og þar ad auk Barnid liggia j Jotunne.

17. Enn þa þeir hofdu þad sied, vijdfrægdu þeir þad Ord ut, sem til þeirra var sagt af þessu Barne.

18. Og aller þeir er þad heyrdu, undrudust af þeim Ordum sem þeim var sagt af Hirdurunum.

19. Enn Maria vardveitte oll þesse Ord og yfervo þaug j sijnu Hiarta.

20. Og Fioarhirdararner sneru aptur, dyrdkande og lofande GUd, fyrer allt þad hvad þeir hofdu heyrt, og sied, epter þvi sem þad var sagt til þeirra.

Gudsp. a Nya-Aars Dag.

II. 21. Og þa aatta Dagar voru lidner, ad Barned skyllde umskerast, var hans Nafn kallad JEsus, hvad er kallad var af Einglenum, aadur enn hann var gietenn j Moodur Kvide.]

Gudspialled a Kindel-Messu.

III. 22. Og þa Dagar hennar *Hreinsunar komu, epter Moysis Logum, hofdu þau hann til Jerusalem, uppa þad þau liete hann koma fyrer Drottenn.

*3 B. Mos. 12, 6.

23. So sem skrifad stendur j Logmaale Drottins, ad allt Karlkins, þad er * first opnade sinnar Modurkvid, þa skyllde kallast Drottne helgad. *2 B. Mos. 13, 2.
4 B. Mos. 8, 17.

24. Og ad þaug gæfe Offrid epter þvi sem seigest j Logmaale Drottens, *tvær Turtil-Dwfur, eda tvær ungar Dwfur.

*3 B. Mos. 12, 8.

25. Og sia, ad einn Madur var j Jerusalem, sa er Simeon hiet, og þesse same Madur var riettlaatur, og GUdhræddur, væntande epter Huggun Israels, og Heilagur Ande var med honum.

26. Og hann hafde Andsvar feinged af Heilogum Anda, ad hann skyllde eige Daudann sia, nema hann sæe aadur fyrre Christ Drottins.

27. Og hann kom af Andans Tilladan j Musterid. Og þa er Forelldrarner hofdu Barned JEsum j Mustered, ad þaug giordu fyrer honum epter sidveniu Logmaalsins.

28. Þa tok hann hann uppa sijna Armlegge, lofade GUd og sagde.

29. Nu laattu Drottenn Þion þinn epter Ordum þijnum j (c) Fride fara.

(c) (J Fride fara) nu vil eg gladur Deya.

30. Þviad mijn Augu hafa sied þitt Hialpraad.

31. Þad þu tilreidder, fyrer ollum Þiodum.

32. Lios til Uppbirtingar Heidnum Þiodum, og til Dyrdar þijns Folks Israels.]

Gudsp. Sunnudagenn mille Jola og Nya-Aars dags.

33. Og Joseph og hans Moder undrudust
þad hvad af honum sagdest.

34. Og Simeon blessade þau, og sagde til
Mariu hans Modur, Sia, þesse mun setiast til
Falls og Upprisu margra j Israel, og til mer-
kes hvorium j mote mun mælast.

35. Og eitt Sverd mun þreingia sier j
giegnum þijna Saal, so ad auglioser verde
Hugskotsþankar margra.

36. Og þar var Anna Spaakona Dotter
Phanuels, af Kine Asser, hun var komenn
til sinna aara, og hafde Lifad j siø aar med sij-
num eignarmanne, epter sinn Meydom.

37. Og hun var nu ein Eckia, hafande
fiora Vetur um aattrædt, hvor ed eige gieck
ur Musterenu, þionande GUde Nott og Dag,
med Fostum og Bænahallde.

38. Þesse gieck og samstundes þar ad, og
prijsade Drottenn, og sagde af honum til all-
ra þeirra, sem Lausnarennar vonudu til Je-
rusalem.

39. Og er þau høfdu allt fullkomnad, epter
Løgmaale Drottins, sneru þaug aptur i Ga-
lileam til Borgar sinnar Nazareth.

40. Enn Barned vox upp, og styrktest j
Anda, fullur Vijsdoms, og GUds Naad var
med honum.]

IV. 41. Og hans Forelldrar geingu aarlega
aars til Jerusalem a Paaskahatijdenne.

Gudsp. 1. Sunnud. epter Þrettanda.

42. Og þa hann var tolf Aara gamall,
foru þau upp til Jerusalem, epter
sidvenju Hatijdarennar.

43. Og er þeir Dagar voru lidner, og
þaug foru heimleides aptur, bleif Barned JE-
sus j Jerusalem, og Joseph og hans Moder
vissu þad eige.

44. Og meintu þad hann være hia Selskap-
num. Og þaug voru komenn eina Dagferd,
og leitudu hans a medal Frænda og Kuñingia.

45. Og þa er þaug fundu hann ei, geingu
þaug aptur til Jerusalem, og leitudu ad ho-
num.

46. Og þad skiede so epter þria Daga, ad
þaug fundu hann j Musterenu, sitiande midt
a millum Lærefedranna, heyrande þeim, og
adspyriande þa.

47. Enn aller þeir er hann heyrdu, undru-
dust yfer hans Skilninge og andsvørum.

48. Og er þaug saau hann, bra þeim vid.
Og hans Moder talade til hans, Son minn,
þvi breitter þu so vid ockur? sia þu, Fader
þinn og eg leitudum harmþrungenn ad þier.

49. Og hann sagde til þeirra, hvad er þad,
ad þid leited ad mier? vited þid eige ad mier by-
riar ad vera j þvi sem mijns Fodurs er?

50. Og þaug underskodu eige þad Ord, sem
hann mællte til þeirra.

51. Og hann for med þeim ofann, og kom
til Nazareth, og var þeim undergiefenn. Og
hans Moder geymde øll þesse Ord i sijnu Hiarta.

52. Og JEsu jokst Alldur og Vitska, og
Naad hia GUde og Mønnum.]

## III. Capitule.

(I) Johannes predikar: (II) talar um JEsum: (III) Ettar-Tala JEsu.

I. A fimtanda aare Keisaradoms Tiberij
Keisara, þa ed Pontius Pilatus var
Landstiornare j Judea, enn Herodes Fior-
dungshofdinge j Galilea, og Broder hans
Philippus Fiordungshofdinge j Iturea, og
um Trachonitidis Hierød, og Lisanias Fior-
dungshofdinge til Abilene.

2. Þa þeir Annas og Caiphas voru Høfud-
prestar, skiede GUds Bifalning til Johannem
Son Zacharie j Eydemørku.

3. Og hann kom j allt bygdarlag hia Jor-
dan, og predikade Idrunarskijrn, til Syn-
danna Fyrergiefningar.

4. So sem skrifad stendur j Maalabok Esaie
Spaamans, sem seiger, * þar er eins Pre-
dikara Rodd j Eydemørku, Tilbued þier Veg
Drottens, og giøred hans Stigu rietta.

* Esa. 40, 3.

5. Aller Daler munu fyllast, og øll Fioll og
Haalsar munu lægiast, og þad boged er mun

 riettast,

riettast, og hvad osliett er mun snuast j slietta
Vegu.
6. Og allt Holld mun sia GUds Hialpræd.
7. Enn hann sagde til Folksins, þess er ut-
gieck ad skijrast af honum, þier Nodrukin!
hvør kiende ydur ad flyia undan tilkomande
Reide?
8. Fyrer þvi giøred Avøxtu sem Jdranenn
utkrefur, og taked eige ad seigia, vær høfum
Abraham fyrer Fødur, þviad eg seige ydur ad
GUd getur uppvaked Abrahams Børn af
Steinum þessum.
9. Øxenn er allareidu løgd vid Root Trie-
sins. Hvørt þad Trie sem eige fæser godann
Avøxt, mun upphøggvast og j Elld kastast.
10. Og Folked spurde hann ad og sagde,
hvad skulum vær þa giøra? enn hann svarade.
11. Og sagde til þeirra, hvør sem hefur tvo
Kyrtla, hann giefe þeim er øngvann hefur, og
sa er vister hefur, giøre hann slijkt hid sama.
12. Tollheimtumenn komu og til hans ad
lata skijra sig, og søgdu til hans, Meistare,
hvad skulum vær þa giøra?
13. Enn hann sagde til þeirra, krefied ei
meira enn ydur er fyrer sett.
14. Pa spurdu hann Strijdsmenn ad og
søgdu, hvad skulum vær þa giøra? hann sag-
de til þeirra, (a) Kugied øngvann nie giøred
oriett, og læted ydur nægia ydart Kaupgialld.

(a) (Kuged) Kugun er openber Oriettur, enn Oriet-
tur er þad, Þegar nockur med Slægdum nidur-
þricker annars Riettindum, og umhverfer annars
Sok.

II. 15. Enn þa Folked grunade, og aller
þeinktu j sijnum Hiørtum, ef verda mætte
þad, ad Johannes være Christur.
16. Svarade Johannes og sagde till allra,
eg skijre ydur med Vatne, enn sa kiemur sem
stirkare er enn eg, hvørs eg em eige verdugur
upp ad leysa hans Skoo-Pveinge, hann mun
skijra ydur med Heiløgum Anda og Ellde.
17. Hvørs Vindskupla ad er j hans Hen-
de, og hann mun hreinsa sinn Lafa, og sa-
mansafna Hveitenu j Kornhlødu, enn Agner-
nar brenna j eylijfum Ellde.
18. Og margt annad meira undervijsade
hann og bodade Folkenu.
19. Enn er Herodes Fiordungshøfdinge
straffadest af honum fyrer Herodiadem Bro-
durkonu sijna, og fyrer allt annad jllt er He-
rodes giørde.
20. Pa lagde hann, ofana þetta allt, Jo-
hannem j Fangelse.
21. Og þad skiede þa ed allt Folk liet sig skij-
ra, og er JEsus var og sc skijrdur og badst fy-
rer, ad Himenenn opnadest.
22. Og Heilagur Ande stie ofann j lijkam-
legre Mind yfer hann, sem Dwfa, og ein
Rødd kom af Himne er sagde, þu ert Sonur
minn elskulegur, j þier þocknast mier!
III. 23. Og JEsus hof upp ad vera nær
þriatijger ara, og var halldenn Sonur Jo-
sephs, sa ed var Sonur Eli.
24. Sa ed var Sonur Mathath, sa ed
var Sonur Levi, sa ed var Sonur Melchi, sa
ed var Sonur Janna, sa ed var Sonur Jo-
sephs.
25. Sa ed var Sonur Mathathias, sa ed
var Sonur Amos, sa ed var Sonur Nahum,
sa ed var Sonur Esli, sa ed var Sonur
Nagge.
26. Sa ed var Sonur Maaths, sa ed var
Sonur Mathathias, sa ed var Sonur Se-
mei, sa ed var Sonur Joseph, sa ed var So-
nur Juda.
27. Sa ed var Sonur Johanna, sa ed
var Sonur Resa, sa ed var Sonur Zeroba-
bel, sa ed var Sonur Salathiel, sa ed var
Sonur Neri.
28. Sa ed var Sonur Melchi, sa ed var
Sonur Addi, sa ed var Sonur Kosam, sa ed
var Sonur Elmadam, sa ed var Sonur Her.
29. Sa ed var Sonur Jese, sa ed var So-
nur Eliezer, sa ed var Sonur Jorem, sa ed
var Sonur Mattha, sa ed var Sonur Levi.
30. Sa ed var Sonur Simeon, * sa ed
var Sonur Juda, sa ed var Sonur Josephs,
sa ed var Sonur Jonam, sa ed var Sonur E-
liachim.

* Um þessa skrifar Philo og Josephus, af hvorium Matthens hleypur yfer nockra.

31. Sa ed var Sonur Melea, sa ed var Sonur Menam, sa ed var Sonur Mathathan, sa ed var Sonur Nathan, sa ed var Sonur Davids.

32. Sa ed var Sonur Jesse, sa ed var Sonur Obed, sa ed var Sonur Boos, sa ed var Sonur Salmon, sa ed var Sonur Nahasson.

33. Sa ed var Sonur Aminadab, sa ed var Sonur Aram, sa ed var Sonur Esrom, sa ed var Sonur Phares, sa ed var Sonur Juda.

34. Sa ed var Sonur Jacobs, sa ed var Sonur Isaachs, sa ed var Sonur Abrahams, sa ed var Sonur Thara, sa ed var Sonur Nachor.

35. Sa ed var Sonur Saruch, sa ed var Sonur Ragahu, sa ed var Sonur Phaleg, sa ed var Sonur Eber, sa ed var Sonur Sala.

36. Sa ed var Sonur Cainan, sa ed var Sonur Arphaxad, sa ed var Sonur Sem, sa ed var Sonur Noe, sa ed var Sonur Lamech.

37. Sa ed var Sonur Mathusalah, sa ed var Sonur Enoch, sa ed var Sonur Jared, sa ed var Sonur Maleleel, sa ed var Sonur Cainan.

38. Sa ed var Sonur Enos, sa ed var Sonur Seth, sa ed var Sonur Adams, sa ed var GUds.

## IV. Capitule.

(I) JEsus freistest af Dioflenum. (II) Utleggur Ritningena: (III) Gierer Kraptaverk.

I. Og JEsus fullur af Heilogum Anda, kom aptur fra Jordan, og færdest af Anda a Eydemork.

2. Og freistadest af Dioflenum j fiorutijger Daga, og hann neytte einkes a þeim dogum, og ad þeim lidnum, hungrade hann sijdan.

3. Diofullenn sagde þa til hans, ef þu ert GUds Sonur, seig Steine þessum ad hann verde ad Braude.

4. JEsus svarade og sagde til hans, skrifad stendur, þad * Madurenn lifer ei af Braude einu, helldur af sierhvoriu GUds Orde.

* 5 B. Mos. 8, 3.

5. Og Diofullenn flutte hann uppa eitt hatt Fiall, og synde honum a augabragde oll Rijke Veralldarennar.

6. Og sagde til hans, allt þetta vellde og þeirra Dyrd mun eg giefa þier, þviad þaug eru mier j Hendur feingenn, og hvorium eg vil honum gief eg þaug.

7. Ef þu villt tilbidia mig, skulu þaug oll þijn vera.

8. JEsus svarade honum og sagde, far burt fra mier þu Satan, skrifad er, * Drottenn GUd þinn skalltu tilbidia, og honum einum þiona. * 5 B. Mos. 6, 13.

9. Og hann færde hann þa til Jerusalem, og sette hann ofan a Bust Musteresins, og sagde til hans, ef þu ert GUds Sonur, fleyg þier hier ofan af.

10. Þviad skrifad stendur, * sijnum Einglum mun hann bijfala um þig.

* Psalm. 91. 11, 12.

11. Ad þeir vardveite þig, og ad a Hondum bere þeir þig, so ad þu dreper ei þijnum fæte vid nockrum Steine.

12. JEsus svarade og sagde til hans, sagt er, * eige skalltu freista Drottins GUds þijns.

* 1 B. Mos. 6, 16.

13. Og er Diofullenn hafde lycktad allar þessar Freistingar, veik hann fra honum um stundarsaker.

14. Og JEsus kom aptur j Andakrapte til Galileam, og riktid um hann gieck ut j alla kringum liggiande Stade.

15. Og hann kiende j þeirra Samkunduhusum, og af hvorium Manne vard hann prijsadur.

II. 16. Og hann kom til Nazareth, þar hann var uppalenn, og gieck jnn epter Vana sijnum a Sabbathsdeige j Samkunduhusid, stod upp og villde lesa.

17. Þa var honum feingenn Bok Esaie

Spa-

Spaamanns, og er hann flette um Bokenne, fann hann þann Stad hvar skrifad var.

18. * Ande Drottins er hia mier, og af þvi smurde hann mig, og sende mig ad boda Evangelium Volúdum, og ad græda þau sundurknosudu Hiortu. * Es. 61, 1. 2.

19. Ad predika þeim Herteknu, ad þeir skulu verda lauser, og þeim Blindu Syn, og þeim Føngudu, ad þeir skulu vera frij og lauser, og ad predika þacknæmelegt aar Drottins.

20. Og þa hann liet samann Bokena, fieck hann hana Þienaranum, og sette sig, og aller þeir sem j Samkunduhusinu voru horfdu a hann.

21. Enn hann hof ad seigia til þeirra, J dag er þesse Ritning uppfylld fyrer ydrum Eyrum.

22. Og aller gaafu Vitnisburd af hønum, og undrudust þaug naadarsamlegu Ord, sem geingu framm af hans Munne, og søgdu, Er þesse eige (a) Sonur Josephs?

(a) (Sonur Josephs) Hvørnenn kiemur Þad til, ad Sonur Josephs kann so ad kienna, og tala, sa Fatæke Triesmijdis Lærare.

23. Hann sagde til þeirra, þier munud fullkomlega til mijn seigia þennann Ordskvid, Lækner biarga sialfum þier, Þvi hvad mikid høfum vier heyrt, ad giørt var til Capernaum, gior þu og eins hier a þinne Fosturjørdu.

24. Enn hann sagde, sannlega seige eg ydur, ad eingenn Spaamadur er þacknæmur a sinne Fosturjørdu.

25. Enn j Sannleik seige eg ydur, * Margar Eckiur voru j Tijd Elie, j Jsrael, þa Himenenn var lucktur j þriu aar, og sex Manude, þa ed giørdest mikel Dyrtiid um allt Landid. * 1 B. Kon. 17, 9.

26. Og til øngra þeirra var Elias sendur, nema j Sareptha þeirra Sidona til einnrar Eckiu.

27. Og marger Lijkþraaer voru j Jsrael j Tijd Elisei Spaamanns, og eingenn þeirra vard hreinsadur nema alleina * Naaman af Syria. * 2 B. Kon. 5, 14.

28. Og aller fylltust þeir Reide sem j Samkunduhusinu voru, er þeir heyrdu þad.

29. Stodu upp og hnepptu hann utaf Borgenne, og leiddu hann allt uppa fialls-gnypuna, þar ed þeirra Borg var yferbygd ad þeir hrynde hønum þar afframm.

30. Enn hann gieck burt midt a millum þeirra.

31. Og hann kom til Capernaum Borgar j Galilea, og kiende þeim þar a Sabbaths-døgum.

32. Og þeir undrudust hans Kienning, þvi hans Ræda var af miklum Myndugleika.

III. 33. J Samkunduhusinu var Madur setinn af ohreinum Diofle, og kallade upp haarre Røddu.

34. Og sagde, Hei! Hvad høfum vær med þig ad giøra, JEsu af Nazareth? ertu komenn ad fyrerfara oss? Eg veit hvør þu ert, sem er hinn Heilage Guds.

35. Og JEsus straffade hann og sagde, Þeige þu, og far utaf hønum. Og Diøfullenn flengde hønum midt framm j millum þeirra, og for utaf hønum, og grandade hønum ad ongvu.

36. Og otta slo yfer þa alla.

37. Og toludust vid sijn a mille og søgdu, hvada Hlutur er þetta, ad hann bydur ohreinum Øndum af Vallde og Krapte, og þeir fara ut? og hans Rikte barst allstadar ut j þvi umliggiande Lande.

38. Og hann stod upp af Samkundunne, og kom j Hws Simonar, og Modur Kona Simonar var halldenn af mikille Kølldu, og þeir badu hann fyrer henne.

39. Hann gieck til hennar, og hann baud Køldusottenne, og hun forliet hana, og jafnskiott reis hun upp og þionade þeim.

40. Enn þa Solenn var undergeingenn, fluttu aller þeir sem høfdu Siuka af allskins Siukdoome þa til hans. Enn hann lagde Hendur yfer sierhvørn þeirra, og læknade þa.

41. Dioflar foru og utaf Mørgum kallande upp og søgdu, þu ert Christus Sonur Guds. Og hann hastade a þa, og liet þa ecke mæla, þviad þeir vissu þad hann var Christur.

42. Enn

42. Enn þa Dagur var, for hann og gieck ut a eitt Eydeploats, og Folked leitade ad hønum, og kom til hans, og þeir hielldu hønum, ad hann fære ei fra þeim.

43. Hvorium hann sagde, mier biriar og j ødrum Borgum ad boda Evangelium, útaf GUds Rijke, þviad til þess er eg sendur.

44. Og hann predikade j Samkunduhusum j Galilea.

## V. Capitule.

(I) Fiskedrættur Peturs: (II) Einn Lijkþraar hreinsast: (III) Einn Limafallssiukur verdur læknadur: (IV) Matthæus er kalladur: (V) JEsus tekur sijna Lærisveina i Forsvar.

Gudsp. V. Sunnud. epter Trinitatis.

I. Enn þad skiede þa Folked þreyngdest framm til hans, ad heyra GUds Ord, og hann stod vid Sioenn Genezareth.

2. Og hann sea tvo Skip standa vid Sioenn, enn Fiskemennerner voru stigner af Skipe, og þvodu Net sijn.

3. Þa stie hann a eitt Skiped, sem Simonar var, og bad hann ad leggia lijtid fra Lande, og hann setteft nidur, og kiende Folkenu af Skipenu.

4. Og sem hann gaf upp ad tala, sagde hann til Simonar, far þu ut a Diuped, og kasted Nete ydar ut, so ad þier draged eirn Dreatt.

5. Simon svarade og sagde til hans, Meistare, j alla Nott høfum vær erfidad, og feingum eckert, enn uppa þitt Ord vil eg Netenu utkasta.

6. Og þa er þeir høfdu þad giort, innelucktu þeir mikla mergd Fiska, og þeirra Net rifnade.

7. Og þeir bendtu sijnum Fielogum, sem voru a ødru Skipe, þad þeir kiæme og hialpudu þeim ad draga, og þeir komu og hlodu bæde Skipenn full, so þaug suoku ad mestu.

8. Þa Simon Petrus sa þad, fiell hann til Knianna JEsu, og sagde, gack fra mier HErra, þvi eg em Madur Syndugur.

9. Af þvi ad felmtur var yfer hann komenn, og yfer þa alla sem med hønum voru, af þeim Fiskedrætte, er þier feingu til samans.

10. Lijka yfer Jacobum og Johannem Sonu Zebedei, Lagsmenn Simonar, og JEsus sagde til Simonar, ottast þu eige, þviad hiedan af skalltu Menn veida.

11. Og þeir drou sijn Skip ad Lande, og yfergeafu alla Hlute, og filgdu hønum epter.]

II. 12. Þad skiede, þa hann var j einne Borg, sia, ad þar var Madur fullur af Spitelsku. Og þa hann sea JEsum, fiell hann framm a sijna Asionu, bad hann og sagde, Drottenn, ef þu villt, þa kanntu ad hreinsa mig.

13. Og hann riette ut sijna Hond, og tok a hønum, og sagde, eg vil, vertu hreinn. Og jafnskiott hvarf Spitelskann af hønum.

14. Og hann baud hønum ad seigia þad øngvum, helldur gack og * syn þig Prestenum, og forna fyrer þinne Hreinsan, sem Moyses baud, til Vitnisburdar yfer þeim.

* 3 B. Mos. 14, 3.

15. Og umrædann um hann kom æ leingra ut, og þar kom margt Folk samann hønum ad heyra, og ad læknast fyrer hann af sijnum Sottum.

16 Enn hann veik sier j burt j Eydemork, og badst fyrer.

III. 17. Og þad bar til a einum Deige er hann kiende, og þar satu Pharisei og Skriftlærder, sem komner voru af øllum Kauptunum ur Galilea og Judea og fra Jerusalem, og Kraptur Drottins gieck ut fra hønum ad lækna þa.

18. Og sia, ad nockrer Menn baru eirn Mann a Sæng er Iktsiukur var, og soktu til ad koma hønum jnn og leggia hann framm fyrer hann.

19. Og er þeir gatu ei funded fyrer Folkenu hvar þeir skylldu flytia hann jnn, foru þeir uppa Þaked, og undu hann nidur j giegnum Þaked med Sængenne midt a millum þeirra, framm fyrer JEsum.

20. Og er hann leit þeirra Tru, sagde hann

til hans, Madur, þijnar Synder eru þier fyrergiefnar.

21. Skriftlærder og Phariſei toku til ad huxa med ſier, og ſogdu, hvør er þeſſe, ſem mæler Gudlaſtan? hvør ma Synder fyrergiefa nema GUD eirn?

22. Enn er JEſus fornam þeirra Huxan, ſvarade hann og ſagde til þeirra, hvad huxed þier j ydrum Hiortum?

23. Hvort er audvelldara ad ſeigia, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, eda ad ſeigia. Statt upp og gack.

24. Enn ſo ad þier vited þad Mannſins Sonur hefur Makt til a Jordu ad fyrergiefa Syndernar, ſagde hann til hins icktſiuka, þier ſeige eg, ſtattu upp og tak Sæng þijna og gak heim.

25. Og Jafnſkiott ſtod hann upp þeim aſiaande, og tok Sængena upp þa er hann hafde aaleiged, og gieck heim loſande GUD.

26. Og þeir ottuduſt aller, og loſudu GUD, og fylltuſt af otta, og ſogdu, j dag hofum vier ſied undarlega Hlute.

IV. 27. Epter þad gieck hann ut, og ſa eirn Tollheimtumann er Levi var ad Nafne, ſitiande hia Tollbwdenne, og ſagde til hans, filg þu mier epter.

28. Og hann forliet allt, ſtod upp og filgde honum epter.

29. Og Levi tilbio honum miked Gieſtabod j ſijnu Huſi, og marger Tollheimtu-Menn og adrer ſatu med þeim til Bords.

30. Og Skriftlærder og Phariſæi mogludu vid hans Læreſveina, og ſogdu, þvi etid þier og dreckid med Tollheimtumonnum og Berſyndugum?

31. Og JEſus ſvarade og ſagde til þeirra, Peir þurfa eige Læknarans vid ſem heilbrigder eru, helldur þeir ſem ſiuker eru.

32. Eg er komenn ad kalla Synduga til Jdrunar, enn ecke Riettlaata.

V. 33. Pa ſogdu þeir til hans, þvi faſta Læreſveinar Johannis ſo opt og bidiaſt fyrer ſo miog, og lijka Phariſeanna Læreſveinar, enn þijner Læreſveinar eta og drecka?

34. Hann ſagde þa til þeirra, Pier meiged ecke neyda Brwdkaupsfolkid til ad faſta, a medann Brwdgumenn er hia þeim.

35. Enn þeir tijmar munu koma ad Brwdgumanum mun fra þeim kippt verda, og þa munu þeir faſta.

36. Og hann ſagde eina Epterlijking til þeirra, Eingenn ſetur Boot af nyu Klæde a gamallt fat, annars rijfur þad nija j ſundur, og Bootenn af þvi hinu nya fellur ei vid hid gamla.

37. Og eingenn lætur nijtt Vijn j forna Belge, annars ſpreinger hid nija Vijnid Belgena, og þad ſpilleſt, enn Vijnbelgerner fortijnaſt.

38. Helldur ſkal nijtt Vijn lataſt j nija Belge, og mun þa hvortveggia forvaraſt.

39. So er og eingenn ſem dreckur af hinu gamla og vilie ſtrax hid nija, þviad hann ſeiger, Hid gamla er heilnæmara.

## VI. Capitule.

JEſus (I) talar um Sabbatsdagenn: (II) Kallar Poſtulana til ſijn: (III) Bleſſar, og Formæler: (IV) Rædur ad ſtunda Sannann Guds Otta.

I. Enn þad bar til a einum (a) Epter-Sabbaths-Deige, ad hann gieck j giegnum Kornid, og hans Læreſveinar tijndu Axenn, og aatu, nuande þaug med Hondum ſier.

a) (Epter-Sabbaths Deige) Eins og vier kunnum ad kalla Pridiudagenn epter Manudagenn, So kolludu Gydingar þann annann Dag epter þad ſtora Sabbath, Epter-Sabbath, ſo ſem leſa ma. Matth. 28, 1.

2. Enn nockrer af Phariſeis ſogdu til þeirra, Fyrer þvi giored þier þad ſem ei ſomer ad giora a Sabbathsdogum?

3. JEſus ſvarade og ſagde til þeirra, Hafid þier ei leſid, * hvad David giorde, nær hann hungrade og þa ſem med honum voru?

*1 Sam. 21, 6.

4. Hvornenn ad hann gieck jnn j Guds Hws, og tok Skodunarbraudenn og aat, gaf og þeim ſem med honum voru, þau er

er Ongvum bar ad eta, * nema Prestunum alleinasta. * 2 B. Mos. 29, 32.
3 B. Mos. 24, 9.
5. Og hann sagde til þeirra, Mannsins Sonur er Herra eirnenn Sabbathsdagsins.
6. Og þad skiede a odrum Sabbathsdeige, ad hann gieck jnn j Samkunduhusid og kiende. Og þar var sa Madur sem hin Hægre Hønd var a visnud.
7. Enn Skriftlærder og Phariseí hugdu ad, hvort hann læknade a Sabbathsdeige, so ad þeir fyndu eina sok, hvar fyrer þeir mættu hann aakiæra.
8. Þa formerkte hann þeirra Hugan, og sagde til Mannsins þess sem Høndena hafde visnada, Rijs þu upp, og gack framm hingad. Hann reis upp og gieck framm.
9. Enn JEsus sagde til þeirra, Eg spyr ydur ad, Hvort hæfer a Sabbathsdøgum ad giora gott edur jllt? Lijfenu vid ad hallda edur tortijna?
10. Og hann leit um kring uppa þa alla, og sagde til Mannsins, Riett þu ut þijna Hønd, og hann giorde þad, þa vard hans Hønd heil aptur, og heilbrigd, sem hin onnur.
11. Enn þeir urdu alsendes galder, og toludu til hvor vid annann, hvad þeir villdu giora til vid JEsum.
II. 12. Enn þad giordest a þeim Tijma, ad hann gieck a eitt Fiall ad bidiast fyrer, og hann var um þa Nott a Bænum til Guds.
13. Og þa ed Dagur var, kallade hann sijna Læresveina, og kiøre tolf af þeim, hvoria ad hann nefnde Postula.
14. Simon, hvorn hann kallade Petrum, og Andream Brodur hans, Jacobum og Johannem, Philippum og Bartholomæum.
15. Mattheum og Thomam, Jacobum Son Alphei, og Simon sem kalladest Zelotes.
16. Judam Jacobs Son, og Judam Ischarioth þann Svikara.
17. Og hann for ofann med þeim, og gieck a eirn slettann flot j Mørkenne, og flockur hans Læresveina, og mikell fiølde Folks af ollu Judalande og Jerusalem, og ur Tyro og Sidon, liggiande vid Hafid.
18. Hvorier komner voru hønum ad heyra, og ad þeir læknuduft af sijnum Sottum, og þeir sem hrakter voru af Ohreinum Ondum og þeir urdu heilbrigder.
19. Og allt Folked gyrntest ad snerta hann, þviad Kraptur gieck ut fra hønum, og hann læknade þa alla.
III. 20. Og hann hoof upp sijn Augu yfer Læresveina sijna og sagde. Sæler erud þier Volader, þviad ydart er GUds Rijke.
21. Sæler erud þier sem hier hungrar, þviad þier skulud sadder verda, Sæler erud þier sem hier grcatid, þviad þier munud hlæa.
22. Sæler erud þier ef Menn hata ydur, og fraskilia ydur, og hallmæla, og burt skwsa ydar Nafne so sem annars Illvirkia, vegna Mannsins Sonar.
23. Gledied ydur þa og dansed, Þvi sia, ydvart Verdkaup er mikid a Himne, Þviad þannenn giordu þeirra Fedur vid Spaamennena.
24. Enn þar j mot, Ve ydur Audugum, þvi þier hafid ydra Huggun j burtu.
25. Ve ydur sem nu erud sadder, þviad ydur mun hungra. Ve ydur sem hlæed hier, þviad þier munud æpa og yla.
26. Ve ydur nær ed hvor Madur lofar ydur, þviad so giordu og þeirra Fedur vid hina folsku Spaamenn.
IV. 27. Enn eg seige ydur, sem aheyred, Elsked þier Ovine ydra, gióred þeim gott sem ydur hata.
28. Blessed þa er ydur bolva, og bidied fyrer þeim sem ydur eru þver-brotner.
29. Og hvor hann slær þig a eirn Kinnvangann, biod hønum og annan þar til, Og hvor hann tekur af þier þinn Møttul, þa ver hønum eige þinn Kyrtil.
30. Og hvor þig bidur, þeim gief, og hvor hann tekur burt hvad þitt er, þad heimt eige aptur.

31. Og so sem þier vilied ad Menn giore vid ydur, giored so lijka vid þa.

32. Og ef þier elsked þa sem ydur elska, Hvoria hafed þier þar fyrer Þock? þviad Synduger elska og so þa sem þa elska.

33. Og þo þier giored þeim gott er ydur giora vel til, hvada þock hafed þier þar fyrer? þviad þetta sama giora eirnenn hiner Syndugu.

34. Og þo þier loanid þeim af hvorium þier væntid Launa Hvor verdur þa ydar Þock? þviad Syndugir loana og so Syndugum, so þeir take lijkt vid lijku.

35. Enn þo sem ꝺadur, elsked þier ydar (a) Ovine, Giored gott og loaned, einskis þar fyrer væntande, þa mun ydar Verdkaup mikid verda, og þier munud verda Børn hins Hæsta, þviad hann er godsus vidur Oþackloata og Vonda.

(a) (Ovine) Hvor sem loanar Ovin sijnum, edur giører honum til goda, hann kienner sialfum sier, ad hann þarf einskis ad vona edur vænta sier þar fyrer, en þad giører eingenn utann einn Christenn Madur.

Gudspialled IV. Sunnud. epter Trinit.

36. Þar fyrer vered og Miskunsamer, lijka sem ydar Fader er Miskunsamur.

37. Dæmed eige, so ad þier dæmest eige. Fordæmed eige, so ad þier fordæmest eige. Fyrergiefed, þa mun ydur og fyregiefast.

38. Giefid og skal ydur giefast, Fulla og samþrikta, skiekna og yferfliotannlega Mæling munu Menn giefa j ydvart Skaut. Þviad riett med þeirre somu mælingu, hvorre þier mæled ut, mun ydur aptur mælast.

39. Og hann sagde þeim eina Epterlijking, Fær Blindur vijsad Veg einum Blindum? falla þeir ei bꝺader j Grofena?

40. Eige er Læresveirnenn yfer sijnum Meistara. Þvi nær (b) Læresveirnenn er so sem hans Meistare, þa er hann algiordur.

(b) (Læresveirnenn) þad er, þ: gar Læresveinenum geingur eins og Meistaranum, þa geinaur riett til.

41. Enn hvad sier þu Ogn j þijns Brodurs Auga, enn ad þeim Bialka sem j þijnu auga er gꝺaer þu ei.

42. Eda hvorninn mattu seigia Brodur þijnum, Broder, leyf ad eg dræge Ognena ur Auga þijnu, er þu sier eige sialfur Bialkann j þijnu Auga. Þu Hræsnare, drag þu fyrst ut Bialkann ur þijnu Auga, og sia þa til ad. þu dræger ut Ognena ur þijns Brodurs Auga.]

43. Þvi eckert gott Trie þa ber fuinn Avoxt, og eckert fuid Trie ber godann Avoxt.

44. Hvort Trie þeckiest af sijnum eigenn Avexte, þviad ei lesa Menn samann Fijkiur af Þyrnum, Og ei helldur Vijnber af Þyslum.

45. Godur Madur af godum Siod sijns Hiarta frammber gott, og Illur Madur af vondum Siod sijns Hiarta frammber illt, þviad þad sem Hiartad er fullt af, þad floer utaf Munnenum.

46. Til hvors kalled þier mig Herra, Herra, og giored eige þad eg seige?

47. Hvor hann kiemur til mijn, og heyrer mijn Ord og giører þau, þann mun eg syna ydur hvorium hann er lijkur.

48. Hann er lijkur þeim Manne er bygde upp Hꝏs, og groof diupt, og sette þess Grunndvoll a Hellubiarge, enn er Vatsgangur kom, dunde Straumurenn a Hꝏsenu, og mꝺatte þad eige hræra ur stad, þviad þad var grundvallad a Hellubiarge.

49. Enn hvor hann heyrer og giører eige, hann er lijkur þeim Manne er bygde eitt Hꝏs a Jordu, ꝺan Grundvallar, ad hvoriu Straumurinn dunde og þad fiell jafnsnart, og hrapan þess Hꝏss var mikel.

## VII. Capitule.

JEsus (I) læknar einn Siukann (II) vekur einn upp af Daudum: (III) Talar um Johannes: (IV) Fyrergefur Syndernar.

1. Enn þa hann hafde lycktad sijna Rædu fyrer Folkenu, gieck hann til Capernaum.

2. Enn Þion eins Hundrads Hofdingia, lꝺa daudsiukur, hvor ed honum var mios giedfelldur.

3. Og er hann heyrde af JEsu, sende hann þa elldstu af Gydingum til hans og bad hann

hann ad koma og giora sinn Þion heilbrig=
dann.
4. Enn er þeir komu til JEsu, bꜹdu þeir
hann kostgiæfelega, og sogdu, verdur er
hann þess ad þu veiter honum þad.
5. Þviad hann elskar vora Þiod, og he=
fur uppbyggt fyrer oss vor SamkunduHꜹs,
þa gieck JEsus med þeim þadann.
6. Og þa er þeir voru nu ei langt fra Hu=
sinu, sende Hofudsmadurenn Vine til hans
og liet seigia honum, o Herra! þia þig ei, þviad
eg em eige verdur ad þu ganger under mitt Þak.
7. Þar fyrer hefe eg og eige reiknad sialfann
mig verdugann til þijn ad koma, helldur mæl
þu eitt Ord, og þa verdur minn Þion heill.
8. Þviad eg em Madur Valldenu under=
giefinn, hafande under mier Strijdsmenn,
og ef eg seige þessum, far, þa fer hann, og odrum
kom, þa kiemur hann, og Þione mijnum,
gior þetta, og þa giorer hann þad.
9. Enn er JEsus heyrde þad, furdade hann
a honum, og snerest vid, og sagde til Folksins
sem honum filgde epter, eg seige ydur, ad eg
hefe eige funded þvilijka Tru j Jsrael.
10. Og er þeir sem ut voru sender komu
aptur til Hussins, fundu þeir þann Þion
er siukur hafde vered, heilbrigdann.

Gudsp. XVI. Sunnud. ept. Trinitat.

II. 11. Og þad skiede epter þad, ad hann
gieck j eina Borg sem hiet Nain,
og marger hans Læresveinar filgdu honum og
fiolde Folks.
12. Enn er hann nalgadest Borgar hlidid,
sia, þa var framlidenn Madur borenn ut,
einka Sonur sinnar Modur, og hun var
Eckia. Og mikell Borgarmꜹgur gieck ut
med henne.
13. Og er Drottenn leit hana, hrærdest
hann miskunar þar yfer, og sagde til hennar,
græptu ei.
14. Og hann gieck þar ad, og ahrærde
Borurnar, enn þeir ed bꜹru stodu vid, og
hann sagde, Ungmenne, eg seige þier, rijs upp.
15. Og sa reiste sig upp, er framlidenn var,
og tok ad mæla, og hann gaf hann hans Mo=
dur.
16. Enn yfer alla þa kom otte, lofudu
GUd og sogdu, Spamadur mikell er a medal
vor upprisenn, og GUd hefur vitiad sijns Lijds.
17. Og þesse saga barst utaf honum um allt
Judaland, og um oll kringumliggiande Lond.]
III. 18. Og allt þetta kunngiordu Johanni
hans Læresveinar, og hann kallade tvo af sij=
num Læresveinum til sijn.
19. Og sende þa til JEsum, og liet seigia
honum, ertu sa ed koma mun, eda eigum vær
annars ad bijda?
20. Enn er þeir Menn komu til hans, sogdu
þeir, Johannes Skijrare sende ockur til þijn,
og liet seigia þier, ertu sa er koma mun, eda
eigum vær annars ad bijda?
21. Enn a þeirre somu stundu læknade hann
marga af Sottum sijnum og Meinum, og af
jllum Ondum, og morgum Blindum gaf
hann Syn.
22. Og JEsus svarade og sagde til þeirra,
ganged burt og kunngiored Johanni hvad þier
hafed sied og heyrt, þad * Blinder sia, Hallter
ganga, Lijkþraer hreinsast, Dauffer fa Heyrn,
Dauder rijsa upp, Fatækum bodast Evan=
lium. * Esa. 29, 18. og 35, 5. 6.
23. Og sæll er sa sem ei hneixlast a mier.
24. Enn er Sendebodar Johannis voru
burtgeingner, hof JEsus ad seigia Folkenu,
af Johanne, hvad forud þier ut j Eydemork
ad sꜹa? eda villdud þier sia Reir af Vinde
skiekenn?
25. Eda hvad erud þier ꜹtgeingner ad sꜹa?
villdud þier sia Mann j miukum Klædum?
siaed, ad þeir sem j Dijrmætum Klædum og j
Vellystingum lifa, eru j Konga Gordum.
26. Eda hvad erud þier utfarner ad sia?
villdud þier sia einn Spꜹmann? enn eg seige
ydur, þann sem meire er enn Spꜹmann.
27. Þesse er sa af hvorium skrifad er, * sia,
eg sende minn Eingel fyrer þijnu Auglite, sa er
tilreida skal þinn Veg fyrer þier. * Mal. 3, 1.
28. Þviad eg seige ydur, ad a medal þeirra

sem af Kvinnum eru fædder, er eingenn Spaamadur meire enn Johannes Skijrare, enn sa minne er j GUds Rijke, er honum meire.

29. Og allt þad Folk er tilheyrde, og lijka Tollheimtumenn, riettlættu GUd, og lietu skijra sig med Skijrn Johannis.

30. Enn Pharisei og Logspekingar forsmaadu GUds Raad j mote sialfum sier, sem lietu eige skijrast af honum.

31. Enn Drottenn sagde, vid hvad skal eg jafna Monnum þessarar Kinslodar? hvoriu eru þeir lijker?

32. Bornum þeim eru þeir lijker, sem sitia a Torge og hropar hvør til annara, og seigia, vær Pijpudum fyrer ydur, og þier donsudud eige, vær Sungum fyrer ydur vor Harmakvæde, og þier æptud eige.

33. Þviad Johannes Skijrare kom, aat eige Braud, nie drack Vijn, þo seiged þier, hann hefur Diøful.

34. Mannsins Son er komenn, etur og dreckur, og þier seiged, siaed, sa Madur er eirn Etare, og Vijndryckiumadur, Vinur Tollheimtumanna og Bersyndugra.

35. Og Spekenn hlytur so ad riettlætast af øllum sijnum Bornum.

IV. 36. Enn eirn af Phariseum bad hann ad hann æte med honum, og hann gieck jnn j Pharisearans Hwos, og settest til Bords.

37. Og sia, ad Kona var su j Borgenne, ad Bersyndug var, og er hun visse ad JEsus sat til Bords j Pharisearans Huse, hafde hun þangad Alabastur med (a) Salve.

(a) (Salve) þad er med dyrmætt ilmande Vatn.

38. Og for a bake til Foota hans, og griet, og tok ad væta hans Fætur med Taarum, og ad þurka þaa med sijnu Høfudhaare, og kysste a hans Fætur, og smurde þær med Salve.

39. Enn þa sa Phariseus sa þad sem honum baud jnn, mællte hann med sier og sagde, ef ad þesse være Spaamadur, þa visse hann hvør og hvilijk være su Kona er a honum tekur, þviad hun er ein Bersyndug Kona.

40. JEsus svarade og sagde til hans, Simon, eg hefe nockud ad seigia þier, enn hann sagde, seig þu Meistare.

41. Tveir Skuldamenn voru nockurs Okurkarls, eirn var honum skylldugur fimm hundrud Peninga, enn annar fimmtijger.

42. Og er þeir høfdu ei ad giallda, gaf hann þeim þad upp baadum, seig nu, hvør þeirra mun elska hann meir?

43. Simon svarade og sagde, eg meina ad sa sem hann gaf meira upp, enn hann sagde til hans, þad utskurdader þu riett.

44. Og hann snere sier til Kvinnunar, og sagde til Simonar, sier þu þessa Konu? eg gieck jnn j þitt Hwos, og þu gafst mier eige Vatn handa mijnum Fotum, enn þesse vætte mijnar Fætur med Taarum, og þurkade med sijnu Høfudhaare.

45. Koss gafstu mier øngvann, enn þesse sijdann hun gieck hier jnn, hefur hun eige linnt ad kyssa mijnar Fætur.

46. Mitt Høfud smurder þu eige Vidsmiøre, enn þesse smurde mijnar Fætur med Salve.

47. Fyrer þad seige eg þier, ad henne fyrergiefast margar Synder, þviad hun elskade mikid, enn þeim sem minna fyrergiefst, hann elskar midur.

48. Og hann sagde til hennar, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar.

49 Þa toku þeir til, sem vid Borded saatu hia honum, og søgdu med sialfum sier, hvør er þesse sa er fyrergiefur Syndernar?

50. Enn hann sagde til Konunnar, þijn Tru giørde þig holpna, far j Fride.

## VIII. Capitule.

JEsus (I) talar um Guds Ord: (II) Lætur Hafed kirrast: (III) Rekur Diøful ut: (IV) Giører Kraptaverk.

I. Og þad skiede epter þad, ad hann ferdadest j giegnum Borger og Kauptun, predikande og bodande Evangelium af Guds Rijke, og þeir Tolf med honum.

2. Og nockrar þær Konur sem hann hafde grædt af Ohreinum Ondum, og Sottarfel-

lum,

lum, Sem var Maria su er hiet Magdalena, fra hvorre ad sio Dioflar hofdu ut fared.

3. Og Johanna Hwsfru Chusa, Forsiomarmanns Herodis, og Susanna, og margar adrar þær hønum veittu af sijnum Eignum.

Gudspialled II. Sunnud. i Nijuvikna-Føstu.

4. Enn þa er margt Folk var nu samann komid, og þeir skundudu til hans ur Stodunum, sagde hann j einne Epterlijkingu.

5. Par gieck ut eirn Sadmadur, ad saa sijnu Sæde, Og þa hann saade, fiell sumt hia Veigenum, og vard fottroded, og Fuglar Himens ætu þad.

6. Og sumt fiell a Hellu, Og þa er þad spratt upp, visnade þad, af þvi þad hafde eige Vøkvan.

7. Og sumt fiell a medal Pyrna, og Pyrnenn spruttu upp med og kiæfdu þad.

8. Sumt fiell j goda Jord, og þad vox upp, og bar hundradfalldann Avoxt. Pa er hann sagde þetta, kallade hann, Hvor Eyru hefur ad heyra, hann heyre!

9. Enn hans Lærosveinar spurdu hann ad, og søgdu, Hvada Epterlijking a þetta ad vera?

10. Hann sagde. Ydur er giefid ad vita Leynda Doma Guds Rijkis, enn odrum j Epterlijkingum, so ad siaande þa siae þeir eige, og aheyrande skilie þeir þad eige.

11. Enn þesse er Epterlijkingenn, Sæded er Guds Ord?

12. Enn hiner vid Veigenn, eru þeir sem heyra, enn eptera kiemur Diøfullenn, og tekur Ordid ur þeirra Hiortum, so ad þeir true eige og verde holpner.

13. Enn hiner a Hellunne, eru þeir, sem medtaka Ordid med Fagnade, þa þeir heyra þad, og hafa eige Root, Um stundarsaker trua þeir, og a Freistingar tijma falla þeir fra.

14. Enn þad sem fiell j millum Pyrna, eru þeir sem þad heyra, og velkiast j Sorgum, Audæfum og Vellystingum þessara Lijfdaga, og kiæfast, og færa øngvann Avoxt.

15. Enn þad sem j goda Jord fiell, eru þeir sem Ordid heyra, og hallda þvi j godu og Sidsomu Hiarta, og færa Avoxt j Polinmæde.]

16. Enn eingenn kveiker a Liosenu, og byrger þad med kiere, eda setur þad under Beck, helldur setur hann þad j Kiertahalldenn, so ad þeir sem þar jnn ganga siae Liosid.

17. Pviad eckert er so hulid, ad eige verde opennbert, og eckert so leyndt, ad eige kunngiørest og kome j lioos.

18. Fyrer þvi giæted ad, hvørnenn þier heyred. Pviad þeim ed hefur, hønum mun giefast, Og hvor hellst eckert hefur, fra hønum mun burt takast, eirnenn þad hann meinar sig hafa.

19. Enn Moder hans og Brædur geingu framm ad, og kunnu ecke ad komast til hans fyrer Folkenu.

20. Og hønum var þad undervijsad, Moder þijn og Brædur standa þar ute, og vilia sia þig.

21. Enn hann svarade og sagde til þeirra, mijn Moder og mijner Brædur eru þesser, sem GUds Ord heyra og giora.

II. 22. Og þad bar til a einum Deige, ad hann stie a Skip med sijnum Lærosveinum, og hann sagde til þeirra, forum vær yferum Sioenn, og þeir yttu fra Lande.

23. Enn er þeir foru yfer um, sofnade hann. Og þar kom Hvirfelvindur a Sioenn, og Bilgiurnar fiellu yfer þa, og þeir voru stadder j storum Voda.

24. Pa geingu þeir ad hønum og vøktu hann upp og søgdu, Meistare, Meistare, vær forgongum. Enn hann stod upp og hastade a Vindenn og a Vatnsbilgiurnar, og þær sefuduft, og giørde Logn.

25. Hann sagde til þeirra, hvar er ydar Tru? enn þeir ottuduft, og undruduft, seigande sijn a mille, hvør er þesse? þviad hann byдur Vinde og Vatne, og þaug hlijda hønum.

26. Og þeir sigldu þa til Bygdar Gadarenorum, hvør ed liggur jafngiegnt Galilea.

III. 27. Og þa hann stie a Land, mætte hønum Madur nockur ur Borgenne, sem haft hafde Diøfla um langann Tijma, og klæddest eige

eige føtum, var og eige j Husum, helldur j Daudra manna Grøfum.

28. Enn er hann leit JEsum, hropade hann og fiell nidur fyrer hønum, kallade upp hœrre Roddu og sagde, hvad hefe eg med þig ad giøra, JEsus Sonur GUds hins Hæsta? eg beide þig ad eige kvelier þu mig.

29. Þvi hann baud þeim ohreina Anda ad hann fære ut af Mannenum, þviad hann hafde um langann Tijma hann kvaled, hann var og bundenn med Vidium, og j Fiøtrum vardveittur, enn ad slitnum Bøndunum, var hann rekenn af Dioflenum j Eydemørk.

30. JEsus spurde hann ad og sagde, hvort er Nafn þitt? hann sagde, Legion, þviad marger Dioflar voru j hann farner.

31. Og þeir bœdu hann ad eige skipade hann þeim ad fara j Underdiuped.

32. Enn þar var mikel Svinahiord a bite um Fialled, og þeir bœdu hann ad leyfa sier ad fara j þau, og hann lofade þeim þad.

33. Þa foru Dioflarner ut af Mannenum, og foru j Svinenn, og Hiørdenn steypte sier hraparlega j Sioenn, og dreckteste.

34. Enn er þeir sœu þad sem Hiørdena geymdu, hvad skiede, flydu þeir og geingu burt, og kunngiørdu þad j Borgena og uppa Landed.

35. Þa geingu þeir ut ad sia hvad skied hafde, og komu til JEsu, og fundu Mannenn af hvørium ad Dioflarner høfdu utfared, sitiande Klæddann og Heilvita, til Fota JEsu, og þeir urdu hræddær.

36. Enn þeir sem þad høfdu sied, kynntu þeim hvornenn sa Diofulode var ordenn heilbrigdur.

37. Og allur Mœgur Gadarenorum umliggiande Landa bœdu hann, ad hann vike burt fra þeim, þviad þeir voru af miklum Otta halldner. Hann stie þa a Skip, og snere aptur.

38. Enn sa Madur, sem Dioflarner voru ut af farner bad hann, ad hann mætte vera hia hønum, enn JEsus liet hann fra sier, og sagde.

39. Far heim aptur, og seig hvad mikid GUd veitte þier. Og hann for og predikade um alla Borgena hvad miked JEsus hafde hønum giort.

IV. 40. Þad skiede og er JEsus kom aptur, ad Folkid medtok hann, þviad aller bidu hans.

41. Og sia, Madur kom þar sa er Jairus var ad Nafne, og sa var Samkundu Hussins Høfdinge, hann fiell til Fota JEsu og bad hann, ad hann kiæme j hans Hwს.

42. Þviad hann œtte sier einka Dottur nær tolf œra gamla, og hun var ad Dauda komenn. Og er hann gieck burt, þa þreyngde Folked ad hønum.

43. Ein Kona hafde haft Blodfall j tolf Aar, hvor ed ut hafde giefid Læknurum sijna alla Aleigu, og vard þo af øngvum grædd.

44. Hun gieck a bak til, og snart falld hans Klæda, og jafnsnart stemdest hennar Blodlaat.

45. JEsus sagde, hvør er sa er mig snerte? enn er þeir aller neitudu, sagde Petur og þeir ed med hønum voru, Meistare, Folkid þreynger og þiakar ad þier, og þu seiger, hvør snart mig?

46. JEsus sagde, einhvør hefur snortid mig, þviad eg kenne Krapt ut af mier geingenn.

47. Enn er Konann sa, ad þad var eige hulid, kom hun skialfande, og fiell framm fyrer hønum, og kunngiørde fyrer øllu Folke, fyrer hvøria Søk er hun hafde hann snortid, og hvørsu hun hafde jafnsnart heil Ordid.

48. Þa sagde hann til hennar, vertu glød mijn Dotter, þijn Tru hialpade þier, far j Fride.

49. Og er hann talade enn þetta, kom einn af Samkunduhøfdingians Þienurum, seigiande hønum, þijn Dotter er ønduð, omaka Meistarann eige.

50. Enn er JEsus heyrde þad, svarade hann hønum og sagde, hrædstu eige, tru ad eins, þa verdur hun heilbrigd.

51. Og er hann kom j Hwsid, lofade hann ei neinum jnn ad ganga, nema Petro, Jacobo og Johanne, og Fødur og Modur Barnsins.

52. Enn þeir grietu aller, og syrgdu hana, hann sagde þa, grœtid eige, þviad hun er eige daud, helldur sefur hun.

53. Og þeir dearudu hann, þviad þeir visu ad hun var loatenn.

54. Enn hann rak þa alla ut, og tok i hond hennar, kallade og sagde, Stulka stattu upp:

55. Og hennar Ande kom aptur, og hun stod jafnsnart upp. Hann skipade og ad giefa henne ad eta.

56. Og hennar Forelldrum felmtrade vid, enn hann baud þeim ad seigia ongvum hvad giorst hafde.

## IX. Capitule.

(I) JEsus sender Lærisveina ut: (II) Herodes vill sioa JEsum: (III) Hver ed sedur 5000 Manna; (IV) Ummindast a einu Fialle; (V) rekur Diøful ut; og (VI) talar um sinn Dauda.

I. Og hann kallade samann þa tolf sijna Lærisveina, og gaf þeim Vallð og Makt yfer øllum Dioflum, og þad þeir læknudu Sotter.

2. Og hann sende þa ut ad predika GUds Rijke, og ad græda Siuka.

3. Og sagde til þeirra, þier skulud eckert taka med ydur a Veigenn, hvorke Staf nie Tosku, eige Braud nie Peninga, og eingenn skal hafa tvo Kyrtla.

4. Og j hvort þad Hws sem þier innganged, þa blijfed þar, þangad til þier fared j burt þadann.

5. Og sa hvor ed medtekur ydur eige, þa ganged ut ur þeim Stad, og hristed eirnenn Duptid af Footum ydar, til Vitnisburdar yfer þa.

6. Og þeir geingu ut og ferduðust i giegnum Kauptun, predikudu Evangelium, og læknudu allstadar.

II. 7. Enn allt þad er skiede fyrer hann, kom fyrer Fiordungshofdingiann Herodem, og hann vard hræddur, af þvi ad af sumum sagdest þad Johannes være af Dauda risinn.

8. Enn af sumum, þad Elias være auglystur, en af sumum þad eirn af gomlu Spoamonnum være upp aptur risinn.

9. Herodes sagde, Johannem hef eg Hoalshoggved, enn hvor er þesse, af hvorium eg heyre þetta? og hann fystest ad sia hann.

III. 10. Postularner komu aptur og skijrdu honum fra hvad mikla hlute ad þeir hofdu giort, og hann tok þa til sijn, og veik burt afsijdes j Eydemork, hia Borgenne sem hiet Bethsaida.

11. Og er Folked vard þess vart, ferdadest þad epter honum, og hann liet þa koma til sijn, og sagde þeim af GUds Rijke, læknade og þa sem þess þurftu.

12. Enn er Deigenum tok ad halla, geingu þeir tolf til hans, og sogdu honum, loat Folked j fra þier, ad þad gange j þaug Þorp og Kauptun er hier eru j kring, ad þeir kynne ad finna Herberge og Fædu, þviad vier erum hier a Eydemorku.

13. Enn hann sagde til þeirra, giefed þier þeim ad eta, þeir sogdu, vær hofum ei nema fimm Braud, og tvo Fiska, nema so sie ad vær forum og kaupum Fædu so morgu Folke.

14. Þvi þar var nær Fimm þusund Manns, hann sagde þa til sinna Lærisveina, loated þa setiast j lag, fimmtijger og fimmtijger samann.

15. Þeir giordu so, og settu sig nidur aller.

16. Þa took hann þaug fimm Braud og tvo Fiska, leit til Himens, giorde Packer þar yfer, og braut sundur, og fieck sijnum Lærisveinum, ad þeir legde fyrer Folked.

17. Þeir neyttu og urdu aller sadder, þar var og uppteked er þeim hafde afgeinged af Leyfum, tolf Karfer.

18. Og þad giordest þa hann var eirn og badst fyrer, og hans Lærisveinar hia honum, ad hann spurde þa ad og sagde, hvorn seiger Folked mig vera?

19. Þeir svorudu og sogdu, þeir seigia þu siert Johannes Skijrare, enn adrer þu siert Elias, enn sumer seigia, þad eirn af hinum gomlu Spoamonnum sie upp risinn.

20. Hann sagde til þeirra, hvorn seiged þier þa mig vera? Petrus svarade þa og sagde, þu ert Christur GUds.

21. Enn hann hastade a þa, og baud þeim ad þeir segde þad eige neinum.

22. Og sagde, þvi Mannsins Son mun

enn margt lijda, og forſmaadur verda af Oll-
dungum og Skriftlærdum, og Hoſudpre-
ſtum, og lijflatenn verda, og a þridia Deige
upp riiſa.

23. Hann ſagde til þeirra allra, hvor hann
vill mier epterfilgia, hann afneite ſialfum ſier,
og take a ſig ſinn Kroſs hvorsdaglega, og filge
mier epter.

24. Þvi hvor ed ſijnu Lijfe vill bihallda, hann
mun tijna þvi; enn hvor ſijnu Lijfe tijner min-
na vegna, hann ſkal bihallda þvi.

25. Þvi hvad gagnar þad Mannenum þo
hann hreppe allann Heimenn, enn glate ſial-
fum ſier, eda ſkade ſialfann ſig?

26. Enn hvor hann feilar ſier mijn og min-
na Orda, þeſs mun Mannſins Sonur feila
ſier, þa hann kiemur j Dyrd ſinne og ſijns Fø-
durs, og Heilagra Eingla.

27. Og eg ſeige ydur ſannlega, ad nockrer
eru af þeim hier ſtanda, ſem ecke ſkulu ſmacka
Daudann, fyrre enn þeir ſia GUds Rijke.

IV. 28. Og þad ſkiede epter þeſſa Rædu nær
aatta Dogum, ad hann tok med ſier Petrum,
Johannem, og Jacobum, og gieck uppa eitt
Fiall ad bidiaſt fyrer.

29. Og þa er hann badſt fyrer, vard hans
Andlits Mind ødruvijs, og hans Klæde hvijt
og ſkijnande.

30. Og ſia, ad tveir Menn toludu vid hann,
hvorier ed voru Moyſes og Elias.

31. Þeir opennberuduſt j birtunne, og to-
ludu um hans (a) Utfor, hvoria hann munde
fullkomna til Jeruſalem.

(a) (Utfør) Þad er, hvor Afdrif hann munde faa.

32. Enn Petur og þeir ed voru med honum
voru fuller af Svefne. Og er þeir voknudu,
ſau þeir hans Dyrd, og þa tvo Menn hia ho-
num ſtanda.

33. Þad vard og þa þeir ſkildu vid hann, ad
Petur ſagde til JEſu, Meiſtare, gott er hier
ad vera, og giorum hier upp þriaar Tialldbu-
der, þier eina, Moyſi eina, og Elie eina, og
hann viſſe ei hvad hann ſagde.

34. Enn þa hann talade þetta, kom eitt
Sky og ſkygde yfer þa. Og þeir ottuduſt er
ſkyed leid yfer þa.

35. Og Rodd kom ur Skyenu er ſagde, þeſſe
er Sonur minn elſkulegur honum ſkulud þier
heyra.

36. Og j þvi ad ſoddann Rodd vard, fundu
þeir JEſum einſamann. Og þeir þøgdu og
ſøgdu øngvum neitt fra þvi, a þeim Dogum,
hvad þeir hofdu ſied.

V. 37. Og þad ſkiede annars Dags, er þeir
foru ofan af Fiallenu, ad margt Folk rann j
moti honum.

38. Og ſia, einn Madur a medal Folkſins,
kallade upp og ſagde, Meiſtare! eg bid þig, ſia
til Sonar mijns, þviad hann er minn einka
Son.

39. Sia, ad Andinn grijpur hann, þa e-
miar hann jafnſnart, og hann hrijfur hann ſo
hann froduſeller, og varla ſkilſt hann vid hann,
þa hann hefur hrifed hann.

40. Og eg bad þijna Læreſveina ad þeir ræ-
ke hann ut, og þeir gaatu ei.

41. Þa ſvarede JEſus og ſagde, o þu hin
Vantruada og frahverfa Kinſlod, hvorſu
leinge þa ſkal eg hia ydur vera og lijda ydur?
fær þu hingad Son þinn.

42. Og þa hann kom til hans, hreif Dio-
ſullenn hann og ſleit miøg, enn JEſus ſtraffade
hinn ohreina Anda, og læknade Pilltinn, og
fieck hann aptur Fodur ſijnum, enn þeim
ognade ollum GUds Dyrd.

VI. 43. Enn er aller þeir undruduſt þad allt
hvad hann giorde.

44. Sagde hann til ſinna Læreſveina, ta-
ked þeſſa rædu j ydar Eyru, þviad Mannſins
Son mun ſeliaſt j Manna Hendur.

45. Enn þad Ord underſtodu þeir eige, og
þad var hulid fyrer þeim, ſo ad þeir ſkildu
þad eige, og þeir ottuduſt ad ſpyria hann ad
þvi ſama Orde.

46. Enn ſa þaanke kom þeirra a mille, hvor
þeirra munde Meſtur vera.

47. Og þa er JEſus ſa þeirra Hiartans
Þanka, tok hann eitt Barn og ſette þad hia
ſier.

48. Og

48. Og hann sagde til þeirra, hvør hellst er medtekur þetta Barn j mijnu Nafne, sa medtekur mig, og hvør hann medtekur mig, sa medtekur hann er mig sende. Enn sa ydar sem minnstur er allra, hann mun mikell verda.

49. Johannes svarade þa og sagde. Meistare, vær saum eirn er rak Diofla ut j þijnu Nafne, og vær vornudum hønum þess, þviad hann filger þier ecke med oss.

50. JEsus sagde til hans, fyrermuned hønum þad eige, þviad hvør hann er ei mote oss, sa er med oss.

51. Enn þad skiede þa Tijmenn fullkomnadest, er hann skyllde takast burt hiedann, snere hann sinne Asioan til ad ganga strax til Jerusalem, og hann liet Sendeboda fara fyrer sinne Augsyn.

52. Þeir foru og komu inn j Samverskt Kauptun, ad utvega hønum Herberge.

53. Enn þeir toku eige vid hønum, af þvi hann hafde snued sinne Asian, ad reisa upp til Jerusalem.

54. Enn er hans Læresveinar Jacobus og Johannes sau þad, søgdu þeir, Herra villtu, þa villum vier seigia, ad Elldur falle af Himne, og fortære þeim lijka sem ad * Elias giorde?

* 2 B. Kon. 1, 10.

55. Enn JEsus snere sier vid, hastade a þa og sagde, vited þier eige hvørs Anda Syner þier erud?

56. Mannsins Sonur er ei komenn til þess ad fyrerfara Sælum Manna, helldur þær ad frelsa?

57. Og þeir geingu j annad Kauptun, og þad skiede er þeir voru a veigenum, ad eirn sagde til hans, eg vil filgia þier epter, hvørt hellst þu fer.

58. JEsus sagde til hans, Refar hafa Holur, og Fuglar Himens Hreidur, enn Mannsins Son hefur eige hvar hann meige sijnu Høfdi ad halla.

59. Hann sagde þa til eins annars, filg þu mier epter, enn sa sagde, HErra, lofa mier first ad ganga og grafa Fødur minn.

60. JEsus sagde til hans, laat þa Daudu grafa sijna Daudu, enn þu gack og boda GUds Rijke.

61. Og annar sagde, HErra, eg vil þier epterfilgia, enn lofa mier first ad seigia þeim mijna Burtfor, sem eru j mijnu Hwsi.

62. JEsus sagde til hans, hvør sem leggur sijna Hønd a Plogienn, og lijtur a bak sier aptur, er ei hæfelegur til GUds Rijkes.

## X. Capitule.

(I) JEsus sender 70 Læresveina ut: (II) Kallar sina Læresveina sæla: (III) Hrosar Gudræknenne.

1. Þar epter utvalde Drottenn og adra siotijgu, og sende þa ut tvo og tvo fyrer sier, j allar þær Borger og Alfur er hann villde koma.

2. Og sagde til þeirra, ad sonnu er Kornskierann mikel, enn Verkamennerner fæer, þvi bidied Herrann Kornskierunnar, ad hann sende Verkmenn j sijna Kornskieru.

3. Fared þot, siaed, eg sende ydur so sem Lomb a medal Varga.

4. Bered eige Pung, nie Tosku, og eige Sko, heilsed og engvum a Veige.

5. Hvar þier komed j eitt Hwsi, þa seiged first, Fridur sie j þessu Hwsi.

6. Og ef þar er Barn Fridarens, þa skal ydar Fridur hvijlast yfer hønum, enn ef ei er, þa mun ydar Fridur snuast til ydar aptur.

7. Blijfed j þvi sama Hwsi, etid og dreckid hvad þeir hafa, þviad verdur er Verkmadurenn sinna Launa. Eige skulud þier rasa hus af Hwse.

8. Og j hvoria Borg sem þier innganged, og þeir medtaka ydur, þa eted þad sem fyrer ydur verdur frammsett.

9. Og lækned Siuka þa sem þar eru, og seiged þeim, GUds Rijke er nalægt komed ydur.

10. Enn ef þier ganged j nockra Borg þar þeir medtaka ydur ei, gangid ute a hennar Stræte, og seiged.

11. Eirnenn þad Dupt sem loddi a oss ur ydvari Borg, hristum vær af a ydur, þo skulud þier vita, ad GUds Rijki var nalægt ydur.

12. Eg seige ydur þad Sodoma mun bæri-
legra vera a þeim Deige, enn þeirre Borg.
13. Vei þier Corazin, vei þier Bethsaida,
þviad ef skied hefde j Tyro og Sidon soddann
Furdu Verk, sem hia ydur hafa skied, hefde
þeir fordum seted j Seck og Osku, og giort so
Idran.
14. Þo mun Tyro og Sidone bærelegra
vera a Domenum, enn ydur.
15. Og þu Capernaum, sem uphafenn ert til
Himens, munt nidurþrickiast allt til Helvijtis.
16. Hvor ydur heyrer, hann heyrer mier,
og hvor ydur forsmaar, hann forsmaar mig,
enn hvor mig forsmaaer, hann forsmaar þann
sem mig sende.
17. Enn þeir siotijger komu aptur med fag-
nade, og sogdu, HErra, þar eru eirnenn
Dioflar oss undergiefner j þijnu Nafne.
18. Hann sagde til þeirra, eg sa Satan so
sem Ellding hrapa af Himne, siaed.
19. Eg hefe giefed ydur Valld til ad stijga
uppa Hoggorma og Scorpiona, og yfer al-
lann Krapt Ovinarens, og ydur mun eckert
grauda meiga.
20. Enn þo skulud þier eige glediast af þessu,
þad Andarner eru ydur undergiefner, helldur
gledied ydur af þvi, þad ydar Nofn eru skrifud
a Himnum.
21. Og samstundis gladdest JEsus j Anda,
og sagde, eg prijsa þig Fader og Drottinn
Himens og Jardar, ad þu hulder þetta fyrer
Spekingum og Vitringum, og openberader
þetta Smælingium, ad Sonnu Fader, þviad
so þocknadest þad fyrer þier.
22. Aller Hluter eru mier j Hendur giefner
af minum Fodur, og eingenn veit hvor ed
Sonurenn er nema Faderenn, eda hvor ed
Faderenn sie nema Sonurenn, og hvorium ed
Sonurenn vill þad openbera.

Gudspialled XIII Sunnud. epter Trinit.

II. 23. Og hann snerest til sinna Læresvei-
na, og sagde sierdeilislega. Sæl
eru þaug Augu sem sia hvad þier siaed.
24. Þviad eg seige ydur, þad marger
Spaamenn og Kongar villdu hafa sied hvad
þier siaed, og sau þad eige, og heyra hvad þier
heyrid og heyrdu þad eige.
25. Og sia ad nockur Logvitringur stod
upp, freistade hans og sagde, Meistare, hvad
skal eg giora so ad eg erfe eylijft Lijf?
26. Hann sagde til hans, hvornenn sten-
dur skrifad j Logmaalenu? hvornenn les þu?
27. Hann svarade og sagde, * elska skalltu
Drottenn Gud þinn af ollu Hiarta, og af
allre Ond, og af ollum Mætte, og af ollu Hug-
skote, og Naunga þinn sem sialfann þig.
* 5 B. Mos. 6, 5.
28. Hann sagde þa til hans, riett svarader
þu, gior þad og muntu lifa.
29. Enn hann villde riettlæta sialfann sig,
og sagde til JEsu, hvor er þa minn Naunge?
30. Enn JEsus svarade og sagde, madur
nockur for fra Jerusalem ofann til Jericho, og
hrasade bland Ræningia, hvorier ed flettu
hann Klædum, og sloou hann, geingu burt,
og lietu hann þar epter halfdaudann liggia.
31. Enn so bar til ovart, ad eirn Prestur for
ofann sama Veg, og er hann leit hann, gieck
hann framm hia honum.
32. Lijka og Levitenn, þa hann kom nær
þeim Stad, og er hann sa hann, gieck hann
og framm hia.
33. Enn einn Samverskur Madur ferda-
dest og kom þangad, og er hann leit hann, sa
hann aumur a honum.
34. Gieck ad honum, og batt um Saar
hans, hellande j þau Vidsmiore og Vijne, og
lagde hann a sinn Eyk, og flutte til Herbergis,
gaf og giætur ad honum.
35. Enn annars Dags ferdadest hann
burt, og tok upp tvo Peninga, og fieck Hws-
buandanum, og sagde, haf goat a honum,
og hvad hellst þu leggur meira ut, þa skal eg
borga þier nær eg kiem aptur.
36. Hvor þeirra þriggia synest þier vera
þess (a) Naunge, sem hrasadur var j bland
Ræningianna? enn hann sagde, sa er Mi-
skunsemdena giorde a honum.

(a) (Naunge) Naunge er ecke ad eins sa sem Velgior-
nin-

ningenn giører, helldur og so sa sem Þorf hefur fyrer Velgiorningenn, Þvi vier erum aller hvør annars Naunge.

37. Þa sagde JEsus til hans, far þu þa og giør slijkt hid sama.]

III. 38. Enn þad skiede þa þeir ferduduſt, ad hann gieck jnn j eitt Kauptun. Þar var ein Kvinna er Martha hiet, hun medtok hann j sitt Hws.

39. Og hun ætte þa Systur er Maria hiet, hvør ed sette sig fyrer Fætur JEsu, og heyrde hans Ord.

40. Enn Martha brautst miøg fyrer ad þiona hønum. Hun gieck ad og sagdi, Herra, Hirder þu ei um þad ad Syster mijn lætur mig einsama þiona? seig henne ad hun take hende til med.

41. Enn JEsus svarade og sagde til hennar, Martha, Martha, þu ert so ꝏ-hyggiufull og mædest j mørgu.

42. Eitt er naudsynlegt, Maria hefur kiørid sier þad goda Hlutskipte, hvad eige skal fra henne takast.

## XI. Capitule.

JEsus (I) kenner oss ad bidia: (II) Rekur ut Moallenses Diøful: (III) Vill ecke gefa Gydinga Kiuslod Teikn: (IV) Hropar Vey yfer andlegum Hræsnurum.

I. Og þad skiede, ad hann var j nockrum Stad, ad bidiast fyrer, og er hann gaf upp, þa sagde eirn af hans Lærefveinum til hans, HErra, kienn þu oss ad bidia, lijka sem Johannes kiende sijnum Lærefveinum.

2. Og hann sagde til þeirra, nær þier bidied, seiged, Fader vor, a Himnum, helgest þitt Nafn, tilkome þitt Rijke. Verde þinn Vilie so a Jordu sem a Himne.

3. Gief oss hvørn Dag vort daglegt Braud.

4. Og fyrergief oss vorar Synder, þvi vær fyrergiefum og so ollum þeim sem oss eru skylduger. Og leid oss ecke j Freistne, helldur frelsa oss fra þvi jlla.

5. Og hann sagde til þeirra, hvør er ydar sem hefur eirn Vin, og fer til hans um midnætte, og seiger hønum, goode Vinur, laana mier þriu Braud.

6. Þviad Vinur minn er komenn af leid til mijn, og eg hefe ei þad eg meige framm fyrer hann setia.

7. Og hinn sem fyrer jnnann er, svarar og seiger, giør mier ei Onaad, þvi Dyr eru nu lucktar, og Børn mijn eru j Svefnhwsi hia mier, og eige giet eg uppstaded, ad fa þier þaug.

8. Eg seige ydur, ef hann stendur eige upp og fær hønum þaug, fyrer þad ad hann er hans Vinur, þa mun hann þo fyrer Saker hans leidenlegrar brekunar uppstanda, og fa hønum so miked sem hann þarf.

9. Og eg seige ydur eirnenn, bidied, og mun ydur giefast, og leited ad, og munud þier finna, Knyed a, og mun fyrer ydur upploked verda.

10. Þviad hvør ed bidur, hann mun ødlast, hvør ed leitar, hann finnur, og hvør ed aknyr, fyrer hønum lykst upp.

11. Enn hvar bidur ydar a medal eirn Sonur Fødurenn um Braud, ad hann biode hønum Stein þar fyrer? Eda bidie hann um Fisk, ad hann biode hønum einn Høggorm fyrer Fisk?

12. Eda ef hann bidur um Egg, ad hann bioode hønum Scorpion þar fyrer?

13. Nu med þvi, ad þier sem vonder erud, kunnid godar Giafer ad giefa Børnum ydar, miklu meir þa mun Faderenn a Himnum giefa þeim Heilagann Anda er hann bidia.

Gudspialled III. Sunnudag i Føstu.

II. 14. Og hann rak ut Diøful þann er Moallaus var, Og þad skiede er Diøfullenn var ut farenn, ad hinn Moallause talade, og folked undradest þad.

15. Enn nockrer af þeim sogdu, Fyrer Belzebub Diøfla Høfdingia, þa rekur hann Diøfla ut.

16. Adrer freistudu hans, og gyrntust af hønum Teikne, af Himne.

17. Enn hann formerkte þa þeirra Hugrenningar,

ningar, og sagde til þeirra, Hvort rijke sem j sialfu sier er sundurþyckt, þad mun eydast, og hvort Hwos mun yfer annad hrapa.

18. Og ef Andskotenn er j sialfum sier sundurþyckur, hvornenn ma hans Rijke þa standast? firſt þier seigied mig fyrer Belzebub utreka Diofla.

19. Og ef eg oa fyrer Belzebub Diofla ut ad reka, Fyrer hvorn utreka þa ydar Born þa? Fyrer þvi skulu þeir verda og ydar Domendur.

20. Enn ef eg rek ut Diofla fyrer Guds Fingur, ad sonnu kiemur þa Guds Rijke til ydar.

21. Nær ed sterkur Hervopnadur vardveiter sijna Holl, þa er allt med mak hvad hann oa.

22. Enn þa er annar honum yfersterkare kiemur, og yfervinnur hann, þa tekur hann hans Harneskiu a hvoria hann treyste og sundurskipter Herfangenu.

23. Hvor hann er ei med mier sa er j mote mier, Og hvor hann dregur eige samann med mier, sa sundurdreifer.

24. Nær Ohreinn Ande fer af Mannenum ut, voafar hann um þurra stade, leitar ad Hvijld og finnur ecke, Pa seiger hann, Eg vil hverfa aptur j hwos mitt, hvadan eg for ut.

25. Og er hann kiemur, finnur hann þad med Vende sopad og prydt.

26. Pa fer hann og tekur med sier siø adra Anda sier verre, og er þeir eru þar jnnkomner, byggia þeir þar, og verdur so sijdann þess Manns hid sijdara verra hinu fyrra.

27. Enn þad skiede er hann so talade, hof nockur Kona a medal Folksins upp sijna Rodd og sagde til hans, Sæll er sa Kvidur er þig bar, og þaug Brioſt er þu mylkter.

28. Enn hann sagde, ja, Sæler eru þeir, sem heyra Guds Ord og vardveita þad ]

III. 29. Enn er Folkid þreyngdest þar framm ad, tok hann ad seigia, Petta er ein vond Kinslod hun gyrnest Teikn, og henne skal eckert Teikn giefast, nema Teikn * Jonæ Spaamanns. * Jon. 2, 1.

30. Pviad lijka sem Jonas var Teikn Ninive Borgar monnum, so mun Mannsins son verda Kinslod þessare.

31. Drottningenn af Sudre mun ganga upp fyrer Domenn, med Monnum þessarar Kinslodar, og fordæma þa, Pviad * hun kom af ytstum Endemorkum Veralldar, ad heyra Speke Salomonis. Og siaed, Hier er meir enn Salomon. * 1 B. Kon. 10, 1. 2 Chron. 9, 1.

32. Menn Ninive Borgar munu uppganga fyrer Domenn med þessare Kinslod, og munu hana fordæma, Pviad * þeir giordu Jdran epter Predikan Jonæ, og siaid, Hier er meir enn Jonas. * Jon. 3, 5.

33. Eingenn tendrar Liosid, og setur þad j leyne, eda under mæle-ask, helldur a Liosastiakann, so ad hvor sem jnngeingur siae Liosid.

34. Augad er lios Lijkamans, þvi ef þitt Auga er einfalldt, so er þinn Lijkame allur skiær, Enn ef Auga þitt er skrakur, þa er einnenn þinn Lijkame Mirkur.

35. Pvi sia so til, ad Lios þad sem i þier er, sie ei Mirkur.

36. Þegar Lijkame þinn er allur skiær, so hann hefur ei nockurn part af Mirkrenu, so blijfur hann allur skiær, og mun upplysa þig so sem ein skiær Leiptran.

IV. 37. Og er hann var slijkt ad mæla, þa bad hann nockur Phariseus, ad hann æte Middagsverd hia sier, Hann gieck jnn og sette sig til Bordsins.

38. Enn er Pharisearenn sa þad, undradest hann, ad hann þvode sier eige fyrer Maaltijdena.

39. Enn DRottenn sagde til hans, Pier Pharisei halldid hid ytra hreinum Bikurum og Fotum, enn ydvart hid jnnra er fullt med Roan og Illsku.

40. Pier Heimsker, Sa ed giorde þad sem er hid ytra, giorde hann ecke þad hid jnnra?

41. Giefid þo Olmosu af þvi sem þar er, og sia, þa er ydur þad allt hreint.

42. Vei ydur Phariseis sem tijundeded Myntu, og Ruthu, og allt Kaalgresi, og snei-

ded hia Dome og Guds Kiærleika, Þetta byriar ad giøra, enn hitt eige epter ad ſkilia.

43. Vei ydur Phariſeis, ſem giarnan ſitied efſt j Samkunduhuſum, og vilied ſkoa Kvediur a Torgum.

44. Vei ſie ydur Skriftlærdum, og Phariſeis, Þier Hræſnarar, þvi þier erud ſem huldar Grafer Frammlidenna, yfer hvørium ad Menn ganga, og þeckia þær eige.

45. Þa ſvarade nockur Skriftlærdur, og ſagde til hans, Meiſtare, med þeſſu Orde ſmaanar þu og ſo oſs.

46. Enn hann ſagde, Og ydur Skriftlærdum ſie eirnenn Vei, þvi þier þiaad Menn med Byrdum, er þeir gieta ei bored, og þier ſnerted þær eige med einum Fingre.

47. Vei ydur, þviad þier uppbygged Spaamanna grafernar, enn Fedur ydar lijflietu þa.

48. Ad ſønnu þa vitned þier þad, og ſamſinned ſo Verkum ydvara Fedra, þviad þeir aflijfudu þa, enn þier uppbygged Leide þeirra.

49. Fyrer þvi ſeiger Spekenn GUDs, eg vil ſenda til þeirra Spaamenn og Poſtula, og ſuma af þeim munu þeir deyda og ofſækia.

50. So ad krefieſt af þeſſare Kinſlod Blod allra Spaamanna, þvi uthellt hefur verid fra Grundvallan Veralldar.

51. Allt fra Blode Abels, og til Blods Zacharie, ſem deyddur var j mille Alltaris og Muſtereſins, ja, eg ſeige ydur, ad þad mun kreflaſt af þeſſare Kinſlod.

52. Vei ſie ydur Skriftlærdum, þvi þier bered Lykel Vitſkunnar, enn komed þo eige ſialfer þar jnn, og hamled þeim er þar vilia jnnganga.

53. Enn þa hann hafde þvilijkt til þeirra talad, toku Skriftlærder til og Phariſei þunglega ad þreyngia ad honum, og vielſamlega hann ad morgu adſpyria.

54. Veitande honum umſatur, og leitudu vid ad jaga þad nockud af hans Munne, er þeir mættu hann um kiỻa.

# XII. Capitule.

JEſus talar (I) um Truna, og (II) Vantruna.

I. Þa þuſte Folked ad, og þar komu margar Þuſunder til ſamans, ſo ad hvør trad under annann, þa hof hann upp og ſagde til ſinna Læreſveina, vakted ydur fyrer Surdeige Phariſeorum, hvad ad er Hræsne.

2. Þviad eckert er ſo hulid, ſem eige ſkule verda auglioſt; nie nockud ſo leyndt, ad Menn ſkule eige ſkoa ad vita.

3. Fyrer þvi, hvad þier ſeiged j Mirkrum, þad mun j Lioſi heyraſt, og hvad þier j Svefnhuſum hvijsled j Eyra, mun a Ræfrum uppe predikad.

4. Enn eg ſeige ydur Vinum mijnum, hrædeſt eige þa ſem Lijkamann aflijfa, og epter þad fa þeir ei meira adgiørt.

5. Enn eg vil ſyna ydur hvørn þier ſkulud hrædaſt, hrædeſt hann, ſem epter þad er hann hefur lijfláted, þa hefur hann Makt til ad kaſta j Helvijte, jaa, ſeige eg ydur, þa hrædeſt hann.

6. Seliaſt eige fimm Skogar-þreſter fyrer tvo Peninga, og ſamt er eirn af þeim ecke gleymdur fyrer GUde.

7. So eru og øll Høfudhaar ydar talenn, fyrer þvi ſkulud þier eige ottaſt, þviad þier erud dyrre enn marger Skogar-þreſter.

8. Enn eg ſeige ydur, hvør hellſt hann vidurkienner mig fyrer Mønnunum, þann mun Mannſins Son vidurkienna fyrer Englum GUDs.

9. Enn hvør hann afneitar mier fyrer Mønnunum, honum mun afneitad verda fyrer GUDs Einglum.

10. Og hvør ed talar Ord j giegn Mannſins Syne, þa mun honum þad fyrergiefaſt, enn hvør hann hæder ad Heiløgum Anda, honum ſkal þad eige fyrergiefaſt.

11. Enn nær þeir leida ydur jnn i Samkunduhus, og fyrer Valldid og þa Megtugu, þa vered eige hugſiuker um, hvørnenn eda hvøriu þier ſkulud ſvara, eda hvad þier ſkulud ſeigia.

12. Þviad

12. Þviad Heilagur Ande mun fræda ydur a ſomu Stundu, hvad ydur byriar ad ſeigia.

II. 13. Pa ſagde eirn af Folkenu til hans, Meiſtare, Seig Brodur mijnum ad hann ſkipte vid mig Arfenum.

14. Enn hann ſagde honum, Pu Madur, Hvør ſette mig fyrer Domara, eda Arfſkiptis mann yfer ydur?

15. Og hann ſagde til þeirra, Siaed til, og vared ydur vid Agyrne, þviad eingenn lifer þar af, þad hann hafe mikel Audæfe.

16. Og hann talade þa eina Epterlijking til þeirra, og ſagde. Audugur Madur nockur var ſa, hvørs Akur ed fært hafde Avøxt.

17. Hann huxade med ſier og ſagde, hvad ſkal eg til giora? eg hefe eige þad, hvar eg meige mijnum Avexte j ſafna.

18. Og ſagde, þad vil eg giora, eg vil nidur rijfa mijna Hlødu, og giora upp adra meire, og ſafna þangad øllu þvi er mier hefur groed, og mijnum Audæfum.

19. Og þa mun eg ſeigia til Saalu minnar, Saala mijn, þu hefur mikenn Forda j morg aar, hvijl þig nu, et og dreck, og vert glød.

20. Enn GUd ſagde til hans, þu Daare, a þeſſare Nott munu þeir þijna Saal af þier kreſia, hvørs verdur þad þa er þu hefur tilreidt?

21. So geingur til fyrer þeim er ſier draga Siod ſamann, og eru ei j Gude Rijker.

22. Pa ſagde hann til ſinna Læreſveina, fyrer þvi ſeige eg ydur, ſtwred eige fyrer ydar Lijfe, hvad þier ſkulud eta, og eige fyrer Lijkama ydar, hvøriu hann ſkule klædaſt.

23. Lijfid er meira enn Fædann, og Lijkamenn meire enn Fotenn.

24. Hygged ad Hrøfnunum, þeir ſaa hvørke, nie uppſkiera, eige hafa þeir Hlødu nie Kiallara, og ſamt fæder GUd þa. Miklum mun betre erud þier þo Fuglunum.

25. Enn hvør ydar fær med ſinne Hugſyke aukid Stærd ſijna um eina aalnar leingd?

26. Nu ef þier orkid eige hins minſta, hvar fyrer ſtwred þier þa fyrer hinu ødru?

27. Hugleided Liliurnar a Mørkenne, hvørnenn þær vaxa, þær vinna eige nie ſpinna, enn eg ſeige ydur, þad Salomon j allre ſinne Dyrd var ei ſo ſkryddur, ſem ein af þeim.

28. Nu firſt GUd ſkryder ſo þad Gras ſem j Dag er a Akre, og a Morgun verdur j Ofnenn laated, miklu meir mun hann þa klæda ydur, o þier Lijteltruader?

29. Par fyrer og ſo þier, hyrded þar ecke um hvad þier eted eda drecked, og hefied ydur ei hoatt.

30. Þviad epter þeſſu øllu ſækia Heidingiar j Verølldunne, enn Fader ydar veit vel ad þier þurfid þeſſa vid.

31. Þvi leited fyrſt ad GUds Rijke, og mun ydur þa þetta allt tilfalla.

32. Hrædſt eige þu litla Hiørd, þviad þad þocknaſt Fødur ydar ad giefa ydur Rijked.

33. (a) Selied hvad þier hafed, og giefed Ølmøſu, giøred ydur og þa Secke, er eige elldaſt, og þann ſiod er eigi minkar a Himnum, ad hvørium Þiofar fa ei komeſt, nie Melur eted.

(a) (Selied) Yfergiefed, afſeiged, Hated, Eiged ecke, Safned ecke Fieſiodum, Hafed þad ecke, og etc. Er allt ſagt j þeirre meiningu, ad Menn ſkulu ecke elſka, eda leita þeſs framar enn Guds og hans Ords, Helldur ſo ſem Paalus ſeiger, eins og vier hefdum þad ecke. 1 Cor. 7.

34. Þvi hvar ydar Fieſiodur er, þar mun og ydvart Hiarta vera.

35. Lated ydar Lendar umgyrdtar vera, og ydvart Lios loga.

36. Og vered lijker þeim mønnum er bijda epter ſijnum Laanardrottne, hvønær hann mune aptur koma af Brullaupinu, ſo ad þa hann kiemur og ber, ſie ſtrax fyrer hønum uppløked.

37. Sæler eru þeir Þionar, hvøria ed Herrann finnur vakande, þa hann kiemur. Sannlega ſeige eg ydur, þad hann mune uppſtytta ſig, og ſetia þa til Bords og ganga fyrer þeim og þiona þeim.

38. Og ef hann kiemur a annare Vakt, eda a hinne þridiu Vakt, og finnur þad lijka ſo, Sæler eru þeir Þionar.

39. Enn þad ſkulud þier vita, ad ef Hwsbon-

bondenn visse a hvorre stundu ad Þiofurenn kiæme, þa vekte hann og liete eige grafast j sitt Hws.

40. Fyrer þvi vered þier og reidubuner, þviad Mannsins Sonur mun a þeirre stundu koma, er þier ætled eige.

41. Þa sagde Petur til hans, Herra, Seiger þu þessa Epterlijking til vor, eda til allra?

42. Enn DRottenn sagde, Hvad mikels er verdt um truann og forsialann Hwsstiornarmann, hvorn ed hans Herra setur yfer sitt Heimkynne, ad hann giefe þeim j riettann tijma þad sem þeim ber?

43. Sæll er sa Þion, sem hans Herra finnur so giørande, þa ed hann kiemur.

44. Sannlega seige eg ydur, þad hann mun setia hann yfer allt sitt Gots.

45. Enn ef sa same Þion seiger j Hiarta sijnu, Herra minn giører dvøl a ad koma, Og tekur ad beria Vinnumenn og Amboatter, og ad eta og drecka, og sig druckenn ad giøra.

46. Þa mun Herrann þess Þions koma a þeim Deige er hann þenker eige, og a þeirre stundu er hann veit eige, og hann mun høggva hann j sundur, og leggia hønum sijn laun med Otruum.

47. Enn hvør sa Þion er veit sijns Herra Vilia, og bio sig eige til, giorde og eige epter hans Vilia, hann mun lijda mørg Høgg.

48. Enn sa hann veit eige, og giører þad Hegningar er verdt, hann mun minne Hirting foa, Þviad þeim sem mikid er veitt, af hønum æskist mikid, og hvorium mikid verdur j Hendur sellt, af hønum heimtist mikid.

49. Eg er komenn ad kveikia upp (b) Elld a Jordu, hvad villde eg helldur enn hann brynne nu þegar?

(b) (Elld) Hann talar epter þvi Mæltæke, Eg vil kveikia Elld, þad er, Eg vil koma af stad Ofride fyrer Evangelium, og etc., og eg villde þad være allareidu skied, Enn eg hlyt þo oadur ad kosta mijnu Lijfe þar til og mig langar þar epter.

50. Enn eg hlyt oadur med Skijrn ad skijrast, Og hvorsu eg þreyngiunst þangad til hun fullkomnast.

51. Meined þier ad eg kiæme ad senda Frid a Jordu? Eg seige, Nei, helldur sundurþyckiu.

52. Þviad hiedan j fra munu fimm verda j einu Hwsi sundurþycker, þrijr j mote tveimur, og tveir j mote þremur.

53. Faderenn mun verda j mote Synenum, og Sonurenn j mote Fødurnum, og Moodurenn j moote Dotturenne, Og Dotturenn j moote Modurenne, og Moder Mannsins j moote Sonarkonunne, og Sonarkonann j moote Modur Mannsins.

54. Enn hann sagde til Folksins, Hvønær þier (c) siaed Sky upganga j Vestre, þa seiged þier jafnskiott ad Regn kome, og þad skier so.

(c) Þier kunned ad sia hvørnenn til geingur um Skiepnurnar, Þvi siaed þier ecke lijka hvad sialfa ydur vantar?

55. Og nær þier siaed Sunnannvind blasa, þa seiged þier Hita verda, og þad skier.

56. Þier Hræsnarar, Asynd Himens og Jardar kunned þier ad profa.

57. Enn þvi profed þier ei þennann tijma? Eda fyrer þvi dæmed þier ei a sialfum ydur, hvad riettvijst er?

58. Enn nær þu geingur med þijnum Søkudolg fyrer Høfdingiann, þa kosta kapps a Veigenum ad þu losir þig fra hønum, ad eige dræge hann þig fyrer Domarann, og Domarenn selie þig Ressaranum, og Ressarenn kaste þier so j Dyblitsu.

59. Eg seige þier, þad eige muntu komast ut þadann, þar til þu borgar, eirnenn hinn sijdarsta Skarf.

## XIII. Capitule.

JEsus (I) bijdur ad giøra Apturhvarf: (II) Læknar eina Konu: (III) Talar um þad Þraungva Hlided: (IV) Spaaer um Jerusalems Foreydslu.

I. Enn j þann sama tijma voru þar nockrer vid er kunngiordu hønum fra þeim j Galilea, hvorra Blode Pilatus hafde blandad vid þeirra Forner.

2. JEsus svarade og sagde til þeirra,

Meined þier ad þesser Galilei være fyrer øllum Galileis Synduger þott þeir þyldu þetta?

3. Eg seige, Nei, Helldur ef þier giored eige jdran, þa (a) Fyrerfareſt þier lijka aller eins.

(a) (Fyrerfareſt) Gydingar meintu, ad þegar nockrum gieck vel j þessu ſtundlega Lijfe, þa være ſa hinn same Gude þacknæmelegur, Og þar þvert a moote, þegar nockrum geinge jlla, þa være ſa eirn Syndare.

4. Eda meined þier, ad þeir ꝏtian, a hvøria Turnenn j Silo hrapade og drap, hafe ſakader vered framar øllum Mønnum er byggia til Jeruſalem?

5. Eg ſeige ydur, Nei, Helldur ef þier giored eige Jdran, munud þier eirnenn aller ſo fyrerfaraſt.

6. Og hann ſagde þeim þeſſa Epterlijking, Þar hafde eirn eitt Fijkintrie plantad j ſijnum Vijngarde, Hann kom og leitade Avaxtar a þvi og fann eige.

7. Þa ſagde hann til Vijngardsmannſins, Sia, Nu j þriu ꝏr hef eg ꝏrlega komid og leitad Avaxtar af þeſſu Fijkintrie, og funded eige, høgg þad þvi af, Hvar til hindrar þad Gardlended?

8. Enn hann ſvarade og ſagde til hans, Herra, loſa þvi ad ſtanda þetta ꝏred, þar til eg gref um þad, og læt ad myke.

9. Ef þad villde ſo Avøxt færa, enn ef eige, þa høgg þad eptera af.

II. 10. Og hann kiende j einu af Samkundu Hvøſunum a Sabbathsdeige.

11. Og ſiaed, Ad þar var ein Kona er hafde Krankleiks Anda j ꝏtian ꝏr, og hun var biug, og Ølldungis ecke gat hun uppliteð.

12. Enn er JEſus leit hana, kallade hann hana til ſijn og ſagde til hennar, Þu Kona vert laus af Krankdæme þijnu.

13. Og lagde Hendur yfer hana. Og jafnſkiott reiſte hun ſig upp og dyrdkade Gud.

14. Þa ſvarade Yfermadurenn Samkunduhuſſins, og þyckteſt vid, þad JEſus lækn̄ade a Sabbathsdeige, og ſagde til Lydſins, Sex Dagar eru þeir a hvøriū̄ hæfer ad vinna, Komed þier a þeim ad lꝏta lækna ydur, enn eige a Sabbathsdeige.

15. DRottenn ſvarade hønum og ſagde, Þu Hræſnare, Leyſer eige hvør ydar eirn a Sabbathsdeige Naut ſitt og Aſna fra Stalle-num, og leider til Vatns?

16. Enn ſkyllde þeſſe eige leyſaſt a Sabbathsdeige, ſem þo er Abrahams Dotter, af þvi Bande er Andſkotenn hefur hana fiatrad J ꝏtian ꝏr?

17. Og er hann ſagde þetta, ſkømmuduſt ſijn aller hans Motmælendur, og allt Folked gladdeſt, yfer þeim øllum Dyrdarverkum er af hønum giørduſt.

18. Og hann ſagde, Hvøriū̄ er Guds Rijke lijkt, og hvøriu ſkal eg þvi ſamiafna?

19. Lijkt er þad Muſtards Korne, hvørt Madur tok og varpade j Grasgard ſinn, þad ſpratt upp og vard miked Trie, og Fuglar Himens biuggu under þeſs Kviſtum.

20. Og enn ſagde hann, Hvøriu ſkal eg ſamlijkia Guds Rijke?

21. Lijkt er þad Sÿrdeige þvi er Kona tok og falde þad medal þriggia Mælera Miøls, þar til ad þad ſyrdeſt allt.

22. Og hann gieck j giegnum Borger og Kauptun, og kiende og giørde ſijna reiſu til Jeruſalem.

III. 23. Enn þar ſagde nockur til hans, Herra, meinar þu eige ad þeir ſieu Foaer ſem hialpaſt? enn hann ſagde til þeirra.

24. Keppeſt epter jnn ad ganga um hid þraungva Hlided, þviad marger (þad ſeige eg ydur) munu (b) ſækia til þar jnn ad ganga, og fa ei gietad.

(b) (Sækia) Þad eru þeir ſem an Truarennar kappkoſta med Verkunum ad komaſt j Himenenn.

25. Fra þvi er Husbondenn er uppſtadenn, og hefur Dyrnar apturlucktar, þa munu þier taka til þar fyrer utann ad ſtanda, og a Dyrnar ad knya, ſo ſeigiande, Herra, Herra, luktu upp fyrer oſs, Hann mun ſvara og ſeigia, til ydar, Eige þecke eg ydur, hvadann þier erud.

26. Pa munud þier hefia upp ad seigia, Vær hofum etid hia þier, og druckid, og a Strætum vorum kiender þu.
27. Enn hann mun seigia, eg seige ydur, þad ei þecke eg ydur, hvadann þier erud, Fared fra mier aller, þier illgiordamenn.
28. Par mun vera Op og Tannagnystran. Nær þier siaed Abraham, Isaac og Jacob og alla Spaamenn j Guds Rijke, ad þier erud utrekner.
29. Og þeir ur Austre og Vestre, Nordre og Sudre, munu koma, og til Bords sitia j Guds Rijke.
30. Og siaed, Par eru þeir sijdarster sem verda munu fyrster, og þeir ed eru fyrster, munu verda sijdarster.
IV. 31. A ' eim sama Deige geingu nocker af Phariseis inn, og sogdu honum, Vijk þu burt og gack hiedann, þviad Herodes vill aflijfa þig.
32. Hann sagde til þeirra, Fared þier og seiged þeim Ref, Siaed, Ad eg rek ut Dioffla, og Lækna j Dag og a morgun, enn a þridia Deige mun eg taka enda.
33. Po (c) mun eg ganga j Dag og a morgun, og Dagenn þar epter, Þviad þad fær eige skied, ad nockur Spaamadur farest utann j Jerusalem.

(c) (Þo) Eg fly ecke vegna Herodis, helldur hlyt eg ad fara wt og frammfilgia mijnu Embætte.

34. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spaamennena, og gryter þa Steinum er til þijn verda sender, Hvorsu opt hef eg viliad samansafna Bornum þijnum, lijka sem Hæna sijnum Ungum under Vænge sier, og þier hafed eige viliad?
35. Siaed, Ydvart Hws skal ydur þvi eyde loated verda, þvi eg seige ydur, þad eige munud þier mig sia þar til þad kiemur er þier munud seigia, Lofadur sie sa sem kiemur j Nafne DRottins!

## XIV. Capitule.

JEsus (I) Læknar einn Vatns-Siukann: (II) aaminner til Lijtelætes: (III) Predikar og talar um Utskufun Gydinganna, og ad Heidingiar ættu adfaa Vidtoku i þeirra Stad: (IV) um Krossenn.

Gudsp. XVII. Sunnud. epter Trinit.

I. Og þad skiede ad hann kom a Sabbathsdeige jnn j Hwos nockurs þess sem var Yferbodare Phriseorum, Brauds ad neyta, og þeir hofdu Vord a honum.
2. Og sia ad madur nockur, sa Vatnssott hafde, var þar framme fyrer honum.
3. Og JEsus ansade og sagde til Logspekinga, og Phariseanna, so seigande, Er þad nockud rett, ad lækna a Sabbathsdogum? Enn þeir þogdu vid.
4. Hann tok þa a honum, og læknade hann, og liet burtfara.
5. Svarade og sagde til þeirra, hvor er a medal ydar, hvors Uxe edur Asne sem fellur i Brunn, ad hann ei jafnsnart drage hann upp a Sabbathsdeige?
6. Og þeir gaatu honum ongvu þar til svarad.
II. 7. Enn eina Epterlijking sagde hann til Bodsmannanna, þa hann formerkte hvornenn þeir wtvoldu efst ad sitia, og hann sagde til þeirra.
8. Nær þu verdur bodenn af nockrum til Brudkaups, þa set þig eige efst, kann skie ad einn Heidarlegre enn þu sie bodenn af honum.
9. Og kome sa sem þier baud og honum, og seige til þijn, Gief þessum Rwm, og hlioter þu þa med Kinnroda ad hallda hinn ytsta Sess.
10. Helldur nær þu verdur bodenn, þa far og set þig Nedst, so ad nær Sa kiemur er þier baud, seige hann til þijn, Vinur, Poka þier upp betur, Og so mun þier veitast Heidur fyrer þijnum Sessunautum.
11. Þviad hvor sig sialfur upphefur, hann mun nidurlægiast, og hvor sig sialfur nidurlæckar, hann skal upphefiast.]
12. Hann sagde til hans, er honum hafde bodid. Nær þu helldur Middags verd eda Kvolldmaaltijd, þa skalltu eige bioda Vinum þijnum nie Brædrum, eige Frændum þijnum nie Nagronnum þeim sem Rijker eru, ad eige biode þeir þier heim til sijn aptur einhvorn Tijma, og sie þier þa endurgollded.

13. Helldur nær þu giorer Heimbod, þa biod Fatækum, Vonudum, Holltum og Blindum.

14. Pa ertu sæll, þviad þeir hafa ei til þier aptur ad luka, enn þad mun þier endurgollded verda j Upprisu Riettlaatra.

15. Enn er þetta heyrde eirn af þeim er til Bordsins sat, sagde hann til hans, sæll er sa Madur sem etur Braud j Guds Rijke.

Gudsp. II. Sunnud. epter Trinit.

III. 16. Enn hann sagde til hans, nockur Madur var sa er giorde mikla Kvølldmaaltijd, og baud morgum til hennar.

17. Og sende ut sin Pion um Kvølldmaalstijmann, ad hann segde Bodsmonnunum, komed, þviad allt er nu reidubued.

18. Enn þeir toku þa aller til, hvor epter annann, ad afsaka sig. Hinn firste sagde til hans, Akur keypte eg, og mun eg fara ut ad sia hann, eg bid þig, afsaka mig.

19. Og annar sagde, fimm Pør Akneyta keipte eg, og fer eg nu ut ad skoda þau, eg bid þig afsaka mig.

20. Hinn þridie sagde, Konu hefe eg mier festa, fyrer þvi kann eg eige koma.

21. Og Pionustumadurenn kom, og undervijsade þad sijnum Herra aptur. Pa vard Husbondenn reidur, og sagde til sijns Pions, far snarlega ut a Stræte og Gotur Borgarennar, og leid Volada, Vanada, Hallta og Blinda hingad jnn.

22. Og Pionenn sagde, Herra, þad er giort hvad þu skipader, og þo er enn nu Rwm.

23. Og Herrann sagde til Pionsins, far þu ut a Piodbrauter, og um Tungarda, og Naugda þeim hier jnn ad koma so mitt Hws verde fullt.

24. Enn eg seige ydur þad, ad eingenn þeirra Manna sem bodner voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.]

IV. 25. Enn margt Folk gieck med honum, og hann snere sier vid, og sagde til þeirra.

26. Ef nockur kiemur til mijn og hatar eige Fodur sinn og Modur, Konu og Born, Brædur og Systur, og þar til sitt eiged Lijf, hann fær eige minn Læresveirn verid.

27. Og hvor hann eige ber sinn Kross og filger mier epter, sa gietur eige minn Læresveirn verid.

28. Pvi hvor er sa a medal ydar sem Turn vill uppbyggia, og situr eige aadur og samannreiknar Kostnadenn? Hvort hann hefur ad fullkomna þad med.

29. So ad ef hann leggur Grundvollenn, og gietur ei fullkomnad, þa skulu ecke aller, þeir sem þad sia, taka ad dæara hann.

30. Og seigia, þesse Madur tok ad byggia, og gietur eige vidlokid.

31. Eda hvor Kongur geingur ut ad hallda Orustu giegn ødrum Konunge, situr hann eige aadur og huxar um med sier, hvort hann gietur med tiu Pusunder mætt honum, er med tuttugu Pusunder kiemur mote honum?

32. Enn ef ei, þa sender hann Bodskap ut, þa þegar hinn er þo fiarlægur, og bidur Fridar.

33. So og lijka sier hvor ydar sem eige (a) afsciger ollu þvi hann aa, fær eige minn Læresveirn verid.

(a) (Afseiger) Fyrer Guds Dome kann eingenn adstandast, utan hann mistreyste ollu sijnu Megne, og leite Naadar, og bidie um Hialp j Christo.

34. Salltid er gott, enn ef Salltid dofnar, med hvoriu krydded þier þa?

35. Pviad þad er þa hvorke a Tun-Jord nie tadhauga þarflegt, helldur verdur þvi utvarpad. Hvor Eyru hefur ad heyra, hann heyre.

# XV. Capitule.

Miskunseme JEsu vid Stor-Syndara er sett fyrer Sioner i Premur Epterlijkingum, teknum (I) af Saud eins Manns; (II) af Pening einnar Konu; (III) Af Syne Fodursins.

Gudsp. III. Sunnud. epter Trinit.

I. Enn aller Tollheimtumenn og Bersyndugar naalægdust hann, ad heyra honum.

2. Og Pharisei og Skriftlærder mogludu, og sogdu, þesse medtekur Synduga, og etur med þeim.

3. Enn

3. Enn hann sagde þessa Epterlijking til
þeirra, og sagde.
4. Hvør er sa medal ydar, sem hefur hun-
drad Saude, og ef hann tijner einum af þeim,
ad hañ loate ei epter þa niju og nijutijge j Eyde-
mørku, og fer epter þeim er tijndest, þangad
til hann finnur hann?
5. Og nær hann hefur funded, leggur
hann hann upp med fagnade sier a Herdar.
6. Og er hann kiemur heim, kallar hann
samann sijna Vine og Nagranna, og seiger
til þeirra, gledjest med mier, þviad eg hefe
minn Saud aptur fundid, sem tapadur var.
7. Eg seige ydur, ad lijka so mun Fognudur
vera a Himnum yfer einum Syndugum, þeim
er Jdran giører, meir eñ yfer þeim niju og niju-
tijge Riettloatum, er eige þurfa yferbotar vid.
II. 8. Eda hvør er su Kona sem hefur tiju
Peninga, og ef hun tijner einum þeirra, Kvei-
ker hun eige Lios, og sopar Hwsid og leitar
vandlega, þar til hun finnur hann?
9. Og nær hun hefur funded hann, saman-
kallar hun Vinkonur sijnar og Grannkonur,
og seiger, samglediest med mier, þviad eg he-
fe minn Pening aptur funded, hvørium eg haf-
de tijnt.
10. Lijka so seige eg ydur, ad Fognudur mun
vera fyrer Einglum Guds, yfer einum Syndu-
gum sem Jdran giører.]
III. 11. Og hann sagde, nockur Madur haf-
de tvo Syne.
12. Og hinn yngre af þeim sagde til Fødur-
sins, gief mier, Fader, þa deilld af Gotsenu
sem mier ber, og hann skipte med þeim Gotsenu.
13. Og skømmu þar epter, þa dro hinn yngre
Sonurenn allt til samans og reiste langt burt
ur Landenu, og fortærdi þar sijnu Gotse j
eydslulegum Lifnade.
14. Og þa hann hafde nu øllu sooad þvi
hann oatte, giordest mikel Dyrtijd j øllu þvi
sama Lande. So hann tok ad skorta.
15. Hann for og hiellt til hia einum Bor-
gara þar j Landenu, hann sende hann ut a sinn
Akur, ad hann giætte Svijna.
16. Og hann gyrntest ad sedia sinn Maga
af Drafe þvi er Svijnenn oatu, og eingenn gaf
hønum þad.
17. Þa þeinkte hann med sier, og sagde,
hvad marga Daglaunamenn hefur minn Fa-
der? þeir ed hafa nægd a Braude, enn eg ferst
j Hungre.
18. Þvi skal eg uppstanda og fara til Fo-
durs mijns, og seigia til hans, Fader, eg synd-
gade j Himenenn og fyrer þier.
19. Þvi er eg ei framarmeir verdugur ad
kallast þinn Sonur, giør mig þvi sem eirn af
þijnum Daglaunamønnum.
20. Hann reis upp, og kom til Fødur sijns.
Og er hann var enn langt j burt þadann, leit
hañ Fader hans, og soa aumur a hønum,
hliop ad, og fiell um Hoals hønum, og kysste
hann.
21. Enn Sonurenn sagde til hans, Fader,
eg syndgade j Himenenn, og fyrer þier, og þvi
em eg nu ei verdugur ad kallast þinn Sonur.
22. Enn Faderenn sagde til Þiona sinna,
bered hingad hinn besta Klædnad, og færed
hann j, og giefed Hring a hans Hønd, og
Skoo a hans Fætur.
23. Sæked alenn Koalf og sloatred, og
neytum og verum koater.
24. Þviad þesse minn Sonur var daudur,
og er endurlifnadur, hann tijndest, og er nu
fundenn. Og þeir toku ad glediast.
25. Enn hinn elldre Sonur hans var a
Akre, og er hann kom og nalægdest Hwsid,
heyrde hann Kvedskap, og Danslæte.
26. Og kallade eirn af Þionustumønnu-
num til sijn, og spurde hvad þetta være.
27. Sa sagde, Broder þinn er komenn,
og sloatrade Fader þinn øldum Kalfe, þad
hann fieck hann heilann aptur.
28. Enn hann reiddest vid, og villde eige
innganga, þa gieck Fader hans ut og baud
hønum.
29. Enn hann svarade og sagde til Fødur
sijns, sia, so mørg Aar þiona eg þier? og he-
fe alldrei enn yfertroded þijn Bodord, og þu

gafſt mier enn alldrei Kid, ſo ad eg mætti med mijnum Vinum gladur vera.

30. Enn nu þeſſe þinn Sonur er komenn, hvør ed hafde ſvælt ſijnu Gotſe medur Hoorum, þa ſlꜳtrader þu hønum alenn Kꜳlf.

31. Enn hann ſagde hønum, Son minn, þu ert jafnann hia mier, og allt hvad mitt er, þa er þitt.

32. Þvi ætter þu nu ad vera kꜳtur, og fagna, þvi þeſſe þinn Broder var daudur og endurlifnade, hann tijndeſt og er aptur fundenn.

## XVI. Capitule.

JEſus talar (I) um Reikningſkapar-dag; (II) Um þa Radarfullu Rettlæting; (III) Um Helvijtes Kvaler.

Gudſpialled IX. Sunnud. ept. Trinit.

I. Enn hann ſagde til ſinna Læreſveina, Audugur Madur nockur var ſa, ſem ſier hafde Rꜳdsmann, og ſa vard rægdur vid hann, ad hann hefde fargad hans Gotſe.

2. Og þann kallade hann til ſijn, og ſagde til hans, þvi heyre eg þetta um þig? Giør Reikningsſkap þinnar Rꜳdsmenſku, þviad þu mꜳtt eige hiedanaf Rꜳdsmenſku hafa.

3. Enn Rꜳdsmadurenn ſagde med ſialfum ſier, hvad ſkal eg tilgiøra, med þvi minn Herra ſvipter mig Embættenu? eg get ei grafed, enn eg ſkanmaſt mijn ad bidia.

4. Eg veit vel hvad eg ſkal giøra, nær eg verd Embættenu affettur, ſo þad þeir medtake mig j ſijn Hws.

5. Og hann kallade til ſijn alla Skulldamenn ſijns Herra, og ſagde til hins firſta, hvørſu mikid ertu ſkylldugur mijnum Herra?

6. Hann ſagde, hundrad Tunnur Vidſmiørs. Hann ſagde þa til hans, tak þitt Brief, ſet þig og ſkrifa ſtrax fimmtijger.

7. Epter þad ſagde hann til hins annars enn ertu mikid ſkylldugur? ſa ſagde, hundrad Mælera Hveites. Þa ſagde hann til hans, tak þitt Brief og ſkrifa ꜳttatijge.

8. Og Herrann lofade þann Rꜳnglꜳta Rꜳdsmann, þad hann hafde ſo forſialega giørt, þviad Børn þeſſarar Verallдar eru kiænare Børnum Lioſſins j ſinne Kinſlod.

9. Og eg ſeige ydur, giørid ydur Vine af hinum Rꜳnglꜳta (a) Mammon, ſo nær þier vid þurfed, ad þeir medtake ydur i eylijfar Tialldbwder.]

(a) Mammon er Hebreſka, og er ſo miked ſem Rijkedæme. (Ranglꜳta) hann kallar Mammon Ranglatann, af Þvi ranglega verdur med hann fared. Hann er og annarlegur, Þvi hann ſtadnæmeſt ecke hia yſs ſo ſem Þad andlega Gotſed; Þad er varanlegt, og eign vor ad eylijfu. Ad vera Trwr j Mammon, er ad fara med hann epter Guds Vilia, vorum Naunga til Gagns og Nytſemdar. Hvør Þad ecke giører, hann er mik.u ſijdur trwr j Þvi Aadlega, ja, hann ſkal hvørugt hafa af Þeim.

10. Hvør trwr er j minnſtu, ſa er trwr j miklu, og hvør Rꜳngſnuenn er j þvi minnſta, hann er rꜳngſnuenn j miklu.

11. Þviad ef þier erud eige trwer j hinum Rꜳngferduga Mammon, hvør vill trua ydur þa til þeſs ſem Sannarlegt er?

12. Og ef þier erud ei trwer j annarlegu, hvør mun giefa ydur þa hvad ydart er?

13. Eingenn Heimelis Þion gietur tveimur Herrum ſenn þionad, utann hann annadhvørt hate þann eina, og elſke hinn annann, eda þydeſt þann eina og forſmꜳe hinn annann, þier gietid ege GUd þionad og Mammon.

II. 14. Enn þeir Phariſei heyrdu allt þetta, ſem Agiarner vøru, og dꜳrudu hann.

15. Þa ſagde hann til þeirra, þier erud þeir ſem ydur Riettlæted ſialfer fyrer Mønnunum, enn GUd þecker Hiortu ydar, þviad hvad hꜳtt er hia Mønnunum, þad er ſvivirdelegt fyrer GUde.

16. Logmꜳled og Prophetarner Spꜳdu allt til Johannem, enn uppfra þeim Tijma predikaſt GUds Rijke fyrer Evangelium, og ſier hvør Madur þreynger ſier þar jnn med Magt.

17. Enn liettfelldara er ad Himen og Jord forgange, enn eirn Titill af Logmꜳlenu falle.

18. Hvør ſijna eigenn Konu forlætur, og gipteſt annare, ſa drijger Hoor, og hvør ed gypteſt þeirre er fra Manne er ſkilenn, hann drijger og ſo Hoor.

Gud,

Gudspialled I. Sunnud. epter Trinit.

III. 19. Nockur Mann Rijkur var þar, sa ed klæddest med Purpura, og kostulegum Lijnklædum, og lifde hvorndag kostulega og j Glede.

20. Enn þar var eirn Fatækur madur, sem Lazarus var ad Nafne, hvør ed ute laa fyrer hans Dyrum fullur Kauna.

21. Og hann gyrntist ad sedia sig af þeim Mølum sem fiellu af Bordum hins Rijka. Þar komu og Hundar og sleiktu hans Saar.

22. Enn so vard, ad hinn Volade do, og var borenn af Einglum j Skaut Abrahams, Hinn Rijke do lijka, og vard jardadur.

23. Og sem hann var nu j Helvijte og Kvølunum, þa hof hann upp sijn Augu og leit Abraham langt burt, og Lazarum j hans Skaute.

24. Þa hropade hann og sagde, Fader Abraham, Miskuna mier og send Lazarum, ad hann drepe hinu fremsta sijns Fingurs j Vatn, og kiæle Tungu mijna, þviad eg kvelst þunglega j þessum Loga.

25. Enn Abraham sagde, Hugleid þu Sonur, ad þu medtokst þinn goda j Lijfstijd þinne, og Lazarus þar j mot medtok hid Vonda. Enn nu verdur hann huggadur, enn þu pijndur.

26. Og frammyfer allt þetta, er j mille vor og ydar miked Diup stadfest, so ad þeir sem vilia hiedann fara nidur til ydar, gieta þad ei, og þeir eige þadann fra ydur upp hingad til vor fared.

27. Þa sagde hann, þa bid eg þig Fader, ad þu sender hann j mijns Fødurs hws.

28. Þviad eg hefe fimm Brædur, ad hann kunne ad vitna fyrer þeim, so ad eige kome þeir og so j þennann Kvalastad.

29. Abraham sagde til hans, (b) þeir hafa Moysen og Spaamennena, heyre þeir þeim.

(b) (Hafa) Hier er Fyrerboded ad trua Þeim Frammlidnu, og ødru Þvilijku sem øpenberast.

30. Enn hann sagde, Nei, Abraham Fader, helldur ef eirn Frammlidenna fære til þeirra, þa munde þeir betra sig.

31. Hann sagde hønum, Ef þeir heyra ei Moysi og Spaamønnunum, þa munu þeir og eige helldur trua þo nockur af Dauda upp rijse.]

# XVII. Capitule.

JEsus talar (I) um Hneixle og Fyrergefning: (II) um Tiju Lijkþraa Menn: (III) um Guds Rijke.

I. Og hann sagde til sinna Læresveina, Omøgulegt er ad þar skyllde eige koma Hneixlaner. Enn Vei þeim fyrer hvorn þær koma.

2. Þarfara være hønum ad Kvarnarsteirn heingdest um Hcals hønum, og være hønum j Sio kastad, enn þad hann hneixle einn af þessum Smælingium.

3. Vakted ydur, Ef Brodur þinn brytur vid þig þa aatel hann, og ef hann Jdrast, þa fyrergief hønum þad.

4. Og þo hann briote siøsinnum a deige vid þig, og kiæme siøsinnum aptur a Deige til þijn, og segde, Þad jdrar mig, þa skalltu fyrergiefa hønum þad.

5. Og Postularner søgdu til DRottins, Auk þu oss Truna.

6. En DRottenn sagde, Ef þier hefdud Tru sem annad Mustards Korn, og segdud þessu Morberia Trie, Vppræt þig og rootset þig j Sionum, þa skyllde þad ydur hlyda.

7. Hvør er a medal ydar sem hefur eirn Þion, er plæger, edur Fienad hirder, nær ed hann kiemur heim af Akre, ad hann seige hønum þa, far strax og set þig til Bords! Er þad eige so?

8. Ad hann seige til hans; Bw til þad eg skal neyta j Kvølld, og stytt þig upp, og þiona mier, þar til ad eg hefe etid og druckid, og eptera þa skalltu eta og drecka.

9. Þackar hann nockud þeim Þion, þo (a) hann giøre hvad hønum var bodid? Eg meina Nei.

(a) (Hann giøre) Christur talar hier hid allra einfalldlegasta, um Þau ytre Verkenn, epter Mannlegum plagsid, þvi annars ad seigia, Þa kann eingenn ad giøra so miked sem hann er skylldugur fyrer Gude, hvør ad Verkenn lætur sier ecke nægia.

10. So og þier lijka, nær þier hafed allt
þad giort, hvad ydur var boded, þa seiged,
Onyter Þionar erum vier, þvi hvad vær
ættum med Skylldu ad giora þad giordum
vier.

Gudspialled XIV. Sunnud. epter Trinit.

II. 11. Þad skiede og, þa hann for til Jerusa-
lem, ad hann ferdadest midt j gieg-
num Samariam og Galileam.

12. Og er hann kom j nockurt Kauptun,
mættu honum tiju Lijkþrœaer menn, hvorier ed
stodu langt fra.

13. Hoofu upp sijna Raust og sogdu,
JEsu, kiære Meistare, miskuna þu oss!

14. Og er hann sa þa, sagde hann til þeir-
ra, fared þier og * og syned ydur Prestunum,
og þad skiede þa er þeir geingu þadann, ad þeir
urdu hreiner. * 3 B. Mos. 14, 3.

15. Enn eirn af þeim, nær hann sa þad
hann var heilbrigdur ordenn, snere hann aptur,
og lofade GUd med hæarre Raust.

16. Fiell framm a sijna Asionu fyrer Fætur
honum og þackade honum, og þesse var Sam-
verskur.

17. Enn JEsus svarade og sagde, eru
þier ei tiju hreinsader? enn hvar eru þeir niju?

18. Fundust ongver adrer þeir aptur sneru,
og giæfe GUde Dyrdena, nema þesse Utlen-
dingur?

19. Og hann sagde til hans, statt upp og
far hiedann, þijn Tru giorde þig holpinn.]

III. 20. Enn er hann var adspurdur af Pha-
riseis, hvonær ad GUds Rijke kiæme, svara-
de hann þeim og sagde, GUds Rijke kiemur
ei med (b) ytre Hegdan, sem Menn kunna ad
taka vakt uppa.

(b) (Ytre) Þad er, Guds Rijke er ecke komed j ytra
Priale edur Prackt, so sem þesse Jardnesk Rijke,
helldur j Trunne og Kiærleikanum.

21. Þar mun og eige seigiast, sia, hier e-
da þar er þad, þvi siaed, ad GUds Rijke er
hid jnnra j ydur.

22. Þa sagde hann til Læresveinanna, þær
Stunder koma, þad þier munud gyrnast ad sia
eirn Dag Mannsins Sonar, og munud hann
eige sia.

23. Og þeir munu seigia til ydar, sia hier,
sia þar, ganged ei þangad, og eige helldur filged.

24. Þviad so sem Ellding af Himne ofan
leiptrar, og lyser yfer allt þad sem er under
Himnenum, lijka so mun Mannsins Sonur
vera a sijnum Deige.

25. Enn honum byriar first margt ad þola,
og utskvofadur verda af þessare Kinslod.

26. Og so sem þad skiede i Tijd Noa, lijka
so mun skie a Dogum Mannsins Sonar.

27. Þeir ætu og drucku, * þeir Kvongu-
dust og lietu sig gipta, allt til þess Dags er
Noe gieck j Orkena, og Flodid kom, og tor-
tijnde þeim ollum. * 1 B. Mos. 6, 2.

28. Eirnenn, lijka so sem þad skiede j Tijd
Loths, * þeir ætu og drucku, þeir keyptu og
selldu, þeir plontudu og uppbygdu.
* 1 B. Mos. 19, 14. 15. 16.

29. Enn a þeim Dogum er Loth for ut af
Sodoma, rignde ofann Ellde og Brennestei-
ne af Himne, og fyrerfor þeim ollum.

30. Epter slijkum hætte mun þad tilganga
a þeim Dogum, er Mannsins Sonur mun
openberast.

31. Hvor hann verdur a þeim sama Deige
a Ræfre staddur, og sie hans Bwsgagn j Hu-
sinu, þa stige hann eige ofann þad ad sækia.
So og eirnenn, sa hann er a Akre, þa snue
hann ei aptur, epter þvi sem a bake honum er.

32. Minnest þier a Konu * Loths.
* 1 B Mos. 19, 26.

33. Hvor hellst sem sæker epter sijna Ond
ad forvara, sa misser hana, og hvor hellst hann
misser hana, sa hialpar henne til Lijfsins.

34. Eg seige ydur, a þeirre Nott munu
tveir liggia a eirne Sæng, mun eirn medte-
kenn, og annar forlætinn.

35. Og tvær munu mala til samans, mun
ein medtekenn og onnur forlæatenn.

36. Þeir svorudu og sogdu til hans, hvar
þa Herra?

37. Enn hann sagde til þeirra, hvar hellst
ad Hræed er, þangad safnast og Erner.

# XVIII. Capitule.

JEsus (I) talar um Bænena: (II) Aminner til Audmyktar: (III) Upfræder Hina Rijku: (IV) Talar um sinn Dauda: (V) Giører einn Blindann Siꜳande.

I. Enn hann sagde eina Epterlijking til þeirra þar uppa, ad Menn skylldu jafnann bidia og ei aflꜳta.

2. Og sagde, sa Domare var j nockre Borg, sem eige ottadest Gud, og eige skeytte um neinn Mann.

3. Enn Eckia nockur var þar j somu Borg, og hun kom til hans og sagde, Hialpa mier fra mijnum Motstodumanne.

4. Og leinge vilde hann ei. Enn eptera þeinkte hann med sialfum sier, Þo eg ottest ei Gud, nie skeyte um øngvann Mann.

5. Þo fyrer þad, ad þesse Eckia giører mier Onꜳd so mikla, þa vil eg hialpa henne, so ad hun kome ei ad sijdurstu, og (a) Naude a mier.

(a) (Naude) Þad er, ad hun skule ecke plꜳga og þvinga mig, so sem Menn plaga ad seigia um þann sem er Þrabænenn og bidur jarganlega, Su Manneskia plꜳgar mig riettelega.

6. Þa sagde DRottenn, Heyred hier hvad sa Rꜳnglꜳte Domare seiger.

7. Skyllde Gud ei giøra Frelsan sinna Utvaldra, þeirra sem Nott og Dag til hans kalla? Enn þo hann hafe Þolinnmæde þar yfer?

8. Enn eg seige ydur, þad hann mun brꜳdlega giøra þeirra Frelsan. Enn þo, nær Mannsins Sonur mun koma, meinar þu ad hann mune Tru finna a Jørdu?

Gudspialled XI. Sunnud. epter Trinitat.

II. 9. Enn hann sagde til nockra þeirra sem treystu uppa sialfa sig, ad þeir være Riettlꜳter, og forsmꜳdu adra, soddann Epterlijking.

10. Tveir Menn geingu upp j Mustered ad bidiast fyrer, eirn var Phariseus, enn annar Tollheimtumadur.

11. Pharisearenn stod og badst þannen fyrer med sialfum sier, Gud, Eg þacka þier, ad eg em eige so sem adrer Menn, Ræningiar, Oriettferduger, Hordomsmenn, eda so sem þesse Tollheimtumadur.

12. Eg fasta tvisvar j Viku, og gief Tijunder af øllu þvi eg ꜳ.

13. Og Tollheimtumadurenn stod langt j fra, og villde eige upphefia sijn Augu til Himens, helldur barde hann a sitt Briost, og sagde, Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur.

14. Eg seige ydur, ad þesse for Riettlꜳtur framar hinum (b) ødrum nidur j sitt hwos. Þvi hvør sig sialfann upphefur, hann mun nidurþrickiast, og hvør sialfum sier nidurþricker, hann mun upphafenn verda.]

(b) (Framar hinum) Þad er, Sa annar gieck ecke Riettlꜳtur heim, helldur Fordæmdur. Eins Mꜳltæke er, Psal. 118. Þad er gott ad treysta uppa DRottinn, hia þvi, ad treysta uppa Høfdingiana. Eins lijka, Matth. 21. Hoorur og Skalkar munu koma j Himnarijke, fyrre enn þier, Þad er, enn þier ecke.

15. Þeir færdu og til hans Ungbørn, ad hann snerte þaug, Enn er þad sꜳu hans Læresveinar, ꜳvijtudu þeir þa.

16. Enn JEsus kallade þau til sijn og sagde, Leyfed Børnunum til mijn ad koma, og banned þeim þad eige, þviad þvilijkra er Guds Rijke.

17. Sannlega þa seige eg ydur, Hvør hann eige medtekur Guds Rijke sem Ungbarn, hann mun eige jnn ganga i þad.

III. 18. Og eirn af Hofdingiunum spurde hann ad og sagde, Gode Meistare, Hvad skal eg giøra ad eg meige erfa eylijft Lijf?

19. Enn JEsus sagde til hans, Hvad kallar þu mig Godann? Eingenn er godur nema Gud alleina.

20. Bodordenn veitstu? * Eige skalltu Hordom drygia, eige Mann vega, Eige stela, Eige Liugvitne bera, Heidra skalltu þinn Fødur og þijna Modur. * 2 B. Mos. 20, 13. etc.

21. Enn hann sagde, Allt þetta hef eg halldid fra Ungdome mijnum.

22. Þa JEsus heyrde þad, sagde hann til hans, (c) Eitt brestur þig enn, Sel allt hvad

þu hefur, og gief Fatækum, og muntu þa hafa Siod a Himne, og kom og filg mier epter.
(c) (Eitt) Þad er, alltsaman, ut Supra, Matth. 19.

23. Þa hann heyrde þad, vard hann miøg hriggur af þvi hann var miøg audugur.

24. Enn er JEsus sa hann hriggvann ordenn, sagde hann, Hvorsu torvelldt er þeim jnn ad ganga j Guds Rijke, sem Rijkdom hafa.

25. Hægra er Ulballdanum ad ganga j giegnum Nalaraugad, Enn Rijkum Manne ad komast j Guds Rijke.

26. Þa søgdu þeir sem til heyrdu, Hvør fær þa hialpast?

27. En hann sagde, Hvad omøgulegt er fyrer Mønnum, þad er møgulegt fyrer Gude.

28 Þa sagde Petur, siadu, Vær forlietum allt og filgdum þier epter.

29 Enn hann sagde til þeirra, sannlega seige eg ydur, eingenn er sa hvør sitt Hvs, edur Forelldra, eda Brædur, Konu eda Børn forlætur, vegna Guds Rijkis.

30. Ad hann medtake þad eige margfalldi aptur a þessum tijma, og j ødrum Heime Eylijft Lijf.

IV. 31. Enn hann tok þa tolf til sijn og sagde til þeirra, Siaed, ad vier førum nu upp til Jerusalem, og þad mun allt fullkomnad verda hvad skrifad er, fyrer Spaamennena, af Mannsins Syne.

32. Þviad hann mun framm selldur verda heidingium, og hann mun hleigenn, smadur og spyttur verda.

33. Og þeir munu hann hwdstrykia og aflijfa, Og a hinum þridia Deige mun hann uppaptur rijsa.

34. Enn þeir underst odu eckert þar af, og su Ræda var hulenn fyrer þeim, og eige vissu þeir hvad ed sagt var.

V. 35. Enn þad skiede þa hann tok ad nalgast Jericho, ad nockur mann Blindur sat vid Veigenn og bad Ølmøsu.

36. Enn þa er hann heyrde Folked sem þar frammhia gieck, spurde hann ad, hvad þad være.

37. Þeir søgdu hønum ad JEsus af Nazareth geinge þar hia.

38. Þa kallade hann og sagde, JEsu Sonur Davids, miskuna þu mier!

39. Enn þeir sem undann geingu, høstudu a hann, ad hann þegde. Hann kállade þvi meir, Sonur Davids, miskuna þu mier.

40. Þa stod JEsus kyrr, og baud ad leida hann til sijn, Og er hann var komenn hart nær hønum, spurde hann hann ad.

41. Og sagde, Hvad villtu eg giore þier? hann sagde, Herra, þad eg mætte sia.

42. JEsus sagde til hans, Vert Skygn, þijn Tru giorde þig holpenn.

43. Og jafnsnart fieck hann Synena og filgde hønum og epter, vegsamande Gud, Og allt þad Folk er þetta saa lofade Gud.

## XIX. Capitule.

JEsus (I) kemur til Zachæus: II) Talar um Pund sem Þiennrum voru fengenn: (II) Rijdur jnn j Borgena Jerusalem: (IV) Grætur yfer Jerusalem.

1. Og hann for burt og gieck j giegnum Jericho.

2. Og sia, ad Madur sa er Zacheus var ad Nafne, hvør ed var Foringe Tollheimtumanna, og var audugur.

3. Hann gyrndtest ad sia JEsum hvør hann være, og gat eige fyrer Folkenu, þviad hann var litell vexte.

4. Hann hliop þa framm undann og klifrade upp j nockurt Morberiatrie, so ad hann giæte sied hann, þvi þar aatte hann framm um ad fara.

5. Og sem JEsus kom ad þeim sama stad, leit hann upp, og vard hans var, og sagde til hans, Zachee, stijg þu ned skynde ofan, þviad j Dag skal eg koma j þitt Hvs.

6. Og hann stie skyndelega ofann, og tok vid hønum fagnande.

7. Og er þeir sau þad, mogludu þeir aller, þad hann skyllde herbergia sig hia Bersyndugum Manne.

8. Enn Zacheus gieck framm, og sagde til

DRot=

DRottens, Sia þu Herra, Helftena minna Eigna gief eg Fatækum, og ef eg hef nockurn tældt, þa gief eg ferfalldt aptur.

9. JEsus sagde þa til hans, j Dag þa veitest þessu Hwse Saaluhialp, med þvi ad hann er Abrahams Sonur.

10. Þviad Mannsins Sonur er komenn epter ad leita, og Saaluholped ad giøra þad sem tapad er.

II. 11. Þa þeir nu til heyrdu, sagde hann þeim frammveigis eina Epterlijking, af þvi ad hann var hart nærre Jerusalem, og þad, þeir ætlu- du ad Guds Rijke munde þa strax openbert verda.

12. Og sagde, Nockur Edalborenn madur ferdadest j fiarlægt Land, ad hann aflade sier Rijkis, og kiæme so aptur.

13. Þesse kallade a tiju sijna Þiona, og fieck þeim tiju Pund, og sagde til þeirra, sijsled þar med til þess eg kiem aptur.

14. Enn hans Borgarmenn høtudu hann, og sendu bod epter honum og lietu seigia ho- num, Vær vilium ei þennann rijkia laata yfer oss.

15. Þad skiede og þa hann kom aptur, sem hann hafde Rijked under sig teked, skipade hann ad kalla aa þa somu Þiona, hvorium hann hafde Fied feinged, so ad hann visse hvad miked hvør hafde sijslad.

16. Hinn fyrste kom og sagde, Herra, þitt Pund hefur afrekad tiju Pund.

17. Hann sagde til hans, Eia þu gode Þion, af þvi þu varst trur j minnstu, skalltu Valld hafa yfer tiju Borgum.

18. Hinn annar kom eirnenn, og sagde, Herra þitt Pund hefur samanndreiged fimm Pund.

19 Til hans sagde hann eirnenn, Og þu skallt vera yfer fimm Borgum.

20. Og hinn þridie kom og sagde, Herra sia hier, þar er þitt Pund hvørt eg hefe j Sveitaduke folged.

21. Eg hræddunst þig, þvi þu ert eirn har- dur Madur, tekur þad upp, hvad þu hefur eige nidurlagt, og uppskier þad hvad þu saader eige.

22. Hann sagde til hans, af þijnum Mun- ne þa dæme eg þig, þu Skalkur, Visser þu þad, ad eg er hardur Madur, takande þad hvad eg lagde eige nidur, og uppskierande þad hvad eg saade eige.

23. Hvar fyrer gafstu eige minn Pening a Mangarans Bord? Ad nær eg kiæme, hefde eg þess med Okre krafid.

24. Og hann sagde til þeirra sem þar hia stodu, Taked þad Pund fra hønum og faaed þeim sem tiju Pund hefur.

25. Þeir sogdu honum, Herra, tiju Pund hefur hann.

26. Enn eg seige ydur þad, ad hvør ed he- fur, honum mun giefed verda, enn fra þeim sem eckert hefur mun þad burtnumed verda, hvad hann hefur.

27. Þo þa mijna Ovine sem eige villdu mig rijkia laata yfer sier, leided hingad, og deyded þa hier framme fyrer mier.

28. Og sem hann sagde nu þetta, for hann aafram, og ferdadest upp til Jerusalem.

III. 29. Og þad skiede, þa hann tok ad naal- gast Bethphage og Bethaniam, og kom til Fiallsins Oliveti, ad hann sende vot tvo af sijnum Læresveinum.

30. Og sagde, Farid þid j þad Kauptun hvørt giegnt yckur er, og þa þier komid þar jnn, munud þid finna eirn Fola bundenn, aa hvørium alldrei hefur enn nu nockur Madur setid, leysid hann og leidid hingad.

31. Og ef nockur spyr yckur, þvi leysed þier hann? þa seiged honum so, Herrann þarf hans vid.

32. Enn þeir foru burt sem sender voru, og fundu sem hann hafde sagt þeim.

33. Og er þeir leystu Folann, sogdu hans Drottnar til þeirra, fyrer hvad leysid þier Folann?

34. Þeir sogdu, Herrann þarf hanns vid.

35. Og þeir hofdu hann til JEsum, og kostudu sijnum Klædum a Folann og settu JEsum þar upp aa.

36. Enn er hann for af stad, breiddu þeir sijn Klæde a Veigenn.

37. Og þa hann tok ad nœlgast, og for ofann af Fiallenu, Hoof upp allur flockur hans Læresveina af fagnade, Gud ad lofa med hœrre röddu, yfer øllum þeim Furdu-verkum sem þeir høfdu sied.

38. Og søgdu, Lofädur sie sa sem kiemur einn Kongur j Nafne DRottins, Fridur sie a Himne, og Dyrd a upphædum!

39. Og nockrer af Phariseis, þeir ed voru med Folkenu, søgdu til hans, Meistare, straf-fa þijna Læresveina.

40. Hann svarade og sagde til þeirra, Eg seige ydur þad, ef þesser þegdu, þa mundu Steinarner hlioda.

Gudsp. X. Sunnud. epter Trinitatis.

IV. 41. Og sem hann tok meir ad nalgast, sa hann a Borgena, og griet yfer henne, og sagde.

42. Ef þu visser þad, munder þu a þessum tijma hugleida hvad til þijns Fridar þienade, enn nu er þad dulid fyrer þijnum Augum.

43. Þviad sa tijme mun yfer þig koma, þad þijner Oviner munu um þig Skialdborg setia, og þier umsœt veita, og alla Vegu ad þier þreyngia.

44. Og þeir munu þig eydeleggia, og þijn Børn med þier, og ei munu þeir lœta einn Stein yfer ødrum standa, Af þvi ad þu þeck-ter eige þinn Vitiunartijma.

45. Og hann gieck jnn j Mustered, og tok ut ad reka þa sem selldu og keyptu þar jnne.

46. Og sagde til þeirra, skrifad stendur, * Mitt Hœs er Bœna hœs, enn þier giordud þad ad ** Spillvirkia Bæle. * Esa. 56, 7. ** Jer. 7, 11.

47. Og hvørs daglega kiende hann j Mu-sterenu, Enn Kiennemannahøfdingiar og Skriftlærder, og Villdarmenn Lydsins soktu epter ad fyrerkoma hønum.

48. Og fundu ei hvad þeir skylldu hønum giøra, þviad allt folked var hønum ahangan-de, og heyrde hønum.]

# XX. Capitule.

JEsus talar (I) um einn Vingard: (II) um Skatt: (III) um Upprisuna: (IV) um sijna Personu.

I. 1. Og þad skiede a einum þessara daga, þa hann var ad kienna Folkenu j Mu-sterenu, og ad predika Evangelium. Þa geng-gu til hans Prestahofdingiar og Skriftlærder med Ølldungum.

2. Og toludu til hans og søgdu, Seig oss, af hvørre Magt þu giører þetta? Eda hvør er sa sem þier gaf þa Magt?

3. Þa svarade hann og sagde til þeirra, Eg vil spyria ydur og ad einu Orde, seiged mier þad.

4. Skijrn Johannis var hun af Himne, eda af Mønnum?

5. Enn þeir hugsudu med sialfum sier, og søgdu, Ef vier seigium af Himne, so seiger hann, Fyrer þvi trudud þier henne eige?

6. Enn ef vier seigium af Mønnum, þa mun allur Lydur lemia oss Griote, þviad þeir standa a þvi, ad Johannes er Spœmadur.

7. Og þeir svørudu, ad þeir vissu ei hva-dann hun være.

8. Og JEsus sagde til þeirra, þa seige eg ydur eige helldur af hvørri makt eg giøre þetta.

9. Enn hann tok þa ad seigia til folksins þessa Epterlijking, Nockur mann plantade Vijngard, og bygde hann, Vijngardsmøn-num, og for Utanlands lœngann tijma.

10. Og er tijme var til, sende hann einn Þion til Vijngardsmannanna, ad þeir giæfi hønum Avøxt af Vijngardenum, enn Vijn-gardsmennerner slou hann, og lietu tomhen-dann fra sier fara.

11. Og um þad fram sende hann ut annann Þion, Enn þeir stryktu hann og dœrudu, og lietu erindislausann j burt fra sier fara.

12. Og enn yfer þad framm sende hann ut hinn þridia, hvøru þeir lemstrudu Sœrum og rœku burt sijdann.

13. Þa sagde Herrann Vijngardsins, Hvad skal eg til giøra? Eg vil senda Son minn

minn elskulegann, ma vera, ad þa þeir sia hann
þa feile þeir sier.
14. Enn þa Vijngardsmennernar sau
Sonenn, þeinktu þeir med sialfum sier og sog-
du, Þesse er Erfingenn, komed, aflijfum hann,
so ad vor verde Arfleifdenn.
15. Og þeir hnepptu hann ut af Vijngar-
denum, og lijflietu hann. Hvad mun nu Her-
rann Vijngardsins giora til vid þa?
16. Hann mun koma og tortijna þessum
Vijngardsmonnum, og byggia sinn vijn-
gard odrum. Þa þeir heyrdu þad, sogdu
þeir, fiærre sie þvi.
17. Enn hann horfde á þa og sagde, Hvad
er þa þad, sem stendur skrifad, * þann Stein
hvorn Uppbyggiendur burtkostudu, sa er or-
denn ad hyrningarsteine. *Psal. 118, 22.
Esa. 38, 16.
18. Hvor hann fellur a þennann Stein,
sa mun sundurmeliast, Enn a hvorn hann fel-
lur, þann mun hann kremia.
19. Og Kiennemanna hofdingiar og Skrift-
lærder hofdu j asetninge, hvornenn þeir feinge
Hendur a hann lagt j þad sinn, og ottudust
Folkid, þviad þeir formerktu ad hann hafde
sagt j moti þeim þessa Epterlijking.
II. 20. Þeir hofdu og vardhalld a honum, og
sendu ut toalsmenn, hvorier sier lættu ad
breita, sem være þeir Aldyggver, so ad þeir
giæte veidt hann j Ordum, hvar med þeir
kynne ad afhenda hann Valldenu og Makt
Landstiornarans.
21. Og þeir spurdu hann ad, og sogdu,
Meistare, vær vitum þu seiger og kienner riett,
og ælijtur eige nockurs Manns ælit, Helldur
kienner þu Guds Veg riettelega.
22. Er þad riett ad vier giefum Keisara-
num Skatt eda eige?
23. En hann merkte þeirra flattskap, og
sagde til þeirra, Hvad freisted þier mijn?
24. Syned mier Peningenn, hvors Mind
og Yfirskrift hefur hann? þeir svorudu og
sogdu, Keisarans.
25. Hann sagde þa til þeirra, so giefed
Keisaranum hvad Keisarans er, og GUde
hvad GUds er.
26. Og þeir gatu eige straffad hans Ord
fyrer Folkenu, undrande hans Andsvar, og
þognudu.
III. 27. Þa geingu nockrer af Saduceis til
hans (hvorier hallda ad eingenn Upprisa sie)
og spurdu hann ad.
28. Og sogdu, Meistare, Moyses hefur oss
so fyrerskrifad, *ef ad einhvors Broder anda-
dest, sa er Eigennkonu ætte, og dæe Barn-
laus, þa skal hanns Broder taka hans Konu,
og uppvekia so sijnum Brodur Sæde.
* 5 B. Mos. 25, 5.
29. Nu voru sio Brædur, og hinn firste fieck
sier Eigennkonu, og andadest Barnlaus.
30. Og sa annar fieck hennar og andadest
Barnlaus.
31. Og hinn þridie ætte hana, lijka og
eirnenn aller þeir sio, og lietu ei Born epter og
ondudust.
32. Enn seinast allra andadest og Konann.
33. Hvors þeirra Eigennkona verdur hun
nu j Upprisunne? þviad aller þeir sio hafa ha-
na haft til Eignarkonu.
34. Og JEsus svarade og sagde til þeirra,
Born þessarar Veralldar giptast og læta
gipta sig.
35. Enn þeir sem verduger verda ad odlast
hinn annann heim, og Upprisuna af Daudum,
þeir munu hvorke giptast nie sig gipta læta.
36. Þvi þeir gieta ei sijdann dæed, þvi
þeir eru Einglum lijker, og eru GUds Born,
med þvi þeir eru Upprisunnar Born.
37. Enn þad, ad hiner frammlidnu munu
upprijsa, hefur Moyses audsyndt vid Runnenn,
þa hann kallade, Drottenn, * GUd Abra-
hams, og GUd Isaacs, og GUd Jacobs.
* 2 B. Mos. 3, 6.
38. Enn GUd er eige Daudra, helldur
Lifendra manna GUd, þviad þeir lifa honum
aller.
39. Þa svorudu nockrer af hinum Skrift-
lærdum og sogdu, Meistare, þu hefur riett sagt.

 40. Og

40. Og þeir dirfdust eige framar ad spyria hann nockurs.
IV. 41. Enn hann sagde til þeirra, hvornenn seigia þeir Christ vera Davids Son?
42. Og sialfur David seiger j Psalmabokenne, * Drottenn sagde til mijns Drottens, setst þu til minnar hægre Handar.
* Psalm. 110, 1.
43. Þar til eg legg þijna Ovine til Skarar þinna Fota.
44. David kallar hann Drottenn, hvornenn er hann þa hans Sonur?
45. Enn øllu Folkenu ad heyrande þa sagde hann til sinna Læresveina.
46. Vakted ydur fyrer hinum Skriftlærdu, hvorier ganga vilia j sijdum Klædum, og kiærar hafa Kvediur a Torgum og hin fremstu Sæte j Samkunduhusum, og vid Bord, þeir uppsvelgia Ecknanna Hws, med yfervarpi langs Bænahallds, þeir munu odlast þess þyngre Fyrerdæming.

## XXI. Capitule.

JEsus talar (I) um tvo Skarfa Ecknnar: (II) Um Foreydslu Jerusalems; (III) Um Ender Heimsins.

I. Enn hann leit upp, og sa þa hinu Rijku, hvornenn þeir lietu sitt Offur j GUds Kistuna.
2. Þa sa hann og so eina Eckiu fatæka sem liet þar jnn tvo Skarfa.
3. Og hann sagde, sannlega seige eg ydur, þad þesse fatæka Eckia hefur meira lagt þar jnn enn hiner aller.
4. Þvi þeir hafa aller af sinne yferfliotanlegre eign jnnlagt, til GUds Offurs, enn þesse hefur af sinne fatækt alla sijna Næring þar jnnlagt sem hun hafde.
II. 5. Og er nockrer søgdu um Mustered, ad þad være faagad med fagra Steina og Clenodiur, sagde hann.
6. Sa Tijme mun koma, a hvorium ad allt þetta hvad þier siaed, mun eingenn Steirn yfer ødrum laatenn, ad eige mun nidur brotenn.
7. Enn þeir spurdu hann og søgdu, Meistare, nær skal þad verda, og hvad merke er til, þa þetta mun skie?
8. Enn hann sagde, siaed til, ad þier verded ei villter, þviad marger munu koma i mijnu Nafne, og seigia ad eg sie þad, og sa Tijmi nalgast, filged þeim eige epter.
9. Enn nær þier heyred af Bardøgum og Upphlaupum, þa hrædest eige, þviad þessu byriar ꝏdur ad skie, enn Endenn er þo eige þa strax.
10. Þa sagde hann til þeirra, ein Þiod mun hefiast upp j mote annare, og eitt Rijke j mote ødru.
11. Og mikler Jardskialftar munu þar verda allstadar, Hungur og Drepsott og Skielfingar, og stor Teikn munu þar skie af Himne.
12. Enn fyrer allt þetta munu þeir Hendur a ydur leggia, og offsokn veita, og ydur munu þeir framm selia, j sijn Samkunduhus og Mirkvastofur, dragande ydur fyrer Konga og Landshøfdingia, fyrer mijns Nafns Saker.
13. Enn þetta mun ydur henda til eins Vitnisburdar.
14. Þvi setied ydur j Hiarta, þad þier hugsed eige fyrer, hvornenn þier skulud forsvara ydur.
15. Þviad eg mun giefa ydur Munn, og Vitsku, hvorium ad eige skulu j giegn standa, nie mote mæla, aller ydar Motstødumenn.
16. Enn þier munud og frammsellder verda af Forelldrum og Brædrum, Frændum og Vinum, og nockra af ydur munu þeir lijfe svipta.
17. Og þier munud verda hatader af hvorium Manne, fyrer mijns Nafns Saker.
18. Og eckert Haar af ydar Høfde skal þo farast.
19. (a) Eignest med Þolennmæde Saaler ydar.
(a) (Eignest) Þad er, laated ydar Saaler ecke verda Oþolennmodar.
20. Enn nær þier siaed Jerusalem umkringda af Her, þa skulud þier vita ad nalgast tekur hennar Eydelegging.
21. So ad hvor þa er j Judea, sa flye upp a Fioll, og hvor þar er midt jnne, fare hann ut

ut þadann, og hvør a Londunum uppe er, hann kome eige þar jnn.

22. Þviad þad er Hefndar Dagur, ſo ad uppfyllt verde allt hvad ſkrifad er.

23. Enn vei Oliettum og Brioſtmylkingum a þeim dogum, þviad mikel Harmkvæle munu verda a Jordu, og Reide yfer þetta Folk.

24. Og fyrer Sverdseggium munu þeir falla, og herleidder verda medal allra Pioda, og Jeruſalem mun undertrodaſt af Heidingium, þar til ad uppfyllaſt (b) Tijmar Heidingia.

(b) (Tijmar) Jeruſalem mun verda under Vallde Heidingia, þar til Heidingiarner ſnuaſt til Truarennar, þad er til Verolldarennar enda, Þvi Muſterid ſkal ecke upp aptur komaſt. Hagg. 1.

Gudſp. II. Sunnud. i Adventu.

III. 25. Og þar munu ſkie Teikn a Solu og Tungle og Stiornum, og a Jordu mun Folked kvijdande verda, og þeir munu orvinlaſt, Sior og Bylgiur munu þiota.

26. Og Menn munu fyrer hrædſlu vanmegnaſt, og af Epterbijdingu þeirra Hluta, hvørier ed koma ſkulu a Jordena. Þviad Kraptar Himenſins munu hræra ſig.

27. Og þa munu þeir ſia Mannſins Son komande j Skyunum, med ſtorum Krapte og Dyrd.

28. Enn nær þetta tekur ad ſkie, þa lyted upp og upphefied ydar Hofud, af þvi ad ydar Endurlauſn tekur ad nalgaſt.

29. Og hann ſagde þeim eina Epterlijking, ſkoded Fijkiutried og oll Trie.

30. Nær þeirra Allden tekur ut ad ſpringa, þa ſiaed þier a þeim, og merked þad Sumared er nu j nand.

31. So og lijka nær þier ſiaed allt þetta byriaſt, þa vited þad ad GUds Rijke er nalægt.

32. Sannlega ſeige eg ydur, þad þeſſe Kinſlod mun eige fyrerfaraſt adur allt þetta ſkier.

33. Himen og Jord forganga enn mijn Ord forganga eige.]

34. Enn vared ydur, ad ydar Hiortu þyngeſt ecke af ofaate og ofdryckiu, og med Sorgum þeſſarar Næringar.

35. Ad eige kome þeſſe Dagur haſtarlega yfer ydur, þviad lijka ſem Snarann mun hann koma yfer alla þa ſem a Jordu byggia.

36. So verid nu vakande alla Tijma, og bidied, ſo ad þier mættud verduger vera, ad umflya allt þetta, hvad epterkomande er, og ad ſtanda ſo framnie fyrer Mannſins Syne.

37. Og um Daga kiennde hann j Muſterenu, enn um Nætur gieck hann ut, og dvaldeſt um Nætur a Oliu Fiallenu.

38. Og allt Folk tok ſig ſnemma upp til hans j Muſtered, hønum ad heyra.

# XXII. Capitule.

(I) JEſus er umſetinn af þeim Andlegu: (II) Jnſetur Sacramentum Altareſins: (III) Rædur til Lijtellætes; (IV) talar vid Petur og hina adra Læreſveina: (V) Bidſt fyrer: (VI) Er ſvikenn af Judas: (VII) Afneitadur a Petre: (VIII) Hæddur og Smannadur af Folkenu: Og (IX) er hafdur fyrer Þad Andlega Rad.

I. Enn þa var nalæg Hatijd hins Sæta Brauds, hvør ed kalladeſt Paaſkar.

2. Og þeir ædſtu Preſtar og Skriftlærder, hofdu j Sinne hvørnenn þeir giæte hann lijfláted, og þeir ottuduſt Lydenn.

3. Enn Andſkotenn var hlaupenn j Judas, þann kalladur var Iſchærioth, og var eirn af tolu þeirra tolf.

4. Og hann for burt, og talade vid þa ædſtu Preſta og Hofudsmennena, hvørnenn hann villde ſelia hann þeim.

5. Þeir glodduſt vid, og hietu ad giefa hønum Peninga.

6. Og hann loſade þeim þvi, og leitade lags ad hann feinge ſelldt þeim hann an upphlaups.

II. 7. Nu kom Dagur hins ſæta Brauds, a hvørium offra ſkyllde Paaſkalambenu.

8. Og hann ſende ut Petrum og Johannem og ſagde, fared þid, bued oſs til Paaſkalambid, ſo ad vier neytum þeſs.

9. Enn

9. Enn þeir søgdu til hans, hvar villtu ad
vier bwum þad til?
10. Hann sagde til þeirra, siaed, nær þier
komed jnn j Borgena, mun Madur mæta
yckur berande Vatnskrws, filged honum
epter j þad Hus, sem hann geingur jnn.
11. Og seiged Hwsbondanum, Meista-
renn lætur seigia þier, hvar er þad Herberge,
þar eg meige Paaskalambed j eta med mijnum
Læresveinum?
12. Og hann mun vijsa ydur storann Sal,
steinlagdann, bwed þad þar til.
13. Þeir geingu burt og fundu so sem hann
hafde tilsagt þeim, og reiddu til Paaskalambed.

Gudspialled a Skijrdag.

14. Og þa er stundenn kom, sette hann sig
nidur, og þeir tolf Postular med hø-
num.
15. Og hann sagde til þeirra, mig hefur
hiartanlega epterlangad ad eta þetta Paaska-
lamb med ydur, aadur enn eg lijd.
16. Þviad eg seige ydur, ad hier epter,
mun eg ei (a) optar af þvi neyta, þar til ad þad
fullkomnast j GUds Rijke.

(a) (Optar) hann lætur alltijd vita hvørnenn hann umgieckst vid Daudann.

17. Og hann tok Kaleikenn, giørde þacker
og sagde, medtaked hann, og skipted honum
a millum ydar.
18. Þviad eg seige ydur, eg mun ege drecka
af Vijnvidar Avexte, fyrr enn GUds Rijke
kiemur.
19. Og hann tok Brauded, giørdi Packer,
og braut þad, og gaf þeim þad, og sagde,
þetta er mitt Holld þad fyrer ydur giefed ver-
dur, giøred þetta j mijna Minning.
20. Lijka eirnenn og Kaleikenn, epter
Kvølldmaaltijdena, og sagde, þesse er Kalei-
kur hins Nya Testamentis j mijnu Blode,
hvørt fyrer ydur verdur uthellt.]
21. Enn þo siaed, ad hønd þess er mig svij-
kur er a Borde med mier.
22. Og ad Sønnu fer Mannsins Son
epter þvi sem alyucktad er, þo vei þeim Manne,
fyrer hvørn hann verdur svikenn.
23. Og þeir toku sijn a mille ad spyria,
hvør af þeim være sa er þetta mundi giøra?
III. 24. Enn þar hofst upp þræta þeirra a
mille, hvør þeirra munde mestur halldenn
verda.
25. Enn hann sagde til þeirra, veralldleger
Kongar drottna, og hvørier Yfermaktena
hafa, þa kalla Menn Naaduga Herra.
26. Enn þier eige so, helldur sa sem mestur
er ydar a mille vere hann so sem hinn yngste, og
hinn ædste, sem annar Þienare.
27. Þvi hvør er meire sa sem til Bordsins
situr, edur sa sem þionar? er eige so, ad hann
sem vid Borded situr? enn eg em a millum y-
dar, sem eirn Þion.
28. Enn þier erud þeir, hvørier hia mier
hafa stadnæmst j mijnum Freistingum.
29. Og eg vil skicka ydur Rijked, so sem
minn Fader hefur mier skickad.
30. So ad þier skulud eta og drecka yfer mij-
nu Borde, j mijnu Rijke, og sitia a Stolum
dæmande Tolf Kinkvijsler Israels.
IV. 31. Enn Drottenn sagde, Simon, Si-
mon, sia þu, ad Andskotenn hefur gyrnst y-
dar, ad hann mætte sællda ydur sem Hveite.
32. Enn eg bad fyrer þier ad þijn Trua
skyllde ei linna, og þegar þu snyst einusinne, þa
stirk þu Brædur þijnar.
33. Enn hann sagde til hans, Herra, Rei-
dubuenn em eg med þier j Fiøtur og Dauda ad
ganga.
34. Þa sagde hann, Petur, eg seige þier,
ad j Dag mun ei Hanenn gala fyrr enn þu he-
fur þrisvar afneitad þvi, ad þu þeckter mig.
35. Og hann sagde til þeirra, þa eg sende y-
dur wt aan Pungs, aan Tosku, og aan Skoo,
hvørt brast ydur þa nockud? enn þeir søgdu,
eckert.
36. Þa sagde hann til þeirra, enn nu, hvør
ed Pung hefur, sa take hann, lijka og eirnenn
Toskuna, og sa er eige hefur, selie hann Kyrtel
sinn, og kaupe Sverd.
37. Þviad eg seige ydur, ad þad hlijtur a
mier ad fullkomnast hvad skrifad er, þad
hann

hann er med Illvirkium reiknadur. Þvi hvad
af mier skrifad er, hefur eirn Enda.

* Esai. 53, 15.

38. Enn þeir søgdu, Herra, sia, tvø
Sverd eru hier, hann sagde til þeirra, þad er
(b) nog.

(b) (Nog) Þad tiaer ecke ad strijda med lijkamlegu Sverde, helldur liggur Makt a, hier epter ad lijda vegna Evangelij, og ad bera Krossenn, Þvi eige kunna Menn ad strijda med Jarne mote Dioflenum, Þar fyrer, er naudsyn a, ad leggia alla Kostgiæfne þar a, ad taka alleinasta til Sverds Andans, hvørt ad er Guds Ord.

V. 39. Og hann gieck epter vana sijnum, ut
til Fiallsins Oliveti, og hans Læresveinar filg-
du honum epter.

40. Og þa hann kom þangad, sagde hann
til þeirra, bidied so ad ei falled þier j Freistne.

41. Og hann sleit sig fraa þeim nær einu
steinsnare, fiell a Knie, og tok ad bidia.

42. Og sagde, Fader, ef þu villt, þa tak
þennann Kaleik af mier, enn þo verde eige
minn, helldur þinn Vilie.

43. Enn honum birtest Eingell af Himne,
stirkiande hann.

44. Og þar kom, ad hann stridde vid Dau-
dann, og tok aakafar ad bidia. Enn hans
Sveite vard so sem Blooddropar, þeir fiellu
a Jordena.

45. Og hann stod upp af Bænenne, og kom
til sinna Læresveina, og fann þa sofandi af
Hrigd.

46. Og sagde til þeirra, hvad sofed þier?
standed upp, og bidied, so ad þier falled eige j
Freistne.

VI. 47. Þa hann var þetta ad seigia, sia! þad
Flockurenn, og eirn af þeim tolf, sa Judas
hiet, gieck fyrer þeim, og naalgadest JEsum,
ad hann kysste hann.

48. Enn JEsus sagde til hans, Juda, svij-
kur þu Mannsins Son med Kosse?

49. Enn er þeir er hia honum voru, sau
hvad verda villde, søgdu þeir til hans, Herra,
skulum vær sla med Sverde?

50. Enn eirn af þeim sloo Þion Prestahøf-
dingians, og hio af honum hans hid hægra
Eyra.

51. JEsus svarade og sagde, Leyfed þeim
ad giøra allt hid (c) frekasta. Og hann snart
hans Eyra og læknade hann.

(c) (Frekasta) laated Þa bruka sina Illavrne, so leinge sem Þeim leyft er, Allt hefur sinn Domara, So vier Þurfum ecke sialfer Þess ad hefna.

52. Enn JEsus sagde til þeirra ædstu
Presta, og Høfudsmanna (d) Mustteresins, og
Ølldunganna, hvørier til hans voru komner,
So sem til annars Ræningia geingud þier ut
med Sverdum og Støngum.

(d) (Høfudsmanna) Þad eru Þeir sem skickader voru af Gydingum j kringum Mustered, ad hallda uppe Fride fyrer AlÞijdu-folkenn.

53. Eg var daglega j Musterenu hia ydur,
og lögdud þier eige Hendur a mig, Enn þetta
er ydar tijme og Makt Mirkranna.

VII. 54. Enn þa gripu þeir hann og leiddu
hann j þess ypparsta Prests Hus, enn Petur
filgde epter aaleingdar.

55. Þeir kveiktu þa upp Elld j midre Høl-
lenne, og settust til samans, Og Petur sette sig
a mille þeirra.

56. Þa saa hann Ambaatt nockur sitia vid
Logann, stardi a hann og sagde til hans,
Þesse var og med honum.

57. Enn hann afneitade og sagde, Kona,
Ei þecke eg hann.

58. Og litlu einu þar epter, saa hann einn
annar Madur og sagde, Þu ert og einn af
þeim, Enn Petur svarade, Madur, ei em eg.

59. Og þar epter, nær eirnre stundu stirkte
nockur annar þad og sagde, Ad sønnu var og
þesse med honum, þvi hann er Galileare.

60. Enn Petur sagde, Madur, eige veit eg
hvad þu seiger, og jafnsnart, ad honum nu
þetta enn talande, gol Hanenn.

61. Og DRottenn snerest vid og leit til
Peturs, og Petur mintest Orda DRottens
sem hann hafde sagt, fyrrenn Hanenn gelur,
muntu afneita mier þrisvar.

62. Og Petur gieck ut og griet beisklega.

P VIII.

VIII. 63. Enn þeir Menn sem hielldu JEsu, dœrudu hann og slou.
64. Byrgdu hann og slou j hans Andlit, spurdu hann og sogdu, Spaadu, hvor sa er, er þ:g slo?
65. Og margt annad hæduglegt sogdu þeir vid hann.
IX. 66. Og er Dagur var, søfnudust samann Olldungar Lydsins, og hiner ædstu Prestar, og hiner Skriftlærdu, og leiddu hann upp fyrer sitt Raad.
67. Og sogdu, Ef þu ert Christur, seig oss þad, Og hann sagde til þeirra, Ef eg seige ydur þad þa trued þier þvi eige.
68 Enn ef eg spyr ydur, þa svared þier mier ei, og lœted mig þo ei lausann.
69. Nu hiedann j fra mun Mannsins Son sitia til hægre Handar Guds Kraptar.
70. Enn þeir sogdu aller, Ertu þa Guds Sonur? Hann sagde til þeirra, þier seiged þad, þviad eg em.
71. Þa sogdu þeir, Hvad þurfum vier nu Vitnisburdenn leingur? vier sialfer heyrdum þad af hans Munne.

## XXIII. Capitule.

JEsus (I) er leiddur fyrer Þad Veralldlega Raad: (II) Krossfestur: (III) Deyr: og er (IV) Greftradur.

I. Og allur sa hopur stod up, og leidde hann fyrer Pilatum.
2. Toku ad aklaga hann og sogdu, Þennann finnum vier ad hann frasnyr folkenu, og fyrerbydur Skatt ad giefa Keisaranum, og seiger sig ad vera Kongenn Christum.
3. Enn Pilatus spurde hann ad og sagde, Ertu Kongur Gydinga? Hann svarade honum og sagde, Þu seiger þad.
4. Pilatus sagde til þeirra yppurstu Presta og til Lydsins, ongva Sok finn eg med þessum manne.
5. Enn þeir voru þess aakafare og sogdu, Hann hefur uppæst folkid, med þvi hann hefur kiennt a ollu Gydingalande, og hefur tekid i Galilea allt hingad.
6. Enn er Pilatus heyrde Galileam nefnda, spurde hann ad, hvort hann være eirn Galileare.
7. Og er hann fornam ad hann var under Herodis Vallde, sende hann hann burt til Herodem, sem eirnenn var a þeim somu dogum i Jerusalem.
8. Enn er Herodes sa JEsum, vard hann næsta gladur, þviad hann hafde fyrer laungu gyrnst ad sia hann, af þvi ad hann hafde margt heyrt af honum, og hann vænte ad hann munde sia eit Teikn af honum.
9. Og adspurde hann a marga vega, enn hann svarade honum ongvu.
10. Enn Kiennemannahofdingiar og Skriftlærder stodu og aasokudu hañ hardlega.
11. Enn Herodes med sijnum Strijdsmonnum forsmaade hann og spottade, færde hann j hvitt Fat, og sende hann aptur til Pilatum.
12. Og a þeim deige urdu þeir Pilatus og Herodes Viner aptur, þviad adur voru þeir Oviner sijn a mille.
13. Enn Pilatus samannkalladi Prestahofdingia, og Hofudsmenn og Lydenn.
14. Og sagde til þeirra, Þier hafed þennann Mann til mijn haft, so sem hann er frasnyr folkenu, og siaed, Eg hefe yferheyrt hann hier fyrer ydur, og a þessum Manne finn eg ongva af þeim Sokum þar um þier klaged hann.
15. Og ei helldur Herodes, þviad eg sende ydur til hans, og siaed, ad eckert er af honum giort, þad Dauda sie verdugt.
16. Fyrer þvi vil eg giefa honum Raadning, og lœta hann lausann.
17. Þviad hann hlaut þeim eirn epter venju Hatijdardagsins lausann ad giefa.
18. Þa kallade upp allur hopurenn og sagde, burt med þennann, og gief oss Barrabam lausann.
19. Hvor ed var fyrer eitt Upphlaup, og Mannslag, er skied var i Borgenne, innsettur j Fangelsi.

20. Pila-

20. Pilatus kallade þa enn aptur til þeirra og villde JEsum lausann lꝏta.
21. Enn þeir kølludu upp og søgdu, Krossfestu, Krossfestu hann.
22. Pa sagde hann enn j þridia sinn til þeirra, Hvad illt hefur þa þesse giort? Ongva Daudasok finn eg med hønum, fyrer þvi vil eg hegna hønum, og lꝏta hann lausann.
23. Enn þeir stodu þvi fástara þar a med miklum Hliodum, æskiande þad, ad hann yrde Krossfestur, Og þeirra Hliod og Høfudprestanna toku yfer.
24. Og Pilatus dæmde ad skie skyllde þeirra beidne.
25. Og hann gaf þeim lausann þann er jnn var settur fyrer Upphlaup og Manndrap i Mirkvastofu, um hvørn þeir bꝏdu, enn hann frammsellde JEsum, epter þeirra vilia.
26. Og þa er þeir leiddu hann ut, høndludu þeir einn, Simon af Cyrene, hvør ed kominn var af Akre, og løgdu Krossenn uppa hann, ad hann bære hann epter JEsu.
27. Enn hønum fylgde epter mikell fiolde Folks og Kvenna, hvøriar ed grietu hann og aumkudu.
28. Enn JEsus sneresst til þeirra og sagde, Pier Dætur af Jerusalem, grꝏtid eige yfer mier, helldur grꝏtid yfer ydur sialfum og yfer Bornum ydar.
29. Pvi siaed, Sa tijme mun koma a hvørium seigiast mun, Sælar eru Obyrjur, og þeir Kvider er eige hafa fædt, og þaug Brioost hvør eige voru mylkt.
30. Pa munu þær taka ad seigia * Fiollunum, hrynied yfer oss, og Hꝏlsunum, hyliod oss. * Esa. 2, 19. Hos. 10, 8.
31. Pvi ef Menn giora þetta vid hid blomgada Tried, Hvad mun þa skie vid hid þurra.
II. 32. Enn tveir Spillvirkiar adrer leiddust og ut, ad þeir være afteknir med hønum.
33. Og sem þeir komu j þann stad, hvør ed kalladest Hausaskieliastadur, Pa krossfestu þeir hann þar, og Spillvirkiana med hønum, eirn til hægre Sijdu, og annan til Vinstre.
34. Enn JEsus sagde, Fader! fyrergief þeim, þviad þeir vita eige hvad þeir giora! Og þeir skiptu hans Klædum, og vorpudu þar um hlutkeste.
35. Og Folkid stod og sꝏ til. Og Hofdingiarner spottudu hann med þeim og søgdu, Ødrum hefur hann hialpad, hialpe hann nu sialfum sier, ef hann er Christur hinn vtvalde Guds.
36. Ad hønum hæddu og Strijdsmennernar, geingu til hans og færdu hønum Edik.
37. Og søgdu, Ef þu ert Kongur Gydinga, þa hialpa þier sialfum.
38. Enn yfersкriftenn var ritud yfer hønum med Griskum, Latinskum og Ebreskum Bokstofum, Pesse er Konungur Gydinga.
39. Enn eirn af þeim Spillvirkium, sem heingder voru, lastade hann og sagde, Ef þu ert Christur, frelsa sialfann þig og ockur.
40. Pa svarade hinn annar, straffade hann og sagde, og þu Hrædest ei helldur Gud, sem ert þo j eins Fordæmingu?
41. Og ad sønnu skier ockur þetta riettelega, þviad vid medtokum hvad ockar Giorder voru verdar, enn þesse hefur eckert oskickanlegt giort.
42. Og hann sagde til JEsu, DRottenn, Minstu mijn þa þu kiemur j Rijke þitt.
43. Og JEsus sagde til hans, Sannlega seige eg þier, j Dag skalltu vera med mier j Paradis.
III. 44. Og þad var nær um hina Siottu stund, og Mirkur giordest yfer allt Landed, allt til nijundu Stundar.
45. Og Solenn miste sitt Skin, og Tiallded Mustеresins rifnade midt j tvennt.
46. Og JEsus kallade hꝏrre roddu og sagde, Fader! j þijnar Hendur fel eg minn Anda! Og er hann hafde þetta sagt, gaf hann upp sinn Anda.
47. Enn er Høfudsmadurenn sꝏ þad hvad þar skiede, prijsade hann GUd, og sagde, ad vijsu hefur þetta eirn Riettlꝏtur Madur verid.
48. Og allt Folk er þar var hia og horfde a,

 sem

sem þeir sau hvad þar skiede, bardę þad sier a Briost, og snere j burt aptur.

49. Enn aller hans Kunningiar stodu langt fra, og þær Konur sem honum hofdu eptersilgt vor Galilea, og horfdu a allt þetta.

IV. 50. Og sia, einn Madur er hiet Joseph, einn Raadherra, godur Mann og Riettvijs.

51. Hann hafde ei sambyckt þeirra Raade og Giorningum, og hann var af Borg Gydinga Arimathia, hvør ed og beid epter GUds Rijke.

52. Þesse gieck til Pilatum, og bad um Lijkamann JEsu.

53. Og tok hann ofann og sveipade hann j lierepte, og lagde hann j vthøggna Grof, j hvørre alldrei hafde nockur Madur lagdur vered.

54. Og þad var Adfanzadagur, og Sabbathsdagurenn tok til.

55. Enn þær Konur sem komnar voru med honum af Galilea, filgdu epter og skodudu Grofena, og hvornenn hans Lijkame var lagdur.

56. Enn þær sneru aptur, reidande til dyrmætar Jurter, og Salve, enn um Sabbathsdagenn voru þær kyrrar epter Løgmaalenu.

## XXIV. Capitule.

(I) JEsu Upprisa, og (II) Uppstigning.

I. Enn a firsta Deige Vikuñar miøg snemma, komu þær til Grafarennar, og baaru dyrmætt Salve er þær høfdu tilbued, og nockrar med þeim.

2. Og þær fundu ad Steinenum hafde vellt vered af Grøfenne.

3. Og stigu þar jnn, og fundu ecke Lijkamann HErrans JEsu.

4. Og sem þær efudu hier um, sia, þa stodu Tveir menn hia þeim, j Skijnande Klædum.

5. Enn þær urdu hræddar, og sloou sinne Asionu nidur til Jardar, þa søgdu þeir til þeirra, hvad leited þier hins Lifanda hia Daudum?

6. Hann er eige hier, hann er upprisenn, hugleided hvad hann talade fyrer ydur þa hann var j Galilea.

7. Og sagde, þad Mannsins Syne byriade ad seliast j Syndugra Hendur, og krossfestur verda, og a þridia Deige upp ad rijsa.

8. Og þær mintust a hans Ord.

9. Og þær geingu burt fra Grøfenne aptur, og kunngiordu allt þetta þeim ellefu, og so ollum ødrum.

10. Enn þetta var Maria Magdalena, og Johanna, og Maria Jacobi, og þær adrar med þeim sem þetta søgdu Postulunum.

11. Og þeirra Ord virdtest þeim sem være þad Skial, og trudu þeim eige.

12. Enn Petur stod upp, og hliop til Grafarennar, og laut þar jnn, og sa Lijnklædenn einsømul liggia, gieck burt og undrade, hvørnenn þad være skied.

Gudsp. a II. i Paaskum.

13. Og sia, ad tveir af þeim geingu þann sama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var fra Jerusalem, sextygu Akra leingd, hvørt ed (a) Emaus var ad nafne.

(a) Ma vera Þad sie Ebreska, Heimaos, Slot, Festing.

14. Og þeir tøludu sijn aa mille um alla þa hlute, sem vid høfdu bored.

15. Og þad skiede þa þeir so tøludu og spurdust a sijn j millum, kom JEsus til þeirra, og gieck med þeim.

16. Enn þeirra Augu voru so halldenn ad þeir þecktu hann eige.

17. Enn hann sagde til þeirra, hvad er þad fyrer Rædu, sem þid hondled reikande a Veigenum yckar a mille, og erud hriggver vot af?

18. Þa svarade einn er Cleophas var ad nafne, og sagde til hans, ertu alleina einn af þeim okiendu j Jerusalem, ad þu veitst eige hvad a þessum Døgum þar jnne giørst hefur?

19. Og hann sagde til þeirra, hvad er þad? enn þeir søgdu til hans, þad af JEsu af Nazareth, hvør ed var einn Spaamadur, mektugur j Ordum og Verkum fyrer GUde og ollu Folke.

20. Hvørsu ad vorer Høfudprestar og

Hofdingiar selldu hann j Fordæming Daudans, og krossfestu hann.

21. Enn vier vonudum ad hann munde endurleysa Jsrael, og yfer allt þetta er hinn þridie Dagur j Dag, er þetta skiede.

22. So hafa og skielft oss nockrar Konur af oss til, þær ed snemma hofdu hia Grofenne vered.

23. Og ecke fundid hans Lijkama, komu og sogdu sig sied hafa Einglanna Sioner, þeir ed sogdu hann lifa.

24. Og nockrer vtaf oss geingu til Grafarennar, og fundu eins lijka sem Konurnar hofdu sagt, enn hann fundu þeir ecke.

25. Og hann sagde til þeirra, o þier Heimsker, og treger j Hiarta ad trua þvi ollu hvad Spamennener hafa talad?

26. atti Christus ei þetta ad lijda og jnnganga j sijna Dyrd?

27. Og hann tok til fra Moyse og ollum Spamonnum, og lagde vt fyrer þeim allar Ritningar, þær af honum voru.

28. Og þeir toku ad nalgast Kauptunid þad þeir geingu til, og hann liet þa sem villde hann leingra ganga.

29. Þeir neyddu hann og sogdu, vert hia oss, þviad kvollda tekur og a Dagenn lijdur, og hann gieck jnn ad vera hia þeim.

30. Og þad skiede þa hann sat med þeim til Bords, ad hann tok Brauded, giorde þacker, og braut þad, og riette ad þeim.

31. Þa opnudust þeirra Augu so þeir þecktu hann, og hann vard osynelegur fyrer þeim.

32. Og þeir sogdu sijn a mille, brann eige ockart Hiarta j ockur, þa hann talade vid ockur a Veigenum, og opnade fyrer ockur Ritningarnar?

33. Og þeir stodu upp a somu Stundu, og sneru aptur til Jerusalem, og fundu þa ellefu samannsafnada, og þa sem med þeim voru.

34. Hvorier ed sogdu, Drottinn er sannarlega upprisinn, og hefur birtst Simone,

35. Og þeir tioadu þeim hvad giorst hafde a Veigenum, og hvornenn hann vard þecktur af þeim j þvi hann braut Brauded.]

Gudspialled a III. i Paaskum.

36. Enn er þeir voru ad tala þetta, stie JEsus sialfur midt j millum þeirra, og sagde til þeirra, Fridur sie med ydur.

37. Enn þeir skielfdust, og urdu hrædder, og meintu ad þeir sæe Anda nockurn, og hann sagde til þeirra.

38. Þvi erud þier so hrædder, og þvi koma slijker Þankar j ydar Hiortu?

39. Siaed mijnar Hendur og mijnar Fætur, ad eg em þad sialfur, þreifed þier a mier og skoded, þviad Ande hefur hvorke Holld nie Bein, so sem þier siaed mig hafa.

40. Og þa hann sagde þad, synde hann þeim Hendur og Fætur.

41. Og er þeir trudu enn eige fyrer Fagnadar Saker, og undrade þad, sagde hann til þeirra, hafed þier hier nockud ad eta?

42. Og þeir logdu fyrer hann stucke af steiktum Fiske, og Hunangs Koku.

43. Og hann tok þad, og at fyrer þeim.

44. Og hann sagde til þeirra, þetta eru þaug Ord, hvor eg talade til ydar, þa eg var enn nu hia ydar, þviad þad hlytur allt ad fullkomnast hvad af mier var skrifad, j Moysis Logmale, Spamannabokum og Psalmum.

45. Þa opnade hann þeirra Skilning, so ad þeir skildu Ritningarnar.

46. Og sagde til þeirra, so er þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda, og upp ad rijsa a þridia Deige af Dauda.

47. Og predika lata j sijnu Nafne Jdran og Syndanna Fyrergiefning, a medal allra Pioda, og upphefia til Jerusalem.

48. Enn þier erud Vottar allra þessara Hluta.]

49. Og siaed, ad eg vil senda yfer ydur * Fyrerheit mijns Fodurs, enn þier skulud vera kyrrer j Borgenne Jerusalem, þangad til ad þier jklædest Krapte af Hædum.

* Es. 44, 3. Joel. 2, 28.

II. 50. Enn hann hafde þa vt allt til Bethaniam, og hof upp sijnar Hendur og blessade þa.

51. Og þad giordest þa hann blessade yfer þa, ad hann skilde vid þa, og for upp j Himenenn.

52. Enn þeir tilbiddu hann, og snern aptur til Jerusalem med miklum Fagnade.

53. Og voru alltijd j Musterenu vegsamande og lofande GUD.

Endet S. Lucæ Gudspialls.

# S. Johannis Evangelium.

## I. Capitule.

(I) Hver og hvilijkur ad JEsus se: (II) Vitnisburder Johannis um JEsum: (III) Nockrer af Lærisveinum JEsu verda Nafugreinder

I. J Upphafe var Ord, og þad Ord var hia Gude, og Orded var Gud.

2. Pad sama var j Upphafe hia Gude.

3. Aller Hluter eru fyrer þad giorder, og ān þess er eckert giort hvad giort er.

4. J hønum var Lijfed, og Lijfed var Lios Mannanna,

5. Og Liosid skein j Myrkrunum, og Myrkrenn hafa þad eige høndlad.

6. Par var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johannes.

7. Hann kom til Vitnisburdar, ad hann bære Vitnisburd af Liosinu, ad aller skylldu fyrer hann trua.

8. Eige var hann Liosed, helldur ad hann bære Vitnisburd af Liosenu.

9. Pad var þad sanna Lios, hvørt ed upplyser (a) alla Menn, sem koma j þennann Heim.

(a) (Alla Menn) þad er, Christur er Lios Veralldarennar, sem fyrer Evangelium upplyser alla Menn, þviad þad verdur Predikad fyrer allre Skiepnu, og verdur frammbored fyrer alla þa Menn sem eru og verda munu.

10. Pad var j Heimenum, og Heimurenn var fyrer þad giordur, og Heimurenn þeckte þad eige.

11. Hann kom til sinnar Eignar, og hans Eigenn medtoku hann eige.

12. Enn so marger sem hann medtoku, þa gaf hann þeim mackt Gudsbørnum ad verda, þeim er a hans Nafn trua.

13. Peim sem ecke af Blodenu, nie af Holldsins Villd, nie Mannsins Vilia, helldur þeim sem af GUde eru borner.

14. Og Orded vard Holld, og bygde med oss, og vier saum hans Dyrd, Dyrd so sem Eingetins Sonar af Fødurnum, fullann Nꝏdar og Sannleika.

II. 15. Johannes vitnade af hønum, kallade og sagde, þesse var sa, um hvørn eg sagde, ad epter mig skyllde koma, sa sem fyrer mig var, þviad hann var fyr enn eg.

16. Og af hans Fyllingu høfum vær aller teked (b) Nꝏd fyrer Nꝏd.

(b) (Nꝏd) Vor Nꝏd er oss giefenn fyrer Christi Nꝏd, sem hønum er giefenn, so ad vier uppfyllum Løgmꝏled, og þeckium Fødurenn fyrer hann, so ad Hræsne afleggest, og vier kynnum ad verda riettsinnader Menn.

17. Pviad Løgmꝏled er fyrer Moysen utgiefed, enn Nꝏd og Sannleikur er fyrer JEsum Christum ordenn.

18. Eingenn hefur nockurn Tijma GUD sienann, sa Eingietne Sonurenn sem j Fødursins Skaute er, hann hefur oss þetta kunngiort.

Gudspialled IV. Sunnudag i Adventu.

19. Og þetta er Vitnisburdur Johannis, þa þeir Judar sendu af Jerusalem Presta og Levita, ad þeir skylldu spyria hann, hvør ert þu? og hann kiendest og neitade eige.

20. Og hann kiendest, eige em eg Christur.

21. Peir spurdu hann ad, hvad þa? ertu Elias?

Elias? hann sagde, Eige em eg: ertu Spaamadur? enn hann ansade, nei.

22. Pa sogdu þeir vid hann, hvad ertu þa? so ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss utsendu, hvad seiger þu af sialfum þier?

23. Hann sagde, eg em eins * Predikara Rodd j Eydemorku, greided þier Vegu Drottens, so sem sagde Esaias Spaamadur. * Esa. 40, 3.

24. Og þeir sem utsendust voru af Phariseis.

25. Þeir adspurdu hann og sogdu honum, þvi skijrer þu þa, ef þu ert eige Christur, ei Elias, og eige Spaamadur?

26. Johannes svarade þeim og sagde, eg skijre med Vatne, enn hann er geingenn midt a medal ydar, hvorn þier þecked eige.

27. Hann er sa sem epter mig mun koma, sa ed fyrer mig hefur verid, hvors eg em ei verdur ad uppleysa Skoþveinge.

28. Þetta skiede j Bethabara hinu meigenn Jordanar, þar Johannes skijrde.]

29. Enn annars Dags þar epter sier Johannes JEsum konande til sijn, og mællte, siaed! þar er þad Lambid GUds hvort ed ber Heimsins Synder.

30. Sa er, af hvorium eg sagde ydur, epter mig kiemur Madur, sa fyrer mig var, þviad hann var fyr enn eg.

31. Og eg þeckte hann eige, helldur ad hann yrde opinber j Jsrael, fyrer þvi kom eg ad skijra med Vatne.

32. Og Johannes vitnade, og sagde, eg sa Andann ofann stijga af Himnum j Dwfu Lijke, og hann stadnæmdist yfer honum.

33. Og eg þeckte hann ei, enn sa mig sende ad skijra med Vatne, hann sagde mier, yfer hvorn þu sier Andann nidurstijga, og yfer honum vera, hann er sa sem skijrer med Heilogum Anda.

34. Og eg sa þad, og vitnade, ad sa er GUds Sonur.

35. Enn annars Dags, stod Johannes aptur enn, og tveir af hans Læresveinum.

36. Og sem hann leit JEsum ganga, seiger hann, siaed, þad er Lamb GUds!

III. 37. Og þeir tveir Læresveinar heyrdu hann tala, og filgdu JEsu epter.

38. Enn JEsus snere aptur, og leit þa sier filgiande, og sagde þeim, ad hvorium leited þier? þeir sogdu honum, Rabbi, (hvad ad þydest Meistare) hvar attu Heima?

39. Hann sagde þeim, komed og siaed, þeir komu og sau þad, og voru hia honum þann dag, enn þad var nær tijundu Stundu.

40. Eirn af þessum tveimur, sem heyrde af Johanne, og JEsu epterfilgde, var Andreas Broder Simonar Petri.

41. Hann fann þa adur sinn Brodur Simon, og sagde til hans, vier hofum funded (c) Messiam (hvad utlegst, Smurdur.)

(c) Messias, a Ebreisku; Christur, a Grisku; Smurdur, a Norrænu; allt hid sama.

42. Og filgde honum til JEsu: þa JEsus leit hann, mællte hann, þu ert Simon Sonur Jonas, þu skallt kallast Cephas, þad utlegst Hellusteirn.

43. Annars Dags þar epter, villde JEsus ferdast til Galilæam, og finnur Philippum og sagde til hans, filg þu mier epter.

44. Enn Philippus var af Bethsaida, ur þeirre Borg Andresar og Peturs.

45. Philippus fann Nathanael, og sagde honum, vier hofum þann funded, um hvorn Moyses * j Logmaalenu og Spaamennerner ** hafa skrifad, JEsum Josephs Son af Nazareth. * 1 B. Mos. 49, 10. etc. 5 B. Mos. 18, 18. ** Esa. 40, 10. 11. Ezech. 34, 23. Jer. 23, 5. 6. Dan. 9, 24.

46. Nathanael sagde til hans, hvad ma af Nazareth gott koma? Philippus sagde honum, kom og sia þad.

47. JEsus sa Nathanael koma til sijn, og sagde af honum, siaed, einn Sannann Jsraeliita, j hvorium eingenn Svik eru.

48. Nathanael sagde vid hann, hvar af þecker þu mig? JEsus svarade og sagde til hans, adur enn Philippus kallade a þig, þa þu varst under Fijkiutrienu, sa eg þig.

49. Nathanael svarade og sagde til hans,

Rab-

bi, þu ert GUds Sonur. Þu ert Kongur Jsraels.

50. JEsus svarade og sagde vid hann, þu truder, af þvi eg sagde þier, ad eg hefde sied þig under Fijkiutrienu, sia muntu enn þessu meira.

51. Og hann sagde hønum, sannlega, sannlega seige eg ydur, upp fra þessu munud þier sia Himenenn openn, og Engla GUds stijga upp og ofann yfer Mannsins Son.

## II. Capitule.

JEsus (I) fer til Brudkaups: og (II) hreinsar Mustered.

Gudspialled II. Sunnud. epter Þrettanda.

I. Og a þridia Deige, vard Brudkaup til Cana i Galilea, og þar var Moder JEsu.

2. Enn JEsus var bodenn, og hans Læresveinar, til Brudkaupsins.

3. Og er þa þraut Vijnid, sagde Moder JEsu til hans, þeir hafa eige Vijn.

4. JEsus sagde til hennar, þu Kona, hvad hef eg med þig ad giora? Mijn Stund er ei enn komenn.

5. Mooder hans sagde til Þienaranna, hvad hellst hann seiger ydur, þad giored.

6. Enn þar voru sex Vatskier af Steine, sett epter veniu Gydinganna Hreinsunar, og hvort þeirra tok tvo eda þria (a) Mælera.

(a) Metreta j Grisku, tvær Metretæ eru hia oss nockud meira enn ein Ama Vijns.

7. JEsus talade til þeirra, Fylled upp Vatskierenn af Vatne, og þeir fyltu þau allt a Barma.

8. Og hann sagde þeim, ausid nu upp og færed Kiæmeistaranum, og þeir færdu hønum.

9. Enn þa Kiæmeistarenn smackade Vijned, þad Vatn hafde verid, og visse ecke hvadann þad kom, enn Þionustumennerner sem Vatnid jusu, vissu þad, Þa kallar Kiæmeistarenn a Brudgumann.

10. Og seiger hønum, Aller Menn giefa j firstu þad goda Vijned, og nær þeir gioraſt Ølvader, þa þad hid liettara; Enn þu hefur geymt hid goda Vijned allt til þessa.

11. Þetta er hid firsta Jardteikn þad JEsus giorde, sem skiede j Cana j Galilea, og hann opinberade sijna Dyrd, og hans Læresveinar trudu a hann.]

II. 12. Þar epter for hann ofan til Capernaum, hann og Moder hans, Brædur hans, og Læresveinar, og voru þar eige leinge.

13. Þa voru nealæger Paskar Gydinga. Og JEsus for up til Jerusalem.

14. Og fann j Musterenu sitiande þa sem høfdu til kaups, Naut, Saude, Dwfur, og þa sem umskipte giordu a Peningum.

15. Þa giorde hann sier Svipu af streingium, og rak þa alla ut af Musterenu, med Nautum og Saudum, og hratt nidur Peningum og Bordum þeirra er umskiptenn giordu.

16. Og sagde vid þa sem Dwfurnar selldu, bered þier þetta burt hiedann, og giored eige mijns Fodurs Hwſ ad soluhusi.

17. Hans Læresveinar hugsudu þa um, hvad skrifad er; * Vandlæting Hwss þijns aat mig. * Psal. 69, 10.

18. Þa ansudu Judar og sogdu hønum, Hvort Teikn syner þu oss, ad þu meiger þetta giora?

19. JEsus svarade og sagde þeim, Brioted þetta Mustere, Enn eg vil a þridia deige þad uppreisa.

20. Þa sogdu Gydingar, þetta Mustere er uppbyggt j sex og fiorutijge aar, enn þu villt uppreisa þad a þrem dogum?

21. Enn han talade um Mustere sijns Lijkama.

22. Og þa hann var af Dauda upprisinn, hugleiddu hans Læresveinar, ad hann hafde þetta mællt, og trudu * Ritningunne, og þeim Ordum er JEsus hafde talad.

* Psal. 16, 10, 11.

23. Enn sem hann var j Jerusalem a Poaskahaatijdenne, þa trudu marger a hans Nafn, þa þeir sau þaug Teakn er hann giorde.

24. Enn JEsus trude þeim eige til sijn, af þvi hann þeckte þa alla.

25. Og þurfte ei vid ad nockur bære af Man-

Mannenum Vitne, þviad hann sialfur visse hvad med Mannenum var.

## III. Capitule.

(I) Ræda JEsu vid Nicodemus um Endurfædingena: (II) Ræda Johannis vid Gydinga um JEsum.

Gudspialled a Trinitatis Sunnudag.

I. Þar var einn Mann a medal Phariseanna, Nicodemus ad Nafne, hann var einn af Hofdingium Gydinga.

2. Hann kom til JEsu um Nott, og sagde til hans, Meistare, vier vitum ad þu ert einn Lærefader af Gude komenn, þviad eingenn gietur giort þaug Teakn sem þu giorer, nema Gud sie med honum.

3. JEsus svarade og sagde til hans, Sannlega, sannlega seige eg þier, Nema so sie ad nockur verde ad nyu fæddur, hann kann eige ad sia Guds Rijke.

4. Þa sagde Nicodemus til hans, (a) Hvornenn kann Madurenn ad fædast þa hann er gamall? eda fær hann stiged aptur j sinnar Modur kvid og fædst so?

(a) Vor Skilningur, Nattura og Frivilie, og etc. Veit eckert af Guds Raad og Verkum, ja, hun fælest Þau og helldur Þau fyrer Andstygd, So langt er Þad fra ad hun skylde gyrnast Þau, so sem Þesse Texte klaarlega bevijsar.

5. JEsus svarade, Sannlega, sannlega seige eg þier, Nema so sie, ad nockur verde fæddur af Vatne og af Anda, þa gietur hann ei inngeingid j Guds Rijke.

6. Hvad af Holldenu er fædt þad er Holld, og hvad af Andanum er fædt þad er Ande.

7. Undrast þu ei, þo eg seige þier, ad ydur byriade ad nyu ad fædast.

8. Vindurenn (b) blæs hvar hann vill, og þu heyrer hans þyt, enn ei veitstu hvadann hann kiemur, eda hvort hann fer, so er hvor sa sem af Andanum er fæddur.

(b) (Blæs) Eins og Vedred heyrest, Þa Þad blæs og þytur, og eingenn veit Þo hvadann Þad kiemur, edur hvort Þad fer. So finnur og hvor einn Endurfæddur, Guds Anda krapt j sier, Þo ad eige kunne hann ad finna hvornenn ad Endurfædingarennar Verk j sier framkvæmest.

9. Nicodemus svarade og sagde til hans, Hvornenn ma slikt skie?

10. JEsus svarade og sagde til hans, Ertu Meistare j Israel og veitst eige þetta?

11. Sannlega, sannlega seige eg þier, ad vier seigum þad vier vitum, og vitnum þad vier sied hofum, og vort Vitne medtaked þier eige.

12. Og ef þier trued eige þa eg seige ydur af jardneskum hlutum, Hvornenn munud þier trua meiga, ef eg seige ydur af Himneskum Hlutum?

13. Og eingenn mun fara til Himna, nema sa sem ofann af Himne hingad er komenn, sem er Mannsins Sonur, sa sem er a Himne.

14. Og so sem Moyses upphafde Hoggormenn j Eydemorku, lijka byriar Mannsins Syne ad upphefiast.

15. Ad aller þeir er a hann trua fortapest eige, helldur ad þeir hafe Eylijft Lijf.]

Gudsp. a II. j Hvita-Sunnu.

16. So Elskade Gud Heimenn, ad hann gaf ut sinn Eingetenn Son til þess, ad aller þeir sem a hann trua, fyrerfarest eige, helldur ad þeir hafe Eylijft Lijf.

17. Þvi eige sende Gud sinn Son j Heimenn ad hann dæmde Heimenn, helldur ad Heimurenn frelsist fyrer hann.

18. Hvor a hann truer, dæmest eige, Enn hvor hann truer eige, hann er nu þegar dæmdur, þviad hann trude eige a Nafn Eingetins Guds Sonar.

19. Enn þesse er Domurenn, Liosid kom j Heimenn, og Mennerner elskudu meir Mirkred enn Liosed, þvi þeirra Verk voru vond.

20. Hvor jlla giorer sa hatar Liosid, hann kiemur og eige til Liossins, ad eige straffest hans Verk.

21. Enn hvor Sannleikenn giorer, hann kiemur til Liossins, so ad hans Giorder verde Augliosar, þviad þær eru j Gude giordar.]

II. 22 Epter þetta kom JEsus og hans Læresveinar til Gydingalands, og hafde sitt adsetur þar hia þeim og skijrde.

23. Enn Johannes skijrde og so vid Enon nærre Salim, þviad þar voru Vøtn morg, þeir komu þangad, og lietu skijra sig.

24. Þviad Johannes var eige þa jnn læ-tenn j Mirkvastofu.

25. Enn þa hoofst ein Spurning af Læresvei-num Johannis vid Gydinga, um Hreinsunena.

26. Og þeir komu til Johannem, og sogdu honum, Meistare, sa sem hia þier var hinumei-genn Jordanar, af hvørium þu barst Vitne, sie, Hann skijrer, og hvør Madur kiemur til hans.

27. Johannes svarade og sagde, Madur fær ei medtekid nockud, nema honum verde þad af Himnum giefid.

28. Þier erud sialfer mijn Vitne, þad eg sagde, ad eg være ei Christur, Helldur þad eg være fyrer honum sendur.

29. Hvør ed Brudena hefur, sa er Brud-gumenn, enn Vinur Brudgumans er sa sem stendur og hlyder honum, og gledur sig yfer Brudgumans Rodd, Sa same minn fognu-dur er nu uppfylldur.

30. Honum ber ad vaxa, enn mier ad mijnka.

31. Sa sem ad ofan kiemur, hann er yfer øllum, Hvør hann er af Jordu, hann er af Jordu, og um Jordena talar hann, Enn sa sem kiemur af Himne, hann er yfer øllum.

32. Og hvad hann sa og heyrde, þad vitnar hann, og eingenn tekur hans Vitnisburd.

33. Enn hvør hann medtekur, sa (c) Jnn-siglar þad, ad Gud sie sannur.

(c) (Jnnsiglar) Þad er, hann finnur til þess, so sem eitt Insigle þrickt i sitt Hiarta, sem er Truenn, Ad Gud er Sannordur, Og hann vidurkienner og vot tar þad eirnenn utvortis, so sem hann seiger j sio-unda Cap. Ef nockur vill giøra mijns Fødurs Vi-lia, hann mun formerkia, hvørt þesse Lærdomur er af Gude.

34. Þvi þann sem Gud sender, sa talar Guds Ord, þviad eige giefur Gud Anda af (d) skamte.

(d) (Skamte) Aller adrer Menn fa Guds Anda Gæ-fur, af vissum ræsettum skamte, Enn Guds Sonur hefur ødlast Heilags Anda Gæfur ran enda og mæ-ta. Hebr. 1, 9. Coloss. 2, 9.

35. Faderenn elskar Sonenn, og allt gaf hann j hans Hendur.

36. Hvør hann truer a Sonenn, sa hefur Eylijft lijf, Enn hvør hann truer ecke a So-nenn, hann mun eige sia Lijfid, helldur blijfur Guds Reide yfer honum.

# IV. Capitule.

JEsus (I) talar vid eina Samaritaniska Konu, og (II) læknar Son þess Konunglega Manns er var Siukur.

I. Enn þa DRottenn fornam nu, ad Pha-risei hofdu heyrt, þad JEsus giorde fleyre Læresveina enn Johannes, og skijrde.

2. (Þott JEsus skijrde ei sialfur, helldur hans Læresveinar.)

3. Þa forliet hann Gydingaland, og for aptur til Galileam.

4. Enn hann ratte ad reisa um Samariam.

5. Þa kom hann i eina Samverska Borg, þa Sichar heiter, nærre þvi Akurlende, er * Jacob gaf Syne sijnum Joseph.

* 1 B. Mos. 33, 19. 1 B. Mos. 48, 22. Jos. 24, 32.

6. Og þar var Brunnur Jacobs. Sem JEsus var nu ordenn vegmodur, þa sat hann a Brunnenum, þad var nærre um siottu Stund.

7. Þa kom ein Kona ut af Samaria Vatn ad ausa. JEsus sagde til hennar, Gief þu mier ad drecka.

8. Þvi hans Læresveinar voru geingner jnn j Borgena Fædslu ad kaupa.

9. Þa seiger su Samverska Konann til hans, Hvørnenn beider þu mig Dryckiar, þar þu ert eirn Jude, enn eg em ein Samversk Kona? Þviad ecke hafa Judar neina um-geingne med Samverskum Mønnum.

10. JEsus svarade og sagde til hennar, Ef þu þeckter Guds Giof, og hvør hann være, sa þier seiger, Gief mier ad drecka, þa beiddер þu hann, og hann giæfe þier Lifande Vatn.

11. Þa sagde Konann til hans, Herra, þu hefur eige þad sem þu gietur ausid med, enn

hvatt

hvatt er ofann j Brunnenn, eda hvadann hefur þu þad Lifande Vatn?
12. Edur ertu meire Fødur vorum Jacob, sa ed gaf oss þennann Brunn? hann drack af honum og Børn hans, og hans Fienadur.
13. JEsus svarade og sagde henne, Hvør sem dreckur af þessu Vatne, hann þyrster aptur.
14. Enn hvør hann dreckur af þvi Vatne sem eg mun giefa honum, hann skal ey þyrsta eylijflega, Helldur þad Vatn sem eg gief honum, mun verda j honum Vatns brunnur sem flytur til Eylijfs Lijfs.
15. Konann sagde til hans, Herra, gief mier þetta Vatn, so mig þyrste ei, og ad eg skule ei koma hingad til Vatsaustrar.
16. JEsus sagde til hennar, Far þu, og kalla a Mann þinn og kom hingad.
17. Konann svarade og sagde, eige hef eg Mann, JEsus sagde til hennar, Pu seiger riett, eige hef eg Mann.
18. Pviad þu hefur fimm menn haft, og þann þu hefur nu, er eige þinn madur, þetta sagder þu satt.
19. Konann sagde til hans, Herra, eg sie ad þu ert eirn Spaamadur.
20. Fedur vorer hafa a þessu Fialle tilbeded, enn þier seiged, til Jerusalem sie sa stadur þar Menn eige ad tilbidia.
21. JEsus sagde henne, Kona, tru mier, Su stund kiemur, ad hvorke a þessu Fialle, nie til Jerusalem munu þeir tilbidia Fødurenn.
22. Pier tilbidied þad þier vited ei, enn vier vitum hvad vier tilbidium, þviad Heillenn er af Judum.
23. Enn sa Tijme kiemur, og er nu þegar, ad sanner tilbidiendur munu tilbidia Fødurenn j Anda og Sannleika, af þvi, ad Faderenn vill hafa þa, er hann so tilbidia.
24. Gud er Ande, og hvorier hann tilbidia, þeir skulu tilbidia hann j Anda og Sannleika.
25. Konann sagde til hans, Eg veit ad Messias kiemur, sa sem Christur kallast, og nær hann kiemur, þa mun hann undervijsa oss allt.
26. JEsus sagde henne, Eg em hann, sa sem vid þig talar.
27. Og j þvi bile komu hans Læresveinar ad, og undrudust þvi hann talade vid eina Kvinnu. Po sagde eingenn, ad hvoriu spyr þu, edur hvad mæler þu (a) vid hana.

(a) (Vid hana) sem er ein Samversk og Heidenn Kona.

28. Enn Konann skildest þar vid sijna Krwos, og gieck jnn j Stadenn, og sagde til folksins.
29. Komed og siaed eirn mann er mier sagde allt þad eg hefe giort, hvort ad hann er eige Christur.
30. Pa geingu þeir wt af Stadnum, og komu til hans.
31. Enn þess a mille minntu hans Læresveinar hann a og sögdu, Rabbi, neyt þu.
32. Enn hann sagde til þeirra, Eg hefe þa (b) Fædu til ad neyta, af hvørre þier vited eige.

(b) (Fædu) Hans Fæda er ad giøra Vilia Fødursins, enn Fødursins Vilie er, ad Evangelium skule epter hans Pijnu predikad verda i øllum Heimenum; Pad var nu nalægt, eins og Kornskieru-tijmenn var j þann tijd nalægur.

33. Pa sögdu Læresveinarner sijn a mille, Eda hefur nockur fært honum ad eta?
34. JEsus sagde til þeirra, minn matur er sa, ad eg giøre hans Vilia þess er mig hefur sendt, og fullkomne hans Verk.
35. Seiged þier eige sialfer, ad þad eru enn fiorer Manuder, þa kiemur Kornskierutijmenn; sie, Eg seige ydur, lijted upp Augum ydar, og siaed Akurlondenn, þad þau eru nu þegar hvijt til Kornskurdarens.
36. Og hvør sem uppvinnur, sa tekur laun, og safnar Avexte til Eylijfs Lijfs. So ad þar gledie sig hvor med ødrum, soa sem soaer, og sa er uppvinnur.
37. Pvi sannast hier þad Ord-tak, ad annar sie sa sem soaer, enn annar sa sem uppvinnur.
38. Eg sende ydur upp, ad vinna þad þier erfidudud ecke, (c) Adrer hafa erfidad, og þier erud komner jnn j þeirra Erfide.

(c) (Adrer) Spaamennerner hafa nidur saad. 1 Pet. 1. C. Þeir giørdu þad eige fyrer sialfa sig, helldur fyrer oss.

39. Marger Samverser menn af þeim sama Stad trudu a hann, fyrer Konunnar Ord er so vitnade, hann sagde mier allt hvad eg giørt hafde.

40. Enn þa hiner Samversku voru til hans komner, beadu þeir hann, ad hann være hia þeim, og hann var þar tvo Daga.

41. Og miklu fleyre trudu fyrer hans Ord.

42. Og søgdu til Konunnar, Ei truum vier nu framar fyrer þijn Ord, þviad vier sialfer heyrdum, og vitum, ad þesse er sannarlega Christur Lausnare Heimsins.

II. 43. Enn tveimur døgum þar epter, for hann þadann, og reiste til Galileam.

44. Þviad JEsus vitnade þad sialfur, ad eirn Spaamadur er j ongvu gillde a sijnu eigenn Fødurlande.

45. Þa hann kom j Galileam, medtoku hann Galileisker Menn, sem sied høfdu allt þad hann giørde til Jerusalem a Hatijdinne, þvi þeir høfdu og komed til Hatijdardagsins.

46. Og JEsus kom aptur til Cana j Galilea, þar hann hafde giørt Vatn ad Vijne.

Gudsp. XXI. Sunnud. ept. Trinitat.

Og þar var eirn Konunglegur Madur, hvørs Sonur ad laa siukur til Capernaum.

47. Þesse heyrde, ad JEsus var komenn af Gydingalande j Galileam, og for til hans, og bad hann, ad hann fære ofann og hialpade Syne hans, þviad hann være daudsiukur.

48. Og JEsus sagde til hans, Þegar þier siaed ecke Teikn og Stormerke, þa trued þier ei.

49. Þa sagde sa Konunglege Madur til hans, HErra far ofann aadur enn mitt Barn andast.

50. JEsus sagde hønum, far þu, Sonur þinn lifer, og Madurenn trude þvi Orde er JEsus sagde hønum, og gieck þadann.

51. Enn j þvi hann for ofanepter, mættu hans Þienarar hønum, og kunngiørdu hønum seigiande, þitt Barn lifer.

52. Þa spurde hann upp þann Tijma af þeim, a hvørium hønum hefde batnad. Og þeir søgdu hønum, j giær um Siøundu Stund yfergaf Kaldann hann.

53. Þa formerkte Faderenn ad þad var um þann Tijma, a hvørium JEsus sagde hønum, Sonur þinn lifer. Og hann trude, og allt hans Hws.]

54. Þetta er nu þad annad Jarteikn er JEsus giørde, þa hann kom af Gydingalande til Galileam.

## V. Capitule.

JEsus (I) læknar einn sem hafde vered siukur i 38 aar; og (II) forsvarar þetta sitt Verk.

I. Epter þad var ein Hatijd Gydinga, og JEsus for upp til Jerusalem.

2. Enn j Jerusalem hia Fiarhusunum er eitt Vatnsdijke, sem kallast a Ebresku (a) Bethesda, hafande fimm Forbyrge.

(a) (Bethesda) merker eitt Hospital j hvøriu fatækt Folke er giørt til goda, og kiemur af þvi Orde Hesed, þad er Ølmusa edur Miskun, og var þetta fatækra Manna Hus hia þvi Dijke sem þeir Sauder voru geymder sem offrast skylldu, og þeir enu. Siuku væntu sier þessa Velgiørnings j Dijkenu.

3. J þeim laa mikell fiølde Siukra Manna, Blindra, Halltra, Visnadra, bijdande epter Vatnsinns Hræring.

4. Þviad Eingell stie ofann j tilsettann Tijma j Dijked, og hrærde upp Vatned, hvør sem nu firstur stie þar ofann j epter Vatnsins hræring, sa vard heill, af hvørre Sott sem hann var halldenn.

5. Þar var eirn sa Madur, sem þriaatijger og aatta aar hafde siukur leiged.

6. Þa JEsus leit þennan liggiande, og fornam, ad hann hafde so leinge leiged, seiger hann til hans, villtu heilbrigdur verda?

7. Hinn siuke svarade hønum, HErra, eg hefe ei neirn Mann, þa Vatnid hrærest, ad laate mig j Dijked, þvi nær eg kiem ad, þa stijgur annar fyrre jnn enn eg.

8. JEsus sagde til hans, Rijs upp, tak Sæng þijna, og gack burt!

9. Og

9. Og strax vard sa Madur Heilbrigdur,
og tok sijna Sæng og gieck þadann, enn sa sa-
me Dagur var Sabbathsdagur.
10. Pa sogdu Gydingar hønum sem heil-
brigdur var ordenn, Pad er j Dag Sabbaths-
dagur, eige hæfer þier ad bera Sængina.
11. Hann svarade þeim, sa mig heilann
giorde, hann sagde mier, tak Sæng þijna og
gack burt.
12. Pa spurdu þeir hann ad, hvor er sa
Madur, er þier sagde, tak Sæng þijna og
gack?
13. Enn sa sem heilbrigdur var ordenn visse
eige hvor hann var, þviad JEsus hafde viked
j burt fra Folkenu sem þar var j þeim Stad.
II. 14. Epter þad hitte JEsus hann j Muste-
renu, og sagde til hans, sie, nu ertu heill or-
denn, syndga nu ei framarmeir, so ad þig
hende eige eitthvad verra.
15. Sa Madur for og undervijsade Gy-
dingum, ad þad være JEsus, sem hann hefde
giort heilann.
16. Par fyrer ofsoktu Gydingar JEsum,
og leitudust vid ad deyda hann, af þvi ad hann
giorde þetta a Sabbathsdeige.
17. JEsus svarade þeim, Fader minn (b)
verkar allt hingad til, eg verka og.

(b) (Verkar) Pad er, minn Fader helldur ecke Sab bathsdagenn, þvi helld eg hann ecke helldur, helldur erfida eg jafnlega, eins og minn Fader.

18. Enn fyrer þetta soktu Gydingar meir
til ad deyda hann, þviad hann braut eige eina-
sta Sabbathed, helldur sagde og so, ad GUd
være sinn Fader, giorande sig sialfann GUde
jafnann.
19. JEsus svarade og sagde til þeirra, Sann-
lega, sannlega seige eg ydur, Sonurenn fær eckert
af sialfum sier giort, nema þad hann sier
Fodurenn giora, þviad hvad helldst hann giorer,
þad giorer og eins lijka Sonurenn.
20. Pvi Faderenn elskar Sonenn, og sy-
ner hønum allt þad hann giorer, og enn mun
hann syna hønum ønnur Verk meire, so þier
munud undrast.
21. Pviad, so sem Faderinn uppvekur Dau-
da, og lijfgar, so lijfgar og Sonurenn þa sem
hann vill.
22. Pvi eige dæmer Faderenn nockurn,
helldur gaf hann Synenum allann Dom.
23. Ad aller heidre Sonenn, so sem þeir
heidra Fodurenn; hvor hann heidrar ei
Sonenn, sa heidrar ei Fodurenn, sem hann
sende.
24. Sannlega, sannlega seige eg ydur, hvor
mijn Ord heyrer og truer þeim sem mig sende,
sa hefur Eylijft Lijf, og ei kiemur hann j Dom,
helldur hefur hann þreyngst j giegnum fra
Daudanum til Lijfsins.
25. Sannlega, sannlega seige eg ydur, ad su
Stund kiemur, og er nu allareidu, þad
Dauder munu heyra Rodd GUds Sonar,
og þeir sem hana heyra munu lifa.
26. Pviad lijka sem Faderenn hefur Lijfid j
sialfum sier, so gaf hann Synenum ad hafa
Lijf j sier sialfum.
27. Hann gaf hønum og Valld til ad hall-
da Dom, af þvi, ad hann er (c) Mannsins
Sonur.

(c) (Mannsins Sonur) Dømurenn skal openberlega fyrer øllum Mønnum halldenn vera, þar fyrer skal Domarenn og so vera Madur, sem sien kann ad verda, og þo eirnenn sannur Gud, med þvi hann skal eignast Guds Domstol.

28. Eige skulud þier undrast þetta, þviad
su Stund mun koma, a hvørre, þad aller
þeir sem j Grøfunum eru, skulu heyra hans
Rodd.
29. Og þeir munu þa frammganga, sem
gott giordu, til Lijfsins Upprisu, enn þeir
sem illa giordu, til Doms Upprisu.
30. Eige kann eg af mier sialfum ad giora
nockud, eins og eg heyrde, so dæme eg, og
minn Domur er riettur, þviad eg leita eige
mijns Vilia, helldur Fodursins Vilia, þess
er mig sende.
31. Ef eg ber mier sialfum Vitne, þa er
mitt Vitne ecke satt.
32. Par er annar sem af mier ber Vitne,
og eg veit ad hans Vitne er satt, þad hann ber
af mier.

33. Þier sendud til Johannem, og hann bar af Sannleikanum Vitne.

34. Enn eg tek eige Vitne af Monnum, helldur seige eg þetta, uppa þad þier hialpest.

35. Hann var eitt logande og skijnande Lios, enn þier villdud skamma Stund glediast af hans Liose.

36. Eg hefe enn meira Vitne enn Johannis Vitne, þviad þau Verk sem Faderenn gaf mier, ad eg fullkomne, þau somu Verkenn sem eg giore, bera mier vitne, þad Faderenn hafe mig sendt.

37. Og Faderenn sa sem mig sende, hann sialfur bar mier Vitne, eige hafed þier nockurn Tijma heyrt hans Rodd, nie sied hans Mind.

38. Og hans Ord hafed þier ei j ydur bwoande, þviad þeim hann sende, trued þier eige.

39. Rannsaked Ritningena, þviad þier meined ydur j henne ad hafa Eylijft Lijf, og hun er su, hvor af mier ber Vitne.

40. Og ei vilied þier koma til mijn, so ad þier hafed Lijfed.

41. Eg tek ongva Dyrd af Monnum.

42. Enn eg þecke ydur, ad þier hafed eige Guds Elsku j ydur.

43. Eg kom j mijns Fodurs Nafne, og þier medtaked mig eige, ef annar kiemur j sijnu eigenn Nafne, þann medtaked þier.

44. Hvornenn meiged þier trua, þar sem þier taked jnnbyrdis Dyrd hvor af odrum? og þa Dyrd sem af sialfum GUde er, hennar leited þier eige.

45. Eige skulud þier þad meina, ad eg mune klaga ydur fyrer Fodurnum, þar er einn sem ydur klagar, Moyses, a hvorn þier voned.

46. Ef þier tryddud Moysi, so tryddud þier og mier, þviad af mier skrifade hann, * Enn ef þier trued eige hans skrife, Hvornenn meiged þier þa mijnum Ordum trua?

* 1 B. Mos. 3. 15. Cap. 22, 18. Cap. 49, 10. 5 B. Mos. 18, 15.

# VI. Capitule.

JEsus (I) fæder 5000. Manna: (II) Gengur a Sionum: (III) Ræder vid sijna Læresveina um þa Fædu sem duger til Eylijfs Lijfs.

Gudspialled a Sunnud. j Midfostu.

1. Epter þad for JEsus burt, yfer um Sioenn hia Stadnum Tiberias j Galilæa.

2. Og mikell Mannfiolde filgde honum epter, af þvi þeir sau þaug Teikn er hann giorde a Siukum.

3. JEsus gieck þa uppa eitt Fiall, og settest þar med sijnum Læresveinum.

4. Og þa var og Paaska Hatijd Gydinga nalæg.

5. JEsus hoof þa upp sijn Augu, og sa ad margt Folk dreif ad honum, þa sagde hann vid Philippum, Hvar kaupum vier Braud, þad þesser neyte?

6. Enn þetta sagde hann af þvi, ad hann villde reyna hann, þviad hann visse vel hvad hann villde giora.

7. Philippus svarade honum, Braud fyrer Tvohundrud peninga, nægest þeim ei, so ad hvor eirn fae nockud lijtid.

8. Þa sagde honum eirn af hans Læresveinum, Andreas Broder Simonar Petri.

9. Hier er eirn lijtell Pilltur, sa hefur fimm Byggbraud og tvo Fiska.

10. Enn hvad er þad a medal so margra? Þa sagde JEsus, skicked Folkenu j Sætenn. Þar var j þeim stad miked Gras, Þa settust nidur nær Fimm Þusunder manns.

11. JEsus tok Braudenn og giorde þacker, og fieck sijnum Læresveinum, Enn Læresveinarner feingu þeim sem nidur hofdu setst. Lijka eirnenn af Fiskunum so mikid sem hann villde.

12. Enn þa þeir voru metter, sagde hann til sinna Læresveina, safned samann þær Leifar sem afganga, so eckert spillest.

13. Enn þeir sofnudu samann og fylltu upp tolf Karfer med þessar Leifar af fimm Byggbraudum, sem þeir leifdu er Mat hofdu feinged.

14. Þa Menn sau þad, ad JEsus giorde þetta Teikn, sogdu þeir, Þesse er Sannarlega sa Spamadur sem j Heimenn skal koma.

15. Enn þa JEsus formerkte, ad þeir mundu

mundu koma ad griipa hann, og giora hann ad Konge, flyde hann eirn upp aptur a Fialled.]

II. 16. Ad Kvollde geingu hans Læresveinar ofan til Siafar.

17. Og stigu a Skip, og komu yferum Sioenn til Capernaum, og þa var þegar mirkt ordid. JEsus var þa eige komenn til þeirra.

18. Enn Siorenn tok ad æsast upp af miklu Vedre.

19. Þeir hofdu þa roed fimm og tuttugu, edur þriaatijger Akraleingder, þa sau þeir JEsum ganganda og Sionum, og komenn nær Skipenu, þeir ottudust þa.

20. Enn hann sagde til þeirra, Eg em þad, ottest þier eige.

21. Þa villdu þeir hafa teked hann jnn a Skiped, og jafnsnart var Skiped komed ad þvi Lande sem þeir foru til.

III. 22. Annann Dag epter, sca Folked, sem hinumeigenn Siafarens stod, ad eige var þar annad Skip til, nema þad eina sem hans Læresveinar hofdu cistiigid, og JEsus hafde ei sialfur stijgid a þad Skip med sijnum Læresveinum, helldur voru hans Læresveinar einer af stad farner.

23. Þar komu og yfer um onnur Skip fra Tiberias, hart nær þeim stad, sem þeir hofdu Braudenn eted fyrer Herrans Þackargiord.

24. Og þa Folkid sa nu, ad JEsus var eige þar, og eige helldur hans Læresveinar, stie þad a Skipenn, kom til Capernaum, og leitade ad JEsu.

25. Og þa þeir hofdu funded hann hinumeigenn Siafarins, sogdu þeir til hans, Rabbi, nær komstu hingad?

26. JEsus svarade þeim og sagde, sannlega, sannlega seige eg ydur, þier leitid mijn eige af þvi, ad þier scaud Teiknenn, helldur af þvi ad þier neyttud af Braudunum, og urdud sadder.

27. (a) Verkid Fædu, ecke þeirrar sem forgeingur, helldur þeirrar sem stodug bliifur til Eylijfs Lijfs, hvoria ad Mannsins Sonur mun giefa ydur, þviad GUd Fader hefur hann (b) innsiglad.

(a) (Verked) Umgangest med soddan Fædu.

(b) (Insiglad) hann bigafade hann og utbio med Heilogum Anda, so ad hann alleina er giefenn, og settur ollum til Meistara, og Hialpara, epter hvorium aller eiga ad haga og hegda sier.

28. Þa sogdu þeir til hans, hvad skulum vier þa giora so vier giorum GUds Verk?

29. JEsus svarade og sagde þeim, þad eru GUds Verk, ad þier trued a hann, þann hann sende.

30. Þa sogdu þeir til hans, hvad giorer þu fyrer Teikn, so ad vier siaum, og truum þier? hvad giorer þu?

31. Fedur vorer ctu Manna j Eydemorku, sem skrifad stendur, * hann gaf þeim ad eta Braud af Himne.

* 2 B. Mos. 16, 15. 4 B. Mos. 11, 7. Psal. 78, 24, 25.

32. Þa sagde JEsus til þeirra, sannlega, sannlega seige eg ydur, ad ei gaf Moyses ydur Braud af Himne, helldur giefur Fader minn ydur þad rietta Braud af Himne.

33. Þvi þad er GUds Braud sem kiemur af Himne, og Heimenum giefur Lijf.

34. Þeir sogdu þa vid hann, HErra, gief þu oss jafnann þetta Braud.

35. Enn JEsus sagde til þeirra, eg em Lijfsins Braud, hvor hann kiemur til mijn, þann mun ei hungra, og sa hann truer a mig, hann mun alldrei þyrsta.

36. Enn eg hefe sagt ydur, þad þier hafed mig sienann, og trued þo eige.

37. Allt hvad minn Fader giefur mier, þad kiemur til mijn, og hvorn þann sem til mijn kiemur, hann mun eg eige utreka.

38. Þviad eg er komenn af Himne, ei uppa þad, ad eg giore minn Vilia, helldur hans sem mig sende.

39. Þetta er Fodursins Vilie, þess er mig sende, ad eg glate ongvu, af ollu þvi sem hann gaf mier, helldur skal eg uppvekia þad a efsta Deige.

40. Enn

40. Enn þad er Vilie þeſs er mig ſende, ad hvor ſa ſem Sonenn ſier, og truer a hann, haſe Eylijft Lijf. Og eg mun uppvekia hann a effſta Deige.

41. Þa mogludu Judar yfer þvi, þad hann ſagde, eg em þad Braud, hvert ed oſann kom af Himne.

42. Og þeir ſogdu, er eige JEſus þeſſe Sonur Joſephs, hvors ad vier þeckium bæde Fodur og Modur? hvornenn ſeiger hann þa, þad eg em komenn af Himne?

43. JEſus ſvarade og ſagde til þeirra, mogled ei jnnbyrdis.

44. Eingenn fær til mijn komed, nema ſo ſie, ad Faderenn, ſem mig ſende, drage hann, og eg mun uppvekia hann a effſta Deige.

45. So er ſkrifad j Spaamanna Bokum. Ad * þeir munu aller verda af GUde lærder. Hvor hellſt nu heyrer af Fodurnum, og lærer þad, ſa kiemur til mijn. * Eſ. 54, 13. Jer. 31, 33.

46. Eige þad, ad nockur hafe Fodurenn ſienann, nema ſa ſem er af GUde, hann hefur ſied Fodurenn.

47. Sannlega, ſannlega ſeige eg ydur, hvor ſem a mig truer, hann hefur Eylijft Lijf.

48. Eg em Lijfſins Braud.

49. * Fedur ydar aatu Manna j Eydemorku, og eru Dauder. * 2 B. Moſ. 16, 15.

50. Þetta er þad Braud ſem kiemur af Himne, ſo ad hvor ſem etur af þvi, hann deyr ei.

51. Eg em þad Lifanda Braud, ſem af Himne kom, hvor ſem etur af þeſſu Braude, ſa lifer eylijflega, og þad Braud ſem eg mun giefa er mitt Holld, hvort eg mun giefa, fyrer Lijf Veralldarennar.

52. Judar þrættudu þa ſijn a mille, ſo ſeigiande, hvornenn fær þeſſe giefid oſs ſitt Holld ad eta?

53. JEſus ſagde til þeirra, ſannlega, ſannlega ſeige eg ydur, nema ef þier eted Holld Mannſins Sonar, og drecked hans Blod, þa hafed þier ei Lijfed j ydur.

54. Hvor hann etur mitt Holld, og dreckur mitt Blod, ſa hefur Eylijft Lijf, og eg mun uppvekia hann a effſta Deige.

55. Þvi mitt Holld er ſonn Fæda, og mitt Blod er ſannur Dryckur.

56. Hvor hann etur mitt Holld og dreckur mitt Blod, ſa blijfur j mier, og eg j honum.

57. Lijka ſem ad mig ſende ſa Lifande Fader, og eg life ſaker Fodurſins, ſo og hvor hann etur mig, ſa mun og lifa fyrer mijnar Saker.

58. Þetta er þad Braud ſem af Himne komid er, eige ſo ſem þad ydar Fedur aatu Manna, og eru Dauder, hvor hann etur þetta Braud, ſa lifer ad Eylijfu.

59. Þetta ſagde hann j Samkunduhuſenu þa hann kiennde til Capernaum.

60. Enn marger af hans Læreſveinum, þa þeir nu þetta heyrdu, ſogdu, Hord er þeſſe Ræda, hvor kann henne ad heyra?

61. Enn er JEſus viſſe med ſialfum ſier, ad hans Læreſveinar mogludu af þeſſu, þa ſagde hann til þeirra, hneixlar ydur þetta?

62. (c) Hvad mun þa, þegar þier ſiaed Mannſins Son, uppſtijga þangad ſem hann var fyrr?

(c) (Hvad) Hneixle þad ydur ſem eg nu tala a Jørdunne, hvad vill þa verda, þegar eg mun Stiorna a Himnum, og framm ſilgia og fullkomna þad, ſo ſem eg hefe talad.

63. Andenn er ſa er lijfgar, Hollded er til einſkis neytt, þau Ord er eg tala, þau eru Ande og þau eru Lijf.

64. Enn nockrer eru þeir af ydur hvorier ei trua. Þviad JEſus viſſe af Upphafe, hvorier eige voru Truader, og hvor ſa var er hann munde ſvijkia.

65. Og hann ſagde, fyrer þvi ſagde eg ydur, þad eingenn fær til mijn komid, nema ad honum ſie þad giefid af mijnum Fodur.

66. Epter þad geingu marger af hans Læreſveinum aptur til baka, og geingu eige leingur þadann af med honum.

67. Þa ſagde JEſus til þeirra Tolf, Vilied þier og fraganga?

68. Enn honum ſvarade Simon Petrus,

Herra

Herra, til hvors skulum vær fara? Þu hefur Ord Eylijfs Lijfs.

69. Og vier trudum og skildum, þad þu ert Christur, Sonur Guds Lifanda.

70. JEsus svarade þeim, Hef eg eige utvaled ydur Tolf? Og eirn af ydur er Diofull.

71. Enn hann sagde af Juda Simonis Jschcarioth, Þvi hann sveik hann sijdann, og var eirn af Tolf.

## VII. Capitule.

JEsus (I) fer up til Mustere-sins og (II) Predikar i Musterenu.

I. Epter þad ferdadest JEsus um kring j Galilea, þviad hann villde ei ferdast umkrijng j Judea, af þvi ad Gydingar villdu j hel sla hann.

2. Þa var og nælæg Hoatijd Gydinga, sem var Laufskaalanna tilbunadur.

3. Brædur hans sogdu þa til hans, Tak þig upp og gack til Judalands, so ad þijner Læresveinar siae eirnenn þau Verk er þu giorer.

4. Þviad sannlega giorer eingenn sa nockud leynelega, sem sialfur hann epter leitar kunnur ad verda. Ef þu gioret þad, þa opinbera þu þig fyrer Heimenum.

5. Þvi hans Brædur trudu ei helldur a hann.

6. JEsus sagde þa til þeirra, Minn tijme er enn eige komenn, enn ydar tijme er jafnan.

7. Heimurenn fær ydur ei hatad, enn mig hatar hann, þviad eg ber Vitnisburd af honum, þad hans Verk eru vond.

8. Fared þier upp til þessarar Hoatijdar, eg vil enn ei fara upp til þessarar Hoatijdar, þviad minn tijme er enn eige uppfylldur.

9. Enn þa hann hafde sagt þeim þetta, vard hann epter j Galilea.

10. Nu sem hans Brædur voru uppfarner, þa for hann og sialfur upp til Hoatijdarennar, eige opinberlega, helldur so sem a laun.

11. Judar leitudu þa ad honum um Hoatijdena, og sogdu, Hvar er hann?

12. Og mikell Krytur var j Lydnum um hann. Sumer sogdu, Godur er hann, enn adrer sogdu, Nei, helldur leider hann Lydenn afvega.

13. Enn eingenn talade þo bert um hann, fyrer hrædslu saker vid Gydinga.

14. Enn ad halfnadre Hoatijdenne, stie JEsus upp j Musterid, og kiende.

15. Judar undrudust, so seigiande, Hvornenn kann þesse Ritningarnar, med þvi ad hann lærde þær ei?

II. 16. JEsus svarade þeim og sagde, Minn Lærdomur er ei minn, helldur hans er mig sende.

17. Ef sa er nockur sem giora vill hanns Vilia, hann reyner hvort þesse Lærdomur er af Gude, eda hvort eg tala af sialfum mier.

18. Hvor sem af sialfum sier talar, sa leitar sinnar eigenn Dyrdar, enn hvor hann leitar þess Dyrdar sem hann sende, hann er sannordur, og eckert Rangglæte er med honum.

19. Gaf Moyses ydur ei * Log, og eingenn ydar (a) helldur Logenn? Edur þvi sæked þier epter ad lijflaata mig?

* 2 B. Mos. 20, 2. Cap. 24, 3.

(a) (Helldur) Fullkomnar, Rom. 8. Þad sem Logmaalenu var omogulegt, og c. Sup. 5, 18.

20. Lydurenn svarade og sagde, Diofulenn hefur þu, Hvor sæker ad lijflaata þig?

21. JEsus svarade og sagde, Eitt Verk gierda eg, og þad undrest þier aller.

22. Moyses gaf ydur þvi * Umskurnena, eige þad hun være af Moyse komenn helldur af ** Forfedrunum, Og þo umskiered þier Mannenn a (b) Sabbathsdeige.

* 3 B. Mos. 12, 3. ** 1 B. Mos. 17, 10.

(b) (Sabbathsdeige) Ad hallda Sabbathed er Mosis Logmaal, Ad umskiera er Fedranna Logmaal, Nu er hier hvort a mote odru, Þegar nockur lætur sig umskiera a Sabbaths Deige, og þad eina hlytur so ad vijkia fyrer odru, Þar fyrer er ecke Logmaalsins fullusta komenn under Bokstafnum; helldur j Andanum.

23. Nu ef Madurenn medtekur Umskurnena a Sabbathsdeige, so ad eige briotest Moysis Logmal, enn þier reidest þo vid mig,

þad eg giörde allann Mannenn heilann a Sabbathsdeige.
24. Þier skulud eige dæma epter æsýnd, helldur dæmed riettann Dom.
25. Pa sögdu nockrer af Jerusalem, Er þad ecke sa sem þeir soktu til ad lijflaata?
26. Siaed, Nu talar hann openberlega, og þeir seigia eckert til hans, Eda vita vorer Hofdingiar þad vijst, ad þesse er sannur Christur?
27. Enn vier vitum þo hvadann hann er, Enn þa Christur kiemur, veit eingenn hvadann hann er.
28. Pa kallade JEsus j Musterenu kiennande, og seigiande, Þier þecked mig og vited hvadann eg em, Og eg kom eige af sialfum mier, helldur er hann sannordur, sa mig sende, hvorn þier þecked ei.
29. Enn eg þecke hann, þviad eg em af honum, og hann hefur utsendt mig.
30. Pa soktu þeir epter ad grijpa hann, enn eingenn lagde þo Hendur a hann, þviad eige var hans tijme enn komenn.
31. Enn margt af Folkenu trude a hann og sögdu, Pa Christur kiemur, mun hann giöra nockud fleyre Teikn enn þesse giörer?
32. Og þad kom fyrer Phariseana, ad Folked krytte þetta um hann, þa sendu Prestahofdingiar og Pharisei Þienara ut, ad þeir handtæke hann.
33. JEsus sagde til þeirra, litla Stund em eg enn hia ydur, og þa fer eg til hans sem mig sende.
34. Þier munud leita mijn, og finna mig ei, og þar sem eg er, þangad faed þier eige ad koma.
35. Pa sögdu Gydingar sijn a mille, Hvört vill hann fara so vier finnum hann ecke? Eda vill hann ganga medal Grickia, sem hingad og þangad sundur dreifder liggia, og kienna Grickium?
36. Hvad fyrer Ræda er þad sem hann sagde? Þier leited mijn og finned ecke, og þar sem eg er, þangad faed þier eige ad koma.
37. Enn a sidarsta Deige Hatijdarennar, sem var veglegastur, gieck JEsus upp, og kallade, so seigiande, Ef nockurn þyrster, kome hann til mijn, og drecke.
38. Hvor hann truer a mig, so sem Ritningenn seiger, * af hans Kvide skulu frammfliota Straumar Lifanda Vatns. *Es. 44, 3. Joel. 2, 28.
39. Enn þetta sagde hann um þann Anda, hvörn þeir skylldu medtaka, sem a hann trydu, þvi Heilagur Ande var þar ei enn, þviad JEsus var enn eige auglystur.
40. Og marger af Lydnum sem heyrdu þessa hans Rædu, sögdu, Þesse er sannur Spaamadur.
41. Adrer sögdu, Hann er Christur: Enn sumer sögdu, Skal Christur nockud koma af Galilea?
42. Seiger eige Ritninginn, ad Christur kome af Davids Sæde, og wr Stadnum * Bethlehem, þar sem David var? * Mich. 5, 2.
43. So vard ein Tvidrægne med Folkenu um hann.
44. Enn nockrer af þeim villdu hafa gripid hann, enn eingenn lagde þo Hendur a hann.
45. Þienararner komu aptur til þeirra yppurstu Presta og Phariseanna, og þeir sögdu til þeirra, þvi hofdud þier hann eige hingad?
46. Þienararner svörudu, þar hefur alldrei nockur Madur so talad sem þesse Madur.
47. Pa svörudu Pharisei þeim, hvört erud þier og villter?
48. Truer nockur Hofdingianna edur af Phariseis a hann?
49. Helldur þad Folk sem eckert veit af Lögmaalenu, er bölvad.
50. Nicodemus sagde til þeirra, sa sem kom til hans um Nott, hvor ed var eirn af þeim.
51. Dæmer vort Lögmaal nockud * Mannenn nema hann sie fyrre ransakadur, hvad hann giörer? * 5 B. Mos. 19, 15.
52. Þeir svörudu og sögdu til hans. Ertu og

og so einn af Galileis? Ransaka þu og skoda, þad af Galilea rijs ecke Spœmadur upp.
53. Og hvør gieck so heim.

## VIII. Capitule.

JEsus (I) vill ecke dæma Konuna sem var gripenn i Hordome: (II) Kunngiører sijna Burtfør: (III) Talar um sitt Sakleyse.

I. Og JEsus gieck þa til Oliufiallsins.
2. Og snemma ad Morgne kom hann aptur j Musterid, og allt Folked kom til hans, og hann sette sig og kiende þeim.
3. Enn hiner Skriftlærdu og Pharisearar leiddu framm fyrer hann þa Konu, sem j Hordome var gripenn, og settu hana þar j midid.
4. Og søgdu til hans, Meistare, þesse Kona er nu gripenn ad ferskum giørninge j Hordome.
5. Enn Moyses bydur oss j Løgmaalenu, * ad beria þess hꝍattar menn Griote, eda hvad seiger þu til?
*3 B. Mos. 20, 10. 5 B. Mos. 22, 22.
6. Enn þetta søgdu þeir, ad þeir freistudu hans, ad þeir mættu so hafa ꝍakiæru til hans, enn JEsus laut nidur og ritade med Fingrenum a Jordena.
7. Og sem þeir lietu ei af ad spyria hann, þa riette hann sig upp, og sagde til þeirra, hvør ydar sem er ꝍan Syndar, kaste sa fyrsta Steine a hana.
8. Pa laut hann nidur aptur, og ritade a Jordena.
9. Pa þeir heyrdu þetta, geingu þeir ꝍt, einn epter ødrum, first Olldungarner. JEsus var þa einn epter, og Konann þar standande.
10. Enn JEsus riette sig upp, og er hann sa þar øngvann nema Konuna, sagde hann til hennar, Kona, hvar eru þeir sem þig ꝍaklaga? hefur eingenn fordæmt þig?
11. Enn hun sagde, HErra, eingenn. JEsus sagde, so fordæme eg þig og ecke helldur, gack hiedann, og syndga nu ei optar hiedanaf.
12. JEsus talade enn aptur til þeirra, og sagde, eg em Lios Heimsins, hvør hann filger mier epter, sa mun ei ganga j Myrkrunum, helldur skal hann hafa Lios Lijfsins.
13. Pa søgdu Pharisei til hans, þu ber Vitne af sialfum þier, þinn Vitnisburdur er eige sannur.
14. JEsus svarade og sagde til þeirra, ef eg ber af sialfum mier Vitne, þa er minn Vitnisburdur sannur, þvi eg veit hvadann eg kom, og hvort ad eg fer. Enn þier vitid eige hvadan eg kom, eda hvort eg fer.
15. Pier dæmed epter Holldenu, eg dæme øngvann.
16. Enn ef eg dæme, þa er minn Domur riettur, þviad eg er ei einnsamall, helldur eg og Faderenn, er mig sende.
17. So er og skrifad j Løgum ydar, * ad tveggia manna Vitnisburdur sie sannur.
* 5 B. M. 17, 6. Cap. 19, 15.
18. Eg em sa sem af sialfum mier ber Vitne, og Faderenn sa mig sende, hann ber og af mier Vitne.
19. Pa søgdu þeir til hans, hvar er þinn Fader? JEsus svarade, eige þecked þier mig nie minn Fodur. Ef þier þecktud mig, þa þecktud þier lijka minn Fodur.
20. Þesse Ord talade JEsus vid Gulds Kistuna, þa hann kiende j Musterenu, og eingenn tok hann, þvi hans Stund var enn eige komenn.
II. 21. Pa sagde JEsus aptur til þeirra, eg fer burt, og þier munud leita mijn, og j Syndum ydar deya, hvort eg fer, þangad kunned þier ei ad koma.
22. Pa søgdu Gydingar, mun hann þa vilia drepa sialfann sig, þad hann seiger, hvort ad eg fer, þangad kunned þier ei ad koma?
23. Pa sagde hann þeim, þier erud hier nedan ad, eg em ad ofann, þier erud af þessum Heime, eg em ei af þessum Heime.
24. Pvi sagde eg ydur, ad þier munud deya j ydrum Syndum, þvi ef þier trued ei ad eg sie hann, þa munud þier deya j ydrum Syndum.
25. Pa søgdu þeir til hans, hvør ert þu þa?

JEsus sagde til þeirra. (a) First sa, eg sem tala vid ydur.

(a) (Fyrst sa) þad er, eg er ydar Predikare, þa þier first trued þvi, þa skulud þier vel fornema hvør eg er, enn annars ecke.

26. Margt hef eg ad tala, og dæma um ydur, enn sa mig sende, hann er sannordur, og hvad eg heyrde af hønum, þad tala eg fyrer Heimenum.

27. Enn þeir skildu eige ad hann sagde þeim af Fødurnum.

28. Pa sagde JEsus til þeirra, nær þier upphefied Mannsins Son, þa skulud þier skilia ad eg sie hann, og af mier sialfum giøre eg eckert, helldur eins og mier kiende minn Fader, so tala eg.

29. Og sa er mig sende, hann er med mier, Faderenn liet mig ei einsamann, þviad eg giøre jafnann, þad hønum er þægt.

30. Pa hann talade þetta, trudu marger a hann

31. Pa sagde JEsus til þeirra Gydinga sem a hann trudu, ef þier blijfed vid mijna Rædu, þa erud þier mijner sanner Læresveinar.

32. Og þa þeckiet þier Sannleikann, og Sannleikurenn mun frelsa ydur.

33. Pa svørudu þeir hønum, vier erum Abrahams Sæde, og alldrei hofum vier nockurs Mans Prælar verid, hvornenn seiger þu þa, þier skulud frialser verda?

34. JEsus svarade þeim, og sagde, sannlega, sannlega seige eg ydur, hvør hellst sem Syndena giører, sa er Syndarennar Præll.

35. Prællenn blijfur ei eylijflega j Hwsinu, enn Sonurenn blijfur þar eylijflega.

36. Nu ef Sonurenn frelsar ydur, þa erud þier riettelega frelsader.

37. Eg veit vel ad þier erud Abrahams Sæde, enn þier sæked til ad deyda mig, þviad mijn Ræda hefur ecke rwm j ydur.

38. Eg tala þad sem eg sied hefe, af mijnum Fødur, og hvad þier saud hia ydrum Fødur, þad giøred þier.

39. Þeir svørudu og søgdu til hans, Abraham er vor Fader, þa sagde JEsus þeim, ef þier værud Abrahams Børn, þa giørdud þier Abrahams Verk.

40. Enn nu leited þier epter ad lijflaata mig, þann Mann þo, sem Sannleikann seiger ydur, þann eg heyrde af GUde, þetta giørde eige Abraham.

41. Þier giøred ydar Fødurs Verk, þa svørudu þeir, eige erum vier fyrer utann Egtaskap fædder, einn GUd høfum vier fyrer Fødur.

42. JEsus sagde þa til þeirra, ef GUd være ydar Fader, þa elskudud þier mig, þvi eg em af GUde komenn, og framgeingenn, þvi eige kom eg af sialfum mier, helldur sende hann mig.

43. Fyrer þvi þeckeð þier þa ecke mitt Mœal, af þvi þier geted ei heyrt mijn Ord.

44. Þier erud af fødurnum Fianda, og epter Gyrndum ydars Fødurs þa vilied þier giøra, hann var einn Mordinge þegar ad upphafe, og eige stod hann j Sannleikanum, þviad Sannleikurenn er eige j hønum, þa hann talar Lyge, talar hann af sijnu eigenn, þvi hann er einn Lijgare, og hennar Fader.

45. Enn mier, af þvi eg seige Sannleikann, þa vilied þier eige trua.

Gudsp. V. Sunnud. i Føstu.

III. 46. Hvør ydar kann ad bevijsa uppa mig nockra Synd, nu ef eg seige Sannleikann, þvi trued þier mier þa eige?

47. Hvør hann er af GUde, sa heyrer GUds Ord, af þvi heyred þier eige, ad þier erud eige af Gude.

48. Pa svørudu Judar og søgdu hønum, seigium vier ecke riett, ad þu ert Samverskur, og hefur Diøfulenn?

49. JEsus svarade, eg hefe ongvann Diøful, helldur vegsama eg Fødur minn, og þier vanheidred mig.

50. Eg leita ei ad minne Dyrd, sa er sem ad henne leitar og dæmer.

51. Sannlega, sannlega seige eg ydur, ef nockur er sa sem helldur (b) mijn Ord, hann mun ei sia Daudann ad eylijfu.

(b) (Mijn

(b) (Mijn Ord) Þad er talad um Ord Truarennar, edur Evangelium.

52. Þa sögdu Judar vid hann, nu þeckium vier ad þu hefur Diöfulenn, Abraham er daudur og Spaamennerner, og þu seiger, ef nockur er sa sem geymer mijn Ord, hann mun eige Daudann smacka ad eylijfu.

53. Edur ertu meire Födur vorum Abraham, hvor frammlidenn er, og Spaamennerner eru og frammlidner, hvorn giorer þu sialfann þig?

54. JEsus svarade, ef eg vegsama mig sialfur, þa er mijn Dyrd eingenn, þar er minn Fader, sa mig vegsamar, hvörn þier seiged ydvarn Gud vera.

55. Og þeeked hann þo ei, enn eg þecke hann, og ef eg segde, ad eg þeckte hann eige, þa være eg eirn Liugare lijkur ydur, helldur þecke eg hann og helld hans Ord.

56. (c) Abraham Fader ydar gladdest, ad hann skyllde sia minn Dag, og hann sa hann, og vard gladur vid.

(c) (Abraham) Aller Heilager fra Verallbarennar upphafe, hafa haft þa sömu Tru til Christum, sem vier höfum, og eru riett Christner.

57. Þa sögdu Judar til hans, Þu ert enn eige fimmtugur, þo saastu Abraham.

58. JEsus sagde til þeirra, Sannlega, sannlega seige eg ydur, aadur enn Abraham var, em eg.

59. Þa toku þeir upp Steina, ad þeir kostudu a hann, Enn JEsus fordade sier, og gieck vor Musterinu, ] og giecck midt vt j millum þeirra og komst so undann.

# IX. Capitule.

JEsus giörer einn Siaande, sem var Fæddur Sionlaus.

Og þa JEsus giecck framm hia, sa hann þann eirn Mann, sem Blindur var borenn.

2. Hans Læresveinar spurdu hann þa ad og sögdu, Meistare, Hvor braut? hann, edur hans Forelldrar, ad hann fæddest Blindur?

3. JEsus svarade, hvörke hann nie hans Forelldrar, helldur ad Guds Verk auglysist a honum.

4. Mier byriar ad verka hans Verk, þess mig sende, a medan Dagurenn er: Nottenn kiemur nær eingenn fær verkad.

5. So leinge sem eg er j Verolldinne, þa em eg Lios Veralldar.

6. Þa hann hafde þetta sagt, spytte hann a jordena, og giorde af Hraakanum Saur, og smurde Saurnum a Augu hins blinda.

7. Og sagde honum, Far þu til Dykesins Siloa, (hvad ad þydest sendur) og þvo þier, Þa giecck hann og þvode sier, og kom siaande.

8. Þa sögdu Naagrannar hans, og þeir sem hann hofdu aadur sied, ad hann var Blindur, er þad eige sa sem sat og beidde? Sumer sögdu, Hann er þad.

9. Enn adrer sögdu, Lijkur er hann honum, Hann sialfur sagde, eg em sa.

10. Þeir sögdu þa vid hann, Hvernenn eru þijn Augu upplokenn?

11. Hann svarade og sagde, Sa Madur sem nefnest JEsus giorde sier Saur, og reid a mijn Augu, og hann sagde mier, Far þu til Dykesins Siloa, og þvo þier, eg geck burt og þvode mier, og fieck Synena.

12. Þeir sögdu til hans, Hvar er hann? Hann sagde, Eg veit eige.

13. Þa leiddu þeir hann fyrer Phariseos, sem leinge hafde blindur vered.

14. Enn þa var Sabbathsdagur er JEsus giorde þann Saurenn, og opnade hans Augu.

15. Þa spurdu Pharisei hann enn ad, hvörnenn hann hefde ordid siaande? Enn hann sagde þeim, Saur lagde hann a mijn Augu, og eg þvode mier, og nu sie eg.

16. Þa sögdu sumer af Phariseis, Eige er þesse Madur af Gude, þviad hann helldur eige Sabbathsdagenn, enn adrer sögdu, hvörnenn maa Syndugur Madur giora þvilijk Teikn? Og þar vard sundurþyckia þeirra a mille.

17. Pa sogdu þeir aptur til hins Blinda, hvad seiger þu af honum, þad hann opnade þijn Augu? enn hañ sagde, Spamadur er hañ.

18. Gydingar trudu eige um hann, ad hann hefde Blindur verid, og være nu skygn ordenn, þangad til þeir kolludu a hans Forelldra, sem Synena hafde feinged.

19. Og spurde þa ad so seigiande, er hann yckar Son, hvorn þier seiged blindann borenn vera, eda hvornenn sier hann nu?

20. Hans Forelldrar svorudu þeim og sogdu, vid vitum ad þesse er ockar Sonur, og þad hann var blindur borenn.

21. Enn med hvorium hætte hann sier nu, þad vitum vid ei, eda hvor hans Augu opnade, þad vitum vid ei, hann hefur sialfur Alldur til, spyried hann ad, og lated hann sialfann tala fyrer sig.

22. Þetta sogdu hans Fedgin, af þvi ad þau ottudust Gydinga, þviad Gydingar hofdu þa þegar sambundid med sier, þad ef nockur medkiende hann fyrer Christum, ad sa skyllde utrekast af þeirra Samkundum.

23. Fyrer þvi sogdu hans Fedgin, hann er nogu gamall, spyried hann ad.

24. Pa kolludu þeir aptur j odru sinne a þann Mann sem blindur hafde verid, og sogdu honum, gief GUde Heidurenn, vier vitum ad þesse Madur er syndugur.

25. Hann svarade og sagde, er hann syndugur, þad veit eg ecke, eitt veit eg, ad eg var Blindur, og nu sie eg.

26. Þeir sogdu þa til hans, hvad giorde hann þier, edur hvornenn lauk hann upp þijnum Augum?

27. Hann svarade þeim, Eg sagde ydur nu þad, hafid þier ecke heyrt þad? Til hvors vilied þier heyra þad aptur? Eda vilied þier verda hans Læresveinar?

28. Pa bolvudu þeir honum, og sogdu, Þu ert hans Læresveinn, Enn vær erum Moyses Læresveinar.

29. Vier vitum ad Gud talade vid Moysen, enn vier vitum eige hvadann þesse er.

30. Sa Madur svarade og sagde þeim, þad er undarlegur hlutur, ad þier vited eige hvadann hann er, og þo lauk hann upp mijnum Augum?

31. Enn vier vitum ad Gud heyrer eige Synduga, helldur þad ef nockur er Guds Dyrdkare, og giorer epter hans Vilia, þann heyrer hann.

32. Fra Veralldar Upphafi hefur þad eige heyrt vered, ad nockur hafe uppluked þess Manns Augum, sem Blindur var borenn.

33. Være þesse eige af Gude, þa mætte hann eckert giora.

34. Pa svorudu þeir og sogdu til hans, Allur ertu j Synd alenn, og þu kienner oss, Og þa raku þeir hann ut.

35. Pa JEsus heyrde þad, ad þeir hofdu hann utreked, Og er hann fann hann, þa sagde hann til hans, Truer þu a Guds Son?

36. Hann svarade og sagde til hans, Herra, Hvor er hann, so eg true a hann?

37. JEsus sagde til hans, þu svast hann, og hann sem talar vid þig, sa er hann.

38. Hinn svarade, HErra, eg true, og hann tilbad hann.

39. JEsus sagde, til Doms kom eg j þennann Heim, ad þeir sem ecke sia skylldu verda siaande, og ad þeir verde Blinder sem sia.

40. Og nockrer af Phariseis heyrdu þetta, sem hia honum voru, og sogdu til hans, hvort erum vier þa Blinder?

41. JEsus sagde þeim, ef þier værud blinder, þa hefdud þier ongva Synd, nu first þier seiged, vier siaum, þa blijfur ydar Synd.

## X. Capitule.

JEsus talar (I) um retta Ingaungu i Saudahused; og (II) um sig þann Goda Hirder.

Gudsp. a III. i Hvijta Sunnu.

I. Sannlega, sannlega seige eg ydur, hvor hann geingur eige jnn um Dyrnar, j Saudahused, helldur stijgur hann jnn annarstadar, sa er Þiofur og Mordingi.

2. Enn sa sem geingur jnn um Dyrnar, hañ er Hyrder Saudanna.

3. Fyrer honum lykur Dyravordurenn upp, og Sauderner heyra hans Rodd, og hann kallar sijna Saude med Nafne, og leider þa vt.

4. Og þa hann hefur sijna Saude vtleatid, geingur hann framm fyrer þeim, Sauderner filgia og honum epter, þviad þeir þeckia hans Rodd.

5. Enn odrum annarlegum filgia þeir ei epter, helldur flya þeir fra honum, þviad þeir þeckia eige okunnugra Rodd.

6. Þennann Ordskvid talade JEsus til þeirra, enn þeir skildu eige hvad þad var er hann sagde þeim.

7. Þa sagde JEsus enn aptur til þeirra, sannlega, sannlega seige eg ydur, eg em Dyr Saudanna.

8. Aller hvorier hellst fyrer mier eru komner, þeir voru Þiofar og Mordingiar, og Sauderner hlyddu þeim eige.

9. Eg em Dyrnar, ef nockur geingur inn fyrer mig, sa mun frelsast, hann mun og ganga vt og inn, og finna sitt Foodur.

10. Þiofurenn kiemur ei til annars enn hann stele, drepe og fordiarfe, eg em komenn til þess ad þeir skylldu hafa Lijf og fulla Nægd.]

Gudsp. II. Sunnud. epter Paaska.

II. 11. Eg em godur Hirder, godur Hirder giefur sitt Lijf ut fyrer Saudena.

12. Enn Leigumadurenn, sa ei er Hirder, og hvors Sauderner eru ei eigennleger, hann sier Ulfenn koma, og yfergiefur Saudena og flyr, enn Ulfurenn grijpur þa og sundurdreifer Saudunum.

13. Enn Leigumadurenn flyr, af þvi ad hann er Leigumadur, og hirder eckert um Saudena.

14. Eg em godur Hirder, og eg þecke mijna Saude, og eg þeckest af mijnum.

15. So sem ad minn Fader þecker mig, og eg þecke Fodurinn, og mitt Lijf legg eg ut fyrer Saudena.

16. Eg hefe og enn adra Saude, sem ei eru af þessu Saudahwsi, þa byriar mier og hingad ad leida, og þeir munu heyra mijna Rodd, Og þar mun verda eitt Saudahws og einn Hirder.]

17. Fyrer þvi elskar mig minn Fader, ad eg legg vt mitt Lijf, uppa þad eg take þad og aptur.

18. Eingenn tekur þad af mier, helldur legg eg þad af mier sialfur. Eg hefe Valld til þad af ad leggia, eg hefe og valld til þad aptur ad taka, Þetta Bodord fieck eg af mijnum Fodur.

19. Þa vard enn Sundurþyckia j millum Gydinga fyrer saker þessara Orda.

20. Enn marger af þeim sogdu, Diosfullenn hefur hann, og er Assinna, til hvors heyred þier honum?

21. Adrer sogdu, þesse Ord eru einskis Ods manns, fær Diosfullenn nockud Blindsmanns Augum upploked?

22. Og þar giordest Musteris Vijgsla j Jerusalem, þad var um Vetur.

23. Og JEsus gieck j Musterinu j Forbyrge Salomonis.

24. Þa umkrijngdu hann Judar, og sogdu til hans. (a) Hvorsu leinge þa helldur þu vorre Saalu uppe? ef þu ert Christus, þa seig oss þad berlega.

(a) (Hvorsu leinge) Þetta tala þeir af underhyggiu, so ad þeir kynne ad aklaga hann og fyrerkoma honum, ef hann hafde medkient sig ad vera Christum, mote Forbodenu.

25. JEsus svarade þeim, eg sagda ydur þad, enn þier trued eige, þaug Verk er eg giore j mijns Fodurs Nafne, bera Vitne af mier.

26. Enn þier trued eige, þviad þier erud eige mijner Sauder, so sem eg sagde ydur.

27. Mijner Sauder heyra mijna Rodd, eg þecke þa, og þeir filgia mier epter.

28. Og eg gief þeim eylijft Lijf, og alldrei skulu þeir fyrerfarast, eingenn skal þa og slijta ur minne Hende.

29. Fader minn sem gaf mier þa, er ollum hlutum meire, og eingenn kann ad slijta þa af mijns Fodurs Hende.

30. Eg og Faderenn erum eitt.

31. Þa toku Gydingar enn Steina upp, ad gryta hann.

32. JEsus svarade þeim, morg god Verk synde

synde eg ydur af mijnum Fødur, fyrer hvørs þeirra Verka Saker, grytid þier mig?
33. Gydingar svørudu hønum og søgdu, fyrer gott Verk grytum vær þig eige, helldur fyrer Gudlastan, ad þu sem ert Madur, giører þig sialfann ad Gude.
34. JEsus svarade þeim, stendur þad eige skrifad j ydru Løgmaale? * eg sagde, þad þier erud Gůder. * Psalm. 82, 6.
35. Nu ef þier kalled þa Gude, til hvørra Guds Ord eru skied, og Ritningenn maa eige riufast.
36. Enn vid þann sem Faderenn helgade, og j Heimenn sende, þa seiged þier, þu Gudlastar, af þvi eg sagde, eg em Sonur Guds.
37. Ef eg giøre ecke mijns Fødurs Verk, þa trued mier ecke.
38. Nu first eg giøre þaug, þa trued Verkunum, þo þier vilied mier ecke trua, so ad þier þecked og trued, þad Faderenn sie j mier, og eg j hønum.
39. Þeir søktu þa enn til ad griipa hann, enn hann gieck ut fra þeirra Høndum.
40. Og for aptur j þann Stad, hinumeigenn Jordanar, þar sem Johannes hafde fyrst skijrt, og var þar.
41. Marger komu til hans, og søgdu, Johannes giørde eckert Teikn, enn allt hvad Johannes sagde af þessum, þa er satt.
42. Og marger trudu þar a hann.

## XI. Capitule.

(I) JEsus uppvekur Lazarus af Dauda: (II) Caiphas seiger þad være gott ad einn dæde fyrer Folked.

I. Þar laa eirn siukur Madur, Lazarus ad Nafne, af Bethania, j Hybylum Mariæ, og hennar Systur Marthæ.
2. Enn Maria var su sem HErrann hafdi smurt med Salve, og þurkad hans Fætur med sijnum Haarlockum, hvørrar Broder var sa Lazarus sem siukur laa.
3. Systur hans sendu þa til JEsu, so seigiande, HErra, sia nu, sa þu elskar, hann liggur siukur.
4. Þa JEsus heyrde þad, sagde hann, þesse Sott er eige til Dauda, helldur til GUds Dyrdar, so ad GUds Sonur verde þar af prijsadur.
5. Enn JEsus elskade Martham og Systur hennar, og so Lazarum.
6. Þa hann hafde þad heyrt ad hann var siukur, bleif hann samt tvo Daga j þeim Stad sem hann vár.
7. Epter þad talar hann til sinna Lærisveina, gaunguin vier aptur j Judeam.
8. Þa søgdu hans Lærisveinar til hans, Meistare, nærst, þa villdu Judar gryta þig, og þo villtu fara þangad aptur?
9. JEsus svarade, eru eige tolf Stunder j Deige? hvør hann geingur um Dagenn, sa steyter sig eige, þviad hann sier þessa Heims Lios.
10. Enn hvør hann geingur um Nætur, sa steyter sig, þvi þar er eckert Lios j hønum.
11. Þetta mællte hann, og epter þad sagde hann til þeirra, Lazarus Vinur vor hann sefur, enn eg fer ad vekia hann.
12. Þa søgdu hans Lærisveinar, HErra, ef hann sefur þa batnar hønum.
13. Enn JEsus talade um hans Dauda, enn þeir ætludu ad hann munde seigia um Lijkamlegann Svefn.
14. Þa sagde JEsus þeim openberlega, Lazarus er laatenn.
15. Og eg fagna fyrer ydar saker, þad eg var ei þar, so ad þier trued, enn laatum oss nu ferdast til hans.
16. Þa sagde Thomas, sem kalladest Tvibure, til Lærisveinanna, Gongum vær med, so ad vier deyum med hønum.
17. JEsus kom þa, og fann ad hann hafde þegar fiora Daga j Grøfenne leiged.
18. Enn Bethania laa hart nærre Jerusalem, so sem fimtaan Akraleingd.
19. Marger Gydingar voru þar komner til Martham og Mariu, ad þeir huggudu þær epter sinn Brodur.
20. Sem Martha heyrer ad JEsus kiemur, rennur hun j mote hønum, enn Maria sat heima.

21. Pa sagde Martha vid JEsum, Herra, Ef þu hefder verid hier, þa være Broder minn ei lꝏtenn.

22. Enn eg veit enn nu, ad hvørs þu beidest af Gude, þad giefur Gud þier.

23. JEsus sagde til hennar, Broder þinn skal upprijsa.

24. Martha sagde til hans, eg veit vel ad hann mun rijsa upp j Upprisunne a effsta Deige.

25. JEsus sagde vid hana, Eg em Upprisann og Lijfid, hvor hann truer a mig, sa mun lifa þott hann deye.

26. Og hvør hann lifer og truer a mig, sa skal alldrei deya, Truer þu þessu?

27. Hun sagde til hans, Ja Herra, eg true ad þu ert sa Christur Sonur Guds, sem j Heimenn er komenn.

28. Pa hun hafde þetta sagt, for hun og kallade heimuglega a Systur sijna Mariu, so seigiande, Meistarenn er þar og kallar a þig.

29. Pa hun heyrde þad, stod hun skyndelega upp og kom til hans.

30. Þviad JEsus var enn ei komenn j Þorpid, helldur var hann enn j þeim stad sem Martha hafde j mote honum komid.

31. Enn þeir Judar sem j Husinu voru hia henne, og hana huggudu, þa þeir sau Mariam, þad hun stod so fliott upp, og gieck wt, filgdu þeir henne epter, og sögdu, hun fer til Grafarennar ad grꝏta þar.

32. Pa Maria kom nu þangad sem JEsus var, og hun leit hann, fiell hun til Fota hans, og sagde honum, Herra, ef þu hefder hier vered, þa være Broder minn eige lꝏtinn.

33. Sem JEsus sa hana grꝏta, og þa Gydinga lijka grꝏtande, er med henne komu, byrstest hann vid j Andanum, og angradest þunglega.

34. Og sagde, Hvar hafid þier lagt hann? Þeir sögdu honum, Herra, kom og skoda.

35. Pa Taarfellde JEsus, þa sögdu Gydingar.

36. Sia, Hvørsu kiærann hann hefur haft hann.

37. Enn adrer af þeim sögdu, Mꝏtte hann, sem opnade Blinds manns Augu, eige giora vid þvi ad þesse hefde ecke doaed?

38. JEsus byrstest þa enn med sialfum sier, og kom til Grafarennar, Enn þad var ein Grysia, og einn Steirn var þar og yferlagdur.

39. JEsus sagde, Taked af Steinenn, Pa sagde Martha, Syster hins Dauda til hans, Herra, hann lyktar nu jlla, þviad hann hefur leiged fiora Daga.

40. JEsus sagde til hennar, Sagde eg þier ecke, ad ef þu tryder, þa munder þu sia Guds Dyrd.

41. Pa toku þeir Steinenn af, þar sem hinn daude lꝏ. Enn JEsus hof þa sijn Augu upp, og sagde, Fader, Eg þacka þier ad þu bænheyrder mig.

42. Enn eg veit, þo ad þu heyrer mig jafnann, helldur fyrer Folksins saker sem hier stendur j kring, þa seige eg þad, so ad þad true þvi, ad þu sender mig.

43. Pa hann hafde þetta sagt, kallade hann hꝏrre Roddu, Lazare, kom þu ut hingad.

44. Og sa Daude kom ut, reirdur med Lijkbondum, ad Hondum og Fotum, og um hans Asian var sveipad med Sveitaduke, JEsus sagde til þeirra, leysid hann og lꝏtid hann ganga.

45. Marger af Gydingum sem komid hofdu til Mariam, og sꝏu hvad JEsus giorde, trudu a hann.

46. Enn sumer af þeim geingu burt til Pharisearana, og sögdu þeim hvad JEsus hafde giort.

II. 47. Pa sofnudu Kiennemannahofdingiar og Pharisei einn Rꝏde, og sögdu, Hvad skulum vær tilgiora? þvi þesse Madur giorer morg Teikn.

48. Og ef vier sleppum honum so, þa trua aller a hann, og þa koma Romveriar og taka fra oss Lond og Lyde.

49. Enn eirn af þeim Caiphas, sa sem þad sama ꝏr var ypparste Prestur, sagde til þeirra.

50. Pier vited eckert, og hugleided ecke, ad betra er fyrer oss, ad einn Madur deye fyrer Folkid, enn ad allur Lydur tapest.

51. Enn þetta sagde hann ei af sialfum sier, helldur af þvi, ad hann var þess ars ædste Prestur, þa spaade hann, ad JEsus skyllde deya fyrer Folked.

52. Ei einasta fyrer þad Folk, helldur þad, ad hann safnade j eitt þeim Guds Bornum, er sundur voru dreifd.

53. Og upp fra þeim deige samtoku þeir med sier, hvornenn þeir giæte lijfloated hann.

54. JEsus gieck þa ei þadann af berlega hia Gydingum, helldur for hann burt j eitt Bygdarlag, nærre Eydemorku j eina Borg, sem kallast Ephraim, og þar dvaldest hann med sijnum Læresveinum.

55. Enn þa voru Paaskar Gydinga nalæger, Og marger ur þeirre Sveit geingu upp til Jerusalem fyrer Paaskana ad hreinsa sig.

56. Peir spurdu þa epter JEsu, og toludu sijn a mille j Musterenu, Hvad synest ydur, þad hann kiemur ei til Hatijdarennar.

57. Enn Hofudprestarner og Phariseí hofdu loated þad Bod utganga, Ef nockur visse hvar hann være, þa skyllde undervijsa þeim, so ad þeir mættu hondla hann.

# XII. Capitule.

JEsus er (I) Smurdur af Mariu; og (II) rijdur jnn j Jerusalem.

I. Sex Dogum fyrer Paska, kom JEsus j Bethaniam, þar sem Lazarus hinn framlidne var, hvorn ed JEsus uppvakte af Dauda.

2. Enn þeir biuggu honum þar eina Kvølldmaaltijd, og Martha þionade, Lazarus var eirn af þeim sem til Bordsins satu med honum.

3. Þa tok Maria eitt Pund Salve, af Omeingudu og Dyrmætu Nardus, Og smurde med Fæturnar JEsu, og þurkade so hans Fætur med sijnu Haare. Hwsid fylltest og upp af Ilm Smyrslanna.

4. Þa sagde eirn af hans Læresveinum, Judas Simonis Son Ischarioth, sa er hann sveik þar epter.

5. Fyrer þvi er þetta Salve ei selldt fyrer þriuhundrud (a) Peninga, og giefid Fatækum?

(a) (Peninga) einn Peningur var j þann tijma so miked sem fimm Skillingar Danskar.

6. Þetta sagde hann eige af þvi, ad hann hyrdte um Fatæka, helldur var hann Þiofur, og hafde Fiepyngiuna, og bar þad sem giefid var.

7. Þa sagde JEsus, lat hana j Fride, þetta geymde hun til mijns Greftrunardags.

8. Þvi Volada hafed þier jafnann hia ydur, enn mig hafed þier ei ad jafnade.

9. Enn er fiølde mikell af Gydingum fornam ad hann var þar, komu þeir ei einasta þangad fyrer JEsu saker, helldur ad þeir sæe Lazarum, þann sem hann hafde af Dauda reist.

10. Enn Prestahofdingiar asettu sier ad sla jhel Lazarum.

11. Þviad fyrer hans saker geingu marger ut af Gydingum þangad, og trudu a JEsum.

II. 12. Annann Dag epter, þa ed þad mikla Folk heyrde, sem til Hatijdardagsins var komed, ad JEsus kom til Jerusalem.

13. Þa toku þeir sier Kviste af Palmvide, og geingu ut j mote honum, og hropudu, *Hosianna, Lofadur sie sa sem kiemur j Nafne DRottens, Kongur Israels!

*Psal 118 25.26.

14. Enn JEsus fieck eina Osnu, og reid þar a, So sem ad skrifad er.

15. *Ottast eige þu Dotter Zions, Sia, þinn Kongur kiemur rijdande a einum Osnufola. *Es 62,11. Zach. 9,9.

16. Enn þetta skildu eige hans Læresveinar j firstu, helldur þa ed JEsus var auglystur, þa hugleiddu þeir, ad þetta var af honum skrifad, og þeir hofdu honum þetta giort.

17. Enn þad Folk hrosade hans Giorninge, sem hia honum var, þa hann kallade Lazarum ur Grofenne, og af Dauda uppvakte.

18. Af þvi gieck og Folked ut j mote honum, ad þad heyrde, ad hann hafde giort soddann Teikn.

19. Enn

19. Enn Pharisei sogdu sijn a mille, Þier siaed nu, ad þier orked ongvu, Sie! Allur Heimur hleypur epter honum.

20. Þar voru og nockrer Grikker, medur þeim, sem upp hofdu farid ad tilbidia um Hatijdena

21. Þeir geingu til Philippum, hvor ed var ur Bethsaida af Galilea, boadu hann og sogdu; Herra, Vier villdum foa ad sia JEsum.

22. Philippus kom og sagde þad Andreas, Enn Philippus og Andreas sogdu þad JEsu.

23. Enn JEsus ansade þeim og sagde, Sa tijme er nu komenn ad Mannsins Sonur auglysest.

24. Sannlega, sannlega seige eg ydur, nema þad, ad Hveitekorned falle j Jordena, og deye, þa blifur þad einsamallt, Enn ef þad deyr þa fœrer þad mikenn Avoxt.

25. Hvor hann elskar sitt Lijf, hann glatar þvi, Enn hvor hann hatar sitt Lijf j þessum heime, sa vardveiter þad til eylijfs Lijfs.

26. Ef nockur vill mier þiona, þa filge hann mier epter, og hvar eg em, þar skal og minn Þienare vera. Ef nockur þionar mier, þa mun minn Fader hann heidra.

27. Mijn Soala er nu hrigg, Og hvad skal eg seigia? Fader, hialpa mier af þessum tijma, enn fyrer þvi kom eg þo j þennann tijma.

28. Fader, birtu Nafn þitt. Þa kom Rodd af Himne: Eg hefe þad uppbirt, og eg skal þad enn aptur uppbirta.

29. Þa sagde Folkid sem hia stod, og oaheyrde, Þar urdu Reydarþrumur, Adrer sogdu, Eingellenn talade vid hann.

30. JEsus svarade og sagde, Eige kom þesse Rodd fyrer mijnar saker, helldur fyrer ydar saker.

31. Nu byriast Domur yfer þessum Heime. Nu mun og þessa Heims Hofdinge utrekast.

32. Og þegar eg verd upphafenn fra Jordu, þa mun eg draga alla til mijn.

33. Enn þetta sagde hann, teiknande med hvorium Dauda er hann skyllde deya.

34. Þa svarade Folked honum, Vier hofum heyrt j Logmoalenu, * ad Christur blife ad eylijfu. Hvornenn seiger þu þa, ad Mannsins Syne biriar upp ad hefiast? Hvor er sa Mannsins Sonur? *Ps. 110, 4.

35. Þa sagde JEsus til þeirra, Liosid er enn litla Stund hia ydur, Ganged þvi a medan þier hafed Liosid, so ad Myrkrenn yfersalle ydur ecke, Sa er geingur j Myrkrunum, hann veit eige hvort hann fer.

36. A medann þier hafed Liosid, þa trued a þad, uppa þad þier sieud Liossins Born. Þetta talade JEsus og gieck burt og fordade sier fyrer þeim.

37. Og þo hann giorde slijk Teikn fyrer þeim, þa trudu þeir þo eige a hann.

38. So ad upfyllest Ordsaga Esaiæ Spamanns, þa hann sagde, Herra, * Hvor truer vorre Predikun, og hvorium er Armleggur DRottins opennberadur. *Esa. 53,4.

39. Fyrer þvi kunnu þeir eige ad trua, þviad Esaias seiger enn aptur.

40. * Hann blindade Augu þeirra, og forherdte Hiortu þeirra, so ad þeir sæe eige med Augunum, nie skilde med Hiartanu, ad þeir umsnuest og eg hialpe þeim. *Esa. 6, 9. 10.

41. Þetta sagde Esaias, þa hann leit hans Dyrd, og talade um hann.

42. Marger af Hofdingium, trudu þo a hann, enn fyrer saker Phariseara þa medkiendu þeir þad eige, so ad þeir være eige forbodader.

43. Þviad þeir villdu helldur hafa Vegsemd hia Monnum, enn Vegsemd hia Gude.

44. JEsus kallade þa og sagde, Hvor sem truer a mig, hann truer ei a mig, helldur a þann sem mig sende.

45. Og hvor hann sier mig, hann sier þann sem mig sende.

46. Eg er eitt Lios j Heimenn komenn, so ad hvor sem a mig truer sie eige j Myrkrunum.

47. Hvor sem heyrer mijn Ord og truer ecke, hann mun eg ei Dæma, þviad eg kom eige til ad dæma Heimenn, helldur ad frelsa Heimenn.

48. Hvor hann fyrerlijtur mig, og medtekur eige mijn Ord, hann hefur nu þegar þann hann dæmer, Þad Ord sem eg talade, þad mun dæma hann a effsta deige.

49. Þviad eg talade ei af sialfum mier, helldur Faderenn sem mig sende, hann gaf mier eitt Bodord, hvad eg skyllde giora og mæla.

50. Og eg veit ad hans Bodord er þad Eylijfa Lijf. Þar fyrer, þad eg tala, þad tala eg so sem Faderenn sagde mier.

## XIII. Capitule.

JEsus (I) þvær Fætur Læresveinanna: (II) Talar um þann er munde svikia hann: (III) Rædur ad auglysa Kiærleika: (IV) Talar um þrenna Peturs Afneitun.

I. Fyrer Paskahatijdena, þa JEsus visse ad hans Tijme var komenn, ad hann geinge wr þessum Heime til Fodursins, lijka sem hann elskade sijna, þa er hier voru j Heime, so elskade hann þa allt til enda.

2. Og epter Kvølldmaaltijdena, þegar Dioflullenn hafde allareidu sendt j Hiarta Judæ Simonis Ischarioth ad hann svike hann.

3. Þa visse JEsus, þad Faderenn hafde allt giefid sier j Hendur, og þad, ad hann var af Gude komenn, og til Guds þa fære hann.

4. Þa stod hann upp fra Kvølldmaaltijdenne, lagde af sier Klædenn, og tok eitt Lijnklæde, og gyrdte um sig.

5. Epter þad hellte hann vatne j eina Munnlaug, og tok til ad þvo fæturnar a Læresveinunum, og þurkade med þvi Lijnklæde er hann var medgyrdtur.

6. Þa kom hann til Simonar Petrum, og og hann sagde til hans, Herra, Skyllder þu þvo mijnar Fætur?

7. JEsus svarade og sagde hønum, Hvad eg giøre þad veitst þu nu ei, enn seirna skalltu skilia þad.

8. Þa sagde Petur til hans, Alldrei skallt þu mijnar Fætur þvo. JEsus svarade hønum, Þvoe eg þig ecke, þa hefur þu ei hlutdeilld medur mier.

9. Simon Petrus sagde þa til hans, Herra, ecke einasta Fæturnar, helldur eirnenn Fætur og Hofud.

10. JEsus sagde til hans, Sa þveiginn er, hann þarf eige ad þvo nema Fæturnar, þvi hann er olldungis hreinn, þier erud og hreinner, enn eige aller.

11. Þvi hann visse af sijnum Svikara vel, þvi sagde hann, þier erud ecke aller hreiner.

12. Enn sem þad hann hafde þveiged Fætur þeirra, tok hann sijn Klæde, setteft nidur aptur, og sagde þa enn til þeirra, Vited þier hvad eg giorde ydur?

13. Þier kalled mig Meistara og Herra, þier seiged þad og riett, þviad eg er hann og.

14. Nu ef eg ydar Herra og Meistare þvæ ydar Fætur, þa skulud þier og innbyrdis þvo hvor annars Fætur.

15. Þetta gaf eg ydur til Epterdæmis, so þier giored lijka sem eg giorde vid ydur.

16. Sannlega, sannlega seige eg ydur, ad Þioninn er eige meire sijnum Herra, nie (a) Postulenn þeim er hann utsende.

(a) (Postule) kallast einn Sendebode.

17. Ef þier vited þetta, þa erud þier sæler ef þier giored þad.

18. Eige seige eg um ydur alla, eg veit hvoria eg hefe wtvalid, Helldur þad, ad uppfyllest Ritningenn, * Sa sem ad etur Braud mitt, hann tredur mig under fætur.

* Psal. 41, 10.

19. Nu seige eg ydur þad, aadur enn þad skier, so ad þier trued, þa þad er skied, ad eg em hann.

20. Sannlega, sannlega seige eg ydur, Hvor hann medtekur ef eg sende nockurn, sa medtekur mig, Enn hvor hann medtekur mig, hann medtekur þann er mig sende.

II. 21. Þa JEsus hafde þetta sagt, hriggdest hann j Anda, vottade og sagde, sannlega, sannlega seige eg ydur, eirn af ydur mun forraada mig.

22. Þa leit hvor Læresveinanna til annars, uggande af hvorium hann segdi.

23. Enn

23. Enn þar var eirn af hans Læresveinum, sem sat til Bordsins, hia brioste JEsu, hvorn ad JEsus elskade.

24. Honum bendte Simon Petrus, ad hann spyrde hann, hvor sa være er hann hefde umtalad?

25. Af þvi hann laa þa a brioste JEsu, og sagde til hans, Herra, hvor er sa?

26. JEsus svarade, sa er hann hinn same er eg dijfe þennann Bita og gief, og dijfde j Bitanum, og gaf hann Judæ Simonis Ischarioth.

27. Og epter þann Bita for Satan i hann. Þa sagde JEsus til hans, hvad þu giorer þa gior þad fliott.

28. Enn eingenn af þeim sem til Bordsins saatu visse til hvors hann sagde honum þad.

29. Sumer ætludu þad, af þvi, ad Judas hafde Fie-pyngiuna, ad JEsus munde seigia honum, kaup þad oss gioreft þorf til Hootijdardagsins, eda ad hann giæfe nockud fatækum.

30. Og þa hann hafde Bitann teked, gieck hann strax ut, og þa var Nott.

II. 31. Enn þa hann var wtgeingenn, sagde JEsus, nu er Mannsins Sonur auglystur, og Gud er auglystur i honum.

32. First Gud er auglystur j honum, þa mun Gud auglysa hann j sialfum sier, og snarlega mun hann auglysa hann.

33. Kiæru Born, eg em enn litla Stund hia ydur, þier munud leita mijn, og lijka sem eg sagde, vid Gydinga, hvort eg fer þangad kunned þier ecke ad koma, og nu seige eg ydur.

34. Eitt (b) nytt Bodord þa gief eg ydur, ad þier elsked hvor annann, lijka sem eg elskade ydur, so skulud þier og elskast innbyrdis.

(b) (Nytt Bodord) eg vil ecke þreyta ydur med margfolldu Logmaale, so sem Moses j Gamla Testamentenu, helldur skal þad vera allt Logmaal j Nya Testamentenu ad þier elsked hvor annann, þar fyrer er þad Nytt og þess Nya Testamentis Bodord, fraskiled ollum gomlum.

35. Og af þvi munu aller þeckia, ad þier erud mijner Læresveinar, ef þier hafed Kiærleikann ydar a mille.

IV. 36. Simon Petrus sagde til hans, HErra, hvort fer þu? JEsus svarade honum, þangad sem eg fer maattu nu ad sinne eige filgia mier, enn seirna meir þa muntu filgia mier.

37. Petur sagde til hans, HErra, þvi maa eg nu ei ad sinne filgia þier? eg vil setia mitt Lijf wt fyrer þig.

38. JEsus svarade honum, skyllder þu setia þitt Lijf wt fyrer mig? sannlega, sannlega seige eg þier, ad Hanenn gelur ei, aadur enn þu hefur afneitad mier þrisvar.

# XIV. Capitule.

JEsus talar (I) um sina Burtfør (II) um Bænena: (III) Um Heilagann Anda.

I. Og hann sagde til sinna Lærsveina, ydar Hiortu hrædest ecke, trued þier a Gud, þa trued þier og so a mig.

2. J mijns Fodurs Hwsi eru margar Verur. Enn ef ei so være, þa villde eg seigia, ad eg fære ad tilbua ydur Stad.

3. Og þa eg fer hiedan ad tilbua ydur Stad, þa vil eg aptur koma, og taka ydur til mijn, so þier sieud þar sem eg er.

4. Og hvert eg fer, þad vited þier, og Veigenn vited þier eirnenn.

5. Thomas sagde til hans, HErra vier vitum eige hvort þu fer, eda hvornenn meigum vier þa veigenn vita?

6. JEsus sagde til hans, eg em Vegurenn, og Sannleikurenn, og Lijfed. Eingenn kiemur til Fodursins, nema fyrer mig.

7. Ef þier þecked mig, þa þecked þier og minn Fodur, og nu hiedann j fra, þa þecked þier hann, og hafed sied hann.

8. Philippus sagde til hans, HErra, syn oss Fodurinn, þa næger oss.

9. JEsus sagde þa til hans, so leinge er eg hia ydur, og þu þecker mig eige? Philippe, hvor mig sier, sa sier Fodurenn, og hvornenn seiger þu þa? syn oss Fodurenn.

10. Truer þu eige, ad eg em j Fodurnum, og Faderenn j mier? þaug Ord eg tala til ydar,

þaug tala eg ecke af sialfum mier, Faderenn sem er j mier, hann giorer þaug Verk.

11. Trued mier, ad eg er j Fodurnum, og Faderenn j mier, vilied þier þad eige, þa trued mier þo fyrer VerkannaSaker.

12. Sannlega, sannlega seige eg ydur, hvor hann truer a mig, sa mun eirnenn giora þaug Verk sem eg giore, hann mun og giora þessum meire, þviad eg fer til Fodursins.

II. 13. Og hvors þier bidied j mijnu Nafne, þad vil eg giora, so ad Faderenn dyrdkest j Synenum.

14. Hvors þier bidied j mijnu Nafne, þad vil eg giora.

III. 15. Ef þier elsked mig þa hallded mijn Bodord.

16. Og eg mun bidia Fodurenn, og hann mun giefa ydur annann (a) Huggara, so ad hann sie hia ydur eylijflega.

(a) (Huggara) Paracletus kallast einn Svars Madur, edur sa Mad ver annars vegna, fyrer Dome, sa sem huggar, styrker og hialpar Þeim sem Søkenne verdur borenn; so giorer og Heilagur Ande, j vorre Samvitsku fyrer Guds Dome, a mote aklogun Syndarennar og Diofulsins.

17. Þann Sannleiks Anda, hvorn Heimurenn fær eige medteked, þvi hann sier hann eige, og þecker hann eige, enn þier þecked hann, þviad hann blijfur hia ydur, og mun vera j ydur.

18. Eige vil eg ydur Fødurlausa epter laata, eg kiem til ydar.

19. Þad er enn nu lijtell Tijme, þa mun Heimurenn ei sia mig meir, enn þier skulud sia mig, þviad eg life, og þier munud lifa eirnenn.

20. A þeim Deige munud þier skilia, ad eg er j mijnum Fodur, og þier j mier, og eg j ydur.

21. Hvor hann hefur mijn Bodord, og helldur þau, hann er sa sem mig elskar, enn sa mig elskar, sa elskast af mijnum Fodur, og eg mun elska hann, og eg openbera mig fyrer honum.

22. Þa sagde Judas, eige Jscharioth, til hans, HErra, (b) hvad er þad, ad þu villt openbera þig oss, enn eige Heimenum?

(b) (Hvad) hvornenn geingur þad til, hvad a þad ad vera?

Gudspialled a I. j Hvita-Sunnu.

23. JEsus svarade og sagde til hans, hvor hann elskar mig, sa helldur mijn Ord, og minn Fader mun elska hann, og vid munum koma til hans, og giora j hia honum Vistarveru.

24. Enn hvor hann elskar eige mig, sa helldur eige mijn Ord, og þad Ord er þier heyred, er eige mitt, helldur Fodursins, þess er mig sende.

25. Þetta sagde eg ydur, a medann eg var hia ydur.

26. Enn Huggarenn hinn Heilage Ande, þann er minn Fader mun senda j mijnu Nafne, hann sialfur mun kienna ydur þad allt, og aminna ydur a allt hvad eg sagde ydur.

27. Frid læt eg ydur epter, minn Frid gief eg ydur, ei gief eg ydur so sem Heimurenn giefur, ydvart Hiarta hrædest eige nie skielfest.

28. Þier heyrdud þad eg sagde ydur, eg fer burt, eg kiem til ydar aptur, ef þier elskudud mig, þa gleddust þier vid þad, ad eg sagde, eg fer til Fodursins, þviad Faderenn er mier meire.

29. Og nu sagde eg ydur þad, fyrr enn þad skier, so ad þier trued þa þad er skied.

30. Hier epter mun eg ei tala margt framar vid ydur, þvi Høfdinge þessa Heims kiemur og med mig hefur hann eckert.

31. Helldur þad, ad Heimurenn þecke, þad eg elska Fodurenn, og eg (c) giore so sem Faderenn hefur mier boded.] Standed upp og laatum oss ganga burt.

(c) (Giore so) Heimurenn skal læra, ad Christur alleina giorer Fodursins Vilia fyrer oss. Rom. 5.

## XV. Capitule.

JEsus talar (I) um sig, ad hann se þad sanna Vijn-Tre; (II) Um sina Elsku og Fodursins; (III) Um Hatur Heimsins a sier og Þeim er Gud elska.

I. Eg

I. Eg em sannur Vijnvidur, og minn Fader er Vijngardsmadurenn.

2. Hvørn þann Kvist a mier, er eige færer Avoxt, mun hann aftaka, og hvørn þann sem Avoxt færer, mun hann hreinsa, so ad hann fære meira Avoxt.

3. Þier erud nu hreiner fyrer Saker þess Ords sem eg talade til ydar.

4. Blijfid j mier, og eg j ydur, lijka sem Vijnkvisturenn fær eige fært Avoxt af sialfum sier, nema hann sie a Vijn-Trenu, so og eige helldur þier, nema þier blijfid j mier.

5. Eg em Vijn-Tried, enn þier erud Kvisterner, hvør hann blijfur j mier, og eg j honum, sa færer mikenn Avoxt, þviad oan mijn faaed þier eckert giort.

6. Hvør sa er ei blijfur j mier, hann mun utkastadur verda sem annar Kvistur, og upþorna, og þeir samannlesa þa, og kasta oa Elld ad brenna.

7. Nu ef þier blijfed j mier, og mijn Ord blijfa j ydur, bidied þa hvørs þier villied, og þad skal ydur skie.

8. Þar med verdur minn Fader dyrdkadur, ad þier færed mikenn Avoxt, og verded mijner Læresveinar.

II. 9. So sem minn Fader elskade mig, lijka so elska eg ydur, blijfid j minne Astsemd.

10. Ef þier vardveited mijn Bodord, þa blijfed þier j minne Astsemd, lijka sem eg vardveitte mijns Fodurs Bodord, og eg blijf i hans Astsemd.

11. Þetta tala eg þvi til ydar, ad minn Fognudur blijfe hia ydur, og ydar Fognudur uppfyllest.

12. Þad er mitt Bodord, ad hvør ydar elske annann, so sem eg elskade ydur.

13. Eingenn hefur meire (a) Astsemd enn þessa, ad hann lætur sitt Lijf ut fyrer sijna Vine.

(a) (Astsemd) so ad Þier kunned ad Þreifa a, hvad kiæra eg hefe ydur, Þad skiedur ef Þier erud j mier, og hallded mijn Ord, hvørsu jlla sem annars til geingur.

14. Þier erud mijner Viner, ef þier giøred þad eg byd ydur.

15. Og hiedan af seige eg ei leingur ad þier sieud Þienarar, þviad Þionenn veit ei af hvad hans HErra giorer, enn ydur hefe eg sagt, ad þier erud Viner, þvi allt hvad eg heyrde af mijnum Fodur, þad kunngiørde eg ydur.

16. Ei utvøldud þier mig, helldur hefe eg utvaled ydur, og eg skickade ydur til, ad þier geingud burt og færdud Avoxt, og ydar Avoxtur blijfe, til þess, ef þier bidied Fodurenn j mijnu Nafne, þad giefe hann ydur.

17. Þad byd eg ydur, ad þier elsked hvør annann.

III. 18. Ef Heimurenn hatar ydur, þa vitid, ad hann hefur hatad mig fyrr enn ydur.

19. Ef þier værud af Heimenum, þa elskade Heimurenn þad hans være, enn med þvi þier erud ei af þessum Heime, helldur utvalde eg ydur af Heimenum, fyrer þad hatar ydur Heimurenn.

20. Minnest a mijn Ord, er eg sagde ydur, Þienarenn er ei meire sijnum HErra. Ef þeir hafa offsokt mig, þa munu þeir og offsækia ydur, hafa þeir geymt mijn Ord, þa munu þeir og geyma ydar Ord.

21. Enn allt þetta munu þeir giøra ydur, fyrer mijns Nafns Saker, þviad þeir þeckia eige hann, þann er mig sende.

22. Ef eg være eige komenn, og hefde sagt þeim þad, þa hefdi þeir (b) øngva Synd, nu hafa þeir eckert, þad þeir affsake sijna Synd med.

(a) (Øngva Synd) Þess klaarara sem Christur hefur openberad Gydingum Guds Vilia, og Þess stærre Dasemdar Verk sem hann hafde giørt hia Þeim til Stadfestingar Lærdomenum, Þess stærre var Þeirra Synd.

23. Hvør sem mig hatar, sa hatar og minn Fodur.

24. Ef eg hefde eige giørt þaug Verk a medal þeirra, sem eingenn hefur annar giørt, þa hefdu þeir øngva Synd, enn nu hafa þeir sied þau, og hata þo bæde mig og minn Fodur.

25. Helldur þad, ad þad Ord, sem skrifad er j þeirra Logmaale, uppfyllest, * Aan sakar hofdu þeir mig ad hatre.

* Psalm. 35, 19. og 69, 5,

Gudsp. VI. Sunnud. ept. Paaska.

26. Enn þa Sa Huggarenn kiemur, hvorn eg mun senda ydur af Fodurnum, sem er Sannleiksins Ande, hvor af Fodurnum frammgeingur, hann mun bera Vitne af mier.

27. Þier munud og bera Vitne af mier, þviad þier hafid j fra Upphafe hia mier verid.

# XVI. Capitule.

JEsus talar (I) um Ofsokner gegn sinum Læresveinum: (II) Um embætte Heilags Anda: (III) Um Hriggd sinna Læresveina: (IV) Um Krapt Bænarennar: (V) Ad hans Læresveinar munu tvijstrast.

I. Enn þetta hefe eg talad til ydar, so ad þier hneixlest eige.

2. Þvi þeir munu forboda ydur, og sa Tijme kiemur, ad hvor ydur lijflætur, hann meinar sig giora þægt Verk GUde þar med.

3. Og þetta munu þeir giora ydur af þvi, ad þeir þeckia hvorke Fodurenn nie mig.

4. Enn þetta tala eg þvi til ydar, ad nær su Stund kiemur, þa skulud þier minnast þar a, ad eg sagda ydur þad, enn þetta sagde eg ydur ei j Upphafe, þvi eg var hia ydur.

Gudsp. IV. Sunnud. epter Paaska.

II. 5. Og nu fer eg til hans sem mig sende, og eingenn ydar spyr mig ad, hvort fer þu?

6. Helldur af þvi eg talade þetta til ydar, þa uppfylltest ydvart Hiarta af Hriggd.

7. Enn eg seige ydur Sannleikann, þad batar ydur ad eg fare hiedann, þvi ef eg fer eige hiedannn, þa kiemur eige Huggarenn til ydar, enn ef eg fer hiedann, þa mun eg senda hann til ydar.

8. Og þa hann kiemur, straffar hann Heimenn fyrer (a) Synd, og fyrer Riettlæte, og fyrer Dom.

(a) (Synd) Verolldenn, Natturann, Skynsemenn, og etc. vita ecke ad Vantruenn er Synd, og ad Truenn er Riettlæte; og ad Guds Domur fyrerdæmer allt þad sem ad Þeir og Diofullenn dæma a mote þeim Christnu under Guds Þionustu, og Guds Nafns aasynd, Þar fyrer straffar hinn Heilage Ande i Evangelio, allt þad fyrer Synd, sem ecke er Truenn.

9. Fyrer Syndena, þvi þeir trua ei a mig.

10. Enn fyrer Riettlæted, þviad eg fer til Fodursins, og þadan af siaed þier mig ei.

11. Enn fyrer Domenn, þviad þessa Heims Hofdinge er dæmdur.

12. Enn hefe eg margt ad seigia ydur, enn þier fead ei allt bored ad sinne.

13. Enn nær ad kiemur sa Sannleiksins Ande, þa mun hann leida ydur j allann Sannleik, þviad ei talar hann af sialfum sier, helldur hvad hann heyrde, þad talar hann, og hvad epterkomande er, þad kunngiorer hann ydur.

14. Hann same mun og auglysa mig, þviad af mijnu mun hann þad taka og kunngiora ydur.

15. Allt hvad minn Fader hefur, þad er mitt, fyrer þvi sagde eg, ad af mijnu mun hann þad taka og kunngiora ydur.]

Gudspialled III. Sunnud. ept. Paaske.

III. 16. Um lijtenn Tijma munud þier ecke sia mig, og enn aptur um lijtenn Tijma munud þier sia mig, þviad eg fer til Fodursins.

17. Þa sogdu nockrer af hans Læresveinum sijn a mille, hvad er þad, ad hann seiger oss, um lijtenn Tijma þa munud þier ei sia mig, og enn aptur um lijtinn Tijma þa munud þier sia mig, og eg fer til Fodursins?

18. Þa sogdu þeir, hvad er þad hann seiger, um lijtenn Tijma? vier vitum eige hvad hann seiger.

19. Þa fornam JEsus ad þeir villdu spyria hann ad, og sagde til þeirra, þier spyried ad þvi ydar a mille, ad eg sagde, um lijtenn Tijma þa munud þier ei sia mig, og þa aptur um lijtenn Tijma, þa munud þier sia mig.

20. Sannlega, sannlega seige eg ydur, þier munud grata og syrgia, enn Heimurenn mun fagna. Þier verded hriggver, enn ydar Hriggd skal snuast j Fognud. 21.

21. Konann nær hun fæder, þa hefur hun hriggd, þviad hennar stund er komenn, Enn þa hun hefur Barned fædt, minnest hun ei framar þess Harmkvælis fyrer þess fagnadar saker, ad Madur er j Heimenn borenn.

22. Þier hafid nu eirnenn hriggd, enn eg skal sia ydur aptur, og ydart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingenn af ydur taka.

IV. 23. Og a þeim Deige munud þier mig og einskis spyria.]

Gudsp. V. Sunnud. epter Paaska.

Sannlega, sannlega seige eg ydur, Ef þier bidied Fodurenn nockurs j mijnu Nafne, þa mun hann giefa ydur þad.

24. Hingad til hafed þier ecke beded j mijnu Nafne, Bidied, þa munud þier fa, so ad ydar Fognudur fullkomnest.

25. Þetta hef eg talad j Ordskvidum til ydar. Sa tijme kiemur ad eg tala ei leingur Ordskvide til ydar, helldur kunngiore eg ydur berlega af mijnum Fodur.

26. A þeim Deige munud þier og bidia i mijnu Nafne, Og eige seige eg ydur, ad eg mune bidia Fodurenn fyrer ydur.

27. Þviad sialfur Faderenn elskar ydur, af þvi þier elsked mig, og trued þad eg sie af Gude utgeingenn.

28. Eg er af Fodurnum utgeingenn, og komenn j þennann Heim, Eg fyrerlæt og aptur þennann Heim, og fer til Fodursins.

V. 29. Hans Læresveinar seigia þa til hans, sie, Nu talar þu berlega, og mæler ongva Ordskvide.

30. Nu vitum vier ad þu veitst alla hlute, og þu þarft eige ad (b) nockur spyrie þig, Fyrer þad truum vier ad þu siert af Gude utgeingenn.]

(b) (Nockur) Þad er, Menn þurfa ecke ad spyria þig, Þvi þu kiemur fyrre med Andsvared, Þviad þu sier Hiartad, og allt þad sem leynt er.

31. JEsus svarade þeim, Nu trued þier.

32. Siaed, Su stund kiemur, og er nu þegar komenn, ad þier munud tvistrast hvor til sijn, og skilia mig epter einsamann, Enn eg er þo ei eirnsamann, þviad Faderenn er med mier.

33. Þetta talade eg til ydar, so ad þier hefdud Frid j mier, J Heimenum hafid þier þreynging, enn verid þo hughrauster, Þvi eg yfervann Heimenn.

# XVII. Capitule.

JEsus bidur (I) sinn Himneska Fodur, (II) fyrer sinum Læresveinum, og (III) fyrer ollum Truudum.

I. Þetta talade JEsus, og hof upp sijn Augu til Himins, og sagde, Fader, Stunden er komenn, ad þu auglyser Son þinn, so ad þinn Sonur auglyse og þig.

2. So sem þu gafst honum yfervalld alls Hollds, ad hann giefi þeim ollum, er þu gafst honum, Eylijft Lijf.

3. Enn þad er Eylijft Lijf, ad þeir þecke þig alleina Einn Sannann Gud, og þann Þu sender JEsum Christum.

4. Eg auglyste þig a Jordu, og fullkomnade þad Verk, er þu fieckst mier ad giora.

5. Og nu auglys mig Fader, hia sialfum þier, med þeirre Dyrd, er eg hafde hia þier, adur enn Heimurenn var.

6. Eg hefe opinberad Nafn þitt fyrer Monnum, þeim er þu gafst mier af Heimenum, þeir voru þijner, og þu gafst mier þa, og þeir geymdu þijn Ord.

7. Nu vita þeir, ad allt hvad þu gafst mier, er af þier.

8. Þvi þaug Ord er þu gafst mier, þa gaf eg þeim, og þeir hafa þaug medteked, og þeckia sannlega, þad eg em af þier wtgeinginn, og trua þvi, ad þu sender mig.

II. 9. Eg bid fyrer þeim, (a) Eige bid eg fyrer Heimenum, helldur fyrer þeim, hvoria þu gafst mier, þvi þeir eru þijner.

(a) (Eige fyrer Heimenum) Þad er, Eg bid ecke ad þu læter Heimsins og þeirra ogudlegu aaslætt og Giorder, vera þier þocknanlegar, Eins og Moyses bad Num. 16. Ad Gud villde ecke medtaka Offur Chorah: Og David, 59. Psalm. Vertu ongvum þeirra Miskunsamur, sem eru so Þverbrotner Illgiorda Menn, Annars eiga Menn ad bidia fyrer Heimenum, ad hann meige snwast.

10. Allt hvad mitt er, þad er þitt, Og hvad þitt er, þad er mitt, Og j þeim er Eg auglystur.

11. Og eige em eg nu meir j Heimenum, enn þeir eru j Heimenum, og eg kiem til þijn. Heilagur Fader, geym þa j þijnu Nafne, hvoria þu gafst mier, ad þeir sieu eitt, sem vid.

12. A medann eg var hia þeim j Heimenum, þa geymde eg þa j þijnu Nafne, hvoria þu gafst mier, þa vardveitte eg, og eingenn af þeim er glatadur, Nema þad * Glotunar Barn, so ad Ritningenn uppfyllest.

* Psalm 41, 10. og 109, 8.

13. Enn eg kiem nu til þijn, Og þetta tala eg j Heimenum, so ad þeir hafe minn fullann Fognud, med sialfum sier.

14. Eg gaf þeim þijn Ord, og Heimurenn hatar þa, þviad þeir eru eige af Heimenum, lijka sem þad, ad eg er ei af Heimenum.

15. Eg bid eige, ad þu taker þa af Heimenum, helldur ad þu geymer þa fra jllu.

16. Þeir eru eige af Heimenum, so sem ad eg er eige af Heimenum.

17. Helga þu þa j þijnum Sannleik, Þijn Ord eru Sannleikur.

18. Lijka sem þu sender mig j Heimenn, so sende eg þa j Heimenn.

19. Fyrer þa helga eg sialfann mig, so ad þeir sieu og Helgader j Sannleikanum.

III. 20. Eg bid ei einasta fyrer þeim, helldur og jafnvel fyrer þeim sem trua munu a mig, fyrer þeirra Ord.

21. So ad þeir sieu aller eitt, so sem þu Fader ert j mier, og eg j þier, ad þeir sieu og eitt j ockur, So ad Heimurenn true, þad þu sender mig.

22. Og þa Dyrd, sem þu gafst mier, þa gaf eg þeim, Ad þeir sieu og eitt, so sem ad vid erum eitt.

23. Eg j þeim, og þu j mier, so ad þeir sieu fullkomner j eitt, og þad, ad Heimurenn kunne ad þeckia, ad þu sender mig, og þad þu elskar þa, so sem þu elskar mig.

24. Fader, hvoria er þu gafst mier, vil eg, ad hvar sem eg er, þa sieu þeir med mier, so þeir siae mijna Dyrd, þa þu gafst mier, þviad þu elskader mig, fyrr enn Heimurenn var grundvalladur.

25. Riettvijse Fader, Heimurenn þecker þig eige, enn eg þecke þig, og þesser þeckia ad þu sender mig.

26. Og þitt Nafn giorde eg þeim kunnugt, og eg vil giora þeim þad kunnugt, so ad þijn Astsemd, med hvorre þu elskader mig, sie j þeim, og eg j þeim.

## XVIII. Capitule.

JEsus er leiddur (I) fyrer þann Andlega, og (II) fyrer þann Veralldlega Rett.

I. Þa JEsus nu hafde þetta talad, gieck hann ut med sijna Læresveina, yfer um Lækenn Kedron, þar var einn Jurtagardur, Og JEsus gieck þar jnn med sijna Læresveina.

2. Enn Judas sa er hann sveik, visse og þennann stad, þviad opt safnadest JEsus þangad med sijna Læresveina.

3. Þa Judas hafde nu til sijn teked flock Manna, og eirnenn af Kiennamannahofdingianna og Phariseanna Þienurum, kom hann þangad med Blysum, Lompum, og Vopnum.

4. Nu sem JEsus visse allt hvad yfer hann ætte ad koma, þa gieck hann ut, og sagde til þeirra, Ad hvorium leited þier?

5. Þeir svorudu honum, Ad JEsu af Nazareth, þa sagde JEsus til þeirra, Eg em hann. Enn Judas, sa er hann forried, stod þar eirnenn hia þeim.

6. Og þa er JEsus sagde til þeirra, Eg em hann, horfudu þeir a bak aptur, og duttu til Jardar.

7. Hann spurde þa enn aptur ad, Ad hvorium leited þier? Enn þeir sogdu, Ad JEsu af Nazareth.

8. JEsus svarade, Eg sagde ydur þad, Eg em hann. Og ef þier leited ad mier, þa læted þessa burtu ganga,

9. So ad uppfylldest þad Ord er hann sagde, Ongvum glatade eg af þeim sem þu gafst mier.

10. Þa hafde Simon Petur eitt Sverd,

og dro þad ut, og slo til eins Kiennemanna-
hofdingians Pienara, og hio af honum hans
hægra Eyra, enn Pienarenn hiet Malchus.

11. Pa sagde JEsus til Peturs, Stiktu
þijnu Sverde j slijdrer, Skal eg þa ei drecka
þann Kaleik, sem mier gaf minn Fader?

12. Enn Flockurenn og hinn ypparste Hof-
udsmadur, og Gydinga Pienarar höndludu
JEsum, og bundu hann.

13. Og leiddu hann fyrst burt til Hannas
(sa var Magur Caiphæ) Sa er þa var þess
Aars ædste Prestur.

14. Enn Caiphas var sa er Gydingum
gaf þad Raad, ad betur være, þad eirn Madur
være lijfloatenn fyrer Lydenn.

15. Simon Petrus fylgde JEsu epter, og
einn annar Læresveinn, Sa same Læresveinn
var kunnugur Kiennemannahofdingianum,
og gieck jnn med JEsu j Kiennemannahof-
dingia Salinn.

16. Enn Petur stod fyrer Dyrunum ute.
Pa gieck ut hinn annar Læresveirn, sem Kien-
nemannahofdingianum var kunnugur, og
talade vid hana sem Dyrnar geymde, og leidde
Petrum jnn.

17. Pa sagde Amboattenn sem Dyrnar
geymde, til Peturs, Ertu eige eirn af þess
Manns Læresveinum? Hann sagde, Eige er eg.

18. Enn Pienarar og Undermenn stodu, og
hofdu giort eirn Kolaelld, og vermdu sig,
þviad Kulde var. Petur stod þar hia þeim, og
vermde sig.

19. Enn Kiennemannahofdingenn spurde
JEsum þa ad, um hans Læresveina, og um
hans Kienning.

20. JEsus svarade honum, Eg hefe opinn-
berlega talad fyrer Heimenum, Eg kiende og
jafnann j Samkunduhusum og j Musterenu,
þar sem aller Gydingar komu samann, og a
laun hefe eg eckert talad.

21. Pvi spyr þu mig þar ad? Spyr þu
þa þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefe talad
til þeirra, Sia, þeir vita hvad eg hefe sagt.

22. Enn sem hann sagde þetta, þa gaf
eirn þeirra Pienara, sem þar hia stod, JEsu
Pustur, og sagde, Skalltu so svara Kienne-
mannahofdingianum?

23. JEsus svarade, ef eg talade jlla, þa
vitna þu þad vondt vera, enn ef eg talade riett,
þvi slær þu mig þa?

24. Og Hannas sende hann bundenn ti
Caipham, Kiennemannahofdingia.

25. Og er Simon Petrus stod þar og
vermde sig, þa toludu þeir til hans, Ertu eige
eirn af hans Læresveinum? Hann neitade og
sagde, Eige er eg.

26. Pa sagde eirn af Kiennemannahof-
dingians Pienurum, frænde þess sem Petur
hio af Eyrad, Sea eg þig eige j Grasgarde-
num hia honum?

27. Pa neitade Petur þvi enn aptur, Og
strax gol Haneun.

II. 28. Pa leiddu þeir JEsum fra Caiphas og
j Pinghusid, Enn þad var snemma. Og þeir
geingu ei sialfer jnn j Pinghusid, ad þeir saur-
gudust ecke, helldur so þeir mættu neyta
Paskanna:

29. Pilatus gieck þa ut til þeirra og sagde,
Hvoria oakiæru færed þier j giegn (a) þessum
Manne.

(a) (þessum) Pad er furda ad þier skulud hafa miked ad klaga uppa þennann, so godann og Nafnfrægann Mann.

30. Peir svorudu og sogdu til hans, Ef
þesse være ei Illrædismadur, þa hefdum vier
eige j hendur feinged þier hann.

31. Pa sagde Pilatus til þeirra, Taked
þier hann þa, og dæmed epter ydrum Logum,
Gydingar sogdu þa til hans, Ei þorum vier ad
lijfloata nockurn.

32. So ad þad Ord JEsu uppfylldest, er
hann sagde, teiknande til med hvorium Dau-
da hann ætte ad deya.

33. Pilatus gieck þa jnn aptur j Pinghu-
sid, kallade JEsum, og sagde til hans, Ertu
Gydinga Konungur?

34. JEsus svarade, Talar þu þad af sial-
fum þier, Eda hafa adrer sagt þier þad um
mig?

35. Pa svarade Pilatus, Er eg nockud Gydingur? þijn þiod og Kiennemannahøfdingiar selldu þig mier, Hvad hefur þu giort?

36. JEsus svarade, Mitt Rijke er eige af þessum Heime, Ef ad mitt Rijke være af þessum Heime, þa mundu mijner þienarar strijda þar fyrer, so ad eg selldest ei Gydingum, enn nu er mitt Rijke eige þadan.

37. Pa sagde Pilatus til hans, þa ertu þo Konungur? JEsus svarade, þu seiger þad, Eg em og Konungur, Til þess er eg fæddur, og j Heimenn komenn, ad eg bere Vitne Sannleikanum. Og hvor hann er af Sannleikanum, sa heyrer mijna Rodd.

38. Pilatus sagde til hans, Hvad er (b) Sannleikurenn? Og þa hann hafde þetta sagt, gieck hann ut aptur til Gydinga, og sagde til þeirra, Eg finn øngva Søk med honum.

(b) (Sannleikurenn) Ironia est, vilier þu tala um Sannleika, þa er þad fared fyrer þier.

39. Enn þad er ydar Sidvenia, ad eg giefe ydur eirn lausann a Paskum, Vilied þier ad eg giefe ydur nu lausann Gydinga Kongenn?

40. Pa kolludu aller aptur j mote, seigiande, Eige þennann, helldur Barrabam, En Barrabas var einn Manndrapare.

## XIX. Capitule.

JEsus (I) er Krossfestur, og (II) Grafenn.

I. Pa tok Pilatus JEsum, og hvydstrykte hann.

2. Og Strijdsmennerner fliettudu eina Koronu af Pyrnum, og settu hana a hans Hofud, og løgdu yfer hann Purpuraklæde.

3. Og søgdu, Heill siertu kiære Kongur Gydinga, Og gaafu honum Pústra.

4. Pa gieck Pilatus ut aptur og sagde til þeirra, Siaed, Eg leide hann nu ut hingad til ydar, so ad þier vited, þad eg finn øngva Søk med honum.

5. So gieck JEsus ut, berande Pyrne Koronu, og Purpuraklæded, Og hann sagde til þeirra, Siaed, Hvilijk Manneskia!

6. Pa er Kiennemannahøfdingiarner og Pienararner sau hann, kolludu þeir og søgdu, Krossfestu, Krossfestu. Pilatus sagde til þeirra, Taked þier hann og krossfested, þviad eg finn øngva Søk med honum.

7. Pa svorudu honum Gydingar, Vier høfum *Løg, og epter þeim Løgum skal hann deya, þviad hann giorde sig sialfann ad Guds Syne. *3 Mos. 24, 16.

8. Pa Pilatus heyrde þad Ord, ottadest hann enn meir.

9. Og gieck jnn aptur j Pinghusid, og sagde til JEsu, hvadan ertu? enn JEsus gaf þeim eckert svar.

10. Pa sagde Pilatus til hans, Talar þu eige vid mig? veitstu eige, ad eg hefe Valld til ad krossfesta þig, og eg hefe Valld til ad giefa þig lausann?

11. JEsus svarade, eige hefder þu nockud Valld yfer mier, nema þier være þad giefid hier ofann ad, fyrer þvi hefur sa meire Synd, er mig selldе þier.

12. Og epter þad leitade Pilatus vid, hvørnenn hann giæte laated hann lausann, enn Gydingar hropudu og søgdu, ef þu lætur þennann lausann, þa ertu ecke Keisarans Vinur, þviad hvor sem sig giører ad Konunge, hann er a mote Keisaranum.

13. Pa Pilatus heyrde þad Ord, leidde hann JEsum ut, og sette sig a Domstolenn j þeim Stad sem kallast hinn Steinlagde, enn a Ebresku, Gabbatha.

14. Enn þad var Adfangadagur Paska, nærre Siøttu Stund. Pa seiger hann og til Gydinga, siaed, þad er ydar Kongur.

15. Enn þeir kolludu, burt, burt med hann, Krossfestu hann. Pilatus sagde til þeirra, skal eg krossfesta ydvarn Konung? Kiennemannahøfdingiarner svorudu, øngvann Konung høfum vær nema Keisarann.

16. Pa frammselldе hann þeim hann, ad hann krossfestest. Og þa toku þeir JEsum og leiddu hann j burt.

17. Og hann bar sinn Kross. Og gieck ut j þann Stad, sem kalladest Hofudskieliastadur, enn a Ebresku Golgatha.

18. Par

18. Þar krossfestu þeir hann, og Tvo adra med honum, a bꝍdar Sijdur, enn JEsum j Mided.

19. Pilatus skrifade þa eina Yfirskrift, og sette hana upp yfer Krossenn, og þar var skrifad, JEsus af Nazareth, Konungur Gydinga.

20. Þessa Yfirskrift lꝍsu marger af Gydingum, þviad sa Stadur, var nærre Borgenne, þar JEsus var krossfestur, enn þad var skrifad a Ebreskt, Griskt, og Latinskt Twngumꝍal.

21. Þa sogdu þeir ædstu Prestar Gydinganna vid Pilatum, skrifa þu eige Konungur Gydinga, helldur þad hann hafe sagt, eg em Konungur Gydinga.

22. Pilatus svarade, hvad eg skrifade, þad hef eg skrifad.

23. Þa Strijdsmennerner hꝍfdu krossfest JEsum, toku þeir hans Klædnad, og giordu a Fiogra hluta skipte, sier=hvꝍrium Strijds=manne eirn hlut, og þar med Kyrtelenn, enn Kyrtellenn var eige saumadur, helldur fra ofan verdt allur prionadur.

24. Þa tꝍludu þeir sijn a mille, Skiptum vær honum ei j sundur, hlutunst helldur um, hvꝍrs hann skal vera, so ad Ritningenn uppfylldest, er seiger, * þeir skiptu med sier Klædum mijnum, og a minn Kyrtel þa lꝍgdu þeir hlutkeste, og þetta giordu Strijdsmen=nerner. * Psalm. 22, 19.

25. Enn þar stodu vid Krossenn JEsu, Moder hans, og Modursyster hans, Maria Hwsfrw Cleophæ, og Maria Magdalena.

26. Þa JEsus sa nu sijna Modur, og þann Læresvein þar nærstandande, er hann elskade, seiger hann til sinnar Modur, Kona, sia þu, þad er þinn Sonur.

27. Epter þad seigir hann til Læresveinsins, sia, þad er þijn Moder, og upp fra þeirre Stundu tok Læresveirnenn hana ad sier.

28. Epter þad, þa JEsus visse ad allt var nu fullkomnad, og ad Skriftenn yrde upfylld, þa seiger hann, * Mig þyrster. * Ps. 69, 22.

29. Þar stod eitt Kier fullt af Edike, enn þeir fylltu eirn Niardarvott med Edik, og lꝍgdu hann um Ysop, og hielldu þvi fyrer Munn honum.

30. Enn þa JEsus hafde Edikid til sijn tekid, sagde hann, þad er fullkomnad, og ad hneigdu Hꝍfde, þa uppgaf hann sinn Anda.

31. Enn Gydingar, med þvi þad var Adfangadagurenn, so ad Lijkamarner være eige a krossenum um Sabbathsdagenn (þviad sa same Sabbathsdagur var mikell) þa bꝍdu þeir Pilatum ad þeirra Bein brytust, og ofann tækest.

32. Þa komu Strijdsmennerner, og brutu sundur Bein hins firsta, og so hins annars, sem med honum voru krossfester.

33. Enn þa þeir komu til JEsum, og sꝍau ad hann var allareidu dꝍenn, þa brutu þeir eige hans Bein.

34. Helldur opnade eirn af Strijdsmꝍn=nunum hans Sijdu med Spiote, og strax þa rann þar ut Blod og Vatn.

35. Og sa er þad hefur sied ber þar Vitne um, og hans Vitnisburdur er sannur, og hann same veit þad ad hann seiger satt, so ad þier og so trued.

36. Þviad þetta er skied, so ad Ritningenn uppfylldest, * eige skulud þier briota nockud hans Bein. * 2 B. Mos. 12, 46. 4 B. M. 9, 12.

37. Og enn aptur seiger ꝍnnur Ritning, * þeir munu sia hann j hvꝍrn þeir stungu. * 4 B. Mos. 9, 12. Sachar. 12, 10.

II. 38. Þar epter bad Joseph af Arimathæa (hvꝍr ed var Læresveirn JEsu, þo heimug=legur, fyrer Ottasaker vid Gydinga) Pilatum um, ad hann mætte taka nidur Lijkama JEsu, og Pilatus leyfde þad, þa kom hann og took nidur Lijkamann JEsu.

39. Þar kom og Nicodemus, sa er fyrre kom um Nott til JEsu, færande samblandada Myrru vid Aloe, nær hundrud Punda.

40. Þa toku þeir Lijkamann JEsu og sveipudu j Lijne med dyrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greftra.

41. Enn þar j þeim Stad sem hann var kross=

krossfestur, var Grasgardur. Og j Grasgardenum var ny Grøf, j hvoria ad eingenn hafde enn verid lagdur.

42. Þangad løgdu þeir JEsum, fyrer Saker Adfangadagsins Gydinga, þviad su Grøf var nærre.

## XX. Capitule.

Upprisa JEsu er (I) Bodud; og (II) Sønnud.

I. Æ þeim Firsta Deige Vikunnar, þa kiemur Maria Magdalena snemma, þa ad enn var mirkt, til Grafarennar, og sier ad Steirnenn er burt af Grøfenne.

2. Þa hleypur hun, og kiemur til Simonar Peturs, og til hins annars Læresveins, þann ed JEsus elskade, og sagde til þeirra, þeir hafa teked burt HErrann ur Grøfinne, og vier vitum eige hvar þeir hafa lagt hann.

3. Þa gieck Petur ut, og hinn annar Læresveirn, og komu til Grafarennar.

4. Enn þaug tvo hlupu oasamt, þvi hinn annar Læresveirn hliop vakrara framm en Petur, og kom first til Grafarennar.

5. Og er hann giægdist þar jnn, sia hann Lijnklædenn løgd þar, enn hann gieck eige jnn.

6. Þa kiemur Simon Petrus epter hønum, stijgur j Grøfena, og sier ad Lijnløkenn eru løgd þar.

7. Og þann Sveitadwk er var um JEsu Høfud, ei lagdann med Lijnklædunum, helldur sierdeilis samann undenn j einum Stad.

8. Þa stie og hinn annar Læresveirn jnn, sa er firre kom til Grafarennar, sia þad, og (a) trude þvi.

(a) (Trude þvi) ad hann være burt tekenn, so sem Magdalena hafde sagt þeim.

9. Þvi þeir kunnu þa eige enn Ritningena, þad hønum byriade upp ad rijsa af Dauda.

10. Þa geingu Læresveinarner aptur til samans.

II. 11. Maria stod vid Grøfena, og griet þar ute fyrer, og er hun griet, þa giægdest hun j Grøfena.

12. Og sa tvo Eingla Hvijtklædda, sitiande þar, einn til Høfda, enn annann til Fota, þar sem þeir høfdu lagt Lijkamann JEsu.

13. Og þeir søgdu til hennar, Kona, þvi grætur þu? hun sagde þeim, þeir hafa teked burt HErrann minn, og eg veit eige hvar þeir hafa lagt hann.

14. Þa hun hafde þetta sagt, snerest hun vid, og leit JEsum standa þar, og veit þo ei ad þad er JEsus.

15. Þa sagde JEsus til hennar, Kona, hvad grætur þu? ad hvorium leitar þu? enn hun ætlade Jurtagardsmannenn vera, og sagde til hans, HErra, ef þu barst hann burt, þa seig þu mier, hvar lagder þu hann? so vil eg sækia hann.

16. JEsus sagde til hennar, Maria, hun snerest vid, og sagde til hans, Rabbuni, þad kallast Meistare.

17. JEsus sagde til hennar, snertu mig eige, þviad eg er enn eige (b) uppstijgenn til mijns Fødurs. Far til Brædra minna, og seig þeim. Eg fer upp til mijns Fødurs, og til ydars Fødurs, til mijns GUds og ydvars GUds.

(b) (Uppstijgenn) þad er, first hun trude ecke enn nu ad hann være GUd, þa villde hann ecke læta snerta sig, þvi ad snerta, merker Truna, og S. Johannes athugar sierdeilislega framar ødrum Gudspialla Mønnunum, þa Andlegu þyding, þar Mattheus skrifar, ad hann hafe læted Kvinnurnar snerta sig.

18. Maria Magdalena kom og kunngiørde Læresveinunum, Eg hefe sied HErrann, og þetta sagde hann mier.

Gudspiallid I. Sunnud. ept. Paaska.

19. Enn þann sama Dag er firstur var j Vikunne, ad Kvølldе, þa er Læresveinarner voru samann komner, og Dyrnar voru aptur lucktar, fyrer hrædslu Saker vid Gydingana, kom JEsus og gieck midt jnn, og sagde til þeirra, Fridur sie med ydur.

20. Og þa hann sagde þetta, synde hann þeim Hendurnar og sijna Sijdu. Þa urdu Læresveinarner glader, ad þeir saau Drottenn.

21. Þa sagde JEsus enn aptur til þeirra, Fridur sie med ydur, lijka sem Faderenn sende mig, so sende eg ydur.

22. Og

22. Og er hann sagde þetta, blies hann a þa, og sagde til þeirra, medtaked þier Heilagann Anda.

23. Hvorium þier fyrergiefed Syndernar, þa eru þær þeim fyrergiefnar, og hvorium þier þær aptur hallded, þa eru þær þeim aptur halldnar.

24. Enn Thomas eirn af þeim tolf, sa er kalladest Tvibure, var eige med þeim þa JEsus kom.

25. Þa sogdu adrer Læresveinarner til hans, vier hofum sied HErrann. Enn hann sagde til þeirra, nema eg siae Naglaforenn j hans Hondum, og eg laate minn Fingur j Naglaforenn, og eg legge mijna Hond j hans Sijdu, vil eg ecke trwa.

26. Og aatta Dogum epter þad, þa voru hans Læresveinar þar aptur enn jnne, og Thomas med þeim, þa kom JEsus ad lucktum Dyrum, stod j midid og sagde, Fridur sie med ydur.

27. Þvi nærst seiger hann til Thomam, riettu þinn Fingur hingad, og skoda mijnar Hendur, riett ut þijna Hond og legg j mijna Sijdu, og vert ei Vantruadur, helldur Truadur.

28. Thomas svarade og sagde til hans, Drottenn minn og Gud minn!

29. JEsus sagde til hans, þviad þu saast mig, Thoma, þa truder þu, Sæler eru þeir er ei sia, og Trua þo.

30. Og morg onnur Teikn þa giorde JEsus fyrer sijnum Læresveinum, hvor ed eige eru skrifud j þessare Book.

31. Enn þesse eru þvi skrifud, ad þier trued, ad JEsus sie Christur Guds Sonur, og ad þier skulud hafa Lijfed fyrer Truna j hans Nafne.]

# XXI. Capitule.

JEsus bydur (I) sijnum Læresveinum ad leita Fiske Abla; og (II) Petre ad filgia sier epter.

I. Epter þad opinnberade sig JEsus enn aptur vid Sioenn Tiberias, enn hann opinnberade sig so.

2. Þar voru til samans Simon Petrus, og Thomas, sa er kalladest Tvibure, og Nathanael, sa er var af Cana Galileæ, og Syner Zebedei, og adrer Tveir af hans Læresveinum.

3. Simon Petrus sagde til þeirra, eg vil fara ad fiska, þeir sogdu honum, þa vilium vier og koma med þier. Þeir geingu þa vt, og stigu strax a Skip, og a þeirre Nott feingu þeir eckert.

4. Enn ad Morgne komnum, þa stod JEsus j fiorunne, enn Læresveinarner vissu ei ad þad var JEsus.

5. JEsus sagde til þeirra, Born, hafed þier eckert til Matar? þeir svorudu honum, nei.

6. Enn hann sagde til þeirra, kasted ut Netenu til hægre handar vid Skipid, og þa munud þier nockud finna, þa kostudu þeir ut, og gaatu ei dreiged fyrer fiolda saker Fiskanna.

7. Þa sagde sa Læresveirn til Peturs sem JEsus elskade, HErrann er þad, enn þa Simon Petrus heyrde þad, ad HErrann være þad, vafde hann um sig Skyrtunne, þviad hann var Nakenn, og varpade sier ut a Sioenn.

8. Enn adrer Læresveinarner komu a Skipenu, þviad þeir voru ei langt fra Lande, helldur nær tvo hundrud aalna, og drogu Netid med Fiskunum.

9. Og er þeir stigu a Land, saau þeir Ellds glædur, og Fisk yferlagdann, og Braud.

10. JEsus seiger til þeirra, færid hingad af þeim Fiskum er þier feingud nu.

11. Simon Petrus stie jnn, og drog Netid a Land, fullt af storum Fiskum, hundrad, þremur og fimmtijgu, og þo þeir være so marger, þa rifnade þo eige Netid.

12. JEsus seiger til þeirra, komed þier og snæded, enn eingenn Læresveinanna þorde ad spyria hann ad, hvor ertu? þviad þeir vissu ad þad var HErrann.

13. Þa kom JEsus og tok Brauded, gaf þeim þad, og lijka eirnenn Fiskenn.

14. Þetta er nu hid þridia Sinn, er JEsus opinnberade sig sijnum Læresveinum, epter þad hann var upprisinn af Dauda.

II. 15. Þa þeir høfdu nu snædt, seiger JEsus til Simonar Peturs, Simon Jona, elskar þu mig, meir enn þesser? hann sagde hønum, ja HErra, þu veitst ad eg elska þig, hann sagde þa til hans, fæd þu Lomb mijn.

16. Enn seiger hann j annad sinn aptur til hans, Simon Jona, elskar þu mig? hann seiger hønum, ja HErra, þu veitst eg elska þig, hann seiger til hans, fæd þu Saude mijna.

17. Hann seiger enn aptur j þridia Sinn til hans, Simon Jona, elskar þu mig? þa hriggdest Petur vid, þvi hann sagde j þridia Sinn til hans, elskar þu mig? og sagde til hans, HErra, þu veitst alla Hlute, þu veitst ad eg elska þig, JEsus seiger til hans, al þu Saude mijna.

18. Sannlega, sannlega seige eg þier, þa þu varst ungur, gyrdter þu sialfur þig, og gieckst hvort þu villder, enn þa þu elldest, muntu þijnar Hendur utbreida, og annar mun þa gyrda þig, og þangad leida sem þu villt eige.

19. Enn þetta sagde hann, teiknande med hvorium Dauda ad hann skyllde GUd dyrdka.

Gudspialled a III. j Jolum.

Og þa hann hafde þetta sagt, seiger hann til hans, Filg þu mier epter.

20. Þa snere Petur sier vid, og leit hann Læresvein epterfilgianda sem JEsus elskade, sa er og um Kvølldmaaltijdena hafde a hans Brioste leiged, og sagt, HErra, hvør er sa er þig mun forrada?

21. Þa Petur leit þennann, seiger hann til JEsu, HErra, hvad skal þa þesse?

22. JEsus seiger til hans, ef eg vil ad hann blijfe til þess ad eg kiem, hvad kiemur þad vid þig? filg þu mier epter.

23. Þa gieck su Ordræda wt a medal Brædranna, þesse Læresveirn deyr eige. Og JEsus sagde eige til hans, hann deyr eige, helldur ef eg vil, ad hann blijfe til þess ad eg kiem, hvad kiemur þad vid þig?

24. Þesse er sa Læresveirn, er um þessa Hlute ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hans Vitnisburdur er sannur.]

25. Þar eru og marger adrer Hluter, sem JEsus giorde, hvørier ef þeir skylldu aller skrifast eitt epter annad, þa helld eg, ad Heimurenn munde eige yfergrijpa þær Bækur sem skrifast mættu.

## Endar a S. Johannis Evangelio.



For-

# Formale yfer Postulanna Giørninga.

Þessa Book skulu Menn eige lesa og aalijta, so sem vier høfum fyrr giort, so sem ad hafe S. Lucas hier inne ad eins Giørninga Postulanna, edur sier hvørs Þeirra eigennleg Verk uppskrifad, til epter-dæmes godra Verka og Gudlegs Lijfernis, so sem S. Augustinus og marger adrer hafa þetta epterdæme hallded Þad allra besta j Þessare Book, ad Postularner med Þeim Christnu høfdu allt sitt Gots sameigennlegt etc. Hvad Þo skamma Stund varde, og hlaut umsijder aflagt ad verda.

Helldur skulu Menn þetta merkia og at-huga, ad S. Lucas undervijsar og kienner øllum Christendomnum, j Þessare Bok, allt til Veralldarennar Enda, Þa Sønnu Høfudgrein Christelegs Lærdoms, sem er Þesse, hvørnenn vier hliotum aller ad verda riettlaater, alleinasta fyrer Truna a JEsum Christum aan nockurs Studnings Løgmaalsins, edur Tilhialpar vorra eigennlegra Verka; Þetta hefur verid su hellsta Meining, Søk og efne, Þvi hann hafe Þessa Bok skrifad. Þar fyrer Þa frammkuyr hann og alvarlega frammsetur, ecke alleinasta Postulanna Predikaner, ut af Trunne a JEsum Christum, Hvørsu bæde Gydingar og hiner Heidnu, hafa orded fyrer hana Riettlaater ad verda, aan allra Verka og ForÞienustu, helldur Þa frammsetur hann eirnenn dæmenn og Giorninga slijks Lærdoms, Hvørsu bæde Heidingiarner, so vel sem Gydingarner, sieu alleinasta fyrer Evangelium, aan Løgmaalsins Riettlætter ordner. So sem S. Petur vottar, j tijunda og j fimtanda Capitula, ad GUD j þessu efne, hafe øngvann Mismun giort a mille Gydinga og Heidingia, helldur so sem ad hann Heidingium, sem aan Løgmaalsins lifdu, gaf fyrer Evangelij Predikan, Þann Heilaga Anda, so hefur hann og Þann sama Anda, eirnenn giefed Gydingum fyrer Evangelium, enn ecke fyrer Løgmaaled, nie helldur fyrer Þeirra Verka eda Verdskulldunar Saker. Setiande so til samans jafnfraint hvørt ødru, j Þessare Book, bæde Lærdomenn ut af Trunne, og so eirnenn Epterdæmed Truarennar.

Fyrer þessar greiner ma Þessa Bok vel kalla eina Utlegging yfer S. Pals Pistla, Þviad hvad S. Pall kienner og frammknyr, med ordum og greinum Heilagrar Ritningar, Þad syner S. Lucas hier, og sannar Þad hid sama med Epterdæmum og Frasøgum, ad so hafe Þad skied, og Þannenn hliote Þad ad skie, so sem S. Pall kienner, ad Eckert Løgmal og eingeñ Godverk giøre Mannenn Riettlaatann, helldur alleinasta Truenn a Christum.

Og j Þessare Book hefur Þu eina aagiæta Skuggsio og Sionargler, hvar inne Þu matt sia, hvørsu sannarlega satt Þad er, Sola Fides justificat, Alleina Truenn giører Mannenn Riettlatann, Þviad til þessa sama Lærdoms, eru øll Þaug epterdæme, og aller Þeir Giørningar sem j Þessare Book standa, ofallvallt og huggunarsamlegt Vitne, sem ecke kann ad bregdast, Þvi sia ad eins til, hvørnenn S. Paall hefur sialfur snuest, item, hvørnenn sa Heidne Cornelius umsnerest fyrer Ord S. Peturs, so sem Eingellenn sagde hønum fyrer, ad Petur skyllde predika fyrer hønum Þad Ord, fyrer hvørt hann skyllde verda Saluholpenn, item Landstiornarenn Sergius, so og allar Þær Borger, Þar S. Pall og Barnabas predikudu: hugleid Þad firsta Concilium og Þing Postulanna til Jerusalem, Cap. fimtanda, Hygg ad øllum Predikunum S. Peturs, Paals, Stephani og Philippi, þa finnur þu, hvørsu Þad allt kiemur j einum Stad nidur, sem er, ad vier fyrer Truna a Christum alleina, fyrer utann Løgmalid og Verkenn, hliotum til Naadarennar ad komast, og Riettlater ad verda.

Nær þu med soddann hætte les, og underskendur Þessa Bok, Þa er miøg audvelldt nidur ad Þagga vora Motstødumenn, hvørier oss til Løgmalsins Vijsa, og til vorra Verka, latande so j Liose fyrer øllum Heimenum sina Favitsku, og Skilningsleyse, Þar fyrer seiger S. Lucas, ad slijk Epterdæme Truarennar hafe og so Þeim Gudhræddu Gydingum, sem truader voru, stoora Furdu auked, enn hiner adrer Vantruudu Gydingar, hafe sinnulauser og volner Þar ut af orded, hvad ei var furdanda, af Þvi, ad Þeir voru Uppfostrader j Løgmalenu, og høfdu vid Þad vanest allt j fra Abrahams Tijd, og Þad hlaut Þeim ad mislijka, ad Heidingiar, sem hvørke vissu af Gude nie Løgmalenu, skylldu lijka j Guds Naad Þeim jafner verda.

Enn Þar vorer Menn (vier sem aller erum Heidingiar) lasta so og offækia Þennann Artikulum, og Lærdom, Þad er tijusinnum slæmra, Þar vier Þo siaum, og kunnum þess ei ad Þræta, ad Guds Naad og Kynning Christi, er kominn til vorra Forfedra, aan Løgmalsins og aan nockrar Verdskulldunar og ForÞienustu, Þa Þeir voru j hrædelegre Skurgodadyrkan, og allskins Glæpum.

Enn med Þeirra Lastyrdum, og Offsoknum, munu Þeir ecke meira avinna, enn Gydingarner med Þeirra grimd og æde hafa afrekad, Þviad hann, sa sem fyrrmeir hotade Gydingum med slijku, og liet Þeim fyrer Moysen, Þessa Vijsu syngia, eg vil giøra ydur reida fyrer þa, sem ei er minn Lydur, og yfer favijsu Folke vil eg upperta ydur. Og Ose 2. C. Eg vil kalla þa mitt Folk, sem ecke er mitt Folk (Þad er, þa sem Lifa aan Løgmalsins og Verkanna.) Hann hefur Þad endt og hallded. Þesse hinn same, hann hootar og so eirnenn vorum lostrurum (sem hann hefur allareidu uppbyriad) hann mun Þad efna, og hallda vid Þa, enn Þessu trua Þeir ecke, fyrr enn Þeir reyna þad (so sem Gydingarner) Amen.

# Annar Partur S. Lucæ Gudspialla um Postulanna Giorninga.

## I. Capitule.

(I) JEsus fer up til Himens ad afsidendum Postulunum. (II) Gudhrædsla Postulanna: (III) Predikun Petri fyrer 120. (IV) Kollun Matthiæ.

Pistillenn a Upstigningardag.

1. Hann fyrra Bookmaala giorda eg ad sonnu, um allt þad, þu kiære Theophile, sem JEsus hof upp bæde ad giora og kienna.

2. Allt til þess Dags, er hann vard uppnumenn, epter þad hann hafde Postulunum (a) Bifalning giefed (hvoria hann hafde utvalid) fyrer Heilagann Anda.

(a) (Bifalning) þad er, hann hafde skipad þeim hvad hann villde skipa, sem er, ad þeir skylldu vera hans Postular, og predika fyrer øllum Heime.

3. Hvorium hann tiede og sialfann sig Lifanda epter Pijsl sijna, j marg-hattudum Bevijsingum, og liet þa sia sig a medal þeirra um fiorutyger Daga, talande fyrer þeim af GUds Rijke.

4. Og sem hann hafde þeim samansafnad, baud hann þeim ad þeir vike eige ut af Jerusalem, helldur ad þeir skylldu epterbijda Fyrerheite Fodursins, sem þier (sagde hann) hafed af mier heyrt.

5. Þviad Johannes skijrde med Vatne, enn þier skulud med HeilogumAnda skijrder verda, ei langt epter þessa Daga.

6. Enn þeir, sem þar voru til samans komner, spurdu hann ad og søgdu, HErra, villtu nu a þessum Tijma upprietta aptur Israels Rijke?

7. Enn hann sagde til þeirra, ydur ber ei ad vita Tijma edur Stunder, hvoriar Faderenn sette j sialfs sijns Vallde.

8. Helldur munud þier ødlast Krapt Heilags Anda, þess er yfer ydur mun koma, og þier skulud (b) mijner Vottar vera til Jerusalem, og j allre Judea og Samaria, og allt til Jardarennar Enda.

(b) (mijner) ecke Moysis Vottar, helldur alleinasta Nadarennar j Christo.

9. Og er hann sagde þetta, var hann þeim aasiaondum uppnumenn, og eitt Sky tok hann upp j burt fyrer þeirra Augum.

10. Og er þeir horfdu epter honum til Himens uppfaranda, sia, þa stodu tveir Menn hia þeim j hvijtum Klædum.

11. Hvorier og søgdu, þier Menn ut af Galilea, til hvors standed þier og horfed upp j Himenenn? þesse JEsus sem uppnumenn er fra ydur til Himens, mun koma, lijka so sem þier sead hann til Himens uppfara.]

II. 12. Þa sneru þeir aptur til Jerusalem, af Fiallenu þvi sem kalladest Vidsmiors-vidar Fiall, hvort ed er nærre Jerusalem, og liggur eina Sabbathsdags Leid þadann.

13. Og er þeir komu jnn, geingu þeir upp j Loptid, og voru þar, Petur og Jacobus, Johannes og Andreas, Philippus, og Thomas, Bartholomeus og Mattheus, Jacobus Alphei Son, og Simon Zelotes, og Judas Jacobi.

14. Þesser voru aller med einum huga støduger j Bæn og aakalle, med Kvinnunum og med Mariu Modur JEsu, og hans Brædrum.

III. 15. Og a þeim Døgum stod upp Petur a mille Læresveinanna, og sagde (enn Flockurenn ad Nafne, var nær Hundrad og Tuttugu til samans.)

16. Þier Menn og Brædur, þeirre Ritningu byriade upp ad fyllast, hvoria Heilagur Ande adur fyrersagde, fyrer Munn Davids, ut af * Juda, hver ed var þeirra Leidtogare, er JEsum hondludu. * Psalm. 41, 10.

17. Þvi

17. Þvi hann var talenn med oss, og hafde medteked þetta Embætte med oss.

18. Þesse hefur utvegad Akurenn fyrer Oriettferdug Verdlaun, og heingde sig, og er j midiu sundur j tvo hlute brostenn, og hans Innifle eru og øll uthlaupenn.

19. Og þad er øllum kunnugt orded, þeim er j Jerusalem byggia, so ad same Akur er kalladur a þeirra Tungumaal, Hakeldama, þad er Blods Akur.

20. Þviad so er skrifad j Psalmabokenne, * hans Setur skal j eyde verda, og eige sie sa nockur sem þar inne bygger, ** og hans Biskupsdom medtake annar.

* Psalm. 69, 26. ** Psalm. 109, 8.

21. Fyrer þvi skal nu einn af þeim Monnum sem alla Tijma hafa med oss verid, fra þvi er Drottenn JEsus tok ad ganga ut og inn vor a mille.

22. Fra Skijrn Johannis, allt til þess Dags er hann var uppnumenn j fra oss, vera einn Vottur hans Upprisu medur oss.

IV. 23. Og þeir settu til tvo, Joseph þann er hiet Barsabas, ad vidurnefne Just, og Matthiam.

24. Badu og sogdu, Þu DRottenn sem þecker øll Hiortu, syn hvorn þu hefur utvalid, af þessum tveimur.

25. So ad eirn medtake þessa Þionustu, og Postula Embætte, j fra hvoriu Judas er af-fallenn, þad hann burt fære j sinn stad.

26. Og þeir logdu hlute yfer þa, og hlutur-enn fiell yfer Matthiam, Og honum var skickad til þeirra Ellefu Postula.

## II. Capitule.

(I) Hversu ad Heilagur Ande var sendur yfer Postulana. (II) Predikun Peturs, er 3000. Saalna urdu a einum Dege Aukuar vid Sofnuden.

Pistillenn a Hvitasunnudag.

I. Og þa er fullkomnadest Hvijtasunnu-dagurenn, voru þeir aller med einum huga til samans.

2. Og þar vard skyndelega þytur af Himne, sem mikell Vindur, og fyllde upp allt husid þar þeir satu j.

3. Og þeir sau sundurskildar Tungur, so sem ad være þær gloande. Og hann sette sig yfer sier-hvorn þeirra.

4. Og þeir urdu aller fuller af Heilogum Anda, og toku ad tala med annarlegum Tungum, epter þvi sem Heilagur Ande gaf þeim ut ad tala.

5. Enn þar voru Gydingar bwande til Jerusalem, þeir voru Gud-hrædder menn ut af allra handa Piod, þeirre sem under Himnenum er.

6. Og er þesse Rodd skiede, kom Almwgenn til samans, og vard undrande, þviad hvor og einn heyrde þa tala sijna Tungu.

7. So þad, ad aller toku ad ottast og undrast, og sogdu hvor vid annann, sia, Eru þesser eige aller, sem þar tala, ut af Galilea?

8. Hvornenn heyrum vier þa hvor eirn sitt Tungumaal, þar ed vier erum inne fædder?

9. Parthi og Medi, og Elamite, og vier sem bwum j Mesopotamia, Judea, Cappadocia, Ponto og Asia.

10. Phrygia, og Pamphilia, a Egyptalande, og j Endemorkum Lybie, sem eru nærre Cyrenia, og utlender af Rom.

11. Judar, og þeir sem Judar hafa giorst, Cretar og Arabiar, Vier heyrum þa tala med vorum Tungum Guds Furduverk.]

12. Enn aller urdu ottaslegner, og undrudust þad, seigiande sijn a mille, Hvad mun þetta vilia verda?

13. Enn adrer hofdu þad ad spotte, og sogdu ad þeir være fuller af sætu Vijne.

II. 14. Þa gieck Petur upp med þeim Ellefu, hof upp sijna Raust, og talade til þeirra, Þier Gydingar, goder Menn, og þier aller, sem bwed til Jerusalem, þad sie ydur kunnugt, og leaved ydur mijn Ord j Eyrum loda.

15. Þviad þesser eru eige druckner, sem þier meintud, med þvi þad er þridia stund dags.

16. Helldur er þetta þad, hvad sagt var fyrer Spaamannenn Joel. *Joel, 2, 28. rc. Es. 44, 3.

17. Þad skal skie a sijdurstu dogum, seiger Gud, ad eg vil uthella af mijnum Anda, yfer

allt (a) Holld, og Syner ydrer og Dætur ydar skulu Spaa, og Ungmenne ydar skulu Sioner sia, og ydar Olldunga skal Drauma dreyma.

(a) (Allt Holld) Bæde j Logmaalenu og utan Logmaalsins, Þviad j Christo eru þeir aller eins kallader til Naadarennar aan allra verka og Forþienustu.

18. Og eg vil uthella af mijnum Anda, a þeim somu Dogum, yfer mijna Þiona, og yfer mijnar Ambaatter, og þeir skulu spaa.

19. Og eg skal giora furdanlega hlute a Himnum uppe, og Teikn a Jordu nidre, Blod og Elld og Reykiarsvælu.

20. Solenn skal snuast j Mirkur, enn Tunglid j Blod, aadur enn sa hinn Mikle og alkunne Dagur DRottins kiemur.

21. Og þad skal skie, ad hvor hann aakallar Nafn DRottenns, sa skal holpenn verda.

22. Þier Israels menn, heyred þesse Ord, JEsum af Nazareth, eirn mann af Gude medal ydar auglystann, med Kraptaverkum, Stormerkium og Taaknum, þaug er Gud giorde fyrer hann a medal ydar (so sem þier og sialfer vitid.)

23. Þann sama (epter þad hann var af forþeinktu Raade Guds og Fyrerhugan ofurselldur) hafed þier teked hann fyrer Hendur Raangloatra, og krossfest hann og lijfloated.

24. Þennann hefur GUd uppreist, ad uppleystum Daudans Kvolum, fyrer þvi, ad þad var omogulegt, ad hann skylde af honum halldenn verda.

25. Þviad David seiger so af honum, * eg hefe alla Tijma Drottenn fyrer minne Augsyn settann, þvi hann er mier til hægre Handar, so ad eg hrædest eige. *Ps. 16, 8.

26. Fyrer þad er mitt Hiarta gladvært, og Tunga mijn gledst, og þar ad auk mun mitt Holld hvijlast j Vonenne.

27. Þviad þu munt eige forlaata mijna Ond j Helvijte, og eige leyfa þad, ad þinn Heilage skule Rotnan sia.

28. Kunna giorder þu mier Lijfsins vegu, þu munt mig med Glede fylla, fyrer þijnu Auglite.

29. Þier Menn, goder Brædur, leyfed mier Einardlega til ydar ad tala af Forfodurnum David; *hann er frammlidenn og greftradur, og hans Grof er hia oss, allt til þessa Dags.

* 1 B. Kong. 2, 10.

30. Af þvi, ad hann var nu Spaamadur, og visse þad, ad GUd hafde honum med Eyde fyrerheited, * ad hann villde af Averte hans Lenda, epter Holldenu, uppvekia Christum, sem skyllde a hans Stoole sitia.

* 2 Sam. 7, 12. Psalm. 132, 11.

31. Hefur hann þad aadur fyrer sied, og talad, af Christi Upprisu, * ad hans Saala sie ei j Helvijte epterskilenn, og eige hafe hans Holld Rotnan sied. * Psalm. 16, 10.

32. Þennann JEsum uppvakte GUd, þar til erum vier aller Vottar.

33. Nu hann er fyrer Guds hægre Hond upphafenn, Og hefur medtekid Heilags Anda Fyrerheit af Fodurnum, uthellte hann þessu, þad þier siaed og heyred.

34. Þviad David er eige uppstigenn til Himna, enn hann seiger, * Drottenn sagde mijnum Drottne, sit þu til minnar hægre Handar. * Psalm. 110, 1.

35. Þar til eg legg Ovine þijna, til Skarar Fota þinna.

36. Þvi vited þad nu fyrer sann, allt Israels Hws, ad GUd giorde þennann JEsum, hvorn þier krossfestud, ad einum Drottne og Christe.

37. Enn er þeir hofdu þetta heyrt, gieck þad j giegnum þeirra Hiarta, og sogdu til Peturs og til annara Postulanna, þier Menn og goder Brædur, hvad skulum vær giora?

38. Petur sagde til þeirra, giored (b) Yferboot, og hvor ydar eirn laate Skijra sig j Nafne JEsu Christi, til Fyrergiefningar Syndanna, þa munud þier medtaka Heilags Anda Giof.

(b) (Yferbot) sia, þesser verda heilagir fyrer Orded aan Verkanna, og hliota ad idrast sijns umlidna Heilagleika.

39. Þviad ydur og ydar Bornum er þetta Fyrerheit lofad, og ollum þeim sem j fiarska eru, hvoria hellst ad GUd Drottenn vor mun hier tilkalla.

40. Og

40. Og med mørgum ødrum Ordum vitnade hann fyrer þeim, aaminte þa og sagde, Laatid hialpa ydur j fra þessu vonda Folke.

41. Og þeir sem fwsir medtoku hans Ord, lietu sig skijra, og þar urdu a þeim Deige vidauknar nær þriar Pusunder Saalna.

42. Og þeir blifu stoduger j Postulanna Kienningu, og j Samneyte, og Braudsins brotningu, og j Bænahallde.

43. Og allra Saaler urdu ottasleguar, og þar giordust mørg Teikn og Stormerke fyrer Postulana.

44. Enn aller þeir sem Truader voru ordner, voru til samans, og høfdu alla hlute sameigennlega.

45. Eigner sijnar og Gots selldu þeir, og sundurskiptu þvi medal allra, epter þvi sem hvørium var þorf a.

46. Og jafnann voru þeir daglega med einum hnga, hvor hia ødrum j Musterenu, og brutu Braudenn j Jmsum Hwsum, toku Fædslu.

47. Og lofudu GUd med Glede, og einfølldu Hiarta, og høfdu Naad hia øllu Folke. Enn Drottenn lagde daglega til Safnadarens, þa sem holpner urdu.

## III. Capitule.

Petur (I) læknar einn Halltann i JEsu Nafne: (II) Talar fyrer Folkenu um JEsum.

I. Enn þeir Petur og Johannes geingu til samans, upp til Mustereſins, um nijundu Stund, sem vanalegt var ad bidiast fyrer.

2. Og þar var eirn Madur, sem halltur var fra Modurkvide, sa liet bera sig, og þeir settu hann daglega fyrer Mustereſins Dyr þær ed kolludust hinar Fogru, so ad hann bæde Ølmosu, af þeim er inngeingu j Mustered.

3. Pa hann sa nu Petur og Johannem, þad þeir villdu innganga j Mustered, bad hann, ad honum giæfest Ølmusa.

4. Enn Petur horfde a hann med Johanne, og sagde, horf þu a ockur.

5. Enn hann horfde a þa, vonande ad hann munde fa nockud af þeim.

6. Enn Petur sagde, Silfur og Gull hef eg ecke, enn þad eg hefe þad gief eg þier. J Nafne JEsu Christi af Nazareth, statt upp og gack.

7. Og tok j hans hægre Hond, og reiste hann upp.

8. Og jafnsnart stodu hans Legger og Hælar faster, spratt upp, gat geinged og staded, og gieck jnn med þeim j Mustered, gieck, stock upp, og lofade GUd.

9. Og allt Folk sa hann ganga, og lofa GUd.

10. Peir þecktu hann, og þad hann var sa, sem epter Ølmusu hafde setid, fyrer Fogru Dyrum Mustereſins, og þeir fylltust af undran og hrædslu, yfer þvi er hann hafde skied.

11. Enn sem þesse hinn Hallte er heilbrigdur var ordenn, hiellt sig ad Petre, og Johanne, hliop allt Folked til þeirra, j Forbyrge sem heiter Salomonis, undrande þetta.

II. 12. Enn er Petur sa þad, andsvarade hann Folkenu, þier Jsraels Menn, hvad undrar ydur þetta, eda hvar fyrer sprokstetied þier ockur? so sem hefdum vid giort þennann gangande fyrer ockar eigenn Krapt, og Verdskulldan.

13. GUd Abrahams, GUd Jsaacs, GUd Jacobs, GUd Fedra vorra, hefur auglyst sitt Barn JEsum, hvorn þier ofurselldud, og neitudud fyrer Pilato, þa hann dæmde, ad hann skyllde laus laatast.

14. Enn þier afneitudud hinum Heilaga og Riettlaata, og beiddust ad Manndraparenn skyllde ydur giefast.

15. Enn Lijfsins (a) Hofdingia aflijfudud þier, þann hefur GUd uppvakt fra Daudum, þar erum vier Vottar ad.

(a) (Hofdingia) Þann sem er Høfuded, og sa hinn firste af þeim sem af Dauda uppvakna, fyrer hvørn vier verdum aller lifande.

16. Og fyrer Truna a hans Nafn hefur hans Nafn stirkt þennann, sem þier siaed og þecked. Og Trwinn (b) fyrer hann gaf þessum soddann Heilbrigde fyrer ydrum Augum

 (b) (Fyrer

(b) (Fyrer hann) Þviad fyrer Christum truum vier a Gud.

17. Og nu veit eg, Brædur, ad þier hafed giort þad af Ovitsku, so sem og ydrer Hofdingiar.

18. Enn Gud sem fyrer Munn allra sinna Spaamanna, hefur aadur kunngiora laated, hvornenn Christur aatte ad lijda, hann fullkomnade þad.

19. Fyrer þvi giored yferbot, og snueft, so ad afmaaest Synder ydar.

20. So ad (c) Endurlijfgunar Tijme kome fyrer HErrans Augsyn, nær hann sender þann sem ydur verdur nu fyrerframm bodadur, JEsum Christum.

(c) (Endurlijfgunar Tijme) ecke Skielsingar edur Smanar Tijme.

21. Hvorium ad byriar Himenenn jnn ad taka, allt til þeirrar Stundar, þa aller hluter skulu endurskickader verda. Hvoria hlute Gud hefur aadur talad fyrer Munn allra sinna Heilagra Spaamanna, j fra Veralldar Upphafe.

22. Þviad Moyses hefur sagt til Fedranna, * Spaamann mun Gud DRottenn ydar uppvekia ydur af Brædrum ydar, mier lijkann, honum skulud þier heyra, j ollu þvi er hann mun seigia til ydar. * 5 B. Mos 18, 15.

23. Og þad mun skie, ad hver su Saal, sem eige heyrer þeim sama Spaamanne, skal afmad verda fra Folkenu.

24. Og aller Spaamenn j fra Samuel, og þar epter, so marger sem talad hafa, þeir hafa af þessum Dogum kunngiort.

25. Þier erud Spaamannanna og (d) Sattmaalans Born, hvorn ed Gud giorde vid Fedur vora, þa er hann sagde til Abrahams, * J þijnu Sæde skulu blessast allar Þioder Jardar. * 1 B. Mos. 12, 3. Cap. 22, 18.

(d) (Sattmaalans) Hann talar ecke um Sattmaala Moysis edur Logmaalsins, helldur nefner hann Abrahams Sattmaala, hvad ed var Naadarennar, enn ecke Verkanna, Sattmaale.

26. Gud, þa hann uppvakte sitt Barn JEsum, þa hefur hann first sendt hann til ydar ydur ad blessa, so ad hver ydar eirn snerest j fra sinne (e) Illsku.

(e) (Illsku) Hann kallar allann Heilagleika an Trwarennar, eintomes Illsku, Þvi hann talar til allra Gydinga, illra og Godra.

## IV. Capitule.

(I) Postularner verda fyrer Offsokn. (II) Gudrækeleg Bæn Hinna Trudu; og (III) Hreinskiled Lunderne til sijn Jnbyrdes.

1. Enn sem þeir toludu til Folksins, komu til þeirra Prestar og Yferbodarar Mustereslins og Saducei.

2. Þeim mislijkade þad, ad þeir skylldu kienna Folkenu, og þad þeir bodudu j JEsu Upprisu af Dauda.

3. Logdu Hendur a þa, og settu þa j Varðhalld til hins næsta Morguns, þviad Kvolld var komid.

4. Enn marger af þeim er Ordid heyrdu, trudu, og Tala þeirra Manna vard nær Fimm Þusunder.

5. Enn ad morgne kommum, samansofnudust Hofdingiar þeirra og Olldungar, og Skriftlærder j Jerusalem.

6. Hannas Kiennemannahofdinge, og Caiphas, Johannes, og Alexander, og so marger sem þeir voru ut af Hofudprestanna Ætt.

7. Og skickudu þa midt framm fyrer sig, og spurdu þa, af hvorre Makt, eda j hvors Nafne giordud þier þetta?

8. Petur fullur af Heilogum Anda, sagde til þeirra, Þier Hofdingiar Lydsins, og Olldungar j Jsrael.

9. Þott vier verdum dæmder j Dag, fyrer þann Velgiorning, er vier giordum þessum Siuka Manne, fyrer hvorn hann vard heilbrigdur.

10. Þa sie ydur þad ollum og ollu Jsraels Folke kunngiort, þad þesse stendur j Nafne JEsu Christi af Nazareth, þann þier krossfestud, hvorn er Gud uppvakte af Dauda, hier fyrer ydur heilbrigdur.

11. Hann er sa Steirn sem utskufadur er af ydur Uppbyggiurum, hvor ordenn er ad Hyrningar-steine, Og eige er j nockrum odrum Saluhialp.

12. Þviad þar er eckert (a) annad Nafn, giefid Monnunum, j hvøriu oss biriar Saluhialpnum ad verda.

(a) (Annad Nafn) Þetta ma heita fullkomlega og øllungis ad fraskwfa og burt taka Verkanna Riettlæte.

13. Enn þeir sau Stødugleik Peturs og Johannis, og undruduſt þa, þvi þeir vissu fyrer sann, þad þeir voru olærder og leikmenn, og þecktu þa, þad þeir høfdu verid med JEsu.

14. Enn þeir sau Manninn, þann sem heill var ordenn, standa hia þeim, og kunnu þar eckert j mote ad seigia.

15. Þa skipudu þeir þeim ut j burt fra Raadenu, og toku þa ad raadgaſt um sijn j mille.

16. Og søgdu, Hvad vilium vier giora þessum Monnum? þviad þad Teikn sem af þeim er giørt, er opinberlega kunnugt øllum þeim sem j Jerusalem byggia, og vær getum þvi ei neitad.

17. Enn so ad þad skule eige vijdara utspyriaſt medal folksins, þa ognum þeim alvarlega, ad þeir seige ei neinum Manne hiedan j fra, af þessu Nafne.

18. Og þeir lietu kalla a þa, og budu þeim ad þeir tøludu ei med nockru mote, nie kiendu j JEsu Nafne.

19. Enn Petur og Johannes svorudu, og søgdu til þeirra, Dæmed þier sialfer, hvort þad er riett fyrer Gude, ad vier skulum framar hlijda ydur enn Gude?

20. Þviad þad meigum vær eige, ad vier skulum eige tala þad hvad vier høfum heyrt og sied.

21. Enn þeir ognudu þeim, og lietu þa fara, og fundu eige hvørnenn þeir giæte pijnt þa, fyrer Folksins saker, af þvi, ad aller lofudu Gud fyrer þad sem til hafde bored.

22. Þviad sa madur var meir enn fiorutijger aara, a hvørium ed skied var þetta Heilsu Teikn.

II. 23. Og sem þeir voru lauser laatner, komu þeir til sinna, kunngiørdu þeim hvad hellſt ad Prestahøfdingiarner, og Øldungarner høfdu til þeirra talad.

24. Þa þeir heyrdu þad, hofu þeir upp med einum Huga sijna Rødd til Guds, og søgdu, DRottenn, þu ert sa Gud sem giørder Himen og Jord, Siøenn, og alla hlute, hvørier j þeim eru.

25. Þu sem sagder fyrer Munn þijns Þions Davids, *fyrer þvi æddu so hiner Heidnu, og Folked asette þad hvad hiegomlegt var. *Psalm. 2, 1. 2.

26. Kouungar Jardarennar, komu til samans, og Høfdingiar samansøfnuduſt j eitt, j giegn DRottne, og j giegn hans Christe.

27. Þvi sannlega komu þeir til samans, j giegn þijnu Heilaga Barne JEsu, sem þu smurt hafder, Herodes, og Pontverskur Pilatus, samt ødrum Heidingium og Israels Folke.

28. Ad giøra hvad þijn Hønd og þitt Raad hafde aadur fyrre hugsad ad skie skyllde.

29. Og nu DRottenn, lijt þu a þeirra heitingar, og gief þijnum Þionum med allre Diørfung ad tala þitt Ord.

30. Og riett þu wt þijna Hønd, so ad þar skie Teikn, Heilsur manna, og Stormerke, fyrer Nafn þijns Heilaga Barns JEsu.

31. Og sem þeir høfdu bedeſt fyrer, hrærdeſt sa stadur j hvørium þeir voru til samans safnader, Og þeir urdu aller fuller af Heiløgum Anda, og tøludu Guds Ord med Diørfung.

III. 32. Enn j Søfnude þeirra er trudu var eitt Hiarta, og ein Ønd, Og eige sagde nockur þeirra, ad þad være sitt, er hann aatte, helldur voru þeim aller hluter sameigenleger.

33. Og af miklum (b) Krapte, gafu Postularner Vitnisburd af Upprisu DRottins vors JEsu Christi. Og mikel Naad var med þeim øllum.

(b) (Krapte) þad er, med mikillre Diørfungu, og større Hugarhreyſte.

34. Þar var og eingenn þeirra þurfande, þviad so marger sem þeir voru, er Akra eda Hws aattu, þeir selldu þad, og færdu Peningana fyrer þad sellda Gots.

35. Og lögdu þa framm fyrer Fætur Postulanna, Og sier hvorium skipteſt epter þvi hann hafde þorf til.

36. Enn Joses, ſa er auknefndur var af Postulunum Barnabas (hvad er þydeſt Huggunar Sonur) Levite ad ætt, ut af Cyprien, hann hafde Akur, og ſellde hann, bar Peningana, og lagde fyrer Fætur Postulanna.

## V. Capitule.

(I) Lyge i gegn Gude er ſtraffad. (II) Fangelſe Postulanna; (III) Frelſe Þeirra ur Fangelſenu; (IV) Þeir eru Leidder fyrer Þad Andlega Yfervalld. (V) Gamaliels Raad.

I. Enn einn Madur, ſem Ananias var ad Nafne, med Hwsfru ſinne Saphira, ſellde Eigner ſijnar.

2. Og dulde nockru af Verdenu, ad vitund ſinnar Hwsfreiu, enn færde ſumann hlut, og lagde til Fota Postulanna.

3. Þa ſagde Petur, Anania, þvi uppfyllde Andſkotenn Hiarta þitt, ſo ad þu villder liuga ad Heilögum Anda, og dulder ſumu af Peningum Akurſins?

4. Þu hefder þo mꝏtt vel bihallda honum, þegar þu ꝏtter hann, Og þa hann var ſelldur, var þad og ſo j þijnu Vallde, þvi ꝏſetter þu þier ſlijkt j Hiarta? Eige hefur þu loged ad Monnum, helldur ad Gude.

5. Enn þa Ananias heyrde þeſſe Ord, datt hann nidur, og gaf upp Ondena. Og ſtor hrædſla kom yfer alla þa ſem þad heyrdu.

6. Enn Ungmennenn ſtodu upp, ſem toku hann j burt, bꝏru hann ut, og grofu hann.

7. Og þad ſkiede jnnan ſkamms, nærre þrem ſtundum, ad hans Hwsfru kom þar jnn, og viſſe eige hvad þar hafde giorſt.

8. Enn Petur ſvarade henne, Seig þu mier, hvort þid ſelldud Akurenn ſo dyrt? Hun ſagde, Ja, ſo dyrt.

9. Þa ſagde Petur til hennar, Fyrer þvi erud þid þa ſamþyckt ordenn ad freiſta Anda DRottens? Siadu, Fætur þeirra ſem jördudu Mann þinn, eru fyrer dyrum ute, og þeir munu þig utbera.

10. Og jafnſnart datt hun nidur fyrer Fætur honum, og gaf upp Ondena. Enn Ungmennen komu jnn, og fundu hana dauda, bꝏru hana ut, og grofu hana hia Manne ſijnum.

11. Og miklum Otta ſlo yfer allann Sofnudenn, og yfer alla þa er þad heyrdu.

II. 12. Enn morg Teikn og Stormerke giorduſt med Lydnum, fyrer Postulanna hendur, og aller voru þeir aſamt med einum Huga, j Forbyrge Salomonis.

13. Og ongver adrer dirfduſt ad ſamlaga ſig þeim, helldur miklade þa Lydurenn.

14. Þar jukuſt jafnann fleyre vid, mikell fiolde Karla og Kvenna, ſem ꝏ DRottenn trudu.

15. So ad þeir bꝏru ut vanfæra menn a Strætenn, og lögdu þa a Sængur, og Borur, ſo ad þa Petur kiæme, ad hans Skugge ſkyggde a nockra af þeim.

16. Þar komu og marger til ſamans, ut af þeim Borgum ſem lꝏu j kringum Jeruſalem, og færdu med ſier ſiuka menn, og þa ſem af Ohreinum Ondum kvalder voru, hvorier ed aller urdu heilbrigder.

17. Þa ſtod upp Kiennemannahofdingenn, og þeir aller ſem med honum voru (hvorier ed voru Villuflockar Saduceorum) og uppfylltuſt af Vandlæting.

18. Og lögdu Hendur ꝏ Postulana, og ſettu þa jnn j Almennelegt Fangelſe.

III. 19. Enn Eingell DRottens kom um Nottena, og lauk up Dyrum Mirkvaſtofunnar, leidde þa ut og ſagde.

20. Fared, ſtyged upp, og taled til Folkſins j Muſterenu öll þeſſe Lijfſins Ord.

21. Þa þeir hofdu þad heyrt, geingu þeir ſnemma j Muſterid, og kiendu. En er Kiennemannahofdingenn kom til, og þeir ſem med honum voru, kölludu þeir ſamann Raaded og alla Olldunga Iſraels Barna, og ſendu til Mirkvaſtofunnar, þa ad ſækia.

22. Enn þa Þienararner komu þar, og fundu

fundu þa eige j Myrkvastofunne, hvurfu þeir aptur, og kunngiordu þeim þad, og ſogdu.

23. Myrkvastofuna fundum vær luckta med allre athygle, og Vardmennena standande þar framan fyrer Dyrunum, enn þa vier lukum upp, fundum vier øngvann þar jnne.

24. Enn er ſa Ypparſte Preſtur og Hofudsmadur Muſtereſins, og adrer fleyre Kiennemannahøfdingiar heyrdu þeſſe Ord, toku þeir ad verda efablandner um þa, hvad þad villde verda.

25. Þa kom þar nockur, ſa undervijſade þeim, Siaed, Þeir menn ſem þier ſettud j Myrkvaſtofuna, eru j Muſterenu, ſtanda og kienna Folkenu.

IV. 26. Þa for Hofudsmadurenn med Þienurunum, og ſokte þa fyrer utann ofurvalld, þviad þeir ottuduſt Folked, ad þeir yrde ecke med Griote grytter.

27. Og ſem þeir ſoktu þa, ſkickudu þeir þa fyrer Raaded. Kiennemannahøfdingenn ſpurde þa ad og ſagde.

28. Hofum vær eige alvarlega boded ydur, ad þier ſkylldud eige kienna j þeſſu Nafne? Og ſiaed, Þier hafed uppfyllt Jeruſalem med ydar Kienning, og þier vilied leida yfer oſs þeſſa Manns Blod.

29. Enn Petur ſvarade, og ſagde, og þeir Poſtularner, Framar ber ad hlijda Gude enn Monnunum.

30. Gud Fedra vorra uppvakte JEſum, hvorn þier Lijfe ſviptud og uppheingdud a Trie.

31. Þennann hefur Gud fyrer ſijna hægre Hond upphafid til eins Hofdingia og Lauſnara, ad veita Jſrael Jdran, og Syndanna fyrergiefning.

32. Og vier erum hans Vottar til þeſſara Orda, og Heilagur Ande, hvorn ed Gud gaf þeim er honum hlyddu.

33. Enn þa þeir heyrdu þad gieck þad þeim j giegnum Hiartad, og þeir hugſudu ſier ad lijflaata þa.

V. 34. Þa ſtod einn Phariſeare upp j Raadenu, Gamaliel ad Nafne, eirn Skriftlærdur, mikels virdtur af ollu Folkenu, og baud ad Poſtularner ſkylldu vijkia ut um ſtundar ſaker.

35. Og ſagde til þeirra, Þier Menn af Jſrael, taked ydur j vakt hvad þier ſkulud giøra vid þeſſa Menn.

36. Fyrer þeſſa daga reis upp Theudas, ſeigiande ſig nockurn vera, hvorium ad ſamſinnte tal manna, nær fiorum Hundrudum, hvor ad j hel er ſleigenn, og aller þeir ed til hans fiellu eru j ſundur dreifder, og ad øngvu ordner.

37. Epter hann ſtod upp Judas af Galilea, a Skottunardogum, og fraſnere miklu folke med ſier, Og hann fyrerforſt eirnenn, og aller ſo marger ſem honum ſamſinntu, eru j ſundur tviſtrader.

38. Og nu ſeige eg ydur, giefed upp vid þeſſa Menn, og laated þa vera. Þviad ef þetta Raad edur verk er af Monnum til, þa verdur þad ad øngvu.

39. Enn ef þad er af Gude, þa kunned þier þvi ei ad kiefia, ſo ad ei verded þier fundner ſo ſem þeir ed vilia ſtrijda Gude j mote, Þa ſamſinntu þeir honum.

40. Og kolludu a Poſtulana, og ſtryktu þa, og budu þeim ad þeir toludu ei j Nafne JEſu, og lietu þa fara.

41. Enn þeir geingu glader j burt fra Raadſins aaſian, þad þeir hofdu þeſs verduger vered, ad lijda Haadung, fyrer JEſu Nafns ſaker.

42. Og hvorn dag j Muſterenu og ollum Hwſum geaſu þeir eige upp ad kienna, og ad predika Evangelium ut af JEſu Chriſto.

## VI. Capitule.

(I) Sio Menn eru tilſkipader ad þiona fyrer Bordum. (II) Stephanus talar vid hina Lærdu.

I. A þeim Dogum, ſem ad vox tala Læreſveinanna, biriadeſt mogl medur þeim Griſku, j giegn hinum Ebreſku, af þvi ad Eckiur þeirra fyrerlituſt j daglegre þionuſtu.

2. Þeir Tolf kolludu þa til samans fioldann Læresveinanna, og sogdu, Það er ei þienanlegt ad vier forlaatum Guds Ord, og þionum fyrer Bordum.

3. Fyrer þvi, goder Brædur, skygnest um ydar j mille epter þeim sio Monnum, sem gott Mannord hafa, og fuller eru med Vitsku og Heilagann Anda, hvoria vier meigum skicka yfer þessa naudsyn.

4. Enn vier vilium j Bænenne og Ordsins Embætte aframmhallda.

5. Og þesse Ord þocknudust vel ollum Almuoganum. Og utvoldu Stephanum, einn Mann fullann Truar, og Heilags Anda, Philippum og Prochorum, Nicanor og Timon, Parmenam og Nicolaum, sem Gydingur hafde giorst, ut af Antiochia.

6. Þessa skickudu þeir framm fyrer Postulanna Augsyn, bœdust fyrer, og logdu sijnar Hendur yfer þa.

7. Og Guds Ord tok ad vaxa, og Læresveinanna tala margfalldadist nærsta til Jerusalem, og marger Prestar giordust Trunne hlyduger.

Pistillenn a Annann i Jolum.

II. 8. Enn Stephanus fullur af Tru og Stirkleika, giorde Furdu-Verk og Takn mikel a medal folksins.

9. Þa stodu upp nockrer af þeirre Samkundu, sem kalladest Libertinorum, Cyrenorum og Alexandrinorum, og þeirra, sem voru ur Cilicia, og Asia, þreytande Spurningar vid Stephanum.

10. Og þeir gaatu ei motstaded þeirre Speke, nie þeim Anda sem talade.

11. Þa settu þeir til nockra menn sem sogdu, Vier heyrdum hann mæla Hœdungar ord a moote Moyse og moote Gude.

12. Og æstu so upp Lydenn og Olldungana, og hina Skriftlærdu, geingu ad framm og gripu hann, burt leiddu fyrer Raaded.

13. Og settu til Liugvotta sem segde, Þesse Madur lætur ei af ad tala Hœdyrde j giegn þessum Heilaga Stad, og Logmaalenu.

14. Þviad vier heyrdum hann seigia, JEsus af Nazareth mun þennann Stad nidur briota, og umhverfa þeim Setningum, er Moyses hefur oss giefid.

15. Og aller sem j Raadenu saatu, horfdu a hann, og saau ad hans Asiana vard so sem onnur Eingils Asiana.

## VII. Capitule.

(I) Stephanus helldur Eina Hiartnæma Predikun um JEsum; og (II) deyr Sælum Dauda i JEsu.

I. Þa sagde Kiennemannahofdingenn, Er þessu so vared?

2. Enn hann sagde, Goder Brædur og Fedur, heyred til. Gud Dyrdarenar, birtest Fodur vorum Abraham, þa hann var j Mesopotamia, aadur enn hann bio j Haran.

3. Og sagde til hans, * Far þu ut af þijnu Lande, og j fra ættfolke þijnu, og far til þess Lands er eg mun syna þier. *1 B. Mos. 12, 1.

4. Þa gieck hann ut af Chaldea Lande, og bygde til Haran. Og eptera þa hans Fader var laatenn, flutte hann hann hingad yfer j þetta Land, j hvoriu þier bygged nu.

5. Og gaf honum ongva Arftoku þar jnne, og ecke þverfotar breidd, Enn hiet þo ad giefa honum það til eignar, og hans Sæde epter hann, þa hann hafde enn nu eckert Barn.

6. Enn so talade Gud, * þitt Sæde skal utlendt verda a annarlegre Jordu, og það þeir munu þia það j þrældome, og þvinga það jlla j fiogurhundrud Aara.

*1 B. Mos. 15, 13. 14.

7. Og þa Þiod sem þeir munu þiona, vil eg dæma, sagde Gud, Og epter það munu þeir ganga ut þadann, og þiona mier i þessum stad.

8. Og hann gaf honum * Saattmalann Umskurdarens, og hann gat ** Jsaac, og umskar hann a aattunda deige, Enn Jsaac *** Jacob, En Jacob þa tolf Forfedur.

*1 B. Mos. 17, 10. **1 B. Mos. 21, 2. etc. ***1 B. Mos. 25, 26.

9. Og

9. Og Forfedurner hotudu Joseph, og *selldu hann j Egyptaland, Enn Gud var med honum. * 1 B. Mos. 37, 28.

10. Og frelsade hann ur ollum hans Hormungum, Og gaf honum Raad og Viisdom j auglite Pharaonis, Konungsins af Egyptalande, og hann sette hann Hofdingia yfer Egyptaland, og yfer allt sitt hus.

11. *Og þar kom Hungur yfer allt Egyptaland, og Canaan, og ein stor Hormung, Og vorer Fedur fundu ei fædslu.
* 1 B. Mos. 41, 54.

12. *Enn Jacob heyrde ad Korn var a Egyptalande, og sende ut j first Fedur vora.
* 1 B. Mos. 42, 1. 2.

13. Og j annad sinn* vard Joseph þecktur af sijnum Brædrum, Og Pharaoni giordest kunnug Josephs Ætt. * 1 B. Mos. 45, 3.

14. *Enn Joseph sende ut og liet sækia Fodur sinn Jacob, og alla sijna Ættkviisl, Fimm og siotijger Salna. * 1 B. Mos. 45, 9.

15. Og *Jacob for ofann til Egyptalands, og er andadur, hann og Fedur vorer.
* 1 B Mos. 46, 1. Cap. 49, 32.

16. Og* eru flutter yfer um til Sichem og lagdur j þa Grof er Abraham keypte** med Silfre af Sonum Hemor j Sichem.
* 2 B. Mos. 13, 19. ** 1 B. Mos. 23, 16.

17. Enn þa ed kom Fyrerheitesins tijme, sa er Gud hafde svared Abraham, Vox Folkid og margfalldadest j Egyptalande.

18. Allt þangad til* ad annar Kongur kom upp, sa er eckert visse ut af Joseph.
* 2 B. Mos. 1, 8. etc.

19. Hann hondlade svikfamlega vid vora ætt og hondlade jlla vid Fedur vora, og skickade ad ut skyllde kasta þeim Ungu bornum, so þau lifdu eige.

20. A þeim tijma* fæddest Moyses, og var eitt dæelegt Barn fyrer Gude, og var þria Manude fostradur j sijns fodurs husi.
* 2 B. Mos. 2, 1. etc.

21. Enn er hann var ut borenn, tok Dotter Pharaonis hann upp, og ol sier upp fyrer Son.

22. Og Moyses vard mentadur j allre Speke Egyptskra manna, og vard volldugur j Verkum og Ordum.

23. Enn þa hann var fiorutijger aara gamall, flo honum j Hiarta * ad finna Brædur sijnar, Israels Born.
* 2 B. Mos. 2, 11. 12.

24. Og hann leit þann oriett þolde, stod hia honum, og hefnde hans oriettar sem yfer fallen var, og vo þann hinn Egyptska Mann.

25. Enn hann meinte ad sijner Brædur skylldu understanda, þad Gud gaf þeim Heill fyrer hans Hond, enn þeir understodu þad ei.

26. * Og annann dag kom hann til þeirra, þar þeir voru ad þrætta sijn a mille, og tok ad semia frid med þeim, og sagde, Pier goder menn erud Brædur, fyrer þvi giorer hvor ydar odrum oriett? * 2 B. Mos. 2, 13. etc.

27. Enn sa er sijnum Naunga giorde oriett, stiakade honum fra sier og sagde, Hvor sette þig hofdingia edur Domara yfer oss?

28. Eda villtu drepa mig, so sem þu drapst j giær þann Egyptska Mann?

29. Enn Moyses flyde fyrer þeirre Rædu, og vard utlendur j Landenu Madian, hvar hann aatte tvo Sonu.

30. Og fiorutijger Aarum þar epter, birtest honum, j Eydemorku a Fiallenu Sinai, Eingell DRottens * j Elldsloga j Runnenum.
* 2 B. Mos. 3, 2. etc.

31. Enn er Moyses sa þad, undradest hann Synena. Og er hann gieck til og villde hyggia ad, skiede Rodd DRottins til hans.

32. Eg em Gud Fedra þinna, Gud Abrahams, og Gud Isaacs, og Gud Jacobs, Enn Moyses vard ottasleigenn, og þorde ei ad ad hyggia.

33. Enn DRottinn sagde til hans, Leys þu af þier skooklæde Fota þinna, þviad sa stadur þu stendur a, er heilog Jord.

34. Eg hefi vel sied hvad Folk mitt lijdur, sem ad er a Egyptalande, og þeirra Andvarpan hefi eg heyrt, og eg em ofannkomenn þa

ad frelsa, Far nu hingad, Eg vil senda þ'g til Egyptalands.

35. Þennann Moysen, hvorium þeir afneitudu og sögdu,* Hvør sette þig til Hofdingia og Domara? Þann sama sende Gud þeim til Hofdingia og Frelsara, fyrer Hond Eingelsins, þess er honum birtest j Runnenum.

*2 B. Mos. 2, 14.

36. Þesse leidde þa ut, giörande Tœkn og Stormerke a Egyptalande, og j * Hafenu Rauda, og so a Eydemørkunne j fiørutijger aar. *2 B. Mos. 14, 21. 22.

37. Þesse er sa Moyses sem sagde til Israels Barna, * DRottenn ydar Gud mun einn Spaamann uppvekia ydur af Brædrum ydar, lijkann mier, honum skulud þier heyra.

*5 B. Mos. 18, 15.

38. Þesse er sa sem* var a Eydemørku, j Samkundunne med Einglenum, hvør ed talade vid hann a fiallenu Sinai, og vid fedur vorar, þesse medtok þad Lifanda Ord, so hann giæfi oss þad. *2 B. Mos. 19, 3.

39. Hvørium ad ei villdu hlyda ydrer Fedur, helldur skufudu þeir honum fra sier, og sneruſt med sijnum Hiortum til Egyptalands.

40. Seigiande til Aarons, * Giør þu oss Gude, þa fyrer oss skule ganga, Þviad vier vitum ei hvad af þeim Moyse er ordid, sem oss leidde ut af Egyptalande.

*2 B. Mos. 32, 1.

41. Og giordu sier j þann Tijma Kalf, og offrudu þvi Skurgode Offre, og glöddust af sijnum Handaverkum.

42. Enn Gud snere sier, og gaf þa þangad sem þeir þientu Himensins Her, epter þvi sem skrifad stendur, j Spaamanna Bokenne. * Hafid þier af Israels Huse j þaug fiørutijger Aara, a Eydemørkunne, offrad mier Offre edur Fienade. *Amos. 5, 25.

43. Og þier medtokud Tialldbud Molochs og Stiornu Guds ydvars Remphan, þær Minder sem þier giordud ydur ad tilbidia þær. Og eg mun utskufa ydur allt ut yfer Babylon.

44. Vorer Fedur hofdu Vitnisburdarens Tialldbud, a Eydemørkunne, so sem hann hafde þeim fyrer skipad, þa hann sagde til Moysen, * ad hann skyllde hana giora epter þeirre Mind sem hann hafde sied.

*2 B. Mos. 25, 40.

45. Hvoria ed vorer Forfedur medtoku, og * fluttu hana med Josua j þad Land er Heidingiar hielldu, hvørium ad GUD utskufade fyrer augsyn Fedra vorra, allt til Daga Davids. *Jos. 3, 14.

46. Hann fann Naad hia GUde, og bad ad hann mætte Tialldbud * finna GUde Jacobs. *Psalm. 132, 5.

47. Enn * Salomon bygde honum upp Hus. *1 B. Kon. 6, 1. &c.

48. Enn sa hinn Hæste bygger ei j þeim Musterum er med hondum eru giord, so sem Spaamadurenn seiger.

49. * Himenenn er minn Stoll, enn Jordenn er Skør minna Fota, hvada huse vilied þier þa uppbyggia mier? seiger Drottenn, edur hvør er stadur minnar Hvijldar?

* Esa. 66, 1, 2.

50. Hefur eige mijn Hond giort allt þetta.

51. Þier hardsvijrader, og Oumskorner j Hiortum og Eyrum, þier standed jafnann j mote Heilogum Anda, so sem Fedur ydar lijka eirnenn þier.

52. Hvorn Spamanna hafa ydar Fedur ei ofsokt? og þa j hel slegied, sem fyrerframm bodudu Tilkomu hins Riettlaata? hvørs Svikarar og Mordingiar þier erud nu ordner.

53. Þier hafed medteked Løgmaaled fyrer Einglanna tilskickan, og hallded þad eige.

II. 54. Sem þeir heyrdu þetta, gieck þeim þad j giegnum Hiortunn, og nijstu Tonnum yfer honum.

55. Enn med þvi hann var fullur af Heiløgum Anda, hof hann upp sijn Augu til Himens, og sa GUds Dyrd, og JEsum standa til hægre Handar GUde.

56. Og sagde, siaed, eg sie Himnana opna, og Mannsins Son standa til GUds hægre Handar.

57. Enn þeir kolludu upp hœrre roddu, og samannluktu sijn Eyru, og giordu honum œrœs, med einum samdrætte.

58. Hnepptu hann ut af Borgenne, og gryttu hann. Enn Vottarner logdu sijn Klæde til Fota eins Ungmennis, er Saul hiet.

59. Og lomdu Stephanum griote. Hann kallade upp og sagde, Drottenn JEsu, medtak þu minn Anda!

60. Enn hann kraup nidur, og kallade hœrre roddu, Drottenn, tilreikna þeim ei þessa Synd. Og sem hann hafde þad sagt, sofnade hann.]

## VIII. Capitule.

(I) Grimd og æde Sauls i gegn JEsu Sofnude (II) Predikun Philippi i Samaria: (III) Um Simon Töframann. (IV) Einn Gelldingur tekur Christne.

I. Enn Saul hafde þoeknast hans Daude, og þa biriadest j þann Tijma mikel offokn mote Sofnudenum j Jerusalem. Og þeir tvijstrudust aller burt um Hierod Judeæ og Samariæ, utan Postularner.

2. Enn Gudhrædder menn biuggu um Stephanum, og hœru trega mikenn yfer honum.

3. Enn Saul eydde Sofnudenum gangande allstadar j Husinn, dragande ut Menn og Kvinnur, og afhendte þa j Fangelse.

II. 4. Enn þeir sem tvijstrader voru, foru umkring og predikudu Orded.

5. Philippus kom og ofann til nockrar Borgar, j Samaria, og predikade þeim utaf Christo.

6. Og Folked tok med einu samhellde ad heyra, og giætur ad þvi ad giefa, sem af Philippo sagdest, siœande œ þaug Teikn er hann giorde.

7. Þviad Ohreiner Andar foru ut af Morgum, þeim er Oder voru, med oope miklu. Og marger Jckt-siuker og Hallter urdu heilbrigder.

8. Og þar vard mikell fognudur j þeirre Borg.

III. 9. Enn þar var einn Madur, sem Simon hiet, sem œdur hafde fared med Galldra, j þeirre Borg, og tofrad þa Samversku þiod, og hann hiellt sig vera nockurs hœttar mikenn.

10. A hvorn þeir litu aller, fra hinum minsta til hins mesta, seigiande, þesse er Kraptur GUds sa er mikell er.

11. Enn þeir œlitu hann af þvi, ad hann hafde j langann Tijma ært þa med sinne fiolkinge.

12. Og þa þeir trudu nu Philippi Predikun af GUds Rijke, og af Nafne JEsu Christi, skijrdust bæde Menn og Konur.

13. Þa trude og Simon og liet sig skijra, og hiellt sig ad Philippo. Enn þa hann sa þaug Teikn og Kraptaverk sem skiedu, forundrade hann.

Pistillenn a Þridia i Hvijta Sunnu.

14. Og er Postularner j Jerusalem heyrdu þad, ad Samaria hefde medteked Guds Ord sendu þeir til þeirra Petrum og Johannem.

15. Og þa þeir ofann komu, bœdu þeir fyrer þeim, so ad þeir medtæke Heilagann Anda.

16. Þviad hann var enn eige komenn yfer nockurn þeirra, nema þeir voru ad eins skijrder j Nafne Drottens JEsu.

17. Þeir logdu þa Hendur yfer þa, og þeir medtooku Heilagann Anda.]

18. Enn er Simon sœ þad, ad Heilagur Ande vard giefinn fyrer Handa uppalegging Postulanna, baud hann þeim Peninga.

19. Og sagde, giefid þier mier og þetta Valld, so ad yfer hvorn eg legg Hendur, ad hann medtake Heilagann Anda.

20. Enn Petur sagde til hans, Vertu Fordæmdur med þijnum Peningum, þvi þu meinar Guds Gœfu med (a) Pening utvegast.

(a) (Meinar) J Paradisinum selst allt fyrer Peninga.

21. Hvorke Hlutskipte nie Part hefur þu j þessu Orde, þviad þitt Hiarta er eige riettferdugt fyrer GUde.

22. Fyrer þvi gior Jdran, og snu þier fra þessare þinne Jllsku, og bid GUd um, ef verda

mætte, ad þier fyrergiefist þesse ill Meining þijns Hiarta.

23. Þviad eg sie þig vera fullann af beisku Galle, og j Fiotre Rangslæteskins.

24. Þa svarade Simon og sagde, bidied þier fyrer mier til Drottins, so ad ecke kome yfer mig neitt af þvi sem þier sögdud um.

25. Enn er þeir höfdu vitnad, og talad Ord Drottins, sneru þeir aptur til Jerusalem, og predikudu Evangelium j mörgum Samverskum Kauptunum.

IV. 26. Enn Eingell Drottins talade til Philippum, og sagde, statt upp, og gack j sudur, a þann veg sem liggur fra Jerusalem, ofann til Gaza, þar sem Eydemörkenn er.

27. Hann stod upp og gieck j burt, og siadu, ad Morlendskur Madur, Gelldingur og Valldsmenne Drottningarinnar Candaces af Morlande, hvor ed yfer var settur allar hennar Fiarhirdslur, var farenn til Jerusalem, ad tilbidia.

28. Og for nu heim j Veg, og sat j sijnum Vagne, lesande Esaiam Spamann.

29. Enn Andenn sagde til Philippum, gack þangad ad, og hallt þier ad þeim Vagne.

30. Þa skundade Philippus þangad ad, og heyrde, ad hañ var ad lesa Esaiam Spamann, og sagde, skilur þu nockud hvad þu les?

31. Enn hann svarade, hvornenn ma eg kunna þad, nema ad nockur leidriette mig? Þa bad hann Philippum þad hann stijge upp, og sæte hia sier.

32. Enn Ritningar Innehallд, þad hann las, var þetta. * So sem Saudur er hann til slatrunar leiddur, og þeigiande sem Lamb, fyrer þeim er þad klipper, lijka so hefur hann og eige upploked sijnum Munne.

* Esa. 53, 10. 11.

33. J hans Læckan er hans Domur upphafenn, enn hvor mun (b) lelngd hans Lijfdaga ut meiga seigia? Þviad hans Lijf er af Jordunne j burt teked.

(b) (Leingd hans Lijfdaga) hvad leinge hann skal stiorna. Þad er, ad eilijfu.

34. Þa svarade Gelldingurenn Philippo, og sagde, eg beide þig, af hvorium talar Spamadurenn þetta, sialfum sier, edur um nockurn annann?

35. Enn Philippus lauk upp sijnum Munne, og tok til j fra þessare Skrift, og bodade honum Evangelium af JEsu.

36. Og sem þeir foru um Veigenn, komu þeir ad Vatne nockru, og Gelldingurinn sagde, siadu Vatnid, hvad hamlar þvi ad eg læte mig skijra?

37. Enn Philippus sagde, ef þu truer, af öllu Hiarta, þa hæfer þad. Hann svarade og sagde, eg true ad JEsus Christus sie Guds Sonur.

38. Og hann baud ad Vagnenn stadnæmdest. Og þeir stigu bader ofann j Vatnid Philippus og Gelldingurenn, og hann skijrde hann.

39. Enn er þeir voru uppkomner ur Vatnenu, greip Ande Drottens Philippum j burt, og Gelldingurenn sa hann ei framar meir, enn hann for gladur sijna götu.

40. Enn Philippus fanst j Asoto, gieck umkring, og predikade Evangelium j öllum stødum, þar til hann kom til Cesaream.

# IX. Capitule.

(I) Paulus tekur vid Trunne a Christum. (II) um Peturs Kraptaverk.

I. Enn Saul (a) blies ognum og morde j giegn Læresveinum Drottins, og gieck til Kiennemannhöfdingians.

(a) (Blies) var Deyrdarsamur, stormade og ædde.

2. Og beiddest af honum Briefa til Samkundanna j Damasco, so ad ef hann fynde þar nockra a þeim Veige, Karla edur Kvinnur, ad hann færde þa bundna til Jerusalem.

3. Og sem hann var a Veigenum, og komenn hartnær Damasco, leiptrade j skyndingu um hann Lios af Himne.

4. Og hann fiell til Jardar, og heyrde Röddena er til hans sagde, Saul, Saul, þvi offsæker þu mig?

5. Enn hann ſagde, HErra, hvor ertu? Drottenn ſagde, eg em JEſus, hvorn þu offſœker, hardt er þier ad ſpyrna a mote Broddenum.

6. Enn hann ſkialfande og felmsfullur ſagde, Drottenn, hvad villtu eg giore? Drottenn ſagde til hans, ſtatt upp, og (b) gack jnn j Borgena, og þar mun þier ſagt verda, hvad þier biriar ad giora.

(b) Paalus er kalladur og upplyſtur, ſamt verdur hann ſendur til Ananiam, ſo hann meige hafa Vitnisburd, og etc.

7. Enn þeir Menn ſem j Selſkap med honum voru, ſtodu felmsfuller, þvi þeir heyrdu hans Rodd, enn ſaau þo ongvann.

8. Enn Saul ſtod þa upp fra Jordunne, og med upploknum Augum, ſaa hann ongvann, þa toku þeir j Hond hans, og leiddu hann jnn j Damaſcum.

9. Og ſo var hann j þria Daga, ad hann ſaa ei, og eige aat hann nie drack.

10. Enn j Damaſco var ſa Lœreſveirn, ſem Ananias hiet, og j Syn þa ſagde Drottenn til hans, Anania! enn hann ſagde, hier em eg HErra.

11. Drottenn ſagde til hans, ſtatt upp og gack j þad Strœte, ſem kallaſt hid Rietta, og ſpyr ad j Hwſe Juda, epter þeim ſem Saul er ad Nafne, utaf Tharſen, þvi ſia, ad hann bidſt fyrer.

12. Og j Sion ſaa hann jnn til ſijn koma einn Mann, Ananiam ad Nafne, leggiande Hond yfer ſig, ſo ad hann yrde (c) ſiaande aptur.

(c) (Siaande) ecke ſendeſt þeſſe Ananias til ad kalla, helldur ad lœkna Paal.

13. Ananias ſvarade, Drottenn, ut af morgum hef eg heyrt um þennann Mann, hvad miked illt hann hefur giort þijnum Heilogum til Jeruſalem.

14. Og hann hefur ut af Kiennemannahofdingiunum Valld til ad binda þa alla ſem þitt Nafn aakalla.

15. Enn Drottenn ſagde til hans, far þu, þviad þeſſe er mier utvaled Verkfœre, ad hann bere mitt Nafn fyrer Heidenn Lyd, og Konga, og fyrer Jſraels Born.

16. Eg vil ſyna honum hvorſu miked hann ſkal lijda fyrer mijns Nafns Saker.

17. Og Ananias for af Stad, og gieck jnn j Hwſid, lagde yfer hann Hendur og ſagde; Saul Broder, Drottenn ſende mig hingad, hvor þier birteſt a Veigenum, þeim er þu komſt hingad, ſo ad þu feinger Syn aptur, og uppfyllteſt Heilogum Anda.

18. Og jafnſkiott fiell af hans Augum ſo ſem annad hreiſtur, og hann fieck Syn aptur. Hann ſtod upp og liet ſkijra ſig.

19. Tok ſijdann Fœdſlu til ſijn, og ſtirckte ſig. Saul var þa nockra Daga hia þeim Lœreſveinunum j Damaſco.

20. Og jafnſnart predikade hann Chriſtum j Samkunduhwſunum, þad hann ſame vœre GUds Sonur.

21. Enn þeim bloſkrade ollum, er þad heyrdu, og toku ad ſeigia, er þeſſe eige ſa ſem til Jeruſalem foreydde ollum þeim ſem þetta Nafn aakolludu, og hingad kom til þeſs, ad leida þa bundna fyrer Kiennemannahofdingiana?

22. Enn Saul tok ad ſtirkiaſt miklu framar, og hneckte þeim Gydingum, ſem j Damaſco biuggu, og bevijſade, ad þeſſe vœre Chriſtur.

23. Og morgum Dogum þar epter, hielldu Gydingar Raadſtefnu ſijn a mille, ad þeir aflijfudu hann.

24. Enn þeirra Vielrœde urdu Saul undervijſud. Enn þeir vardveittu Nott og Dag Portenn, ſo ad þeir feinge hann j helſleiged.

25. Þa toku hann Lœreſveinarner um Nott, og lietu hann yfer Mwrenn, og lietu j Korf ofann ſiga.

26. Enn þa Saul kom til Jeruſalem, (d) freiſtade hann þeſs, ad ſamlaga ſig til Lœreſveinanna, og þeir ottuduſt hann aller, truande eige þvi, ad hann vœre Lœreſveirn.

(d) Hann hlaut ad hafa Vitnisburd vegna þeirra Folſku Brœdra.

27. Enn

27. Enn Barnabas tok hann til sijn, og leiddu til Postulanna, og sagde þeim j fra, Hvorsu hann hafde sied Drottenn a Veigenum, og þad hann hafde talad vid hann, og hvornenn hann hefde til Damasco diarflega predikad, Nafn JEsu.

28. Og hann var hia þeim, gieck ut og jnn til Jerusalem, og predikade Nafn Drottins vors JEsu diarflega.

29. Þa tok hann ad tala, og heya spurningar vid hina Grisku. Enn þeir leitudu vid ad lijfláta hann.

30. Þa Brædurner fornumu þad, leiddu þeir hann ut til Cesaream, og sendu hann til Tharsen.

II. 31. Og so hafde Søfnudurenn frid um alla Judeam og Galileam, og Samariam, hresstu sig upp, og geingu j otta Drottens, og uppfylltust med huggun Heilags Anda.

32. Þad skiede og, þa Petur ferdadest allstadar umkring, þad hann kom eirnenn til þeirra Heilagra sem biuggu j Lidda.

33. Þar fann hann þann Mann er Eneas var ad Nafne, hvor ad leiged hafde j Rekiu j átta aar, hann var Icktsiukur.

34. Petur sagde til hans, Enea, JEsus Christur giøre þig heilann, statt upp, reid upp sialfur um þig. Og hann stod jafnsnart upp.

35. Og aller sáu hann, þeir sem biuggu j Lidda, og j Sarona, og þeir (e) snerust til Drottins.

(e) Fyrer Orded aa Løgmaalsins og Verkanna.

36. Enn j Joppe var su (f) Lærdomsins Þionustukvinna, sem Tabitha var ad nafne, hvad ed utlegst Rea; hun var full godra Verka, og med Ølmosugiørder sem hun giørde.

(f) Fyrst trude hun og medtok Lærdomenn, sijdann giørde hun miked Gott.

37. Enn a þeim Døgum bar so til, ad hun tok sott og andadest. Og sem þeir høfdu þveiged hana, settu þeir hana j loptid.

38. Enn med þvi ad Lidda liggur j grend vid Joppen, og þa Læresveinarner heyrdu þad, ad Petur være þar, sendu þeir til hans, og beadu hann um, ad hann lieti sier ecke þungt þykia til þeirra ad koma.

39. Enn Petur stod upp, for med þeim. Og er hann kom þar, leiddu þeir hann upp j loptid. Og allar Eckiurnar stycktust utann umkring hann, groatande, og syndu honum þa Kyrtla og Klædnad, sem Raa hafde giort a medann hun var hia þeim.

40. Og er Petur hafde þa alla utdrifed, fiell hann a Knien, badst fyrer, og snerest ad Lijkamanum, og sagde, Tabitha, statt upp. En hun lauk upp sijnum Augum, og er hun sa Petrum, sette hun sig upp aptur.

41. Enn hann riette ad henne Høndena, og reiste hana upp, og kallade a hina Heiløgu, og a Eckiurnar, og afhendte þeim hana lifande.

42. Og þad kunngiørdest um alla Joppen, og marger (g) trudu aa Drottenn.

(g) Fyrer Orded aan Løgmaalsins og Verkanna.

43. Þad skiede og so, ad hann bleif langa Tijma j Joppen, hia Simone þeim nockrum sem var einn Sutare.

# X. Capitule.

(I) Gudrækne eins Høfudsmanns: (II) Kollun Peturs til Høfudsmannsins: (III) Peturs Predikun fyrer Høfudsmannenum.

I. Enn sa Madur nockur var j Cesarea, sem (a) Cornelius var ad Nafne, Høfudsmadur yfer þeim Selskap, er kolludust Valer.

(a) Sia, þesse Cornelius er einn Heidinge og Oumskorenn og utann Løgmaalsins, og hefur samt Truna a þann Christum sem koma munde, hun kienner honum ad giøra Godverkenn, þo hann være einn Strijds Madur, og verdur til Trwarennar a þann opinberada Christum upplystur.

2. Gudlegur mann og Gudhræddur, med øllu sijnu Husi, giefande Folkenu miklar Ølmosur, og var jafnann a Bæn til Guds.

3. Hann sa opinnberlega j Syn, nær Nyundu stundu Dags, Eingel Guds ganga jnn til sijn, er sagde til hans, Corneli.

4. Enn hann horfde a hann ottasleigenn, og sagde, hvad er þad, HErra? Hann sagde honum þa,

þa, Bæner þijnar og Olmusugiorder eru uppstignar til minnis fyrer GUde.

5. Og send nu ut Menn til Joppen, og laat sækia Simon, þann kalladur er Petrus.

6. Hann herbergiar hia Simone Sutara einum, hvors Hws ad liggur vid Sioenn, hann mun seigia þier hvad þier byriar ad giora.

7. Enn er Eingellenn sem talade vid Cornelium, var j burt geingenn, kallade hann a tvo sijna Heimilis Þiona, og eirn Gudhræddann Strijdsmann, utaf þeim er hans giættu.

8. Hvorium hann sagde allt fra, og sende þa til Joppen.

II. 9. Enn annann dag er þeir voru a leidenne, og toku ad nalgast Borgena, stie Petur uppa Loptid, ad hann bædest fyrer, nær siotta stund.

10. Og er hann hungrade, villde hann Matar neyta. Enn a medan þeir voru ad bwa til, vard hann burtricktur.

11. Og hann sa Himenenn opnadann, og ofann fara ad sier eitt Kier, so sem Lijndwk mikenn j fiorum hyrningum uppbunded, og þad vard ofanlaated a Jordena.

12. J hvoriu ad voru allrahanda ferfætt Dyr Jardar, Villudyr og Skridkvikende, og Fuglar Himens.

13. Og þar skiede rodd til hans, Statt upp Petur, slatra og et.

14. Enn Petur sagde, O nei, Herra, þviad eg hefe enn alldrei nockud almennelegt eda ohreint etid.

15. Og roddenn sagde enn aptur j annad sinn til hans, Hvad Gud hreinsade, þad gior þu eige almennelegt.

16. Þetta skiede þrisvarsinnum, og Kiered vard uppnumed aptur til Himens.

17. Og er Petur var efablandenn um med sialfum sier, hvor þesse Syn munde vera, sem hann hafde sied, Siadu, Ad þa spurdu þeir Menn er ut voru sender fra Cornelio, epter husi Simonar.

18. Og stodu ute fyrer Dyrunum, kolludu og leitudu, hvort Simon, sem kallast Petur, hefde þar herberge?

19. Enn er Petur hugleidde um Synena, sagde Andenn til hans, Sia, þeir menn leita ad þier.

20. Enn statt upp, far ofan, og gack med þeim, og efa eckert, þviad eg utsende þa.

21. Þa stie Petur ofann til þeirra manna, sem sender voru til hans fra Cornelio, og sagde, sia, eg er hann same þier spyried ad, Hvor efne eru til þess, ad þier erud hier komner?

22. Þeir sogdu, Hofudsmadurenn Cornelius, Riettlaatur madur og Gudhræddur, hafande godann ordstyr af ollu Gydinga Folke, fieck bijfalning af Heilogum Eingle, ad hann skyllde laata kalla þig j sitt Hus, so ad hann heyrde Orded af þier.

23. Og þa kallade hann þa jnn, og liede þeim Herberge. Annann dag epter ferdadest Petur med þeim, og nocker Brædur af Joppen geingu med honum.

24. Og annars dags þar epter komu þeir til Cesaream, Enn Cornelius beid þeirra, og samankallade sijna Frændur og virtar Vine.

25. Og er Petur villde ganga jnn, gieck Cornelius j mote honum, og fiell til fota hans, og tilbad hann.

26. Enn Petur reiste hann upp, og sagde, Statt upp! Eg em og Madur.

27. Og er hann hafde haft Samtal vid hann, gieck hann jnn, og fann þa marga er þar voru samannkomner.

28. Og sagde til þeirra, Þier vitid, ad þad er ecke veniulegur hlutur þeim Manne sem Gydingur er, ad fella sig vid, eda ganga til utlendra Manna, Enn Gud synde mier, ad eg segde ongvann Mann almennann, edur Ohreinann.

29. Hvar fyrer eg neitade ecke ad koma, þa eg var hingad kvaddur, Þvi spyr eg ydur nu ad, hvar til þier lietud kalla mig hingad?

30. Cornelius sagde, J dag er fiorde Dagur fra þeim eg var fastande, allt til þessarar stundar, og um niundu stund, badst eg fyrer j mijnu husi, Og sia, Þa gieck einn Madur framm fyrer mig, j skijnande Klæde.

31. Og sagde, Corneli, Pijn Bæn er alheyrd, og þijnar Olmøsur eru umþeinktar, fyrer Gude.

32. Af þvi send þu nu til Joppen, og laat kalla hingad Simon þann auknefndur er Petrus, hann herbergiar j Hwsi Simonar Sutara vid Sioenn, þa hann kiemur, mun hann tala fyrer þier.

33. Pa sende eg jafnsnart til þijn, og þu giorder vel ad þu ert komenn, Nu erum vier hier aller nalæger fyrer Gude, til ad heyra þa alla hlute, sem þier eru af Gude bodner.

Pistillenn a Annann i Paaskum.

III. 34. Enn Petur lauk upp sinn Munn og sagde, Nu reyne eg j Sannleika, ad þad er ecke Manngreinarmunur hia Gude.

35. Helldur a medal alls Folks, hvør sem hann ottast og giører Riettviße, sa er hønum þeckur.

36. Pier vitid af þeirre Predikan, sem Gud sende til Israels Barna, bodande þeim Frid fyrer JEsum Christum (hvør ad er DRottenn yfer øllum hlutum.)

37. Hvad ad skied er allt Gydingaland j giegnum, og first hofst upp j Galilea, epter þa Skijrn sem Johannes predikade, Hvørnenn Gud hefde smurt þann sama.

38. JEsum af Nazareth med Heiløgum Anda og Krapte, hvør ed um kring gieck, giørde gott, og græddde alla þa sem af Dioflenum voru underþrickter, af þvi, ad Gud var med hønum.

39. Og vier erum Vottar alls þess hann giørde a Gydingalande, og i Jerusalem; þennann aflijfudu þeir, og a Tried uppheingdu.

40. Þennann uppvakte Gud a þridia deige, og liet opinberann verda.

41. Ei øllu Folke, Helldur oss, sem adur vorum hans utvalder Vottar af Gude, Vier sem aatum og druckum med hønum, epter þad hann var upprisinn af Dauda.

Pistillenn a annann j Hvita-Sunnu.

42. Og hann baud oss ad predika Folkenu, og Vitne umbera, þad hann være sa, sem skickadur er af Gude, Domare Lifendra og Daudra.

43. Af þessum bera aller Spaamenn Vitne, ad *fyrer hans Nafn skulu aller þeir sem a hann trua, hafa Syndanna Fyrergiefning.]

*Es.53,8.9. Jer.31,34. Ezech 34.16. Dan.9,24. Os.1,7. c.13,14. Mich 7,18 19.

44. Pa Petur talade þessum Ordum, fiell Heilagur Ande yfer þa alla er Orded heyrdu.

45. Og þeir Truader sem af umskurnenne voru, og med Petre høfdu komid, hræddust þad, ad Heilags Anda Giøf være uthellt eirnenn yfer Heidna Menn.

46. Þvi þeir heyrdu þa Tungur tala og vegsama Gud, Pa svarade Petur.

47. Kann nockur ad fyrerbioda þeim Vatnid, ad þesser skijrest eige, sem medteked hafa Heilagann Anda, lijka sem vier?

48. Og hann baud ad skijra þa j Nafne DRottens.] Þeir badu hann þa, ad hann være þar nockra Daga.

## XI. Capitule.

(I) Petur seger Brædrunum fra sinne Vitran. (II) Þeir ed Trudu a JEsum voru first kallader Christner i Antiochia.

I. Og er þad heyrdu Postularner og þeir Brædur sem j Judea voru, ad Heidingiar høfdu medtekid eirnenn Guds Ord.

2. Og þa Petur kom upp til Jerusalem, toku þeir ad þraatta j mote hønum, sem voru af Umskurnenne.

3. Og søgdu, Pu gieckst jnn til þeirra manna sem yferhwd hafa, og matadest med þeim.

4. Enn Petur tok til og sagde þeim fra, eitt epter annad, og sagde.

5. Eg var j Borgenne Joppen, a Bæn minne, Og vard burt ricktur, og eg sa eina Syn, sem var, eitt Kier for ofann sem eirn stor Lijndwkur, medur fiorum Hyrningum, ofanlaated af Himnum, og kom allt jnn til mijn.

6. Þar j saa eg, og vard var vid, og eg saa ferfætt Dyr Jardar og Villudyr, og Orma, og Fugla Himins.

7. Eg

7. Eg heyrde eina Rodd sem til mijn sagde, Statt upp Petur, slatra og neyt.

8. Enn eg sagde, O Nei, Herra, Pviad eckert almennt edur oh reint hefur enn nockurn tijma inn j minn Munn geingid.

9. Enn roddenn svarade mier j annad sinn af Himne, Hvad Gud hreinsade, þad gior þu ei almennt.

10. Og þetta skiede þrisvar, og þad vard allt uppdreigid aptur til Himens.

11. Og sia, Ad jafnsnart stodu þeir menn ute fyrer Husinu, þar eg var inne, sender af Cesaria, til mijn.

12. Enn Andenn sagde mier, ad eg skyllde ganga med þeim, og efa eckert, Enn þar komu þesser sex Brædur med mier, Og vær geingum inn j þess manns hus.

13. Hann kunngiorde oss hvornenn hann hafde sied Eingel j sijnu husi standande, sem sagde til hans, Send þu ut menn til Joppen, og lát kalla til þijn Simon þann kalladur er Petrus.

14. Hann mun seigia þier þaug Ord, af hvorium þu munt holpenn verda, og allt þitt hws.

15. Enn þa eg tok til at tala, fiell Heilagur Ande yfer þa, lijka (a) sem yfer oss j fyrsta upphafe.

(a) (Lijka) Þad er aan neins Greinarmuns, nockrar Forþienustu, og fyrer utann Logmaaled.

16. Pa kom mier j hug, þad Ord DRottens sem hann sagde. Johannes skijrde j Vatne, enn þier skulud med Heilogum Ande skijrder verda.

17. Pvi first Gud hefur giefid þeim eins lijkar giafer sem oss, sem truum a DRottenn JEsum Christum, Hvor var eg þess, ad eg mætte þad Gude varna?

18. Pa þeir heyrdu þad, þognudu þeir utaf, vegsomudu Gud, og segdu, Pa hefur Gud eirnenn unnt Heidingium Jdrunar til Lijfsins.

II. 19. Enn þeir sem sundur hofdu dreifst, af þeirre Hormungu, er birtest yfer Stephanum, geingu umkring allt til Phenicen, og Cypriam, og Antiochiam, talande Orded fyrer ongvum nema Gydingum einum.

20. Par voru og nockrer Menn medal þeirra, sem voru af Cypria, og Cyrenia, hvorier, þa þeir geingu inn j Antiochiam, toku ad tala til þeirra Grickia, bodande þeim Evangelium ut af DRottne vorum JEsu.

21. Og Hond DRottens var med þeim, Og mikel tala tok vid Trunne og (b) sneruft til DRottens.

(b) Aan Logmaalsins komu þeir til Christum.

22. Enn þesse Ræda um þa, kom til Eyrna Safnadarens sem var j Jerusalem, Og þeir sendu ut Barnabam, þad hann geinge til Antiochiam.

23. Og sem hann kom þar, og sa Guds Naad, vard hann gladur, og ried þeim ollum, ad þeir skylldu med stadfostu Hiarta hia Gude stadnæmast.

24. Pvi hann var godur madur, og fullur Heilags Anda og Truar, Og margt Folk jokst þar DRottne.

25. Enn Barnabas for til Tharsen, ad hann friette upp aptur Saulum.

26. Og er hann hafde funded hann, filgde hann honum j Antiochiam, Og þad skiede so, ad þeir voru til samans oarid allt, hia þeim Sofnude, kienndu þar og morgu Folke, hvar af Læresveinarner kolludust first j Antiochia Christner.

27. Enn a þeim Dogum komu Spaamenn af Jerusalem til Antiochiam.

28. Og eirn af þeim stod upp, Agabus ad Nafne, Hañ kuñgiorde fyrer Andañ, ad koma skyllde mikeð Hungur yfer alla Jardarkringluna, hvort ed skiede under Claudio Keisara.

29. Enn hvor einn af Læresveinunum aalyktade ad senda Brædrunum, sem biuggu j Judea, nockra hialp, hvor epter þvi sem hann formaatte.

30. Hvad þeir giordu, og sendu þad til Olldunganna, fyrer Hendur Barnabæ og Sauli.

# XII. Capitule.

(I) Um Dauda Jacobs Postula. (II) Peturs Fangelse. (III) Afdrif Herodes.

I. A þeim tijma lagde Herodes Kongur, Hendur a nockra af Safnadenum, ad pijna þa.

2. Hann liet þa drepa Jacob Brodur Johannis med Sverde.

II. 3. Og er hann sa ad þad þocknadest Gydingum, for hann oa-framm og hondlade eirnenn Petrum. Og þad voru Dagar þess Sæta Brauds.

4. Og sem hann hafde hann griped, liet hann setia hann j Mirkvastofu, og afhendte hann (a) Sextan Strijdsmonnum, ad vardveita hann, og hugde epter Paskana ad framselia hann folkenu.

(a) (Sextan) eirn Strijdsflockur skiptest j fiorar Skipaner, og hvør Skipun skyllde vaka fiorda part Nætur, ein epter adra.

5. Og Petur geymdist ad sonnu j Mirkvastofu, Enn Sofnudurinn bad (b) oan aflats fyrer honum til Guds.

(b) Þeir stodu fast a Bænenne, lietu ecke af; so a ein riett Bæn ad vera.

6. Og þa er Herodes villde hann frammleida loata, svaf Petur a þeirre Nott medal tveggia Strijdsmanna, bundenn tveimur Jarnvidium, enn Vardmennerner forvorudu ute fyrer Dyrunum Mirkvastofuna.

7. Og sia, Ad Eingell DRottens kom þangad, og Lios skein j husinu, Hann laust a Sijdu Peturs, upvakte hann, og sagde, Statt upp strax! Og Hleckerner fiellu af hans Hondum.

8. Eingellenn sagde þa til hans, Gyrd þig, og tak skoo þijna a þig, Og hann giorde so; Hann sagde til hans, Legg þinn Kyrtel yfer þig, og filg mier.

9. Og hann gieck ut og filgde honum. Og eige visse hann þad slijkt skiede hann visselega fyrer Eingelinn, Helldur meinte hann sig Syn sia.

10. Og þeir geingu um hid Firsta og annad Vardhalld, Og komu til Joarnhlidsins er loa til Borgarennar, Enn þad lauk sier sialft upp. Og þeir stigu vot og geingu a burt eina Strætisleingd, og strax skildest Eingellenn vid hann.

11. Og er Petur kom til sialfs sijns, sagde hann, Nu veit eg fyrer vijst, þad DRottenn sende Eingel sinn, og frelsade mig af hende Herodis, og af allre eptervæntan Gydinga Lyds.

12. Og sem hann giætte sijn, kom hann til hwsa Mariu, Modur Johannis, þess sem kalladur var Marcus, hvar ed marger voru til samans komner, og boadust fyrer.

13. Enn sem Petur laust a Dyrahurdena, gieck Stulka framm, ad heyra til, su Rhode var ad Nafne.

14. Og er hun þeckte hliod Peturs, lauk hun eige upp Hurdunne, fyrer feigennleika, helldur hliop hun jnn og sagde þeim, ad Petur stæde ute fyrer Hurdunne.

15. Enn þeir sogdu til hennar, þu ert galenn? Hun hiellt þvi fastara a ad þad være so, Þeir sogdu, þad er hans (c) Eingell.

(c) Þesser trudu þvi; ad Einglarner være Mannanna Þienarar.

16. Enn Petur klappade frammveigis uppa. Og er þeir luku upp, soau þeir hann og undrudust.

17. Enn hann bendte þeim med Hendenne, ad þeir þegde, og sagde fra, hvornenn DRottenn hefde leidt hann ur Mirkvastofunni, og sagde, Kunngiored þetta Jacobo og Brædrunum, Hann gieck ut þadann, og for j eirn annann stad.

18. Enn þa dagur kom, var eige litel Angurseme a millum Strijdsmannanna, hvad orded hafde af Petre.

19. Enn er Herodes leitade hans og fann ei, liet hann Vardmennena koma fyrer dom og skipade j burt leida þa. For sijdann fra Judea ofan til Cesaream, og þar dvaldest hann.

III. 20. Þviad hann þeinkte ad strijda vid þa j Tyro, og Sidon, Enn þeir komu med eirni

samhelide til hans og yfertoludu Blastum, hver ed var Konungsins Herbergessveinn, og beiddust fridar, af þvi ad þeirra bygdarlog nærdust af Konungsins Lande.

21. Enn a tilsettum deige klæddest Herodes Konglegum skrude, settest a Domstol, og giorde eina rædu til þeirra.

22. Enn folked tok ad kalla, Guds Rodd er þetta, enn eige Manns.

23. Jafnskiott slo hann Eingell DRottins, af þvi hann gaf eige Gude Heidurenn, og hann vard etinn af Modkum, og gaf upp Andann.

24. Enn Ord DRottinns tok ad vaxa, og margfalldast.

25. Enn Barnabas og Saulus komu til Jerusalem aptur, og afhentu Stirkenn, og toku med sier Johannem, þann er ad vidurnefne hiet Marcus.

## XIII. Capitule.

Barnabas og Paulus eru kallader, Innvijgder og utsender til ad predika Evangelium um JEsum.

Og j þeim Sofnude sem var j Antiochia, voru Spaamenn og Lærefedur, sem var, Barnabas, og Simon er kalladest Niger, og Lucius hinn Syrlendske, og Manahen, sa ed var samfostre Herodis Fiordungshofdingia, og Saulus.

2. Og þa þeir þionudu Drottne, og fostudu, sagde Heilagur Ande, utveljed mier Barnabam, og Saulum, j þad Verk, sem eg hefe þa tilkiored.

3. Þeir fostudu þa, og baadust fyrer, logdu Hendur yfer þa, og lietu j burt fara.

4. Og sem þeir voru utsender af Heilogum Anda, komu þeir til Seleucia, og þadann sigldu þeir til Cypria.

5. Og þa þeir komu til Salamin Borgar, toku þeir ad predika Guds Ord, j Samkundum Gydinga, enn þeir hofdu Johannem til Þienustu.

6. Og sem þeir geingu yfer Eyuna, allt jnn til Paphos Borgar, þar fundu þeir einn Fiolkingismann, og Fals-Propheta, þann Gydingur var, hvors Nafn ad var (a) Bar Jehu.

(a) (Bar Jehu) Norrænest Guds Sonur, Þvi ad þad Ebreska Tungumaaled kallar Gud Jehu, þad er þad Nafn Tetragrammaton, um hvort Gydingar dickta margt furdanleat, so hefur og Þesse Galldra madur haft um Hond þetta sama Nafn, so sem Galldra Menn enn nu hafa Krossa og onnur Heilog Ord og Teikn.

7. Sa var hia Sergio Paulo, Landstiornara, hyggnum Manne, hann kallade fyrer sig Barnabam og Saulum, og hann gyrndte ad heyra Guds Ord.

8. Þa stod þeim j mot sa Galldramadur (b) Elimas (þviad so verdur hans Nafn utlagt) og aasette sier ad snua Landstiornaranum fra Trunne.

(b) (Elimas) Þad hliodar uppa Ebresku, ecke olijkt og hann hefde kallad sig Eli Messia, Þad er Guds Kong, eda Guds hinn Smurda, Þviad Gydingar, og einkanlega þesshaattar Folk plogudu ad hafa Guddomleg Nofn.

9. Enn Saulus, sa er og hiet Paulus, fullur af Heilogum Anda, leit a hann og sagde.

10. O þu Diofuls son, fullur alls Taals og Flaarædis, og Ovinur allrar riettvijse, þu lætur ei af ad umsnua riettum Vegum Drottins.

11. Og sia nu, ad Hond Drottins kiemur yfer þig, og þu skallt Blindur vera, og sia eige Sol um nockra Tijma, og jafnsnart fiell a hann Dymma og Mirkur, gieck umkring, og leitade ad þeim er hann villde leida.

12. Þa (c) Landstiornarenn saa hvad giordest, trude hann og undradest yfer Kienningu Drottins.

(c) (Landstiornarenn) Hann vard eirnenn Christenn og Heilagur Madur aan Logmaalsins og Forþienustunnar, sem var Þo eirn Heidinge, og Veralldlegur Herra.

13. Enn þa Paall og þeir sem med honum voru, sigldu fra Papho, komu þeir til Pergen, j Pamphylialande, enn Johannes skilde vid þa, og for aptur til Jerusalem.

14. Enn þeir foru þar þvert yfer fra Pergen, og komu til Antiochia, j Pisidia Lande,

Lande, og geingu j þeirra Samkundu a Sabbathsdeige, og settust nidur.

15. Enn epter Lögmalslesturenn, og Spamannanna, sendu yfermenn Samkundunnar til þeirra, og lietu seigia, gooder Brædur, vilied þier tala nockud og undervijsa Folkenu, þa seigid til.

16. Pa stood Paall upp, og bendte med Hendenne, og sagde, þier Jsraels Menn, og þier sem ottest GUD, þa heyred.

17. GUD þessa Folks, utvalde Fedur vora, og hof upp Folk þetta þa þegar þad var utlendt a Egyptalande, og * med hoafum Armlegg utleidde hann þad þadann.

* 2 B. Mos. 12, 51. Cap. 13, 16.

18. Og * nær j fiorutijgu aar, umleid hann þeirra Sidu j Eydemörku. * Psal. 95, 10.

19. Og afmaade sio Piodir a Canaanslande, og * skipte med þeim epter hlutfalle þeirra Lande.

* Jos. 14, 2.

20. * Epter þad gaf hann þeim Domendur, j (d) þriu hundrud og fimmtijger aara, allt til Samuelis Spaamans.

* Dom. B 2, 16.

(d) Sumar Bækur hafa fiogur hundrud, enn Historiann og Aaratalsed lijdur þad ecke, þad er Skrifarans yfersion, sem hefur skrifad fiora fyrer Pria, hvad snögglega kann ad verda j Griskunne.

21. Epter (*) þad æsktu þeir sier Konungs, og GUD gaf þeim Saul son Kis, Mann af Beniamins Kine, j fiorutijger aar.

* 1 Sam. 8, 5.

22. Og er hann took hann j burt, uppvakte hann David til Kongs yfer þa, af hvorium hann vitnade, * eg hefe funded David, Son Jesse, Mann epter mijnu Hiarta, hvor giora skal allann minn Vilia.

* 1 Sam. 16, 13. Cap. 13, 14.

23. Af * þessa Sæde uppvakte GUD JEsum, Jsrael til Lausnara, so sem hann fyrerhiet. * Es. 11, 1.

24. Eins og Johannes predikade aadur Jordanarskijrn ollu Jsraels Folke, aadur hann uppbiriade.

25. Enn sem Johannes hafde fullkomnad sitt skeid, sagde hann, eg em eige hann, hvorn þier hallded mig vera, helldur siaed ad sa kiemur epter mig, hvors Skoþveinge a hans Fotum, eg er eige verdugur ad leysa.

Pistillenn a Pridia i Paaskum.

26. Pier Menn, goder Brædur, þier Born Abrahams slecktis, og þeir sem ydar a mille ottast GUD, ydur er þetta Hialpradis Ord sendt.

27. Pviad þeir sem bwa j Jerusalem, og þeirra Hofdingiar, med þvi þeir (e) þecktu hann eige, nie Spaamanna raddernar (hvoriar lesnar verda alla Sabbathsdaga) hafa þeir þær med sijnu Doms-adkvæde uppfyllt.

(e) (Pecktu hann ecke) þar mattu sia, ad Menn kunna vel ad tala og ræda miked um Christum, og þo samt ad afneita honum og deyda hann.

28. Og þo þeir fynde ongva Daudasok med honum, beiddu þeir af Pilato, ad hann villde aflijfa hann.

29. Enn sem hann hafde fullkomnad allt hvad af honum var skrifad, toku þeir hann ofan af Trienu, og logdu j eina Grof.

30. Enn GUD uppvakte hann af Dauda.

31 Og hann auglystest marga Daga, fyrer þeim, sem med honum geingu af Galilea, upp til Jerusalem, hvorier ad eru Vottar til Folksins.

32. Og vier bodum ydur þad Fyrerheit sem til Fedra vorra er skied.

33. Ad þad sama hefur GUD uppfyllt oss þeirra Bornum, j þvi hann uppvakte JEsum, ] so sem j odrum Psalme skrifad er, * Pu ert minn Sonur, j Dag ol eg þig. * Psal. 2, 7.

34. Enn þad, ad hann uppvakte hann af Dauda, ad hann kiæme ei framar til rotnunar, þa sagde hann so, * Trulega skal eg hallda vid ydur þa Naad, er David var lofud. * Es. 55, 3.

35. Fyrer þvi seiger hann j odrum Stad, * þu munt eige leyfa, ad þinn Heilage skule rotnan sia. * Psal. 16, 10.

36. Pvi David, þa hann hafde a sijnum Tijma þienad GUDs Vilia, * so so ade hann burt, og er lagdur til Fedra sinna, og hefur rotnan sied. * 1 B. Kon. 2, 10.

37. Enn sa, hvorn GUD upvakte, hefur eige rotnan sied.

38. Fy-

38. Fyrer þvi sie ydur vitanlegt, goder Brædur, þad ydur bodast fyrer þennann Syndanna Fyrergiefning, og af ollu þvi, af hvoriu þier gatud ei Riettlaater orded j Moysis Logmaale.

39. Enn hvor hann truer a þennann, sa er Riettlaatur.

40. Þvi siaed so til, ad eige kome þad yfer ydur, hvad sagt er fyrer Spaamennena.

41. *Siaed, þier Forsmaanarar undred ydur, og verded ad ongvu, þviad eg giore eitt Verk, a ydrum Tijmum, hvoriu þier trued ei, og þo nockur talade þar um fyrer ydur.

* Habacuc 1, 5.

42. Enn ad utgeingnum Gydingum af Samkundunne, badu þeir hiner Heidnu, þad þeir segde þeim þesse Ord, a mille Sabbathsdaganna.

43. Og er Samkunduhussins Sofnudur skildest ad, filgdu Paale og Barnaba marger Gydingar epter, og gudrækner Menn, sem Judar hofdu giorst, og þeir sogdu þeim, og aaminntu þa, ad þeir skylldu blijfa j Gllds Naad.

44. A epterkomande Sabbathsdeige kom til samans nær allur sa Stadur, ad heyra Gllds Ord.

45. Og er Gydingar saau Folked, fylltust þeir af hatre, og toku ad mæla j giegn þvi sem Paall sagde, motkastande þad, og haadungar Ordum lastande.

46. Enn þeir Paall og Barnabas, sogdu þa skoruglega, þad byriade, ad ydur skyllde Gllds Ord first seigiast, enn af þvi þier reked þad fra ydur, og hallded ydur sialfa eylijfs Lijfs omaklega, siaed, þa snuum vier oss til Heidinna Pioda.

47. Þviad so hefur Drottenn boded oss, * Eg sette þig Heidnum Piodum til Lioss, so ad þu siert Hialpraad, allt til Jardarennar Enda.

* Es. 49, 6.

48. Og þa hiner Heidnu heyrdu þad, gloddust þeir, og vegsomudu Ord Drottens, og so marger þeirra (f) urdu Truader, sem til Eylijfs Lijfs voru skickader.

(f) Fyrer Orded, um Logmaalsins og Verkanna, snuast þesser eirnenn.

49. Og Ord Drottins tok vyt ad berast, um oll Hierod.

50. Enn Gydingar hvottu þa upp Merkelegar og hæverskar Kvinnur, og hina ædstu Menn Borgarennar, og uppvoktu so offsokn j moti Paale og Barnaba, og raku þa burt ur sijnum Landamerkium.

51. Enn þeir hristu dupt Foota sinna a þa, og komu til Iconion.

52. Og Læresveinarner fylltust af fagnade og Heilogum Anda.

## XIV. Capitule.

(I) Paulus asamt med Barnabas predikar i Iconio: (II) Giorer eitt Furduverk i Lystra: (III) Ferdast um Imsa Stade.

I. Og þad skiede j Iconio, ad þeir komu til samans, og predikudu j Gydinga Samkundu, so ad mikell mannfiolde trude, bæde af Judum og Grickium.

2. Enn þeir vantruudu Gydingar uppvoktu, og efasamar giordu j mot Brædrunum, Saler Heidinna Manna.

3. So dvoldu þeir þar um langann Tijma, og kiendu diarflega j Drottne, hvor ed sialfur Vitne bar Ordum sinnar Naadar, og liet Takn og Stormerke skie fyrer þeirra Hendur.

4. Enn Borgarmuguriñ tvistipiest j sundur, so ad sumer hielldu med Gydingum, enn sumer med Postulunum.

5. Enn er giordest upphlaup af Heidingium, og Gydingum, og þeirra Yferbodurum, ad smana þa, og griote lemia.

6. Þa fornumu þeir þad, og flydu j þær Borger sem liggia j Lycaonia Lande, Lystra, og Derben, og j þeirra umliggiande Landsaalfur.

7. Og predikudu þar Evangelium.

II. 8. Og Madur nockur var j Lystra, hann hlaut ad sitia, þvi hann var Fota-hrumur, og var halltur fra sinnar Modur-Kvide, sa er alldrei hafde enn geinged.

9. Hann heyrde Paal mæla, og sem hann leit a hann, og formerkte ad hann trude, þad

honum

honum mætte hialpa, sagde hann med hoarre Roddu.

10. Statt upp riettur, a þijnar Fætur, og hann spratt upp og gieck.

11. Enn er Lydurenn leit hvad Poall hafde giort, hofu þeir upp hliod sijn, a Lycaoniſku, og sogdu, Godenn eru Monnum lijk ordenn, og til vor ofann stigenn.

12. Og Barnabam kolludu þeir Jupiter, enn Poal Mercurium, af þvi hann frammbar Ordid.

13. Enn Jovis Prestur, sa er fyrer Borg þeirra var, flutte bæde Yxn og Kransa fyrer Portenn, og villde fornfæra med Folkenu.

14. Þa þeir Postular, Poall og Barnabas, heyrdu þad, sundurrifu þeir sijn Klæde, stucku ut til Folksins, kolludu og sogdu.

15. Þier Menn! þvi giored þier þetta? vid erum og daudleiger Menn, lijka sem þier, og predikum ydur Evangelium, ad þier snueſt fra þessum hiegomlegum hlutum, til Lifanda Guds, sa er giorde Himen og Jord, Sio og allt hvad j þeim er.

16. Hvor er um lidnar allder hefur alla Heidingia ganga loatid þeirra sialfra vegu.

17. Og þo ad sonnu hefur hann ei forloated sialfann sig, oan Vitnisburdar, þar hann veitte oss miked gott, og gaf oss Dogg af Himne, og friosama Tijma, uppfyllande vor Hiortu med Fædslu og Fagnade.

18. Og er þeir sogdu þetta, goatu þeir þo varla stillt Lydenn, so ad þeir fornudu þeim eige.

19. Þa komu þar nockrer Gydingar, fra Antiochia og Iconio, hverier ad toldu Lydenn j, so ad þeir gryttu Poal, og drou ut af Borgenne, meinande hann daudann vera.

20. Enn þa Lærisveinarner umkringdu hann, stod hann upp, og gieck jnn j Borgena, III. Og Deigenum epter for hann vt med Barnaba til Derben.

21. Og þeir predikudu Evangelium j þeirre Borg, og kiendu morgum, og þeir fooru aptur til Lystram, Iconion og Antiochiam.

22. Stirkiande Ander Lærisveinanna, og aminnande þa, ad þeir være stadfaster j Trunne, og þad, ad oss biriar fyrer miklar hrellingar jnn ad ganga j Guds Rijke.

23. Og þeir skickudu þeim Olldungana j sier hveria Samkundu, bоadust fyrer, og fostudu, og foolu þa sijdann þeim Drottne a hendur, a hvorn þeir trudu.

24. Og þeir ferdudust um Pisidiam, og komu j Pamphyliam.

25. Og toludu Orded i Pergen og foru ofann j Attaliam.

26. Þadann sigldu þeir til Antiochiam, hvadann þeir voru fyrer Guds Noad tilseingner, j þad Verk, hvort þeir hofdu fullkomnad.

27. Og sem þeir voru komner þangad, samannsofnudu þeir Sofnudenum, og toldu framm, Hvad mikid Gud hafde giort þeim, og hvornenn hann hefde Dyrum Truarennar uppluked fyrer Heidingium.

28. Og þeir dvoldu þar eige skamma stund, hia Lærisveinunum.

## XV. Capitule.

(I) Postularner hallda Kyrkiu Raadstefnu i Jerusalem: (II) Barnabas og Paulus skilia.

I. Og nockrer komu nidur fra Judea, og kienndu Brædrunum, Nema ef þier loated umskiera ydur epter Sidveniu Moses, þa kunned þier ei Sοaluholpner ad verda.

2. Sem þar nu biriadest eitt Upphlaup, og Poall og Barnabas hofdu ecke lijtid þrætumoal vid þa, þa skickudu þeir þvi so, ad Poall og Barnabas, og nockrer adrer af þeim, færu upp til Postulanna, og Olldunganna j Jerusalem, um þessa Spurning.

3. Og þeir voru af Safnadenum a leid leidder, og geingu j giegnum Phenicen og Samariam, seigiande Heidinna Pioda umvendan, og giordu ollum Brædrum mikenn Fognud.

4. Enn þa þeir komu til Jerusalem, medtokust þeir vel, af Sofnudenum, og Postulunum, og so af Olldungunum, og þeir kunngiordu þeim fra, Hvorsu miked Gud hafde giort medur þeim.

5. Þa

5. Þa risu upp nockrer ut af Phariseanna Selskap, þeir vid Tru hofdu teked, seigiande, þad biriar ad umskiera þa, og bioda þeim ad hallda Moysis Løgmaal.

6. Enn Postularner og Olldungarner komu til samans, ad þeir lite a þetta Maal.

7. Og er mikel þraattan hafde vered, stod Petur upp og sagde til þeirra, þier Menn og goder Brædur, þier vitid, þad GUd hefur utvalid vor a mille, langt fyrer þennann tijma, ad Heidner Menn skylldu heyra og trua fyrer minn Munn, Gudsspiallsins Orde.

8. Og Gud, sa Hiortun þecker, bar Vitnisburd um þa, giefande þeim Heilagann Anda, so sem oss.

9. Og giørde øngvann (a) Greinarmun a mille vor og þeirra, hreinsande med Trunne þeirra Hiortu.

(a) (Greinarmun) Þetta heiter ad verda Saaluhólpenn aan Løgmaals og Forþienustu.

10. Fyrer hvad freisted þier nu þa Guds, ad leggia Ok yfer Læresveinanna Haals, hvort ad ei gaatu bored, hvørke vær nie Fedur vorer?

11. Helldur truum vier ad verda Saluholpner, fyrer Naad DRottens vors JEsu Christi, med sama hætte og þeir.

12. Þa þagde allur Mugurenn, og hlyddu þeim Barnaba og Paale, er þeir søgdu fra, hvad stor Teikn og dasemdar Verk ad Gud hafde giørt medal (b) Heidinna þioda fyrer þa.

(b) (Heidenna þioda) Sem þo voru oumskorner og utan Løgmaals.

13. Epter þad þeir þøgnudu, svarade Jacob og sagde, Þier menn, goder Brædur, heyred mig.

14. Simon sagde framm med hvørium hætte Gud hafde j firstu vitiad, og medteked sier folk ut af Heidnum þiodum, til sijns Nafns.

15. Og þessu samhlioda Spaamanna ordenn, so sem ad skrifad er.

16. *Epter þetta mun eg aptur koma, og uppbyggia Tialldbud Davids, hvør ad fallenn er, og eg skal þad sem a henne er slited, endurbyggia, og hana upprietta aptur.

*Amos 9, 11. 12.

17. So ad þeir Menn sem epterblijfa skulu leita DRottens, og þar til allar Heidnar þioder, yfer hvøriar mitt (c) Nafn er nefndt, seiger DRottenn, sa er þetta giører allt.

(c) (Nafn) Þad er, Þeir sem kallast mijnu Nafne, so sem Guds Folk, Christi Søfnudur, Þienarar DRottins.

18. Gude eru øll sijn verk kunnug, j fra Veralldarennar Upphafe.

19. Fyrer þvi urskurda eg, ad giøra ecke þvingan þeim sem snuast fra Heidne til Guds.

20. Helldur skrifum þeim til, ad þeir hallde sig fra Ohreinleik Skurgodadyrdkunar, Og fra Frillulifnade, og fra køfnudu, og fra Blode.

21. Þviad Moyses hefur j langann tijma haft þa j øllum Borgum, sem hann predika, og hann verdur lesenn hvørn Sabbathsdag j Samkunduhusum.

22. Þa leitst þad Postulunum og Olldungunum, med øllum Søfnudenum, ad þeir utveldu af þeim menn, og sendu til Antiochiam med Paale og Barnaba, sem var, Judam þann kalladur var Barsabas, og Silam, hvørier ed voru Lærefedur a medal Brædranna.

23. Og þeir feingu þeim þess haattar Rit j þeirra Hendur. Vier Postular, Olldungar og Brædur, Oskum Velferd þeim Brædrum, af Heidingium, sem eru j Antiochia, Syria og Cilicia.

24. Med þvi ad vier høfum heyrt, ad nockrer af oss eru utgeingner, sem hafa fært ydur j Villu med lærdome, og efasamar hafa giørt ydar Saler, bodande ydur ad umskierast, og Løgmaalid ad hallda, hvørium vier høfum ecke slijkt boded.

25. Þvi hefur oss litest med eindrægne samannkomnum, ad utvelia Menn og senda til ydar med vorum elskulega Barnaba, og Paale.

26. Hvorier Menn ad uthafa sett sijnar Saler fyrer Nafn-DRottins vors JEsu Christi.

27. Fyrer þvi sendum vier Judam og Silam, hvorier ed eiga ad seigia ydur med Ordum hid sama.

28. Þviad þad þocknast Heilogum Anda og oss, ad leggia ydur eingenn þyngsl meire uppa, fyrer utan þessa þarflega hlute.

29. Pad þier hallded ydur fra þvi sem Skwrgodum er fornad, og Blode, og fra kosnudu, og fra Frillulijfe, Fra hvoriu ef þier hallded ydur, þa giored þier riett. Lifed sæler.

30. Þa þesser voru af stad sender, komu þeir til Antiochiam og samansofnudu Safnadenum, og feingu þeim Briefid.

31. Þa þeir lœsu þad, urdu þeir af þeirre (d) Huggan glader.

(d) (Huggan) ad þeir mætta vera frijer fra Logmœlenu.

32. Enn Judas og Silas, hvorier og so Spœmenn voru, œminntu Brædurnar med miklum fortolum, og stirktu þa.

33. Og þa þeir hofdu dvaled þar um stundarsaker, urdu þeir sijdann med fride af Brædrunum sender til Postulanna.

34. Enn Sila leitst ad vera þar.

II. 35. Og Poall og Barnabas dvoldust j Antiochia, kienndu og predikudu, samt odrum morgum fleyrum, Ord DRottens.

36. Enn epter nockra daga, sagde Poall til Barnaba, Forum vid aptur, og vitium Brædra vorra um allar Borger j hvorium vid hofum bodad Ord DRottens, hvorninn ad þeir haga sier.

37. Enn Barnabas gaf til rœd, ad þeir tæke med sier Johannem, sa er auk-nefndest Marcus.

38. Enn Poale þotte tilheyrelegt, ad þann, sem fra þeim hefde snued ur Pamphylia, og gieck eige med þeim j Verk, skylldu þeir ecke med sier taka.

39. Og so hardt sundurþycke vard þeirra a mille, ad hvor skilde vid annann, Og Barnabas tok Marcum til sijn, og sigldi j Cyprum.

40. Enn Poall kiore sier Silam, og ferdadest j burt, og var af Brædrunum Guds Nœd bifaladur.

41. Og hann ferdadest j giegnum Syriam og Ciliciam stirkiande Sofnudena.

## XVI. Capitule.

Paulus ferdast (I) fra Asia (II) til Europa.

I. Pa kom hann til Derben og Lystran, og sia, ad einn (a) Læresveirn var þar, Timotheus ad Nafne, Sonur eirnrar Truadrar Gydinga Konu, enn ad Faderne Griskur.

(a) (Læresveirn) Utan Logmœls, o-umskorenn, riettur Heidinge, og þo Christenn.

2. Þessum bœru þeir Brædurner gott Vitne, sem voru j Lystra og Iconia.

3. Þennann villde Pall med sier fara lœta, tok ad sier og umskar hann, fyrer saker þeirra Gydinga sem voru j þeim stodum, Þviad þeir vissu aller þad hans Fader var Griskur.

4. Enn þar þeir foru um Borger, budu þeir j þeim ad vardveita þær (b Setningar, sem œlycktadar hofdu verid af Postulunum, og Olldungunum, j Jerusalem.

(b) (Setningar) um Frijun fra Logmœlenu.

5. Og so stirktust Sofnuderner j Trunne, og fiolgudust dagleg ad tolu.

6. Og þa þeir ferdudust j giegnum Phrygiam, og Landid Galatiam, var þeim forbodid af Heilogum Anda, ad tala Orded j Asia.

7. Enn sem þeir komu til Mysiam, freistudu þeir ad ferdast j giegnum Bithyniam, og Andenn losade þeim þad eige.

8. Enn er þeir geingu framhia Mysiam, foru þeir ofan til Troaden.

9. Og Paulo var ein Sion openberud um Nottena, þad var Madur nockur af Macedonia, stod og bad hann, og sagde, Far ofann j Macedoniam, og hialpa oss.

II. 10. Enn sem hann hafde Sionena sied, Huxudum vier strax ad reisa j Macedoniam, fullvisser j þvi, þad DRottenn kallade oss þangad ad predika þeim Evangelium.

11. Pa reiſtum vier fra Troada, og komum a riettu ſkeide til Samothracian, annars dags til Neapolin.

12. Og þadann til Philippis, hvor ad er hofud Borg j Macedonia, byggd af Romverium, Og vær dvolduſtum j ſomu Borg nockra daga.

13. Og a Sabbathsdeigenum, geingum vier af Borgenne, ad þvi Vatne hvar þeir plogudu ad bidiaſt fyrer, ſettum oſs, og toludum til þeirra Kvenna, er þar komu til ſamans.

14. Og Kona nockur Gudrækenn, Lydia ad Naſne, hvor ed Purpura ſellde, verande utaf Thyatiris Borg; heyrde til, hvorrar Hiarta DRottenn opnade, ſo ad hun giætte ad þvi hvad af Paale ſagdeſt.

15. Enn ſem hun og hennar hus var ſkijrt, beidde hun oſs og ſagde, Ef þier hallded mig Truada vera, a DRottenn, þa ganged jnn j mitt Hws, og blijfed þar, Og hun neydde oſs þar til.

16. Enn þad ſkiede þa vier geingum til Bænar, ad Stulka nockur, ſu er hafde Sannſagnar Anda, hliop j mote oſs, hvor ed giorde ſijnum Laanardrottnum mikenn Abata, med ſijnum Spaadome.

17. Peſſe ſama filgde Paale og oſs allſtadar epter, kallade og ſagde, Peſſer Menn eru Pionar Guds hins hæſta, þeir ed boda ydur hialprædis gotu.

18. Petta giorde hun um marga Daga, Enn þad gramdeſt Paale, þvi ſnereſt hann vid og ſagde til Andans: Eg byd þier j Naſne JEſu Chriſti, ad þu farer ut fra henne, Og hann for ut a ſamre ſtundu.

19. Enn er Drottnar hennar ſaau þad, ad von ſijns abata var ute, gripu þeir Paal og Silam, og leiddu þa a Torg, til Hofdingianna.

20. Og færdu þa til Hofudsmannana, og ſogdu, Peſſer Menn færa Stad vorn j villu, og eru Gydingar.

21. Og boda þa veniu er oſs hæfer ei ad medtaka, nie ad giora, med þvi vier erum Romverſker.

22. Og Folked æſteſt upp j mote þeim, og hofudsmennerner lietu þa af Fotum færa, og budu ad ſtrykia þa.

23. Og er þeir hofdu veitt þeim ſtora Hwodſtroku, ſnorudu þeir þeim j Myrkvaſtofu, og budu Myrkvaſtofuvordenum ad geyma þa grandvarlega.

24. Og hann tok ſlijkt bod ad ſier, og kaſtade þeim j þad jnnſta vardhalld, og ſette þeirra fætur j Stock.

25. Enn um midnætte baaduſt þeir fyrer Paall og Silas, og loſudu Gud, Og þeir faungudu heyrdu til þeirra.

26. Enn ſkiotlega vard mikell jardſkialfte, ſo ad hræddeſt Grundvollur Myrkvaſtofunnar, Og jafnſnart opnuduſt allar Dyr, Og allra þeirra fiotrar uppleyſtuſt.

27. Enn ſem Myrkvaſtofuvordurenn vaknade, og ſaa Myrkvaſtofudyrnar opnar, dro hann ut Sverd, og villde fyrerfara ſialfum ſier, meinande Bandingiana burt flyda.

28. Enn Paall kallade haarre roddu, og ſagde, Gior þier eckert vondt, þviad vier erum hier aller.

29. Enn hann heimte Lios, gieck jnn, og af otta ſkielfenn, fiell hann Paale og Sila til fota.

30. Leidande þa ut og ſagde, Herrar mijner, Hvad bier ar mier ad giora, ſo eg verde Saluholpenn?

31. Enn þeir ſogdu, Tru þu a DRottenn JEſum Chriſtum, ſo verdur þu holpenn og þitt hus.

32. Og þeir ſogdu honum Ord DRottens, og ollum þeim er j hans huſi voru.

33. Hann tok þa ad ſier þa ſomu ſtund Nætur, og þerrde Beniar þeirra, Hann liet þa og ſkijra jafnſnart ſialfann ſig og allt ſitt hus.

34. Og þa leidde hann þa j ſitt hus, reiſte upp Bord fyrer þeim, og hann gladdeſt

med ollu sijnu husi, þad hann var a Gud Truadur ordinn.

35. Og er dagade, sendu Hofudsmennerner Pienara Stadarins þangad, og sogdu, Loattu þessa Menn lausa.

36. Enn Mirkvastofuvorduren kunngiorde Poale þessa Rædu, Hofudsmennerner sendu hingad, ad þier skylldud lauser loatast, Þvi ganged nu ut og fared j Fride.

37. Enn Poall sagde til þeirra, Þeir hafa opinnberlega oan Laga og Doms loatid hwdstietta oss Romverska menn, og j Mirkvastofu kastad, og skylldu þeir nu reka oss ut heimuglegana? Ei skal so, helldur loated þa sialfa koma og leida oss ut.

38. Enn þesse Ord kunngiordu Stadarens Pienarar Hofudsmonnunum, Og er þeir heyrdu þad ad þeir voru Romverske, ottudust þeir.

39. Komu sijdann, beiddu þa og utleiddu, og boadu þa ad þeir villdu fara burt ur Borgenne.

40. Þeir geingu þa af Mirkvastofunne, og komu til Lydia. Og er þeir hofdu Brædurnar sied og hugsvalad þeim, foru þeir burt.

## XVII. Capitule.

Paulus kemur (I) til Thessalonica; (II) til Berrhoen; (III) til Athenuborgar.

I. Enn þa þeir foru um Amphipolin og Appolloniam, komu þeir til Thessalonicam, hvar ed var eitt Gydinga Samkunduhws.

2. Enn Poall gieck jnn epter veniu sinne, til þeirra, og sagde þeim um þria Sabbathsdaga ur Ritningunum.

3. Opnade þær fyrer þeim, og lagde þad framm fyrer þa, ad Christus hefde oatt ad lijda, og af Dauda upp ad rijsa, og ad þesse JEsus, hvorn eg boda ydur (sagde hann) er Christur.

4. Og nockrer af þeim fiellu til hans, og samlogudu sig Poale og Sila, og mikell fiolde Gudligra Grickia, þar med hinar ædstu Kvinnur, eige allfoaar.

5. Enn þeir Hardsvijrudu Gydingar fylltust Vandlætingar, og feingu med sier nockra illþydis Almwgamenn, Og er þeir hofdu dreiged Flock samann, giordu þeir upphlaup j Borgenni, og geingu fyrer hwos Jasonis, og soktu epter ad leida þa framm fyrer Alþydufolked.

6. Enn er þeir fundu þa eige, drou þeir Jason og nockra Brædur fyrer Hofdingia Borgarennar, og kolludu, Þeir ed uppreistann giora allann Heiminn allt um kring, eru hier komner.

7. Hvoria Jason hyser, Og þesser aller giora j mote Keisarans Bode, seigiande annann Kong vera, sem er JEsus.

8. So uppæstu þeir Lydenn og Hofdingia Borgarennar, þa þeir slijkt heyrdu.

9. Og er þeir hofdu fullt andsvar feinged af Jasone, og þeim odrum, lietu þeir þa lausa.

II. 10. Enn Brædurner lietu Poal og Silam burt fara um Nott til Berrhoen, Og er þeir komu þar, geingu þeir jnn j Gydinga Samkunduhus.

11. Þvi þeir voru hiner Edalbornustu a medal þeirra sem voru j Thessalonica, hvorier Orded medtoku miog godviliuglega, rannsakande daglegana Ritningarnar, hvort þad være so.

12. Og marger af þeim giordust Truader, og eirnenn erlegar Kvinnur Griskar, og eige allfaaer Karlmenn.

13. Enn er þad feingu ad vita þeir Gydingar sem voru af Thessalonica, ad GUds Ord voru bodud af Poale, j Berrhoen, komu þeir og æstu eirnenn þar Lydenn.

14. Enn jafnsnart sendu Brædurner Poal j burt, þad hann geinge allt til Siafarins, enn Silas og Timotheus urdu þar epter.

III. 15. Og þeir ed leiddu Poal a Veg, filgdu honum allt til Athenu, og sem þeir feingu þa Bifalning af honum til Sila og Timotheo, þad þeir kiæme sem snarast til hans, foru þeir a burt.

16. Enn a medan Poall beid þeirra j Athenu,

nu, gramdest hans Ande med sialfum hönum, er hann sa Borgena so miög hneigda til Skurgodadyrdkunar.

17. Og hann talade hvorn Dag vid Gydinga og Gudrækna Menn j Samkunduhusum, a Torge, til þeirra manna sem hielldu sig þangad.

18. Enn nockrer Epicurei, og Stoici, veralldleger Spekingar, þrættudu vid hann, og sumer sögdu, hvad vill þesse (a) Ordsnapur til seigia? enn adrer sögdu, þad synest sem hann vilie nyrra GUda Bodare vera, fyrer þvi hann hafde bodad þeim Evangelium af JEsu, og af Upprisunne.

(a) Spermologus, j Griskunne, kiöpkugur Husgangs Madur, Landhlaupare; Þeßkonar Menn sem flacka hingad og þangad um Landed, og fæda sig a Kvismælum.

19. Og þeir tooku hann, og leiddu a Domflotenn, seigiande, meigum vær ecke faa ad vita hvor þesse nya Kienning er, er þu kienner?

20. Þviad nockud nytt flytur þu fyrer vor Eyru, fyrer þvi villdum vier vita hvad þad være.

21. Enn aller Athenu Borgarmenn, og so Utlendingar og Giester, stundudu eckert annad, nema ad seigia, eda ad heyra nockud nytt.

22. Þa stood Poall midt a Domflotnum og sagde, þier Menn Athenuborgar, eg sie þad þier erud j öllum hlutum ofmiög Vantruader.

23. Eg hefe geinged hier um, og sied ydra GUdsþionustu, eg fann og Alltare, a hvöriu upp var skrifad, þeim Okunna GUde. Fyrer þvi boda eg ydur þann sama, hvörium þier ovitande GUds Þionustu giored.

24. Sa GUd sem giorde Heimenn, og allt hvad j hönum er, fyrer þvi, ad hann er Drottenn Himens og Jardar.

25. Þa byr hann ecke j Musterum þeim sem med Höndum eru smijdud, og Eige verdur hönum þionad af Mannanna Höndum. So sem hann hefde nockurs Þorf, med þvi hann giefur allstadar öllum Lijf og Anda.

26. Og hann hefur þad giort, ad allar Mannanna Ættkvijsler bua a Jördunne af einu Blode, og hann sette Tijma og Takmork, sem var aadur fyrer-sied hvad vijdt og langt þeir skyllde bua.

27. So ad þeir skylldu leita Drottens, ef verda kynne, ad þeir mætte a hönum þreifa, og hann finna, þo ad hann sie ad Sönnu eigi langt fra einum sier hvörium vorra.

28. Þviad vier lifum, hrærunst, og erum j hönum, so sem nockur Skualld hia ydur hafa sagt, vier erum af hans (b) Ætt.

(b) (Ætt) Þad er, vier erum komner af hönum so sem af einum Födur edur Skapara.

29. Nu med þvi vier erum GUds Ætt, skulum vier ei meina GUddomenn lijkann vera Myndum af Gulle, Silfre, edur Steinum, sem giordar eru fyrer mannlega Þanka.

30. Og ad Sönnu hefur GUd lided Tijma Ovitskunnar, enn nu bydur hann öllum Mönnum, j öllum Endemörkum, ad giora Yferbot.

31. Fyrer þvi hann hefur Dag til sett, a hvörium hann vill dæma alla Jardarkringluna med Riettvijse, fyrer einn Mann, fyrer hvorn hann hefur þad og aalycktad, Tru ad veita öllum, epter þad hann uppvakti hann af Dauda.

32. Enn er þeir heyrdu af Upprisu frammlidinna, hæddu sumer ad þvi, enn sumer sögdu, vier skulum heyra þig framar um þetta.

33. So gieck Poall fra þeim.

34. Og nockrer Menn hielldu med hönum, og urdu (c) Truader, medal hvorra var Dionysius eirn af Raadenu, og Kona, Damaris ad Nafne, og adrer med þeim.

(c) (Truader) aan Lögmaalsins og Verkanna, Þvi þeir voru Heidingiar.

## XVIII. Capitule.

Paulus (I) predikar i Corinthiborg; og (II) kemur sidan til Ephesiborgar.

I. Enn epter þad skilde Poall vid Athene, og kom til Corinthum.

2. Og fann einn Gyding, Aqvilam ad nafne, fæddann j Ponto, sa er nyleg a var komenn af Vallande, med sinne Hwsfru Priscilla, af þvi ad Keisare Claudius hafde boded øllum Gydingum ad rijma burt af Rom.

3. Til þess hins sama gieck hann jnn. Og med þvi ad þeir voru eins Handverks Menn, var hann hia þeim, og erfidade, enn þeirra Handverk var Tialldvefnadur.

4. Og alla Sabbathsdaga kiennde hann j Samkunduhusinu, og talade um bæde fyrer Gydingum, og eirnenn lijka fyrer Griekium.

5. Enn er Silas og Timotheus komu af Macedonia, þreingde Andenn Poale til ad vitna fyrer Gydingum, þad JEsus være Christus.

6. Enn sem þeir stoodu a mote þvi, og tøludu Hoadungar Ord, hriste hann sijn Føt, og sagde til þeirra, ydvart Blod sie yfer ydar Høfde, eg er hreinn, og geing hier epter til Heidingia.

7. Og hann veik þadann, og gieck jnn j Hws nockurs þess er Justus var ad Nafne. Hann var GUdhræddur, hans Hws var og næsta Samkunduhwsinu.

8. Enn Crispus, hvør ed var Foringe Samkunduhussens, trude a Drottenn med øllu sijnu Hwsi, og marger (a) Corinthu-menn, þeir ed til heyrdu, urdu truader, og lietu skijra sig.

(a) þeir j Corinthu komu og so oan Løgmoalsins og Verkanna.

9. Drottenn sagde fyrer Syn um Nott til Poals, Ottast eige, helldur tala þu og þeig ecke.

10. Þvi eg em med þier, og eingenn skal voga ad giora þier Skada, þviad eg oa miked Folk j þessare Borg.

11. Enn hann sat þar oared umkring, og sex Manude, og kiennde þeim GUds Ord.

12. Enn er Gallion var Landstiornare j Achaia, settu Gydingar sig med einu samhellde a mote Poale, og leiddu hann fyrer Domstolenn.

13. Og søgdu, þesse rædur Mønnum ad dyrdka GUd j mote Løgmalenu.

14. Enn þa Poall bio sig til ad uppluka Munnenn, sagde Gallion til Gydinga, Judar mijner, ef þad være um nockurt Rangindeeda Oknytte, þa bære mier ad heyra ydur.

15. Enn med þvi þad eru Spurningar, um Lærdom, og Ord, og Løgmoal ydar, a millum, meiged þier sialfer til sia, þviad eg hyggst eige Domare vera þar yfer.

16. Og rak þa fra Domstolnum.

17. Þa gripu aller Griecker Sosthenem, Samkundunnar Høfdingia, og slou hann fyrer Domstolnum, enn Gallion gaf sig þar ecke ad.

18. Poall dvaldest þar enn nu leinge, þar epter giørde hann skilnad vid Brædurnar, og villde sigla j Syriam, og Priscilla og Aqvila med honum. Þa hann hafde rakad Høfud sitt j Kenchrea, þviad hann hafde heit a Hende.

II. 19. Og hann kom til Epheso, og þar skilde hann þau epter, enn hann gieck jnn j Samkunduna, og talade vid Gydinga.

20. Enn þeir boadu hann, ad hann blife þar enn leingra Tijma hia sier.

21. Enn hann samsinnte þvi ecke, helldur skildest hann vid þa og sagde, mier biriar med øllu þessa Hoatijd, sem til stendur, ad hallda til Jerusalem, ef GUd vill, skal eg til ydar koma, og hann for fra Epheso.

22. Og kom til Cesarea, gieck upp og heilsade Safnadenum, og for ofann til Antiochia.

23. Og dvaldest þar nockra Stund, for burt sijdann, og gieck hvad epter annad j giegnum allt þad Galatiska Land, og Phrygiam, stirkiande alla Læresveinana.

24. Þa kom þar til Epheso Gydingur nockur, Apollo ad nafne, fæddur j Alexandria, mælskumadur, og moattugur j Ritningunum.

25. Þesse var menntur j Veige Drottins, og talade med gloande Anda, og kiennde allkappsamlega um Drottenn, vitande einasta af Skijrn Johannis.

26. Þesse tok diarflega ad predika j Samkundunne, enn er Aqvila og Priscilla heyrdu honum,

honum, toku þaug hann ad sier, og sögdu enn innelegar ut fyrer honum GUds Veg.

27. Og þa hann villde reisa j Achaiam (b) skrifudu Brædurner og riedu Læresveinunum, ad þeir medtæke hann, og sem hann var þar komenn, hialpade hann morgum, þeim er Truader voru ordner fyrer Nadena.

(b) (Skrifudu) so ad Menn skylldu ecke trua þeim sem villde koma sier inn oan Briefa.

28. Þvi hann yfervann Gydinga mektuglega, bevijsande openberlega, fyrer Ritningarnar, þad JEsus være Christus.

## XIX. Capitule.

(I) Predikun Pauli i Ephesiborg: (II) Falsker SæringaMenn, sem villdu reka Dioful ut, verda Straff ader: (III) Uphlaup sem Gullsmidur nockur hafde vered Orsøk til, sefast.

I. Og þad skiede, er Apollo var til Corintho, ad Paall gieck þa um Upplond, og kom til Ephesum, og fann nockra Læresveina.

2. Og sagde til þeirra, hafed þier nockud medteked Heilagann Anda, þa þier urdud truader? Enn þeir sögdu til hans, vær hofum enn alldrei heyrt hvort ad Heilagur Ande være til.

3. Hann sagde til þeirra, uppa hvad erud þier þa skijrder? enn þeir sögdu, uppa Skijrn Johannis.

4. Paull sagde, Johannes skijrde ad sönnu med Jdranarskijrn, og sagde fyrer Folkenu, ad þeir skylldu trua a þann, sem epter hann munde koma, þad er, a JEsum Christum.

5. Sem þeir heyrdu þad, lietu þeir skijra sig j Nafne Drottins vors JEsu.

6. Og er Paall hafde haft Hendur yfer þeim, kom Heilagur Ande yfer þa, og þeir toludu Tungur, og spaadu.

7. Enn þeir Menn voru alls nær tolf.

8. Hann gieck jnn j Samkunduhusid, og predikade diarflega, um þria Manude, kiennde og undervijsade af GUds Rijke.

9. Enn þa þeir voru nockrer, sem forherdter voru, og ei trudu, talande jlla um þann Veg fyrer Alþijdunne, veik hann fra þeim, og adskilde Læresveinana, daglegana talande j Skola þess Manns, er Tyrannus hiet.

10. Og þad varde tvo aar, so ad þeir aller, sem biuggu j Asia, heyrdu Ord Drottens vors JEsu, bæde Gydingar og Gricker.

11. Og GUd giorde ei lijtil Verk fyrer Hendur Paals.

12. So ad þeir toku Svitaklæde og Kraga af hans Hørunde, og hielldu þeim yfer siuka, þad Krankdæmenn hvurfu af þeim, og Jllsku Andar utforu af þeim.

II. 13. Enn nockrer freistudu utaf umhleypings Judum, Særingamenn, ad kalla a Nafn Drottins JEsu, yfer þeim sem Jllskuanda hofdu med sier, og sögdu, vier særum ydur fyrer JEsum, þann Paall predikar.

14. Enn þesser voru sio, er þetta fromdu, syner þess Gydings, og Prestahofdingia, er Skeva hiet.

15. Enn Jllsku-andenn svarade og sagde, JEsum þecke eg, og Paal veit eg, enn hvorier erud þier?

16. Og sa Madur, j hvorium Jllsku-andenn var, stock uppa þa, og vard þeim oblugre, og varpade þeim under sig, so ad þeir flydu nakter og saarer ur þvi sama Hwsi.

17. Og þetta vard ollum kunnugt, sem biuggu j Epheso, bæde Gydingum og Grickium. Og yfer þa alla slo otta, og Nafn Drottins vors JEsu var haaleitlega lofad.

18. Þar komu og marger, sem truader voru ordner, vidurkienndu og kunngiordu, hvad þeir hefdu (a) aunned.

(a) (Aunned) med Predikunenne, Lærdome, og odrum Evangelij Averke.

19. Og marger af þeim sem Forneskiu Lister hofdu framed, baaru Bækurnar adframm, og brenndu þær opinnberlega, og ad samannreiknudu þeirra verde, fundu þeir þess Fioqr (b) fimtijge þusund Silfurpeninga.

(b) (Fimmtijge) Þad er meir enn halft siotta Þusund Gyllene, einn Peningur kostar fimm Danska Skilldinga.

20. So obluglega ox Ord Drottens og fieck frammgang.

21. Nu

21. Nu sem þetta var utgiort, sette Paall sier j Anda, ad ferdast um Macedoniam og Achaiam, og ad ferdast til Jerusalem, og sagde, epter þad er eg hefe verid þar, biriar mier ad sia Rom.

22. Og hann sende tvo af þeim er honum þionudu, Timotheum og Erastum, til Macedoniam, enn hann tafde sialfur um stundarsaker j Asia.

III. 23. Enn j þann Tijma hofst eige lijtill uppbloastur utaf þessum Veige.

24. Þviad nockur Gullsmidur, sa ed Demetrius var ad nafne, hvor ed giorde Dianæ Silfur Mustere, og þad giorde þeim Embættismonnum eige lijtenn oabata.

25. Hann samannkallade þa, sem þess-hoattar Verkmenn voru, og sagde, goder Menn, þier vitid ad vier hofum mikenn Groda af þessu Verklage.

26. Og þier siaed og heyred, ei alleinasta j Epheso, helldur og nærsta um alla Asiam, þad þesse Paall umhverfer miklu Folke, teliande um fyrer þvi, og seiger, ad þar sieu ongver Gudder, sem med Hondum verda giorder.

27. Enn þetta vill eige einasta giora vort Handverk oduganlegt, helldur mun Mustere hinnar miklu Gydiu Dianu einskes verda virdt, þar til mun hennar Tign ad ongvu verda, hvorre þo oll Asia og Heimskringlann veiter GUdlega Þionustu.

28. Sem þeir heyrdu þad, fylltust þeir reide, æptu upp, og sogdu, Diana þeirra j Epheso er mikel.

29. Og oll Borgenn fylltest af hoareyste, og þeir giordu med einu Hugarfare oahlaup til Torgsins, gripu þa Gajum og Aristarchum af Macedonia, Lagsmenn Paals.

30. Paall villde ganga þa jnn ad Folkenu, enn Læresveinarner leyfdu honum þad eige.

31. Og nockrer Yfermenn ur Asia, þeir ed Paals goder Viner voru, sendu til hans, og boadu hann ad hann giæte sig ei framm a Torged.

32. Sumer kolludu so, enn adrer odruvijs, þviad Alþydann var vill ordenn, og flester vissu ei af hvoriu efne þeir voru tilsamans komner.

33. Enn sumer af Folkenu drogu framm Alexandrum þeim er Gydingar frammyttu, enn Alexander bendte Hendenne sier til hliods, villiande forsvara sig fyrer Folkenu.

34. Og er þeir formerktu, þad hann var Gydingur, hofst upp ein Rodd af ollum, og þeir hroopudu nær tvær Stunder, Diana þeirra j Epheso er mikel.

35. Og sem Kantzelerenn fieck stodvad Folked, sagde hann, þier Menn j Epheso, hvor er sa manna ed ei veit, þad Borgenn Ephesus veite forsorgan hinne miklu Gydiu Dianu, og þvi Himneska Bijlæte.

36. Nu, med þvi ad þetta er omotmælannlegt, þa biriar ydur Spokum ad vera, og eckert af broadræde ad giora.

37. Þier hafed nu þessa Menn hingad dreiged, sem hvorke eru Ræningiar Kyrkna, nie Hoadsmenn ydar Gydiu.

38. Enn hafe Demetrius, og þeir sem j Enbætte med honum eru, kiærumoal vid nockurn, þa gioreft þar Domur um, og þar eru Landstiornarar, loated þa aklaga hvorn annann innbyrdis.

39. Enn ef þier leitid nockud epter um adra hlute, þa loated þad frammkvæmast a einum skickanlegum Samfunde.

40. Þvi vier stondum j hoaska, ad vier meigum klagader verda fyrer þessa Dags Upphlaup, med þvi þo, ad eingenn Sok er til slijks Upphlaups, med hvorre vier kunnum oss ad affaka. Og er hann hafde þetta sagt, liet hann Almoogann burt fara.

## XX. Capitule.

Paulus kemur (I) til Troas, og (II) til Miletus, hvar hann lætur (III) kalla hina Ellstu af þeim j Epheso til sin.

I. Enn epter þad, er þessu Upphlaupe linnte, kallade Paall Læresveinana til sijn, og blessade þa, og gieck burt þadann, ad hann ferdadest j Macedoniam.

2. Enn

2. Enn þa hann hafde ferdast j giegnum þad sama Land, og þeim Aminning veitt med mørgum Ordum, kom hann til Gricklands.

3. Og tafde þar þria Manude. Enn þa hønum voru umsæt giord af Gydingum, er hann villde ferdast j Syriam, vard hann þess Sinnis, ad snua aptur um Macedoniam.

4. Og þesser foru med hønum, allt til Asiam, Sopater af Berrhoen, enn af Thessalonica, Aristarchus og Secundus, og Gajus af Derben, og Timotheus, Enn af Asia, Tychicus, og Trophimus.

5. Þesser geingu undann, og bidu vor j Troade.

6. Enn vier sigldum epter Paskana fra Philippis, allt til hins fimmta dags, og komum til þeirra j Troada, og dvøldum þar j sió daga.

7. Enn eirn first a dag Vikn, þa Læresveinarner voru til samans komner, Braud ad briota, predikade Poall fyrer þeim, þvi annars dags villde hann ferdast, og teygde Ræduna allt til midrar Nætur.

8. Og j þeim Loptsal voru mørg Lios, sem þeir voru samannkomner.

9. Og nockurt Ungmenne Eutychus ad nafne, sat j Vindaugana, og fiell j diupann svefn, þa Poall rædde so leinge, og vard af Svefne nidur dreigenn, og hrapade ofan ur hinum þridia Loptsal, og var daudur upptekenn.

10. Enn er Poall gieck ofann, lagde hann sig framm yfer hann, og hiellt um hann, og sagde, Giored ongvann hávada, þviad hans Ønd er med hønum.

11. Hann gieck þa upp, braut Braudid, og bergde, og talade margt vid þa, allt til þess Dagur rann, og so ferdadest hann.

12. Enn þeir fooktu Sveinenn lifande, og þeir hugsvøludust vid þad eige allijtid.

II. 13. Og vier foorum a skipe undann, og foorum til Asson, þar villdum vier hafa teked inn Poal, til vor, þvi hann hafde so oasett, þad hann villde sialfur fotgangande fara.

14. Enn sem hann kom til Asson tokum vær hann til vor, og komum til Mitylenen.

15. Þadann sigldum vier, og komum annars dags giegnt Chion, Og deigenum epter tokum vær Høfn vid Samon, og dvøldum j Trogilion, Og nærsta dagenn epter komum vær til Mileto.

16. Þviad Poall hafde aalycktad ad sigla framm hia Epheso, so ad hann hefde ongva dvøl j Asia, af þvi hann flytte sier, ad hann villde vera j Jerusalem a Hvijtasunnu dag, ef hønum være þad mogulegt.

III. 17. J fra Mileto sende hann til Ephesum, og liet kalla a hina ellstu af Safnadenum.

18. Og sem þeir komu til hans, sagde hann til þeirra, Þier vitid ad j fra þeim first a deige er eg kom j Asiam, hvørsu eg hefe um alla tijma hia ydur verid.

19. Og DRottne þionad, med øllu Lijtelæte, og med miklu Taarafalle og Freistingum, hvøriar mier hafa hlótnast af Gydingum er stundudu epter minne Fordiorfun.

20. Og hvørnenn eg leynde þvi ongvu, sem ydur var nytsamlegt, so eg hafe þad eige kunngiort ydur og kiennt ydur opinnberlega, og einslega.

21. Og hefe vitnad bæde Gydingum og Grickium, Jdran til Guds, og Truna a DRottenn vorn JEsum.

22. Og nu siaed, Eg sem er bundenn j Anda, ad ferdast til Jerusalem, veit eige hvad þar mun yfer mig koma.

23. Nema þad er Heilagur Ande vitnar um allar Borger, seigiande, Ad Fiotur og Harmkvæle munu mijn bijda þar.

24. Enn eg gief þvi ongvu vakt, Eg helld og eige sialfur mitt Lijf dyrmætt, so ad eg fullkomne mitt hlaup med fagnade, og þad Embætte sem eg hefe medteked af Herranum JEsu, ad vitna Evangelium um Guds Naad.

25. Og nu siaed, ad nu veit eg, ad þier munud ei sia mitt Andlit framarmeir, aller,

a medal hvørra eg hefi ferdast, og predikad Guds Rijke.

26. Fyrer þvi vitna eg fyrer ydur a þessum deige, þad eg em hreinn af allra Blode.

27. Þviad eg hefe eckert dulid fyrer ydur, þad eg hafe eige kunngiort ydur allt Guds Raad.

28. Af þvi hafid gaat a sialfum ydur, og a allre Hiordenne, medal hvørra Heilagur Ande sette ydur til Biskupa, ad fæda Søfnud Guds, hvørn hann hefur utvegad med sijnu Eigenn Blode.

29. Þviad þad veit eg, ad epter minn afgang, munu jnn ganga a medal ydar Olmer Vargar, þeir ed ei munu þirma Hiordenne.

30. Og af ydur sialfum munu Menn uppriisa, er tala rangar Kienningar, ad þeir teyge Læresveinana epter sier.

31. Fyrer þvi vaked þier, og minnest a þad, ad eg hefe j þriu aar, Nott og dag, ei aflaated, ad aaminna eirn og sierhvørn, med græatande Taarum.

32. Og nu, kiærer Brædur! bifala eg ydur Gude, og Orde hans Naadar, hvør maattugur er upp ad byggia ydur, og Arftoku ad giefa a medal allra þeirra sem Helgader verda.

33. Eige gyrntest eg nockurs ydars Silfur, Gull edur Klædnad.

34. Þviad þier vited sialfer, ad þessar Hendur hafa mier unnid til minnar Naudþurftar, og þeirra sem med mier voru.

35. Allt synda eg ydur, ad so byriade Monnum ad erfida, og þa veiku ad annast, og minnast Orda DRottens JEsu, þar hann sagde, Sælla er ad giefa enn ad þiggia.

36. Og er hann hafde þetta sagt, fiell hann a Knie, og bad aasamt þeim øllum.

37. Þa giordest Græatur mikell a medal þeirra allra, og løgdu Hendur um Hals Paale og kysstu hann.

38. Syrgiande mest af þvi Orde er hann sagde, ad þeir munde ei sia hans Andlit meir. Og þeir filgdu honum til Skips.

# XXI. Capitule.

(I) Paulus kemur til Cæsarea; (II) Madur nockur spaaer hvad fyrer Paulo læge; (III) Paulus er Fangadur i Jerusalem.

I. Sem þad var skied, ad vier snerum oss fra þeim, og forum burt, komum vier beinleides til Co, og annars dags til Rhodum, og þadann til Patara.

2. Og þa vier fundum eitt Skip þad fara aatte til Phenicen, stigum vier þar a og forum a burt.

3. Enn sem vier feingum ad sia Cyprum, lietum vier hana til vinstre Handar, og sigldum j Syriam, og komum ad Tyro, þvi þar aatte Skipid ad leggia upp Farmenn.

4. Og sem vier fundum Læresveinana, vorum vær þar j sio daga, hvørier Paale søgdu fyrer andagipt, þad hann skyllde ei fara upp til Jerusalem.

5. Og þad skiede, sem þeir dagar voru lidner, foorum vær wt og ferdudunst. Og þeir aller med Hwsfreyum sijnum og Bornum, filgdu oss a veg, ut fyrer Borgena, Og vier fiellum a Knie j Fiorunne, og baadunst fyrer.

6. Og er vær høfdum kvadt hvor annann, stigum vier aa Skip, enn hiner sneru aptur til sinna Heimkynna.

7. Og vier fullkomnudum Siglingina fra Tyro, og komum til Ptolemaida, og heilsudum Brædrunum, og vorum þar eirn dag hia þeim.

8. Enn annars dags forum vær j burt, vier sem med Paale vorum, og komum til Cesaream, og geingum jnn j hws Philippi Gudspiallara, hvør ed var eirn af þeim Sio, og dvøldum hia honum.

9. Hann aatte fiorar Dætur þær Meyar voru, og spaadu.

II. 10. Og sem vier dvøldustum þar fleyre daga, ferdadest Spamadur sa af Judea, er Agabus var ad nafne.

11. Og kom til vor: hann tok Linda Paals, og

og batt Hendur sijnar og Fætur, og sagde, Þetta seiger Heilagur Ande, Þann Mann, hvørs ed þesse Linde er, munu Gydingar so binda j Jerusalem, og selia hann j Heidinna manna Hendur.

12. Enn sem vier heyrdum þad, bœdum vier hann, og þeir adrer sem j þeim stad voru, þad hann fære eige upp til Jerusalem.

13. Enn Pꝏll svarade, Hvad giored þier, er þier grœted og hrelled mitt Hiarta? Þvi eg em eige alleinasta reidubuenn ad lꝏta mig binda, helldur ad deya j Jerusalem, fyrer saker Nafns DRottens JEsu.

14. Og med þvi vier gꝏtum eige taled um fyrer honum, þognudum vær og søgdum, Verde Vilie DRottins.

III. 15. Og epter þa daga (a) løgdum vær af vorn farangur, og forum upp til Jerusalem.

(a) (Løgdum af) Lietum vorn Farangur vera þar epter, so vier kynnum ad vera þess liettare til ad ganga.

16. Þangad komu og nockrer Læresveinar med oss, af Cesarea, hafande þann nockurn gamlann Læresvein med sier af Cypern, sem hiet Mnason, hia hvørium vier herbergia skylldum.

17. Og þa vier nu komum til Jerusalem, toku Brædurner feigennsamlega vid oss.

18. Enn annars dags gieck Pꝏll jnn med oss til Jacobum, og aller Olldungar komu þar.

19. Og sem hann hafde heilsad þeim, skijrde hann þeim fra, hvad epter annad, þad Gud hafde giort a medal Heidinna Þioda fyrer hans Embætte.

20. Þa þeir høfdu þad heyrt, vegsømudu þeir DRottenn, og søgdu til hans, Broder, þu sier hvad morg Þusund Gydinga ad þad eru sem Truader hafa orded, enn þeir aller eru Vandlætingarmenn Løgmꝏlsins.

21. Og þeir hafa heyrt sagt epter þier, ad þu kienner þeim Gydingum øllum, sem medal Heidinna Þioda eru, ad snua fra Moyse, seigiande, þeir skylldu eige umskiera Sonu sijna, og eige epter þeirre Sidveniu ganga.

22. Hvad er nu þa? Almugenn hlytur olldungis til samans ad koma, þviad þeir munu fa ad heyra, þad þu ert komenn.

23. Þvi gior nu þad, hvad vær seigium þier. Vier høfum hier fiora Menn, hvørier Heit hafa sest yfer sier.

24. Þa somu tak ad þier, og hreinsa þig med þeim, og voga kostnad uppa þa, ad þeir rake sitt Høfud, so ad aller vite, ad þad, hvad þeir hafa heyrt um þig, er eckert, helldur þad þu ganger sialfur og vardveiter Løgmaled.

25. Þvi þeim sem truader høfdu giorst af Heidingium, skrifudum vier, og urskurdudum, ad þeir skylldu eckert þesskonar hallda, nema þad þeir vorudu sig vid Skurgoda Offre, og Blode, og fra køfnudu, og fra Frillulifnade.

26. Þa tok Pꝏll þa menn ad sier, og liet annars dags hreinsa sig medur þeim, og gieck jnn j Musterid, og tiade sig ad hallda uppfylling hreinsunar daganna, þar til Offrenu var offrad fyrer hvørn þeirra.

27. Enn sem þeir sio dagar voru lidner, sꝏu þeir Gydingar ur Asia hann j Musterenu, og æstu upp allann Lydenn, løgdu Hendur a hann.

28. Og kølludu, þier Israels Menn, hialpid til! Þesse er sa madur, sem allstadar kienner øllum Mønnum, j giegn þessu folke og Løgmꝏle, og so j mote þessum Stad. Þar ofan a hefur hann jnnleidt Gricke j Musterid, og saurgad so þennann Heilaga stad.

29. Þviad þeir høfdu sied Trophimum af Epheso, med hønum j Borgenne, þann meintu þeir ad Pꝏll hefde jnnleidt j Musterid.

30. Og øll Borgenn okirrdest, og Adhlaup vard af Folkenu. Og þeir toku Pꝏal høndum, og drou ut af Musterenu, og jafnsnart urdu Dyrnar aptur læstar.

31. Enn sem þeir leitudu vid ad lijflꝏta hann, kom su fregn upp fyrer þann ædsta

Hofudsmann Skarans, þad oll Jerusalem være uppvægd.

32. Hann tok strax Strijdsmenn og Hundradshofdingia til sijn, og hliop a millt þeirra, Enn sem þeir sau Hofudsmannenn, og Strijdsfolkid, geafu þeir upp ad beria a Poale.

33. Og þa Hofudsmadurinn kom þar nærre, þa tok hann Paulum, og baud ad binda hann tveimur Vidium, og spurde ad, hvor hann være, og hvad hann hefde giort.

34. Enn sitt kallade hvor af Folkenu. Og med þvi hann fieck eckert vijst ad vita fyrer Hoareystis saker, baud hann ad leida hann j Legureun.

35. Og sem hann uppkom ad troppunum, hlutu Strijdsmennernar ad bera hann fyrer adsug folksins.

36. Þvi ad mikill folks fiolde filgde epter og kolludu, Burt med þennann.

37. Og sem Poall var jnnleiddur j Legurenn, sagde hann til Hofudsmannsins, Leyfist mier ecke ad tala vid þig? Enn hann sagde, Kanntu Grisku?

38. Ertu eige sa hinn Egyptske madur, sem fyrer þessum dogum Stiriolld uppvakter? og færder ut a Eydemork fiorar þusunder Mordingia?

39. Enn Poall sagde, Eg er madur Gydinga kins af Tarsen, einn Borgare utaf nafnfrægre Borg, j Cilicia. Eg bid þig, lofa mier ad tala til Folksins.

40. Og er hann lofade honum, stie Poall uppa troppurnar, og bandade Hendenne til hliods a medal folksins, og er mikel Þogn giordest, talade hann til þeirra a Ebreska Tungu, og sagde.

## XXII. Capitule.

Paulus (I) talar til Folksins, er (II) Upolmast til Reide.

I. Þier menn, goder Brædur og Fedur, heyred ad eg forsvara mig hia ydur.

2. Enn sem þeir heyrdu hann tala Ebreska tungu til þeirra, giordust þeir enn hliodare, og hann sagde.

3. Eg em madur Gydinga kins, fæddur j Tarsen j Cilicia, enn uppalenn j þessare Borg, til fota Gamalielis, og af allre kostgiæfne lærdur j voru Fodurlegu Logmale, Og var Vandlætingarsamur vegna Guds, lijka sem þier erud aller enn j dag.

4. Eg hefe og þennann Veg offokt allt til dauda. Eg batt og j vardhalld sellde, bæde Menn og Konur.

5. So sem Kiennemannahofdingenn og allur Hoopur Ølldunganna ber mier vitne um, af hvorium eg medtok Brief til Brædranna, og for til Damasco, þad eg dræge þa bundna til Jerusalem, sem þar voru, so ad þeir mætte pijnder verda.

6. Enn þad skiede, þa eg þangad for, og tok ad nealgast Damascum, nær midium Deige, ad leiptrade um mig skyndelega Lios miked af Himne.

7. Og eg fiell til Jardar, og heyrde eina Rodd þa er til mijn sagde, Saul, Saul, hvar til offsæker þu mig?

8. Enn eg svarade, HErra hvor ertu? og hann sagde til mijn, eg em JEsus af Nazareth hvorn þu offsæker.

9. Enn þeir sem med mier voru sau Liosid, og urdu felmsfuller, enn Roddena þess sem vid mig talade heyrdu þeir ei.

10. Enn eg sagde, HErra, hvad skal eg giora? Drottenn sagde til mijn, statt upp og gack j Damascum, þar mun þier sagt verda af ollu, hvad þier tilskickad er ad giora.

11. Enn sem eg gat ei sied fyrer Liossins biartleik, vard eg handleiddur af mijnum Forunautum og kom til Damascum.

12. Enn þar var Gudhræddur mann epter Logmalenu, Ananias, sem godann Ordstyr hafde af ollum Gydingum, er þar biuggu.

13. Hann kom til mijn, stood hia mier og sagde, Saul Broder, lijt upp; og eg leit til hans a sumre Stundu.

14. Hann

14. Hann sagde þa, GUD Fedra vorra hefur skickad þig til, ad þu skyllder þeckia hans Vilia, og ad sia þann Riettlata, og heyra Rødd af hans Munne.

15. Þviad þu munt hans Vottur verda til allra Manna, þeirra hluta sem þu hefur sied og heyrt.

16. Og hvad tefur þig nu? Rijs upp og lꜵt skijra þig, og af-þvo þijnar Synder, og akalla þu Nafn Drottens.

17. Þad skiede og, þa eg kom aptur til Jerusalem, er eg var a Bæn j Musterenu, ad eg vard numenn fra mier, og eg sa hann.

18. Pa sagde hann til mijn, skunda þig, og far burt af Jerusalem, þviad ei munu þeir medtaka þinn Vitnesburd um mig.

19. Enn eg sagde, Drottenn, þeir vita sialfer, þad eg sette j Mirkvastofu, og hwdstrykte þa allstadar j Samkundu-Hwsum, sem a þig trudu.

20. Og þa er Blod Stephans Vottar þijns uthelltist, stod eg þar hia og hafde þocknan a hans Dauda, og eg geymde þeirra Fot sem hann jhelslogu.

21. Og hann sagde til mijn, Far af Stad, þviad eg vil senda þig langt j burt a medal Heidinna Pioda.

II. 22. Enn þeir heyrdu honum allt ad þvi Orde, þa hofdu þeir upp sijnar Radder og sogdu, burt med þennann af Jordu, þviad þad er ei riett, ad hann skule lifa.

23. Enn sem þeir kolludu, og vorpudu af sier sijnum Klædum, og fleygdu molldu j lopt upp.

24. Pa baud Hofudsmadurenn ad hann skyllde leidast jnn j Legurinn, og skipade þeim ad forheyra hann, og hwdstrykia, so hann feinge ad vita, fyrer hvoria sok ad þeir kolludu so yfer honum.

25. Og er hann reirde hann ad med streingium, sagde Poall til Hundradshofdingians er stod nær honum, er þad riett hia ydur ad hwdstrykia Romverskann mann ꜵn Doms og Laga?

26. Og er Hundradshofdingenn heyrde þad, gieck hann til þess ædsta Hofudsmanns og underviisade honum þad, og sagde, sia til hvad þu giører! þesse Madur er Romverskur.

27. Pa kom Yferhofudsmadurenn til hans, og sagde, seig mier, ertu Romverskur? enn hann sagde, Ja.

28. Yferhofudsmadurenn svarade, þennan Borgar-riett hlaut eg ærnu Fie ad kaupa, Poall sagde, Eg em Romverskur fæddur.

29. Jafnskiott geingu þeir fra honum, sem hann skylldu hafa yferheyrt, og Yferhofudsmadurinn ottadest, er hann fornam þad hann var Romverskur, ad hann hafde lꜵtid binda hann.

30. Annann Dagenn epter villde hann greinelegar vita fyrer hvoria sok hann klagadest af Gydingum, og leyste hann ur bondum, og baud Kiennemannahofdingium, og ollu þeirra Raade ad koma, og leidde sijdann Poal framm og skickade hann framm fyrer þa.

# XXIII. Capitule.

Paulus (I) forsvarar sig fyrer þvi andlega Raade j Jerusalem: Enn sijdan (II) lꜵ vid ad hann være deyddur.

I. Enn Poall horfde a Raaded, og sagde, þier Menn, kiærer Brædur, eg hefe af allre godre Samvitsku geingid fyrer GUde, allt til þessa Dags.

2. Enn Ananias Kiennemannahofdinge skipade þeim er hia honum stodu, ad liosta a hans Munn.

3. Pa sagde Poall til hans, GUD mun sla þig þu kalkade Veggur, situr þu og dæmer mig epter Logmalenu, og bijdur ad sla mig j mote Logunum?

4. Enn þeir sem hia stodu, sogdu, Bolvar þu ædsta Kiennemanne GUDs?

5. Poall sagde, eg visse ei, Brædur, ad hann var Kiennemannahofdinge, þviad skrifad er, * ad Hofdingia þijns Lyds skalltu eige Bolva.

* 2 B. Mos. 22, 28.

6. Sem Poall visse ad þar voru af einne ꜵlfu Sadducei, og af annare Pharisei, kallade hann upp fyrer Raadenu, þier Menn, goder

der Brædur, eg em einn Phariseus, og Sonur eins Phariseara, eg verd aakiærdur fyrer Saker Vonar þeirra Daudu og Upprisunnar.

7. Og er hann sagde þetta, giordest sundurþyckia j mille Phariseos og Sadduceos, og Mannfioldenn skilde sig ad.

8. Þviad Sadducei seigia, ad þar sie eingenn Upprisa Frammlidena, ei Eingell nie Ande, enn Pharisei vidurkienna hvortveggia þetta.

9. Enn þa giordest hoavade mikell, og hiner Skriftlærdu af Phariseanna lide, risu upp og stodu j mote, og sogdu, vier finnum eckert vondslegt a þessum Manne, þo ad Ande edur Eingell hafe vid hann talad, þa kunnum vier eige ad strijda j mote GUde.

II. 10. Enn sem þar vard miked Upphlaup, uggade Yferhofudsmannenn, ad þeir mundu sundurslijta Paal, og skipade Strijdsfolkenu ofann ad fara, ad slijta hann burt fra þeim, og leida j Legurinn.

11. Enn annars Dags um Nottena, stod Drottenn hia honum, og sagde, Paall! vertu Hughraustur, þviad lijka sem þu hefur vitnad af mier j Jerusalem, so hlytur þu og so ad vitna af mier j Rom.

12. Enn er Dagur kom samanntoku sig nockrer Gydingar, og Heitstreingdu ad þeir skylldu hvorke eta nie drecka, fyrr enn þeir hefde Paale j hel komed.

13. Enn þeir voru fleyre enn fiorutijger Manna, sem þetta Samtak hofdu giort.

14. Þeir geingu til Kiennemannahofdingianna, og Olldunganna og sogdu, vier hofum hardlega formællt oss, ad bergia einskis, þar til vier hofum Paal af lijfe teked.

15. Þvi undervijsa Yferhofudsmannenum, og Raadenu, þad hann laate leida hann ut a morgun til ydar, lijka sem þier villdud framm veigis yfer-heyra hann, enn vier erum reidubuner ad slaa hann j hel, aadur enn hann kiemur fyrer ydur.

16. Og er Systur-Sonur Paals heyrde þad aaform, kom hann þangad og gieck jnn j Legurinn, og undervijsade þad Paale.

17. Enn Paall kallade til sijn einn af Hundradshofdingiunum, og sagde, leid þu þennann unga Pillt til Yferhofudsmannsins, þviad hann hefur nockud ad seigia honum.

18. Og hann tok hann ad sier, og leidde hann til Yferhofdingians, seigiande, hinn bundne Paall kallade mig til sijn, og bad mig ad hafa þennann unga Pillt til þijn, hann hefde ad seigia þier nockud.

19. Yferhofudsmadurinn tok hann þa j Hond, og veik honum utaf, spurde hann ad, hvad er þad þu hefur ad seigia mier?

20. Enn hann sagde, Gydingar hafa samteked ad bidia þig, þad þu hafer a Morgun Paal fyrer Raaded, so sem þeir vilie framarmeir yfer-heyra hann.

21. Enn tru þu þeim eige, þvi meir enn fiorutiju Manna veita honum umsaat, þeir ed Heitstreingt hafa sier, hvorke ad eta nie drecka, þar til þeir giæte honum j Hel komed, og nu eru þeir reidubuner, bijdande epter þijnu Svare.

22. Þa liet Yferhofdingenn Ungmenned j burt fara fra sier, og baud honum ad hann segde þad ongvum, ad hann hefde opinnberad honum þetta.

23. Og kallade tvo Underhofudsmenn til sijn og sagde, bued til tvohundrud Strijdsmenn, ad þeir fare til Cesaream, og siotijger Riddara, og tvo hundrud Skotmanna, um þridiu Stund Nætur.

24. Og reided til hann Fararskiot, sem þeir kunne ad setia Paal uppa, og færa hann oskaddadann til Felicem Landsstiornara.

25. Og hann skrifadi Brief, þad var so hliodandi.

26. Claudius Lysias heilsar hinum Vollduga Landstiornara Felix.

27. Þennann Mann hofdu Gydingar Hondum teked, og villdu hann jhel hafa slieged, enn eg kom þa ad med Strijdsfolkenu, og sleit hann af þeim, þa er eg formerkte þad hann var Romverskur.

28. Enn þa eg villde vita, fyrer hvoria sok þeir aaklogudu hann, liet eg leida hann framm j þeirra Raad.

29. Enn eg fann þa, ad hann aaklagadest um Spurningar j þeirra Logmaale, enn ongva aakiæru hafde hann, þa dauda være verd, eda Banda.

30. Og þa eg fieck ad vita, ad r^ckrer Gydingar toku vord a honum, sende eg hann strax til þijn, biodande hans aaklogurum, ad hvad þeir hefde j mote honum, þad mættu þeir seigia fyrer þier. Far vel!

31. Enn Strijdsmennerner, epter þvi sem þeim var boded, toku Paal ad sier, og færdu hann j burt um Noott j Antipatriden.

32. Enn annars Dags lietu þeir Riddaralided med honum fara, og sneru aptur til Herbuodanna.

33. Enn sem þeir komu til Cesaream, feingu þeir Landstiornaranum Briefid, og skickudu eirnenn Paal fyrer hann.

34. Enn er Landstiornarenn las Briefid, spurde hann ad, utaf hvoriu Lande hann være? og er hann fornam, þad hann var ur Cilicia, sagde hann.

35. Eg skal forheyra þig, nær þijner aakiærendur koma, og hann baud ad vardveita hann j Domhusi Herodis.

# XXIV. Capitule.

aaklogun gegn Paulo: (II) Hans Afbotun: (III) Predikun fyrer Lands-Stiornaranum Felix.

I. Enn epter fimm Daga, for Ananias Kiennemannahofdinge med Olldungunum ofann, og medur honum Tertullus Mælskumadur, hvorier sig tiadu fyrer Landsdomaranum j giegn Paale.

2. Enn ad Paale fyrer kolludum, tok Tertullus til ad aaklaga hann og sagde.

3. Pad vier lifum j miklum Fride, under þier, og margar Sæmder veitast þessu Folke fyrer þijna frammsyne, aagiætaste Felix, þad medtokum vier jafnan og j hvornstad, med allre Packargiord.

4. Enn ad eg drage þad eige langsamlega fyrer þier, bid eg þig, fyrer þijna Giædsku, ad þu heyrer oss stuttlega.

5. Pennann Mann hofum vier funded skadlegann, þann sundurþycke uppæser medal allra Gydinga um allann Heim, og foringia þins Nadverska Villudoms.

6. Hann hefur og eirnenn vidleitad ad saurga Musterid, hvorn vier gripum, og villdum hafa dæmt hann epter Logum vorum.

7. Enn Lysias kom þar framm, og leidde hann med miklu ofurefle ur vorum Hondum.

8. Biodande hans aaklogurum til þijn ad koma, af hvorium þu maatt, ef sialfur villt epter grenslast, fa alla þa hlute ad skilia, um hvoria vier aaklogum hann.

9. Pa logdu Gydingar til, og sogdu þad so vera.

II. 10. Enn Paall, þa er Landstiornarenn bendte honum ad tala, svarade, med þvi ad eg veit þig nu um morg aar Domara verid hafa þessarar Piodar, vil eg diarflega forsvara mig.

11. Pviad þu maatt vita, ad þad eru eige meir enn tolf Dagar, þad eg kom upp til Jerusalem ad bidiast fyrer.

12. Og eige hafa þeir funded mig tala vid nockurn j Musterenu, edur giora nockurt Upphlaup med Folkenu, ei helldur j Samkunduhusum edur Stodum.

13. Og eige gieta þeir þetta sannad, um hvad þeir aakiæra mig.

14. Enn þad jata eg þier, ad eg þiona epter þeim veige, hvorn þeir kalla Villudom, Gude minna Fedra, so, ad eg true ollu þvi hvad j Logmaalenu skrifad er, og Spamonnunum.

15. Hafande þa Von til Guds, hvorrar þeir sialfer vænta, sem er, ad Upprisa Frammlidinna mune a epter koma, bæde Riettlatra og Ranglatra.

16. Enn j þessu sama, jdka eg sialfann mig jafnann, ad hafa ollu meigenn O-skierta Samvitsku, bæde vid Gud og Menn.

17. Enn morgum aarum þar epter, kom eg, og færde mijnu Folke Olmusu-giafer, og Offur.

18. Par med fundu þeir mig, ad eg liet mig hrein-

hreinsa j Musterenu, eige med havada, nie nockru Upphlaupe.

19. Enn þar voru nockrer Gydingar ur Asia, hvørier hier ættu ad vera fyrer þier, og aaklaga mig, ef þeir hefde nockud mier j mote.

20. Ellegar laat þessa sialfa seigia, hvort þeir hafa nockud rangferdugt á mier funded, a medan eg stend hier fyrer Radenu.

21. Nema alleinasta fyrer þessa eins Ords saker, þa er eg stod þeirra a mille, og kallade, um Upprisu Framlidinna verd eg j Dag af ydur aaklagadur.

22. Og er Felix heyrde þetta, teygde hann fyrer þeim, þviad hann visse grant af þessum Veige, og sagde, nær Lysias Høfudsmadur kiemur ofann, þa vil eg forheyra ydar maalefne.

23. Enn hann skipade Hundradshøfdingianum ad forvara Paal, og laata hann hafa hvijld, og fyrerbioda ei neinum af hans Kunningium, ad þiona hønum, eda til hans ad koma.

III. 24. Nockrum Døgum þar epter, kom Felix medur Husfreyu sinne Drusilla, hvør ed var Gydingakins, þaug kølludu a Paal, og heyrdu af hønum um Truna a Christum.

25. Enn þa Paall talade um Riettlæte og Hreinlijfe, og af Epterkomanda Dome, skielfdest Felix, og ansade, Gack hiedann ad sinne, nær eg hef tomstund til, vil eg þig kalla laata.

26. Enn hann vænte jafnframt, þad hønum munde Peningar giefast af Paale, so ad hann liete hann lausann. Fyrer þvi liet hann optsinnis kalla a hann, og aatte tal vid hann.

27. Enn ad lidnum tveimur Arum kom Portius Festus, j Felix stad, Felix villde þa syna Gydingum velsemd, og liet Paal bundinn epter sig.

## XXV. Capitule.

Paulus er (I) leiddur fyrer Lands Stiornarann Festus, og (II) fyrer Agrippas Konung.

I. Pa Festus var nu j Land komenn, for hann þrem Døgum þar epter af Cesarea, upp til Jerusalem.

2. Pa mætte hønum sa ædste Prestur, og þeir Ypparlegustu medal Gydinga, j mot Paale, bádu hann.

3. Og beiddu um vinaattu j mote hønum, ad hann liete kalla hann til Jerusalem, og toku vard a hønum, þad þeir villdu slaa hann j hel a Veigenum.

4. Pa svarade Festus, ad Paall yrde ad sonnu vardveittur j Cesarea, enn hann munde þo innann Skams fara þangad aptur.

5. Peir sem nu ydar a mille (sagde hann) kunna, laated þa fara lijka ofan og aaklaga þann Mann, ef nockur Skulld finnst med hønum.

6. Enn er hann hafde hia þeim vered meir enn tiu Daga, for hann ofann til Cesaream, og annars Dags epter sette hann sig a Domstolenn, og skipade Paulum framm ad leida.

7. Og sem hann kom, geingu þeir Gydingar kringum hann, er komner voru ofann fra Jerusalem, berande framm margar og þungar sakargipter j giegn Paale, hvoriar þeir gaatu þo eige sannad.

8. Af þvi ad Paall svarade so fyrer sig, Eg hefe eckert broted, hvørke j mot Gydinga Løgum nie Musterenu, og eige helldur vid Keisarann.

9. Festus villde þa syna Gydingum velvilld, svarade Paale og sagde, villtu fara upp til Jerusalem, og dæmast þar af mier um þetta?

10. Enn Paall sagde, eg stend fyrer Keisarans Dome, þar skal eg laata mig dæma, þvi Gydingum hef eg øngva Vansemd giort, so sem þu sialfur vel veitst.

11. Enn hafe eg nockrum Oriett giort, eda dauda forþient, þa mæle eg eige j mote ad deya. Enn ef eckert finnst þeirra Hluta hvar fyrer þeir aakiæra mig, þa ma eingenn mig þeim j Hendur selia, eg skyt mier fyrer Keisarann.

12. Festus radgadest þa um vid Raded, og svarade, fyrer Keisarann hefur þu þier skotid, fyrer Keisarann skalltu og fara.

II. 13. Enn nockrum Døgum þar epter, komu þau Agrippas Kongur, og Bernice, ofann

ofann til Cesarea, ad seigia Festum velkomenn.

14. Og er þaug hofdu þar marga Daga verid, skijrde Festus Kongenum fra Maalefnum Paals, og sagde, nockur Mann er hier j Fiotrum af Felix epterloatenn.

15. Hvors vegna ad Prestahofdingiar og Olldungar Gydinga komu fyrer mig, þa eg var til Jerusalem, og badu, ad eg skyllde loata dæma hann.

16. Hvorium eg svarade, ad þad være eige haattur Romveria, ad nockur Madur være til Dauda selldur, fyrr enn sa sem klagadest, hefde sijna aaklagendur nalæga, og fae þar med tom til ad forsvara sig fyrer aaklögunenne.

17. Enn þa þeir komu hier til samans, dvalde eg ecke leinge vid, og hiellt Dom annars Dags, og skipade framm ad leida þann Mann.

18. A hvorn, þa aaklagararner komu til, baaru þeir ongva þa sok sem eg ætlade.

19. Helldur hofdu þeir nockrar Spurningar j mote honum, um þeirra Hiatru, og af nockrum (a) frammlidnum JEsu, hvorn Paall vottar lifa.

(a) Hvad Spottlega og Drambsamlega talar sa stollte Heidinge um Christum og vora Tru.

20. Enn er eg understod ei þess-haattar Spurningar, sagde eg, hvort hann villde fara upp til Jerusalem, og dæmast þar um þetta.

21. Enn þa Paall appellerade, ad hann geymdest til Keisarans Rannsaks, baud eg ad vardvelta hann, þar til eg sende hann Keisaranum.

22. Pa sagde Agrippas til Festum, eg villde og fa ad heyra þennann Mann, hann sagde, a Morgun skalltu hann heyra.

23. Enn annars Dags, þa Agrippa og Bernice, komu med miklu Skrante, og geingu jnn j Raadhused, med Yferhofdinglum, og Edstu monnum Borgarennar, og er Festus skipade, var Paall sottur.

24. Festus sagde, kiære Agrippa Kongur, og þier aller Menn, sem hier erud med oss, þar siaed þier þann Mann, af hvorium allar Gydinga sveiter hafa til mijn sagt, bæde til Jerusalem, og so hier, og hropa þad hann skule ei leingur lifa.

25. Enn þa eg fornam, þad hann hafde eckert giort þad dauda være verdt, med þvi, ad hann sialfur skaut sier under Keisarann, þa hefe eg einsett mier ad senda hann þaugad.

26. Um hvorn eg hefe eckert sannarlegt, þad eg meige Herranum til skrifa, fyrer þvi hefe eg loatid og leida hann hier framm fyrer ydur, og eirna mest fyrer þig, Agrippa Konungur, so ad eg epter umlidna Forheyrslu, mætte þad fa, hvad eg skrifa skyllde.

27. Þvi þad synest mier oskickanlegt ad senda nockurn Bandingia, og ecke loata vita, hvoriar Saker til hans eru kiærdar.

## XXVI. Capitule.

Paulus (I) talar fyrer Agrippas Konunge, og (II) er Affakadur af honum samt odrum.

I. Enn Agrippas sagde til Paals, Þier leyfest sialfum ad tala fyrer þig, Pa forsvarade Paall sig, og riette ut Hondena.

2. Þad er mier nærsta kiært, Agrippa Kongur, ad eg nae j dag, ad forsvara mig fyrer þier, af þvi ollu sem eg aaklagast af Gydingum.

3. Mest af þvi, þad þu veitst allar Veniur og Spurningar Gydinga, fyrer þvi bid eg þig, ad þu villder þolinmodlega heyra mig.

4. Ad sonnu mitt lijferne j fra Barnæsku, hvort verid hefur þegar j fra upphafe hia þessare Piod j Jerusalem, vita aller Gydingar, þeir mig þecktu fordum, ef þeir villdu þar vitne umbera.

5. Þviad eg hefe vered eirn Phariseare, hvor ad er hin strangasta Secta j vors Guds þienustu.

6. Nu stend eg og verd aaklagadur um þa von Fyrerheitesins, þess skied er af Gude, til Fedra vorra.

7. Til hvors vorar Tolf Kinkvijsler vona sier ad koma med stodugre Guds þionkan,

Naatt sem Dag, Vegna þeirrar vonar, Agrippa Kongur, þa aaklagast eg af Gydingum.

8. Fyrer hvad dæmest þad otruanlegt hia ydur, ad Gud uppveke þa Framlidnu?

9. Eg meinte ad sonnu, med sialfum mier, þad eg mætte miked j mote giora Nafne JEsu af Nazareth.

10. Hvad eg og giorde til Jerusalem, þar eg luckte margann Heilagann j Mirkvastofu. Ad feingnu Vallde af Kiennamannahofdingium, Og þa þeir voru aftekner, hialpade eg til ad seigia upp Domenn.

11. Og um oll Samkunduhus, kvalde eg þa optlega, og þvingade þa til Gudlastanar, og eg var, meir enn hofe giegnde, odur a mote þeim, og veitte þeim offsokner j framande Borger.

12. Fyrer hvorra hluta saker, þann tijd eg for til Damasco, med makt og Bodskap fyrer Prestahofdingiunum.

13. Þad a midium deige, saa eg, kiære Kongur! a veigenum Lios af Himne, Solarskine biartara, þad um mig Leiptrade, og um þa er med mier foru.

14. Enn þa vier fiellum aller til Jardar, heyrde eg rodd til min seigia, Su er a Ebresku sagde, Saul, Saul, Hvad offsæker þu mig? Hardt er þier ad spyrna j mot Broddenum.

15. Enn eg sagde, Hver ertu, HErra? Hann sagde, Eg em JEsus, hvorn þu offsæker.

16. Enn rijs upp og statt a þijnar Fætur, þvi ad til þess birtest eg þier, þad eg skickade þig til Þienara, og Vitnismanns þeirra hluta, hvoria þu saast, og þeirra sem eg skal þier enn birta.

17. Og eg vil frelsa þig fra Folkenu, og fra Heidingium, a medal hvorra er eg mun þig utsenda.

18. Þeirra Augum upp ad lúka, so ad þeir snue sier fra Mirkrum til Liossins, og fra Andskotans Vallde til Guds, so ad þeir medtake Syndanna Fyrergiefning, og Arftoku med þeim, er Helgader verda, fyrer þa Tru sem a mig er.

19. Fyrer þvi var eg ecke, Kongur Agrippa, Himneskre Opinberan ohlijdenn, Helldur bodade eg.

20. First þeim j Damasco og Jerusalem, og um Landamerke alls Gydingalands, og fyrer Heidingium, ad þeir giorde Yferbot, og snere sier til Guds, og giorde verdug Verk Idranarennar.

21. Og fyrer þa sok gripu Gydingar mig j Musterenu, og villdu hafa lijflated mig.

22. Enn fyrer Guds fullting, heppnadest mier, þad eg stend allt til þessa dags, vitnande bæde fyrer smaam og storum, og seigiande eckert annad, enn þad er Spamennerner og Moyses hafa fyrersagt, ad skie skyllde.

23. Þad Christus skyllde lijda, og firstur vera ut af Upprisu Framlidinna, og sa sem Liosid skylldi Lydnum boda, og so Heidnum þiodum.

24. Enn er hann hafde so forsvarad sig, sagde Festus hærre raust, Galenn ertu ordenn, Paall, su mikla Konst giorer þig galenn.

25. Enn hann sagde, Eige em eg galenn, Þu mektuge Festus, helldur tala eg Sonn og Skinsamleg Ord.

26. Þvi Kongurenn veit þetta vel, hia hvorium eg tala diarflega, þvi eg meina, ad eckert af þessu mune fyrer honum folged vera, af þvi ad þetta er ecke j Hyrningum skied.

27. Truer þu Agrippa Kongur, Spamonnunum? Eg veit ad þu truer.

28. Enn Agrippa sagde til Paals, Lijtid vantar a ad tala um fyrer mier, so eg giorest Christenn.

29. Enn Paall sagde, Þess æske eg af Gude, þad brestur j miklu edur litlu, eige aleinasta þu, helldur og eirnenn aller þeir sem mig heyra j dag, være þvilijker, hvilijkur ad eg em, undanteknum þessum Bondum.

II. 30. Og þa hann hafde þetta talad, stod Kongurenn upp, og Landstiornarenn, og Bernice, og þeir ed hia þeim saatu.

31. Enn sem þeir viku sier affsijdis, toludu þeir sijn a mille og sogdu, Þesse Madur hefur eckert

eckert giort þad dauda ſie edur Banda verdt. Þa ſagde Agrippas til Feſtum.

32. Þeſſe Madur hefde moatt laus vera loatenn, ef hann hefde ecke ſkotid ſier fyrer Keiſarann.

## XXVII. Capitule.

*Paulus aaſamt odrum (I) verdur ſtaddur i Sioofarhaaſka, og (II) lijdur Skip-Brot.*

I. Sem þad nu var aalycktad, ad vier ſkylldum ſigla þadann j Valland, feingu þeir Poal og nockra adra Bandingia, þeim Hundradshofdingia ut af Keiſarans Hird, ſem Julius var ad Nafne.

2. Og er vier ſtigum a eitt Adramitiſkt Skip, og ſkylldum ſigla fyrer Aſiam, þa lietum vier fra Lande. Og Ariſtarchus ur Macedonia, af Theſſalonicen, var med oſs.

3. Og vier komum annars Dags j Sidon, og Julius birte ſig blijdann vid Poal, og lofade honum ad ganga til ſinna godra Vina, ad ſijſla ſinna Naudþurfta.

4. Þadann forum vier, og ſigldum under Cypern, fyrer þvi, ad Vindarner voru oſs ondverder.

5. Og vier ſigldum yfer þad Haf, framan fyrer Cilicia, og Pamphilia, og komum til Myra j Lycia.

6. Þar fann Hundradshofdingenn eitt Skip ur Alexandria, þad ſigla aatte j Valland, a þad ſette hann oſs.

7. Enn er ſeint veitte ad ſigla, ſo ad vier komuſtum varla um marga Daga giegnt Gnidum (þvi Vindurenn var j mote oſs) ſigldum vier framm med Creta, hia Borgenne Salmone.

8. Og gaatum þo varla beitt framm hia, þa komum vier j nockud þad Ploats, ſem kalladeſt Sæli-hofn, þar laa og Borgenn Laſæa, j grend vid.

9. Enn er mikler Tijmar voru umlidner, med þvi ad nu var þo hættu-meire Siglingenn, ad Faſtann var þa umlidenn, fyrer þad roadlagde Poall þeim, og ſagde til þeirra.

10. Goder Menn, eg ſie ad vor Sigling mun verda bæde mæduſom og ſkada-mikel, ei alleinaſta fyrer Farmenn og Skiped, helldur og eirnenn uppa vort Lijf.

11. Enn Hundradshofdingenn trude meir Skipherranum, og Stijremannenum, enn þvi er Poall ſagde.

12. Og med þvi Hofnenn var ei hæfeleg til Vetrarlegu, þotte fleſtum roadlegt ad fara burt þadann, ef þeir mættu komaſt þadann til Phœnica, til ad liggia Vetrarlegu, hvad ad er ein Hofn hia Creta a mote Sudveſtann og Nordveſtann Vinde.

13. Enn þa ſunnann Vindur tok ad guſta, og þeir meintu ad þeir hiellde nu ſijnum Aſetninge, þa lyptu þeir ſier fra Aſſon og hielldu fyrer framan Cretam.

14. Enn eige langt þar epter, hofſt upp, a mote þeirra aaſetninge, eirn Stormur, þann Menn kalla Nordauſtann.

15. Og er Skiped laa under aafollum, og gat eige lypt ſier upp mote Vedrenu, lietum vier draga fyrer Vind, og vonkudum ſo.

16. Enn vier komum vid Ey nockra, þa Clauda hiet, þar goatum vier varla einn Boatenn uppdreiged.

17. Enn vier lyptum honum upp, og hialpuduſt ad, og bundum hann vid Skiped, þviad vier ottuduſtum, ad þad munde bera uppa (a) Syrtes, og lietum kierid nidur og forum ſo.

(a) (Syrtes) eru Hylier, Þar ſem mikell Sandur var framan fyrer Africa.

18. Og er vier hofdum ſterkann Storm lided, koſtudu þeir annars Dags ut.

19. Og a þridia Deige ſnorudum vier ut med vorum Hendum ollum Reidſkapnum þeim ſem var j Skipenu.

20. Og j marga Daga ſkein hverke Sol nie Stiornur, enn Stormvedroatta ei lijtel var oſs a mote, þa var oſs oll Lijfsvon horfinn.

21. Og er Menn hofdu leinge einſkis neytt, þa gieck Poall j midid til þeirra, og ſagde, goder Menn, þier ſkylldud hafa hlijdt mier, og

leyst ei ut af Creta, so hefdum vier ei lided þessa Kvol og Skada.

22. Og nu ræd eg ydur, ad þier sieud med godu Giede, þviad einskis manns Fior af oss mun tortijnast, ad frateknu Skipenu.

23. Þvi a þessare Nott stod hia mier Eingell Gllds, þess er eg em, og þeim eg þiona.

24. Og sagde, ottast þu ei Pœall, þier birjar fyrer Keisarann ad koma, og sia, þad Gllds hefur giefed þier þa alla er med þier sigla.

25. Fyrer þvi, goder Menn, verid Hughrauster, þviad eg true Gllde, ad þad mune so skie sem mier er sagt.

26. Enn til Eyar nockrar hliotum vier ad koma.

27. Enn er hin fiortanda Nottenn var yferkominn, sigldum vier um Midnætte j Adria; Skipmennena grunade þa, ad þeir mundu koma einhvörs stadar til Lands.

28. Og vorpudu Grunnsöcku, og fundu tuttugu fadma Diup, og skamt eitt þadann kostudu þeir söckunne j annad sinn, og fundu fimtoan fadma.

29. Þa hræddust þeir, ad þa munde meiga steyta a Skierium, og fleygdu ur Bakskutnum fiorum Atkierum, og æsktu ad Dagur kiæme.

30. Enn er Skipveriarner leitudu vid ad umflya Skiped, og lietu Boatana a Sioenn sijga, under þeirre hilmingu, ad þeir lietust vilia ur frammskipenu færa ut Atkere.

31. Þa sagde Pœall til Hundradshøfdingians, og Strijdsmannanna, nema ad þesser blijfe kirrer j Skipenu, þa kunned þier eige ad halldast vid Lijfid.

32. Þa hiuggu Strijdsmennerner Boatfestarnar og lietu ofann detta.

33. Og þa er birta tok, ried Pœall þeim öllum ad þeir tæke Fædslur til sijn, og sagde, þad er j Dag fiortoande Dagur, ad þier hafid bidleikad vid, og fastande verid, og a øngvu bergt.

34. Fyrer þvi ræd eg ydur, ad þier taked Fædslur, og næred ydur, þviad ecke eitt Hoar mun af nockurs ydar Hofde falla.

35. Og er hann hafde þetta rædt, tok hann Brauded, giørde Gllde þacker j allra þeirra Augsyn, braut þad, og tok ad eta.

36. Þa urdu þeir aller hughrauster, og toku sier og so Fædslur.

37. Enn vier vorum alls j Skipenu, tvöhundrud sex og siotijger Salna.

38. Og er þeir voru metter, lietu þeir af Skipenu, og kostudu Kornenu j Sioenn.

II. 39. Enn er Dagur var, þecktu þeir eige Landed, enn þeir soau eina Hofn, sem fioru hafde, þangad villdu þeir stijra Skipenu, ef þeir mættu þvi vidkoma.

40. Og er þeir drogu upp Atkierenn, slou þeir sier til Sios, og leystu upp Styred, og settu Roana epter Vedrenu, og leitudu lags ad komast til Lands.

41. Og er vier komum a eitt Ploats, er Sior gieck ad a beadar sijdur, steytte þar Skiped a, so ad frammskipid stod grunn obrœranlega, enn skuturenn lestest sundur af ofurefle Bilgnanna.

42. Enn Strijdsmennerner lögdu þad Road til, ad Bandingiarner være drepner, so ad eingenn þeirra umhlype, þott ut kynne ad sveima.

43. Enn Hundradshøfdingenn villde Pœale eige granda loata, og tealmade þeirra aasetninge, og baud ad þeir sem syndt giætu, skyllde firster fleyta sier utan, og komast undann ad Lande.

44. Enn hiner adrer, sumer a Hlemmunum, enn sumer a Skipbrotunum, og þad skiede so, ad þeir komust aller holpner til Lands.

## XXVIII. Capitule.

(I) Kraptaverk Pauls a Eyunne Melite, og (II) koma hans til Rom.

I. Og er vier komunstum af, þa komunst vier ad raun, ad Eyenn hiet Melite, enn þeir Lyder syndu oss eige litla Vinoattu.

2. Kveiktu Elld, og medtoku oss alla, vegna

vegna Hreggvidris, er yfer oss hafde drifid, og fyrer kulda Saker.

3. Og þa Poall safnade einne hrwgu af Hrijse tilsamans, og lagde a Elldenn, þa skreid Nadra ur hitanum, og hrocktist a Hønd Poale.

4. Enn er Folked saa, ad Kvikinded hieck a Hende hans, sogdu þeir sijn a mille, endelega muni þesse Madur Manndrapare vera, hvorium Hefndenn leyfer ecke ad lifa, þo hann sie ur Siafarhaaskanum leystur.

5. Enn hann hriste Ormenn j Elldenn, og hønum vard eckert mein ad.

6. Pa bidu þeir epter ad hann munde uppþrutna, edur Daudur nidur detta. Og sem þeir hofdu leinge epter þvi beded, og saau eckert vondt a hønum verda, feingu þeir Sinnaskipte, og sogdu hann Gud vera.

7. Enn j þeim somu Takmorkum hafde foringe Eyarennar sinn Bwgard, sa Publius hiet, hvor oss medtok, og veitte oss Herberge, um þria Daga allvingiarnlega.

8. Enn so bar til, þad Fader Publii laa kvalenn j Koldu, og Blodsoott, til hans gieck Poall jnn, og badst fyrer, og lagde Hendur yfer hann, og giorde hann heilbrigdann.

9. Pa þad var skied, komu og hiner adrer a Eyunne þangad, sem Sotter høfdu, og lietu sig lækna.

10. Og þeir veittu oss miklar Virdingar, og er vier sigldum þadann, løgdu þeir til hvad oss var þarffsamlegt.

II. 11. Og epter þria Manude sigldum vier þadann, a þvi Skipe er var ur Alexandria, hvort ad j Eyunne hafde leiged um Veturenn, þad hafde fyrer Merke (a) Tvijbura Teikn.

(a) Tvibura Teikn) þad er ein Stiarna a Himnenum, Heidingiar hielldu þa fyrer Gude, sem skyllde vera Siofarande Mønnum nøduger, og þeir kolludu þa Castor og Pollux.

12. Og er vier komum til Syracusa, vorum vier þar j þria Daga.

13. Og þa vier sigldum umkring, komum vier til Region, og einum Deige þar epter, sem sunnannvindur tok ad blaasa, komum vier annars Dags til Puteolen.

14. Hvar vier fundum Brædurnar, og urdum af þeim bedner, þad vier tefdum þar um sio Daga, og so komum vær j Rom.

15. Og er Brædurner heyrdu þadann af oss, geingu þeir ut j mote oss allt til Appii torgs, og Tretabern, og þa er Poall leit þa, giorde hann Gude þacker, og fieck Traust.

16. Enn þa vier komum til Romam, afhendte Hofudsmadurenn Bandingiana þeim ædsta Hofudsmanne, enn Poale var losad ad vera hvar hønum lijkade, med þeim einum Strijdsmanne sem a hønum tok vakt.

17. Pad skiede þrem Døgum þar epter, ad Poall samankallade þina ædstu Menn af Gydingum: þa þeir voru tilsamans komner, sagde hann til þeirra, þier Menn, goder Brædur, eg hefe eckert j giegn voru Folke giort, nie j mote Fodurlegre Sidveniu, og em þo bundenn Romverskum j Hendur seingenn fra Jerusalem.

18. Hvorier mig villdu hafa lausann laated, þa þeir høfdu mig heyrt, med þvi þeir fundu øngva daudasøk med mier.

19. Enn þa Gydingar mælltu þvi j mote, neyddest eg til ad skiota mier fyrer Keisarann, eige þess vegna, ad eg hefde um nockud ad klaga mitt Folk.

20. Enn fyrer þad tilefne bad eg ydur, ad eg mætte sia ydur, og tala vid ydur, þvi fyrer Saker Vonar Israels em eg med þessum Hleckium umvafdur.

21. Peir sogdu til hans, eingenn Brief høfum vier feinged þinna vegna af Gydingalande, og eingenn Broder er þadann komenn, sa af þier hafde nockud vondt kunngiort, edur til þijn talad.

22. Po fyser oss ad heyra af þier, hvad þu helldur, þvi af þeim Villudom er oss þad vitannlegt, ad hønum verde allstadar j mote mællt.

23. Og sem þeir einkudu hønum Dag til, þa komu marger til hans j hans Herberge, hvorium hann utlagde og vitnade Gudz

 Rijke,

Rijke, og talade um fyrer þeim ut af JEsu, ur Moysis Lögmaale, og Spaamonnunum, j fra Morgne allt til Kvollds.

24. Og nockrer ut af þeim fiellu j Sid med þvi sem hann sagde, enn sumer trudu þvi eige.

25. Og er þeir voru eige samþycker sijn a mille, geingu þeir j burt, þa Paall talade eitt Ord, ad vel hefur Heilagur Ande talad fyrer Esaiam Spaamann, til Fedra vorra.

26. Og sagt, * Far þu til þessa Folks, og seig, med Eyrum munud þier þad heyra og ei skilia, og med Augunum munud þier þad sia og ei formerkia. * Es. 6. 9, 10.

27. Þvi Hiarta Folks þessa er forhardnad, og med Eyrunum heyra þeir þunglega, og sijn Augu hafa þeir samann lukt, so ad þeir siae ecke einusinne med Augunum, og heyre eige med Eyrunum, og skilie med Hiartanu, og snuest, so eg hialpade þeim.

28. Fyrer þvi sie ydur kunnugt, þad Heidingium er sendt þetta GUds Hialpræde, og þeir munu heyra þad.

29. Og er hann talade þetta, geingu Gydingar j burt, og hofdu margar Spurningar sialfer sijn a millum.

30. Enn Paall dvalde um tvo aar j sijnu Leiguhusi, og medtok þa alla er til hans Inngeingu, predikande GUds Rijke, og kiennande ut af Drottne JEsu, med allre Diorfung, og þad fyrerbaud honum eingenn.

Ender a Postulanna Giorningum.

# Formaale yfer S. Paals Pistil til Romveria.

Þesse Pistill er hinn Heilage Paall skrifar til Romveria, er riettur Kiarne og Mergur hins Nya Testamentis, og hid Skiærasta Evangelium, sem vel verdugt være, ad hvør Christenn Maun kynne eige alleinasta ord fyrer ord, fyrer utan, helldur ad hann umgeinge hann hvørs daglegana, so sem annad daglegt Braud Salarennar. Þviad hann kann alldreige of opt edur ofvel lesinn, edur jhugadur ad verda, Og þvi meir sem hann verdur jdkadur, þess kostulegre þyker hann, og fær æ betra smeck. Fyrer þvi vil eg mijna Þionustu þar tilleggia, og tilreida fyrer þennann minn Formaala, eirn inngang þar til, þad fremsta sem Gud hefur mier Naad a giefed, so ad hann verde þess giør underskadenn af ollum, Þviad hingad til hefur hann med dimmre Gloseran og margslungnu hiale nærsta jlla formirkvadur verid, sem þo er j sialfum sier skiært lios, med ollu fullfeingiinn til uppbirtu allra Ritninga.

J firstu hliotum vier ad faa kynning og rietta underskodu þeirra orda, hvad hinn Heilage Paall meinar med þesse ord Lögmaal, Synd, Naad, Tru, Rietlæte, Holld, Ande, og onnur þvijlijk ord, ellegar er þar ei neitt gagn þennann Pistil ad lesa.

(1) Þetta Ord Lögmaal maattu hier ei underskanda epter mannlegum Hætte, ad þad sie sa Lærdomur sem einhvør Verk bodar ad giora, ellegar vid ad sporna, Sem hattur er til Veralldlegra Laga, þa vier med Verkum Lögmaalenu fullnægiu giorum, þott Hiartans Godfyse sie vijst fiarlæg. Enn Gud dæmer epter hiartans grunne, af þvi krefur hans Lögmaal Grunn Hiartans, og lætur sier ei ad utvortis Verkenu fullnægia, Helldur straffar hann miklu framar þaug Verk, so sem hræsne og Lygar, sem skie aan Hiartans grunns. Hvar af aller verda Lygemenn kallader (Psal. 116.) Fyrer þvi, ad eingenn helldur nie halldid gietur, af Hiartans grunne Guds Lögmaal, þviad hvør Madur finnur med sialfum sier vidbiod til hins goda, enn lysting til hins vonda. Hvar Madur er nu eige viljugur til hins goda, þar er og eige helldur hiartans grunnur til Guds Lögmaals, er þar þvi vissulega eckert annad enn Synd, og Menn hafa Reide Guds forþienad, þo ad hid ytra skijne morg god verk, og heidarlegt Lijferne.

Hvad hinu Heilage Paall aalyktar hier j odrum Capitula, ad aller Gydingar sieu Syndabrotsmenn, og seiger, Ad einasta sa sem Lögmaaled giorer, sie riettlaatur fyrer Gude. Hvar med hann vill, ad eingenn uppfylle Lögmaaled med verkunum, helldur seiger hann miklu framar so til þeirra, Þu kienner, ad menn skule ei Hordom drigia, Enn sialfur þu driger þu hoor. Item; hvar uti þu fordæmer einn annann, þar j dæmer þu sialfann þig, med þvi þu giører hid sama, þar þu um dæmer. Sem villde hann seigia, Þu lifer utvortis vel, j Verkum Lögmaalsins, og dæmer adra er ei so lifa, og hvørium Manne kanntu ad kienna, Ognena sier

þu j

Þu j annars Auga, enn Bialkans Þijns Auga sialfs verdur Þu eige var. Þviad Þott Þu halldcr Løgmaled utvortes med Verkunum, af Þvi ad Þu annad hvort hrædest straffed, edur vonar Þier launa, Þa giører Þu Þad Þo alltsaman, aan sialfviliugrar lystingar og kiærleika til Løgmalsins, Helldur neydest Þu og Þvingast Þar til, Villder feingensamlega helldur ødruvijse breyta, ef Løgmaled være eige. Hvadann ad aalyktast, Þad Þu hater Løgmaled af grunne Þijns Hiarta. Hvad hefur Þad Þa ad Þyda, Þad Þu kienner ødrum, ad Þeir stele eige; med Þvi Þu ert Þo sialfur j Hiartanu Þiofur, og augliosleg a giarnann værer, ef Þu Þyrder? Þo opinber Verk verde eige leinge epter, hia Þvilijkum Hræsnurum. So kienner Þu ødrum, enn ecke sialfum Þier, Og Þu veitst ecke sialfur hvad Þu kienner, hefur enn nu og alldrei Løgmaled riettelega underftaded. Ja med slijku eykur nu Løgmalid Syndena, so sem hann seiger hier j fimmta Capitula, Þviad madurinn verdur ecke utan Þeis gramare Løgmalenu, ad Þad krefur mikels Þess sem hann eige orkar.

Fyrer Þvi seiger hann j siounda Capitula, Þad Løgmalid sie andlegt, Hvad er Þad? Ef Løgmaled være Likamlegt, Þa yrde Þvi med Verkum fullnægt. Enn first Þad er andlegt, Þa fullnæger Þvi eingenn med neinum verkum, utan Þad utgeingur allt af Hiartans grunne hvad Þu gott giører, Enn slijkt Hiarta fær eingenn giefed, nema alleinasta Guds Heilagur Ande. Hann giører Mannenn Løgmalenu lijkann, so ad hann fær j Hiartanu lysting til Løgmalsins, og giører Þadann j fra ecke neitt fyrer hrædslu og Þvijngan, helldur alla hlute utaf sialfviliugu Hiarta. So er Løgmalid andlegt, hvørt ed vill med slijku andlegu Hiarta elskad og uppfyllt verda, æskiande slijks Anda, Hvar hann er ei j Hiartanu, Þa blifur Þar Synd, olysting og Fiandskapur j mot Løgmalenu, hvørt Þo er sialft Gott, Riettferdugt og Heilagt j sier.

Fyrer Þvi ven Þig a Þesse Maaltæke, Ad Þad er eige eins ad giøra Løgmalsins verk, og Þad, ad uppfylla Løgmaled. Enn Þad eru allt Løgmalsins verk sem Madurinn giører eda giort gietur, epter Løgmalsins skipan, af sijnum frialsum vilia og eiginnlegum kroptum. Enn med Þvi, ad hia, og jafnframt slijkum verkum, er vidbiodur og Kugun j Hiartanu, til Løgmalsins, Þa eru Þvilijk verk øll oduganleg og onyt, Þad meinar S. Paall j hinum Þridia Cap. Þar hann seiger, Ad fyrer Løgmalsins verk verde Eingenn Mann Riettlaatur, fyrer Gude. Þar af sier Þu nu, ad hiner snotru og slægvitru Sophistar draga Menn a taalar, nær Þeir kienna Þad madurenn meige med Verkum underbua sig til Naadarennar: Hvørnenn ma sa underbua sig med godum verkum til Naadarennar, sem eckert gott verk giører aan olystingar, og jllvilia j Hiartanu? Eda hvørsu meiga Þess manns giørder Gude Þocknast, sem skie af einu tregu og olostugu Hiarta?

Enn Þad, ad uppfylla Løgmaled, Þad er ad giøra Þess verk giarnan og viliuglega, og sialfviliuglega, aan Løgmaalsins Þvingunar, vel ad lifa og gudlega, Lijka sem Þar være eckert Løgmal, nie nockurt Straff, Enn slijka frisa kiærleikans lysting, giefur hinn Heilage Andi j mannsins Hiarta, sem hann seiger j Fimmta Capitula, Enn Andenn verdur ecke giefenn nema alleinasta j, med, og fyrer Þa Truna sem er a JEsum Christum, Sem sialfur hann utskyrer j sijnum Formaala. Af Þvi veitest su Trua ei nema alleinasta fyrer Guds Ord, og Evangelium, sem Christum predikar, ad hann sie Guds Sonur og Madur, Daenn, og Uprisinn fyrer vorar saker, so sem hann seiger j hinum iij. iiij. og x. Cap.

Þadan af kiemur og Þad, ad Truann alleinasta Riettlæter oss, og Løgmaled uppfyller, Þviad hun leider til vor Heilagann Anda fyrer JEsu Christi Verdskulldan, enn sa hinn Heilage Ande, giører oss eitt lostugt, og sialfviliugt Hiarta, epter Þvi sem sialft Løgmalid æsker, Og so ganga Þa Godverkenn utaf sialfre Trunne, Þad meinar hann j hinum Þridia Capitula. Sijdan hann hafde vtskufad Løgmalsins verkum, ad Þad syndest sem villde hann Løgmaled ad øngvu giøra, og onyta fyrer Truna, Nei (seiger hann) helldur stadfestum vier Løgmalid, fyrer Truna, Þad er, vier upfyllum Þad med Trunne.

(2) Synd kallast j Skriftenne ei einasta Þaug Ytre Verkenn sem af Lijkamanum skie, helldur allt Þad Natturligt Edle, er hreifer sier, og uppvekur oss til utvortis verkanna, so sem er sialfur hiartans grunnurinn, med øllum Þijnum Krapte og megne, So ad Þetta ord, ad Giøra, Þyder Þad, nær madurenn hrasar og leidest olldungis i Syndena, Þvi Þar skie ecke utvortis Syndarennar verk, utan madurenn giefe sig Þar olldungis til med Lijkama og Salu, Med Þvi ad Heilog Ritning, sierdeilis lijtur jnn til hiartans, og til Þeirrar Rotar og uppsprettu allra Synda, sem er Vantruann, er j Hiartans grunne bygger, Lijka sem Truenn er alleinasta su sem Riettlatann giører Mannenn, Heilagann Anda og lysting veiter til utvortis godra verka, Med sama mote Syndgar ei einasta Vantruann, og tenger holldeb til Synda og utvortis jllra verka, so sem ad Þau Adam og Evu hendte j Paradis, Gen. 3. Cap.

Þadan kiemur og Þad, ad Christur kallar Vantruna alleina Synd. so sem hann seiger Johann. 16. Cap. Þad Heilagur Ande skule straffa Heimenn fyrer Syndarennar skulld, af Þvi Þeir trua eige a mig; Þar fyrer hlytur nu annadhvørt aadur j Hiartanu ad vera, Tru, eda Vantru, so sem einn godur eda jllur Avoxtur, aadur enn god edur vond verk skie, so sem ein riett Root, vøxtr og vesse og meste kraptur allra Synda, hvar fyrer hun

kallast

kallast j Hellagre Ritningu, Hoggorms høfud, og hid gamla Dracons Hofud, hvørt ad Kvinnunnar Sæde sem var JEsus Christus, hlaut j sundur ad meria, epter þvi sem Adam var heitid. Gen. 3.

(3) Naadenn og Giofinn hafa þann adskilnad, ad Naadenn kallast eigennlega Guds Vinaatta, og Elska, hvøria hann hefur til vor med sialfum sier, af hvørre hann hneigest til ad giefa oss Christum, ad ut-hella j oss Heilogum Anda, med sijnum aastgiøfum, sem klarlega birtest j hinum 5. Cap. Þar hann seiger, Naad og Giof j Christo etc. Enn þott ad Giøfenn og sa Ande þroest og vaxe daglega med oss, og vier erum enn eige fullkomner, so ad Synder og vondar gyrnder, eru j oss, þær ed beriast j giegn Andanum, sem hann seiger Rom. 7. Cap. Gal. 5. Og so sem Gen. 3. Cap: Bodad er, þad Ovinskapur skule vera a millum Kvinnunnar Sædis, og Høggormsins Sædis, Naadenn giorer þo so mikid ad, þad vier erum med ollu og fullkomlega Riettlaater, fyrer Gude reiknader, þvi hans Naad skilur sig ecke nie sundur-partar, so sem ad Gaafurnar giøra, helldur medtekur hann oss algiorlega til Naadar fyrer JEsu Christi skulld, vors Medalgangara og Forsvars-Manns, Og fyrer þa skulld, ad Giafernar eru j oss uppbyriadar.

So understendur þu nu þann 7. Cap. Þar hinn heilage Paall aavijtar sig enn fyrer einn Syndugann mann, Og þo seiger hann j hinum aattunda, ad þar sie eckert Fordæmanlegt, a þeim sem ad eru j Christo JEsu, þess vegna, þott ad Gaafann sie, og Andenn j oss, enn ofullkomenn. Þvi fyrer þess Odeydda Holldsins saker, þa erum vier enn Synduger, enn med þvi vier trunum a JEsum Christum, og høfum Andans Upphaf, er Gud oss so vorkunlaatur, og lijknsamur, þad hann vill eige reikna nie dæma slijkar Synder, helldur breyter hann vid oss epter Trunne a Christum, þangad til ad Syndenn verdur deydd.

(4) Truenn er eige Mannleg Meining, og Draumur, so sem sumer meina ad hun sie, og þa þeir sia ad eingenn betran lifnadarens nie god verk epterfilgia, enn kunna þo ad heyra, og margt ad fleipra af Trunne, falla þeir j þann Villudom, og seigia, þad Truann nægest eige, þvi hliotum vier ad giøra verkenn, skulum vier annars fromer og hialpleger verda: Enn þessu velldur, ad nær þeir heyra Guds Evangelium, þa falla þeir strax þar til og giøra sier upp utaf eigennlegum formætte, þann þanka j Hiartanu, sem seiger, Eg true; hallda þad so fyrer eina rietta Tru; Enn lijka so sem þad er ein mannleg diktan og þanke, þann er Hiartans grunn kannar alldrei, Þvi orkar hann og einskis, þar filger og eingenn Bot nie Betran epter.

Enn ein Riett Trua er Gudlegt verk j oss, su er umsnyr oss, og ad nyu Endurfæder af Gude (Johannis 1.) og deyder þann forna Adam, giørande oss algiørlegana ad ødrum Mønnum ut af riettu Hiarta, Sinne og Sidferde, og ollum formætte, færande med sier Heilagann Anda. O, Hvad fyrer einn Lifande, Kroptugann, Megtugann, Kostgiæfenn hlut, ad Truenn er? so ad omøgulegt er, ad sa sem Truna hefur, giøre ecke oaflaatanlega God verkenn: hun frietter eige ad, hvør Godverk madurenn ætte ad giøra, helldur hefur hun aadur enn vier tilfregnum, giørt þau, og lætur alldrei af ad jdka sig, Enn hvør hann giører ei þvilijk verk, sa er ad sonnu Truarlaus, hvimar og falmar umhverfis sig, epter Riettre Tru, og godum verkum, enn veit ei hvad þo ein Riett Tru edur Godverk eru, þvætter þo margt og masar um Truna og Godverkenn.

Truann er eitt Lifande Diarflegt Traust til Guds Naadar, so ørugg og føst, ad Mann munde eige hirda þo hann ætte þusundsinnum þar fyrer ad deya, Og þvilijkt traust og vitund Gudlegrar Naadar, giører mannenn gladværann, Diarfann, og lystugann vid Gud, og allar skiepnur ut j fra, hvad Heilagur Ande verkar j Trunne, Hvar af Madurinn verdur aan allrar þvingunar, viliugur og aafus ollum gott ad giøra, ollum ad þiona, allshaattad ad lijda, Gude til lofs og villdar, hvør hønum hefur þvilijka Naad auðsynda. So ad þad er omøgulegt ad skilia godverk fra riettre Tru, So sem þad er omøgulegt ad skilia hitann fra Elldenum, Fyrer þvi giæt ad þier vandlega, ad eige tæle þig sialfs þijns falsklegur þanke, og onytt ordaskvalldur annara manna, sem kloker laatast vera, dæma um Truna, og godverkenn, enn eru þo hiner stærstu þussar j þessare grein, Bid helldur Gud, ad hann uppveke j þier rietta Tru, ellegar blijfur þu æfennlega aan sannrar Truar, þu diktar og giører hvad þu kannt og villt.

(5) Enn þvijlijk Tru er Riettlæte, og kallast Guds Riettlæte, edur þad sem fyrer GUde gillder, af þvi ad þad sialft er GUds Gaafa, og reiknast til Riettlætis fyrer Christum, vorn Medalgangara, og giører Mannenn so audvelldann, ad hann giefur og giører hvørium og einum hvad hann skylldugur er, þviad fyrer rietta Tru veitest Mannenum þad, ad hann er aan Synda, og hrepper lysting til Guds Bodorda, hvar med hann giefur Gude sinn Lofstyr, og gielldur hønum þad hann er hønum pliktugur, enn Naunganum þionar hann viliuglegana, j hvøriu helst hann kann, og gielldur so hvørium Manne þar med. Enn slijku Riettlæte kann eige Natturann, nie Sialfrædis viliinn, og ei vorer Kraptar, af stad ad koma, þvi eins sem einginn gietur sialfum sier rietta Tru giefid, so fær og ei nockur Vantruna j burt tekid, hvørninn vill hann þa eina hina minnstu Synd j burt taka? Fyrer þvi er þad allt fals, hræsne og Synd, hvad aan Riettrar Truar skiedur, edur j Vantru, Rom. xiv. hvørsu gott sem þad þyker eda syneſt.

(6) Holld

(6) Holld og Anda mættu eige hier so skilia, ad þad sie alleina Holld, er Saurlifnad æ-hrærer og þad
Ande, hvad innra vidvijkur j Hiartanu, helldur kallar hinn Heilagi Paall þad allt holld, so sem og sialfur Laus-
narinn giorer, Joh. 3. Cap. Hvad af Hollde er fædt, so sem ad er madurinn allur med Aund og Lijkama,
skinsemd, og øllum skilningarvitum, þvi allt þad stundar epter holldenu, So mættu nu vita þad, ad kalla þann
Holldlegann sem æn Naadar dicktar, kienner margt og talar um diwpfundna andlega hlute, Sem þu
mætt vel skilia af Holldsins verkum, Galat. v. Cap. Þad hann kallar Villudom og Fiandskap holldsins verk,
Og Rom. 8. Cap. seigir hann, Ad fyrer holldsins saker verdi Løgmalid veikt, hvad ei er einasta talad um
Saurlijfe, helldur um allar Synder, Enn eirna mest um Vantruna, hvør ad er hin allra andligasta Synd.
Þar j mot mættu þann andligann kalla, sem med allra andsynilegustum verkum umgeingur, so sem ad sial-
fur Grædarinn JEsus þvodi Fætur sinna Læresveina, og Petur, þa er hann stijrde Skipinu og fiskadi, so ad Holl-
did er su manneskia sem hid innra og ytra lifir, og alla holldsins þarfliga hluti verkar til stundligs lijfs, Enn
Andinn er sa sem lifer og verkar hid innra og ytra til þess sem Andanum þienar til epterkomanda Lijfsins, æn
slijks skilnings þessara orda muntu hvørki þennann S. Paals Pistil nie nockra adra Bok Heilagrar Ritningar,
rietteliga undirstanda, fyrer þvi, vara þig fyrer øllum þeim sem ødruvijs edur med annarligri þydingu utleg-
gia þessi ord, þott þad sieu sialfer høfud-Doctores og yfer-Spekingar, og þo þad være Hieronymus, Augu-
stinus, Ambrosius, Origenes, ellegar enn ædre.

## Nu vilium vier vijkia til sialfs Pistilsins.

Med þvi ad einum Gudspiallegum Predikara biriar, j firstu fyrer Løgmalsins og Syndarennar Opinberan
þad allt ad straffa, og ad Synd ad giøra, sem eige er Lifande af Andanum og Trunni a Christum, so
ad Menneruer kynni ad læra ad þeckia sialfa sig og syna Eymd, og Neyd, og kynni ad audmykia sig, og
gyrnast hialp.

Lijka so giorer hier hinn Heilage Paall, og byriar j hinum Firsta Cap. ad straffa þær Storsynder og
Vantru, sem augliosar voru, So sem voru Heidinna manna Storglæper, og enn eru þeirra sem æn Guds
Naadar lifa, og seiger, ad Guds Reidi verdi auglios af Himnum yfer alla menn, fyrer Evangelium, fyrer
þeirra ogudligs lijfernis og Ranglætis sakir, þvi þott þeir viti og dagligana skilie ad þar sie eirn Gud, þa er þo
Natturann j sialfri sier æn Naadarinnar so vond, þad hun hvørki þackar hønum, nie hann vegsamar, hell-
dur forbliudar hun sialfa sig, og fellur so oaflatanlega j verra lijferni, þar til hun ecki alleinasta drygir Af-
guda Dyrdknn, og hinar skammligustu Synder, med øllum Løstum bligdunarlaust, helldur og so samþyckir
þær, og lætur þær verda ostraffadar hia ødrum.

J Ødrum Cap. þenur hann slijka straffan vijdara ut, uppa þesskonar menn sem froner synast j manna
augliti edur heimugliga syndgast, so sem þa voru Gydingar, og enn nu eru aller hræsnarar, þeir sem æn
godfysi og æstsemdar giøra Godverk, enn eru þo j hiartanu gramir Guds Løgmali, hvørier fusir dæma
adra menn, So sem allra hræsnis manna Nattura er til, ad þeir hallda sig sialfa hreina og heilaga vera.
Enn eru þo fullir med Agyrnd, Hatur, Dramb, og allaun ohreinleika, Matth. 23. Þeir eru og þeir sem
Guds Miskunsemi forsma, og epter sinni hiartans Hardwd, safna þeir og yfer sig hlada Guds Reidi, So
lætur nu hinn heilage Paall, sem eirn riettur Løgmals utskijrare, øngvann mann æn Syndar vera, helldur
bodar hann øllum Guds Reidi, þeim sem vel vilia lifa, af Natturugiptinni, edur af sialfs sijns frialsligum
villa, Og þa lætur hann øngvum nuu betri vera, enn opinbera Storglæpamenn, Ja hann seigir þa for-
herdta, og oyfirbotarsama.

Enn j hinum iij. varpar hann þeim bædum tveimur j eina køs, og seigir þann eina eige betra enn
annann, allirsaman sieu þeir Syndugir fyrer Gudi, ad einasta þvi undanteknu, þad Gydingar høfdu Guds
Ord, þott margir hafi þar ecke ætruad, Enn þo er eigi med þvi Guds Tru og Sannleikur ute, Og færir
inn þad maaltæke ur hinum fimtugasta og firsta Psalmi, Ad Gud sie Riettferdugur j sijnum Ordum, Enn epter
þad kiemur hann aptur til hins sama, og sannar med Heilagri Ritningu, ad þeir sieu aller Syndabrots-
menn, og þad, ad fyrer Løgmalsins verk verdi einginn Riettlatur, helldur þad, Løgmalid sie til þess utgiefid,
ad þad kienne Mønnum ad þeckia Syndina: Epter þad tekur hann til ad kienna riettann Veg, hvørninn
vier skulum frømir og Saluhólpnir verda og seigir, ad þeir sieu aller synduger menn, og æn Guds hroosunar,
og hlioti aller æn eiginnligrar forþienunar Riettlatir ad verda, fyrer þa Tru sem er a Christum, sa er fyrer
oss hefur þad verdskulldad, med sinni blessadri Blods-uthellingu, og er ordinn oss einn Naadarstoll, af
Gudi, hvør oss allar umlidnar Syndir forlætur, þar med bijvijsar hann, ad oss hialpi alleinasta hans Riett-
læte, hvort hann giefur oss j Trunni, sem j þann tijma fyrer Gudspiollinn opinberadist, og ædur til forna



fyrer

yrer Løgmalid og Sparnæmina er bevijsad, So stadfestist Løgmalid, fyrer Truna, þott ad Løgmalsins verk med sinni hrosan verdi under lok løgd þar med.

J Hinum Fiorda, sem hann hefur nu j þeim firstu þremur Capitulum, opinberad hvad Syndinn er og kiennt Truarinnar veg, til Riettlætis, þa hefur hann sijdann upp ad mæta nockrum giegnyrdum, og motmælum, Og tekur i firstu þad fyrer sig (sem tijdt er þeim ellum ad innfæra, sem af Trunni heyra, þad hun skan verkanna, giørir oss Riettlata, og seigia, Skulu Menn þa eingin god verk giøra?) Og hann leider framm Epterdæmi Abrahams, og seigir, hvøriu hefur Abraham med sijnum verkum af stad komid, eda koma þau øll til einskis? Voru hans verk øngvu nyt? Og lyktar þad so, ad Abraham vard Riettlætur an allra verka, alleinasta fyrer Truna, So algiørliga, ad hann forr enn verk hans umskurdar skiedi, alleinasta sinnar truar vegna, prijsast hann j Ritningunum ad hafa verid Riettlatur, Gen 15. Hafe nu verk umskurdarins, øngvu orkad, til hans Riettlætis, þad er siaifur Gud baud honum þo, og eitt gott verk var Hlijdninnar, sannliga mun þa eckert annad gott verk til Riettlætisins nockud stoda, helldur so sem ad Umskurn Abrahams var eitt utvortis Teikn, hvar med hann aud yndi sitt Riettlæti j Trunne, Lijka so eru øll aunnur God verk ecki utann ytre Teikn, hvor utaf Riettri Tru koma, og auglysa sem godur Avoxtur, þad madurinn sie nu hid innra Riettlætur fyrer Gudi.

Þar med stadfestir nu hinn heilagi Pæll, sem med einu øblugu Eptirdæmi ur Heilagri Skrift sijna frammsetta Kienning, j hinum þridia Cap. um Truna. Og leidir David til vitnis j hinum 32. Psal. Þar hann seigir, ad madurinn verdi æn verkanna Riettlatur, þo hann sie ecki æn verkanna, epter þad hann er Riettlatur ordinn. Epter þad teyger hann wt þetta Eptirdæmi j giegn øllum odrum Løgmalsins verkum, og ælycktar þad, Ad Gydingar sai ei verid Abrahams Arfar, einasta fyrer þad, ad þeir eru hans ættspreingi, enn miklu midur þo fyrer Løgmalsins verk, Helldur hliota þeir ad erfa Abrahams Tru, vilie þeir annars Riettlatir verda. Med þvi ad Abraham er bæde fyrer Truna Riettlætur ordinn, Fyrr enn Moysis og Umskurnarennar Løgmæl var, og kalladest Fader allra Riettruadra. Þar til uppvekur Løgmalid miklu framar Reidi, enn Nææd, med þvi ad einginn giører þess verk af sannri godfysi, og riettri æstsemd, fyrer þvi kiemur miklu meiri Onææd enn Nææd af Løgmalsins verkum, þar fyrer æ Truinn alleina þa Nææd ad øðlast sem Abraham var syrerheitinn. Þviad slijk Eptirdæmi eru vorra vegna skrifud, þad vier skulum og trua.

J hinum Fimmta Cap. kiemur hann til Avoxtarins og Truarennar verka, sem ad eru, Fridur, Fognudur og æstsemd, til Guds og hvørs manns, þar med Ørugleiki, Diarfleiki og Stødugleiki, Hughreysti og Von, j Hørmungum og motkasti. Þvi ad aller slikir hlutir epterfilgia einni riettri Tru, og fyrer þeirrar ounræðanligrar og yfergnæfanligrar giædsku sakir, sem Gud hefur oss synt j Christo JEsu, þad hann liet hann Dauda lijda fyrer vora skulld, fyrr enn vier kunnum hann þar um ad bidia, og þo þa þegar vier vorum hans fiandmenn. Af þessu meigum vier skilia, þad Truann riettlætir, æn allra verka, Enn þo dregst þad eigi þar af, ad vier skulum fyrer þann skulld einginn God verk giøra, helldur ad þaug hin riettelign verkinn munu eigi leingi j hlie liggia, A hvøriu hinir Verkheilogu hafa eckert skin, hvørier sier diekta helldur upp sialfir eiginnleg verk, þar hvørki er Fridur jnni nie føgnudur, Ørugleiki nie Kiærleiki, Von edur Diarfleiki, og ei nockud annad riett Christeligs verks, nie Truarinnar art og edli.

Þar epter vijkur hann fra þessari rædu, og telur framm, Hvadann ad kiemur bædi Syndenn og Riettlætid, Lijfid og Daudenn. Og setur þa tvo allsæmelega hvørn j moti ødrum, Adam og Christum, viliande so seigia, Fyrer þa skulld ætte Christus ad koma, einn annar Adam, sa er oss skyllde giefa sitt Riettlæti ad erfdum fyrer eina nya andlega fæding j Trunne, eins sem hinn firre Adam leidde yfer oss Arftekiu Syndarinnar, fyrer hina gømlu holldligu fæding. Enn nu med þessu verdur þad og stadfest og vitanlegt, ad einginn fær sier sialfur ur Syndinne til Riettlætis framar med verkunum hialpad, helldur enn hann fær vid þvi spornad, þad hann verdi lijkamlega fæddur, þad verdur og þarmed bevijsad, ad Gudligt Løgmal, sem þo hellst ætte ad hialpa, ef nockud skylldi hialpa til Riettlætis, er ei alleinasta æn stirks og hialpar komid, helldur hefur þad Syndina aukid fyrer þad, ad hin Vonda Nattura verdur þvi þess gramare, og vill sijna lysting þess giarnar drygia, sem Løgmalid bannar henni þad meir. Og med slijku moti giører nu Løgmalid Christum oss enn miklu naudsynlegra, og utkrefur af honum meiri nædar, ad hialpa Natturunni med.

Enn j hinum Siotta tekur hann sier fyrer hendur þad sierlegasta Truarinnar Verk, sem er Barætta Andans vid Holldid, med fullkomlegri deydingu yferblifinna Synda, og vondrar lystingar, sem epter Riettlætingena epter verda j hia oss, Og kienner oss þad, ad vier sieum eige so frelsader fyrer Truna fra Syndunum, þad vier skulum jdiulauser, later og Uggalausir vera, so sem ad þar væri nu einginn Synd leingur til: Ad sønnu er enn Synd epter blifenn j vorum lidum, þo hun verdi ei til Fordæmingar reiknud, fyrer þeirrar Truar saker, sem vid hana strijder, Fyrer þvi høfum vier ærid nog ad starfa, vid sialfa oss um vora lijfdaga, þad vier

vier temium vorn lijkama, deydum Syndsamlega fysn, og þvingum vora lime, so ad þeir verde Andanum hlijdner, enn eige þeirre vondu gyrnd. Uppa þad vier sieum lijker Christi Dauda og Upprisu, og fullkomnum vora Skiirn, hvor ad merker Syndanna deyding, og Naadarennar Nytt lijferne, þangad til vier verdum med øllu af Syndunum hreiner, og lijkamlega upprijsum med Christo JEsu, og ad Eylijfu Lifum.

Enn þetta getum vier giørt (seiger hann) med þvi vier erum under Naadenne, enn ei under Løgmalenu. Hvad hann sialfur utleggur, þad, aan Løgmals ad vera, sie eige under þa grein talad, þad vier skulum eckert Løgmal hafa, og meiga þad giøra hvad hvørn eirn lyster, Helldur heiter þad under Løgum ad vera, nær vier giørum Løgmalsins verk (aan Naadar) Og þa drottnar visselega Syndenn fyrer Løgmalid, Fyrer þvi einginn er Løgmalenu hollur af Natturu (hvad ad er ein stor Synd) Enn Naadenn giører oss Løgmalenu þecka, So er þar einginn Synd meir fyrer høndum, og Løgmaled er þa ei meir j mote oss, helldur er þad sam Þyckilegt vid oss.

Enn þetta sama er Riettelegt Frelse af Syndum og Løgmalenu, wtaf hvøriu hann skrifar allt til enda, j þessum Cap. Ad þad sie eitt frelse, alleinasta med Lyst gott ad giøra, og ad færa gott lijferne aan Løgmalsins þvinganar: Af þvi er þetta frelse eitt andlegt frelse, þad sem hvørke j burt skaafar nie onyter Løgmalid, helldur wtvegar þad oss hvad er af Løgmalenu krafed verdur, sem er lysting og aastseme, hvar med Løgmalid stillist, og hefur øngva þianing nie krøfu meir.

Lijka sem einn Herra hefde laanad þier nockud, so þu værer hønum skylldugur, og kynner ei ad borga, vid þann kynner þu med tvennu mote kvittur ad verda, Med einu mote ad hann villde eckert af þier hafa, og rife sitt Registur j sundur, Enn med ødru mote so, Ad einhvør godur mann borgade fyrer þig, og giæfe þier so miked, ad þu giørder hans Registre fullnægiu þar med, Med þessum hætte hefur Christur giørt oss frialsa fra Løgmalenu, Af þvi er þetta ecke eitt galid holldlegt frelse, sem eckert skule giøra, helldur þad sem giører miked og morgum gott, Og er af Løgmalsins krøfu og skylldu kvitt og aakiærulaust.

J hinum Siøunda stadfester hann slijkt med eirnre Epterlijkingu Hiuskapar lijfernis; lijka sem þa Madurinn deyr, er su Kvinna laus, og so er þa hvørt laust og vid annad skiled. þo ei so, ad Kvinnann meige eige nie skule annann Mann eiga, helldur hitt, þad hun sie þa allra firsta riettelega frij einum ødrum ad giptast, hvad hun maatte ei adur giøra, fyrr enn hun vard vid hinn firra Mann laus, Lijka so er vor Samvitska bundenn og forplicktud under Løgmaled, under þeim syndsamlega gamla manne; Nær hann deydest, fyrer Andann, þa er Samvitskan frij, og hvørt vid annad laust, Eige so, þad Samvitskann skule eckert gott ad hafast, Helldur nu hid allra firsta skule hun riettelega þydast Christum sinn annann eignarmann, og bera so lijfsins Avoxt.

Þar epter utskyre hann enn framar, Syndarennar Art, og Løgmalsins, hvornenn Syndenn fer ad ysa a sier, og maktug ad verda, fyrer Løgmalid, af þvi ad hinn gamle Madur verdur Løgmalenu þess grimmare, af þvi hann gietur eige borgad þad er Løgmalid krefur, þviad þad er hans Nattura ad syndga, og getur eige af sialfum sier annad, af þvi er Løgmaled hans Daude, og øll hans Plaga, eige so ad skilia, þad Løgmalid sie vondt, helldur ad su vonda Nattura kunne eige ad lijda hid goda, so ad þad krefie nockurs Gods af henne, Lijka sem eirn Sottlera Madur fær eige lidid, þad hlaup eda stedian sie ad honum heimt, og giøra ønnur heilbrigdra Manna Verk. Fyrer þvi alyktar S. Paall hier þad, ad hvar Løgmalid verdur riettelega þeckt og allra best underskadid, þar giøre þad ei annad, enn minner oss a vorar Synder, og deyder oss þar med, giørande oss seka eylijfrar Ellds Reide, so sem vier saum fijnlega lært og kannad j vorre Samvitsku þa hun verdur af Løgmalenn riettelega snortenn. So ad þa hliotum vier ad hafa eitt hvad annad meira til enn Løgmalid eitt, ad giøra Manneinn med fromann og hialplegann. Enn hiner sem Løgmalid þeckia ei riettelega, ern blinder, ana framm med sinne Holldlegre Ofdirfd, og meina Løgmalenu medur Verkunum fullnægiu ad giøra, þviad þeir hafa eige vitsmune a, hvørsu mikels ad Løgmalid utkrefur, sem er, eins sialfvilings løstugs, og gladværs Hiarta. Fyrer þvi lijta þeir eige Moysen riett under Augun, ad Dwkurenn er þar enn fyrer heingdur, og um hans Asionu vafdur.

Epter þad utvijsar hann, hvørnenn Andenn og Holldid strijda j Mannenum hvørt mot ødru, og setur sialfann sig til eins Epterdæmis, so vier lærum þad Verk (Syndena ad deyda i sialfum oss) riettelegana ad þeckia. Enn hann kallar þo bædi Andann og Holldid eitt Løgmal, þviad so sem Gudligs Løgmals Nattura er, ad þia og krefia, lijka so þiaer og krefur, og æsist Holldid j mot Andanum, viliande sijna Lysting hafa, þar þvert j mot þiar og krefur Andinn j giegn Holldenu, og vill sijna Lystlug hafa, þesse Agreiningur varir j oss so leinge sem vier lifum til, j einum meir, enn ødrum minna, eptir þvi hvørt Andinn edur Holldid øflugra verdur. Enn Madurinn allur er þo sialfur þad hvørtveggia, bædi Holld og Ande, hvor vid sialfann sig strijder, þar til hann verdur med øllu andligur.

J hinum ættunda, hughreyster hann slijka Strijdendur, ad þa fordæme eige þvilijkt Holld, og ætvijsar framarmeir, hvør Holldsins og Andans Art sie, og þad Andinn komi fyrir Christum, sa er oss hefur giefid sinn Heilagann Anda, hvør oss andliga giørir, og Holldid nidurþrickir. Giørandi oss alløruggva þar um, ad vier erum þo lijka vil GUds Børn, hvørsu hardt sem Syndinn geysar j oss, so leingi sem vier filgium Andanum eptir, og Syndinni j mot stondum hana ad deyda. Enn med þvi ad einginn Hlutur er so godur til, Holldid ad temia eda ad kiefia, sem Krossburdur og Motlæti, þa hughreystir hann oss j motganginum, med Andans Kiærleikans, og allra skiepna Adstod, so ad bædi Andinn andvarpar j oss, og þad allar skiepnur hafa epterlangan med oss, þad vier mættum vid Holldid og Syndena kvittir Verda. So siaum vier nu þad, ad þessir þrijr Capitular, Siotti, Siøundi, ættundi, kuya oss, alleina til þess Trwarinnar Verks, hvad ed kallast, hinn forna Adam ad deyda, og Holldid ad þia.

Sa hinn Nijunde, Tijunde og Ellefte Capitule kienner utaf Eylijfre Guds Forsia, hvadann þad uppsprettur eda ætflijtur, hvør ad trua skal edur ei trua, og hvør fra Syndinni skal leysast og eigi leysast, so þad sie med øllu oss ur greipum numed, og Gudi einum j Hendur feingid, þad vier Riettlæter verdum. Þad er oss og allra mesta naudsyn, þviad vier erum so veiker og ostødugir, so ad ef þad væri undir oss komid, yrde sennelega einginn Mann holpenn, þvi Diøfullenn mundi þa ad sønnu alla yferbuga, enn first GUd er nu stødugløndur, og ad honum ma ei sijn Utvaluing bregdast, og eigi fær nockur hønum þad varid, af þvi høfum vær enn øruggva Von j mot Syndinne.

Enn þeim Drambsømu Anndum, og Diupvitringum er hier eitt Takmark sett, þeir ed sijnum Vitsmunum vilia sem first hingad vijkia, og hefia ofann ad ad ransaka undirdiup GUds Fyrerhyggiu, Hvort þeir eru af GUdi Utvalder, angrande sig med þessu til einskis, þeir sømu steypa sier sialfum nidur j orvinlan, edur druckna j sijnum Vijsdome. Enn þu filg þvi sem hier kiennt verdur j þessum Pistli, og lat þier vera first hugad um JEsum Christum, og hans Evangelium, so ad þu mætter fa Þecking þinna Synda og hans Nædar, þar næst ad þu mot Syndinni striider, epter þvi sem þier hefur kiennt verid, J Firsta, i Ødrum, Þridia, Fiorda, Fimta, Siette, Siøunda Capitula, enn eptir þad þu ert kominn j hinn ættunda under Kross, og Motgang, þa mun þad kienna þier riettelega j hinum Nijunnda, Tijunda, Ellefta Capitula, hvørsu huggunarsamleg Utvalningin sie, þviad æn Pintingar Kross og Daudans Neydar kunnum vær ecke þa gudliga Forsia ad handtiera, æn tions og heimugliarar reide giegn GUdi, af þvi hlytur hinn forne Adam vel ad deydast, ædur enn Mann kann adlijda slijkt og drecka þad sterka Vijn, fyrer þvi giæt vandliga þess, ad þu dreckir ecki Vijn, medan þu ert eirn Briostmylkingur, þviad hvør Lærdomur hefur sinn skamt, Tijma og Alldur.

J hinum Tolfta kienner hann Rietta GUds Þionustu, og giører alla Christna Menn ad Prestum, ad þeir skule offra hvørki Peningum nie Kvikfie, so sem þeir giørdu j Logmalenu, helldur þeirra eiginlignm Lijkømum, med deydingu lijkamlegra gyrnda. Eptir þad skrifar hann um ytra Dagfur Christinna Manna j andligre Stiornan, hvørin þeir eige ad predika, kienna, stiorna, þiona, veita, og lijda, elska, lifa og giøra vidur Vine og Ovine, og hvørn Mann annann. Þetta eru þaug Verkinn, sem sierhvør Christinn æ ad giora, þviad (so sem sagt er,) Truan er alldrei kyrr.

Enn j hinum þrettænda Cap. kienner hann, þad vier skulum j heldre hafa Veralldlegt Valld og þvi hlydugir vera, hvørt þar fyrer er innsett af GUde, þott ei giøre þad oss Riettlata fyrer GUdi, þa giører þad so mikid, ad goder Menn hafa utvortis Frid, Vernd og Forsvar, og vonder Menn meiga ei æn hrædslu nie med Fride og Ro, sem þeir giarnann villdu, frammkvæma sijna Vondsku, fyrer þvi ber godum mønnum þa ad virda, þott þeir þarfe eigi þeirra vid, enn vid nidurlagid lykur hann þetta allt j Kiærleikanum, og endar þad med Christs Epterdæme, þad vier skulum hønum epterfilgia, og breyta lijka so sem hann hefur vid oss breytt.

J hinum Fiortanda, kienner hann, þad vier skulum þolinnmodlega lijda þa sem veiker eru, j Samvitskunne og Trunne, og fyrer þeim vægia, og sia kostgiæfelega til, ad Christinna Manna Frelse brukest ei til Skada, helldur þeim veiku og ostirkvu til betrunar, þviad hvar þad giørest eige, þa filger þar sundur, þycke og Fyrerlitning Gudspiallanna epter, hvar þo oll Naudsyn æliggur, ad slijkt skule ecke skie, þar fyrer er þad betra ad vijkia veiktrudum um litinn Mun, þar til hann stirkvare verdur, helldur enn þad, ad Lærdomur Gudspiallana skyllde med øllu j grunn ganga. Og þvilijkt Verk, er sierdeilis eitt Kiærleiks Verk, þad æ þessum Tijmum er vel nytsamlegt, hvar med Kiøtæte og ødru Christilegu Frelse ofbelldislega, æn allra naudsynia, hin breiska Samvitska verdur skielfd og umturnud, ædur enn hun skilur Frelsid og þeeker Sannleikann.

J hinum Fimtanda, setur hann Christum til Epterdæmis, þad vier skulum vid adra Breyska Menn lijdunarsamer vera, so sem vid þa er hrasad hafa, j opennberar Storsynder, edur otierlega breytne, hvoria vier meigum eige strax forleggia, helldur þa umlijda, þar til þeir betra sig, þviad so hefur Christur vid oss giort, og enn daglegana giører, þad hann umlijdur omætanlega margar odygder, og vonda breytne, jafn framt øllum

ødrum

aðrum ofullkomenleika a oss, og o-aflaatanlega oss hialp veiter. Epter þad til eirnrar ælyktunar, bidur hann fyrer þeim, lofar þa, og GUde a hendur felur, og audsyner þeim sitt Embætte, og Predikan, og bidur þa nærsta fagurlega um Hialp og Studning vid fatæka til Jerusalem, og allt hvad hann umtalar og þad hann fer med, er ei utan Kiærleiki.

Hinn sijdarste, er eirn Kvediu Cap. Enn þar under blandar hann einne nærsta ægiætre Vidvaran, ad mann vakte sig fyrer manna Lærdomum, þeir ed sier innþreyngia med Gudspiallegre Kienningu, og koma af stad Hneixlum, eins og hann hefde ad sønnu þad fyrer-sied, ad af Rom og fyrer hina Romversku skylldu koma þeir Tælanleger og Hneixlunarsomu Canones, og Decretales, og þad fordiarfanlega Eytur, sem kiemur af manna Setningum, og Bodordum, hvørier um þessa Tijma dreckia allre Verolld, hafa og þennann Pistil og alla Heilaga Ritning, lijka og eirnenn Andann, og Truna Afmaad, so ad eckert meira er epter ordid, enn sa þeirra Afgud, er Mage heiter, hvørs Þienara hinn Heilage Paall seiger þa hier vera; GUd frelse oss fra þeim, Amen.

So finnum vier j þessum Pistle hid allra Rijkualegasta, hvad eirnum Christnum Manne ber at vita, sem er, hvad Løgmaled sie, Evangelium, Synd, Straffan, Naad, Tru, Riettlæte, Christur, GUd, Godverk, Kiærleike, Von, og Kross, og hvørsu vier skulum hegda oss vid hvørn mann, hvort helldur hann er godur eda Syndugur, sterkur eda breiskur, Vin eda Ovin, og hvørnenn vier skulum breyta j mot sialfum oss; þar til grundvallar hann allt þetta allsæmelega, med Skriftenne, og med sialfs sijns og Spæmannanna epter-dæmum utvijsar, so ad hier er einskis meir æskiande, fyrer þvi ma so virdast, sem hafe hinn heilage Paall viliad j þessum Pistle, einusinni j stuttu maale inne lykia allann Christelegann og Gudspiallegann Lærdom, og tilreida so Inngang j allt hid Gamla Testamentum, þv'ad eige efa, hvør þennann Pistil hefur sier vel j Hiarta fest, sa hefur hiuß Gamla Testamentis Lios og Kraft hia sier, fyrer þvi gløre hvør Christinn Mann hann sier alkunnann og lææte jafnann tijdkadann vera, þvar GUd unne oss sijna Naad til, Amen.

# S. Pauls Pistill til Romveria.

## I. Capitule.

Þad Saaluhialplega Rettlæte verdur oss opinberad i Evangelio; og þad kemur ecke af Naatturunnar Løgmale, med þvi ad aller Heidingiar ere Syndarar.

Paall þion JEsu Christi, Kalladur til Postula, utvalenn til ad predika Guds Evangelium,

2. Hvøriu hann hafde ædur fyrerheitid fyrer sijna Spamenn, j *Heilagre Ritningu.

*1 B. Mos. 3, 15. cap. 22, 18. cap. 49, 10. 5 B. Mos. 18, 15. 2 Sam. 7, 12. etc. Psalm. 132, 11. Es. 4, 1. cap. 7, 14. cap. 9, 5. cap. 11, 1. etc. c. 40, 10. 11. Jer. 23, 5. 6. cap 33, 15. 16. Ezech. 34, 23. cap. 37, 24. Dan. 9, 24. Mich. 7, 20.

3. Af sijnum Syne, hvør ad fæddur er af Davids Sæde, epter Holldenu.

4. Enn volldugleg a auglystur Sonur Guds (a) epter Andanum, Sa er helgar, sijdann hann er uppstadenn fra Daudum, sem er JEsus Christur vor DRotten.

(a) (Epter Andanum) Guds Ande var utgiefenn epter Christi Uppstigning til Himna, j fra þeim Tijma helgar hann þa Christnu, og auglyser Christum j allre Verolldu, þad hann sie Guds Sonur med allre Makt, j Orde, Teiknum og Dasemdar-verkum.

5. Fyrer hvørn vier høfum medteked Naad og Postulegt Embætte, a medal allra Heidingia, Truarennar hlijdne upp ad rietta, under hans Nafne.

6. Af hvørium þier erud og eirnenn, sem kallader erud af JEsu Christo.

7. Øllum þeim Guds Elskulegum, og Kølludum Heiløgum sem eru j Rom, Naad og Fridur af Gude vorum Fødur, og DRottne vorum JEsu Christo, þa sie med ydur.

8. First giøre eg þacker mijnum GUde, fyrer JEsum Christum, allra ydar vegna, þad, ad ydar Tru berst ut um allann Heim.

9. Þviad Gud er minn Vottur (hvørium eg þiona i mijnum Anda, j Evangelio hans Sonar) þad ad eg oaflatannlega minnest ydar.

10. Og jafnann j mijnum Bænum bid eg þess,

þess, ef þad villde einusinne skie, ad eg mætte koma til ydar fyrer GUds Vilia.

11. Þvi mig langar ad sia ydur, so ad eg bytte ydur nockre andlegre Giof, ydur til Stirktar.

12. (Pad er) ad eg mætte taka Huggan med ydur, fyrer ydra Tru og mijna, sem vier hofum aasamt.

13. Enn eg vil ei dylia fyrer ydur, Kiærer Brædur, þad eg einsetta mier opt ad koma til ydar (enn eg hefe hindradur verid til þessa) so ad eg hefde kunnad ad giora so nockurn Avoxt ydar a mille, lijka sem a mille annra Heidingia.

14. Eg em Skulldunautur, bæde Grikkra, og ei Grikkra, Spakra og Ospakra.

15. Af þvi, so miked sem eg megna, em eg reidubuenn til, eirnenn ydur sem erud j Rom, ad predika Evangelium.

16. Þviad eg skammast mijn ei, fyrer Evangelium ut af Christo. Þvi þad er Kraptur GUds, sem Hialplega giorer alla þa sem þar a trua, Gydinga sierdeilis, og Gricke eirnenn.

17. Af þvi, ad þar opinnberast jnne þad Riettlæte, sem fyrer GUde duger, hvort ad kiemur ut (b) af Trunne, til Truarennar, so sem skrifad er;* Sa Riettlaate mun af sinne Tru Lifa. * Habac. 2, 4.

(b) (Af Trunne) aller Gudhrædder Menn fra Upphafe Veralldar, til Veralldar Enda, verda Riettlaater fyrer eina og somu Tru, þvi Christur er j Giær og Dag og Eylijflega (af Trunne) þad er, fra uppbiriadre veikre Tru, til sterkrar Truar, þvi Truenn stendur ecke kyrr.

18. Þviad GUds Reide (c) opinnberast af Himne yfer allt Ogudelegt Athæfe, og Ranglæte Manna, þeir ed Sannleikanum uppe hallda j Ranglætenu.

(c) (Openberast) þad mun openberast af Himnnm (þvi annars visse allur Heimurenn þar eckert af) ad ei-genn Manneskia er fyrer GUde Riettlaat, helldur aller Ogudleger, Synduger, Oriettlaater, þad er Reidennar Born, ut Ipf. 3. Og þo so sie, þeir vite og heyre nockud um GUd, þa eru þeir samt so vonder, ad þeir hvorke þacka nie þiona honum. Þar fyrer hlióta þeir ad falla j allra handa Leste og Spader, sialfum sier til Straffs.

19. Þvi Menn vita ad GUd er til, þad er þeim opinnbert, þviad GUd hefur þeim þad opennberad.

20. Med þvi ad GUds Osyneleger hluter siast, þad er, hans Eylijfur Kraptur, og GUddomur, þegar Menn giæta þar ad, a Verkunum, sem ad er a Veralldarennar Skøpun, so ad þeir hafa øngva Afsakan.

21. Med þvi þeir vissu þad, ad þar er einn GUd, og hafa hann þo ei prijsad so sem einn GUd, nie honum þacker giort, helldur eru þeir j þeirra (d) Hugrenningum ad Hiegoma ordner, og þeirra favijst Hiarta er formirkvad.

(d) (Hugrenningum) þar sem Truann er ecke, þar fellur Mannsins Skilningur j fra einu til annars, þar til hann verdur alldungis Blindadur j sijnum Þankum og Uppafundingum, so sem þad geingur til fyrer þeim skarpvitru Høfdum.

22. Þa þeir hielldu sig vijsa vera, eru þeir ad þussum Ordner.

23. Þvi þeir hafa umsnued Dyrd oforgeingelegs Guds, j Lijkneskiur forgeingelegra Manna, Fugla og Ferfættra Dyra, og Skridkvikinda.

24. Af þvi hefur GUd og giefid þa ut j þeirra Hiartans Gyrnder, og Ohreinleika, ad þeir skømmudu sijna eigenn Lijkame, a sialfum sier.

25. Hvorier (e) GUds Sannleika hafa umsnued j Lygar, og hafa meir dyrkad og þionad Skepnunne enn Skaparanum, hvor lofadur er ad eylijfu; Amen.

(e) (Guds Sannleika) þad er, af þeim rietta og sanna Gude hafa þeir giort eirn Afgud.

26. Hvar fyrer Gud utgaf þa j skammsamlegar Gyrnder, þviad Konur þeirra hafa snued natturlegre adferd j onatturlega.

27. Slijkt hid sama og Mennerner hafa yfergiefid edlelega adferd til Konunnar, og logudu j sijnum Gyrndum, hvor til annars, og hefur so Madur med Manne Skømm framid, og medtekid so verdkaup sijns Villudoms (epter þvi sem verdugt var) a sialfum sier.

28. Og lijka sem þeir hafa ei giefid þvi vakt ad þeckia GUd, so hefur GUd yfergiefid þa, j fraleidt Sinne, ad giora þad, hvad eige hæfer.

29. Fuller upp alls Ranglætis, Fridlulisnadar, Illmennsku, Agyrndar, Vondsku, fuller Haturs, Manndraps, Prætu, Svika, Oheilinda.

30. Kvissamer, Bakmaaluger, (f) GUds Forsmaanarar, Hoadgiarner, Drambsamer, (g) Sialfhælner, (h) Illt uppafinnande, Forelldrunum Ohlijduger.

(f) (Guds Forsmaanarar) eru þeir riettu Epicurei, sem lifa so sem þar være eingenn Gud til.

(g) (Sialfhælner) sem hæla sier miøg, og vilia laata af sier hallda, so sem þeir være ødrum betre, og eru þo Eckert.

(h) (Uppafinnande) þeir sem Nott og Dag finna uppa þad, hvørnenn þeir giøre ødrum skada og Angur, þeir eru og slinger til ad finna uppa soddan Baga.

31. (i) Skilningslauser, Ohaldennorder, (k) Astlauser, (l) Osaattgiarner, Omiskunsamer.

(i) (Skilningslauser) sem Menn kalla plumpa, grofa Menn, sem eru þeir einsinnudu, sem sijnu Høfde vilia þreyngia j giegnum alla hlute.

(k) (Astlauser) Obrodurleger og grimmer, so sem Ulfar, Hunds Naatturader, sem hafa hvørke þocknannie Kiærleika, til Kvinnu, Barna, Brædra, Systra, edur Forelldra.

(l) (Osaatt-giarner) sem ecke kunna ad fyrergiefa, og ecke vilia laata sig vid adra sætta.

32. Hvorier GUds Riettlære vita (ad þeir sieu Dauda verduger sem þvilijkt giora) og giora þad þo ei ad eins, helldur hafa þocknan a þeim sem þad giora.

## II. Capitule.

Þad Saaluhialplega Rettlæte kemur ecke helldur af Mosis Løgmaale, med þvi, ad Gydingar eru allt eins Syndarar og Heidingiarner.

Fyrer þvi kanntu eige, O Madur, þig ad afsaka, hvør hellst þu ert sem dæmer. Þvi hvar du dæmer um annann, þar fordæmer þu sialfann þig, med þvi, þu giører þad sama hvad þu dæmer.

2. Þvi vier vitum þad, Guds Domur er riettur yfer þeim sem þvilijkt giora.

3. Enn þeinker þu, o madur, sem dæmer þa, er þvilijkt giora, og þu giører hid sama, ad þu munir umflya Guds Dom?

4. Eda forsmar þu Rijkdom hans Godgyrndar, Þolinnmæde, og (a) Langlundargied? Veitstu ei þad, ad Guds godgyrne leider þig til yferbotar?

(a) (Langlundarged) a Latinu, Tardus ira, og þad er epter Ebreskunne Arichapaim, og er med riettu ein Dygd sem leingi er fyrer ad reidast og straffa Oriettinn, enn Þolennmæde er, þegar Madur lijdur og umber þad Illa, a sijnu Gotse, Lijkama edur Æru, þo riettelega sie giørt: Giædska er sa Lijkamligur Velgiørningur, sem vier audsynum ødrum, og godmannleg Umgeingne.

5. Enn þu epter þijnu forstockada og forherdta Hiarta safnar þier sialfum Reide, uppa Reidinnar Dag, opinberunar GUds Riettlætis Doms.

6. Sa er giallda mun einum og sierhvørium epter hans Verkum.

7. Sem ad er, Heidur og Vegsemd, og Ofallvallta veru, þeim sem med Þolinnmæde j godum Verkum stunda epter Eylijfu Lijfe.

8. Enn hinum sem þrætugiarner eru, og hvorier eige hlijda Sannleikanum, enn hlijda helldur Ranglætenu, Bræde og Reide.

9. Hrellingar og Harmkvæle yfer allar Saaler þeirra manna, sem Illsku drijgia, First Gydinga, og eirnenn Griskra.

10. Enn Heidur, Vegsemd og Fridur, ølllum þeim sem Gott giora, first Gydingum og so Griskium.

11. Þviad eckert manngreinar aalit er fyrer GUde.

12. Þvi þeir sem aan Løgmaalsins hafa syndgast, þeir munu og aan Løgmaals fyrerfarast, og þeir sem j Løgmalenu hafa syndgad, munu fyrer Løgmalid dæmder verda.

13. Med þvi, ad aaheyrendur Løgmalsins eru ei Riettlaater fyrer GUde, helldur munu þeir verda Riettlaater sem Løgmalid giøra.

14. Þvi ef þeir Heidnu sem eige hafa Løgmalid, enn giora þo af (b) Natturunne Løgmalsins Verk, þeir sømu, med þvi þeir hafa ei Løgmaled, eru þeir sier sialfer Løgmal.

(b) (Af

(b) (Af Naattureune) Naatturulogmaaled er, hvad þu villt ad annar giori þier, edur giori ecke, þad skalltu giora, edur ecki giora vid annann, þar jnne er faled allt Moysis Logmaal, sem Christur seiger, Matth. 7. J hvoriu Logmaale Heidingiarner hall da, ei utan Þau ytre Verkenn, eins og Gydingaar j Moysis Logmaali, su Aklogun og Assokun er þad, ad ein Synd er stærri enn önnur j moti Logmaalinu.

15. J þvi þeir bevijsa, þad Logmalsins Verk sieu skrifud j þeirra Hiortum, med þvi þeirra Samvitska sialf ber þeim Vitne, og þar med þeir Pankar sem sijn a mille munu aaklaga sig edur affaka jnnbyrdis.

16. A þeim Deige, nær GUD dæmer leynda hlute Mannanna, epter mijnu Evangelio, fyrer JEsum Christum.

17. Enn sia, þu kallast Gydingur, og forlætur þig uppa Logmaled, og hrosar þier af GUde.

18. Og veitst hans Vilia, og med þvi þu ert lærdur ut af Logmaalenu, reyner þu hvad ad best sie, ad giora.

19. Og þu treyster þier til ad vera Blindra Leidtogara, og Lios þeirra sem j Mirkrunum eru.

20. Favijsra Tiptunarmann, og Lærefodur einfalldra, hafande bæde Vitskunnar form, og Sannleikans j Logmalenu.

21. Nu lærer þu annann, enn sialfann þig lærer þu eige, þu predikar ad eige skule stolid vera, og þu stelur.

22. Pu seiger, ad ei skule Hórdom drygia, og þu dryger Hor, þu hefur Andstyggd a Skurgodum, enn (c) ræner GUD sijnu.

(c) (Ræner) þu ert Guds Piofur, hvad Dyrdena sem Gude til heyrer, tara aller Verkheilager fra honum.

23. Pu hrosar þier af Logmaalenu, og vanvirder GUD fyrer yfertrodslu Logmalsins.

24. Pviad fyrer ydar Skulld, verdur * GUDs Nafn lastad, medal Heidinna þioda, so sem skrifad er.

* Es. 52, 5. Ezech. 36, 20.

25. Umskurnenn er nytsamleg ad sonnu, ef þu vardveiter Logmaled, enn ef þu ert Yfertrodslumadur Logmalsins, þa er þijn Umskurn nu þegar ordenn ad (d) Yferhud.

(d) (Yerhwodenn) Hinn Heilagi Paall kallar Heidna Menn þvi Yferhwod, ad þeir eru eige umskorner.

26. Nu ef Yferhudenn helldur Riettlæted j Logmalenu, meinar þu eige ad hans Yferhud verde reiknud fyrer Umskurn?

27. Og þad sem er af Natturunne Yferhud, og Logmaled fullkomnar, mun so dæma þig, sem ert under Bokstafnum, og Umskurnenne, og ert Yfertrodslumadur Logmalsins.

28. Pviad sa sem utvortis er Gydingur, er ei Gydingur, og su utvortis Umskurn j Holldenu, er ei Umskurn.

29. Helldur er sa Gydingur, sem jnnvortis er hulenn, og umskurn Hiartans er su umskurn sem skier j (e) Andanum, enn ei Bokstafnum, hvorrar lofstyr eige er af Monnum, helldur af GUde.

(e) (J Andanum) Ande kallast allt hvad Gud verkar j Mannenum yfer Naatturuna, Enn Bokstafur kallast allar giorder Naatturunnar aan Andans.

## III. Capitule.

Pad Saaluhiaalplega Rettlæte kemur af Trunne aa JEsum Christum, aan Logmaalsins, og Logmaalsins Verka.

Hvad hefur þa Gydingur til þess ad hann sie fremre? eda hvor nytsemd er ad Umskurnenne?

2. Sanulega nærsta mikel, sierdeilis, ad þeim er (a) tiltruad til GUDs Ords.

(a) (Tiltruad) hefde þeir ecke vered, þa hefdum vier ecke haft Heilaga Ritning.

3. Enn þad nockrer hafa ei truad a þad sama, hvad um þad? skyllde þeirra Vantrw giora GUDs Tru ad ongvu?

4. Fiærre sie þvi, helldur blijfe þad so, ad GUD sie Sannsogull, enn* aller Menn (b) Lygarar, so sem skrifad stendur, ** uppa þad ad þu Riettlaatur siert j þijnum Ordum, og yfervinner nær þu dæmest.

(b) (Lygarar) Gud helldur fast og vijst sijn Heit, enn hvor sem forlætur sig uppa Mennena, hann verdur tældur. * Ps. 116, 11. ** Ps. 51, 6.

5. Enn

5. Enn er þad so, Ad vort Ranglæte prijse Guds Riettlæte, Hvad vilium vier seigia? Er Gud þa Ranglatur, þott hann reidest þar fyrer? (Eg tala so epter Plagsid manna.)

6. Fiarlægt sie þvi, Hvornenn kynne Gud ellegar Heimenn ad dæma?

7. Þvi ef Guds Sannleikur verdur fyrer mijna Lygd (c) Yferfliotanlegri til hans Dyrdar, Hvar fyrer skyllde eg þa enn nu sem annar Syndabróts madur dæmdur verda?

(c) (Yferfliotanlegre) David seiger so, J mote þier alleina hefe eg syndgad, og giørt jlla fyrer þier, so ad þu Riettlaatur verder j þijnum Ordum, og yfervinner þa þu verdur dæmdur, og etc. Þetta er eins ad heyra sem Madur skyllde giøra Synd, so ad Gud kunne ad vera Riettlaatur, so sem S. Paall hier eirnenn aavijsar, enn þad er þo ecke so, Helldur eigum vier ad medkienna Syndena, sem Gud aasakar oss fyrer j Løgmaalenu, so ad hann kunne ad verda vidurkienndur ad vera Sannordur og Riettlatur j sijnu Løgmaale. Enn Verkheilager þraatta vid Gud um þessa Vidurkienning, og vilia ecke laata sijn Verk reiknast Synd, og so a Gud ad vera þeirra Lingare og dæmast j sijnu Orde. So vill nu Paulus ecke ad Syndenn prijse Gud, þvi þad være þa betra ad syndga, enn giøra gott, helldur prijsar Vidurkienning þess Synduga, Gud og hans Naad, so er Gud þa Sannordur, og aller Menn Lingarar, sem ecke vilia slijkt vidurkienna, og þeirra Vantru giører ecke Guds Tru ad øngvu, þvi hann vitnar samt og er Sannordur.

8. Og ei miklu framar, so breita (eins og vier verdum spottader, og so sem sumer seigia, þad vier seigium) Giørum jllt, so ad gott epter kome? Hvorra Fyrerdæming er alldeilis riettelig.

9. Hvad skulum vier þa nu seigia? Hofum vier þa nockra Yferburde? Alls øngva, Þvi ad vier høfum cadur bijvijsad, bæde Gydinga og Griska alla under Synd vera.

10. Epter þvi sem skrifad er, * Par er ei nockur sem Riettvijs er, og ecke eirn.

* Psal. 14, 2. 3. Psalm. 53, 3. 4.

11. Þar er ei nockur sa sem Skinugur sie, og eingenn sa er ad Gude leite.

12. Aller eru þeir fravikner og aller onyter ordner, og einginn er sa sem gott giører, og eige eirn.

13. * Þeirra Barke er openn Grøf, og med sijnum Tungum handtiera þeir svikssamlega, Høggorma Eytur er under þeirra vørum. * Psalm. 5, 10.

14. Og * Munnur þeirra er fullur af Bølvan, og Beiskleika. * Psalm. 10, 7.

15. Fætur þeirra eru Flioter til Blods uthellingar. * Ordsk. B. 1, 16.

Es. 59, 7. 8.

16. * J þeirra vegum er ecke annad enn Ogiæfa og hiarta sorg.

17. Og Fridarins Veg þeckia þeir eige.

18. Og * þar er einginn Guds Otte fyrer þeirra Augum. * Ps. 36, 2.

19. Enn vier vitum, ad hvad Logmalid seiger, þad seiger þad þeim sem under Logmalenu eru, * So ad allra Munnur verde til byrgdur, og Heimurinn allur vid Gud sakadur.

* Psalm. 51, 6.

20. Fyrer þvi, ad Eckert Holld af Logmalsins verkum gietur fyrer hønum Riettlaatt vordid, þviad fyrer Logmalid kiemur vidurkienning Syndarennar.

21. Enn nu er oan Logmalsins studnings þad Riettlæte opinnberad, sem fyrer Gude duger, og vitnad fyrer Logmaled og Spamennena.

22. Enn eg tala um þad Riettlæte fyrer Gude, hvort ad kiemur fyrer Truna a JEsum Christum, til allra, og yfer alla þa sem trua, Þvi hier er eingenn greinarmunur.

23. (d) Allersamann eru þeir synduger, og þeim er skortur a þeirre (e) Hrosan sem þeir aattu a Gude ad hafa.

(d) (Allersamann) Athuga hier, ad hann seiger, ad þeir sieu aller Syndarar, þad er Høfudsyncked og Midbiked j þessum Pistle, og uppa alla Ritningena, sem er, ad þad alltsaman sie Synd, sem ecke er endurleyst fyrer Christi Blod, og Riettlæte j Trunne. Þar fyrer gief vel giætur ad þessum Texta, þvi hier liggia nidur sleigenn øll Verk, Forþienusta og Hrosun, sem hann sialfur hier seigir, og verdur aleinasta Guds eintomis Naad og Æra epter.

(e) (Hrosan) þeir kunna ecke ad seigia med Sannleika, þu ert minn Gud, þo ad þeir kunne med Mun-

nenum nockud af honum ad hroosa. Sup. 2, 21. Gloriaris in DEo.

24. Og verda so utaf hans Naad, aan Verdskulldunar Riettlater, fyrer þa Endurlausn sem ordenn er fyrer JEsum Christum.

25. Hvorn Gud skickade til eins Naadarstols, fyrer Truna j hans Blode, hvar med hann frammbydur þad Riettlæte sem fyrer honum er fullt, j þvi hann fyrergiefur Syndernar, sem (f) hingadtil verid hafa under Gudlegre þolinmæde.

(f) (Hingad til) Hvorke kunne Logmaaled nie nockud gott Verk Syndena burt ad taka, helldur ætti Christus og Fyrergiefningin betta ad giøra.

26. Þad hann a þessum tijma frammbydur þad Riettlæte sem fyrer honum duger, uppa þad, ad hann sie alleina Riettlatur, og giøre þann Riettlatann, sem Truua hefur a JEsum.

27. Hvar er nu su Hroosan? Hun er ute, Fyrer hvort Logmal? Fyrer Verkanna Logmal? Ecke so, Helldur fyrer Truarennar Logmal.

28. So hollдum vier nu, þad madurenn verde Riettlatur aan Logmalsins Verka, fyrer Truna alleina.

29. Eda er Gud alleina Gud Gydinga? Er hann og ei og so Gud Heidinna manna? Ad visu er hann og Gud Heidingia.

30. Nu þvi ad hann er einn Gud, sa er Umskurnena riettlæter af Trunne, og Yferhudena fyrer Truna?

31. Giørum vier þa Logmaled ad ongvu fyrer Truna? Fiærre sie þvi, helldur uppreisum vier Logmaled. (g)

(g) (Uppreisum) Truenn uppfyllir allt Logmaaled, enn Verkenn uppfylla ecke einn Titil af Logmaalenu. Matth. 5.

## IV. Capitule.

Riettlæted af Trunne sest a Abraham.

Hvad seigium vier þa af Fodur vorum Abraham, þad hann hafe funded epter holldenu? Þad seigium vier.

2. Ef ad Abraham er af verkunum Riettlatur, þa hefur hann lofstyr, Enn ei fyrer Gude.

3. Enn hvad seiger Ritningenn? *Abraham trude Gude, og þad er honum reiknad til Riettlætis. * 1 B. Mos. 15, 6.

4. Þvi þeim sem erfida, verda Launenn ecke af Naadenne tilreiknud, helldur af Verdskulldan.

5. Enn honum, sem eige erfidar, enn truer a þann sem Riettlæter Ranglatann, þeim verdur sijn Trua reiknud til Riettlætis.

6. Epter þvi mote sem (a) David seiger, Þad Saluhialpenn sie alleina þess Manns, hvorium Gud tilreiknar Riettlætid, aan Verkanna, þar hann seiger.

(a) Hier sannar hann med tveimur Epterdæmum, ad Forþienustann sie eckert, helldur alleinasta Guds Naad.

7. *Sæler eru þeir, hvorium sijnar Ranglætingar eru fyrergiefnar, og hvorium sijnar Synder eru huldar. * Psalm. 32, 1. 2.

8. Sæll er sa Madur hvorium Gud tilreiknar ecke Syndina.

9. Nu þesse Farsælld, snerter hun einasta Umskurnena, eda Yferhudena? Þvi vier hliotum ad seigia, þad Abraham sie sijn Trua til Riettlætis reiknud.

10. Enn hvorninn er hun honum þa tilreiknud j Umskurnenne, eda j Yferhudenne? An efa, Eige j (b) Umskurnenne, helldur j Yferhudenne.

(b) Abraham trude, og prijsast þvi Riettlaatur aadur enn hann var umskoren, So er Naadenn jafnaun fyrr enn Verkenn.

11. Enn þad * Teikn j Umskurnenne, medtok hann til Innsiglis þess Riettlætis sem er j Trunne, hvoria hann hafdi enn-nu j Yferhudinne, so ad hann yrde og Fader allra þeirra sem trua j Yferhudinne, so ad þeim yrde og slijkt reiknad til Riettlætis.

* 1 B. Mos. 17, 10. 11.

12. Og þad, ad hann yrde eirnenn Fader Umskurnarinnar, eige einasta þeirra, sem af Umskurninne eru, helldur jafnvel þeirra sem ganga

ganga j Fotsporum þeirrar Truar, sem var j Yferhud Fodur vors Abrahams.

13. Þvi þad Fyrerheit, þad hann skyllde Veralldarinnar Erfinge verda, skiede ei til Abrahams edur hans Sædis, fyrer Logmalid, helldur fyrer Truarinnar Riettlæte.

14. Þvi ef þeir af Logmalenu eru Erfingiar, þa er Truinn einskis verd, og Fyrerheitid er ute.

15. Af þvi, ad Logmalid afrekar ei annad enn Reide, Þvi hvar Logmalid er ecke, þar er og einginn Yfertrodsla.

16. Þar fyrer kiemur Riettlætid fyrer Truna, so ad þad sie utaf Nadinne, og þad Fyrerheit blijfur stodugt (c) ollu Sæde, eige einasta þvi sem under Logmalenu er, helldur þvi sem er af Abrahams Tru, hvor ad er allra vor Fader.

(c) (Ollu Sæde) Bæde Gydingum og Heidingium, þviad Riettruader wt af Heidingium eru so vel Abrahams Sæde sem Gydingar. Gen. 17, 4.

17. Epter þvi sem skrifad er, * Þig hefe eg settann til Fodurs margra Heidingia, fyrer Gudi, hvorium þu truder, Sa er Dauda lijfgar, og kallar þad sem ecke er, ad þad skule vera. * 1 B. Mos. 17, 4.

18. Og hann trude uppa von, þar sem einskis var ad vona, So ad hann yrde Fader margra Heidingia, epter þvi sem til hans er sagt, * So skal þitt Sæde vera.
* 1 B. Mos. 15, 5.

19. Enn hann vard eige veikur j Trunne, gaf og ei gaum ad sijnum eigenn Likama, þeim dainn var þa þegar, af þvi ad hann var ad mestu hundrad ara, og ei ad daudum Lijkama Saru.

20. Þvi hann efade ei Guds Fyrerheit, vegna Vantruarinnar, helldur vard hann stirkur j Trunne, giefande Gude (d) Dyrdena.

(d) Hvor hann truer Gude, hann giefur honum hans Dyrd, ad hann sie Sannordur, Almattugur, Vijs og Godur: So uppfyller Truenn þau firstu þriu Bodordenn, og giorer Mannskiepnuna Riettlaata fyrer Gude, þad er su Rietta Guds Dyrdkan.

21. Vitande þad fyrer fullann sann, ad hvoriu sem Gud lofade, þad var hann maatugur ad giora.

22. Fyrer þvi var honum þad reiknad til Riettlætis.

23. Enn þad er ei einasta skrifad fyrer hans saker, ad þad sie honum tilreiknad.

24. Helldur fyrer vorar saker, þeim þad skal tilreiknad verda, vier sem truum a þann sem DRottinn vorn JEsum uppvakte af Dauda.

25. Sa er fyrer vorar Synder var ofurselldur, og fyrer vors Riettlætis saker uppvaktur.

## V. Capitule.

Paulus (I) talar um nockra avexte Rettlætesins: (II) Setur hvern a mote odrum, Adam og JEsum, Daudann og Lijfed, Logmaaled og Evangelium.

I. Med þvi vier erum nu Riettlaater ordner, fyrer Truna, þa hofum vier Frid vid Gud, fyrer DRottinn vorn JEsum Christum.

2. Fyrer hvorn ad vier hofum og tilgongu j Trunne til þessarar Naadar, þar vier inne stondum, og hrosum oss af Von þeirrar Tilkomande Dyrdar, er Gud mun giefa.

3. Enn eige einasta þad, helldur hroosum vier oss eirninn lijka af Hormungunum, af þvi vier vitum þad Hormung verkar þolinnmæde.

4. Enn Þolinnmæde verkar Reynslu, enn Reynslann verkar Von.

(a) Reynslann er, þegar eirn er vel forsoktur, og kann ad tala þar um, so sem sa sem þar hefur vered hiaa staddur.

5. Enn Vonenn lætur eige til skammar verda, Þviad Guds Kiærleike er uthelltur j vor Hiortu, fyrer Heilagann Anda þann oss er giefinn.

6. Þviad þa vier vorum enn breiskleiger epter tijmans hentugleika, hefur Christur fyrer oss Oguðlata daid.

7. Enn nu deyr varla nockur fyrer þad Riett-

Riettlaata, fyrer nockud gott ma skie nockur dæe.

8. Fyrer þad priisar Gud sinn Kiærleika vid oss j þvi, ad Christur hefur fyrer oss deiid, þa þegar vier vorum enn Synduger.

9. Fyrer þad verdum vier og miklu meir geymder fra Reidinne, fyrer sialfann hann, af þvi vier erum Riettlaater ordner j hans Blode.

10. Þvi ef vier erum nu vid Gud forlijkt-tir fyrer hans Sonar Dauda, þa vier vorum enn Oviner, miklu meir verdum vier Saluholpner fyrer hans Lijf, sem nu erum Saatter.

11. Enn eige alleinasta þetta, Heilldur þa hroosum vier oss og af (b) Gude, fyrer DRottinn vorn JEsum Christum, fyrer hvorn ad vier høfum Forlijkunina medteked.

(b) (Af Gude) ad Gud er vor, og vier erum hans, og høfum alla goda Hlute sameigenlega af hønum og med hønum, j ollu trauste.

II. 12. Fyrer þvi, lijka so sem Syndinn er fyrir eirn mann kominn j Heimenn, og Daudenn fyrer Syndina, og so hefur Daudinn til allra manna sier jnþreyngt, af þvi, ad aller hafa syndgad.

13. Þviad Syndinn var ad sønnu j heimenum, allt til þess Logmalid kom, enn hvar ecke er Logmalid, þar verdur og ecke Syndinn tilreiknud.

14. Enn Daudenn drottnade fra Adam allt til Moysen, og einnenn yfer þeim, sem ecke høfdu syndgast med þvilijkre yfertrodslu sem Adam, hvør ad er ein (c) Fyrermindan, þess sem koma aatte.

(c) (Fyrermyndan) So sem Adam fordiarfade oss med annarlegre Synd, ann vorrar Skulldar, so giørde Christur oss holpna med annarlegre Naad, ann vorrar Forþienustu.

15. Enn þad var eige so falled med Giøfenne, sem med Syndenne, Þvi ef marger deydu j eins Manns Synd, Þa er miklu meir Guds Naad og Gaafa rijkuglega skied marga fyrer JEsum Christum, sem var sa Einaste Madur j Naadinne.

16. Og Gaafann er ei so sem þad, er kom fyrer þann einasta Syndara, Þviad Domurenn er komenn af eirnre Synd til Fordæmingar, enn Gaafann hialpar fra mørgum Syndum til Riettlætis.

17. Þvi ef Daudenn (d) rijkte vegna eirnrar Syndar fyrer Einn, Miklu meir munu þeir sem odlast Naadarennar og Gaafunnar yferfliotanlege nægd til Riettlætesins, rijkia j Lijfenu fyrer þann Eina JEsum Christum.

(d) Merk hier, ad hann talar um Arfsyndena, sem komenn er af Adams Ohlijdne, af hvørre allt þad er syndugt sem j oss er.

18. (e) Lijka sem nu ad Fordæmingenn er komenn fyrer Eins manns Synd, yfer Alla menn, So er og komid fyrer eins Riettlæte, Lijfs Riettlæted, yfer alla menn.

(e) So sem Adams Synd er ordenn oss eigenleg, so er Christi Christi Riettlæte orded vort eiged.

19. Þviad, lijka sem fyrer eins manns ohlydne eru marger synduger ordner, So verda og fyrer eins hlydne marger Riettlaater.

20. Enn Logmaled er þo þess j millum innkomed, so ad Syndenn skyllde meir yfergnæfa, Enn hvar Syndenn yfergnæfer þar yfergnæfer Nadenn enn miklu framar.

21. Uppa þad, ad lijka sem Syndenn rijkte til Daudans, so skal og Naadenn rijkia fyrer Riettlætid, til Eylijfs Lijfs, fyrer JEsum Christum vorn DRottenn.

# VI. Capitule.

Paulus (I) aminner oss ad lifa gudrækelegu Lijferne, og (II) rædur oss fraa ogudlegu Framferde.

Pistillenn VI. Sunnud. epter Trinitat.

I. Hvad vilium vier hier til seigia? skulum vier þa j Syndenne blijfa so ad Naadinn meige þess meir yfergnæfa?

2. Fiærre sie þvi, hvornenn skylldum vier þad vilia, ad lifa j Syndenne, sem dauder erum fra henne?

3. Vited þier eige, ad aller vier sem skijrder erum j JEsu Christo, þad vier erum j (a) hans Dauda skijrder?

(a) (Hans

(a) (Hans Dauda) ſo ad vier ſkulum Deya lijka ſo ſem hann, þviad ecke deyum vier olldungis fra Syndunum, utan Hollded og ſo lijkamlega deye.

4. Þvi erum vier og eirnenn med honum greftrader, fyrer Skijrnena, j Daudann, uppa þad, ad lijka ſem Chriſtur er uppvakenn fra Daudum, fyrer Dyrd Fodurſins, lijka ſo ſkulum vier ganga j einu Nyu Lijferne.

5. Þvi firſt vier erum med honum plantader, til lijka Dauda, þa munum vier og Uppriſune lijker verda.

6. Med þvi vier vitum þad, ad vor gamle Madur er med honum kroſsfeſtur, ſo ad ſa ſynduge Lijkame afliete, ad epter þad þionudum vier ecke Syndinne.

7. Þviad, hvor ſem deyddur er, hann er Riettlættur fra Syndenne.

8. Enn firſt vier erum med Chriſto dauder, þa truum vier, þad vier munum og med honum lifa.

9. Enn vier vitum, þad Chriſtur, ſem er uppvakenn af Dauda, deyr ei framarmeir, Daudenn mun og ei framarmeir drottna yfer honum.

10. Þvi þad hann do, þad er hann eitt ſinn fyrer Syndena doenn, enn þad hann lifer, þad lifer hann GUde.

11. So og lijka þier, hallded ydur þar fyrer, ad þier ſieud og deydder fra Syndinne, enn lifed GUde j Drottne vorum JEſu Chriſto.

II. 12. Fyrer þvi laated nu Syndena eige drottna j ydrum daudlegum Lijkama, ſo ad þier ſieud henne hlyduger j hennar (b) Gyrndum.]

(b) (Merk) Þeir Hellogu hafa enn vondar Gyrnder j Holldenu, enn þeir filgia þeim ecke.

13. Og liaed eige ydar Lime Syndenne til Raanglætis Herklæda, helldur liaed ydur ſialfa GUde, lijka ſem af Dauda uppliſnada, og ydra limu GUde til Riettlætis Hervopna.

14. Þviad Syndenn mun eige kunna ad drottna yfer ydur, med (c) þvi, ad þier erud eige under Logmalenu, helldur under Naadenne.

(c) So leinge ſem Nadenn rijker, þa er Samvitſkann frials, og þvingar Syndena j Holldenu, enn þa Madur er aan Naadarennar, þa rijker Syndinn, og þa fordæmer Logmaaled Samvitſkuna.

15. Hvornenn nu? ſkulum vier Synder drygia, med þvi vier erum ei under Logmalenu, helldur under Naadenne? fiærre ſie þvi.

16. Vitid þier eige, ad hvorium ſem þier giefid ydur til Þionuſtumanna, j hlijdne, hans Þionar erud þier, hvorium þier hlijduger erud, hvort þad er Syndenne til Daudans, edur Hlijdnenne til Riettlætis?

17. Enn GUde ſieu þacker, þad þier vorud Syndarennar Þionuſtumenn, enn nu hlijduger ordner af Hiarta, epter þvi Lærdoms-forme og maata, ſem þier erud til giefner.

18. Þvi firſt þier erud frelſader af Syndinne, þa erud þier ordner Riettlæteſins Þionuſtumenn.

Piſtillenn VII. Sunnud. epter Trinit.

19. Eg hlyt nu mannlega hier af ad ſeigia, fyrer ydvars Hollds Breiſkleika ſaker, lijka ſem þier hafid ydra limu lied til ad þiona Ohreinleikanum, og fra odru Ranglæte til annars, lijka ſo ſkulud þier nu lia ydra limu, til ad þiona Riettlætenu, ſo þier meiged verda Heilager.

20. Þvi þa þier vorud Þionuſtumenn Syndarennar, vorud þier frij fyrer Riettlætenu.

21. Hvorn Avoxt hofdud þier þann Tijma? þann þier ſkammeſt ydar nu fyrer, þviad Ending þeſs er Daudenn.

22. Enn nu, þier erud frelſader af Syndenne, og ordner GUds Þionuſtumenn, hafed þier ydvarn Avoxt, ad þier verded heilager, og endingena þad Eylijfa Lijf.

23. Þviad Verdlaun Syndarennar er Daudenn, enn GUds Giof er Eylijft Lijf, j Drottne vorum JEſu Chriſto.]

# VII. Capitule.

Paulus talar (I) um Frelse hinna Rettlættu fraa þvi gamla athæfe Logmalsens: (II) Um Gagn og Verkan Logmalsens: (III) Um Stijd Andans og Holldsins hiaa þeim Rettlættu.

I. Vitid þier ei, Kiærer Brædur (þvi vid þa tala eg, sem Logmaled vita) þad ad Logmaaled Drottnar yfer Mannenum, so leinge hann lifer.

2. Þviad ein Kvinna, sem Manne er undergiefinn, hun er, ad Mannenum lifanda, bundinn vid Logmaled, enn ef Madurinn deyr, þa er hun laus af þvi Logmale, sem Mannenn aahrærer.

3. Nu ef hun er hia odrum Manne ad Mannenum lifanda, verdur hun Horkona kollud, enn ef hennar Madur deyr, þa er hun frelsud af Logmalenu, so ad hun er ei Horkona, þo hun sie hia odrum Manne.

4. Lijka so erud þier, Brædur mijner, deydder fra (a) Logmalenu, fyrer Christs Lijkama, so ad þier sieud hia einum ødrum, sem er hia þeim, sem af Dauda er uppvakenn, uppa þad ad vier færum GUde Avoxt.

(a) Sa gamle Madurenn hefur Samvitskuna med Synd til eignar, so sem eirn Madur sijna Eiginkonu, enn þa sa gamle Madurenn deyr fyrer Naadena þa verdur Samvitskann frij fra Syndenne, so ad Logmaaled kann ecke framar meir ad reikna henne nockra Synd til, edur giora sier þann Gamla Mannenn undergiefenn.

5. Þvi þa vier vorum j Holldenu, voru Syndsamlegar Gyrnder j Holldenu (þær sier hreifdu upp fyrer Logmaled) j vorum Limum kroptugar, Daudanum avoxt ad færa.

6. Enn nu erum vier lauser af Logmalenu, og fra þvi deydder, sem oss hiellt hertekna, so ad vier þionum j Nyung Andans, enn ecke j Fornre Veru Bokstafsins.

II. 7. Hvad vilium vier þa seigia? er Logmaled Synd? Fiærre sie þvi. Helldur þad, eg þeckte ei Syndena nema fyrer Logmaled. Þvi eg visse eckert af þeirre Gyrnd, hefde Logmaled ecke sagt,* Eige skalltu gyrnast.

*2 B. Mos. 20, 17. 5 B. Mos. 5, 21.

8. Þa tok Syndenn Tilefne af Bodordenu, og ol upp j mier allshꜳttadar gyrnder. Þviad aan Logmalsins var Syndenn daud.

9. Enn eg lifda nockra Stund aan Logmalsins, enn er Bodorded kom, endurlifnade Syndenn aptur.

10. Enn eg deyda. Og þad vard funded, ad þad Bodord vard mier ad dauda, sem mier var þo til Lijfsins giefid.

11. Þviad Syndenn tok Tilefne af Bodordenu, tælde mig og deydde fyrer þad sama Bodord.

12. So er Logmaled heilagt. Bodorded er og heilagt, riett og gott.

III. 13. Er þa þad sem gott er mier ad dauda Orded? Fiærre sie þvi. Helldur so, ad Syndenn auglysteft, hvornenn hun være Synd, þa giorde hun mier Dauda fyrer þad goda, so ad Syndenn yrde yfer mꜳta syndug, fyrer Bodorded.

14. Þvi vier vitum þad, ad Logmaled er andlegt, enn eg em holldlegur, under Syndena selldur.

15. Af þvi eg veit eige hvad eg giore, þviad eg giore ei hvad eg vil, helldur þad eg hata, þad giore eg.

16. Enn first eg giore þad, hvad eg vil eige, þa samþycke eg þad, ad Logmaled sie gott.

17. So giore eg nu þa ei þad sama, helldur su Synd sem med mier bygger.

18. Þvi eg veit, ad j mier, þad er j mijnu Hollde, bygger eckert gott. Viliann hef eg, enn ad fullkomna þad goda finn eg ei.

19. Þviad þad goda sem eg vil, giore eg eige.

20. Helldur þad vonda, hvad eg vil eige, þad giore eg, enn first eg giore þad hvad eg vil eige, þa giore eg eige þad sama, helldur su Synd sem j mier bygger.

21. So finn eg j mier eitt Logmal, ad þa eg vil (b) giora hid goda, loder vid mig þad vonda.

(b) Ad giora, kallast hier ei ad fullkomna Verked, helldur ad finna til, ad Gyrnd og Lysting hrærer sig, enn

ad

ad framkvæma, er ad lifa alldeiles hreinn a Gyrnda, þad skiedur ei j þessu Lijfe.

22. Hviad mig lyster til GUds Logmals epter hinum (c) Innra Mannenum.

(c) (Innra) Innre Madurenn kallast hier Ande, sem fæddur er af Naadenni, hvør ad er j þeim Heilögu, og strijder j möte þeim ytra Mannenum, þad er a mote Skinseminne, Skilningarvitunum, og øllu þvi natturlegt er j Mannenum.

23. Enn eg sie þo annad Logmal j mijnum Limum, þad er j motstrijder mijnu hugskots Logmale, og færer mig herleiddann j Syndarennar Logmal, hvort ad er j mijnum Limum.

24. Eg vesall Madur, hvør mun frelsa mig af Lijkama þessa (d) Dauda?

(d) (Dauda) Dauda kallar hann hier þa Eymd og Mædu sem er j Strijdenu a mote Syndenne, so sem Pharao sagde, Exod. 8. Tak þennann Dauda fra mier, þad voru Grashoppurnar.

25. Eg þacka GUde fyrer JEsum Christum Drottenn vorn, so þiona eg nu med Hugskotenu GUds Logmale, enn med Holldenu Syndarennar Logmale.

## VIII. Capitule.

Paulus (I) seger øllum Truudum fyrer vijst, ad jafnvel þott Syndenn bue en þa j þeim, þa seu þeir þo samt i Naad hia GUde, fyrer Saker Christi, ef þeir, fyrer Adstod Heilags Anda, strijda a mote Syndenne (II) Eyder øllu þvi þungbærn sem synest ad kynne ad yferbuga Truarennar Naad i oss.

1. So er nu eckert (a) Fordæmanlegt j þeim sem j JEsu Christo eru, þeir sem eige ganga epter Holldenu, helldur epter Andanum.

(a) (Fordæmanlegt) þo ad Syndenn upræsest enn nu j Holldenu, þa fordæmer hun þo ei, af þvi, ad Andenn er Riettlaatur og stendur a moote Syndenne. Enn hvar eige er Andenn, þar veikest Logmaaled og verdur yfertroded af Holldenu, so ad omøgulegt er, ad Logmaaled stode Mannenum, nema til Syndar og Dauda. Þar fyrer sende GUd Son sinn og lagde vorar Synder uppa hann, og hialpade oss so, ad uppfylla Logmaaled fyrer sinn Anda.

2. Hviad Logmaaled þess Anda sem oss lijfgar j Christo JEsu, hefur giort mig frialsann af Logmale Syndarennar og Daudans.

3. Þvi hvad Logmalenu var omøgulegt (med þvi þad veiktest fyrer Hollded) þad giorde GUd, og sende sinn Son j casynd Syndugs Hollds, og fordæmde Syndena j Holldenu, fyrer Syndena.

4. So ad Riettlætingenn sem Logmaled heimte, uppfylldest j oss, sem eige gøngum epter Holldenu, helldur epter Andanum.

5. Hviad þeir sem (b) holldleger eru, eru holldlega sinnader, enn hiner sem andleger eru, þeir eru andlega sinnader.

(b) (Ad vera holldlega sinnadur) er, ad skeyta ecke um GUd, edur ad ackta hann einskis, og skilia eckert þar af.

6. Enn holldlega ad vera sinnadur er Daude, enn ad vera andlega sinnadur er Lijf og Fridur.

7. Hviad Holldlega ad vera sinnadur er Fiandskapur j giegn GUde, af þvi ad þad er ecke GUds Logmale underorpid, þad fær þess og ei orkad.

8. So gieta eige þeir sem holldleger eru, GUde þocknast.

9. Enn þier erud ecke holldleger, helldur andleger, so framarlega GUds Ande bygger j ydur, enn hvør hann hefur eige Christi Anda, sa er eige hans.

10. Enn ef Christur er j ydur, þa er Lijkamenn ad Sønnu daudur Syndarennar vegna, enn Andenn er Lijfed fyrer Riettlætingar saker.

11. Þvi ef hans Ande sem JEsum uppvakte af dauda, bygger j ydur, þa mun og sa same sem Christum uppvakte af Dauda, og ydra daudlega Lijkame Lifande giora, fyrer hans Anda sem j ydur byr.

Pistillenn VIII. Sunnud. ept. Trinit.

12. Þar fyrer erum vier, Kiærer Brædur, nu eige Holldsins Skulldunautar, þad vier skylldum epter Holldenu lifa.

13. Þvi ef þier lifed epter Holldenu, munud þier deya, enn ef þier deyded fyrer Andann Holldsins Giorder, munud þier lifa.

14. Þvi

14. Pvi þeir sem GUds Ande leider, þeir eru Guds Born.

15. Þvi þier hafid eige medteked Prældoms Anda, so þier þurfed aptur ad ugga um ydur, helldur hafed þier medteked einn Oskabarna Anda, fyrer hvorn vier kollum, Abba elsku-legur Fader.

16. Sa same Ande ber Vitnisburd med vorum Anda, þad vier erum GUds Born.

17. Enn fyrst vier erum Born, so erum vier og Erfingiar, og Samarfar Christi, ef vier lijdum annars med honum, uppa þad, ad vier verdum eirnenn med honum uphafder til Dyrdarennar.]

Pist. IV. Sunnud. ept. Trinit.

18. Pviad eg helld þad so, ad Motlæting þessara Tijma, sie ecke verd þeirrar Dyrdar sem vid oss mun opinberud verda.

19. Pviad Ahyggiusamlegt Epterbid Skiepnunnar, bijdur epter Opinberan GUds Barna.

20. Med þvi þo, ad Skiepnann er Hiegomanum undergiefinn, oan hennar Vilia, helldur fyrer hans Saker sem hana hefur underlagt.

21. Uppa Vonina, þviad Skiepnann mun og frelsud verda, af þrælkan forgeingelegrar veru, til dyrdarlegs Frelsis GUds Barna.

22. Pvi vier vitum þad allar Skiepnur hafa Forleinging med oss, og bera enn jafnann (c) Kvijda.

(c) (Kvijda) so sem Kvinnur hafa j fædingar Neyd.

23. Ei alleinasta þær, helldur vier sialfer sem hofum Andans Frumvoxt, oss forleinger med oss sialfum epter Oskabarna riettenum, og væntum epter Lausn vors Lijkama.]

24. Pviad vier erum Saluhialpleiger, enn þo j Voninne, þvi su Von sem siest, er eige Von, eda hvorsu kunnum vier þess ad vona sem vier siaum?

25. Enn ef vier vonum a þad er vier siaum ecke, þa bijdum vier þess med Polinnmæde.

26. So hialpar og Andeinn lijka vorum Breiskleik, þviad vier vitum ecke hvad vier skulum bidia, sem þad biriade, helldur bidur Andenn fyrer oss, med O-umrædanlegre andvarpan.

27. Enn hann sem Hiortun ransakar, veit hvad Andans Meining er, þviad hann bidur fyrer Heilogum, epter þvi er GUde hagar.

28. Enn vier vitum, ad þeim, sem GUd elska, þiena aller Hluter til hins besta, þeim sem epter Fyrerhyggiunne kallader eru.

29. Pviad hvoria hann hefur aadur fyrerhugada, þa hefur hann og tilskickad, þad þeir skylldu verda samlijker hans Sonar J-mind, so ad hann sialfur sie Frumgetningur, a medal margra Brædra.

30. Enn hvoria hann hefur Fyrerhugada, þa hefur hann og kallad, enn hvoria hann hefur Kallad, þa hefur hann og Riettlaata giort, enn hvoria hann hefur Riettlætta, þa hefur hann og Dyrdarlega giort.

II. 31. Hvad vilium vier þa framar seigia? er GUd med oss, hvor kann þa vera a mote oss?

32. Hvor ad ei þirmde sijnum Eiginnlegum Syne, helldur gaf hann ut fyrer oss alla, hvornenn skyllde hann þa eige giefa oss alla hlute med honum?

33. Hvor vill aasaka GUds Utvalda? GUd er hier sem Riettlæter.

34. Hvor er hann sem Fordæmer? Christur er hier sem Daid hefur, ja miklu helldur sa sem upp aptur er vakenn, hvor ad er til hægre Handar GUde, og bidur fyrer oss.

35. Hvor vill oss skilia vid GUds Elsku? Hormung edur Motlæte? Ofsokn edur Hungur? Klædleyse edur Haske? edur Sverd?

36. So sem ad skrifad er, * fyrer þig verdum vier deydder allann Dag, og erum reiknader sem Sauder til draps ætlader.

* Psalm. 44, 23.

37. Enn j ollu þessu berum vier langt af, vegna hans er oss elskade.

38. Pviad eg em þess Full-oruggur, ad hvorke Daude nie Lijf, hvorke Eingell nie Hofdingiastietter, eda Magt, hvorke hid Nalæga nie hid Okomna.

39. Eige Hæd, eda Dypt, nie nockur onnur Skiepna, fær oss skilid fra Guds Kiærleika hvør ad er j DRottne vorum JEsu Christo.

## IX. Capitule.

Paulus kenner (I) ad Utvalning Syndaranna til Eylijfs Lijfs se ecke fyrer-vorn Verdugleika, helldur fyrer Guds Nadar-Rijku Kollun: (II) og ad Gud utvelie þaa sem trua a JEsum, og utskufe þeim sem ecke trua a JEsum.

1. Eg seige Sannleik j Christo, og lyg eige, þess mier ber vitne mijn Samvitska, j Heilögum Anda.

2. Ad eg hefe oan aflats storann harm, og Hriggd j mijnu Hiarta.

3. Eg hefe æskt mier, ad vera bölvadur fra Christo fyrer mijna Brædur, hvorier ad eru mijner frændur epter Holldenu.

4. Sem eru af Israel, hvorium Oska-Barna Riettur inn til heyrer, og so Vegsemdenn, Sattmaalenn og Logmalid, Guds þionustann og Fyrerheited.

5. Hvorra Fedur eru og þeir, sem Christur er utaf komenn epter Holldenu, sa sem ad er Gud yfer öllum hlutum, Blessadur ad Eylijfu, Amen.

6. Enn eg tala eige þetta til þess, ad Guds Ord skylldu þar fyrer ute vera. Þviad þad eru ecke allt Israels Menn, sem af Israel eru.

7. Og ecke aller þeir Born sem af Abrahams Sæde eru, helldur * skal þier j Isaac þad Sæde nefnt verda. * 1 B. Mos. 21, 12.

8. Þad er, þeir eru ecke aller Guds Born, sem epter holldenu eru Born, Helldur verda þeir sem eru Fyrerheitesins Born, fyrer Sæd reiknader.

9. Þviad þetta er Fyrerheitis ordid, þar hañ seiger, * A þennann tijma mun eg koma, og þa skal Sara Son hafa. * 1 B. Mos. 18, 10.

10. Þessu er ecke alleinasta so hattad um hana, helldur og þa * Rebecca var þungud, af þeim eina Fodur vorum Isaac.
* 1 B. Mos. 25, 21.

11. Adur enn Bornenn voru fædd, og þaug hofdu giort hvorke gott nie vondt, So ad Guds Fyrerhyggia stødug stæde epter Utvalningunne.

12. Eige utaf Verdskulldan Verkanna, helldur utaf Nad þess er kallade, Pa var sagt til hennar, * Hinn meire skal þiona þeim minna. * 1 B. Mos. 25, 23.

13. Epter þvi sem skrifad stendur, * Jacob elskade eg, enn Esau hafde eg ad hatre.
* Malach. 1, 2. 3.

14. Hvad viliumm vier þa hier til seigia? Er Gud þa Ranglatur? Langt sie fra þvi.

15. Þvi hann seiger til Moysen, * Hvorn eg nada þeim er eg nadugur, og hvorium eg miskuna þeim em eg miskunsamur.
* 2 B. Mos. 33, 19.

16. Þvi er þad ei komid under nockurs vilia edur til-hlaupe, helldur under Guds Miskunsemd.

17. Þvi Ritningenn seiger til Pharao, * Til þess upvakte eg þig, ad eg synde mijna magt a þier, so ad mitt Nafn kunngiorist um öll Lond. * 2 B. Mos. 9, 16.

18. So miskunar hann nu þeim hann vill, og forherder þann hann vill.

19. So seiger þu til mijn, Hvoria skulld giefur hann oss þa? Þvi hvør fær hans Vilia j mote staded?

20. Ja, godur Madur, Hvør ertu þa, ad þu villt ganga j Laga Þrætu vid Gud? Seiger nockud Esnid so til Smidsins, Hvar fyrer giorder þu mig so?

21. Eda hefur ecke Leyrkierasmidurinn valld til, vot af einum Mo ad giora annad Kierid til Heidurs, enn annad til Smanar?

22. Þvi þa Gud villde audsyna Reidena, og kunngiora sijna Magt, hefur hann med mikille Þolinnmæde umlided Kierinn Reidinnar, sem buinn eru til Fordæmingar.

23. Uppa þad hann synde Rijkdom sinnar Dyrdar a Kierum Miskunarinnar, þaug hann hefur tilbuid til Dyrdarennar.

24. Hvoria hann hefur og so kallad, sem er oss, Ei einasta þa sem utaf Gydingum eru, helldur og eirnenn ut af Heidingium.

25. So sem hann seiger fyrer Oseam, * Eg mun þad kalla mitt Folk, sem ecke var mitt Folk, Og þa mijna Unnustu, sem ecke var mijn Unnusta. *Osea. 2, 25.

26. * Og þad mun vera, ad j þeim stad, hvar til þeirra var sagt, Pier erud ecke mitt Folk, þar skulu þeir kallader verda Born Lifanda Guds. * Os. 2, 1.

27. Enn Esaias kallar fyrer Israel, * þott tala Israels Barna være sem Siafar Sandur, Pa mundu þo þeir sem afgangs eru Holpner verda. * Es. 10, 22. 23.

28. Þviad þar mun skie ein Fordiorsun og (a) Hialp, til Riettlætis, og DRottinn mun giora þa Hialp a Jordu.

(a) (Hialp) Enn þo meste parturenn falle fra, og verde Vantruadur, þa skal hann þo ecke lata alla frafalla, helldur vernda þa sem epter verda, og fyrer þa wtbreida sitt Ord og Naad þess rijkuglegar, fyrer hvort þeir verda Riettlaater og dyrdleger.

29. Og so sem Esaias sagde aadur fyrre, * Nema ef DRottinn Zebaoth hefde oss Sæde epterlaatid, þa værum vier ordner sem Sodoma, og lijka sem Gomorra. * Es. 1, 9.

II. 30. Hvad vilium vier nu hier til seigia? Pad vilium vier seigia, Heidingiarner sem ei hafa Riettlætenu epterfilgt, hafa Riettlæted hondlad, Enn eg seige af þvi Riettlæte sem utaf Trunne kiemur.

31. Enn Israel hefur epter Logmalsins Riettlæte stundad, og hefur þo ecke komist ad Logmalsins Riettlæte.

32. Hvar fyrer? Þviad þeir hafa eige leitad þess ut af Trunne, helldur so sem ut af Logmalsins Verkum, Þviad þeir hafa rekid sig a þann (b) aasteitingar Stein.

(b) (Asteitingar) Christur rietlæter aan Verkanna, enn honum trua þeir ei, med þvi reka þeir sig a hann og hneixla sig a honum.

33. Epter þvi sem skrifad er, * Siaed ad eg set j Zion einn aasteitingar Stein, og Hneixlunar Hellu, Og hvor hann truer a hann, sa skal ecke ad hneixlan verda.

* Esa 8, 6. cap. 28, 16.

# X. Capitule.

Paulus stadfester Framveges, ad vor Utvalning til Eylijfs Lijfs kome ecke fyrer Rettlæte Logmaalsins, helldur af Rettlæte Evangelii.

Kiærer Brædur, þad er Osk mijns Hiarta, og grootleg Bæn til Guds fyrer Israel, ad þeir hialpudust.

2. Þvi eg ber þeim vitne, ad þeir vandlæta um Gud, enn ei med Skinsemd.

3. Þviad þeir þeckia ecke þad Riettlæte sem fyrer Gude gilder, Og leita vid upp ad rietta sijnar eigenlegar Riettlætingar, Og eru so þvi Riettlæte sem fyrer Gude duger, ecke undergi-ner.

4. Þviad endalok Logmalsins er Christur, hvor sem a hann truer, sa er Riettlatur.

5. Moyses skrifar ad sonnu um þad Riettlæte sem kiemur utaf Logmalenu, * Hvor sa Mann sem þad giorer, hann (a) mun lifa þar inne. * 3 B. Mos. 18, 5.

(a) (Lifer) þad er, Fyrer þan Utvortis verkenn kiemst hann undann utvortis hegningu Logmaalsins, enn þad er ecke nog fyrer Gude.

6. Enn þad Riettlæte sem utaf Trunne kiemur, seiger so, * Seig þu ei j þijnu Hiarta, Hvor vill uppstiga j (b) Himinenn? (þad er eige annad, enn Christum nidur hingad ad sækia.)

* 5 B. Mos. 30, 12. 2c.

(b) (Himeninn) Hvor hann ecke truer ad Christur sie daenn og upprisenn, til ad giora oss Riettlaata af Syndenne, hann seiger, Hvor er farenn upp til Himna? Og hvor er farenn nidur j Diupped? Enn þetta giora þeir sem med Verkunum, enn ecke fyrer Truna vilia Riettlaater verda, þo ad þeir tale so med Munnenum, enn ecke med Hiartanu. Einkanlega er ad athuga þetta Ord, i Hiarta.

7. Eda hvor vill nidur stijga j underdiupid? (þad er ei annad enn Christum af Dauda aptur ad sækia.)

8. Enn hvad seiger hun? Orded er þier nalægt, sem er j þijnum Munne og j þijnu Hiarta. Þetta er Truarinnar ord, hvort vær predikum.

9. Þvi ef þu vidurkienner JEsum med þijnum Munne, ad hann sie DRottenn, og truer

truer j þijnu Hiarta, þad Gud hafe uppvaked hann af Dauda, þa muntu hialpast.

10. Þvi ef Menn trua af Hiarta, verda Menn Riettloater, og ef Menn vidur-kienna med Munninum, verda Menn hialpleiger.

11. Þvi Ritningenn seiger, * Hvor a hann truer, sa mun eige verda til skammar.

* Esa. 28, 16.

12. Hier er einginn greinarmunur, a millum Gydinga og Grickia, þeir hafa aller einn DRottenn, sem er Rijkur yfer ollum, þeim hann aakalla.

13. Þvi * hvor hann aakallar Nafn DRottens, sa mun holpenn verda. * Joel. 2, 32.

14. Eñ hvornenñ skulu þeir kalla a þañ, a hvorn þeir trua eige? Enn hvornenn skulu þeir trua a þann, af hvorium þeir hafa ei heyrt? En hvorninn skulu þeir heyra aan Predikaranna?

15. Eda hvornenn skulu þeir meiga predika nema þeir sieu sender? So sem skrifad er, * Hvorsu Frider eru Fætur þeirra, sem Fridinn boda, þeir ed boda hid goda.

* Esa. 52, 7. Nah. 1, 15.

16. Enn þeir eru þo ei aller Gudspiallenu hlyduger, Þvi Esaias seiger, DRottinn, * Hvor truer vorre Predikan?

* Esa. 53, 4.

17. Fyrer þvi kiemur Truenn utaf Predikunenne, enn Predikunenn fyrer Guds ord.

18. Enn eg seige, Hafa þeir eige heyrt þad? * Sannlega er þeirra Hliomur um oll Lond utgeinginn, og þeirra Ord um alla Verolld. * Psalm. 19, 5.

19. Enn eg seige, Hefur Israel eige heyrt þad? J firstu seiger Moyses, * Eg mun æsa ydur upp til vandlætingar yfer þeim sem ei er mitt Folk, og yfer Skinlausre Þiod, mun eg erta ydur til Reide. * 5 B Mos. 32, 21.

20. Enn Esaias þorer vel so ad seigia, * Eg em af þeim fundinn sem ei hafa mijn leitad, og þeim auglystur sem eige hafa ad mier spurt.

* Esa 65, 1.

21. Enn til Israels seiger hann, * Allann Dag hef eg mijnar Hendur utbreidt, til Folks þessa, er ei vill aahlijdast, og motmæler.

* Esa. 65, 2.

# XI. Capitule.

Paulus (I) huggar þaa Truudu Gydinga, ad þeir seu utvalder af Naad, aan Verkanna; Enn hann kenner einnig, ad þeir Vantruudu seu Utskufader; (II) aaminner þaa af Heidinginunum sem høfdu giørst Truader, til Audmyktar; og (III) Furdar sig yfer Guds Ørannsakanlegum Domum.

1 So seige eg nu, Hvort hefur Gud þa sitt Folk fra sier reked? Fiærre sie þvi, Þviad eg em og Israels Madur, utaf Abrahams Sæde, af Kine BenJamin.

2. Gud hefur ecke sitt Folk fra sier reked, þad hann hefur aadur (a) Fyrerhugad.

(a) (Fyrerhugad) þad eru ei aller Guds Menn sem Kallast Guds Menn, þar fyrer skulu þeir og ecke aller j burtkastast, þo ad stærste Parturenn verde burtkastadur.

3. Eda vited þier ei hvad Ritningenn seiger af Elia? Hvorninn hann gieck framm fyrer Gud, j giegn Israel og sagde, * DRottenn, Spamenn þijna hafa þeir jhel sleiged, og þijn Olturu uppgrafed, og eg em eirn epterblifenn, og þeir umsitia mitt Lijf. * 1 B. Kon. 19, 10.

4. Enn hvad seiger honum Gudlegt Andsvar? * Sio þusunder manna hef eg loated mier epterblijfa, þeir sem ei hafa beygt sijn Knie fyrer Baal. * 1 B. Kon. 19, 18.

5. So geingur þad nu og til a þessum tijmum, med þessum sem epter eru ordner epter Utvalningu Naadarinnar.

6. Enn first þad er utaf Naadinne skied, þa er þad ecke af Verkanna forþienustu, annars være Naadenn einginn Naad, Enn er þad utaf Verkanna forþienustu, þa er Naadenn eckert, Ellegar være Verdskulldanenn einginn Verdskulldan.

7. Hvorninn þa? Þad Israel epterleitar þad hefur hann eige odlast, enn (b) Utvalningeñ odladest þad, enn þeir adrer eru forherdter.

(b) (Utvalningenn) þad eru þeir sem eru utvalder af Guds Folke.

8. Epter þvi sem skrifad er, * Gud gaf þeim eirn þverwodar Anda, og Augu ad þeir sia eige, og Eyru ad þeir heyra eige, allt til þessa Dags. * Esa. 6, 9. 10.

 9. Og

9. Og David seiger, * Peirra Bord loat þeim verda ad Snoru, og til Fiotrunar og Hneixla, og þeim til Endurgiallds.
* Psalm. 69, 23. 24.

10. Forblinda og þeirra Augu, so þeir siae eige, og beyg alltijd þeirra Hrigg.

11. So seige eg nu, Hafa þeir þar fyrer rekid sig a, ad þeir skylldu falla? Langt sie þar fra, Helldur er utaf þeirra hrasan, Heidingium heilsugiof ordenn, so ad þeir skylldu vera vandloater epter þeim.

12 Þvi ef þeirra Fall er Heimsins Audlegd, og þeirra Skade Heidinna manna Rijkdomur, Hvorsu mikid meir være þad, ef þeirra tala full yrde?

13. Vid ydur Heidingia tala eg, med þvi ad eg em Postule Heidinna Manna, vil eg mitt Embætte heidra.

14. Ef eg giæti hvatt þa sem mitt Holld eru, til vandlætingar, og nockra af þeim hialplega giort.

15. Þvi ef þeirra glatan er Heimsins forlijkun, Hvad være þad annad enn ad (c) taka Lijfed fra þeim Daudu?

(c) Ad taka Lijfed af þeim Daudu er eckert, Hvornenn skyllde þa Heidingianna Lijf koma þar af, ad Gydingarner eru fra-fallner og Dauder, miklu helldur skylldu þeir Daudu Gydingar uppvekiast af Heidingianna Dæmum Supra ut illos æmulentur. &c.

16. Þvi ef sa Firste Grodinn er Heilagur, þa er og Deigid heilagt, Og ef Rootinn er heiløg, þa eru og Kvisterner heilager.

II. 17. Enn þo nockrer af Kvistunum sieu afbrotner, og þu sem varst villur Vidsmiørs Vidur, ert a millum þeirra jnnplantadur, og ert ordinn hluttakare Oliutriesins Rootar, og Vøkva.

18. Fyrer þvi skalltu eige hrosa þier j giegn Kvistunum, Enn ef þu hrosar þier j giegn þeim, þa matt þu vita, ad þu ber eige Rootena, helldur Rootenn þig.

19. Þu seiger so, Kvisterner eru þvi afbrotner, ad eg yrde jnnplantadur.

20. Þad er vel sagt, fyrer sinnar Vantruar saker eru þeir afbrotner, enn þu stendur fyrer Truna, Vert þu eige Metnugur, helldur Ottasleigenn.

21. Þvi ef Gud hefur ecke þirmt noatturlegum Kvistum, verda ma ad hann þirme þier eige helldur.

22. Þar fyrer sia þu godgyrne Guds og Alvøru, Alvøru a þeim sem fallner eru, enn godgyrnena a þier, ef þu stødugur blijfur j godgyrnenne, ellegar verdur þu og eirnenn afhøggvenn.

23. Og hiner adrer ef þeir blijfa eige j Vantrunne, þa verda þeir jnnplantader, þviad Gud er mœattugur til ad jnnplanta þa aptur.

24. Þviad siertu hoggvinn af þvi Oliutrie, sem af Noatturunne var Ville-vidur, og j mot Noatturunne ert jnnplantadur, a hid goda Vidsmiørs tried, miklu framar munu þeir þa sem epter Noatturunne eru, jnnplantast sijnum eigenn Vidsmiørs Vide.

25. Eg vil eige dylia fyrer ydur, Kiærer Bræ dur, þennann leyndann Dom, so ad þier sieud eige metnadarfuller; Forherding er skied einn part Jsrael, þangad til ad Tala Heidingianna er jnn komenn.

26. Og allur Jsrael verde so holpenn, epter þvi sem skrifad er. * Ut af Zion mun koma sa sem Frelsar, og umsnyr Ogudlegu athæfe af Jacob. * Es. 59, 20.

27. Og þetta er mitt Testament vid þa, nær eg burt tek þeirra Synder.

28. Epter Evangelio eru þeir Ovjner fyrer ydar saker. Enn epter Utvalningunne Elskader fyrer Fedranna saker.

29. (d) Guds Giafer og Kallan kunna ei ad jdra hann.

(d) (Guds Giafer) Gud hefur giefed oss sinn Son, og kallad oss fyrer sitt Evangelium, hvør hann vill ecke heyra, vid þann mun hann eckert sierlegt og einkanlegt giøra, so sem Pistilenn til Ebreos 6, og 10. avijsar.

30. Þviad lijka so sem þier hafed eige fordum truad a Gud, enn nu hafed þier Miskun odlast yfer þeirra Vantru.

31. So

31. So hafa nu hiner og eige viliad trua a Miskun þa sem þier hafed hloted, so ad þeir mættu og Miskunseme odlast.

32. Þviad GUD (e) oalycktade alla under Vantrunne, uppa þad ad hann miskunade öllum.

(e) (Alycktade) Athuga þessa Hofudgrein, sem fordæmer öll Verk og Mannlegt Riettlæte, og upphefur alleinasta GUDs Miskunseme sem Menn fa fyrer Truna.

Pistill. a Heilagrar Þrenningar Hatijd.

II. 33. O Hvilijk Dypt Audæfanna, bæde Spekennar og so GUDs Viturleikens, a̋gar! Hvorsu Osinnanleger eru hans Domar, og Oransakanleger eru hans Veiger!

34. Þvi hvor hefur þeckt HErrans Sinne? Eda hvor hefur hans Roadgiafe vered?

35. Eda hvor hefur honum nockud fyrre giefed, so ad honum mætte þad verda endurgollded?

36. Þviad af honum, og fyrer hann, og j honum eru aller hluter; honum sie Dyrd ad Eylijfu, Amen.]

## XII. Capitule.

Pauli aminning (I) til margvislegra Christelegra Dygda; og (II) Einkanlega til Kiærleikans.

Pistillenn I. Sunnud. epter Þrettanda.

I. Eg aminne ydur, Kiærer Brædur, fyrer Miskun GUDs, ad þier giefed ydra Lijkame til þess Offurs sem Lifande er og Heilagt, og GUDe þacknæmt, hvort ad er ydar (a) Skinsamleg Þionusta.

(a) (Skinsamleg) S. Paall kallar hier öll Offur, Verk og GUDs þionustu, oskinsamlega, þa þaug skie fyrer utan Truna og GUDs Kynningu.

2. Og hegded ydur eige epter þessum Heime, helldur giored ydur umskiptelega med Endurnyungu ydvars Hugskots, so ad þier meiged reyna hvor ad sie godur, þægur og algiordur GUDs Vilie.

3. Þviad eg seige fyrer þa Naad sem mier er giefenn, hvorium sem einum ydar a mille, þad eingenn hallde meir ut af sier enn honum ber af sier ad hallda, helldur hallde hann vel af sier Hooflega, epter þvi sem GUD hefur utskipt hvorium og einum mæling Truarennar.

4. Þviad lijka sem vier hofum marga Limu a einum Lijkama, enn aller Limerner hafa ei eins Hegdan.

5. Lijka so erum vier marger einn Lijkame j Christo, enn vor a millum erum vier hvor annars Limur.]

Pist. II. Sunnud: ept: Þrettanda.

6. Og hofum marghattadar giafer, epter þeirre Naad sem oss er giefenn. Hafe nockur Spaadom, þa sie hann (b) Trunne lijkur.

(b) (Trunne) Aller þeir Spaadomar sem leida Menn til Verkanna og ecke til Christum; so sem þess einka Trunadartraustsins, hvorsu merkeleger sem þeir eru, þa eru þeir ecke Trunne lijker, so sem Openberingar Frammlidenna, Messur, Pilagrims Reisur, Fostur, og H. Manna Þienustu ad leita.

7. Hefur nockur Embætte, þa giæte hann siins Embættis, (c) Kienner nockur þa vakte hann Kienningena.

(c) (Kienner) vier kiennum þeim sem ecke adur vita edur skilia, enn Menn aminna þa sem adur vita.

8. Aminner nockur, þa hygge hann ad þeirre Aminningu, Giefur nockur, þa giefe hann einfalldlega, Stiornar nockur, þa stiorne hann med ahyggiu, Fremur og nockur Miskunseme, þa giore hann hana med godfyse.

II. 9. Elskann sie flærdarlaus, Hated hid vonda, enn lođed a hinu goda.

10. Ydar Brodurlegur Kiærleike sie af Hiarta ydar a mille, hvor verde fyrre til virding ad veita odrum.

11. Vered eige later, j þvi þier eiged ad vinna, verid gleande j Andanum, hegded ydur epter Tijdenne.

12. Vered glader j Vonenne, enn þolennmoder j Kvolenne, stadfaster j Bænenne.

13. Anneſt Naudþurfter Heilagra, kostgiæfed Giestrisne.

14. Blessed þa er ydur ofsækia, blessed enn bolved eige.

15. Fagned med Fagnendum, enn Grꜳted med Grꜳtendum.

16. Vered samhuga jnnbyrdis, stunded ei þad, hvad hꜳtt er, helldur hallded ydur nidur til þeirra Lꜳgu.]

Pistill. III. Sunnud. ept. Þrettꜳnda.

Halldid ydur ei sialfer vijsa.

17. Gialldед ongvum illt a mote illu, leggid kapp a Godmennsku vid hvorn Mann.

18. So miked sem mogulegt er, þa hafid Frid vid alla Menn.

19. Hefned ydar ecke sialfer (mijner elskulegustu) helldur giefid rꜳm Reide (GUDs) þviad skrifad er, * Mijn er Hefndenn, Eg vil endurgiallda seiger DROTTinn.

* 5 B. Mos. 32, 35.

20. Nu, ef Ovin þinn hungrar, þa gief honum Fædu, Þyrster hann, þa gief honum ad drecka, Nær þu giorer þetta, þa safnar þu (d) Glodum Ellds yfer Hofud honum.

(d) (Gloodum) Adleggia Ellds glöder uppa Høfuded, er þad, ad vor Ovinur verdur sialfum sier reidur, vegna vorra Velgiørda, þad hann hefur giørt so illa vid oss.

21. Lꜳt ei yferstijga þig hid vonda, helldur yfervinn þu hid vonda med godu.]

# XIII. Capitule.

Paulus talar um Skylldu hinna Rettlætu (I) vid veralldlegt yfervalld; (II) vid Nꜳungann; og (III) vid sig sialfa.

I. Hvor Madur sie Valldstiorninne undergiefinn, sem yfer honum Magt hefur, þvi þar er eige nockur Valldstiorn, utann af GUde, Enn hvar Valldstiornenn er, þa er hun af GUde skickud.

2. Hvor nu motstendur Valldstiornenne, sa stendur j mote GUds Skickan, Enn þeir sem j mote standa, munu yfer sig taka Doms ꜳfelle.

3. Þviad Valldid er ei godum Verkum, helldur vondum til skielfingar, Enn villtu eige ottast Valldstiornena, þa gior hvad gott er, og muntu Lofstijr af henne hafa.

4. Þviad hun er GUds Þienare, þier til goda, Enn ef þu giører hvad Vondt er, Þa mꜳttu ottast, þviad hun ber eige Sverded forgiefins, Þviad hun er GUds Þienare og einn Hegnare til Straffunar þeim sem illa giorer.

5. So vered nu af Naudsyn undergiefner, eige alleinasta Hirtingarinnar vegna, helldur og lijka eirnenn fyrer (a) Samvitskunnar saker.

(a) (Samvitskunnar) Veralldlegt Valld er vegna Tijmanlegs Fridar, þar fyrer er Samvitskann skylldug vegna tilbærelegs Kiærleika, ad vera þvi undergiefenn.

6. Þar fyrer skulud þier og Skatt giallda, þviad þeir eru GUds Þienarar, sem slijkar Verndaner skulu stirkia.

7. Þvi giefed þad hvorium sem þier skylldugir erud, þeim (b) Skatt, sem Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, þeim Heidur sem Heidur heyrer.

(b) (Skatt) sia hvad gott þad er ad giefa Skatt og veita Hlijdne, þvi þar med hialped þier til ad verndа þa Godu, enn straffa þa Vondu, þar fyrer uned þar vel vid.

Pistillenn IV. Sunnud. epter Þrettꜳnda.

II. 8. Verid ongvum um neitt skyllduger, nema þad þier elsked hvor annann jnnbyrdis, þvi hvor hann elskar annann, sa hefur Logmaled uppfyllt.

9. Þviad þar seigest, * þu skallt ei Hor drygia, ei Mann vega, ei stela, eige Liugvitne mæla, þu skallt og eige girnast, og ef þar er nockud annad Bodord framveigis, þa felst þad j þessum Ordum, ** Elska skalltu Naunga þinn sem sialfann þig.

* 2 B. Mos. 20, 14. rc. 5 B. Mos. 5, 18. rc.
** 3 B. Mos. 19, 18.

10. Elskann giorer ecke Naunganum mein, þvi er nu Elskann Logmꜳlsins Uppfylling.]

Pistillenn I. Sunnud. i Adventu.

III. 11. Og med þvi ad vier vitum slijkt, sem er Tijmann, þad Tijme er upp ad rijsa af Svefnenum (af þvi ad vor Saluhialp er nu nær, helldur enn þa vier trudum).

12. Nottinn er umlidenn, enn Dagurenn tekur ad nꜳlgast, leggium þvi af Verkenn

Mirkranna, og j-skrydunst Herklædum Lios-sins.

13. Leatum oss ganga erliga sem a Deige, eige j Ofoate eda Ofdryckiu, eige j Legukofum, og Munadarlijfe, eige j þrætta nie Ofunds-syke.

14. Helldur j-klædest þier Drottne JEsu Christo, og (c) Ræked Holldid, þo so þad fremie ecke sijnar gyrnder.]

(c) (Ræked) Þad er, pijnid ecke Lijkamann meir enn hann þoler, med obærelegum Heilagleika, Vokum, Fostum, Jhugan, so sem Hræsnarar giora.

## XIV. Capitule.

Paulus aaminer (I.) þaa Rettlætu ad ovirda ecke sinn Brodur þoti hann se veikur: (II) ecke helldur ad fordæma hann, (III) ne ad hneixlast aa honum.

1. Enn þann sem Breiskur er j Trunne þa annist, ecke til (a) Efasamlegra samrædna.

(a) Efasamlegra) þar eru tveggia handa slags Christner, sumer sterker j Trunne, sumer veiker, Þeir fyrre fyrerlyta þa Veiku ofdiarflega, Þeir adrer hneixla sig of-andvellolega a þeim sterku. Nu ættu bader ad haga sier epter Kiærleikanum, so ad hvorrger hriggdu nie dæmdu adra, helldur giørde og licte ogiort, hvad hvorium um sig var naudsynlegt.

2. Annar truer hann meige alls neyta, enn hinn sem Breiskur er, ete hannn Jurter.

3. Enn hvor ed etur hann forsmae ecke þann sem ecke etur, Og hann sem ecke etur, dæme eige þann sem etur, þvi GUd hefur annast hann.

4. Hvor ertu sem annarlegann Þion dæmer? Hann stendur eda fellur sijnum Lavarde, Enn hann fær vel vidriett aptur, þviad GUd er moattugur hann vid ad rietta.

5. Annar helldur meir af odrum Deige, enn af odrum, Hinn annar helldur alla Daga jafna, Hvor einn vere (b) viss uppa sijna Meining.

(b) (Viss) Þad er, sie ecke ostodugur og efasamur j sinne Samvitsku, helldur vere oruggur þar um, ad þad sie einginn Synd fyrer GUde, hvad hellst sem hann etur, eda dreckur.

6. Hann sem af Deigenum helldur, giorer þad fyrer DROTtne, Og hinn sem þar helldur ecke af, hann giorer þad og fyrer DROTtne, Og hvor ed etur, sa etur DROTtne, þviad hann giorer GUde þacker, Og hann sem ecke etur, hann etur eige DROTtne, og giorer GUde þacker.

7. Þviad eingenn vor lifer sialfum sier, og eingenn deyr sier sialfum. Þvi ef vier lifum, þa lifum vier DROTtne, deyum vier, þa deyum vier DRottne.

8. Þar fyrer, hvort vier lifum eda deyum, þa erum vier DROTtins.

9. Þviad þar fyrer hefur Christus daid, og upp aptur risid og endurlifnad, þad hann sie DROTTenn yfer Lifendum og Daudum.

II. 10. Enn þu, hvad dæmer þu þinn Brodur? Eda þu hinn annar, hvar fyrer forsmaar þu þinn Brodur? Þvi vier munum aller stickast fyrer Christi Domstol.

11. Epter þvi sem skrifad er, *So Sannarlega sem eg Life, seiger DROTtinn, (c) Mier skulu oll Knie beygiast, og allar Tungur skulu GUd vidurkienna. *Es. 45, 23.

(c) (Mier) þa hlytur Christur ad vera Sannur GUd, med þvi slijkt skal ske fyrer hans Domstole.

12. Þa mun og hvor sem eirn fyrer sialfann sig giora GUde Reikningsskap.

III. 13. Fyrer þvi latum oss nu eige framarmeir dæma hvorumannann, Helldur dæmed þad miklu framar, ad eingenn setie nockra aasteiting edur Hneixle fyrer sinn Brodur.

14. Eg veit þad, og em þess fullvijs j Drottne JEsu, ad þar er Eckert almennelegt j sialfu sier, nema þeim sem þad reiknar fyrer almennelegt, honum er þad (d) almenneligt.

(d) (Almennelegt) Þad er so miked sem saurugt, eda Oklaart, so sem Þad er eige er vijgt nie helgad.

15. Nu ef Broder þinn sturlast fyrer þinnar Fædu saker, þa geingur þu þegar eige epter Kiærleikanum, Minn kiære; Fordiarfa eige þann med þijnum mat, fyrer hvorn Christur er dainn.

16. Fyrer þvi kostid kapps aa, ad (e) ydar Audur verde eige lastadur.

(e) Ydar Audur, Evangelium er vor Audur, enn Þad, ad Þvi verdur lastan tillogd, vallda Þeir sem Christelegt

ſtelegt Frelſe handtiera, herſelega og ovijſlega, hinum Breiſktruudu til Hneixlunar.

17. Þviad GUds Rijke er ecke Matur og Dryckur, helldur Riettlæte og Fridur, og Fognudur j Heilogum Anda.

18. Hvør hann þionar Chriſto þar med, ſa er GUde þeckur, og Monnum giedfelldur.

19. Fyrer þvi latum oſs ſtunda epter þvi, ſem til fridarens þienar, og þad ſem oſs þienar til betrunar, vor a medal.

20. Minn kiære, fordiarſa þu ei GUds Verk, fyrer Matarins ſaker, aller hluter eru ad ſonnu hreiner, enn þad er honum eige gott ſem þad etur med aſteitingu ſinnar Samvitſku.

21. Miklu betra er, ad þu eter ecke Kiot, og drecker ei Vijn, edur þad nockud ſem þinn Broder ſteiter ſig a, eda argaſt af, edur veikiſt vid.

22. Hafir þu Truna, þa haf hana hia ſialfum þier, fyrer GUde. Sæll er ſa ſem øngva Samvitſku giorer ſialfum ſier, j þvi, hann medtekur.

23. Enn hvør ſem efaſt þar um, og etur þo, ſa er fordæmdur, þviad þad ſkier ecke af Trunne. Enn hvad ei er utaf Trunne, þad er Synd.

## XV. Capitule.

Paulus kenner (I) hvarfyrer þad ege ad umlijda þa med Þolenmæde ſem eru Truar-Veiker; og (II) hverſu ad Menn ſkule Lifad Chriſtelega.

I. Enn vier, ſem ſtirkver erum, ſkulum umlijda Vanmoatt þeirra ſem (a) Breiſkver eru, og hafa eige giedþeckne a ſialfum oſs.

(a) (Breiſkleger) Þeſſe Capitule talar um þa ſem hafa breſt j ſijnu Framferde, ſem þeir ed falla j opinberar Synder, edur Leſte, ad menn ſkule lijda og ecke utſkwfa þeim, þar til þeir ſtirkna. So ſem hann j fyrer-farande Cap. kiennde, ad breita v d veikar Samvitſkur.

2. Og hvør ſem eirn vorra hegde ſier ſo, þad hann þockneſt ſijnum Naunga j godu, til betrunar.

3. Þviad Chriſtur hafde ecke gied-þeckne a ſialfum ſier, helldur epter þvi ſem ſkrifad er, * Þeirra Smaananer ſem þig ſmadu, ſiellu yfer mig. * Pſalm. 69, 10.

Piſtillenn II. Sunnud. i Adventu.

4. Enn hvad ſem adur ſkrifad er, þa er þad ſkrifad oſs til Lærdoms, ſo ad vier fyrer Þolinnmæde og Huggun Ritningarinnar, hefdum Vonena.

5. Enn GUd Þolennmædennar og huggunarennar giefe ydur þad, ad þier ſieud eins Sinnis ydar a mille, epter JEſu Chriſto.

6. So ad þier mættud med einu Samhellde, og einum Munne dyrdka GUd og Fodur vors DROttins JEſu Chriſti.

7. Þar fyrer anneſt hvør annann, lijka ſem Chriſtur annadeſt ydur, GUde til Lofs.

8. (b) Enn eg ſeige JEſum Chriſtum verid hafa (c) Þionuſtumann Umſkurnarinnar, fyrer GUds Sannleika ſaker, til Stadfeſtu Fyrerheitanna, ſem til Fedranna eru ſkied.

(b) Summa Summarum þeſſa Piſtils, er, ad Gud vill ad aller, bæde Gydingar og Heidingiar, verde Saluholpner.

(c) (Þionuſtumann) Þad er Poſtula. Predikara, Sendemann, ſem ſendur var perſonulega til Gydinga, enn ei til Heidingia.

9. Og ad Heidenn Lydur lofade GUd fyrer Miſkunſeminnar ſaker, epter þvi ſem ſkrifad er, * Fyrer þad vil eg vegſama þig, medal Heidinna þioda, og þijnu Nafne ſyngia.
* 2 Sam. 22, 50. Pſal. 18, 50.

10. Og enn aptur ſeiger hann, * Fagned þier Heidingiar medur hans Folke.
* 5 B. Moſ. 32, 43.

11. Og enn aptur, * Lofed þier DROTtenn aller Heidingiar, og mikle hann allur Lydur. * Pſ. 117, 1.

12. Og enn aptur ſeiger Eſaias, * Þad ſkal vera Root Jeſſe, og hann ſem upprijſa mun, til ad ſtiorna heidnum Þiodum, a hann munu Heidner Menn vona.
* Eſ. 11, 10.

II. 13. Enn GUd Vonarinnar, fylle ydur med ollum Fagnade og Fride j Trunne, ſo ad þier hafid gnooglega Von fyrer Krapt Heilags Anda.]

14. Enn

14. Enn eg em (d) fullvijs um ydur, Brædur mijner, ad þier sialfer erud fuller godgyrne, uppfyllder af øllum Skilninge, so ad þier gieted aaminnt hvør annann.

(d) (Fullvijs) Pad er, Þo ad Þier hafed ecke Þørf aa nijju skrife, þa Þreynger mier þo mitt Embætte þar til, hvørt eg hefi af Gudz Naad, ad eg kienne og aaminne ydur, og hvørn Mann.

15. Enn eg dirfdest ei ad sijdur ydur nockud til ad skrifa, Brædur mijner, og ydur ad aaminna, vegna þeirrar Naadar sem mier er af Gude giefinn.

16. Pad eg skule vera Christs Pienare, medal Heidinna Pioda, til ad offra Guds Evangelium, so ad Heidinn Lydur yrde Gude þægelegt Offur, helgad fyrer Heilagann Anda.

17. Par fyrer giet eg hrosad mier j Christo JEsu, ad eg (e) þiona Gude.

(e) (Piona) bad er, eg er hans Kiennemadur.

18. Pviad eg dirfdest ei nockud ad tala, þad Christur ei hefde giort fyrer mig, ad koma Heidinne Piod til Hlijdnennar, Fyrer Ord og giørder.

19. Fyrer Krapt Taaknanna og Stormerkianna, og fyrer Moatt Guds Anda, so ad eg hef j fra Jerusalem, allt um kring, jnn til Jllyricum, uppfyllt allt med Christi Evangelium.

20. Og sierdeilis lagt Kapp a ad predika Evangelium þar, hvar Nafn Christs var eige (f) kunnugt, so ad eg byggde eige uppa annarlegann Grundvoll.

(f) (Ei kunnugt) med þvi þier hafdud aadur lært, þa flytte eg mier þess sijdur til ydar, med þvi eg hafde annarstadar plats, þar Christur var enn nu ecke predikadur.

21. Helldur epter þvi sem skrifad er, *Peim sem eckert var af hønum bodad, þeir skulu þad sia, Og þeir er þad hafa eige heyrt, þeir skulu þad skilia. * Esa. 53, 3.

22. Petta er tilefned, hvørt mier hefur optsinnis taalmad til ydar ad koma.

23. Og first eg hefe nu eige rwm meir j þessum Londum, enn eg hefe þo hast epterlangan um mørg aar ad koma til ydar, þa vil eg koma til ydar.

24. Pa eg reise til Spania. Pviad eg vænte ad eg mune reisa þar um og sia ydur, og af ydur þangad leiddur verda, Po so, ad eg take aadur hvijld hia ydur, um stundar saker.

25. Enn nu reisi eg til Jerusalem, þeim Heilogu til þienustu.

26. Pvi (g) þeir af Macedonia og Achaia, hafa (h) velviliuglega samannlagt nockurn almennelegann peningastirk, þeim Fatæku Heilogum, sem eru j Jerusalem.

(g) Athuga hier Postullega Art, hvad hoffamlega, og liuflega S. Paall oskar þessarar Hialpar af Romverium.

(h) (Velviliuglega) þad er glarnann.

27. Pad hafa þeir viliuglega giort, þeir eru og þeirra Skulldamenn, þvi first hiner Heidnu eru hluttakarar ordner þeirra andlegra Audæfa, þa er skaffellegt ad þeir þiøne þeim adstod, j lijkamlegum Audæfum.

28. Enn nær eg hefe þetta frammkvæmt, og (i) Jnnsiglad þeim þann avoxt, mun eg ferdast fram um hia ydur j Spaniam.

(i) (Jnnsiglad) þad er, trulega og vel geymt, og afhendt þetta fra mier.

29. Enn eg veit nær eg kiem til ydar, þad eg mun koma med fullre Blessan Christs Evangelii.

30. Enn eg beide ydur, Brædur mijner, fyrer vorn DRottinn JEsum Christum, og fyrer Kiærleika Andans, ad þier hialped mier til ad strijda j ydrum Bænum fyrer mier til Guds.

31. So ad eg frelsist fra þeim Vantruudum sem a Gydingalande eru, og þad mijn Pionusta, sem eg giøre til Jerusalem, verde þeim Heilogu þacknæm.

32. So ad eg mætte fyrer Guds Vilia til ydar koma med fagnade, og endurnæra mig med ydur.

33. Enn Gud Fridarins sie med øllum ydur, Amen.

## XVI. Capitule.

Paulus (I) bidur Romveria ad Lidsinna Phebe: II) Heilsar Jmsum i Rom: (III) Rædur Romverium

um ad varast þaa sem kiæme Osamlynde og hneixle i stad: (IV) Romveriar faa Heilsan fraa Jmsum.

I. 1. Nora Systur Phében fel eg ydur a Hendur, hvor ad er Þionustukvinna Safnadarins j Kenchrea.

2. Þad þier medtakid hana j DRottne, so sem Heilogum hæfer, og giored henne hiastod j hvoriu þvi Verke, sem hun kann ydar vid ad þurfa, þviad hun hefur morgum hiastod veitt, og mier sialfum.

II. 3. Heilsid Priscam og Aqvilam, mijnum Hialparmonnum j Christo JEsu.

4. Þau ed sijna Hoalsa hafa utsett fyrer mitt Lijf, hvorium ecke alleinasta eg giore þacker, helldur allur Sofnudur heidinna Pioda.

5. Og heilsid þeim Safnade sem j þeirra husi er, Heilsid Epænetum mijnum elskulegum, sa sem ad frumvoxtur er þeirra j Achaia j Christo.

6. Heilsid Mariam, hvor mikla mædu og Erfide hefur haft med oss.

7. Heilsid Andronico og Junian, mijnum Naafrændum og Sambandingium, hverier Nafnfræger Postular eru, og fyrer mig voru j Christo.

8. Heilsid Amplian mijnum elskulegasta j DRottne.

9. Helsid Urbano vorum Hialparmanne j Christo, og Stachyn mijnum elskulegum.

10. Heilsid Apellen sem forsoktur er j Christo, Heilsid þeim sem eru af heimele Aristobuli.

11. Heilsid og mijnum Frænda Herodionem. Heilsid og þeim af heimkynne Narcissi, sem eru j DRottne.

12. Heilsid Triphena, og Tryphosa, þær ed erfidudu j DRottne. Heilsid Persida elskulegre, hvor ad miked hefur erfidad j DRottne.

13. Heilsid Ruffo hinum Utvalda j Drottne, og hans Modur og minne.

14. Heilsid Asyncritum og Phlegontem, Herman, Patroban, Hermen, og þeim Brædrum sem hia þeim eru.

15. Heilsid Philologum og Julian, Nereum og Systur hans, og Olympan, og ollum Heilogum sem hia þeim eru.

16. Heilsid hvor odrum ydar a mille, med heilogum Kosse, Ydur heilsar Christs Sofnudur.

III. 17. Enn eg minne ydur a, goder Brædur, ad þier hafid gaat a þeim sem Rugl og hindraner uppbiria j giegn þeim Lærdome sem þier hafed lært, og snued fra þeim somu.

18. Þviad þess hattar Menn þiona eige DRottne JEsu Christo, helldur sijnum Maga, og fyrer sætleg Ord, og fagurlegt Maaltæke tæla þeir Hiorta Meinlausra.

19. Þviad ydar hlydne er a medal hvors Manns utkomenn, Fyrer þad fagna eg ydar vegna, Enn eg vil, ad þier sieud vitrer uppa hid goda, og einfallder uppa hid Vonda.

20. Enn Gud Fridarens mun jnnann skams nidurtroda Satan under ydar Fætur. Naad DRottins vors JEsu Christi sie med ydur.

IV. 21. Ydur heilsar Timotheus minn Hialparmann, og Lucius, og Jason, og Sosipater, mijner Naafrændur.

22. Eg Tertius heilsa ydur, sem þetta Brief skrifade, j DRottne.

23. Ydur heilsar Gajus, minn og alls Safnadarins Husbonde, Ydur heilsar Erastus, Borgarennar Fiarrentu Vordur, og Qvartus vor Broder.

24. Naad DRottins vors JEsu Christi sie med ydur ollum, Amen.

25. Enn honum, sem maattugur er ydur ad stirkia epter hliodan mijns Evangelii, og predikanar, utaf JEsu Christo, fyrer hvoria sa Leyndur domur er opinberadur, sem j fra Veralldar Upphafe hefur yfer vered þagad.

26. Enn nu opinnberadur og auglystur fyrer Ritningar Spamannanna, epter bode Eylijfs Guds, Truarinnar Hlijdne til Uppreisingar medal allra Heidinna Pioda.

27. Þeim sama Gude, sem alleina er vitur, sie Dyrd fyrer JEsum Christum ad Eylijfu, Amen.

Til Romveria Sendur af Corintho, fyrer Phében, sem Þionustukvinna var Safnadarins til Kenchrea.

# Formaale hins firra Pistils til Corinthios.

I þessum Pistle aaminner hinn heilage Paall þa j Corintho Borg, þad þeir skule samhelldner vera j Trunne, og j Lærdomenum, hafande vakt a þvi, ad þeir lærdu vel þessa høfudgrein, sem er (þad Christur sie vor Saluhialp) a hvøria grein allar mannlegar skinsemder og Vijsdomar hafa sig reked.

Þvi lijka sem nu upphefia sig a vorum Døgum, j fra þvi ad Evangelium kom j auglios, marger favijser sialfbyrgingar (þa vier kollum Partiska anda, Villumenn, og Kiettara) hvørier allt offnrmma eru kloker og lærder ordner, og eige fa fyrer miklum Meistaradome og Vijsdome halldid sig lijka nockrum, eda samlynda. Sa Eine vill hingad, hinn Annar þangad, so sem ad være þad stor Smaan, ef hvør hefde ei sijna eigenn meining, og frammsette ecke sinn eigenn Vijsdom, hvørium einginn fær sníned aptur til sijns Vitskulensis, enn þo vita þeir j þele nidre, alls eckert, nie underztanda, af hinum rietta Høfud-Grundvelle, þott þeir gialfre margt um þetta, Med Munnenum. Lijka so skiede a Døgum hins heilaga Paals, þa er hann hafde kiennt sijnum j Corintho, þa Christelegu Tru, og Frelsed af Logmalenu, þa hoofu sig og upp hiner faavijsu Sialfbyrgingar, og otijduger Sialfvitringar, sem innleiddu Osamþycke j þann samþyckelega Lærdom, giørande so sundurþyckann flockadraatt, medal truadra manna, þann eine villde vera Paals, hinn annar Apollos, þann eine Petri, enn annar Christi, Eirn villde umskierast laata, enn annar ecke, Þann eine villde giptast, hinn annar ecke, Þann eine villde eta Skurgoda forner, enn annar ecke, Sumer villdu vera lijkamlega frialser, Og nockrar Konur villdu med utslegnu Haare ganga, og slijkt annad þessu lijkt. Þar til þeir komu so fiærre, Þad eirn drijgde svijvirduglegann misverknad a mote Frelsenu, takande sijna Stiupmodur til eigenn ords, Og sumer hielldu alls eckert utaf Upprisunne dandra Manna, Enn adrer nærsta lijtid af Sacramentenu.

Snoggt ad seigia, Þad gierk miøg illa og nærsta oskickanlega til, so ad hvør eirn villde Meistare vera og kienna og þad eina giøra med Gudspiallenn, Sacramentenn, Truna, hvad hønum gott þotte, Og lietu a medan þessa høfudgrein fara, og under fotum liggia, þad Christur sie vor Saluhialp, Riettlæte og Endurlausn; lijka so sem hefdu þeir fyrer laungu kunnad þetta utan ad, Af þvi ad syddan sticke fær ecke vid magt ad blijfa, hvar Menn sialfer upphefia Kloker og vitrer ad þykiast.

Ølln deile lijka, eins og þad geingur nu til med oss; sijdann vier opinberndum j þydverskunne (seiger meistarenn) Þetta Evangelium utaf Gudlegre Naad, þa vill hvør og eirn hinn ædste Meistare vera, og hafa hinn Heilaga Anda alleina, Lijka sem Evangelium være fyrer hann skulld predikad, ad vier skylldum leita vorrar fordilldar, audsynande vorn klokleika, og skinsemd þar inne, So ad þesser Corinthi-Borgarmenn meiga vel vera eitt Epterdæme og Speigell vors Folks a þessum tijmum, hvort ed þorf hefde eins þvilijks Pistels, Enn þad hlytur so ad vera, og so a þad Evangelio ad ganga, þad hiner heimsku sialfbyrgingar og otijduger Vitringar, eiga upp ad biria flockadraatt og hindraner, so ad þeir sem reynder eru (epter þvi sem hier seiger hinn heilage Paall) opinberer verde.

Fyrer þvi straffar og fordæmer hinn heilage Paall slijkann skadsamlegann Vijsdom, nærsta alvarlega, Og giører þvilijka heilaga nefvitringa aptur ad vitleysingum, og seiger bert ut, ad þeir vite eckert af Christo, nie af hans Anda og Afgiøfum, þær oss eru j Christo JEsu veittar, og þeir skulu enn nu taka til ad læra, þeir hliota andleiger ad vera sem þad skulu underztanda, Enn ad vilia vitrer vera, og klokleik sinn j Evangelio ad syna, þad er ein riett hindran, og hamlan, Gud og Christum ad vidurkienna, Enn flockadraatt og sundurþycke upp ad biria, þar er klokleg skinsemd, og Vijsdomur vel tilhæfelegur, so ad þeir verde ad eins Heimsker sialfvitringar, og Christner villingar, Enn DRottenn vorn JEsum Christum fa þeir alldrei riettelega vidurkiennt, nema þeir snuist aptur j hid forna Vitskulensi, og læte sig so lijtellatlegana fæera og læra, fyrer þad einfalldlega Guds Ord, Slijkt giører hann, og um hønd hefur j hinum firsin Fiorum Capitulum.

I hinum Fimta straffar hann þa miklu Oskickun, þess hins sama sem sijna Stiupmodur hafde til Eckta teked, og vill bannfæra hann og Dioflenum giefa, Giefande þar med eirn Riettann Form, hvørnenn Banned ætte ad handtierast, ad þeim sem sekur er, skule seigiast hans opinberer Lester, med samþycke Christelegs safnadar, so sem ad Christur kienner og sialfur, Matth. 18.

I Siøtta straffar hann Agg og Þrætumal fyrer Domstolum, sierdeilis fyrer Heidnum mønnum, og Vantruudum, Og kienner ad þeir skule innbyrdis sakernar forlijka, ellegar Ranginndinn lijda.

I hinum Siounda undervijsar hann af Hreinlijfenu, og Hiuskaparbandenu, lofar Hreinlijfed, og Jungfrurdomenn, ad þeir sem lifa þar j, giete þess betur Gudspiallanna giætt, so sem ad sialfur Christur kienner Matth. 19, 18. af þeim Hreinlijfismønnum sem vegna Gudspiallanna edur Himnarijkis eru hreinlijfer, Enn

Pꜳll vill oraudugann og v-þvingadann Jungfrudóm halldenn hafa utann alls hꜳska meire Synda, annars sie hiuskaparbanded betra, enn hreinlijfis bindindid, þad jduglega veikest j Bruna.

J hinum ꜳttunda allt til hins Tolfta, hondlar hann margvisl ga hvornenn ad vier skulum lijda og handtiera vid breiskvar Samvitskur, j utvortis efnum, so sem ad er, j Matarnautn, Dryckiu og klædaburde, j tijdkan Sacramentanna, Fyrerbiodande j øllum stødum, þad hiner stirkvu skule forsiua þa Veiku, Af þvi ad hann sialfur, þott hann være einn Postule, þa hafe hann sem ꜳdur hallded sig j fra mørgum þeim hlutum þar hann hafde þo godann riett til, Þar til, ad þeir stirkvu meige vera ottaslegner um sig, af þvi ad fordum daga, eru so marger af Israels folke forgeingner, sem þo voru ꜳdur aller samann utleidder fyrer Dasemdarverkenn af Egyptalande, Enn jafnframt þessu frammseiur hann nockrar hialplegar kienningar.

J hinum Tolfta og Þrettanda, hondlar hann, hvørsu margħꜳttadar ad Astgiafer Guds eru, a medal hvørra þad Kiærleikurenn sie þo hin besta, so ad þeir drambe sig ecke, helldur innbyrdis samþyckilega þione hvør ødrum, med þvi, ad þar er eirn Gud, eirn DRottenn, eirn Ande, og alltsamann eitt, hvørsu margħꜳttad sem þad er.

J þeim Fiortanda, kienner hann Predikurum, Spamønnum og Saungmønnum, þad þeir skulu skickanlega jdka sijnar Gꜳfur, alleinasta til betrunar, frammsetia sijnar Predikaner, Kunst og Greineseme, enn ei till eiginnlegrar Lofdyrdar.

J Fimtꜳnda straffar hann þa sømu sem rꜳnglega hafa lært og truad um Holldsins Upprisu.

J hinum sijdarsta minner hann þa a, um brodurlega hialp, ad þeir skulu veita stirk

þeim Þurftugu Tijmanlegrar Næringar.

# Hinn fyrre S. Pꜳls Pistill til Corinthios.

## I. Capitule.

Paulus bydur Eindrægne i Lærdomenum, ꜳn osamþyckes og Þrꜳttana, sem koma af drambe og metnade.

Paulus sem er einn Kalladur Postule JEsu Christi, fyrer Vilia Guds, og sa Broder Sosthenes.

2. Guds Sofnude j Corintho, þeim helgader eru j Christo JEsu, þeim kolludum Heilogum, Samt øllum þeim sem ꜳkalla Nafn DRottins vors JEsu Christi, j øllum þeirra Stødum og vorum.

3. Nꜳd og Fridur, af Gudi vorum Fodur, og DRottni JEsu Christo sie med ydur.

Pistillenn XVIII. Sunnud. epter Trinit.

4. Þacker giøre eg Gude mijnum jafnan ydar vegna, fyrer þa Guds Nꜳd sem ydur er giefinn j Christo JEsu.

5. Þad þier erud fyrer hann j øllum Portum audgader, j øllum Lærdome og j øllum Skilninge.

6. Epter þvi sem su Predikan af Christo, er kroptug ordenn j ydur.

7. So ad þier hafed ongvann brest j nockre Giof, Epterbijdande auglijsingu vors Drottens JEsu Christi.

8. Sa er ydur mun stadfostum hallda, allt ad lokum, so ad þier sieud ostraffanleger a Deige DRottens vors JEsu Christi.

9. Þvi Gud er trur, fyrer hvørn þier kallader erud til (a) Samlags Sonar hans JEsu Christi vors DRottens.]

(a) (Samlags) þad er, þier erud Samarfar og sameigendur allra godra Hluta med Christo.

10. Enn eg aminne ydur, Kiærer Brædur, fyrer Nafn DROttins vors JEsu Christi, þad þier hafid allersamann eina Rædu, og lꜳted eige nockra twijstran vera ydar a mille, Helldur (b) halldid fastlega til samans j einu Sinne, og einne Meiningu.

(b) So ad þier lated ecke giera ydur osamþycka.

11. Þvi mier er so sagt, um ydur, kiærer Brædur, af þeim sem af Cloes Heimkynne eru, ad Þrꜳttan sie ydar a mille.

12. Enn eg seige þar af, þad sa eine seiger ydar a medal, Eg em Pꜳls, sa annar, Eg em Apollos, hinn þridie, Eg em Cephæ, hinn fiorde, Eg em Christi, Hvørnenn?

13. Er Christur þa j sundursk.ptur ? Er nockud Paall fyrer ydur krossfestur? Eda erud þier skijrder j Pals Nafne?

14. Eg þacka GUde, þad eg hefe øngvann ydar skijrt, utann Crispum og Gaium.

15. So ad eingenn kunne þad ad seigia, ad eg hafi skijrt j mijnu Nafne.

16. Eg skijrdi og Heimamenn Stephanæ, Framar veit eg ecke, hvort eg hefe adra skijrt.

17. Þviad Christur sende mig eige til ad skijra, helldur ad predika Evangelium, eige med Ordsnilld, so ad eige yrde Kross Christi ad øngvu.

18. Þviad þetta Ord af Krossenum er heimska þeim sem fortapader verda, Enn oss sem hialpast, er þad GUds Kraptur.

19. Þviad stendur skrifad, * Eg vil ad øngvu giora Vijsdom þeirra Vijsu, og Skilning Skinsamra vil eg burt varpa, Hvar eru þeir Hyggnu? *Es. 29, 14. Abd. v. 8.

20. * Hvar eru þeir Skriftlærdu? Hvar eru Veralldar Vitringar? Hefur GUd ecke giort Speke Heims þessa ad Heimsku. * Es. 33, 18.

21. Med þvi Heimurinn fyrer GUds Vijsdom, þeckte ecke GUd j hans Vijsdome, þocknadest GUde þad vel, fyrer Favijslega predikan hialplega ad giora, þa sem þar a trua.

22. Med þvi ad Gydingar oska Teikns, og Grikker spyria ad Speke.

23. Enn vier predikum Christ hinn Krossfesta, sem er Gydingum ad somu hneixlan, enn Griekium Heimska.

24. Enn þeim sem kallader eru, bæde Gydingum og Griekium predikum, vier Christum, GUds Krapt og GUds Speke.

25. Þviad GUds Favitska er monnum hyggnare, og GUds Veikleike er Monnum sterkvare.

26. Alijted, goder Brædur, ydar Kallan, þad eige eru marger Spekingar epter Holldenu, ei marger Vollduger, eige marger Edalborner kallader.

27. Helldur þad, hvad heimskligt er fyrer Heimenum, þad hefur GUd utvaled, uppa þad ad hann giøre Vitringana ad Hneixlan.

28. Og þad sem Veikligt var fyrer Heimenum, þad utvalde GUd, so ad hann giørde ad Hneixlan þad, hvad Oblugt er, Og þad sem oedla var fyrer Heimenum, og forsmoad, þad hefur GUd utvaled, Og þad sem eckert er, so hann giorde þad ad øngvu sem, nockud er.

29. So ad eckert Holld skyllde hrosa sier fyrer honum.

30. Utaf hvorium þier erud og komner j Christo JEsu, Hvor oss er af GUde giordur til Vijsdoms, og Riettlætis, og til Helgunar, og til Endurlausnar.

31. So * ad hvor (epter þvi sem skrifad er) sem sier hroosar, sa hroose sier j DROttne. * Jerem. 9, 23. 24.

# II. Capitule.

Evangelium sa ad predikast med þeim hætte, sem hefur fastann Grundvoll i Einfalldleika Christi til Uppbyggingar Safnadarens.

Og eg, goder Brædur, þa eg kom til ydar, kom eg ecke med Ordahæd, eda hoarre Vitsku til ydar, ad boda ydur GUdliga Predikan.

2. Þvi eg hiellt mig eckert vita ydar a mille, utann alleina JEsum Christum þann hinn Krossfesta.

3. Og eg var hia ydur med veikleika, og med Ugg og Otta miklum.

4. Mijn Ord og mijn Predikan var ei j snilldar-ordum mannlegrar Vitsku, helldur j audsyning Andans og Kraptarens.

5. So ad ydar Tru skyllde føst (a) standa, ei a mannlegre Vitsku, helldur a GUds Krapte,

(a) (Føst standa) þ.r fyrer kann Mannanna Lærdomur ecke ad vera Grundvøllur Samvitskunnar edur Truarennar.

6. Enn þar vier rædum um, þad er þo Speke a medal þeirra sem algiorder eru, ecke þessa Heims Speke, og ei þessa heims Hofdingia, hvorier ed forganga.

7. Helldur seigium vier af þeirre heimugslegre

legre (b) hulinne GUds Speke, hvoria GUd hefur skickad fyrer Veralldarennar Upphaf til vorrar Dyrdar.

(b) (Hulenne) þvi hun liggur hulenn under Heimsku og Krossenum, skijn ecke j Vegsemd og Rijkedæme.

8. Hvoria eingenn af þessa Heims Hofdinginum hefur þeckt, Þvi ef þeir hefdu þeckt hana, þa hefdu þeir eige krossfest DROTtenn Dyrdarennar.

9. Helldur epter þvi sem skrifad er, * Þad ei hafe Auga sied, og eige Eyra heyrt, og ecke j nockurs Manns Hiarta komid, hvad GUd hefur fyrerbuid þeim er hann elska.

* Es. 64, 4.

10. Enn oss hefur GUd þad opinnberad fyrer sinn Anda, Þvi Andenn ransakar alla hlute, eirnenn diupleika GUddomsins.

11. Hvor manna er sa, ad vite, hvad j Mannenum er, utan Mannsins Ande, sem j honum er? So lijka veit og einginn hvad j GUde er, nema GUds Ande.

12. Enn vier hofum ei medteked þessa heims Anda, helldur þann Anda sem af GUde er, so ad vier vitum hvad oss er af GUde giefed.

13. Hvar vier og affseigium, eige med þeim ordum sem mannleg Vitska kann ad kienna, helldur med þeim ordum sem Heilagur Ande kienner, dæmande so andleg efne andlegana.

14. Enn (c) Noatturlegur Madur skiniar eckert af GUds Anda, af þvi ad þad er honum heimska, og hann fær þad ecke þeckt, þvi þad hlytur andlegana ad dæmast.

(c) (Noatturlegur) Hinn Noatturlege Madurenn er Þess hoattar, sem hann er aan Noadarennar, med allre Skinsemd, Kunnoattu sinne og ollu Megne, enn Þa hann sie allra best skickadur.

15. Enn sa andlegur er, hann (d) dæmer alla hlute, og dæmest af ongvum.

(d) (Dæmer) hann skilur, þreifar a, finnur, er vijs, og etc. Hvad Natturann megnar ecke, veit og ecke hvad Truenn edur Evangelium er.

16. Þviad hvor hefur þeckt Hugskot Drottins? Eda hvor vill kienna honum? Enn vier hofum Christi Hugskot.

# III. Capitule.

Kennendurner eru Sam-Erfides Menn GUds i Ordenu: Tilheyrendurner eru GUds Saadland: JEsus er Lijf hverutveggia.

Og eg, goder Brædur, kunne ei tala vid ydur, so sem vid andlega, helldur so sem vid holldlega, lijka sem vid oßnur Ungborn j Christo.

2. Miolk hef eg ydur til Dryckiar giefid, enn eige Mat, þviad þier formoattud þad ecke þa, so formeiged þier þad enn nu eige helldur, med þvi þier erud enn Holldleger.

3. Þviad a medan ad Hatur, Kijf, og Tvijdrægne er ydar a mille, Erud þier þa ei Holldleger, og ganged epter mannlegre Vijsu?

4. Þviad ef sa eine seiger, Eg em Pvals og hinn annar, Eg em Apollo, Eru þeir þa eige Holldleger?

5. Hvor er Pvall? Hvor er Apollo? Pionustumenn eru þeir, fyrer hvoria þier erud Truader ordner, og þad sama, epter þvi sem DROttinn hefur hvorium einum veitt.

6. Eg plantade, Apollo vokvade, enn GUd hefur frioføunena giefid.

7. So er nu hvorke sa nockud sem plantar, nie hinn sem vokvar, helldur Gud, sa sem Frioføunena giefur.

8. Enn sa sem Plantar, og hinn sa sem vokvar, þeir eru eitt. Enn hvor einn mun sitt Verdkaup odlast, epter sijnu Erfide.

9. Þvi vier erum GUds Samerfidismenn, þier erud GUds Akurvinna, og GUds Uppbygging.

10. Eg hefe ut af þeirre GUds Noad, sem mier er giefinn, Grunndvollenn lagt so sem eirn hyggiun Hussasmidur, enn einn annar bygger þar yfer, Enn hvor einn hafe goat a, hvornenn hann bygger þar yfer.

11. Þviad einginn fær annann Grundvoll lagt, helldur einn þann sem lagdur er, hvor ad er Christus JEsus.

12. Enn ef nockur bygger uppa þennann Grundvoll, Gull, Silfur, Gimsteina, Trie, Hey, Stroa.

13. Þa mun hvors eins Verk opinnbert verda,

verda, Dagurenn mun þad augliost giøra, þviad þad mun med Ellde opinnberad verda, og Hvijlijkt ad hvors eins Verk sie, þa mun Elldurinn reynslu a giøra.

14. Ef nockurs Verk blijfur, sem hann hefur þar yferbyggt, þa mun hann laun ødlast.

15. Enn hvors Verk sem uppbrennur, þa mun hann skadseme lijda; enn hann sialfur mun holpenn verda, þo so lijka sem þad sie fyrer Elldenn.

16. Vited þier ei, þad þier erud Guds Mustere, og þad GUDs Ande bygger j ydur?

17. Enn hann sem fordiarfar GUDs Mustere, hann mun GUD fordiarfa, þviad GUDs Mustere er heilagt, hvort þier erud.

18. Tæle eingenn sialfann sig, nær nockur ydar a mille þykest vitur vera, verde hann ad þessa Heims Daara, so ad hann mætte vitur verda.

19. Þviad þessa heims Speke, er Heimska hia GUde, þviad so er skrifad, * Hann hondlar þa Vijsu j Vijsdome þeirra.

* Job. 5, 13.

20. Og enn aptur, * DROTTENN veit hugsaner Spekinganna, ad þær eru Hiegomlegar. * Psalm. 94, 11.

21. Fyrer þvi miete sig eingenn af nockrum Manne. Allt er þad ydvart.

22. Sie þad Paall, eda sie þad Apollo, eda sie þad Cephas, eda Heimurinn, sie þad Lijfed eda Daudenn, sie þad hid nalæga, eda Okomna, allt (a) er þad ydvart.

(a) (Er ydvart) þvi hefur eingenn Madur Magt til ad giøra nockur Log yfer Christnum, ad binda þar med þeirra Samvitskur.

23. Enn þier erud Christs, Enn Christur er GUds.

## IV. Capitule.

(I) Virding Trulyndra Kennefedra hia GUdhræddum; (II) Vanvirding hia Ogudhræddum.

Pistillenn III. Sunnudag i Adventu.

I. Hvor Madur hallde oss fyrer Christi Þienara, og Verkstiornara yfer GUds (a) leynda doma.

(a) (Leynda doma) Þad er Evangelium, j hvoriu Guddomleger gooder Hluter eru folgner, og frammberast fyrer oss.

2. Nu heimta Menn eige meir ad Verkstiornurunum, enn þad þeir finnest truer.

II. 3. Enn mier er þad fyrer litlum koste, ad eg skule af ydur dæmast, edur af einum mannlegum Deige, eg dæme mig og ei sialfur.

4. Eg veit mig ei j nockru sekann, enn þar med em eg þo ecke Riettlatur, enn DROTTenn er sa sem dæmer mig.

5. Fyrer þvi dæmid ecke fyrer Tijmann, fyrr enn DROttenn kiemur, sa er auglysa mun eirnenn þad j Myrkrunum er huled, og opinber giøra Raadenn Hiartanna, og mun þa hvorium sem einum Lofstyr skie af GUde.]

6. Enn þetta, goder Brædur, hefe eg þydt uppa sialfann mig, og Apollo, ydar vegna, so ad þier lærdud af ockur, þad einginn hallde meir af sier, enn so sem skrifad er, uppa þad ad eingenn hroke sier upp mot ødrum, fyrer nockurs manns saker.

7. Þvi hvor dæmer um þig? Og hvad hefur þu þad, ad þu hafer eige medteked? Enn first þu hefur þad medteked, Hvad hrosar þu þier þa, sem sa þad hefde ei medtekid?

8. Þier erud nu þegar sadder, þier erud nu þegar (b) auduger ordner, þier rijked aan vor, Giæfe þad og GUD, ad þier rijktud, so ad vier mættum og rijkia med ydur.

(b) (Auduger) Ironia est, hann kallsar þa, og meinar hier þvert a mote.

9. Enn eg helld, ad GUD hafe giort oss Postula, ad hinum allra audvirdilegustu, so sem Daudanum yfergiefna, þviad vier erum undurfurda ordner Heimenum, og so Einglum og Monnum.

10. Vier erum Daarar fyrer Christs saker, enn þier hyggner j Christo, Vier veiker, enn þier sterkver, Þier dyrdleiger, enn vier forsmaanarleiger.

11. Þviad allt til þessarar stundar, þolum vier Sveingd og Þorsta, og erum klædfaer, og verdum barder, og høfum ongvann vissann Samastad.

12. Erfidum og þionum med vorum eiginn Hondum, og nær oss er illa tiltalad, þa blessum vier, Erum vier offokter, þa lijdum vier þad.

13. Erum vier lastader, þa Grœtbænum vier, og jafnann erum vier so sem (c) Bolvan þessarar Veralldar, og hreinsunar Offur allra Manna.

(c) (Bolvan) a Grisku Katharma, a Latinu Piaculum, so kallast sa Madur, sem hefur giørt slijkann Ogiørning, ad Menn meina, ad GUd mune eydeleg gia og bølva Løndum og Lydum þar fyrer, þar fyrer þegar, Þeir riedu þa af Døgum, meintu þeir ad Þeir hefdu Bølvanena j burt teked, og giørt Landhreinsun, Soddan Bølvan var Jonas j Siœfar Hafed wtkastadur.

14. Þetta skrifa eg eige uppa þad eg hneixle ydur, Helldur œminne eg ydur so sem mijn Kiærustu Born.

15. Þvi þo þier hefdud tiju Þusund Læremeistara j Christo, þa hafed þier þo ei Fedurnar marga, þviad j Christo JEsu fyrer Evangelium þa hefe eg alid ydur.

16. Fyrer þvi œminne eg ydur, Vered mijner epterfilgiarar.

17. Þar fyrer sende eg Timotheum til ydar, hvor ad er minn kiær og trur Sonur j Drottne, ad hann undervijse ydur mijna Vegu, þa sem ad eru j Christo, lijka so sem eg j øllum Samkundum og allstadar kienne.

18. Þar hroka sier nu nockrer upp, lijka sem eg munde ei koma til ydar.

19. Enn eg mun miøg snarlega koma til ydar, ef DROTTinn vill, og reyna, eige ord þeirra sem upphrokader eru, helldur Krapt.

20. Þviad GUds Rijke er eige folged j ordum, helldur j Krapte.

21. Hvad vilied þier? Skal eg med Vendi til ydar koma, eda med Kiærleik og hogværum Anda?

## V. Capitule.

Paulus talar (I) um alvarlegt Straff fyrer Lauslæte; (II) ad ege se haft Samneyte i Søfnudenum med augliosum þverbroti um Syndurum.

I. Almennelegt Rickte er, ad þar sieu Horaner ydar a mille, og þo slijk Horan, sem ei er gietid a medal Heidinna Þioda, þad ad nockur skal hafa sijns Fodurs Eiginnkonu.

2. Og þo erud þier upphrokader, og hafed ecke miklu framar œnn um aled, so ad sa sem þad Verk hefur drygt, yrde burt tekenn fra ydur.

3. Ad sonnu eg fravarande med Lijkama, þo nalægur j Anda, hefe allareidu so sem nærverande dæmt yfer honum sem slijkt hefur giørt.

4. Ad j Nafne DROTtins vors JEsu Christi.

5. Ad ydur samann komnum med mijnum Anda, og med Krapte DRottins vors JEsu Christi, hann ofur ad selia Andskotanum, til Holldsins fordiorfunar, so ad Andinn sie hialplegur a Deige DRottins vors JEsu.

II. 6. Ydar hroosan er ei god, Vitid þier ei ad Lijtid Surdeyg fyrer allt Deiged?

Pistillinn a Pœskadaginn.

7. Fyrer þvi hreinsid burt hid gamla Surdeiged, So ad þier sieud (a) nytt Deig, so sem þier erud osyrder, Þvi vier hofum og eirninn eitt Pœskalamb, sem er Christur fyrer oss offradur.

(a) (Nytt Deig) þar er enn nu eptir Synd hia þeim Heilogu, sem a ut ad hreinsast, þessvegna seiger hann, Þier erud osyrder, þad er, Heilager, enn tomed þvi so til leidar, ad þier wthreinsed þad allt saman, og verded olldungis nytt Deig.

8. Fyrer þvi holldum Pœska, eige j gomlu Surdeige, og eige j Surdeige Illskunnar og Prettvijsinnar, helldur j Sætu Deige Skijrleiksins og Sannleikans.]

9. Eg skrifade ydur til j Briefenu, ad þier skylldud eckert hafa ad giora med Horunarmenn.

10. Ongvanneigenn meina eg þessa heims Horunarmenn, eda œgyrndarmenn, Ræningia nie Blotsmenn Skurgoda, annars hlytud þier (b) Verolldena ad ryma.

(b) (Ryma)

(b) (Ryma) Hvør ecke vill vera a medal illra Manna, hann hlytur ad umflya alla Verølldena, þar fyrer vill hann vier skulum forðast þa Christnu sem Vonder eru.

11. Enn nu skrifa eg ydur þad þier skulud ei hafa ad giora med þa, sem er, Ef sa er nockur sem sig lætur Brodur kalla, og er Frillu-lijfismadur, eda oagyrndarmadur, Afguda-dyrdkare, eda Brixlunarmadur, Ofdryckiumadur, eda Ræninge, med þesskonar mønnum skulud þier ecke Matar neyta.

12. Þvi hvad koma þeir vid mig, sem þar fyrer utann eru, þad eg skyllde þa dæma? Er eige so, ad þier dæmed þa sem fyrer jnnann eru? Enn GUD mun dæma þa sem fyrer utann eru, taked sialfer j burtu fra ydur þann sem Vondur er.

## VI. Capitule.

Paulus (I) leyfer ad þeir Christnu mege dæma um Rett og Orett: En (II) bannar Christnum ad syndga a Nockurn Hatt a mote Guds Bodordum.

I. Hvørnenn dirfist nockur af ydur, sem hefur eitthvad kiærumaal j mot ødrum, ad þreatta þar um fyrer Ranglatum, og ei helldur fyrer Heiløgum?

2. Vited þier ecke, þad Heilager munu Heiminn dæma? Og first Heimurinn skal dæmast af ydur, Erud þier þa eige nogu vel fallner, til ad dæma um lijtils hoattar saker?

3. Vited þier ei, þad vier munum yfer Einglunum dæma? Hvørsu miklu meir þa yfer stundlegum Audæfum?

4. Enn þier, nær þier hafed nockur Maalaferle, um stundlegann Aud, þa taked þier þa sem hia Sofnudenum (a) Forsmaader eru, og seted þa til Yferdomara.

(a) (Forsmader) Þad eru Heidingiar, hvørium ecke er leyft med þeim Christnu til Andlegra Hluta, so sem til Sacramentisins, etc.

5. Eg hlyt ad seigia ydur þetta til bligdunar, Er þar þa med øllu einginn so vitur ydar a mille, eda og ei einn, sem dæma kynne a millum Broдurs og Brodurs?

6. Helldur deiler einn Broder vid annann, þar ofanna fyrer Vantruudum.

7. Þar er alla reidu brestur a millum ydar, þad þier hafid Lagadeilur ydar a mille.

8. Hvar fyrer lijded þier ei miklu helldur O-riett? Eda þvi lated þier ecke oasøylast ydur helldur? Enn þier giøred rangt, og Oj-øfnud, og þo þad vid ydar Brædur.

II. 9. Vited þier ei þad, Ranglater munu ei eignast Guds Rijke? Lated eige villa ydur, hvørke Frillulijfismenn, nie Blotmenn Skørgoda, eige Hordomsmenn, nie Sælgiætingar, eige helldur þeir sem Skønnn drygia med Karlmønnum.

10. Eige Þiofar nie Agyrndarmenn, eige Ofdryckiumenn, eige Hueixlarar, nie Ræningiar munu Guds Rijke erfa.

11. Og þvijliker hafa nockrer utaf ydur verid, Enn þier erud nu afþvegner, þier erud helgader, þier erud Riettlater, fyrer Nafnid DRottins JEsu, og fyrer Anda Guds vors.

12. Allt leyfest mier, enn ei er þad allt nytsamlegt. Allt leyfest mier, enn þad skal ei taka mig til fanga.

13. Fædslann Maganum, og Maginn Fædslunne, Enn Gud mun þetta og hitt afmaa. Lijkaminn ad sønnu eige Frillulifnadenum, helldur DRottne, og DRottinn Lijkamanum.

14. Enn Gud hefur uppvaked DRottenn, og so mun hann oss uppvekia fyrer sinn Krapt.

15. Eda vitid þier ecke, þad ydrer Lijkamer eru Christs Limer? skyllde eg nu taka Christs Lime, og giora þar af Skiækiunnar Lime? þad sie fiærre.

16. Eda vitid þier ecke, ad hvør hann samlagar sig Skiækiunne, ad sa er einn Lijkame med henne? * þvi þaug munu (seiger hann) tvo j einu Holldi vera. * 1 B. Mos. 2, 24.

17. Enn hvør hann samteinger sig DRottne, sa er einn (b) Ande med honum.

(b) (Ande) so sem hiner adrer Tveir eru eitt Holld.

18. Flyed Frillulifnadinn, þviad allar Synder, hvøriar Madurinn dryger, eru utan hans Lijkama, Enn hvør ed Frillulifnadenn dryger, sa syndgar vid sinn eiginn Lijkama.

19. Eda vited þier ecke ad ydrer Limer eru Mustere Heilags Anda, sem j ydur er, þann þier hafed af Gude? Þier erud og eige ydrer sialfs.

20. Þviad þier erud dyru Verde keypter. Þar fyrer vegsamid Gud j ydrum Lijkama, og j ydrum Anda sem Guds eru.

# VII. Capitule.

Paulus talar (I) um Hionabands Stettena: (II) Um þaa Ogiptu: (III) Um Eckiu Standed.

I. Um þad þier skrifudud mier til, andsvara eg, þad Mannenum er gott ad hann snerte ei neina Konu.

2. Enn fyrer Frillulifnadar saker, þa hafe hvor einn sijna Eigenn konu, og hvor einn hafe sinn eigenn Mann.

3. Madurinn giore Kvinnunne sijna skyllduga godvilld, slijkt hid sama Kvinnann Mannenum.

4. Konann hefur eige valld sijns Lijkama, helldur Madurinn, lijka og eirnenn Madurinn hefur eige Valld sijns Lijkama, helldur Konann.

5. Hallde hvorugt sig fra odru, nema þad sie af beggia samþycke, um stundarsaker, so ad þier sieud þess lidugre til Fostu og Bænahallds, og komid sijdann aptur til samans, so ad Andskotenn freiste ydar ecke, fyrer ydar Oskijrlijfis saker.

6. Þetta seige eg af vorkunseme, og eige epter skipan.

7 Enn eg villde helldur, ad aller menn være so sem eg em, Enn hvor einn hefur sijna eiginlega giof af Gude, einn ad sonnu so, enn annar so.

8. Enn þad seige eg þeim ogiptu og Eckium, ad þeim er gott, ef þeir blijfa so sem eg.

9 Enn ef þeir fa sier eige hallded, giptest þeir þa, þviad betra er ad giptast enn ad brenna.

10 Enn þeim sem gipter eru byd eg eige, helldur DRottinn, þad Konann skilie sig ecke vid Mannenn.

11. Enn ef hun adskilst, þa blijfe hun utann Hiuskapar, eda (a) forlijke sig vid sinn Mann, og Madurinn forlegge ecke sijna Eiginkonu.

(a) (Forlijke) Eingenn Ordsok adskilur Mann og Kvinnu, utan Hoordomur, Matth. 19. Þar fyrer skulu þaug j odrum Osamþyckis efnum annadhvort sættast, eda vera ogipt, ef þau skilia þar fyrer hvort vid annad.

12. Hinum odrum seige eg, enn ecke DRottinn, Ad ef einhvor Broder hefur Vantruada Konu, og henni hagar ad bwa vid hann, þa skilie hann ei vid hana.

13. Og ef su Kona er, sem Vantruadann Mann hefur, og þad hagar honum hia henni ad bwa, þa skilie hun ei vid hann.

14. Þviad Vantruadur Madur er helgadur fyrer Konuna, og Vantruud Kona er (b) helgud fyrer Mannenn, annars være Born ydar saurug, enn nu eru þau heilog.

(b) (Helgud) So sem þeim enu hreinu eru aller hluter hreiner, Tit. 1. so er og ein O-Christenn Ecktapersona hrein þeim Christna, ad hann ma syndlaust hia henni vera, og þeim Bornum ma ecke j burt skufa, so sem Ohreinum, sem ecke skyllde edur mætti lijdast, þvi Ecktaskapur og forsorgun Barna er ei oreint, hvorke hia Heidnum nie Christnum.

15. Enn ef hinn Vantruade fraskilur sig, þa lætid hann fraskilia sig, Þvi Broder eda Syster eru ei forbundinn j þann mata, þvi Gud hefur oss j Frid kallad.

16. Eda hvad veitstu þad Kona, nema þu kunner ad giora Manneun holpenn? Eda þu Madur, Hvad veitstu, nema þu gieter giort Konuna hialplega? þo epter þvi sem Gud hefur hvorium einum utdeyllt.

17. Hvor og einn, epter þvi sem DRottinn hefur hann kallad, þa gange hann, og so skicka eg þad til j ollum Sofnudum.

18. Er nockur Umskorinn kalladur, sa æske ei (c) Yferhwdar, Er og nockur kalladur j Yferhwdenne, late sa ei umskera sig.

(c) (Yferhwdar) þad er, eingenn helldi fast þar a, þad Yferhwdenn edur Umskurnenn sie naudsynleg, helldur late hvortveggia standa frij fyrer hvorium Manne, og oþvingad.

19. Umskurnenn er eckert, Yferhudinn er og eckert, helldur vardveiting Guds Bodorda.

20. Hvor

20. Hvor eirn blijfe nu j sinne Kallan, sem hann er jnne kalladur.

21. Ef þu ert einn Þræll kalladur, þa haf þar ei oahyggiu fyrer, enn gieter þu frials verid, þa neyttu þess miklu helldur.

22. Þviad hvor hann er þræll kalladur j DRottne, sa er Frelsinge DRottins, Lijka og eirnenn hvor hann er frelsinge kalladur, sa er Þræll Christi.

23. Þier erud dyru verde keypter, verid ei Þrælar Mannanna.

24. Hvor og einn, goder Brædur, j hvorre stiett sem hann er kalladur, þar blijfe hann jnni hia Gudi.

II. 25. Enn af Meyunum hef eg eckert Bodord DRottins, þo seige eg mijna meining, sem sa ed hefur Miskunsemd odlast af Gude, til ad vera trur.

26. Þvi meina eg nu þad gott vera, fyrer nalægrar Naudþurftar saker, þad Mannenum sie þad gott so ad vera.

27. Ertu vid Konuna bundinn, þa sæk ei epter laus ad vera, enn ertu Konulaus, þa leita ei Konfangs.

28. Enn þo þu giptest, syndgar þu ecke, og þo ad ein Mey giptest, syndgar hun ei, þo munu þess konar holldsins harmkvæle hafa, Enn eg þirme ydur giarnann.

29. Þad seige eg ydur, goder Brædur, ad tijminn er naumur: Framar er þad meininginn, ad þeir sem eiginnkvænter eru, þad þeir sieu so sem ad þeir hefdu ei neinar.

30. Og þeir er harma, so sem ad hormudu þeir ei, og þeir sem fagna, sem ad fognudu þeir eige, og þeir sem kaupa, so sem eignudust þeir eige.

31. Og þeir sem tijdka þennann heim, ad þeir vanbruke hann eige, þvi þessa heims frijdleike forgeingur.

32. Enn eg villde þad þier værud utann oahyggiu, hvor okvæntur er, sa ber oahyggiu um þad sem DRottins er, hvorninn hann meige DRottni þocknast.

33. Enn hvor eiginnkvæntur er, sa ber oahyggiu um þad hvad Heimsins er, og hvorninn hann meige Hwsfreyunne þocknast.

34. Adskilianleg grein er a millum Meyar og manns Konu, Hin Ogipta ber oahyggiu um þad hvad DRottins er, so ad hun sie heilog j Lijkama og Anda, Enn su sem gipt er, su ber oahyggiu um þad hvad Heimsins er, og hvorninn hun meige Manuenum þocknast.

35. Enn þetta tala eg til ydar gagnsemi, ei uppa þad, ad eg leggie (d) snoru fyrer ydur, Helldur þess vegna, ad þad er Fijunt, so ad þier mættud jafnann oforhindrader DRottne þiona.

(d) (Snoru) Þaall vill ecke fyrerbioda nockrum Eckta skap, so sem nu skiedur epter Logum og Heitum hia Prestum, Munkum og Nunnum.

36. Enn ef nockur þykist sia, þad sier mune torvelldlega vegna med sijna Jungfru, med þvi, ad giafordsins tijme er kominn, og þad vill ei odruvijs vera, þa giori hann þad honum lijkar, hann syndgar ei, hann late þau giptast.

37. Enn ef nockur fastlega oasetur sier, med þvi hann er ohvingadur, hefande valld sijns (e) Eiginnlegs vilia, og stadfester j sijnu Hiarta, ad vardveita sijna Jungfru, hann giorer vel.

(e) (Eigenulegs vilia) þad er, ad hun samþycke þad, Hann er sialfradur, þvi Guds bod þvingar hann þar ecke til.

38. Og hvor ed gipter, sa giorer og vel, Enn hann sem ecke gipter, sa giorer (f) betur.

(f) (Betur) Ecke ad hann verde þess yppacrlegre fyrer Gude, fyrer hvorium ad Truenn alleina upphefur Mann, helldur sem hann oadur sagde, ad hann kann betur ad huxa um Gud j þessu Lijferne.

III. 39. Kvinnann er Logmalenu underbundinn, so leinge sem hennar Madur lifer, enn nær hennar Madur er latinn, so er hun frials sig ad gipta hvorium hun vill, utann þad skal skie j DRottne.

40. Enn þo er hun sælli ef hun bliјfur so, epter minne meiningu, Enn eg helld þad, ad eg muni og hafa Guds Anda.

 VIII. Ca-

## VIII. Capitule.

Paulus talar um Af-gude, og Christelegt Frelse.

Enn um þad sem Skvorgodum offrast, vitum vier, þvi vier aller hofum þa Skinseme: Skinseminn hun blæs upp, enn Kiærleikurenn bæter um.

2. Nu ef einhvor lætur sier þykia þad, hann viti nockud, hann veit enn eckert, so sem hønum ber ad vita.

3. Enn ef sa er einhvor sem elskar Gud, hann er af honum þecktur.

4. So vitum vier nu af þeirre fædslu sem Skvorgodum offrast, þad Skvorgodid sie ecke Par j Heimenum, og ad þad sie einginn Gud, nema sa eine.

5. Og þo ad þar sieu nockrer sem Guder kallast, hvort þad er a Himne, eda a Jordu (med þvi, ad marger eru Guder, og marger Drottnar.)

6. Þa hofum vier þo ecke utan eirn Gud, Fodurenn, af hvorium ad aller hluter eru, og vier j hønum; og eirn DRottinn, JEsum Christum, fyrer hvorn aller hluter eru, og vier fyrer hann.

7. Enn þessa Skinseme hafa ei aller, þviad nockrer hafa giort sier Samvitsku enn nu um Skvorgodenn, og eta þad fyrer Skvorgoda forner, þar med saurgast þeirra Samvitska, med þvi, hun er so veik.

8. Enn Fædann batar oss ecke fyrer Gude, etum vier, þa erum vier ei betre fyrer þad, Etum vier og ecke, þa verdum vier ei verre fyrer þad.

9. Enn siaid so til, ad þetta ydvart frelsi Verde ei til Asteitingar hinum Veiku.

10. Þvi ef nockur sæi þig (þu sem Skinsemina hefur) sitia til Bords j Godahusi, verdur þa eige hans Samvitska (med þvi hann er breiskur) upphvott ad eta Skvorgoda forner?

11. Og so fyrer-ferst þinn breiskve Broder vegna þinnar Skinsemi, fyrer hvorn ad Christur er þo lijflaatinn.

12. Og nær þier syndgest so vid ydvarn Brodur, og slaid þeirra Breiskva Samvitsku, þa syndgest þier vid Christum.

13. Hvar fyrer, ef ad fædann hneixlar Brodur minn, skyllde eg helldur alldrei Kiot eta, so ad eg giorde eckert Hneixle mijnum Brodur.

## IX. Capitule.

Paulus talar um, Hversu ad hann sialfur hafe brukad sitt Christelega Frelse i Verkum sijns Embættes.

Er eg ecke Postule? Em eg eige frials? Hef eg ecke sied DRottinn vorn JEsum Christum? Erud þier ecke mitt Verk j DRottne?

2. Og þo eg sie ei annara Postule, þa em eg þo ydar Postule, þvi Innsigle mijns Postulegs Embættis erud þier j DRottne.

3. Enn andsvar mitt, vid þa sem mig adspyria, er þetta.

4. Hofum vier ei valld till ad eta og drecka?

5. Hofum vier eige valld til einhvoria Systur ad Eignarkonu med oss ad flytia, lijka sem adrer Postular og Brædur DRottins, og Cephas?

6. Eda hofum alleinasta eg og Barnabas ecke magt til ad erfida ei?

7. Hvor fer nockurn tijma j strijd uppa sitt eigid kaup? Hvor plantar Vijngardenn, og etur ei af hans avexte? Eda hvor fodrar Hiordina og neyter eige af Miolk Hiardarinnar?

8. Tala eg þetta epter mannlegre sidveniu? seiger og ecke Logmalid þetta?

9. Þviad þar stendur skrifad j Moysis Logmale, * Ei skalltu mwolbinda Naut þad sem þreskier, Hvort ber Gud (a) aahyggiu fyrer Nautunum? * 5 B. Mos. 25, 4.

(a) (Ahyggiu) Gud ber Ahyggiu fyrer ollum hlutum, enn ecke so, ad þetta skule skrifast vegna Nautanna, þvi þau kunna ecke ad lesa.

10. Eda seiger hann ecke þetta j alla stade vorra vegna? Þviad fyrer vorar saker er þetta ritad, Af þvi hann sem plæger skal plægia j voninne, og sa sem þresker, hann skal þreskia j voninne, so ad hann verde hluttakare sinnar vonar.

11. First

11. Firſt vier ſaaum ydur hid andlega, Er þad mikils verdt þo vier uppſkerum ydvart hid lijkamlega?

12. Og ef hiner adrer eru hluttakande þeſſarar magtar hiä ydur, Hvar fyrer ſkyll-dum vier eige miklu framar? Enn vier høfum ei (b) tijdkad þeſſa magt, helldur umlidum vier allrahanda, ſo ad vier giørdum Chriſts Evangelio øngva hindran.

(b) (Tijdkad) Sia, Poſtulenn væger og lijdur ſo miøg annara Veikleika, ſo hann helldur ſig fra øllu þvi ſem hann hefde þo riett til ſo ſem eirn Poſtule, og lijka fra þvi, ſem hann hafde annara Poſtula Epter-dæme til.

13. Vitid þier ecke þad, þeir ſem forner-nar færa, *eta af þvi ſem fornfært er? og þeir ſem Alltarenu þiona, hafa not af Alltarenu?
* 5 B. Moſ. 18, 1.

14. Lijka ſo hefur og DRottinn tilſkickad, ad þeir ſem Evangelium kunngiøra, ſkulu af Evangelio næring hafa.

15. Enn eckert þeſſara hef eg tijdkad. Enn eg ſkrifa ei helldur þetta þar fyrer, ad ſo ſkule vid mig vera giørt, þvi betra være mier hell-dur daudum ad vera, enn þad, ad nockur ſkyllde mijna hrooſun ad øngvu giøra.

16. Þvi þad eg predika Guds Evangeli-um, þa ma eg ei hroſa mier um þad, þviad eg a þad ad giøra, Og vei ſie mier þa, ef eg predika ecke Evangelium.

17. Giøre eg þad viliugur, þa fæ eg laun, enn ef eg giøre þad naudugur, þa er mier þo þad Embætte a hendur falid.

18. Hvad eru nu þa mijn (c) laun? j þvi, ad eg predika Evangelium Chriſti, og giøre þad ſama viliugur, ongvum til koſtnadar, ſo ad eg misbruke ei mitt Frelſi j Evangelio.

(c) (Laun) Paall vill ei hroſa ſinne Predikun, þvi hann er ſkyldugur þar um, enn þad hann predikar aan Betalings, þad reiknar hann fyrer ſierleg laun og hrooſun.

19. Þvi þo eg ſie frials fyrer øllum, þa hef eg þo giørt ſialfann mig ad hvørs mañs Þion ſo ad eg vinne marga af þeim.

20. Þviad Gydingum er eg ordinn ſo ſem Gydingur, uppa þad eg vinne Gydinga, Og þeim ſem under Løgmalenu eru, er eg ordinn ſo ſem under Løgmale, ſo ad eg vinne þa ſem under Løgmalenu eru.

21. Og þeim ſem aan Løgmals eru, em eg ordenn ſo ſem aan Løgmals (ſem eg em þo ei aan Løgmals fyrer Gude, helldur er eg j Chriſti Løgmale) ſo ad eg vinne þa ſømu ſem aan Løg-mals eru.

22. Þeim ſem breiſkver eru er eg ordenn ſem være eg breiſkur, ſo ad eg vinne hina brei-ſku, Øllum er eg ordinn allshattar, So ad eg giøre allſtadar einhvøria hialplega.

23. En þetta giøre eg vegna Evangelii, ſo ad eg verde þeſs hluttakare.

Piſtillen I. Sunnud. i Nijuvikna Foſtu.

24. Eda vitid þier ecke, ad þeir ſem a Skeid-platſenu hlaupa, þad þeir aller hlaupa, enn einn er ſa ſem Hnoſſid tekur? Hlauped nu og ſo, ad þier høndlid þad.

25. Enn hvor ſa ſem ſlæſt, hann varar ſig vid øllu, þeir ad ſønnu, uppa þad þeir ødleſt forgeingelega Koronu.

26. Enn vier oforgeingelega, Enn eg hleyp, eige ſo ſem uppa hid (d) ovijſa, eg ſlæſt, eige ſo ſem ſa er j Vindenn ſlær.

27. Helldur tem eg minn Lijkama og þiae hann, ſo ad eg predike þad ei ødrum, og verde ſialfur rækur.

(d) (Ovijſa) ſo ſem ſa er hleypur vediunar-hlaup, hlaupe hann utaf Veigennm, þa rammar hann ecke Takmarkid, og ſa er ſkilmaſt, rammie hann ecke, þa ſlær hann j Vedred forgiefins, ſo geingur þad øllum þeim ſem giøra mørg god Verk aan Truarennar, þvi þeir eru ovijſer um, hvørnenn þeir munu Gude þocknaſt, þar fyrer er þad ecke utan ſkeiðhlaup, Slags miſſer og førgiefins verk.

## X. Capitule.

Paulus (I) bannar Holldlegt Andvaraleyſe, og (II) ſyner Hverſu langt ad Chriſtelegt Frelſe nær.

1. Enn eg vil ei dylia fyrer ydur, kiærer Bræ-dur, þad vorer Fedur *voru aller under Skyenu og ** aller geingu þeir yferum Hafid.
* 2 B. Moſ. 13, 21. 22. ** 2 B. Moſ. 14, 22.

2. Aller eru þeir og skijrder under Mose med Skyenu, og med Sionum.

3. Og aller hafa þeir neytt einslags * andlegrar Fædu, og aller hafa þeir einslags andlegann Dryck druckid. * 2 B.M. 16, 15.

4. Þvi þeir drucku * af þeirre andlegre Hellu, sem þeim epterfilgde, eñ Hellann var Christur.]
* 2 B. Mos. 17, 6.

5. Enn a þeim velflestum hafde GUd ongva þocknan, þvi eru þeir nidursleguer * a Eydemorku. * 4 B. Mos. 26, 64.

Pistillenn IX. Sunnud. epter Trinit.

6. Enn þetta er skied oss til Fyrermindar, so ad vier skulum ei Lysting hafa til þess illa, so sem ad þeir * hofdu Lysting.
* 4 B. Mos. 11, 4.

7. Gioreft og eige Blotmenn Skwrgoda, lijka so sem nockrer af þeim urdu, epter þvi sem skrifad er, * Folkid setteft nidur ad eta og dreckа, og stod upp ad leika.
* 2 B. Mos. 32, 6.

8. Drygium og eige Horaner, so sem nockrer af þeim drygdu Horaner, og * fiellu a einum Deige þriar þusunder og tuttugu.
* 4 B. Mos. 25, 9.

9. Freistum og eige Christs, so sem nockrer utaf þeim * freistudu hans, og fyrerforust af Hoggormum.
* 4 B. Mos. 21. 5, 6.

10. Moglid og ecke, lijka sem nockrer utaf þeim * mogludu, og fyrerforust af Fordiarfaranum. * 4 B. Mos. 14, 2.

11. Þetta allt skiede þa til fyrermyndar, enn þad er skrifad oss til Vidvorunar, yfer hvoria ad Heimsins Ende er kominn.

12. Fyrer þvi, hvor hann lætur sier þykia þad hann stande, giefe sa vel gaum ad, ad hann (a) falle eige.

(a) Þar fyrer forsmae eingenn annann, hvorsu stirkur, edur veikur hvor er, hvor veit, hvorsu leinge hann stendur sialfur?

13. Fyrer ydur befur enn nu einginn Freistne uppa falled, utan mannleg, Enn GUd er trur, sa ei umlijdur þad ydar sie freistad framar enn þier formeiged, helldur giorer hann þa ending a Freistingunne, ad þier gieted þad þolad.]

14. Þar fyrer, mijner Elskulegustu, flyed fra Skwrgodadyrdkan.

15. So sem vid Vitringa tala eg, dæmed þier hvad eg seige.

16. Sa blessade Kaleikur hvorn vier blessum, er hann ecke hluttekning Christi Blods? Og Braudid hvort vier briotum er, þad eige hluttekning Christi Lijkama?

17. Þviad þad er eitt Braud, so erum vier marger eirn Lijkame, med þvi ad vier verdum aller eins Brauds hluttakarar.

18. Hyggid ad Israel epter Holldenu, þad þeir sem fornernar eta, eru þeir ecke Alltaresins hluttakarar?

19. Hvad skal eg nu þa seigia? Eda skal eg seigia þad Skwrgodid sie nockud? Eda þad Skurgoda forner sieu nockud?

20. Enn eg seige, ad þad, hvad hiner Heidnu offra, þad offra þeir Dioflenum, og ei GUdi, Nu vil eg ei ad þier verded hluttakarar med Dioflunum.

21. Ei faed þier j senn druckid Kaleik DROttins og Dioflanna Kaleik, þier geted og ecke j senn hluttakarar orded Matbords DROttins og Matbords Diofulsins.

22. Eda vilium vier troassa vid DROTtinn? Hvort erum vier honum sterkare?

II. 23. Mier leyfast sannlega aller hluter, enn þeir bata ei aller, mier leyfest allt, enn þad er ei allt til uppbyggingar.

24. Eingenn leite þess hvad hans er, helldur hvor ad þvi, hvad annars er.

25. Allt hvad a Kiotmangara torginu er til solu þad etid, epterspyriande ad ongvu, uppa þad þier væged Samvitskunne.

26. Þviad * Jordenn er (b) DROTtins, og allt þad sem þar er jnne.
* Psalm. 24, 1. Psalm. 50, 12.

(b) (DROTtins) Christur er eirn HErra og Frijmadur, eins eru og aller Christner j ollum hlutum.

27. Enn ef einhvor af Vantruudum byd ur ydur til snædings, og þier vilied þangad ganga,

ganga; Þa etid af ollu þvi sem fyrer ydur verdur sett, og spyried einskis, uppa þad þier vægid Samvitskunne.

28. Enn ef nockur seiger til ydar, þetta er Skwrgoda offur, þa etid ecke, fyrer þess saker sem þad seiger ydur, uppa þad þier vægid Samvitskunne (þviad Jordenn er DROTtens, og hvad þar er inne.)

29. Enn eg seige, ecke um þijna eiginn Samvitsku, helldur hins annars. Þviad hvar fyrer skyllde eg mitt Frelsi dæmast lata af annarlegre Samvitsku?

30. Þvi ef eg neyte þess med þacklæte, hvar fyrer skyllde eg þa lastadur verda um þad, sem eg giore DROttne þacker fyrer?

31. Hvort þier nu eted eda drecked, eda hvad þier giored, þa giored þad allt til GUDs Dyrdar.

32. Giored ongva hneixlan, hvorke Gydingum nie Grickium, nie GUDs Safnade.

33. Lijka so sem eg giore mig hvorium manne giedfelldann j ollu, Eige adleitande hvad mier, helldur hvad morgum er gagnlegt, so ad þeir hialpleger verde.

1. Verid mijner epterfilgiarar, so sem eg er Christi.

## XI. Capitule.

Paulus talar (I) um Jmislegann Sidvana i Bænahallde; (II) Um verduga og overduga Medtekning Alltares Sacramentesins.

I. Eg lofa ydur, goder Brædur, þad þier minnist mijn j ollum portum, og halldid þann sidvana eins og eg sette ydur.

3. Enn þad vil eg, ad þier vitid, ad Christur er hvors Manns Hofud, enn Konunnar Hofud er Madurinn, enn Hofud Christi, er GUD.

4. Og hvor sa madur sem bidur eda spaar, og hefur nockud a Hofde, hann ovirder sitt Hofud.

5. Og hvor su Kona sem bidur eda spaar, med beru Hofde, hun ovirder sitt Hofud, Þvi þad er eins, og være hennar Hofudhaar j burtu rakad.

6. Vilie hun ei hylia sig, þa rakest af hennar Hofudhaar. Enn first þad er liott fyrer Konuna ad hafa afrakad Haar eda klippt, þa hylie hun sig.

7. Enn Kallmadurinn skal ecke hylia Hofuded, med þvi hann er GUDs mynd og Sóme. Enn Konann er Mannsins sóme.

8. Þviad Madurinn er eige af Konunne, helldur Konann af * Mannenum.

* 1 B. Mos. 2, 21. rc.

9. Madurinn er ei skapadur vegna Konunnar, helldur Konann vegna Mannsins.

10. Þar fyrer skal Konann hafa (a) Vellde a sijnu Hofde fyrer Englanna saker.

(a) (Vellde) þad meinar hann Hofudbunad, edur skylu, Hvar med ad merkiast skal, þad hun sie under Karlmannsins Vallde, Gen. 3.

11. Og þo er hvorki Madurinn oan Konunnar, nie Konann oan Mannsins j Drottne.

12. Þviad lijka so sem Konann er af Mannenum, so kiemur og Madurinn fyrer Konuna, enn aller hlutir af GUde.

13. Dæmed þier sialfir ydar a mille, hvort þad hæfer Konunne ad bidia fyrer GUde berhofdud?

14. Kienner ydur ecke Natturann sialf, ad þad sie Lyte fyrer Karlmannenum ad laata sier vaxa langt Haar.

15. Enn Konunni sóme þad hun hafde sijdt Haar? Af þvi Haarid er henne til skylingar giefid.

16. Enn ef sa er einhvor ydar a mille, sem þraattunnarsamur vill vera, hann vite þad, ad vier hofum ei slijkann Sidvana, og eige helldur GUDs Sofnudur.

II. 17. Enn þetta hlyt eg ad bioda, og kann ecke ad lofa þad, ad þier komid ei til samans med betre vijsu, helldur med verre vijsu.

18. J firstu, þa þier komid til samans j Samkundunum, heyre eg, ad þar er sundurlynde ydar a mille, og eg true þvi og nockurn part.

19. Þviad þar hliota flockadrætter ad vera ydar a mille, so ad þeir sem riettsinnader eru, opinnberer verde ydar a mille.

20. Þa þier komid nu til samans, þa verdur þar ei halldinn DROTtins Kvølldmaaltijd.

21. Þvi nær þar skal Kvølldmaltijdenn hallðast, þa tekur hvor sijna eiginn fæðu aður, og sa eine er hungraður, hinn annar er druckinn.

22. Hvort hafeð þier eingenn Hus, þar þier kunned ad eta og drecka jnne? Eda forsmaaed þier GUDs Søfnud, og skammid þa sem ecke hafa? Hvad skal eg seigia ydur? Skal eg lofa ydur? J þessu lofa eg ydur ecke.

Pistillenn a Skijrdag.

23. Eg medtok þad af DROTTne, sem eg hefe ydur giefid, Af þvi, ad Drottinn Vor JEsus, a þeirre Nott er hann var svikinn, Tok hann Braudid.

24. Giorde þacker, braut þad og sagde, Takid, Etid, þad er minn Lijkame, sem fyrer ydur verdur brotinn, giorid þad j mijna Minning.

25. Lijka eirninn Kaleikenn, epter Kvølldmaltijdina, og sagde, Þesse Kaleikur er Nytt Testamentum j mijnu Blode, giorid þetta, so opt sem þier dreckid, j mijna Minning.

26. Þviad so opt sem þier berged af þessu Braude, og drecked af þessum Kaleik, skulud þier kunngiora Dauda DROTtens þangad til hann kiemur.

27. Hvor hann etur nu af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik DROttins overdugur, sa er sekur vid Holld og Blod DROTtins.

28. Enn hvør Madur (b) profe sig sialfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik.

(b) (Profe) þad er, Sierhvør skal sia til, hvørnenn hann true j þessare Kvølldmaaltijd, hvad og hvørnenn hann medtake þad.

29. Þviad hvor hann etur og dreckur overdugur, sa etur og dreckur sialfum sier Dom, med þvi hann giorde ecke (c) greinarmun a DROTtins Lijkama.]

(c) (Greinarmun) Sa sem handtierar Christi Lijkama, og hans Blod, sem annad Braud, og hans Blod sem annann Drick, og hans sneyter, acktande hann eige meir enn annann mat.

30. Fyrer þad eru so marger siuker og veiker ydar a mille, og þeir marger sem sofnader eru.

31. Þvi ef vier dæmum oss sialfer, þa verdum vier eige dæmder.

32. Enn nær vier dæmunst, þa verdum vier af DROTtne typtader, uppa þad vier fyrerdæmunst eige med Heimenum.

33. Fyrer þvi, Brædur mijner, nær þier komid til samans ad neyta, þa bijde hvor annars.

34. Enn ef einhvorn hungrar, þa ete sa heima, so ad þier komid ei samann til Domsaafellis, Enn hitt annad vil eg skicka þa eg kiem.

## XII. Capitule.

Paulus talar um Brukun a Gafum Heilags Anda til Upbyggingar Safnadarens.

Pistillenn X. Sunnud. epter Trinit.

Af þeim andlegu Giofum, vil eg eige dylia fyrer ydur, goder Brædur.

2. Þier vited þad þier vorud (a) Heidner, og geingud burt til Maallausra Skurgoda, so sem þier urdud tilleidder.

(a) (Heidner) þa þier vorud Heidingiar, vissud þier eckert, hvørke af Christo, nie H. Anda, enn nu ættud þier ad þeckia gaafur Andans, an hvørra eingenn þecker Christum, helldur miklu framar bølvar honum.

3. Fyrer þvi kunngiore eg ydur, þad einginn sa sem fyrer GUDs Anda talar, formæler JEsu. Og eingenn fær JEsum DROTTEN kallad, utan fyrer Heilagann Anda.

4. Þar eru (b) margvijslegar giafer, enn þar er einn Ande.

(b) (Margvijslegar) Þar er j øllum Christnum einn Ande, Vijsdomur, Tru, Kraptur, og ꝛc. Enn ad handtiera og audsyna slijkt ødrum, er ei hvørs Manns. Enn þeir tala um Vijsdom sem kienna ad þeckia GUd, um skinsemd tala þeir sem kienna um utvortis hegdan og Christeleg Frijheit. Þeir audsyna Truna sem opinberliga vidurkienna hana med Ordum og Verkum, so sem Pijslarvottarner. Adgreining Andanna giøra þeir sem Spadomana og Lærdomana rannsaka.

5. Þar

5. Þar eru marghꜳttud Embætte, enn einn DROTTinn.
6. Þar eru marghꜳttader Kraptar, enn einn GUD, sem verkar alla hlute j øllum.
7. Enn j sierhvørium einum audsyna sig Giafer Andans, til almennelegrar nytsemdar.
8. Einum verdur giefid fyrer Andann ad mæla af Vijsdome, enn ødrum verdur giefid ad tala af Skinseme, epter hinum sama Anda.
9. Ødrum Truann j sømum Anda, enn hinum giafer Lækninganna j sømum Anda.
10. Ødrum Kraptaverk ad giøra, ødrum Spꜳdomur, ødrum ad giøra adskilianlega grein Andanna, Hinum ødrum marghꜳttud Tungumꜳl, enn ødrum utlegging Tungumꜳlanna.
11. Enn allt þetta verkar einn og same Ande, skiptande sier-hvørium sitt, epter þvi sem hann vill.]
12. Þviad lijka so sem einn Lijkame er, og hefur þo marga Lime, Enn aller Limer eins Lijkama, þo þeir sieu marger, þa eru þeir þo einn Lijkame, Lijka so er Christur.
13. Þviad vier erum fyrer einn Anda, aller j einn Lijkama skijrder, hvørt vier erum Gydingar eda Gricker, Þrælar eda Frelsingiar, og erum so aller til eins Anda (c) dryckiader.

(c) (Dryckiader) Vier dreckum eitt Sacramente, so ad vier medtøkum einn Anda, so sem vier medtøkum eina Skijrn, so ad vier verdum einn Lijkame.

14. Þviad Lijkamenn er eige einn Limur, helldur marger.
15. Og ef Foturinn segde, Einginn hønd er eg, þar fyrer er eg eige Limur Lijkamans, skyllde hann nu þar fyrer ecke vera Lijkamans Limur?
16. Og ef Eyrad segde, Eg er eige Augad, þar fyrer er eg ecke Limur Lijkamans, skyllde þad saker þess ecke vera Lijkamans Limur?
17. Þvi ef allur Lijkamenn være Augad, hvar være þa Heyrnenn? ef allur Lijkamenn være heyrnenn, Hvar være þa Ilmingenn?
18. Enn nu hefur Gud sett Limena, og hvørn einn þeirra sierdeilislega, a Lijkamann, so sem hann hefur viliad.
19. Enn ef aller Limerner være einn Limur, Hvar være þa Lijkamenn?
20. So eru nu Limerner marger, enn Lijkamenn einn.
21. Þviad Augad ma eige seigia hendenne, Eg þarf þijn ei vid, eda þar j mot Høfudid til Fotanna, Eg þarf eige ydar vid.
22. Miklu helldur, þeir Limer Lijkamans sem oss synast breiskvaster vera, þeir eru naudsynlegaster.
23. Og þa vier reiknum otierlegasta, þeim sømu leggium vier mestann søma til, og þa ed oss eru lyte ad, prijdum vier mest.
24. Þviad þeir sem oss prijda, þurfa þess ei vid, Enn Gud hefur Lijkamanum so samannblandad, og giefid þeim Þurftugu Limum hinn mesta søma.
25. So ad einginn ꜳgreiningur sie a Lijkamanum, helldur þad hvør Limurinn bere jafnt ꜳhyggiu fyrer ødrum.
26. Og ef einn Limur lijdur, þa lijda aller Limernar med, og ef einum Liminum verdur some veittur, þa samfagna hønum aller Limerner.
27. Enn þier erud Christi Lijkame, og Limer, hvør epter sinne deilld.
28. Og Gud hefur sett j Søfnudinn, j fyrsta Postula, þa Spamenn, j þridia mꜳta Lærefedur, epter þad þa sem Kraptaverkenn giøra, þar nærst þa sem Lækningsgiafernar hafa, Vidhialpara, Stiornarana, marghꜳttud Tungumꜳl.
29. Eru þeir aller Postular? Eru þeir aller Spꜳmenn? Eru þeir aller Lærefedur? Eru þeir aller þeir Menn sem Kraptaverkenn giøra?
30. Hafa þeir aller Læknings-giøfena? Tala þeir aller marghꜳttud Tungumꜳl? Kunna þeir aller ut ad leggia?
31. Enn eptirstundid þeim hinum bestu giøfunum, Og eg vil vijsa ydur enn ædra Veg.

## XIII. Capitule.

Utmꜳlun Kiærleikans epter sinu Edle og Stadfeste.

Pistillenn Sunnudagenn i Fostu Inngang.

Þo ad eg talade Tungum Mannanna og og Einglanna, og hefde ecke Kiærleikann, þa være eg einn hliomande Malmur, eda hvellande Bialla.

2. Og þo ad eg hefde Spaadom, og visse alla leynda hlute og allann Vijsdom, og hefde alla (a) Tru, so ad eg Fiollenn ur stad hrærde, enn hefde ei Kiærleikann, þa væri eg eckert.

(a) (Alla Tru) þo ad Truenn alleina giore oss Riettlata, so sem S: Paall allstadar auvijsar þa være þo Truenn vissilega oriett, þo ad hun giorde Furduverk, an med sig fylgiande Kiærleika.

3. Og þo ad eg giæfe allar mijnar eigur Fatækum, og eg liete brenna minn Lijkama, og hefda ecke Kiærleikann, þa være mier þad einginn nytsemd.

4. Kiærleikurinn er þolinnmodur, og vingiarnlegur, Kiærleikurinn vandlæter eige, Kiærleikurinn giorer eckert jllmannlega, eige blæs hann sig upp.

5. Hann er ecke osstopasamur, eige leitar hann þess, hvad hans er, hann lætur ei giora sig reidann, hann leitar ecke epter skada.

6. Eige fagnar hann yfer Ranglætenu, enn fagnar Sannleikanum.

7. Hann umber alla hlute, hann truer ollu, hann vonar allt, hann umlijdur alla hlute.

8. Kiærleikurinn hann þreytest ei, Spadomunum mun linna, og Tungumalunum mun linna, og Skinseminne mun linna.

9. Þvi ad vorer Vitsmuner eru (b) Halfverk, og vorar Spasagner eru halfverk.

(b) (Halfverk) Enn þo vier høfum og skilium j Trunne, allt hvad Gud er, og hvad hann oss giefur, þa er þo slijk þecking enn so sem Halfverk, og ofullkomenn ad reikna j hia þeirre epterkomande Dyrd.

10. Enn nær þad kiemur sem algiørt er, þa linner þad sem halfverked er.

11. Þa eg var Barn, talade eg sem Barn, og eg var forstiall sem Barn, og eg hugsade sem Barn, Enn þa eg giørdest madur, lagde eg af hvad bernsklegt var.

12. Nu siaum vier j giegnum Speigil, j einu Mirkvu orde, enn þa auglite til auglitis, Nu þecke eg ad nockrum parte, enn þa mun eg þeckia so sem eg em þecktur.

13. Nu blijfa þesse þriu, Truenn, Vonenn, Kiærleikurinn, enn Kiærleikurinn er mestur af þessum.]

# XIV. Capitule.

Paulus talar (I) um Predikunar Embætted; og (II) um retta Brukun a Imislegum Tungumalum.

I. Stunded epter Kiærleikanum, og kostgiæfid andlegar Gaafur, enn þo mest, ad þier mættud spaa.

2. Þvi ad hann sem Tungurnar talar, hann talar eige Monnum, helldur Gude, þvi ad honum heyrer eingenn, enn j Andanum talar hann leynda Doma.

3. Enn hann sem spaaer, sa talar Monnum til uppbyggingar, og til aaminningar, og til Huggunar.

4. Sa Tungurnar talar, hann forbetrar sialfann sig, enn sa sem spaaer, hann forbetrar Guds Sofnud.

5. Eg villde ad þier kynnud allar Tungur ad tala, enn þo miklu helldur, ad þier kynnud ad spaa, þvi ad sa sem spaaer, hann er þeim meire sem Tungurnar talar, utan ad so sie, hann legge þad einnin ut, so ad Sofnudurinn fae þar af Forbetran.

(a) (Tungur ad tala) þad er, Psalma eda ur Spaabokina j Samkundum ad lesa eda syngia, j ehnu Tungumaale, sem Sofnudurenn ecke skilur: Enn ad spaa, er ad taka skilning af Gude og giefa odrum, Enn ut ad leggia, er ad færa odrum rietta meining: so meinar hinn Heilage Paall, þad Tungur ad tala betre ecke Sofnudenn, enn ad Spaa, og ut ad leggia, þad betrar Sofnudenn.

II. 6. Enn nu, goder Brædur, þo eg kiæme til ydar, og talade Tungur, Hvad være eg ydur gagnlegur? Nema ad eg talade til ydar annadhvort fyrer Opinnberan, eda fyrer Skinseme, eda fyrer Spaasagner, eda fyrer Lærdom.

7. Þeim hlutum er so haattad er hlioda, enn lifa eige? Hvort þad er nu Pijpa eda Harpa, first þad giefur ongvann greinelegann hliom af sier, Hvornenn ma þa vitast hvad Pijpad er, eda hvad uppa Horpuna er spilad? 8. Og

8. Og ef Lwdurinn giefur oskilmerkelegt hliod, Hvor mun þa vilia bwast til Bardagans?

9. Lijka eins erud þier, nær þier talid Tungur, utan þier giefid framm skilmerkelega ræ-du, hvornenn ma þa vitast hvad talad er? þviad þier taled j Vind.

10. Sannlega er margt raddar kin j Hei-menum, og þo er eckert þeirra sem ecke hefur sitt Hliod.

11. Og first eg veit ecke þyding raddaren-nar, þa verd eg þeim sem talar, oskilianlegur, og hann sem talar, verdur mier oskilianlegur.

12. So og lijka þier, first þier erud aastun-dande þær Andlegu Giafer, þa leitid epter þvi ad forbetra Sofnudenn, uppa þad þier kun-ned ad hafa alla hlute rijkuglega.

13. Hvar fyrer, sa sem Tungu talar, hann bidie so, ad hann utlegge þad eirninn.

14. Þvi first eg bid med Tungunne, þa bidur og minn Ande, Enn mijn meining gioerer ongvum Manne Avoxt.

15. Hvorninn skal þad þa vera? Þad skal so vera, eg vil bidia med mijnum Anda, og eg vil bidia med mijnu hugskote, Psalmana vil eg syngia j Andanum, og eg vil Psalmana syngia (b) med Hugskotenu.

(b) (Med Hugskotenu) þad er, so miked sem ut ad leggia meiningena, enn j Andanum ad tala, þad er Ritningena ad skilia, og ecke ut ad leggia.

16. Enn þa þu blessar j Andanum, hvor-ninn skal þa sa sem j Leikmannsins stad sten-dur, Amen seigia til þinnar Þackargiordar, med þvi hann veit eige hvad þu seiger?

17. Sannlega giörer þu godar þacker, enn hinn annar betrast þar ecke af.

18. Eg þacka Gude mijnum, þad eg tala meir Tungur, enn aller þier.

19. Enn helldur vil eg tala fimm Ord j Safnadenum med (c) mijnu sinne, so ad eg kienne odrum, helldur enn annars tiju þusun-der orda med Tungunne.

(c) (Sinne) þad er, Meiningina med Predikunenne ut ad leggia.

20. Goder Brædur, verid eige Born j Skilningenum, Helldur verid Börn j Ill-skunne, enn verid algiorder j Skilningenum.

21. J Logmalenu er so ritad, * Eg mun med annarlegum Tungum og annarlegum Vorum tala til Lyds þessa, og ei munu þeir mig þo enn so heyra, seiger DRottenn.

* Esa. 28, 11.

22. Þar fyrer eru Tungurnar (d) til Teikns, eige þeim sem trua, helldur Van-truudum, Enn Spadomurinn er ei Vantruu-dum, helldur Truudum.

(d) (Til Teikns) Fyrer Imisleg Tungumaal sunast þeir Vantruudu, til Truarennar, so sem fyrer an-nad Teikn og Furduverk, Enn fyrer Spaadominn for-betrast og styrkiast þeir Truudu, so sem fyrer eitt Teikn, a hvoriu þeir profa og reyna sijna Tru, ad hun sie riett.

23. Þott nu allur Sofnudurinn kiæme til samans j einn stad, og toludu aller Tungur, Enn þar geinge jnn Leikmadur, eda Vantrua-dur, mundu þeir ecke seigia, ad þier værud galder?

24. Enn ef þeir aller Spaadu, og þar gein-ge jnn einhvor Vantruadur, eda Leikmadur, sa yrde þegar af ollum þeim straffadur, og af ollum dæmdur.

25. Og þad j hans Hiarta er hulid yrde þa so opinberad, og so være hann frammfal-lande a sitt Andlit, Gud ad tilbidia, þad vi-durkiennande, ad Gud sie sannarlega med ydur.

26. Hvornenn er þad þa, goder Brædur? Þegar þier komid til samans, þa hefur hvor ydar, einn Lofpsalm, eda hafe hann Lærdoma, hafe hann Tungumal, eda hafe hann opinn-beraner, eda hafe hann utlegging, Þa lated þad allt skie til Betrunar.

27. Og ef einhvor talar Tungur, þa verde þad annadhvort af Tveimur, eda mest af Þre-mur, einn epter Annann, enn einn leggie þad ut.

28. Enn ef hann er eingin utleggiare, þa þeige hann j Samkundunne, og tale sier sial-fum og Gude.

29. Enn Spaamenn tale tveir eda þrijr, og hiner dæme þar um.

30. Enn ef einhvor fær opinnberan, sem þar hia situr, þa þeige hinn fyrre.

31. Þviad aller meiged þier spa, einn epter annann, so ad aller lære, og aller verde aminnter.

32. Og Andar Spamannanna eru Spamonnunum (e) underorpner.

(e) (Underorpner) Nockrer meina so, ad med þvi þeir hafa skilning og gaafur Andans, þa eige þeir fyrer øngvum ad vikia edur þagna, þadan koma Villur og Tvidrægne. Enn Paulus seiger hier, ad þeir skule og meige vel vijkia, þviad Gaafur Andans eru j þeirra vallde, og bruka þær ecke a mote Samlyndenu, so ad þeir þurfe ecke ad seigia, ad Andenn knye þa nie neyde þar til.

33. Þviad Gud er ei Gud O-skickunar, helldur Fridarins, so sem j øllum Søfnudum Heilagra.

34. Lated ydar Kvinnur þeigja j Søfnudenum, þviad þeim ma ei leyfast ad tala, helldur undergiefnar ad vera, epter þvi sem * Løgmalid vottar. * 1 B. Mos. 3, 16.

35. Enn ef þær vilia nockud læra, þa spyrie þær Menn sijna ad þvi heima. Þviad Kvinnunne er þad Lyte, ad tala j Søfnudenum.

36. Eda er Guds Ord af ydur utkomid? Eda er þad til ydar alleina komed?

37. Ef nockrum þyker þad hann sie Spaadur, eda andlegur, þa gaumgiæfe hann hvad eg skrifa ydur, þviad þad eru Bodord DRottins.

38. Enn ef nockur er Skinlaus, þa sie hann skinlaus.

39. Fyrer þvi, goder Brædur, verid kostgiæfner til Spaadomanna, og fyrerbioded ecke Tungurnar ad tala.

40. Lated allt sidsamlega og epter Skickan til ganga.

## XV. Capitule.

Paulus talar (I) um Christi Upprisu, og so (II) Mannanna.

Pistillenn XI. Sunnud. epter Trinit.

Enn eg minne ydur, goder Brædur, a þad Evangelium sem eg kunngiørde ydur, hvort þier og medtokud, j hvøriu þier og standed.

2. Fyrer hvort þier og verded hialpleger, med þeim hætte sem eg kunngiørde þad ydur, ef þier hafed þvi hallded, utan ad so sie þier hafid þvi til onytis truad.

3. Þviad eg gaf ydur j firstu, hvad eg medtok, þad ad Christur sie * lijflatenn fyrer vorar Synder, epter (a) Ritningunum, og þad hann sie grafinn. * Esa. 53, 15.

(a) (Ritningunum) Þvi fyrer vorum Skilninge, fyrer utan Skriftena, er þetta alltsamann Heimskulegt ad heyra.

4. Og uppaptur risinn a þridia * deige epter Ritningunum. * Ps. 16, 10. Hos. 6, 8. Jon. 2, 1.

5. Og þad hann sie siedur af Cephas, og epter þad af hinum Tolf.

6. Og eptera var hann siedur meir enn af Fimm hundrud Brædrum j senn, af hvørium marger enn lifa til, enn nockrer eru burtsofnader.

7. Og epter þad er hann siedur af Jacobo, og sijdann af øllum Postulunum.

8. Enn sijdarst allra þeirra, so sem af ødrum otijmabærum burde, er hann siedur af mier.

9. Þviad eg em sijdstur Postulanna, og em eige verdugur þad eg skule Postule heita, fyrer þad eg offsokn veitte Guds Søfnude.

10. Enn af Naad Guds em eg, þad eg er, og hans Naad j mier hefur ei forgiefins verid, Helldur hef eg miklu meir erfidad enn aller þeir adrer, þo ecke eg, helldur su Guds Naad, sem med mier er.]

11 Þad sie nu eg, edur þeir, þa predikum vier so, og so hafid þier truad.

II. 12. Enn first ad Christur verdur predikadur, þad hann sie upprisinn af dauda, hvørnen seigia þa nockrer af ydur, þad Upprisa Frammlidinna sie eckert?

13. Og ef Upprisa Frammlidinna er ecke, þa er Christur og ecke upprisinn.

14. Enn ef ad Christur er ei uppaptur risinn, so er vor Predikan onyt, þa er og ydar Tru onyt. 15. Enn

15. Enn vier fyndunst þa eirnenn Liugvottar Guds, med þvi vier høfum vitnad j giegn Gude, þad hann hefde Christum uppvaked, hvørn hann hefde ecke uppvaked.

16. First hiner Frammlidnu skulu ecke uppriisa, Þvi ef Frammlidner skulu ecke upriisa, þa er og Christur ecke upprisinn.

17. Enn ef Christur er ei uppaptur risinn, þa er ydar Tru onyt, so erud þier þa enn j ydrum Syndum.

18. Þa eru og hiner, sem sofnader eru j Christo, fortapader.

19. Ef vier vonum alleinasta j þessu lijfe a Christum, þa erum vier hiner Vesolustu allra Manna.

20. Enn nu er Christur uppaptur risinn af Dauda, og Frummburdur ordenn þeirra sem sofnader eru.

21. Af þvi, ad fyrer einn mann kom Daudenn, og fyrer einn mann kom Upprisa Framlidinna.

22. Þviad lijka so sem þeir dou aller j Adam, So verda þeir og aller lijfgader j Christo.

23. Þo hvør eirn j sinne Stickan, sa firste Avoxtur er Christus; og þar nærst þeir sem Christi eru j hans tilkomu.

24. Þar nærst endinginn, þa han mun ofurgiefa Rijked Gude og Fodur, þa hann mun afmaa allann Høfdingsskap, Herrastietter, og Valld.

25. Enn honum * biriar ad rijkia þar til hann leggur alla sijna Ovine under sijnar Fætur. * Ps. 110, 1.

26. Enn sa sijdarste Ovinur, sem afmaadur verdur, er Daudenn.

27. * Þviad honum hefur hann alla hlute under hans Fætur lagt, Og þa hann seiger þad, ad allt sie underlagt, þa er þad opinnbert, ad sa er undannteken sem honum hefur alla hlute underlagt. * Psalm. 8, 7.

28. Enn nær honum eru aller hluter undergiefner, þa mun sialfur Sonurinn undergiefast þeim sem honum undergaf alla hlute, so ad GUd sie allt j øllum.

29. Hvad giora þeir ellegar, sem skijrast lata upp yfer (b) Frammlidnum? Ef ad hiner Frammlidnu skulu ei uppaptur rijsa, Hvar fyrer skijrast þeir þa uppyfer þeim Daudu?

(b) Þeir Christnu lietu skijra sig uppyfer Grøfum Frammlidenna, til ad stadfesta þar med Upprisuna, og ad merkia þar med, ad þeir ættu upp ad rijsa.

30. Og hvar fyrer erum vier þa allar Stunder j Haskasemd?

31. Daglega dey eg fyrer vora Hrosan, sem eg hefe j DROTTne vorum JEsu Christo.

32. Strijdde eg epter Mannlegre Meiningu, vid Villudyrenn j Epheso, Hvør nytsemd er mier þad þa, ef ad hiner Frammlidnu skulu ei uppaptur rijsa?

33. Etum vær og dreckum, þviad a morgun erum vier dauder, Latid ecke tæla ydur, þvi Vondt (c) Samtal spiller Godum sidum.

(c) (Samtal) þad er, Illur Stallbræðraskapur, hia hvørium opt til falla miøg hneixlunarsamleg Ord a mote Trunne, sem fordiarfa Samvitskuna.

34. Vakned riettelega og syndgest ecke, þviad sumer vita eckert af GUde, enn þetta seige eg ydur til bligdunar.

35. Nu mætte einhvør seigia, Hvørnenn munu hiner Frammlidnu uppriisa? Og med hvilijkum Lijkama munu þeir koma?

36. Þu Drusse, þad er þu saaer lifnar ecke, utan þad deye aadur.

37. Og þad þu saaer, er ecke sa Lijkame sem verda skal, helldur bert korn, annad hvørt Hveitis, eda einhvørs annars.

38. Enn GUd giefur þvi Lijkama, epter þvi sem hann vill, og sierhvørium einum af Fræenu eiginnlegann Lijkama.

39. Allt Holld er ei lijka haattad Holld, helldur er annad Holld Mannanna, annad Dyranna, annad Fiskanna, enn annad Fuglanna.

40. Þar eru og Himnesker Lijkamar, og Jardnesker Lijkamar, Enn adra Dyrd hafa hiner Himnesku, enn adra hiner Jardnesku.

41. Annann biartleik hefur Solennenn, annann Tunglid, annann biartleik hafa og

Stiornurnar, þviad onnur Stiarnann yfervinnur adra, j biartleika.
42. So og Upprisa frammlidinna, þad verdur saad forgeingelegt, enn mun uppaptur rijsa oforgeingelegt.
43. Þad verdur saad j Vansemd, enn mun uppaptur rijsa j Vegsemd.
44. Þad verdur saad j Breiskleika, enn mun uppaptur rijsa j Krapte. Þad verdur saad natturlegur Lijkame, enn mun uppaptur rijsa andlegur Lijkame. Þar er einn (d) Natturlegur Lijkame, og þar er einn Andlegur Lijkame.

(d) (Natturlegur) Lijkame er þad sem etur og dreckur, sefur, mædest, vex og minkar, afflar Barna; og ꝛc. Andlegur Lijkame er þad, sem einskis þvilijks hefur þørf, og er þo samt sannarlegur Lijkame, Lifande af Andanum, so sem skilia ma af 2. Cap. Gen.

45. So sem ad skrifad er, * Hinn firste Madur Adam, er ordinn ad lifande Saalu, og hinn sijdare Adam ad lijfgande Anda.
* 1 B Mos. 2, 7.
46. Enn hinn andlege er ecke sa firste, helldur sa natturlege, og epter þad er hinn andlege.
47. Hinn firste Madur af Jordunne er Jardlegur, enn hinn annar Madur er Drottinn af Himnum.
48. Hvilijkur hinn Jardneske er, so eru og hiner Jardnesku, og hvilijkur hinn Himneske er, so eru og hiner Himnesku.
49. Og lijka so sem vier høfum borid lijking hins Jardneska, so munum vier og bera Lijking hins Himneska.
50. Enn þar seige eg af, Goder Brædur, ad Holld og Blod gietur eige eignast GUDs Rijke, Og hid forgeingelega, skal eige erfa hid oforgeingelega.
51. Siaed, Ad eg seige ydur leyndann Dom, Þviad vier munum eige aller sofna, Enn þo munum vier aller umskipteleger verda.
52. Og þad nærsta skyndlega, a einu Augabragde, vid hinn sijdarsta Lwdur-þyt. Þviad Lwdurinn mun giella, og hiner Frammlidnu munu upprijsa oforgeingeleger, Og vier munum umskipteleger verda.
53. Þviad þetta hid forgeingelega hlytur ad klædast Oforgeingelegleikanum, og þetta hid Daudlega hlytur ad skrijdast Odaudlegleikanum.
54. Enn þa þetta hid forgeingelega skrydest oforgeingelegleikanum, og þetta hid daudlega klædest hinu odaudlega, uppfyllest þad ord ed skrifad stendur, * Daudenn er (e) uppsvelgdur j Sigur.
* Es. 25, 8. Hos. 13, 14.

(e) (Uppsvelgdur) þad er, Daudenn liggur sleigenn, og hefur øngva Magt framar meir, helldur hefur Lijfed Sigurenn, og seiger, Eg hefe Sigurenn unned; Hvar ertu nu Daude?

55. Daude, hvar er þinn Broddur? Helvijte, Hvar er þinn Sigur?
56. Enn Daudans Broddur er Syndenn, enn Kraptur Syndarennar er Løgmalid.
57. Enn GUde sieu þacker, sem oss hefur Sigurinn giefed, fyrer DROttinn vorn JEsum Christum.
58. Fyrer þvi, mijn kiær børn, verid stadfaster og obrærañleger, og aukest ætijd j Verke DROttins, med þvi þier vited, ad ydvart Erfide er ei onytt j DROttne.

# XVI. Capitule.

Paulus bijdur (I) ad gefa Ølmusur; og (II) ad vera Stødugum i þeirre Sonnu Tru a JEsu.

I. Enn um þann Stirk sem þie skal vid hina Heilogu, so sem ad eg hefe bodid Sofnudinum j Galatia, þa giored þier og lijka.
2. Legge hver ydar hia sialfum sier a firsta Dag Vikunnar, og samannsafne hvad hann kann af stad ad koma, so ad eige þurfe þa ed firsta, er eg kiem til, þessare Hialp samañ ad safna.
3. Enn þa er eg kiem þar, hvorium hellst þier þa truid til Briefanna, þa vil eg senda, so ad þeir flytie ydvar godvilld til Jerusalem.
4. Og ef þess gioerest þørf, ad eg eirninn ferdest þangad, þa skulu þeir med mier fara.
5. Enn eg vil koma til ydar, þa eg fer um Macedoniam, þviad um Macedoniam mun eg ferdast.
6. Enn ma vera, ad eg blijfe hia ydur, eda dvelie þar eirninn um Veturinn, so ad þier giored mijna utfor, hvert sem eg kann ad ferdast.

7. Nu

7. Nu vil eg ei sia ydur j þessare umferd, þviad eg vona, þad eg muni um nockurn Tijma tefia hia ydur, ef DROttinn lofar.

8. Enn j Epheso mun eg dveliast til Hvijtasunnu.

9. Þviad mier eru þar (a) miklar og kroptugar Dyr opnadar, og þeir eru kostgiæfner, enn marger eru þar motmælendur.

(a) (Miklar Dyr) Hier med meinar hann, ad þar sieu marger Tilheyrendur eins og Evangelium geinge med Magt jnn um Portdyrnar, og þeir hielldi sig kostgiæfelega til Evangelium, hvørt ed naumlega komst jnn um Glugga edur Smugur j Jerusalem.

10. Ef Timotheus kiemur til ydar, siaed so til, ad hann sie utan otta hia ydur, þvi hann rekur og so DROTTins Erinde, so sem eg.

11. Fyrer þvi forsmaaed hann eige, helldur leided hann ut j Fride, so ad hann kome til mijn, þviad eg bijd hans med Brædrunum.

12. Enn af Apollo Brodur (þa vitid) þad eg hefe aaminnt hann nærsta miøg, ad hann kiæme til ydar, med Brædrunum, enn þad var med ongvu mote hans vilie, þad hann kiæme nu. Enn hann mun þo koma, þa hann fær Tom til.

II. 13. Vaked og standed j Trunne, Vered ydur Karlmannlega ad, og vered stirkver.

14. Alla ydra hlute loated skie j Kiærleika.

15. Enn eg aaminne ydur, goder Brædur, Þier þecked Heimkinne Stephanæ, þad þeir eru frumburder þeirra j Achaja, og sialfer hafa þeir skickad sig til Þionustu vid Heilaga.

16. Uppa þad þier sieud og þvilijkum undergiefner, og øllum þeim sem stirkia til og erfida?

17. Enn eg fagna af Stephanæ og Fortunati, og Achaici tilkomu, þvi hvad mig vantade hia ydur, þad uppfylldu þeir.

18. Þviad þeir nærdu minn Anda, og ydvarn, fyrer þvi þeckid þa sem þess hattar eru.

19. Ydur heilsar Søfnudurinn j Asia, Ydur heilsar mikelega j DROTtne Aqvila, og Priscilla, med þeim Søfnude j þeirra Husi.

20. Ydur heilsa aller Brædur, Heilsid hvor ødrum med heilogum Kosse.

21. Eg Paall heilsa ydur med minne Hende.

22. Og ef sa er nockur, hann elske ecke DROTtinn vorn JEsum Christum, þa sie hann (b) Anathema, Maran Matha.

(b) A Norrænu Bann, Anathema uppa Grisku, Maran uppa Ebresku, er hid sama, enn Matha, þad kallast Daude, Nu vill S. Paall seigia, hvør hann elskar ecke Christum, sa er Bølvadur til Dauda.

23. Naad DROTtens vors JEsu Christi sie med ydur.

24. Minn Kiærleike sie med ydur øllum j JEsu Christo,

Amen.

Hinn Firre Pistill til þeirra j Corintho Borg, sendur utaf Philippis, fyrer Stephanam, og Fortunatum, og Achaicum, og Timotheum.

# Formaale yfer Annann S. Paals Pistil til Corinthios.

J þeim Firra Pistle, hefur hinn Heilage Paall hardlega straffad þa j Corintho, j mørgum greinum, hellande snørpu Vijne j Beniarnar, og hrædde þa, Enn epter þvi einum Postula ber ad vera huggunar Predikara, til ad vidrietta hinar hræddu og skielfdu Samvitskur, framar enn hrella þær, Fyrer þvi prijsar hann nu þa aptur j þessum Pistle, hellande so Vidsmiøre i Saarenn, tiaande sig þeim nærsta vingiarnlegann, og biodande þeim ad medtaka hinn Synduga aptur med Kiærleika. J hinum Firsta og Ødrum Cap. auglyser hann sinn Kiærleika vid þa, hvørsu ad hann hefur alla hlute sagt, giørt, og lidid þeim til nytsemdar, og heilsugiafar, So ad þeir mættu þvi helldur alls hins besta til hans vænta.

Epter þad, j hinum Þridia, Fiorda, og Fimta Cap. prijsar hann þad Evangeliska predikunar Embætte, hvørt ad sie hid allra hærsta og huggunarsamlegasta Verk, Samvitskunne til nytsemdar og hialprædis, og ævijsar, ad þad sama sie øllu ædra enn Løgmalsins Embætte. Og ad þad verde ofsokt, enn avaxtest þo, og framm kvæmest hia þeim Christnu, og afle fyrer Krossburdenn von eylijfrar Dyrdar, Enn jafnframt þessu øllu, kiemur hann vid þa Falspostula, þeir ed Løgmalid hardlega knudu framm j giegn Guds Evangelio, hvørier ecke utan utvortis heilagleik (þad er hræsne) bodudu, og lietu hinar junre skammer Vantruarennar kirrar vera.

J hinum

J hinum Siotta og Siounda æminner hann þa, þad þeir epterfilge slijkre predikan med Verkunum, og j lijdingunne, og lycktar þad med þeirra lofe, Uppa þad, ad hann hvette þa so til æframm leingra ad fara.

J Attunda og Nijunda, æminner hann þa, ad þeir veitte j þeirre dyrre Tijd, Hialp og studning þeim Heiløgu sem til Jerusalem høfdu i upphafe øll sijn audæfe ofurgiefid. Actor. 4 Cap.

J hinum Tijunda, Ellefta, og Tolfta, hefur hann ad giora vidur þa Fals-Postula.

J hinum þrettanda, heiter hann þeim hardindum, sem syndgad høfdu og ei betrudu sig.

# Annar S. Pauls Pistill til Corinthios.

## I. Capitule.

Huggun og þolennmæde Pauli i allskonar þreyngingum og møtgange.

Paulus, Postule JEsu Christi fyrer GUds Vilia; og Broder Timotheus. Þeim GUds Søfnude j Corintho, samt øllum Heiløgum j allre Achaia.

2. Sie Naad og Fridur med ydur, af GUde vorum Fødur, og DROTtne JEsu Christo.

3. Blessadur sie GUd og Fader DROTtins vors JEsu Christi, hvør ad er Fader Miskunsemdanna, og GUd allrar Huggunar, sa oss huggar j allre vorre Hriggd.

4. So ad vier gietum og huggad þa, sem eru j alls hattudum Hriggdum, medur þeirre huggan, þar vier verdum med af GUde huggader.

5. Þviad lijka so sem vier høfum miked af Christi Pijnu, so verdum vier og lijka rijkuglega huggader fyrer Christum.

6. Enn hvort ad vier høfum Hriggd eda Huggan, þa skier þad ydur til goda, Er þad Hrigging, þa skier þad ydur til huggunar, og heilsugiafar (hvør heilsugiøf ad audsyner sig, ef þier a þennann mæata med þolinnmæde lijded, lijka sem þad vier lijdum) er þad Huggan, so skier þad ydur til Hugganar og hialprædis.

7. Og vor Von er stadføst fyrer ydur, af þvi ad vier vitum þad, ad lijka sem þier erud Hluttakarar vordner Hriggdanna, so munud þier og verda hluttakarar Huggunarinnar.

8. Þviad vier vilium eige dylia fyrer ydur, goder Brædur, vora Hriggd, hvør oss skiede j Asia, þviad vier vorum odæmelega forþyngder, yfer vort megn, so ad vier ervæntum eirnenn Lijfe ad hallda, urskurdande þad med sialfum oss, ad vier ættum ad deya.

9. Enn þad skiede þar fyrer, ad vier settum ecke vorn trunad a sialfa oss, helldur a þann GUd sem Dauda uppvekur.

10. Hvør oss hefur frelsad af þvilijkum Dauda, og nu daglega frelsar.

11. Og vier vonum þad hann mune oss frelsa hier epter, fyrer tilstirk ydar Fyrerbønar fyrer oss, so ad fyrer þa Gæafu sem oss er giefenn, fyrer margar Persónur yfer oss, skie mikil þackargiørd.

12. Þviad vor hrosan er þad, sem er vitnan vorrar Samvitsku, þad vier høfum framm farid j Verølldenne j einfalldleik og GUds grandvarlegleika, ei j holldlegre Vitsku, helldur j GUds Naad, enn einna mest hia ydur.

13. Þvi vier skrifum ydur eckert annad til, enn þad þier lesid og reynid, enn eg vona þad þier munud reyna oss so allt til endeloka.

14. So sem þier hafid og reynt oss af nockre pæalfu, ad vier erum ydar hrosan, lijka so sem ad þier erud og vor hrosan, a Deige DROTtins vors JEsu.

15. Og uppa þvilijkt Traust þeinkte eg einusinne til ydar ad koma, uppa þad þier medtækiud aptur ad nyu einn Velgiørning.

16. Og eg ferdadest fyrer ydur j Macedoniam, og kiæme ur Macedonia aptur til ydar, og verde so af ydur a veg leiddur j Judeam.

17. Enn hafe eg oftøduglynde framid, þa

er

er eg hugleidde slijkt, Eda er minn ꝍsetningur holldlegur? Eige so, helldur hia mier er Ja, Ja, og Nei, Nei.

18. Enn trulyndur er GUD, ad vor Ord voru ei til ydar, Ja og Nei.

19. Þviad Sonur GUDs JEsus Christur, sa ad fyrer oss er a medal ydar predikadur, fyrer mig og Silvanum, og Timotheum, hañ var eige Ja og Nei, helldur var þad Ja j honum.

20. Þviad øll GUDs Fyrerheit eru ja j honum, og eru (a) Amen j honum, GUDe til Dyrdar fyrer oss.

(a) (Amen) Þad er vissulegt og sannarlegt.

21. Enn GUD er sa sem oss stadfester samt ydur j Christo, og oss hefur smurt.

22. Og jnnsiglad, og giefed Andann til Pannts j vor Hiørtu.

## II. Capitule.

Einn sem var Bannfærdur, en giørde sijdan yferbot, er Jntekinn aptur i þann Almennelega GUDs Søfnud.

Og eg ꝍkalla GUD til Vitnis, uppa mijna Sal, þad eg þyrmde ydur j þvi, ad eg kom ei aptur j Corintho.

2. Ecke þad vier sieum Drottnar yfer ydvarre Tru, helldur erum vier tilhialpendur ydvars fagnadar, þviad þier standed j Trunne.

3. Eg þeinkte og med sialfum mier þad, ad koma ei aptur til ydar med hriggd.

4. Þvi ef so er, ad eg hriggde ydur, Hvør er hann þa, sa er mig gledur, utan sa sem af mier verdur hriggur giørdur?

5. Og þad hid sama skrifade eg ydur, so ad eg þyrfte eige hriggur ad vera, þa ed eg kiæme, af hvøriu eg ætte med riettu þo gladur ad vera, Med þvi ad eg treyste þess til ydar allra, þad ad minn fognudur sie allra ydar fognudur.

6. Þviad eg skrifade ydur til j mikille hriggd, og trega mijns hiarta, med mørgum Tꝍraføllum, Ei þad þier skylldud hriggver verda, helldur þad þier skylldud þeckia þann kiærleika sem eg hefe yferfliotannlega til ydar.

7. Enn ef einhvør hefur Hriggd af stad komed, sa hefur ei (a) mig hriggt, utan einaſta j nockurn mata, uppa þad, ad eg þyngde ydur eige øllum.

(a) (Mig) þad er, hann hefur ecke angrad mig um ydur, helldur ydur. Þvi þad eg var angradur, þad var ydar vegna, enn ecke mijn.

8. Enn þad (b) ꝍnæger, ad sa same er af mørgum so straffadur.

(b) (ꝍnæger) Hann talar um þann hann straffade i firsta Pistle 5. Cap. Og villde hafa ofurselt hann Diøflenum, enn nu bifalar hann, ad Menn skuli taka hann aptur þad first hann hefde straffadur vered.

9. Uppa þad þier fyrergiefed honum nu hiedan af þvi framar, og huggan veited, so ad hann søckvest ecke j ofmikla hriggd.

10. Hvar fyrer ad eg beide ydur, þad þier audsynid a honum Kiærleik.

11. Þvi fyrer þad skrifade eg ydur til, þad eg kiennde ydar raun, hvørt ad þier værud hlyduger j øllum greinum.

12. Enn hvørium sem þier fyrergiefed nockud, þeim fyrergief eg og. Þvi eg eirninn, ef eg fyrergief nockrum eitthvad, þad fyrergief eg ydar vegna j Christi stad.

13. So ad vier verdum ei tælder af Andskotanum, þviad oss er eige ovitanlegt hvad hann hefur j skape.

14. Enn þa er eg kom til Troada ad predika Christi Evangelium, og mier voru Dyr upploknar j DRottne.

15. Hafde eg eige hvijld j mijnum Anda, er eg fann ecke Titum minn Brodur, helldur giørde eg minn skilnad vid þa, og for burt j Macedoniam.

16. Enn Gude sieu þacker, sa alla tijma giefur oss Sigurinn j Christo, og fyrer oss opinberar jlming sinnar Kynningar j øllum stødum.

17. Þviad vier erum fyrer Gude god jlming j Christo, bæde a medal þeirra sem hialpast, og medal þeirra sem fortapader verda.

18. Þessum jlmur Daudans til Dauda, enn hinum jlmur Lijfsins til lijfs. Og hvør er hæfilegur til þessa?

19. Hviad vier erum ecke so sem marger adrer, þeir ed Guds Ord (c) falsa, Helldur so sem af skiærleika, og so sem af Gude, tolum vier, fyrer Guds auglyte j Christo.

(c) (Falsa) Vegna Magans og Agyrndarennar, so sem þa einn Viintappare falsar Viin.

## III. Capitule.

Paulus talar (I) um vegsemd þess Evangeliska Embættes; og (II) um þess Diorfung.

I. Tøkum vier enn aptur til ad hæla sialfum oss? Eda þurfum vier lijka so sem ad nockrer Holsbriefaana vid til ydar, edur Hols Briefinn af ydur?

2. Pier erud vort Brief skrifad, j vorum hiortum, sem audkiennt og lesid verdur af øllum Mønnum.

3. Þier sem auglyster erud ordner, þad þier erud Brief Christi, tilreidder fyrer Predikunar Embætte, og af oss skrifader, eige med Bleke, helldur med Anda Guds lifande, ei a Steinspiolldum, helldur a holldlegum spiolldum hiartans.

Pistillenn XII. Sunnud: epter Trinitatis.

4. Enn slijkt (a) Traust høfum vier fyrer Christum til Guds.

(a) (Traust) ad vier høfum tilbued ydur til eins Briefs.

5. Eige so þad vier sieum af oss sialfum neyter nockud ad hugleida, so sem af sialfum oss til, helldur þad vier erum neyter, þa er þad af Gude.

6. Sa er oss giorde neyta, framm ad flytia Embætte hins Nya Testamentis, eige (b) Bokstaffsins, helldur (c) Andans, Hviad Bokstafurinn deyder, enn Andenn lijfgar.

(b) (Bokstaffsins) Ad kienna Bokstafenn, er ad kienna eintomis Løgmaaled og Verkenn, aan Naadarinnar Kynningar; þar med fordæmest allt og þeckist ad vera Dauda verdugt, hvad hellst ad Manneskiann er edur giører, þvi aan Guds Naadar, kann hun eckert gott ad giøra.

(c) (Andans) Ad kienna Andann, er ad kienna um Naadena aan Løgmaalsins og Forþienustu; þar med verdur Manaskiepnann lifande og holpenn.

7. Enn first þad Embætte sem fyrer Bokstafena deyder, og a Steinum er grafed, hafde soddann Biartleik, so ad Israels Børn gaatu eige lited j Asionu Moysis, fyrer Biartleika saker hans Andlitis, sem þo tekur Enda.

8. Hvi skyllde þa ei miklu meir þad Embætte sem Andann giefur biartleik hafa?

9. Hviad ef þad Embætte sem Fyrerdæmingena predikar hefur birte, miklu framar hefur þa þad Embætte, sem Riettlætid bodar, yfergnæfanulegann biartleik.]

10. Þvi hinn annar Parturenn sem birte hafde, er fyrer ongva birte halldande j giegn þessare yfergnæfanlegre birte.

11. Þvi first þad hafde birte sem enda tekur, miklu framar mun þad hafa birte sem stødugt blijfur.

II. 12. Af þvi vier høfum nu slijka von, þa høfum vier stora diorfung.

13. Og giørum ei so, sem Moyses giørde, hvor ed * heingde (d) huldu fyrer sijna Asian, so ad Israels Børn feingu ei lited ending þess er enda tok. * 2 B. Mos. 34, 33.

(d) (Huldu) Su Moysis hulda er ad skilia, ecke Bokstafenn nie hans Lærdom. Openbert Andlit Drottins er klaar skilningur Andans og Naadarennar, sem giører oss frij fra Løgmaalenu, Bokstafnum, og þeirra Verkum, so ad þeirra Birte og Verk skule linna.

14. Helldur eru þeirra hugskot forherdt.

15. Hviad allt til þessa Dags, er su sama Hulda ecke burt tekenn, yfer þvi Gamla Testamentinu, þa þeir lesa þad, hvort ad j Christo tekur enda, enn su Hulda hanger allt til þessa dags, fyrer þeirra Hiortum, þa Moyses verdur lesinn.

16. Enn ef (e) þad snere sier til DRottins, so yrde su hulda j burt tekenn.

(e) (Þad) Hiartad.

17. Þvi DROttinn er Ande, Enn hvar Ande DROttins er, þar er Frelsi.

18. Enn nu skodum vier aller birte Drottins, so sem j (f) speigle med ohuldre Asian, og vier verdum umbreitter til þeirrar somu Mindar,

dar, fra einne birte til annarar, so sem af DROTtins Anda.

(f) (Speigle) So sem einn Speigell tekur vid Mindenne j sig, so tekur vort Hiarta vid Christi Kynningu.

# IV. Capitule.

Paulus talar um Friofseme Evangelii j þeim Strijdum e Sotnude JEsu her a Jordunne.

Hvar fyrer, a medann vier hofum nu sodann Embætte, so sem ad vier hofum Miskunseme til odlast, þa þreytumst vier ecke.

2. Helldur umflyum vier (a) leynelegar skammer, og forum ei med flatskap, folsum og ecke GUds Ord, helldur med Sannleikans Opinberingu, og audsynum oss vel vid allar Samviskur manna fyrer GUde.

(a) (Leynelegar skammer) Hann stingur þa folsku Postula, hvorier utvortis syndust kostuleger, enn voru jnnra fuller Ohreinleika. Matth 23.

3. Er nu vort Evangelium hulid, þa er þad hulid þeim sem fortapader verda.

4. J hvorium ad (b) GUd þessarar Verralldar hefur forblindad Hugskot vantruadra, so þeir siae eige þad klara Evangelij Lios Christi Lioma, hvor ad er GUds riettu Jmind.

(b) (GUd) þessarar Verralldar GUd og Hofdinge er Diofullenn, þviad hun þionar honum, og er under honum.

5. Þviad vier predikum ecke sialfa oss, helldur JEsum Christum, þad hann sie Drottinn, enn vier ydrer Pionar JEsu vegna.

6. Þviad sa GUd sem Liosinu baud ur Mirkrenu ad skijna, hann gaf eitt klart Skin j vor Hiortu, so ad fyrer oss (c) framm kiæme Upplysinginn utaf þeckingu GUds biartleika, j (d) Andlite Christi JEsu.

(c) (Frammkiæmi) þad er, Vier skulum lysa og predika hvornenn GUds Nad skal þeckiast, sem oss er tied j Christo JEsu, adrer meiga skijna og predika af Verkunum.

(d) (Andlite) þad er Christi Kynning, ei Mosis Andlit, hvort ad er Logmalsins Kynning, þviad fyrer Christum þeckium vier GUd Joh 6.

7. Enn þennann Fiesiod hofum vier j Leyrkierum, so ad sa yfergnæfanlege Kraptur sie GUds, og eige af oss. Alla vege lijdum vier harma, enn vier hriggiunst þo eige.

8. Oss veiter torvelldt, Enn vier orvilnumst eige, Vier lijdum Offsokn, enn vier verdum þo eige fyrerlatner.

9. Vier verdum nidurþrickter, enn vier fyrerforunst ei.

10. Og ætijd berum vier med oss Dauda DROTtins JEsu a vorum Lijkama, So ad og eirninn Lijf DROTTins JEsu opinbert verde a vorum Lijkama.

11. Þviad vier sem lifum, verdum jafnann j Daudann sellder JEsu vegna, So ad eirnenn Lijf JEsu opinnbert verde a voru Daudlegu Holldе.

12. Fyrer þvi er nu Daudenn mektugur j oss, enn Lijfid j ydur.

13. Enn med þvi vier hofum þann sama Truarennar Anda, epter þvi sem skrifad er, * eg trude, og fyrer þad tala eg, Og vier truum, fyrer þvi tolum vier og eirnenn.

* Psalm. 116, 10.

14. Og vitum þad, ad sa sem DROTtinn JEsum hefur uppvakid, ad hann mun oss og uppvekia fyrer JEsum, og mun skicka oss med ydur.

15. Þviad allt þetta skier ydar vegna, so ad su yfergnæfannlega Nad, fyrer margra þackargiord, vegsame GUd rijkuglegana.

16. Fyrer þvi þreytunst vier ecke, helldur, þo þad vor ytre madur fordiarfist, þa mun þo sa hinn jnnre dag fra deige endurnyast.

17. Þviad vor hriggd, sem stundleg og liett er, giorer oss eina eylijfa og yfer allann mata mikla Dyrd.

18. Oss sem ei aalijtum hid synelega, helldur hid osynelega, þviad hvad synelegt er, þad er stundlegt, enn hvad osynelegt er, þad er eylijft.

# V. Capitule.

Kroptug Huggun, sem hiner Truudu hafa fyrer Evangelium, og i Þvi.

Þvi vier vitum, þo þetta Jardneska Hus vorrar Tialldbudar verde nidurbrotid, þad ad vier hofum Bygging af GUde uppbygda,

da, Hwꝛs, eige med Hondum giort, þad æfinnlegt er a Himnum.

2. Og þar epter andvorpum vier eirnenn, epter vorre J=Bygging sem er a Himnum, gyrnandist henne ad yferklædast.

3. Po so, ad vier sieum Klædder, og ei nakter fundner.

4. Pviad medann vier erum j Tialldbwdinne, þa forleinger oss, og erum þyngder, af þvi vier villdum fegner eige afklædder, helldur yferklædder verda, uppa þad hid daudlega burt svelgest af Lijfenu.

5. Enn hann sem oss bio til þess hins sama, er sa GUd, sem oss giefed hefur Andann j Pant.

6. Enn jafnann þa erum vier med godu giede, og vitum þad, ad med þvi vier byggium j þessum Lijkama, þa erum vier j fiarlægd fra DRottne.

7. Pvi vier gongum j Trunne og ecke j Skoduninne.

8. Enn vier erum med godre hughreyste, og hofum miklu meire lyst til ad vera fiarlæger af Lijkamanum, og heima hia DROTtne.

9. Fyrer þvi kostgiæfum vier og eirnenn, hvort vier erum heima eda fiarlæger, þad vær kynnum ad vera honum þocknanleger.

10. Pvi vier hliotum aller ad opinberast, fyrer Domstole Christi, Uppa þad, ad hvor eirn odlest epter þvi hann hefur ad hafst i Lijkamans Lijfe, sie þad jllt eda gott.

11. Med þvi, ad vier vitum, ad DROttinn ber ad ottast, þa forum vier j (a) hægd ad vid Lydenn, enn GUde erum vier opinberer, Eg vona og eirnenn, þad vier sieum og j ydrum Samvitskum opinberer.

(a) (j Hægd) þad er, vier hondlum ecke vijkingslega, edur þvinaum Folked med Banne, edur annare strangre stiornan, Þvi vier ottunst Gud, helldur kiennum vær þeim hogværlega, so vier øngvann styggium.

12. Pvi vier losum oss eige sialfa ad nyu, Helldur þad vier giefum tilefni ad hrosa af oss, uppa þad þier hafid nockru ad hrosa j mote þeim, sem hrosa sier epter aasynd, og ecke epter Hiartanu.

13. Pvi erum vier (b) Hoftuger, so erum vier þad GUde, erum vier hoglater, þa erum vier ydur hogloater.

(b) (Hoftuger) þad er: þo vier holldum ad Folkenu, þa Þienum vær þo Gude þar med, enn hondlum vær hoogværlega og lijtillatarsamlega vid þa, þa giørum vier Folkenu þad til goda, so ad þad er a allar sijdur riett og vel giort.

14. Pviad Christs Kiærleike þvingar oss, af þvi vier holldum þad þar fyrer, fiest ad einn hefur fyrer alla daed, þa sieu þeir aller dauder.

15. Og þvi hefur hann fyrer alla daed, so ad þeir sem lifa, lifi ei sialfum sier hier epter, helldur honum sem fyrer þa hefur daid, og uppaptur risid.

16. Þar fyrer þeckium vier nu hier epter, øngvann (c) epter Holldenu. Pott ad vier hofum eirnen þeckt Christum, epter Holldenu, þa þeckium vier hann þo nu so eige leingur.

(c) (Epter Holldenu) Ad Þeckia ecke Christum epter Holldenu, er, ad leita einskis Þess hia honum sem holldlegt er, so sem hans Lærisveinar giordu fyrer hans Pijnu og Dauda, helldur ad laata sier nægia med hans Ord, j hvørin Þeir hafa einungis eylijft Lijf, og andlegt Gots.

17. Þar fyrer sie nockur j Christo, þa er hann ny skiepna. Hid gamla er umlidid, siaed, Aller hluter eru nyer ordner.

18. Enn allt þad af GUde, hver oss forlijkte vid sialfann sig fyrer JEsum Christum, og gaf oss þetta Embætte, sem predikar Saattina.

19. Pvi GUd var j Christo og forlijkade Heimenn vid sialfann sig, tilreiknande þeim eige sijnar Synder, og hefur uppreist vor a medal Ordid af Forlijkuninne.

20. So erum vier nu Sendebodar j Christi stad, þviad GUd aaminner fyrer oss, þar fyrer bidium vier ydur j Christi stad, Laatid forlijka ydur vid GUd.

21. Pvi hann hefur þann sem af øngre synd, vissi, fyrer oss ad Synd giort, uppa þad, vier yrdum j honum þad Riettlæti sem fyrer GUde gilldir.

VI. Ca=

## VI. Capitule.

Þeir Truudu verda aaminnter til ad hlijda Christo.

Pistillenn I. Sunnudag i Fostu.

Enn vier aaminnum ydur, sem Medhialpara, ad þier medtaked ecke GUds Naad til o-nytis.

2. Þvi hann seiger, * J þægann Tijma heyrde eg þig, og a Deige hialprædesins hialpade eg þier, Siaed, nu er sa þægelege Tijmenn, nu er Dagur Hialprædesins. * Esa. 49, 8.

3. Laatum oss þvi ecke nockurstadar giefa nockrum hindran, uppa þad Vort Embætte verde ecke lastad.

4. Helldur andsynum oss sialfa j ollum hlutum, so sem GUds Þienara. J mikille Þolinnmæde, j Harmkvælum, j Haaskasemdum, j Þyngslum.

5. J Hoodstrokum, j Fiotrum, j Upphlaupum, j Erfide, j Vokum, j Fostu.

6. J Hreinlijfe, j Vitsmunum, j Bidlundargiede, j Hogvære, j Helgum Anda, j Falslausum Kiærleika.

7. J Sannleiksins Orde, j GUds Krapte, fyrer Herklæde Riettlætesins, til hægre og vinstre Handar.

8. Fyrer Vegsemd og Vansemd, fyrer Vanrikte og gott Rikte, So sem Falsarar, og þo Sannarleiger.

9. So sem Okunnuger, og þo kunnuger, lijka so sem þeir ed deya, og siaed, þad vier lifum, So sem hegnder, og þo ei lijflaatner.

10. So sem Syrgendur, þo jafnann glader, so sem Volader, enn þo þeir ed marga audga, lijka sem þeir ed eckert hafa, og þo hafa alla hlute ]

11. O þier j Corintho, vor Munnur hefur sig opnad til ydar, vort Hiarta er gladt, vorra vegna þurfed þier ecke (a) Tvister vera.

(a) Þeir j Corintho voru hrædder vegna þess fyrra Pistels, og angrudu sig, þad þeir hofdu stigt Postulann; Nu huggar hann þa og seiger, ad sitt Hiarta og Munnur gledie sig og utbreide, þar fyrer skylldu þeir ecke angra sialfa sig, so sem være hann reidur uppa þa. Enn þad þeir villdu angra sig sialfa, þar til hofdu þeir ongva ordsok af honum, helldur angrudu þeir sig so sem god Born af godu Hiarta, hvors þo ecke giordest þorf.

12. Enn þad þier erud tvister, þad giored þier af Hiartans Meiningu.

13. Eg tala vid ydur, so sem vid Born mijn, ad þier hegded ydur og eirnenn vid mig, og sieud lijka hughrauster.

14. Toged ecke annarlegt Ok, med Vantruudum, Þviad hvoria hluttoku hefur Riettlætid med Ranglætenu? Eda hvort samlag hefur Liosid vid Mirkurinn?

15. Hvornenn kann Christo ad koma samann vid Belial? Eda hvort hlutskipte hefur Truadur med Vantruudum?

16. Hvoria samsinning hefur GUds Mustere vid Skurgodenn? Enn þier erud Mustere GUds lifanda, epter þvi sem GUd seiger, * Eg mun bwa j þeim, og ganga j þeim, Eg mun og vera þeirra GUD, og þeir skulu minn Lydur vera. * 3 B. Mos. 26, 12.

17. Þar fyrer, * ganged vt fra þeim, og fraskilied ydur, seiger DROTtenn, og snerted ecke þad Oklaart er, þa mun eg medtaka ydur. * Esa. 52, 11.

18. Og vera ydar * Fader, og þier skulud vera mijner Syner og Dætur, seiger Drottenn Almaattugur. * Jer. 31, 1. 9.

## VII. Capitule.

Truader eru aaminnter ad Lifa Heilaglega, og ad hallda vid Hreinann Lærdom.

Med þvi vier hofum þvilijkt Fyrerheit, mijner Kiærustu, þa latum oss hreinsa oss af allre saurgan Holldsins og (a) Andans, og aaframm forum med Helguninne j GUds Otta.

(a) (Andans) þad er, Lærdomsins og Truarbragdanna Saurgun, so sem þeir Falspostular kienndu.

2. Medtaked oss, ongvum giorum vier mein, ongvum giorum vier Skada, ongvann drogum vier a taalar.

3. Þetta seige eg ydur ecke til ad fordæma ydur, Þviad eg hefe aadur sagt, þad þier erud j voru hiarta, til ad deya med, og ad lifa til samans.

4. J storre dierfung tala eg vid ydur, morgu hrosa eg af ydur, uppfylltur em eg huggunar, yfergnæfanlegur er eg j fognude j allre vorre hriggd.

5. Pvi þa vier komum j Macedoniam, hafde vort Holld ongva Roo, helldur j ollu lidum vier hriggd, hid ytra baraattu, hid jnnra Otta.

6. Enn Gud sa sem huggar þa Fyrerlitlegu, hann huggade oss fyrer tilkomu Titi.

7. Enn eige alleinasta fyrer hans tilkomu, helldur eirnenn fyrer þa huggan, þar hann var af ydur med huggadur, kunngiørande oss ydar forleinging, ydar Tear, ydar Vandlæting um mig, so ad eg gled mig enn meir.

8. Pvi þar eg hriggde ydur med Briefinu, jdrar mig ecke, Po mig angrade þad, enn first eg sie, ad þad Brief hefur ad eins um stundarsaker hriggt ydur.

9. So gled eg mig nu þo, eige af þvi þad þier erud hriggver, helldur þad þier urdud hriggver til jdranar, þviad þier erud gudlega hriggver ordner, so ad þier feingud ongvann skada af oss, j nockurn stad.

10. Þviad su hriggd sem er af Gude, verkar jdran til hialprædis, hvors ongvann jdrar, enn þessa Heims hriggd verkar Dauda.

11. Siaid þad, ad þier erud gudlega hriggver ordner, hvoria Kostgiæfne þad hefur med ydur verkad, þar ad auk Forsvar, Reide, Otta, Forleinging, Vandlæting, Hefnder, og j ollum hlutum þa hafid þier audsynt ydur ad þier erud skijrer j Verkenu.

12. Fyrer þvi, þo ad eg skrifade ydur til, þa er þad ecke hans vegna skied, sem Ranginde framde, og ecke hans vegna, sem oriettinn leid, helldur þess vegna, þad ydar kostgiæfne vid oss opinnber yrde hia ydur, fyrer Gude.

13. Af þvi, þa erum vier huggader, þad þier erud huggader, Enn þo hofum vier yfer allt framm gladt oss meir yfer fognude Titi, þviad hans Ande er ad nyu endurnærdur af ollum ydur.

14. Pvi hvad eg hefe hroosad af ydur fyrer honum, þar fyrer þarf eg ecke ad skammast mijn, Helldur lijka so sem allt þad er sannleike, sem eg hefe vid ydur talad, so er og eirnenn vor hrosan hia Tito, sannleikur ordenn.

15. Og honum er af Hiarta olldungis vel til ydar, þa er hann hugleider hlijdne allra ydar, hvornenn þier hafed med hrædslu og otta hann med tekid.

16. Eg gled mig og, þad eg ma (b) alls til ydar treysta.

(b) Eg kann ecke ad spilla fyrer mier hia ydur.

## VIII. Capitule.

Truader eru aaminnter ad gefa Fatækum Olmusu epter Efnum sinum og Mætte.

Eg kunngiore ydur, kiærer Brædur, þa Guds Naad, sem giefenn er þeim Sofnude j Macedonia.

2. Þviad þeirra fognudur var þa yfergnæfanlegur, þann tijd þeir urdu fyrer morg harmkvæle reynder, Og þo ad þeir være nærsta fatæker, þa hafa þeir þo rijkuglega giefid j ollum einfalldleika.

3. Þviad epter ollu megne (þad vitna eg) og yfer megn framm voru þeir sialfviliuger.

4. Og beiddu oss med morgum aaminningum, þad vier medtækium þa godgiord og samlag Stirksins sem Heilogum þar veitest.

5. Og eige sem vier vonudum, helldur gaafu þeir j firstu sialfa sig DRottne, og oss epter þad, fyrer Guds vilia.

6. Pad vier hlutum ad aaminna Titum, epter þvi hann hafde aadur upphafed, so skyllde hann og fullenda slijka velgiord ydar a mille.

7. Enn lijka sem þier erud rijker j ollum hlutum, j Trunne, j Ordenu, j Skilningenum, og j allre Kostgiæfne, og j ydrum Kiærleika til vor, so afreked eirnenn, þad þier sieud og eirnenn rijker j þessare Velgiord.

8. Eg seige ecke, sem biode eg nockud, helldur med þvi ad hiner adrer eru so kostgiæfner, þa reyne eg ydvarn Kiærleika, hvort hann er af riettre art.

9. Pvi þier vited Naad DRottins vors

JEsu

JEsu Christi, ad þo hann sie rijkur, vard hann þo fatækur ydar vegna, uppa þad, þier yrdud fyrer hans fatækt auduger.

10. Og mitt Raad gaf eg j þessu, þviad þetta er ydur nytsamlegt, þier sem upp hafed (a) byriad fyrer tolf Manudum, eige einasta giorningenn, helldur jafnvel Viliann.

(a) (Upbyriad) Þier erud þeir fyrstu sem þad bæde villdud og giordud.

11. Þvi fullkomnid nu og eirnenn giorningenn, uppa þad, lijka sem þad, ad þar er tilhneigiannlegt sinne til ad vilia; so sie þar og eirnenn tilhneigianlegt sinne til Giorningsins, af þvi sem þier hafed til.

12. Þvi first einn er godviliadur, þa er hann þacknæmur, epter þvi sem hann hefur til, enn eige epter þvi sem hann hefur ecke.

13. Eige skier þad j þa meining, þad adrer hafe hvijld, enn þier hrelling, helldur ad þad sie jafnt.

14. So þione ydar gnægd þeirra þurft, j þessare (hallæris) tijd, uppa þad, ad þeirra gnægd eptera þione ydvarre þurft, og þad sem jofnudur er mætte skie.

15. Sem ad skrifad er,* sa er miklu safnade, hann hafde eckert afgangs, og sa er litlu safnade, hann hafde ongvann brest.

*2 B. Mos. 16 18.

16. Enn Gude sieu þacker, sem slijka fyrerhyggiu hefur giefed j hiarta Titi til ydar.

17. Þviad hann medtok ad sonnu þa aaminning; Enn med þvi hann var so miog kostgiæfenn, er hann af sijnum sialfs eigenn vilia til ydar farenn.

18. Enn vier sendum med honum einn Brodur, þann er lof hefur j Evangelio af allre Samkundunne.

19. Og eige alleinasta þad, helldur er hann eirnenn skickadur utaf Samkundunne, oss til Forunauts, til þessarar velgiordar, sem fyrer oss verdur samannsofnud, DRottne til Sæmdar, og ydar godum vilia (til afhalds.)

20. Og ad giæta þess, ad einginn mætte epter oss seigia nockud vondt, slijkrar audugrar hialpar vegna, sem fyrer oss verdur samann dreigenn.

21. Og sia til, ad þad fære sæmelega, Eige alleina fyrer DRottni, helldur eirninn lijka fyrer Monnum.

22. So hofum vier og sendt med honum Brodur vorn, þann vier hofum opt reynt j morgum greinum, þad hann sie kostgiæfenn, enn nu miklu kostgiæfnare. Og vier hofum miked traust a ydur.

23. Sie þad Titi vegna (sem er minn Lagsmann og hialparmann ydar a mille) eda vegna vorra Brædra (hvorier ad eru Postular Samkundanna, og Dyrdar Christi.)

24. Fyrer þvi giefed bevijsadann Kiærleika og vora hrosan fra ydur, vid þessa, eirninn j auglite Safnadarins.

## IX. Capitule.

Þær Olmusugiafer ega ad greidast af hende sem heited hefur vered.

Þviad um þessa Hialp, sem þeim Heilogu skier, er mier ecke þorf ad skrifa ydur til.

2. Þviad eg veit ydvarn godann vilia, hvar af eg hroosa, hia þeim ur Macedonia (og seige) Þad Achaia er fyrer tolf Manudum reidubuenn, og ydvart epterdæme hefur marga tilknued.

3. Enn eg hefe af þvi þessa Brædur sendt, so þad vor hrosan utaf ydur yrde ei ad ongvu, j þeirre grein, Og þier sieud reidubuner, lijka so sem ad eg hefe sagt utaf ydur.

4. So ad, ef þeir ur Macedonia kiæme medur mier, og fynde ydur ovidurbuna, ad vier (eg vil eige seigia, þier) verdum til skammar, med slijkre Hrosan.

5. Enn eg hefe aalitid þad fyrer gagnlegt, ad aaminna Brædurnar, þad þeir fære first til ydar, ad reidubwa þessa aadurlofada Blessan, þad hun sie til reidu, so þad sie ein Blessan, enn einginn (a) Agyrne.

(a) (Agyrne) þad er Nanuleike, og ad giefa lijted. Syra. 35, 11.

6. Þvi

6. Þvi eg meina þad, hvor hann saaer sparlega, sa mun sparlega uppskiera, og hvor hann saaer j blessanenne, sa mun og eirnenn j blessan uppskiera.

7. Hvor einn epter sijnum efnum, eige med ovilia edur kvogan. Þviad hijrann Giafara hefur GUD sier kiærann.

8. Þviad GUD er mattugur ad giora þad, allshaattud Naad sie gnogleg medal ydar, so ad þier hafed alls gnægd j øllum hlutum, og sieud rijker til allra godra Verka.

9. So sem ad skrifad er, * Hann utdreifde og gaf Fatækum, hans Riettlæte blijfur um allder allda. * Psalm. 112, 9.

10. Enn sa er Sæded giefur Kornsædaranum, sa mun og giefa Brauded til Fædslunnar, hann mun og margfallda ydart Sæde, og aukast lata friofgan ydvars Riettlætis.

11. Þad þier sieud auduger j øllum hlutum, med allann (b) Einfalldleik, sem ad giorer GUde þacker fyrer oss.

(b) (Einfalldleik) ad Velgiørningar skie ecke vegna Nytseme eg gagns edur Launa, ecke helldur Virdinga vegna, helldur af frialsum Kiærleika og lostugliga.

12. Þviad su utgipt þessarar hialpar, uppfyller ei einasta fatækt Heilagra, helldur yfergnæfer hun eirnenn j þvi, þad marger þacka GUde.

13. Fyrer þessa vora trua Þionustu, og prijsa GUD, yfer ydvare hlijdugre Vidurkienningu Christi GUDspialla, og yfer ydvare einfalldre hialparstod til þeirra, og til allra.

14. Og yfer þeirra Bænum fyrer ydur, hvoria ad forleinger epter ydur, fyrer saker þeirrar yfergnæfanlegrar GUds Naadar, sem j ydur er.

15. Enn GUde sieu þacker fyrer sijna oumrædelega Gaasu.

## X. Capitule.

Falskennendur hrosa sier sialfer.

Enn eg Paall beide ydur fyrer Hogvære og Polinnmæde Christi, eg sem j naalægd er lijtils virdtur, ydar a mille, enn j fiarska em eg diarfur vid ydur.

2. Enn eg bid ydur, þad mier sie ecke þorf nalægum diarflega ad hondla, og þa dierfung framme hafa, sem mier verdur tillogd vid suma, þeir oss akta, sem geingum vier epter Holldsins plagsid.

3. Þvi þo vier geingum j Holldenu, þa strijdum vier þo eige j Holldlegum plagsid.

4. Þviad Hervopn vor eru eige Holldleg, helldur maattug fyrer GUde, til nidurbrots Hervirkianna, hvar med vier nidurbriotum þann aasetning.

5. Og alla hæd sem ad sig upphefur j giegn GUds Vijsdome, og ad Herfange tokum alla skinsemd, under Christi hlijdne.

6. Og erum reidubuner ad hefna allrar ohlijdne, þa er ydar hlijdne er uppfylld.

7. Dæmed þier epter aalite. Treyster nockur þar uppa, þad hann sie Christi, þa þeinke sa þar aa mote, eirnenn þetta, hia sialfum sier, þad lijka sem hann heyre Christo til, so heyrum vier eirnenn Christo til.

8. Og þo ad eg hrosade mier nockud framar ut af vorre Magt, sem DROTTinn hefur oss giefed, ydur til betrunar, og ecke til fordiorfunar, þa munde eg þo ecke til skammar verda.

9. Enn þetta seige eg, uppa þad þier latid ydur ei þykia, sem hefde eg viliad skielfa ydur med Briefum.

10. Þviad þaug Briefenn (seigia þeir) eru þung og sterk, enn nalægd lijkamans er veik, og maalid er forsmaanarlegt.

11. Hvor þess konar er, hann þeinke, þad lijka so sem vier erum med Ordum j Briefunum j fraverunne, So dirfunst vier eirnenn ad vera med Giørningenum j Nalægdenne.

12. Þviad vier dirfunst ecke ad reikna oss edur telia medal þeirra, sem sig sialfa lofa. Enn med þvi þeir meta sig hia sialfum sier, og hallda so einasta vot af sier sialfum, þa understanda þeir eckert.

13. Enn vier hroosum oss ecke yfer Maal framm, helldur alleinasta epter Mælingu þeirrar Reglu, þar ed GUD hefur oss þann skamt med

med af meted, ad gieta noad eirnenn allt til ydar.

14. Pvi vier (a) forum ecke oflangt j fra, so sem ad hefdum vier ei noad gietad allt til ydar, Pvi vier erum komner allt til ydar med Christs Evangelium.

(a) (Forum ecke) pad er, vier vilium ecke hrosa oss of miog. Pærum vær ecke komner til ydar, so sem hiner adrer giora, peir er sier hroosa af annarligu erfide, hvørt ad vort er.

15. Og hrosum oss ei framm yfer Mæslingena j annarlegu erfide. Og vonum, ad nær ydar Tru vex nu j ydur, pad vier vilium vijdara komast, epter vorre Reglu.

16. Og predika eirnenn Evangelium peim, sem hinumeigenn ydar bwa, og hroosa oss ecke af pvi, sem med annarlegre Reglu er tilbwed.

## XI. Capitule.

Rett-Truader Kennendur hafa pess a millum pad til ad bera utvortis, er peir mege Hrosa sier af gegn Fals-Kennendum.

Enn hvør sier hrosar, sa hrose sier j DRottne.

2. Pvi fyrer pad er eingenn dugannlegur, pad hann lofar sig sialfur, Helldur pad DRottinn lofar hann.

3. Giæfe Gud, pier hielldud mier lijted eina Favitsku til goda, po pier hallded hana vel til goda.

4. Pvi eg vanda um vid ydur med Gudslegu vandlæte. Pvi eg hefe fastnad ydur einum Manne, so ad eg j hendur sellde Christo eina skijra Mey.

5. Enn pad ottunst eg, ad lijka sem Hoggormurenn tælde Evu med sijnu Flarædе, so lijka meige og burt slijtast ydar Hugskot, j fra peim Einfalldleik sem er j Christo.

6. Pvi ef sa same sem til ydar kiemur, predikade eirn annann JEsum, pann vier hofum ei predikad, eda ef pier medtakid annann Anda, pann pier hofdud ecke medteked, Ellegar annad Evangelium, pad pier hofdud ecke medteked, pa umlidud pier pad rietteлega.

7. Pvi eg helld, pad eg sie eige minne, helldur enn peir hiner Ædre Postular eru.

8. Og pott eg sie fafrodur j Mœalenu, pa em eg po ecke faafrodur j Skilningenum. Pvi eg em hia ydur olldungis vel kiendur.

9. Eda hefe eg syndgad j pvi, pad eg mijnkade mig, so ad pier upphefdust? Pviad eg hefe kunngiort ydur Evangelium fyrer eckert.

10. Og eg hefe rænt adrar Samkundur og Verdlaunenn fra peim teked, pad eg predikade ydur.

11. Og pann tiid eg var hia ydur nalægur og mig skorte, var eg ongvum pungur, Pvi mijna Naudpurft uppfylldu peir Brædur, sem komu af Macedonia, Og j ollum hlutum giætta eg mijn, ad vera utan pyngsla vid ydur, og vil eg enn nu hallda mig so hiedan j fra.

12. Pvi so sannarlega sem Christs Sannleikur er j mier, pa skal mier pesse hrosan j Lande Achaiæ, ecke (a) tilstijfld verda.

(a) (Tilstijfld) sem rennande Vatn, so skal mijn hrosun frammgang hafa, og æframm hallda ohindrud.

13. Hvar fyrer? Ad eg skyllde ei elska ydur? Gud veit pad.

14. Enn hvad eg giøre og vil giøra, pad giøre eg fyrer pad, ad eg afsnijde peim pad tilefne, sem tilefnis fara a leit, pad peir mættu hrosa sier, ad peir sieu so sem vier.

15. Pviad pess hattar Falspostular, og svikfamleger Erfidismenn, giora sig ad Christi Postulum.

16. Og pad eru eige undur, Pvi sialfur Andskotenn umsnyr sier til Liossens Engels.

17. Fyrer pad er pad ei miked, pott hans Pienarar umvende sier eirnenn, so sem være peir Riettlætesins Pienarar, hvørra Endalok munu verda epter peirra Verkum.

18. Eg seige nu enn aptur, pad eingenn meine, ad eg sie favijs, Enn ef ei er so, pa medtaked mig sem annan Favijsann, so pad eg hrose mier eirnenn nockud lijted.

19. Hvad eg tala nu, pad tala eg, ei so sem j DRottne, helldur so sem j Favitsku, med pvi vier erum j pessa hrosan komner.

20. Af þvi marger hrosa sier epter Holldenu, vil eg eirnenn hrosa mier.

21. Þviad þier um-lijded giarnann Fafroda, med þvi þier erud sialfer vitrer.

22. Þier umlijded, þott nockur hneppe ydur j Prælkan, þott nockur fieflette ydur, þott nockur take fra ydur, þott nockur hrokest upp yfer ydur, þott nockur slæe j ydra Asionu.

23. Þetta seige eg epter (b) Ovirdingu, so sem ad værum vier Breiskver vordner. J hvoriu hellst sem þad nockur er nu diarfur (eg tala j heimsku) þa em eg eirnenn diarfur.

(b) (Ovirding) þad er, Vier vilium giøra oss so sem breiskva, hvoria þier skulud umlijda, hvad oss er þo vanvirda, med þvi vier verdum ad umlijda ydur

24. Þeir eru Ebresker, Eg eirnenn. Þeir eru Jsraelitar, Eg eirnenn. Þeir eru Abrahams Sæde, eg eirnenn.

25. Þeir eru Christs Þienarar, Eg tala heimskulega, eg em framar. Eg hefe meir erfidad, Eg hefe meire Hogg lided, Eg em optar fangenn vered, Opt j Daudans Hættu.

26. Af Gydingum hefe eg fimmsinnum feinged fiorutijgu slog, einu færra.

27. Þrisvarsinnum em eg Hvodstryktur, einu sinne gryttur, Þrisvar hefe eg Skipbrot lided, Dag og Nott var eg j Siafar diwpe.

28. Opt þa hefe eg j ferdum vered. Eg hefe vered j Haskasemdum til Vatns, j Haskasemdum medal Ræningia, j Haskasemdum millum Gydinga, j Haskasemdum medal Heidingia, j Haskasemdum j Borgum, j Haskasemdum a Eydemørku, j Haskasemdum a Sio, j Haskasemdum medal falskra Brædra.

29. J Mædu, og Erfide, J miklum Vokum, J Hungre og Þorsta, J miklum Fostum, J kulda og Klædleysi.

30. Fyrer utan þad sem annars tilfellur, sem er, þad eg verd daglega onaadadur, beranþe Ahyggiu fyrer øllum Søfnudum.

31. Hvor er veikur, so ad eg verde ecke (c) veikur? Hvor verdur so hneixladur, ad eg stikne ei?

(c) (Veikur) Hann giørde margt, og liet margt epter þeim Truarveiku, sem hann hafde vel haft valld til ødruvijs med ad høndla, so sem hann seiger, 1 Cor. 9. og 12. (Stikna) þad er, þad angrade hann storlega, þa þeir Veiku voru hneixlader.

32. Ef eg skal þo hroosa mier, þa vil eg hroosa mier af mijnum Breiskleika.

33. Gud og Fader vors DRottins JEsu Christi, hvør Blessadur sie til eylijfdar, veit þad eg lyg ei.

34. J Damasco, liet Landstiornarenn Kongsins Areta, geyma Borgena Damascum, og villde grijpa mig.

35. Og eg vard undenn nidur j Korf ut um Vindaugad, j giegnum Mwrenn, og flyde af hans Hondum.

## XII. Capitule.

(I) Hvørsu ad Pavlus hafe vered ricktur upp i þann þridia Himen: (II) um þann Flein j hans Hollde: (III) Jaatun hans og Forsvar j gegn Falspostulum.

I. Hroosunenn er mier ad sønnu ecke nytsamleg, Þo vil eg nu koma vid Sionenuar og Opinberingar DRottins.

Pistillenn II. Sunnud. i Nijuviku Fostu.

2. Eg þecke Mann j Christo, fyrer fiortan Aarum, Var hann j Lijkamanum, þad veit eg eige, Eda var hann utan Lijkama, veit eg eige, Gud veit þad, Sa same vard ricktur allt upp j hinn þridia Himen.

3. Og eg þecke þann Mann, Hvort hann var j Lijkama edur utann Lijkama, veit eg og ei, Gud veit þad.

4. Hann vard upp ricktur j Paradijs, og heyrde oumrædeleg Ord, þaug sem eingenn Madur fær wt talad.

5. Af þessu vil eg mier hrosa, Enn af sialfum mier til vil eg ecke hrosa mier, nema af mijnum Breiskleika.

6. Og þott ad eg villde mier hrosa, giørda eg ecke fyrer þad heimskulega, þviad eg vil

vil seigia Sannleikenn. Enn eg sporna vid þvi, Þar fyrer, þad eingenn hallde mig ædra, enn so sem hann a mier sier, eda af mier heyrer.

II. 7. Og so ad eg stære mig ei, af þessum hꝏu Openberingum, er mier giefenn einn (a) Fleinn j Hollded, sem er Satans Eingell, sem mig skule med Knefum sla, uppa þad eg stære mig ecke.

(a) (Fleinn) kallast hier ei Freisting Hollosins, til Losta'emennar, helldur stor Plꝏga og skielfing af Diosleaum, þviad þad er Fleinn, sem Menn verda a pijnder, heingder eda stegldir.

8. Um hvad eg hefe DRottinn þrisvar bedet, þad hann vike j burt fra mier.

9, Og hann sagde til mijn, Lꝏt þier nægia mijna Nꝏd, Þviad (b) minn Kraptur er j Breiskdum mꝏttugur. Fyrer þad vil eg sem fegnastur hrosa mier af mijnum Breiskleika, so ad Kraptur Christs bygge med mier.]

(b) (Minn Kraptur) Med þessu Orde huggar Christus alla þa sem veik r eru edur Motgang lijda, þvi hann kann ecke ad syna sinn Krapt j oss, utann vier sieum veiker og plꝏgader.

10. Fyrer þvi em eg med godu trauste, j Breiskleikum, j Vanvirdingum, j Naudum, j Ofsoknum, j Þreyngingum, Christi vegna, Þvi nær eg em breiskur, þa em eg oflugur.

III. 11. Eg em Fifl ordenn af þeirre hrosan, til hvorrar þier þvingudud mig, Þvi eg ꝏtte ad losast af ydur, Af þvi ad eg em ongvum mun minne enn hiner ædstu Postular, þo ad eg sie eckert.

12. Af þvi ad þar eru Postula teikn giord ydar a mille, j allre Þoleinmꝏde og Taknum, j Stormerkium, og Kraptaverkum.

13. Hvad er þad, j hvoriu þier erud minnehꝏttar enn adrar Samkundur? Nema alleinasta j þvi, þad eg veitta ydur ei sialfur neirn þunga, fyrerlꝏted mier þann Glæp.

14. Siaed, eg em reidubwenn j þridia sinn ad koma til ydar, og eg vil ei vera ydur þungur. Af þvi eg spyr ei epter ydar, helldur ad ydur, þvi Bornenn eiga ongvann Aud Forelldrunum saman ad draga, helldur Forelldrarnar Bornunum.

15. Enn eg vil sem fegnastur giefa mig wt, og utgiefenn verda fyrer ydar Sꝏler, hvorsu sem eg elska ydur miog, og verd þo lijtt elskadur.

16. Enn lꝏted þad so vera, eg hafe ei giort ydur þyngsl, Helldur med þvi eg var slægur, veidda eg ydur med slægdum.

17. Enn hefe eg nockurn a tꝏlar dreged, fyrer einhvorn þeirra, sem eg sende til ydar?

18. Eg ꝏminnte Titum, og sende med honum einn Brodur, Hefur Titus nockud tælt ydur? Hofum vier ei j einum Anda frammfarid, og j einum Fotsporum geinged?

19. Lꝏted ydur aptur þykia, þad vier forsvorum oss? Vier tolum j Christo fyrer Gude. Enn allt þetta skier ydur (mijner Kiærustu) til betrunar.

20. Þvi eg ottunst, þa ad eg kiem, ad eg finne ydur ecke, so sem eg vil, Og þier finned mig ecke, eirnenn sem þier villed, Ad þar sie Hatur, Agg, Reide, Þræta, Bakmælge, Kvis, Hrokaskapur, og Orooe.

21. So ad þa er eg kiem, þad minn Gud nidurlæge mig enn ad nyu hia ydur, og eg hliote Ecka ad lijda yfer morgum, þeim er ꝏdur hofdu syndgast, og ongva yferbot giordu, fyrer þann Ohreinleik, Hooraner og Bligdunarleyse, sem þeir hafa framed.

# XIII. Capitule.

Paulus ꝏminner Alvarlega til Sannrar Idranar.

Kome eg j þridia sinn til ydar, so skal j tveggia edur þriggia þeirra Munne standa oll Mꝏlaferle.

2. Eg sagda ydur þad ꝏdur fyrer, og eg seige ydur þad fyrerframm, so sem nalægur, j annad sinn, og skrifa ydur þad nu fiarlægur, þeim sem ꝏdur til forna hofdu syndgast, og hinum odrum, Ef eg kiem aptur j annad sinn, vil eg eige spara.

3. Af þvi þier leited epter, þad þier einhvorn

hvørn tijma verded varer þeſs, ſem j mier talar, ſem er Chriſtur, ſem ecke er breiſkur ydar a mille, helldur mꜳttugur er medal ydar.

4. Og þott hann ſie Kroſsfeſtur j Breiſkleika, þa lifer hann þo j Guds Krapte. Og þott ad vier ſieum eirnenn Breiſkver j hønum, þa (a) lifum vier þo med hønum j Guds Krapte, medal ydar.

(a) (Lifum) þad er, ef eg kiem, þa vil eg audſyna ad eg life j Chriſto, þo ad ſumer af ydur hallde mig fyrer eckert.

5. Reyned ydur ſialfer, hvørt þier erud j Trunne. Reyned ydur ſialfer, Eda þecked þier ecke ſialfa ydur, þad JEſus Chriſtus er j ydur? Nema þad ſie, ad þier ſieud Oduganleger.

6. Enn eg vona ad þier þecked, þad vier erum ei Oduganleger.

7. Enn eg bid þeſs Gud, ad þier hafeſt eckert Vondt ad, Eige uppa þad, ad vier ſynunſt nytſamleger, Helldur uppa þad, ad þier giøred hid goda, og vier ſieum ſo ſem þeir hiner onytſamlegu.

8. Þviad vier meigum ei, nockud j giegn Sannleikanum, helldur fyrer Sannleikann.

9. Enn vier glediumſt oſs, þa vier erum breiſkver, enn þier erud mꜳttuger, og þad ſama æſkium vier eirnenn, ſem er ydar algiørve.

10. Hvar fyrer eg ſkrifa ydur ſlijkt fraverande, So ad eg þurfe ecke, þa eg em nalægur, hardinde framm ad hafa, epter þeirre Magt, ſem DRottinn hefur mier til betrunar, enn ecke til Fordiørfunar giefed.

11. Enn ad ſijdurſtu, goder Brædur, Gledied ydur, vered fullkomner, Hugged ydur, Vered ſamlynder, Vered Fridſamer, Þa mun Gud Kærleikans og Fridarens vera med ydur.

12. Heilſed hvør ødrum jnnbyrdis med Heiløgum Koſſe, ydur heilſa aller Heilager.

13. Nꜳd vors DRottins JEſu Chriſti, og Guds Kiærleike, og ſamteinging Heilags Anda, ſie med ydur øllum,
Amen.

Sa annar Piſtell til þeirra j Corintho, ſendur fra Philippen j Macedonia, fyrer Titum og Lucam.

# Formꜳle yfer S. Paals Piſtil til Galatas.

Þeir j Galatia voru af hinum Heilaga Pꜳle ſnuner til riettrar Chriſtelegrar Truar, og til Gudſpiallanna, J fra Løgmꜳlenu. Enn epter hans burtfør, komu Fals-Poſtular, hvørier þo voru Læreſveinar Riettferdugra Poſtula, og ſneru þeim Galatis um aptur, ſo þad þeir trudu, ad þeir hlyte fyrer Løgmꜳlſins Verk hialpleger ad verda, og þeir ſyndgudu ef þeir hielldu ecke Løgmꜳls Verkenn, ſo ſem Act. 15. til Jeruſalem eirnenn nockrer ærleger Menn meintu þad ſama.

J mote þeſſum hefur hinn Heilage Pꜳll ſitt Embætte hꜳtt upp, og vill ſig eige minne ſtiettar Mann halldenn hafa. enn hvørn annann Poſtula, Og hroo ſar alleinaſta ad vera af Gude, ſinn Lærdom og Embætte, ſo ad hann, þeſſa hrooſan hinna følſku Poſtula, ſem ſig med þeirra riettu Poſtula Verkum og Nafne ſtuddu, nidur kiefde, og ſeiger, þad ſie ecke riett, Þo ad eirnenn einn Eingell ødruvijs predikade, eda hann ſialfur; hvad miklu ſijdur, ef Poſtulanna Læreſveinar, eda Þeir ſialfer ødruvijs lærdu. Þetta giører hann j firſta og ødrum Cap. Og alyktar þad, Ad hvør einn hliote alleinaſta fyrer Chriſtum, ꜳn verdſkulldunar, ꜳn Verka, og ꜳn Løgmꜳlſins Riettlꜳtur ad verda.

J Hinum þridia og fiorda, ſannprofar hann þad allt med Skriftenne, Epterdæmum og Lijkingum, Og bevijſar þad, ad Løgmꜳled føre med ſier, miklu meir, Synd og Bølvan, helldur enn Riettlæte, hvørt alleinaſta er lofad og tilſagt, ut af Nꜳdenne af Gude, og er fyrer Chriſtum ꜳn Løgmꜳls, uppfyllt og oſs giefid.
J fimmta og ſiøtta kienner hann þau Kiærleikſins Verk,
ſem Trunne ſkulu filgia.

Sancte

# Sancte Pauls Pistill til Galatas.

## I. Capitule.

Paulus talar (I) um o-stodugglynde þeirra Galatisku; (II) Um sitt Postula-Embætte.

1. Poall, eirn Postule, ei af Monnum, nie helldur fyrer Menn, Helldur fyrer JEsum Christum, og GUd Fodur, sa hann uppvakte fra þeim Daudu.
2. Og aller þeir Brædur sem med mier eru, Sosnude GUds j Galatia.
3. Naad sie med ydur, og Fridur af GUde Fodur, og vorum DROTTne JEsu Christo.
4. Sem sialfann sig hefur utgiefed fyrer vorar Synder, þad hann frelsade oss j fra þessare nalægre vondre Verolld, Epter GUds Vilia, og vors Fodurs.
5. Hvorium ad sie Dyrd fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.
6. Mig undrar þad, ad þier laated so snart snua ydur j fra þeim, sem ydur kalladi j Naadena Christi, til eins annars Evangelium.
7. Sem þar er þo eckert annad. Utan þad, ad þar eru nockrer, sem ydur villa, og umsnua vilia Christi Evangelio.
8. Enn þo ad eirnenn vier, eda Eingell af Himne, predikade ydur Evangelium odruvijs enn vier hofum predikad ydur, sa sie Bolvadur.
9. So sem vier sogdum nu j stad, so seigium vier aptur ad nyu, þad, ef nockur predikar fyrer ydur odruvijs Evangelium, enn þad þier hafed medteked, sie sa bolvadur.
10. Predika eg nu þad Monnum eda GUde til Þionustu? Eda þeinke eg Monnum þeckur ad vera? Þvi ef eg hefde hingad til Monnum þeckur vered, þa være eg ecke Christi Þienare.
11. Enn eg kunngiore ydur, Kiærer Brædur, ad þad Evangelium, sem af mier er predikad, er ei af Monnum.
12. Þviad eg hefe þad af ongvum Manne medteked nie lært, Helldur fyrer Openberan JEsu Christi.
13. Þviad þier hafed vel heyrt mitt athæfe fordum Daga j Judadomenum, hvorsu eg offsokte ysermaata GUds Sosnud, og fordiarfade hann.
14. Og eg vox j Judadomenum, framm yfer marga mijna jafningia, j mijnu Kine, og var vandlætande yfer maata, fyrer Fedranna Logmaal.
15. Enn þa þad þocknadest GUde, sa mig hefur fraskiled j fra minnar Modur kvide, og kallad fyrer sijna Naad.
16. Ad hann openberade j mier sinn Son, so ad eg skyllde kunngiora hann fyrer Evangelium medal Heidinna þioda, Þa gaf eg mig þar strax til, og radgadest ei þar um vid Holld og Blod.
17. Og ei kom eg j Jerusalem, til þeirra sem fyrer mig voru Postular, Helldur foor eg j burt j Arabiam, og kom so aptur j Damascum.
18. Epter þad, ad þremur aarum lidnum, kom eg til Jerusalem, ad sia Petrum, og eg dvaldest hia honum um fimmtan Daga.
19. Enn annann af Postulunum sa eg ongvann, nema Jacobum Brodur DROttins.
20. Og þad eg skrifa ydur, Siaed, GUd veit þad eg lyg ecke.
21. Epter þad kom eg j Landsalfur Syrie og Cilicie.
22. Enn eg var okiendur, ad yferlite, Christi Sosnudum j Judea.
23. Enn þeir hofdu alleinasta heyrt, þad sa oss aadur til forna offsokte, hann predikar nu Truna, hvoria hann aadur nidur braut.
24. Og þeir vegsomudu GUd a mier.

## II. Capitule.

Paulus seger (I) fra, ad hann hafe funded nockra af Postulum JEsu; og (II) lika Petur. (III) Talar um Rettlæte fyrer Truna.

1. Sijdan epter fiortan Aar, for eg upp aptur til Jerusalem, medur Barnaba, og tok eirnenn Titum med mier.

 2. Enn

2. Enn eg for upp þangad, epter openbe- ran, og hafde Tal vid þa, um þad Evange- lium, er eg predikade medal Heidinna þioda, Enn sierlega þo vid þa, sem oalited hefdu, So ad eg hlype ecke forgiefens, edur hlauped hefde.

3. Og Titus, sa med mier var, þreyngdest ei helldur til ad loata umskiera sig, þott hann være Griskur.

4 Þviad, þa ed nockrer Falsker Brædur hof- du sier med oss innþreyngt, og þar med klok- liga innlædst, til at skoda vort Frelse, hvørt vier hofum j Christo JEsu, so þad þeir veiddu oss.

5. Þa vikum vier þeim ecke, (a) eina stund, undergiefner ad vera, Uppa þad, ad Sannlei- kurenn Evangelii stadfestest hia ydur.

(a) (Eina stund) Þad syndest j þann Tijma ad vera ordsok til ad vijkia fyrer þeim Hardsvijrudu, so þeir þneixludust ecke.

6. Enn af þeim sem oalited hofdu, (b) hvør- nenn þeir voru fyr meir, vardar mig ongvu. Þviad GUD skeyter ecke oalite Mannsins. Enn mier hafa þeir sem oalit hofdu, eckert an- nad kient.

(b) (Hvørnenn) Þeir Falspostular settu framm, ad þeir tolf Postular hofdu umgeingest med Christo sialfum, þar fyrer være þeir meir acktande helldur enn Paulus, þar svarar Poall til, og seiger, ad þar sie eckert under komed, hvørsu ypparleger edur vegsamleger þeir sieu, þviad einn Predikare j Evan- gelio sie so godur sem annar.

7. Helldur þar j mot, þann Tijd þeir soau, þad mier var tiltruad þad Evangelium til (c) Yferhvødarennar, Lijka so sem Petre þad Evangelium til Umskurnarennar.

(c) (Yferhud) Hann kallar Heidingia Yferhud, Þviad þeir voru ei umskorner. 1 Pet. 1, 17.

8. (Þviad sa med Petre er ordenn kroptu- gur til Postula Embættis medal Umskurna- rennar, sa same er med mier eirnenn kroptu- gur ordenn medal Heidenna þioda.)

9. Og þeir Jacobus, Cephas og Johan- nes vidurkienndu þa Noad, sem mier var gie- fenn, sem fyrer Stolpana voru oalitner, gafu mier og Barnaba sijna Hægre Hond, og sa- man toku med oss, Þad vid predikudum a medal Heidenna Þioda, enn þeir a medal Umskurdarens.

10. Utann einasta, þad vier minnust Vo- ladra, hvad eg lagda allt kapp a ad giora.

II. 11. Enn þa Petur kom til Antiochiam, j motstod eg honum under Augun, Þviad klog- un var yfer hann komenn.

12. Af þvi oadur til forna, enn þad nockrer komu j fra Jacobo, þa oat hann med Heidin- gium. Enn þa þeir komu, fordade hann sier, og frasktilde sig þeim, Af þvi hann ottadest þa af Umskurnenne.

13. Og þeir adrer Gydingar hræsnudu med honum, so þad Barnabas vard og so afvega leiddur, til ad hræsna med þeim.

14. Enn þa eg sa, þad þeir geingu ei riett, epter Sannleik Evangelii, sagda eg til Peturs, fyrer ollum openberlega, first þu, sa sem ert Gydingur, lifer sem Heidingiar, og eige sem Gydingar, Hvar fyrer þvingar þu þa, þa enu Heidnu til ad lifa sem Gydingar?

III. 15. Þott ad vier sieum af Natturu Gyd- ingar, og ecke Syndarar ut af Heidnum þiodum.

16. Þo med þvi vier vitum, þad Madurenn verdur ecke Riettloatur fyrer Logmoalsins Verk, Helldur fyrer Truna a JEsum Chri- stum. So truum vier og eirnenn a Christum JEsum, Uppa þad vier verdum Riettloater fyrer Truna a Christum, og ecke fyrer Ver- kenn Logmoalsins. Þvi fyrer Verkinn Log- moalsins verdur eckert Holld riettferdugt.

17. Enn skylldum vier, hvørier epterlei- tum fyrer Christum Riettloater ad verda, enn nu sialfer Synduger fundner verda, Þa være Christur einn (d) Synda-Þienare. Þar sie fiærre.

(d) (Synda þienare) Hvør sem vill Riettlatur verda fyrer Verkenn, hann syner a sier, so sem Christur giorde oss, med sinne þienustu, Embætte, Predi- kun og Pijnu, nu ed fista, ad Syndurum, sem Riett- loater skylldu verda fyrer Logmoaled; þad er ad nei- ta, krossfesta og spotta Christum, og upp byggia Syndena aptur, sem oadur er nidur brotenn fyrer Predikun Trwarennar

18. Enn ef eg bygge þad upp aptur, hvad eg hefe

eg hefe nidur broted, Pa giøre eg mig sialfann ad Yfertrodslumanne.

19. Þviad eg em fyrer Løgmaaled, (c) Løgmalenu daaenn, so ad eg life Gude, Eg em med Christo Krossfestur.

(c) (Løgmaalenu) Fyrer Truna, sem er eitt andlegt Løgmaal, og likande erum vier Dauder Løgmaale Bokstofsins, so vier erum þvi eckert skylduger, Rom. 7, 4.

20. Enn eg life, þo nu ecke eg, helldur lifer Christur j mier. Þvi þad eg life nu j Holldenu, þad life eg j Trunne Guds Sonar, sa mig hefur elskad, og sialfann sig utgiefed fyrer mig.

21. Eige snara eg Guds Naad a burt. Þvi ef fyrer Løgmaaled kiemur Riettlæted, Pa er Christur forgiefens daaenn.

# III. Capitule.

Paulus seger og stadfester framveges, ad Rettlætingenn se ecke af Løgmaalenu, helldur af Trunne, og fæter Røksemder þar til, (I) af verkun Rettlætingarinnar; (II) af Epterdæme Abrahams; (III) af Heilagleika Løgmalsins; (IV) af Einne Epterlijking um Eins Manns Testament, og Guds Fyrerheite um Arf; (V) af Rettre Brukun Løgmaalsins.

I. O þier skinsemdarlauser Galatæ, Hvør hefur tøfrad ydur, þad þier hlijddud ecke Sannleikanum? Hvørium þo JEsus Christur var fyrer Augum maaladur, og nu a medal ydar Krossfesturer?

2. Pad alleinasta vil eg nema af ydur, Hvørt þier hafed medteked Andann, fyrer Verkenn Løgmaalsins, Eda fyrer Predikunena af Trunne?

3. Erud þier so skinlauser? Þier hafed uppbiriad j Andanum, Vilied þier þa nu j Holldenu fullkomna þad?

4. Hafed þier þa lided so margt fyrer eckert? Ef þad er annars fyrer ecke.

5. Sa sem ydur giefur Andann, og giører slijka giørninga a medal ydar, giører hann þad þa fyrer Verkenn Løgmaalsins, eda fyrer Predikunena af Trunne?

II. 6. Lijka so sem * Abraham trude Gude, og þad er honum reiknad til Riettlætis.

*1 B. Mos. 15, 6.

7. So vited þier nu þa, þad þeir sem Truarennar eru, ad þeir eru Abrahams Born.

8. Enn Ritningenn hefur þetta aadur til forna fyrer sied, Pad GUd Riettlaata giører hina Heidnu fyrer Truna. Af þvi kunngiørde hun þad Abraham, * J þier skulu aller Heidingiar blessader verda.

* 1 B. Mos. 12, 3. c. 18, 18. c. 22, 18.

III. 9. Lijka so munu þeir sem Truarennar eru, blessast med hinum Truada Abraham.

10. Þviad þeir sem eru af Løgmaalsins Verkum, þeir eru under Bølvanenne. Þvi skrifad er, * Bølvadur sie hvør sa Madur, sem ei blijfur j øllu þvi sem skrifad er j Løgmaals Bokenne, so hann giøre þad.

* 5 B. Mos. 27, 26.

11. Enn þad, ad fyrer Løgmaalid verde eingenn Riettlaatur fyrer GUde þa er openbert, * þviad Riettlaatur mun lifa af Tru sinne.

* Hab. 2, 4.

12. Enn Løgmaaled er ei af Trunne, Helldur sa Madur sem þad giører, mun lifa þar fyrer.

13. Og Christus hefur leyst oss fra Bølvan Løgmaalsins, þann Tijd hann vard Bølvan fyrer oss (þviad skrifad er, * Bølvadur sie sa, hvør sem a Trie hanger).

* 5 B. Mos 21, 23.

14. So ad Blessan Abrahams kome medal Heidenna Pioda, j Christo JEsu, og ad vier medtækium so fyrerheitenn Anda fyrer Truna.

Pistill: XIII. Sunnud. ept. Trinit.

IV. 15. Kiærer Brædur, Eg vil tala epter Mannlegum plagsid. Einginn foraktar Mannsins Testament (nær þad er stadfest) nie eykur þarvid.

16. Nu eru þo Fyrerheitenn Abraham og hans Sæde til-sogd. Eige seiger hann fyrer Sædinn, so sem fyrer mørg, helldur so sem fyrer eitt. * Fyrer þitt Saad, hvørt ad er Christur. * 1 B. Mos. 22, 18.

17. Enn eg seige þar af, Ad þad Testament sem aadur til forna er stadfest af GUde, uppa Christum, verdur ei onytt giort, so ad Fyrerhei-

rerheited skyllde fyrer Lögmaaled aftakast, hvort ad giefed er fyrer fiorum Hundrudum og þriatijge Aarum þar epter.

18. Þvi ef Arfleifdenn yrde fyrer Lögmaaled afrekud, Þa yrde hun ecke fyrer Fyrerheited giefenn, Enn GUd hefur synrer Fyrerheited giefed hana frij Abraham.

V. 19. Hvar (a) til skal þa Lögmaaled? Þad er komed vegna Syndarinnar, þangad til þad Sæde kiæme, hvoriu Fyrerheited var skied, Og er tilsett af Einglunum, fyrer hond (b) Medal-gongu Mannsins.

(a) (Hvar til) Gud hiet Abraham arfe, þad er Riettlætenu og eylijfu Lijfe, af Naadenne, Hvad skal þa Lögmaaled? Andsvar, Lögmaaled openberar og eykur Syndena, þar þad krefur mikels, hvørs vier ecke megnum, og þar fyrer openberar þad Syndena, so ad vier kunnum ad vidurkienna, ad Gud giörer oss Riettlaata af Naadenne, Enn ef Lögmaaled alleina anægde til ad giøra oss Riettlaata, Hvad hefdum vier þa þorf fyrer þa fyrerheitnu Naad.

(b) (Medalgongumannsins) þad er Mosis, sem var Medalgongumadur mille Guds og Folksins. Nu hefde þar einskis Medalgangara vered þorf, hefde Folked kunnad ad heyra Lögmaaled. Exod. 20. Deut. 5. Enn kunnu þeir ecke Lögmaaled ad heyra, Hvornenn kunne þad þa ad giøra þa Riettlaata.

20. Nu er Medalgongumadurenn ecke eins einasta Medalgongumadur, enn (c) GUd er einn.

(c) (Gud er einn) þad er, Hann hefur ongvann sinn Lijka, þar fyrer kunna Menn ecke vid hann ad hondla um Medal-gongu Mannsins, So sem Job eirnen seiger.

21. Hvornenn þa? Er Lögmaaled j giegn GUds Fyrerheite? Þad sie fiærre, Enn ef þar være nockud þad Lögmaal votgiefed sem lijfgad giæte, Sannarlega, þa kiæme Riettlæted ut af Lögmaalenu.

22. Enn Ritningenn hefur allt jnneluckt under Syndenne, So ad þad Fyrerheit kiæme fyrer Truna a JEsum Christum, og giæfest Truudum.]

Pistillenn a Nya-Aarsdege.

23. Enn aadur enn Truenn kom, vardveittunst vier under Lögmaalenu, og jnneluckter, uppa þa Tru, sem openber skyllde verda.

24. So hefur Lögmaaled vered vor Typtunar madur til Christum, so ad vier Riettlætunst fyrer Truna.

25. Enn nu, ad Truenn er komenn, þa erum vier eige leingur under þeim Typtunarmanne.

26. Þvi þier erud aller GUds Born, fyrer Truna a JEsum Christum.

27. Þviad so marger af ydur, sem erud skijrder, þier hafed jklædst Christo.

28. Hier er eingenn Gydingur nie Griskur, Hier er eingenn Þræll nie Frelsinge, Hier er eingenn Karl nie Kvinna, Þvi þier erud aller eitt j Christo JEsu.

29. Enn sirst þier erud Christi, þa erud þier Abrahams Sæde, og epter Fyrerheitenu Erfingiar.]

## IV. Capitule.

Paulus talar um Frijun þeirra Riettlættu fraa þvingun Lögmaalsins.

Pistillenn a Sunnud. epter Jol.

Enn eg seige, So leinge sem Erfingenn er Barn, þa er a mille hans og Þionsins eingenn greinarmunur, þo ad hann sie Herra alls Gotsens.

2. Helldur er hann under Forveriurum og Fiarhalldsmonnum, allt til aasetts Tijma af Fodurnum.

3. Lijka eirnenn vier, þa vier vorum Born, vorum vier fangader under utvortis Setninga.

4. Enn þa uppfylling Tijmans var komenn, utsende GUd sinn Son, fæddann af Kvinnu, og Lögmaalenu undervorpenn.

5. Uppa þad, ad hann frelsade þa sem under Lögmaalenu voru, So ad vier medtækium Barna Utvalningena.

6. Enn med þvi þier erud Bornenn, hefur GUd sendt Anda sijns Sonar, j ydar Hiortu, kallande, Abba, Kiære Fader.

7. So er hier nu eingenn Þræll meir, helldur

dur Born ein, Enn eru þad Born, þa eru þad eirnenn Arfar GUds, fyrer Christum.]

8. Enn þa þier þecktud ecke GUD, þionudu þier þeim, er af Natturunne eru ongver Guder.

9. Enn nu þier hafed Gud þeckt (joa miklu framar erud af Gude Peckter) Hvornenn vended þier ydur þa um aptur, til þeirra breiskra og naudþurstugra Setninga, hvörium þier vilied nu aptur ad nyu þiona?

10. Þier halldid Daga og Manude, Helgehölld og Aartijder.

11. Eg em oottasleigenn um ydur, þad eg hafe, kann vera, til einskis erfidad hia ydur.

12. Vered so sem ad eg em, þviad eg em so sem þier. Kiærer Brædur (eg beide ydur) þier hafed eckert mein mier giort.

13. Þviad þier vited, þad eg predikade ydur Evangelium, j firsta sinn j veikleika epter Holldenu.

14 Og mijnar Freistaner, sem eg leid epter Holldenu, fyrerlitud þier ecke, nie forsmadud, Helldur so sem annann Guds Eingel medtokud þier mig, joa, lijka sem Christum JEsum.

15. Hvornenn vorud þier so sæler j þad sinn. Eg ber ydur þad Vitne, ef mögulegt hefde vered, ad þier hefdud ydar Augu vtslitid og giefed mier.

16. Enn eg þa so ordenn ydar Ovin, þad eg seige ydur Sannleikann?

17. Þeir vandlæta ecke vel um ydur, helldur vilia þeir giora ydur mier frasnuna, so ad þier skulud vandlæta um þa.

18. Umvandanenn er good, nær hun skier ætijd um hid goda, og ei alleinasta þa eg em nalægur j hia ydur.

19. Mijn kiæru Barna korn, þaug eg enn nu aptur j annad sinn med Angist fæde, þangad til ad Christus j-mindast j ydur.

20. Enn eg villda þad eg være nu hia ydur, og giæte minne Raust umskipt, Þviad eg em esasamur um ydur.

Pistillenn a Sunnud. i Midfostu.

21. Seiged mier, þier sem under Logmaalenu vilied vera, Hafed þier ecke heyrt Logmaaled?

22. Þviad skrifad er, þad Abraham hafde tvo Sonu, * eirn af Ambattenne, og ** eirn af þeirre Frialsu. * 1 B. Mos. 16, 15.
** 1 B. Mos. 21, 2.

23. Enn sa af Ambaattenne var, er fæddur epter Holldenu. Enn hann af þeirre Frialsu, er fyrer Fyrerheited fæddur.

24. Þesse Ord merkia nockud. Þviad þetta eru þau Tvo Testamenta; eitt af Fiallenu Sina, þad er til Þrælkunar fæder, hvor ad er Agar.

25. Þviad Agar heiter j Arabia Fialled Sina, og nær allt til Jerusalem sem nu er, og er j Þrælkan med sijnum Bornum.

26. Enn hin Jerusalem, sem þar uppe er, hun er su frialsa, hvor ad er Moder vor allra.

27 Þviad skrifad er, * Vert glöd hin Obiria, þu sem ecke fæder, briotst framm og kalla, sem ecke ert þungud, þviad hin einsama hefur miklu fleyre Born, enn hun er Mannenn hefur. * Esa. 54, 1. Zoph. 3, 14.

28. Enn vier, kiærer Brædur, erum Fyrerheitesins Born epter Isaac.

29. Enn lijka sem j þann tijma, ad sa epter Holldenu er fæddur, offsokte þann sem epter Andanum var fæddur, so geingur þad til nu eirnenn.

30. Enn hvad seiger Ritningenn? * Rek burt Ambaattena og Son hennar, þviad Ambaattarennar Sonur skal ecke erfa med Syne þeirrar Frialsu Kvinnunnar.
* 1 B. Mos. 21, 10.

31. So erum vier nu, Kiærer Brædur, ecke Ambaattarennar Born, helldur Frialsrar Kvinnu.]

## V. Capitule.

Paulus talar (I) um retta Brukun Christelegs Frelses: (II) Um Holldsins Verk: (III) Um Averxte Andans

1. So vered nu stoduger j þvi Frelse, þar Christur hefur frelsad oss med, og lated ecke færa ydur aptur j þad Þrældoms oked.

2. Siaed, Eg Paall seige ydur þad, ef so

er, ad þier laated umskiera ydur, þa er Christur ydur ecke nytsamur.

3. Eg vitna enn aptur sierhvorium Manne, sem sig lætur umskiera, ad hann er enn nu allt Logmaaled (a) skylldugur ad giora.

(a) (Skylldugur) þvi aan Trwarennar er eckert hiarta hreint. Aan Hiartans Hreinleita er eckert Verk riett nie hreint.

4. Þier hafed misst Christum, sem fyrer Logmaaled vilied Riettlaater vera, og erud Naadenne frafallner.

5. Enn vier vonum j Andanum, fyrer Truna, þess Riettlætis, sem Menn eiga ad vona.

6. Þviad j Christo JEsu gillder hvorke Umskurn nie Yferhvod nockud, Helldur su Trua sem fyrer Kiærleikenn verkar.

7. Þier hlupud fijnlega, Hvor aptrade ydur Sannleiknum ad hlijda?

8. Þessar umtolur eru eige af honum, sem ydur hefur kallad.

9. Lijted Swrdeig fyrer allt Deiged.

10. Eg vænte þess til ydar j DRottne, þad þier munud ecke odruvijs sinnader vera. Enn hvor ydur viller, sa mun bera sinn Dom, hvor hellst sem hann er.

11. Enn eg, kiærer Brædur, ef eg predika enn nu Umskurnena, Hvar fyrer lijd eg þa Offsokner? Þa hefde Krossens hneixlan dvijnad.

12. Giæfe Gud þad þeir yrde og upprætter sem ydur eydeleggia.

13. Enn þier, kiærer Brædur, erud til Frelsesins kallader, einasta siaed so til, þad þier giefed fyrer Frelsed Holldenu ecke (b) rwm, Helldur þa þione hvor odrum j Kiærleika.

(b) (Rwm) þad giora þeir sem so segia, Firsi Truenn verkar alla hlute, þa vilium vier eingenn Godverk giora, vier vilium treysta uppa Truna.

14. Þviad oll Log verda j einu Orde uppfylld, j þvi, * Elska þinn Naunga sem sialfann þig. * 3 B. Mos. 19, 18.

15. Enn ef so er, þad þier tonnled og uppeted hvor annan jnnbyrdis, þa siaed til, þad þier verdid ecke jnnbyrdis uppsvelgder.

Pistillenn XIV. Sunnud. epter Trinit.

II. 16. Þvi seige eg, Ganged j Andanum, þa munud þier ecke fullkomna Holldsins gyrnder.

17. Þvi holldsed gyrnest j mote Andanum, og Andenn j mote Holldenu. Og þesser eru hvorier j mote odrum, so þier gieted ecke giort hvad þier vilied.

18. Enn ef Andenn stiornar ydur, þa erud þier ecke under Logmaalenu.

19. Enn Holldsins verk eru openber, so sem ad er, Hordomur, Frillulifnadur, Saurlijfe, Lausung.

20. Skwrgodadyrdkan, Fiolkinge, Fiandskapur, Þraattan, Kijf, Reide, Agreiningur, Tvijdrægne, Flockadrattur.

21. Hatur, Mord, Ofdryckia, Ofaat, og þessu lijkt, Vtaf hvoriu eg hefe aadur fyrre sagt, og seige enn nu fyrer, þad þeir somu sem slijkt giora, erfa ei Guds Rijke.

22. Enn Avoxtur Andans er, Kiærleike, Fognudur, Fridur.

23. Þolennmæde, Blijdleike, Godgyrne, Tru, Hogværd, Hreinlijfe, J giegn slijku er ecke Logmaaled.

24. Enn þeir sem Christo til heyra, þeir krossfesta sitt Holld med Gyrndum og Tilhneigingum.]

## VI. Capitule.

Paulus bydur þeim Rettlættu (I) ad stunda Hogværd: (II) Orlæte; (III) Guds Otta.

Pistillenn XV. Sunnud. epter Trinitat.

I. Ef vier lifum j Andanum, þa gongum og eirnenn j Andanum. Verum eige Agiarner Hiegoma dyrdar, hvor annann jnnbyrdis ad reita og ofunda.

1. Kiærer Brædur, Ef Madur verdur a nockurn haatt af nockrum Breste yferfallenn, þa leidrietted hann med Hogværum Anda, þier sem erud Andleger, Og haf gaat a sialfum þier, ad þu verder ei eirnenn freistadur.

2. Einn bere annars Byrde, og so munud þier upfylla Christi Logmaal.

3. Enn

3. Enn ef einhvor lætur sier þykia, þad hann sie nockud, sem hann er þo eckert, sa tæler sialfann sig.

4. Enn hvor einn reyne sijn eigenn Verk, og þa mun hann a sialfum sier Hrosun hafa, og eige a einum (a) ødrum

(a) (Ødrum) Falsker Læremeistarar leita ecke þar epter, ad þeir kunne ad vera goder, helldur alleinasta, ad þeir meige hafa miked afhalld hia ødrum, og þeir stunda alleinasta þad, ad hafa sier sem flesta samsinnande, þvi þeir eru ærugpruger, enn ei so sinnader sem skyllde.

5. Þviad hvor eirn mun sijna Byrde bera.

II. 6. Enn sa er fræddur verdur med Ordenu, hann bijte hønum allshoattudum Giædum, sem hann uppfræder.

7. Fared eige villervega, Gud lætur ei ad sier hæda.

8. Þvi hvad Madurenn soaer nidur, þad mun hann upp skiera. Hvør j Holldenu soaer nidur, sa mun af Holldenu Skadseme uppskiera. Enn hvør j Andanum nidursoaer, sa mun af Andanum uppskiera Eylijft Lijf.

9. Loatum oss giora gott, og ecke þreytast, þviad a sijnum tijma munum vier eirnenn oaflatanlega uppskiera.

10. First vier høfum nu tijdena, þa giørum gott hvorium Manne, eirna mest þeim sem eru Truarennar Heimkinne.]

III. 11. Siaed, Hvad morg Ord eg skrifade ydur til med eiginn Hende.

12. Þeir ed sig vilia þacknæma giora epter Holldenu, þeir þvinga ydur til ad umskierast, einasta uppa þad, þeir verde ei med Krosse Christi offokter.

13. Þviad þeir sialfer sem sig loata umskiera, hallda ei Løgmaled, Helldur vilia þeir þad, ad þier loated umskera ydur, so ad þeir meige hrosa sier, af ydru Hollde.

14. Enn fiærre sie mier ad hroosast, nema einasta j Krosse vors DRottins JEsu Christi, fyrer hvørn mier er Heimurenn krossfestur, og eg Heimenum.

15. Þvi j Christo JEsu, duger hvørke Umskurn nie Yferhwod nockud, helldur ny skiepna.

16. Og so marger sem epter þessare (b) Reglu ganga, yfer þeim sie Fridur og Miskun, og yfer Jsrael Guds.

(b) (Reglu) þesse Regla er ecke Manns Lærdomur, helldur Evangelium, og Truenn a Christum.

17. Hier epter giøre mier eingenn meire Mædu framar, þvi eg ber (c) Markteikn DRottens vors JEsu a mijnum Lijkama.

(c) (Markteikn) eru ei Naglaforeun og ørinn a Christi Lijkama, helldur allshoattud Pijna, sem vier berum fyrer Christs saker a vorum Lijkama.

18. Noad vors DRottins JEsu Christi sie med ydrum Anda, Kiærer Brædur, Amen.

Til þeirra j Galatia sendur af Rom.

# Formaale yfer S. Paals Pistil til Ephesios.

J þessum Pistle kienner hinn H. Paall, j firstu, hvad Evangelium er, hvørsu þad sie alleinasta af Gude fyrer allar allder fyrerhugad, og fyrer Christum forþienad, og utgeinaed, So ad aller þeir sem þar a trua, verde Riettferduger, Fromer, Lifande, Hialpleger, og af Løgmalenu, Syndenne, og Daudanum frialser, þetta giører hann j þremur firstu Capitulum.

Epter þad kienner hann ad fordast allann annann Lærdom, og Manna Bodord, uppa þad, ad vier blijfum vid eitt Høfud og sieum stadfaster, riettsinnader, og alleina fullkomnader j Christo, af hvørium vier høfum þad giørvallt, so ad vier þurfum einskis nema hans, þad giører hann j Fiorda Capitulanum.

Sijdan kienner hann framveigis ad idka Truna og audsyna med godum Verkum, og Synder ad fordast. Og med Andlegum Vopnum ad beriast j giegn Dioflenum, uppa þad, vier giætum j giegnum Krossenn, støduger staded j Vonenne.

# Sancte Pauls Pistill til Ephesios.

## I. Capitule.

Paulus (I) þackar Gude fyrer þaa Stooru Naad sem oss hefur veittst fyrer Christum; (II) Kennir, hvad vier høfum ødlast j Christo.

I. Pall Postule JEsu Christi, fyrer Guds vilia. Þeim Heilogum sem eru til Epheso, og truudum a Christum JEsum.

2. Naad sie med ydur og Fridur, af Gude vorum Fodur, og DRottne JEsu Christo.

3. Blessadur sie Gud og Fader vors DRottins JEsu Christi, sa oss hefur blessad med allshaattadre Andlegre Blessan, j Himneskum Giædum fyrer Christum.

4. So sem hann utvalde oss fyrer hann, aadur enn Verølldenn var Grundvøllud, þad vier skylldum vera Heilager og ostraffanleger, fyrer honum j Kiærleikanum.

5. Og hefur sett oss til Barna utvalningar fyrer sialfann sig, fyrer JEsum Christum, epter þocknan sijns vilia.

6. Til lofs sinnar dyrdarlegre Naad, fyrer hvoria hann hefur oss þacknæma giort, j sijnum Elskulega.

II. 7. J hvorium vier høfum Endurlausnena, fyrer hans Blod, sem er, Syndanna Fyrergiefning, epter Rijkdome hans Naadar.

8. Sem oss er gnoglegana skied, j allshaattudum Vijsdome og Forsialeik.

9. Og hefur oss vita laated Leyndann dom sijns Villa, epter sinne þocknan, Og hefur þann sama frammflutt fyrer hann.

10. Pad hann yrde predikadur, þa uppfylling tijmans var komenn. Uppa þad, ad hann (a) til samans take alla hlute j Christo, bæde þa sem a Himne og a Jordu eru, fyrer hann sialfann.

(a) (Til samans take) Gud vill giøra Christo alla hlute undergiefna, og ad hann skule vera halldinn fyrer DRottinn, og eitt Høfud, Psal 8. So ad hvør sem ecke hefur hann, skule øngvann Gud hafa.

11. Fyrer hvorn vier erum eirnenn til Arfskiptisins komner, vier sem erum aadur fyrer framm fyrer-hugader, epter Forsio þess sem alla hlute verkar, epter Raade sijns Vilia.

12. Uppa þad vier sieum hans Dyrd til Lofs, sem aadur fyrerframm vonudum uppa Christum.

13. Fyrer hvorn þier hafed heyrt Sannleiksins Ord, sem er Evangelium af ydvarre Saaluhialp, Fyrer hvort þier, þa þier truдud, erud innsiglader, med Heilogum Anda Fyrerheitesins.

14. Sa sem ad er Panntur vorrar Arfleifdar, til vorrar Endurlausnar, so ad vier ydum hans eigenn Eign, til Lofs hans Dyrdar.

15. Hvar fyrer eg eirnenn, epter þvi eg hefe heyrt, utaf þeirre Tru hia ydur, til vors DRottins JEsum, og af ydrum Kiærleika til allra Heilagra.

16. Pa læt eg ei af þacker ad giora fyrer ydur, og ad minnast ydar j mijnum Bænum.

17. Pad Gud vors DRottins JEsu Christi, Dyrdarennar Fader, gefe ydur Vijsdomsins og Opinberingarinnar Anda, til hans eigenn vidurkienningar.

18. Og upplyse Augu ydars Skilnings, þad þier meiged vita, hvilijk ad sie su von, sem þier erud til kallader, og hvør þar sie Rijkdomur hans dyrdarfullrar Arfleifdar, til hans Heilagra.

19. Og hvør þar sie hin yfergnæfanlega stærd hans Kraptar vid oss, vier sem truum, epter verkan hans vollduga Stirkleiks.

20. Sem hann hefur verkad j Christo, þa hann uppvakte hann af Dauda, og sette hann til sinnar Hægre Handar a Himnum.

21. Yfer allann Høfdingskap, Valldsstiett, Magt og Herradom, og allt hvad nefnast ma, eige einasta j þessare Verølldu, helldur jafnvel j okomenne.

22. Og alla hlute hefur hann honum under Fætur lagt, og sette hann Hofud Safnadarens, (b) yfer allt.

(b) (Yfer

(b) (Yfer allt) Christur er slijkt Høfud Safnadarens, ad hann er þo einn HErra yfer øllum hlutum, yfer Dioflenum, Heimenum, og etc.

23. Hvør ad er hans Lijkame, sem er uppfylling hans, sem alla hlute j øllum (c) uppfyller.

(c) Uppfyller) Christur er og verkar øll Verk j øllum skøpudum Skiepnum, þar fyrer eru allar Skiepnur fullar af hønum, So og er sa almennelege Christendomur hans uppfylling, ad hann er med hønum, heill Lijkame, og fullkomenn hopur.

## II. Capitule.

Paulus talar (I) um þad Hriggelega asigkomulag sem Madurinn se i fyrer utan Christum; (II) um þad Gledelega Sælu-ꜳsigkomulag Mannsins i Christo.

I. Og eirnenn ydur (lijfgade hann) þa þier vorud dauder, fyrer Afbrot og Synder.

2. J hvørium þier nockra stund geingud, epter hætte þessarar Veralldar, og epter þeim Høfdingia sem j Loptenu drottnar, sem er epter þeim Anda, er a þessare tijd, hefur sijna verkan j Børnum Vantruarennar.

3. Medal hvørra vier høfum aller fordum haft vort athæfe j gyrndum vors Hollds, fremiande holldsins og skilningsins vilia, og vorum af Natturunne Børn Reidinnar, lijka so sem hiner adrer.

II. 4. Enn Gud sa audugur er af Miskun, fyrer sijna miklu Elsku, med hvørre hann elskade oss.

5. Pa vier vorum dauder j Syndunum, hefur hann giort oss lifande j Christo (þviad af Nꜳdinne erud þier hialpleger ordner.)

6. Og hefur uppvaked oss med hønum, og sette os med hønum, j Himneskt Athæfe j Christo JEsu.

7. Uppa þad hann audsynde j epterkomande Olld, yfergnæfanlegann Rijkdom sinnar Nꜳdar, fyrer sijna godgyrne yfer oss j Christo JEsu.

8. Pviad af Nꜳdinne erud þier hialpleger ordner, fyrer Truna, og þad ecke af ydur sialfum, Guds gꜳfa er þad.

9. Eige af Verkunum, so ad eingenn hrose sier.

10. Pviad vier erum hans verk, skapader j Christo JEsu, til godra verka, til hvørra ad Gud hefur oss ꜳdur fordum fyrerbued, þad vier skylldum þar jnne ganga.

11. Hvar fyrer verid þess minnuger, þad þier, sem fordum Daga vorud Heidnar þioder epter Holldenu og yferhud kallader, af þeim sem kallader eru Umskurn, epter Holldenu, sem med Hendinne skier.

12. Pad þier vorud j þann sama Tijma fyrer utann Christum, framande og fyrer utan Borgar-riett Jsraels, og framande fra Testamente Fyrerheitesins, Af þvi høfdud þier øngva von, og vorud ꜳn Gllds j Heimenum.

13. Enn þier sem nu j Christo JEsu erud, og fordum vorud j fiarska, þa erud nu nalæger ordner, fyrer Blod Christi.

14. Pviad hann er vor Fridur, sem giørde eitt af bꜳdum, og af hefur brotid þann vegg sem þar var j mille, J þvi, þad hann burt tok fyrer sitt Holld, þann Ovinskap, sem er.

15. (a) Logmalid þad j Bodordunum var til sett, so ad hann skapadi af tveimur einn nyann Mann, j sialfum sier, og giørde Frid.

(a) Logmꜳled var Ovinatta a mille Heidingia og Gydinga, þviad fyrer þad villdu Gydingar vera betre hinum; Enn nu, med þvi ad fyrer Christum ꜳn Logmꜳlsins, hafa aller Andann medteked, Pa er nu þesse Ovinꜳtta ute, og eru hvørier ødrum jafner.

16. Pad hann forlijkte hvørutveggiu vid GUD, j einum Lijkama, fyrer Krossenn, og deydde so Ovinskapenn, fyrer sig sialfann.

17. Og er komenn, og kunngiørde ydur j Evangelio Fridenn, ydur sem vorud fiærre, og hinum sem nærre voru.

18. Pviad fyrer hann høfum vier hvørutveggiu adgang, j einum Anda, til Fødursins.

19. So erud þier nu eige meir giester og Framande, helldur samborgarmenn heilagra, og GUds Heimamenn.

20. Uppbiggder yfer Grundvoll Postulanna og Spamannanna, þar JEsus Christur er sialfur sa ypparlegaste Hyrningarsteirninn.

21. A hvorium øll Uppbigginginn er j eitt samannsett, og vex til heilags Musteris j DROTtne.

22. Uppa hvørn þier verded eirnenn uppbiggder til GUds jbvodar j Andanum.

## III. Capitule.

Paulus (I) Talar um Radstøfun Guds Noadar fyrer sier, er se hion Evangelii; (II) Bidur GUd ad stadfesta hina Truudu i øllu Godu.

I. 1. Hvar fyrer, eg Poall er bandinge JEsu Christi, fyrer ydur Heidingia.

2. Af þvi þier hafed heyrt utaf Embætte GUds Noadar, þeirre mier er til ydar giefenn.

3. Pad mier er kunnur ordinn þesse leyndur Domur fyrer opinnberan, epter þvi eg hefe adur hid allra styttsta skrifad.

4. Af hvorium ef þier læsud þad, kynnud ad merkia minn Skilning j leyndum Dome Christi.

5. Hvør ecke er Mannanna Bornum kunnur giordur, j undannfarenne Tijd, so sem nu er hann opinnberadur hans Heiløgum Postulum og Spaamønnum, fyrer Andann, sem er.

6. Ad hiner Heidnu eru Samarfar og einn Lijkame, og hluttakendur hans Fyrerheita j Christo, fyrer Evangelium.

7. Hvørs Pienare eg er ordenn, epter gaafu GUds Noadar, sem mier er giefenn, epter hans vollduga Krapte.

8. Mier hinum sijdarsta allra heilagra er giefenn þesse Noad, þad eg kunngiorda medal Heidinna þioda þann Orannsakannlega Rijkdom Christi.

9. Og upp ad birta fyrer hvorium Manne, hvør þar sie sameign Leyndardomsins, sem af Veralldar upphafe hefur j GUde hulinn verid sa alla hlute hefur skapad fyrer JEsum Christum.

10. Uppa þad, ad kunnug yrde nu Høfdingium og (a) Herradomum a Himnum, fyrer Søfnudenn, su margfølld Speke GUds.

(a) (Herradomum) þo ad Einglarner a Himnum sieu af Gude uppfyllter, þa formerkia þeir þo jafnan hia Christinnt ømenum nyar Gaafur og Noad, sem GUd dagl ga þeim utdeiler, So sem Christur eirneigenn seiger, Luc. 15. ad Einglarner gledie sig yfer einum Syndara sem Idran giører.

11. Epter Fyrerhyggiunne fra Veralldar Upphafe, sem hann hefur audsynt j Christo JEsu vorum DROTtne.

12. Fyrer hvørn vier høfum diorfung og adgang j øllu trauste, fyrer Truna a hann.

Pistillenn XVI. Sunnud. epter Trinit.

II. 13. Fyrer-þvi bid eg, þad þier tregest ecke, vegna minnar Hørmungar, sem eg þole fyrer ydur, hvør ydar Dyrd er.

14. Hvar fyrer eg beige min Knie, fyrer Fødur DROTtins vors JEsu Christi.

15. Sa sem riettur Fader er, yfer allt hvad (b) Born kallast a Himne og a Jordu.

(b) (Børn) aller Einglar og aller Christner, ja eirnen øll Mannanna Børn, þvi hann hefur skapad þad allt.

16. Ad hann giefe ydur Krapt epter Rijkdome sinnar Dyrdar, ad stirkiast fyrer hans Anda, j hinum innra Manne.

17. Og lata Christum fyrer Truna byggia j ydrum Hiørtum, og fyrer Kiærleikenn innrætast og grundvallast.

18. So ad þier mættud høndla med øllum Helgum, Hvør þar sie (c) Vijdd og Leingd, Dypt og Hæd.

(c) Kiærleikurenn bevijsar þad, ad Truenn sie so sem hun a ad vera, su sama Tru helldur þad vijst, ad þar sie eckert so vijdt nie langt, haatt nie diupt, ad Christur hafe þar ecke Valld yfer, og kunne ad hialpa, og hun ottast hvørke fyrer Synd, Dauda nie Helvijte, hvørt helldur þad er vijdt, langt, haattedur diwpt. Psa. 139, Qvo ibo a facie tua.

19. Og ad vita þad, ad (d) Elska Christum, þad er betra enn allt ad vita. so ad þier uppfylldust med allshaattadre (e) GUds Uppfyllingu.

(d) (Elska) Þad er miklu meire hlutur ad elska Christum, enn ad kunna margt ad Predika. 1 Cor. 8. Vitska upphrokar, enn Kiærleikurenn betrar, Item, Ef nockur elskar Gud, hann er þecktur af honum. Joh. 21. Petur, elskar þu? og et.

(e) (Guds

(c) (Guds Uppfyllingu) Ad Gud alleina kynne ad stiorna og verka j ydur, og þier kynnud ad vera fuller af hønum.

20. Enn hønum sem mattugur er alla hlute yfergnæfanlegar ad giøra, helldur enn vier bidium eda skilium, epter þeim Krapte sem j oss verkar.

21. Þeim sama sie Dyrd j Safnadenum, sa j Christo JEsu er, ætijd, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.

## IV. Capitule.

Paulus (I) aaminner oss ad vier høllduum Eindrægne i Andanum: (II) Talar um margvijslegar Gaafur i þeirre Christelegu Kijrkiu: (III) Raadleggur adlaata af Illu, og læra ad giora hid Goda.

Pistillenn XVII. Sunnud. epter Trinitatis.

I. So aaminne eg ydur nu, eg Bandinge j DROTtne, ad þier ganged so sem ad heyrer ydvare kallan, þar þier erud jnne kallader.

2. Med øllu Lijtelæte og Hogværd, og med þolinmæde, og Umlijded hvor annann j Kiærleika.

3. Og verid kostgiæfner ad hallda eindrægne j Andanum, fyrer Band Fridarens.

4. Einn Lijkame, og einn Ande, so sem þier erud kallader uppa eina von ydrar Kallanar.

5. Einn DROTtinn, ein Trua, ein Skijrn.

6. Einn GUD og Fader (vor) allra, sa sem ad er yfer ydur øllum, og fyrer ydur øllum, og j ydur øllum.]

II. 7. Og Naadenn er giefenn vor a medal, epter mæling Giafar Christi.

8. Hvar fyrer ad hann seiger, * Hann er uppfarenn j Hædena, og hefur (a) Herleidingena ad herfange teked, og Mønnum Gaafur giefed. * Psal. 68, 19.

(a) (Herleidingena) Þad er Syndena, Daudann og Samvitskuna, so þad þau kunna ecke ad hallda oss nie ad herleida.

9. Enn þad hann er uppfarenn, Hvad er þad? Utann þad hann er aadur nidurstijgenn j hinar ystu Jalfur Jardar?

10. Sa sem nidur er stijgenn, hann er sa same sem upp er farenn yfer alla Himna, uppa þad hann villde alla hlute (b) uppfylla.

(b) (Uppfylla) ad hann giørde allt þad j øllum hlutum, og ad þar yrde eckert giørt, talad, edur þeinkt aan hans.

11. Og suma hefur hann sett til Postula, enn suma til Spamanna, suma til Gudspiallara, suma til Hirdara, og Lærefedra.

12. So ad hiner Heilogu, sieu (c) reidubuner j Verk Embættisins, hvar med Lijkame Christi kynne ad uppbiggiast.

(c) (Reidubuner) þad er, vel utbuner og a allar sijdur vel forsorgader og skickader, so ad þar vantar eckert til Embættis Christindomsins.

13. Þar til vier komum aller til einnar Truar, og kynningar GUDs Sonar, og fullgiørdur madur verdum, sa hann er j mæling fullkomins alldurs Christi.

14. So ad vier sieum ecke leingur Børn, ostødug so sem Bylgiur, veifader af allshattudum Vinde Lærdomsins, fyrer (d) Prettskap og underhyggiu manna, þar med þeir slæda epter, oss ad pretta.

(d) (Prettvijse) þviad so sem Skalkar høndla med Teninga, so umgangast þeir og med H. Ritning sem Mannanna Lærdom framnisetia.

15. Verum helldur Sannleikanum epterfilgiande j Kiærleikanum, og voxum j øllu j hønum, sem ad er Høfudid Christur.

16. A hvorium allur Lijkamenn samteingest og eirn Limur a ødrum hanger, fyrer alla Lidu, hvar af hvor ødrum hialp veiter, epter verke hvørs og eins Lidsins j sinn mata, og giører þad, ad Lijkamenn vegs til sinnar eiginnar betrunar, og þad allt j Kiærleika.

III. 17. So seige eg nu og vitna j DRottne, ad þier gangid eige leingur so sem ad hiner adrer Heidingiar ganga, j Hiegomleik sijns hugskots.

18. Hvorra Hugskot formirkvad er, og eru annarleger fra þvi Lijferne sem, af Gude er, fyrer þa favitsku sem j þeim er, fyrer Forherding sialfs þeirra Hiarta.

19. Hvorier hirdulauser eru, og sig gaafu j Lausung, og fromdu allshattadann ohreinleik, og þar til Agyrne.

20.

20. Enn þier hafed ecke so numed Christum.

21. Ef þier hafed annars af honum heyrt, og erud j honum lærder, hvorsu þad er j JEsu eitt riettelegt athæfe.

Pistillenn XIX. Sunnud. epter Trinit.

22. So afleggid j fra ydur epter fyrre breitne, hinn gamla Manninn, sem sig fordiarfar j Girndum Villudomsins.

23. Enn endurnyed ydur j Anda ydvars Hugskots.

24. Og klædest þeim nya Manne sem epter GUde er skapadur, j sannarlegu Riettlæte og Heilagleika.

25. Hvar fyrer, afleggid Lygar, og taled Sannleik hvor vid sinn Naunga, þviad vier erum hvors annars Limur.

26. Reidest og syndgest eige, lated ei Solena undergang yfer ydvare Reide.

27. Giefed og ecke rwm Lastaranum.

28. Hvor stoled hefur, sa stele nu eige meir, helldur erfide og afle med Hondunum, nockud gott, so ad hann hafe ad giefa þeim sem þurftuger eru.]

29. Lated ongva vonda rædu framm fara af ydrum Munne, helldur hvad nytsamlegt er, til betrunar, þar sem þorf gioreſt, ad þad sie þacknæmelegt ad heyra.

30. Og hrigged ecke Heilagann Anda, þar þier erud med innsiglader, uppa Dag Endurlausnarennar.

31. Allur Beiskleike og Grimd, Reide hropan og lastan, sie langt j fra ydur, samt allre Jllsku.

32. Enn verid innbyrdis hvor vid annann, Vingiarnleger, og ꝼastwdleger, og fyrergiefed hvor odrum, lijka so sem ad GUd hefur fyrergiefid ydur j Christo.

## V. Capitule.

Paulus aminner oss (I) ad auglysa margshattada averke Helgunarennar: (II) talar um Skylldu Hionanna Innbyrdes.

Pistillenn III. Sunnud. i Føstu.

1. So verid nu GUds Epterfilgiarar, so sem Kiærustu Born.

2. Og ganged j Elskunne, lijka so sem ad Christus hefur oss elskad, og sig sialfann wtgiefed fyrer oss, til Fornfæringar og Offurs GUde, til Sætleiks Ilms.

3. Enn Frillulijfe og allann Ohreinleik, edur Agyrne, lated ei um ydur seigiast, so sem Heilogum hæfer.

4. Nie skammarleg Ord og Fiflslegt Hial eda Kieskne, hvad ydur heyrer ecke, helldur miklu framar Packargiord.

5. Þvi þad skulud þier vita, ad eingenn Frillulijfis Madur, edur Ohreinn, eda Agiarn (hvor ad er Skwrgodadyrdkare) hefur Arftoku j Rijke Christi og GUds.

6. Lated ongvann villa ydur med onytsemgum Ordum, Þvi fyrer þad kiemur Reide GUds, yfer Born Vantruarennar.

7. Af þvi vered eige þeirra hluttakarar.

8. Þviad þier vorud fordum Myrkur, enn nu erud þier Lios j DROTTne. Ganged so sem Born Liossens.

9. (Avoxtur Andans er allshattud Godgyrne, Riettlæte og Sannleikur.)]

10. Og reyned hvad þar þacknæmt sie DROTTne.

11. Og hafed eckert samlag vid ofriosamleg Verk Myrkranna, enn straffed þau miklu helldur.

12. Þviad hvad heimuglega gioreſt af þeim, er eirnenn skammarlegt ad seigia.

13. Enn allt þad verdur openbert, nær þad verdur af Liosenu straffad, Þvi allt hvad openbert verdur, þad er Lios.

14. Fyrer þvi seiger hann * Vakna þu upp sem sefur, og rijs upp af Dauda, so mun Christur upplysa þig. *Es. 60, 1.

Pistillenn XX. Sunnud. epter Trinit.

15. So siaed nu til, þad þier ganged forsiaslega, eige so sem Faavijsir, helldur so sem Vijser.

16. Og skicked ydur j Tijdenne, þvi þad er vond (a) Tijd.

(a) (Vond Tijd) Einn Christenn Madur mæter so miklum Hindrunum og Ordsokum, til ad forsoma þau

þau Nytsömu Verkenn, ad hann ad mestu leite, so sem annar Fangadur Madur, verdur ad slijta sig lausann þar af, og so sem hann skyllde stela Tijmanum, og Stundum hann dyrt kaupa med Oviniattu.

17. Fyrer þvi, vered eige skilningslauser, helldur skiliande hvad Vilie DROTTins er.

18. Og drecked ydur ecke Vijndrucckna, þvi þar af kiemur (b) oskickanlegt Lijferne, Helldur uppfyllest af Anda.

(b) (Oskickanlegt) so sem vier siaum ad Dryckiurutarar eru galder, undarleger, Ovidradanleger, Oblinger, og a allann hätt Otiicktuger j Ordum, med Hroope, og ödrum þvilijkum sijnum lätum.

19. Og taled hvor vid annann, af Psalmum og Lofsaungvum, og andlegum Kvædum, synged og spiled DROTtne j ydrum Hiortum.

20. Og seiged þacker alla Tijma GUde og Fodur fyrer alla hlute, j Nafne vors DROttens JEsu Christi.

21. Og vered hvor ödrum undergiefner j GUds Otta.]

II. 22. Kvinnurnar vere sijnum Bændum undergiefnar, so sem DROTTne.

23. Þviad Madurenn er Kvinnunnar Hofud, lijka so sem Christur er Safnadarens Hofud, og hann er Frelsare sijns Lijkama.

24. Enn lijka so sem Söfnudurenn er Christo undergiefenn, so skulu og eirnenn Konurnar sijnum Bændum j öllu.

25. Þier Menn, elsked ydar Hwsfreyur, lijka so sem Christur elskade Söfnudenn, og gaf sig sialfann ut fyrer hann.

26. Uppa þad hann helgade hann, og hann hreinsade hann, fyrer Vatnsbaded j Ordenu.

27. Uppa þad hann tilbygge sier sialfum eirn Söfnud, sem er dyrdlegur, og öngva fleckan nie hruckii, edur þesskonar hefde, helldur þad hann sie heilagur og ostraffanlegur.

28. So skulu og Mennerner elska sijnar Eigenn-Konur, sem sijna eigenn Lijkame. Hvor sijna Eigenkvinnu elskar, hann elskar sig sialfann.

29. Þvi alldrei hefur nockur sitt eiged Holld hatad, helldur nærer hann þad og fostrar, so sem eirnenn DROTTinn Safnadenn.

30. Þviad vier erum Limer hans Lijkama, af hans Hollde, og af hans Beinum.

31. Hvors vegna mun Madurenn forlaata Fodur og Modur, og nalægiast sijna Eigennkonu, og tvo munu eitt Holld vera.

32. Þesse (c) Leyndur domur er stor, Enn eg seige af Christo og Söfnudenum.

(c) (Leyndur domur) Sacramentum edur Mysterium kallast Leyndur domur edur hulenn Hlutur, sem þo hid ytra hefur sijna þyding, So er Christur og hans Söfnudur einn Leyndardomur, einn stor Heilagur hulenn hlutur, hvörium mann skal trwa, enn kann ecke ad sia.

33. Þo elsked þier hvör sem eirn sijna Eigenkonu sem sialfann sig, Enn Konann ottest Mannenn.

## VI. Capitule.

Paulus talar (I) um Christelega Hußstiorn; (II) um Andlegann Her, Skruda til þeirrar Andlegu Orustu sem Sierhver Rett Christenn a ad heija.

I. Þier Born, Vered hlydug ydrum Forelldrum, j DROTTne, Þviad þad er tilbærelegt.

2. Heidra Fodur og Modur, þad er hid firsta Bodord sem Fyrerheited hefur.

3. So ad þier vegne vel, og þu siert Langlijfur a Jordu.

4. Og þier Fedur skulud eige egna ydar Born til reide, Helldur aled þau upp j Aga, og umvondun til DROTTins.

5. Þier Þionustumenn, vered hlyduger ydrum lijkamlegum Drottnum, med otta og skielfingu, j einfalldleik ydvars Hiarta, so sem Christo.

6. Ei alleinasta med Þionustu fyrer Augunum, Monnunum til þocknunar, Helldur so sem Þionar Christi.

7. Þad þier giored þennann GUds Vilia af Hiarta, med godum Vilia.

8. Laated ydur þykia, so sem þier þioned DROTTne, og eige Monnunum, Og vited, ad hvad sem hvor eirn giorer gott, þad mun hann af DROTTne medtaka, hvort hann er Þræll eda Frelsinge.

9. Og þier Drottnar, gióred eirnenn þetta hid sama vid þa, og lóated af Ognunum. Og vited eirnenn, þad ydar DROTTinn er a Himnum, og þad hia hønum er eckert Manngreinar aalit.

Pistillenn XXI. Sunnud. epter Trinit.

II. 10. Ad sijdurstu, mijner Brædur, Vered sterker j DROTTne, og j mætte hans Kraptar.

11. Iklæded ydur GUds Herskruda, so ad þier gieted staded j giegn umsaatrum Dioſulsins.

12. Þviad vier høfum eige vid Holld og Blod ad beriast, Helldur vid Høfdingia og Vollduga, sem er, vid Drottna Veralldarennar, þeir j Mirkrum þessarar Veralldar drottna, vidur Illsku-anda under Himnenum.

13. Hvar fyrer høndled Guds Harneskiu, so ad þier gieted j mot staded, þa su vonda stund kiemur, og frammkvæmed allt vel og hallded Sigrenum.

14. So standed nu, umgyrdter um ydar Lendar med Sannleikanum, og skrydder med Bryniu Riettlætesins.

15. Og a Footum Stijgvielader, so sem reidubuner ad (a) frammfilgia Evangelio Fridarens, hvar med þier erud utbuner.

(a) (Frammfilgia) þad er ad frammfilgia, vidurkienna og gióra þad sem Evangelio tilheyrer.

16. Enn umframm alla hlute, þa høndled Truarennar Skiølld, med hvørium þier kunned ut ad slóckva øll elldleg Skeyte þess eitrada Ovinar.

17. Og gripped Hialm Hialpræðesins, og Sverd Andans, hvørt ad er Guds Ord.]

18. Og bidied jduglega j allre Naudþurft, med Bænum og Beidne, j Andanum, og þar til vaked med øllu stadfeste og Akalle, fyrer øllum Heilogum.

19. Og fyrer mier, Uppa þad mier giefest Orded med dristugre opnan mijns Munns, So ad eg mætte kunngióra Leyndann dom Evangelij.

20. Hvørs Sendebode eg em j Fiøtrunum, so ad eg meige diarflega þar jnne høndla, og so ad tala sem tilheyrer.

21. Og uppa þad, ad þier vited eirnenn, hvørsu haattad er um mig, og hvad eg gióre, þad mun Tychicus sa kiære Broder, og trur Þienare j DRottne, kunngióra ydur allt saman.

22. Hvørn eg hefe sendt til ydar, vegna þess, ad þier vissud hvørnenn mier geingur, og þad hann hugsvalade ydrum Hiørtum.

23. Fridur sie med Brædrunum, og Kiærleike med Trunne, af Gude Fødur og Drottne JEsu Christo.

24. Naad sie med øllum þeim sem elska vorn DRottinn JEsum Christum hreinferduglega, Amen.

Skrifadur af Rom til þeirra j Epheso medur Tychico.

# Formaale yfer S. Paals Pistil til Philippenses.

I þessum Pistle lofar og aaminner hinn Heilage Paall þa Philippenses, þad þeir skulu samt aframm hallda j riettre Tru, og vaxa j Kiærleikanum. Enn med þvi hiner Følsku Postular og Verkanna Predikarar gióra Trunne ætijd skadseme, þa varar hann þa vid þeim enu sømu. Og tiaer fyrer þeim marghaattada Predikara, suma goda, suma Vonda, eirnenn sialfann sig og sijna Lærefveina, Timotheum og Epaphroditum. Þetta gióres hann nu j hinum firsta og ødrum Cap.

I hinum þridia, Burtskufar hann þvi Truarlausa og Manna-Riettlæte, sem fyrer hina følsku Postula kiennt og hallded verdur, Setiande sig sialfann til epterdæmis, so sem hann er j slijku Riettlæte vegsamlega hefde lifad, og hallde nu eckert þar af, fyrer Christi Riettlætis saker. Þviad þeir hiner gióra Magann ad Gude, og gióra Ovine Krossens Christi.

I Fiorda, Aaminner hann þa til Fridar, og til eins godrar utvortis umgeingne, hvør vid annann, Og þackar þeim fyrer þeirra gaafur, er þeir høfdu sendt hønum.

Sancte

# Sancte Pals Pistill til Philippenses.

## I. Capitule.

Paulus (I) þackar Gude, ad þeir Philippenses hafe medteked Evangelium: (II) Talar um sitt æsigkomulagi Rom: (III) seger fra, hvorsu ad Christus verde predikadur i Philippis: (IV) aminner Philippenses ad hallda fastlega vid Evangelium, hvada offsokn sem þeir lijde.

I. Paall og Timotheus, Pionustumenn JEsu Christi. Øllum Heilogum j Christo JEsu j Philippen, samt Biskupum og Pienurum.

2. Naad sie med ydur og Fridur, af Gude vorum Fødur og DRottne JEsu Christo.

Pistillenn XXII Sunnud. epter Trinitatis.

3. Eg þacka Gude mijnum, so opt sem eg huxa um ydur.

4. (Hvad eg giore alla tijma j øllum mijnum Bænum, fyrer øllum ydur, og Bæn mijna giore eg med fagnade.)

5. Fyrer ydru samlage j Evangelio, j fra hinum fyrsta Deige, allt til þessa.

6. Og em þess hins sama j godu Trauste, ad sa sem j ydur hefur uppbyriad hid goda Verked, hann mun þad og eirnenn fullkomna, allt til þess Dags JEsu Christi.

7. So sem ad mier er vel heyrelegt, þad eg hallde af ydur øllum j þann maata. Pviad eg hefe ydur j mijnu Hiarta, j þessum mijnum Fiotrum, hvar jnne eg forsvara og styrke Evangelium, so sem ad þier erud aller Naadarennar Hluttakarar medur mier.

8. Pviad GUD er minn Vottur, Hvorsu mig forleinger af Hiartans Grunne, j Christo JEsu, epter ydur øllum.

9. Og þess sama bid eg, Pad ydar Kiærleike audgest æ meir og meir, j allre Vidurkienningu, og j allre Reynslu.

10. So ad þier meiged reyna hvad best er, uppa þad þier sieud skijrer og aan hneixlunar, allt uppa þann Dag Christi.

11. Uppfyllter Avegste Riettlætesins, sem er fyrer JEsum Christum (j ydur) skied, til Dyrdar og lofs GUde.]

II. 12. Enn þad læt ed ydur vita, kiærer Brædur, ad hvad mig er yferkomed, þad er til meire frammgangs skied Evangelio.

13. So ad mijn Fiotur j Christo, eru openskar vordenn, j øllu Domhusenu, og hia þeim øllum ødrum.

14. Og marger Brædur j DROTTne, sem feingu von af mijnum Fiotrum, eru ordner þess diarfare Orded ad tala aan Hrædslu.

III. 15. Sannlega, sumer þa predika Christum fyrer Haturs og Prætu saker, enn sumer ut af godre Meining.

16. Peir hiner kunngiora Christum af þrætu, og eige hreinlega, Pviad þeir meina, þad þeir vilie mijnum Fiotrum Hormung til leggia.

17. Enn þesser ut af Kiærleika, þviad þeir vita þad eg ligg hier til Forsvars Evangelii.

18. Enn hvad þa? Pad Christur verde med allskonar tudu mote kunngiordur, hvort þad skier af yferhylmingu, edur þad skiedur j Sannleika, þa gled eg mig þo þar af, og vil mig eirnenn gledia.

19. Pviad eg veit, ad þad sama mun mier falla til Hialprædis, fyrer ydra Bæn, og fyrer tilstirking JEsu Christi Anda.

20. So sem eg ølldungis vænte og vona, þad eg verde j ongre grein skammadur. Helldur þad Christur med allre Diorfung so sem allt hingad til, lijka og eirnenn nu, mikladur verde a mijnum Lijkama, sie þad fyrer Lijfed eda fyrer Daudann.

21. Pviad Christur er mitt Lijf, og Dauden er minn Avinningur.

22. Enn med þvi, þad j Holldenu ad lifa, þienar meir til Avogst ad syna, Pa veit eg eige hvort eg skal kiosa.

23. Pviad hvortveggia þrenger ad mier, Eg hefe Gyrnd a fra ad skiliast, og hia Christo ad vera, hvad eirnenn miklu betra være.

 24. Enn

24. Enn þad er nytsamlegra j Holldenu ad blijfa, fyrer ydar saker.

25. Og eg veit j godre tilvæntingu, þad eg mun blijfa, og vera hia øllum ydur til frammkvæmdar, og til Truarennar Glede.

26. Uppa þad þier meiged miøg hrosa ydur j Christo JEsu a mier, fyrer mijna tilkomu aptur til ydar.

IV. 27. Ganged ad eins sem verdugt er Evangelio Christi, uppa þad, ef eg kiem og sie ydur, eda spyrie þad um ydur j minne fiarlægd, ad þier standed j einum Anda, og eirnre Sαlu, og medur oss beriest fyrer Tru Evangelii.

28. Og lated ecke a nockurn Veg blygda ydur af Motstøndorunum, hvort ad þeim er eitt Teikn Fyrerdæmingarennar, enn ydur Saluhialparennar, og þad sama af GUde.

29. Þviad ydur er þad giefed, fyrer Christi Saker þad ad giora, ad þier ecke alleinasta a hann trued, Helldur eirnenn hans vegna lijded.

30. Og hafed þa sømu Baratttu sem þier hafed a mier sied, og nu af mier heyrt.

## II. Capitule.

Paulus (I) kenner oss margskonar Dygder epter Christi Dæme (II) talar um Komu Timothei til Philippenses; og (III) um Veikleika Epaphroditi.

I. Sie nu hia ydur Aminning j Christo, sie þar Huggun Kiærleiksins, sie þar hiartgroenn aastseme, og Miskunseme.

2. So uppfylled minn Fognud, þad þier sieud eirnrar Lundar, hafande hinn sama Kiærleika, verande samhugader og eins sinnader.

3. Eckert giørande fyrer Ofund edur Hiegoma Dyrd, Helldur fyrer Lijtelæte, hallde hvør sem eirn annann ædra, enn sig sialfann.

4. Og hvør eirn lijte eige uppa þad sem hans er, helldur uppa þad hvad annars er.

Pistilleun a Palma Sunnudag.

5. Hvør eirn sie so sinnadur, sem JEsus Christus var.

6. Hvør þo ed hann være j GUds Mind, hiellt hann þad þo ecke fyrer Roan, GUde lijkur ad vera.

7. Helldur mijnkade hann sig sialfann, og tok a sig mind eins Pions, vard lijkur ødrum Mønnum, og ad hegdan fundenn sem Madur.

8. Lijtelæckade sig sialfann, og vard hlydugur allt til Dauda, ja, allt til Krossens Dauda.

9. Fyrer þvi hefur GUd upphafed hann, og gaf honum Nafn, þad yfer øllum Nofnum er.

10. So ad j Nafne JEsu skulu sig beygia øll Knie þeirra sem a Himnum, og a Jordu, og under Jordunne eru.

11. Og allar Tungur skulu vidurkienna, þad JEsus Christus sie DROTTinn, til Dyrdar GUds Fodurs.]

12. Lijka so, mijner Kiærustu, sem þier hafed alla Tijma hlyduger vered, ei alleinasta j minne naveru, helldur og nu miklu meir j minne fraveru, þa verked ydar eigen Saluhialp, med Ugg og Otta.

13. Þvi GUd er hann sem j ydur Verkar, bæde Viliann og Giørningenn, epter sinne þocknan.

14. Giøred alla Hlute an moglunar, og (a) an þrætu.

(a) (An Þrætunar) Ad þier knurred ecke a mote Gude af Opolenmæde, og sieud ecke ofta duger j Trunne.

15. Uppa þad þier sieud olastanleger, og hrein GUds Børn, ostraffanleger midt j mille þeirrar vondrar og frasnuennar Kinslodar, Medal hvørra þier skijned sem Lios j Heimenum.

16. Þar med, ad þier blijfed vid Lijfsins Ord, mier til hroosunar a Deige Christi, so sem sa er ecke hefur til onytis hlauped, nie forgiefens erfidad.

17. Og ef so er, þad eg verd (b) Fornfærdur, yfer Offre ydrar Truar og GUds Pionustugiørdar, þa gled eg mig, og eg gled mig med ydur øllum.

(b) (Fornfærdur) þad er, þo eg skyllde deya þar uppa, ad eg hefe fyrer Evangelium og Truna giørt ydur ad

Guds Þienustu og offre, þa skal þad ecke hriggia mig, helldur vil eg giøra þad med Glede, og þier skulud og so unna mier þeirrar Glede.

18. Þar af skulud þier eirnenn gledia ydur, og skulud gledia ydur medur mier.

II. 19. Enn eg vona j DROTTne JEsu, þad eg mune jnnan skams senda Timotheum til ydar, so ad eg glediest j huga, þa eg feinge ad vita, hvornenn ydur fer ad.

20. Þvi eg hefe ongvann sem so algiorlega sie epter mijnu sinne, sa er so af Hiarta fyrer ydur syrger.

21. Þvi hiner aller leita þess hvad þeirra er, enn ei hvad JEsu Christi er.

22. Enn þier vited ad honum er riettelega hꜵttad, Þvi lijka so sem Barned med Fodurnum, so hefur hann med mier þionad j Evangelio.

23. Þann sama vona eg, þad eg mune snarlega senda, þa ad eg sie, hvad mier lijdur.

24. Enn eg treystunst j DROTTne, þad eg mune eirnenn sialfur jnnan skamms Tijma til ydar koma.

III. 25. Enn mier seytst Naudsynlegt, þad eg senda til ydar þann Brodur Epaphroditum, sa minn Hialpare og Medstrijdare, og ydar Postule, og minn Naudþurftar Þienare er.

26. Epter þvi hann hafde forlangan til allra ydar, og var miøg þvingadur, af þvi þier hofdud heyrt þad hann hefde siukur vered.

27. Og hann var ad sønnu Daudsiukur. Enn GUD miskunade sig yfer honum, Eige einasta yfer honum, helldur og so yfer mig, so ad eg hefda ei Sorg a Sorg ofan.

28. Enn eg hefe sendt hann þess skiotara, so ad þier sæud hann, og yrdud glader aptur, og þad eg hefde þess minne Sorg.

29. So medtaked hann nu j DROTTne, med allre Glede. Og hafed þess kónar (Menn) j Heidre, Þviad fyrer Saker Verks Christi, er hann Daudanum so nær komenn, þa hann sitt Lijf þege aktade, uppa þad hann þionade mier j ydvarn stad.

## III. Capitule.

Paulus talar um Riettlæte Truarennar i gegn Fals-Postulum.

Framar, Kiærer Brædur, þa gledied ydur j DROTTne. Þvi þad eg skrifa ydur jafnan hid sama, tregar mig ecke, og þad giører ydur þess oruggvare.

2. Giefed giætur ad Hundunum, giefed giætur ad jllum Erfidurum, giefed giætur ad (a) Umskurnenne.

(a) (Umskurn) Kallar hann Þa Falspredikara, fyrer þad þeir kienndu þad, ad Umskurnarskijrnenn være naudsynleg til Saaluhialpar, hvar med ad Hiortun urdu fra Trunne frasnidenn.

3. Þviad vær erum Umskurn, vier sem GUde þionum j Andanum, og hrosum oss af Christo JEsu, og forlꜵtum oss ecke uppa Hollded.

4. Þo ad eg hafe þad og eirnenn, ad eg meige mier af Holldenu hrosa First eirn annar lætur sier þykia, hann meige sier af Holldenu hroosa, enn þa miklu framar eg.

5. Sem a hinum ꜵtta Deige er umskorenn, einn vot af Israels ætt, af Ben Jamins Kinþætte, Ebreskur af Ebreskum, og epter Løgmꜵlenu Phariseus.

6. Epter Vandlætingunne Ossoknare Safnadarens, sem var epter Riettlætenu j Løgmꜵlenu ostraffanlegur.

7. Enn hvad minn Avinningur var, þad hefe eg Christi vegna fyrer Skada reiknad.

8. Þviad eg helld alla hlute Skada vera, j hia þeirre yfergnæfanlegu Vidurkienningu Christi JEsu mijns DROttins, fyrer hvørs Saker eg hefe alla hlute Skada reiknad, og helld þa fyrer þreck, uppa þad eg ꜵvinne Christum.

9. Og j honum fundenn verde, þad eg hefe ecke mitt Riettlæte sem kiemur af Løgmꜵlenu, helldur þad sem fyrer Truna a Christum kiemur, sem er þad Riettlæte, er af GUde Trunne tilreiknad verdur.

10. Hann ad þeckia, og Krapt hans Upprisu,

risu, og sameign hans Pijnu, þad eg verde og hans Dauda lijkur.

11. So ad eg mætte honum j mote renna, til upprisu framlidenna.

12. Enn ecke þad eg hafe þad þegar hondlad, edur sie þegar fullkomenn, eg (b) skunda þar epter, hvort ad eg giæte eirnen hondlad, epter þvi ad eg em af Christo JEsu hondladur.

(b) (Skunda) Þad er, Christur hefur mig kallad, og fært mig so til sinnar Naadar, henne villde eg giarnan giøra fullustu, j þvi ad hondla hana.

13. Mijner Brædur, Eg helld mig enn nu ecke sialfann fyrer þann, ad eg hafe þad hondlad. Eitt vil eg seigia, þad eg gleyme þvi, hvad til baka er, og dreg mig ad þvi sem j fyrer er.

14. Eg skunda ad þvi uppsetta Takmarke, epter þvi Hnosse, hvort framm helldur þeirre Himneskre Kallan GUDs, j Christo JEsu.

15. So marger sem af oss eru nu fullkomner, þa verum so sinnader. Og ef þier skulud neckud annad hallda, þa laated GUd ydur þad openbera.

16. Þo so framt, ad vier frammgaungum epter (c) Reglunne er vier erum jnnkomner, og verum eins Sinnader

(c) (Reglu) Ad slijk Openberan sie ei Trunne nie andlegu Sambycke motstædeleg.

Pistillenn XXIII. Sunnud. epter Trinitatis.

17. Filged mier epter, kiærer Brædur, og giæted ad þeim sem so ganga, lijka sem þier hafed oss til Fyrermindar.

18. Þviad marger ganga, af hvorium eg hefe optsinnes sagt ydur, og eg seige ydur eirnenn nu grœatande, þeir Oviner Krossens Christi.

19. Hvorra æfelok er Fyrerdæminginn, hvorra GUd Magenn er, og þeirra vegsemd sem Jardlega sinnader eru, verdur til skammar.

20. Enn vor umgeingne er a Himnum, hvadan vier væntum Frelsarans JEsu Christi vors DROTTins.

21. Sa voru faseingann Lijkama mun forklœara, þad hann lijkur verde hans forklarudum Lijkama, epter þeim Krapte, þar hann kann sier alla hlute med undergiefna ad giøra.

# IV. Capitule.

Paulus (I) biidur þeim i Philippis ad gleda sig i DRottne: (II) Þackar þeim fyrer sitt Orlæte og Godgiørne vid sig.

I. Lijka so, mijner kiærer og æskeleger Brædur, minn Fognudur, og mijn Korona, vered so stoduger j DRottne, þier elskanleger.

2. Evodian aaminne eg, og Syntychen aaminne eg, þad þær sieu samlyndar j DRottne.

3. Eg bid þig eirnenn minn (a) trwr Lagsmadur, veit þeim hiastod, sem med mier strijdt hafa j Evangelio, med Clemese, og hinum odrum mijnum Hialparmonnum, hvorra Nofn ad eru j Lijfs Bokenne.]

(a) (Trwr lagsmadur) Þad er, minn sierdeilis trur Stallbroder framar odrum, hvorium þad er Hiartans alvara ad Predika Evangelium so sem mier, og helld eg ad hann meine þann ypparsta Biskup j Philippen.

Pistillen IV. Sunnud. j Adventu.

4. Glediedydur j DRottne alla tijma, og enn aptur seigie eg, gledied ydur.

5. Ydra Hogværd laated kunna vera ollum Monnum, DRottinn er Nalægur.

6. Syrged ecke, helldur laated ydar Bæner j ollum hlutum, j Bænahallde og aakalle, med Þackargiord, fyrer Gude kunnar verda.

7. Og Fridur GUds sa hærre er ollum Skilninge, vardveite ydar Hiortu og Hugskot, j Christo JEsu.]

8. Framar, Kiærer Brædur, Hvad Sannarlegt er, hvad Erlegt er, hvad Riettelegt er, hvad Skijrlijft er, hvad aastsamlegt er, hvad vel somer. Er þad Dygd nockur? Er þad Lof nockud? Hyged þar epter.

9. Hvort þier eirnenn lært og medteked, heyrt og sied hafed a mier, þad giored, þa mun DRottin Fridarens med ydur vera.

II. 10. Eg em nærsta miog gladur ordenn j DRottne, þad þier erud endurvaknader, fyrer

rer mier ad syrgia, sem þier hafed þo allt jafnt fyrer mier sorgad, Enn tijdenn hefur þad ecke viliad lijda.

11. Eige seige eg þad Naudþurftarennar vegna, þviad eg hefe lært, hia þeim er eg em, mier ad nægia lᴐata.

12. Eg kann lᴐagur og hᴐar ad vera, eg em vidvanur j øllum hlutum, og hia øllum, bæde saddur ad vera, og so hungradur, bæde Gnog ad hafa og Brest lijda.

13. Eg formᴐa alla hlute, fyrer þann sem mig Mᴐattugann giører, sem er Christur.

14. Þo hafed þier vel giort, þad þier hafed mijna Hørmung annast.

15. Enn þier Philippenses vited þad, ad af upphafe Evangelii, þann tijd eg burtfoor af Macedonia, þad eingenn Søfnudur hefur mier nockud veitt, j Reikningskapnum, utlᴐata og jntekta, utann þier alleinasta.

16. Þviad, til Thessalonicam sendud þier til minnar Naudþurftar, eitt sinn, og þar epter enn einu sinne.

17. Eige þad eg leite epter giøfenne, helldur leita eg ad Avegstenum, þad hann sie gnoglegur j ydrum Reikningskap.

18. Þviad eg hefe alla hlute, og hefe yferfliotanlega. Eg fylltunst þann tijd eg medtok fyrer Epaphroditum, þad fra ydur kom, sætañ Ilm, þægelegt Offur, Gude þacknæmt.

19. Enn minn Gud uppfylle alla ydar Naudþurft, epter sijnum Dyrdarennar Rijkdome, j Christo JEsu.

20. Enn Gude og Fødur vorum sie Dyrd, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.

21. Heilsed øllum Heiløgum j Christo JEsu.

22. Ydur heilsa þeir Brædur sem eru hia mier, Ydur heilsa aller Heilager, sierdeilis þeir af Keisarans Hwse.

23. Nᴐad vors DRottins JEsu Christi sie med ydur øllum, Amen.

Skrifadur af Rom med Epaphrodito.

## Formᴐale yfer S. Pals Pistil til Colossenses.

Lika so sem ad sa Pistillenn til þeirra j Galatia hefur Art og eftermind epter Pistlenum til Romveria, Og þad sama j stuttu Mᴐale inne lykur, hvad sa til Romveria vijdar og rijkuglegar utbreider; So hefur og þesse Pistill til Colossenses, sijna art og hegdan epter þeim til Ephesios, og jnne helldur þad sama j stuttu Mᴐale.

I hinum firsta lofar Postulenn þa, og æsker þeim Colossum, þad þeir blijfe j Trunne, og fare vaxande. Og utleggur hvad Evangelium og Truenn sie, Ad hun sie sa Vijsdomur sem vidurkienner Christum eirn DRottinn og Gud, fyrer oss Krossfestann, sem af Veralldar upphafe var hulenn, og nu fyrer sitt Embætte frammborenn; þad er hinn firste Cap.

I ødrum Cap. bidur hann þa ad taka sig j vakt fyrer Manna Lærdome, sem ætijd er Trunne motstædlegur. Og uppmᴐalar þa sønu Lærendur a þennann hᴐatt riettelega, so þad þeir eru j Skriftenne hvørge so uppmᴐalader, straffande þa Meistarlega.

I hinum þridia ᴐaminner hann þa, þad þeir sieu Avagstarsamer j skiærre Tru med allshattadum godum Verkum, hvør vid annann, Og skrifar allshᴐattadre Stiett, hennar eigenleg verk.

I hinum fiorda bifalar hann sig under þeirra Bænahalld, heilsar þeim og stirker þa.

# Sancte Pals Pistill til Colossenses.

## I. Capitule.

Paulus (I) kunngiører hvad vier høfum ødlast j Christo; Hver Christus se. Hvørsu ad Christus hafe sætt oss vid Gud: (II) Talar um mótgang sem hann hafe lided j sijnu Predikunar Embætte.

I. PAll Postule JEsu Christi, fyrer Guds vilia, og Timotheus sa Broder.

2. Þeim Heiløgum j Colossen, og þeim Truudum

Truudum Brædrum j Christo. Naad sie med ydur og Fridur, af Gude vorum Fodur, og DRottne JEsu Christo.

3. Vier þockum Gude, og Fodur vors DRottins JEsu Christi, og bidium alla tijma fyrer ydur.

4. Af þvi vier hofum heyrt af ydvarre Trù a JEsum Christum, og af ydar Kiærleik til allra Heilagra.

5. Fyrer þeirrar Vonar saker, sem ydur er ætlud a Himnum, af hvorre þier hafed til forna heyrt, fyrer Sannleiks Orded j Evangelio.

6. Pad til ydar komed er, so sem og ut um allann Heimenn, og er Avaxtarsamt, so sem og lijka a medal ydar, allt j fra þeim Deige er þier hofdud þad heyrt, og vidurkient Guds Naad j Sannleika.

7. So sem þier lært hafed af Epaphra, vorum kiæra Medþienara.

8. Hvor ad er trwr Þion Christi fyrer ydur, sa oss eirnenn kunngiorde ydvarn Kiærleika j Andanum.

Pistillenn XXIV. Sunnudag epter Trinit.

9. Hvar fyrer vier eirnenn allt j fra þeim Deige, þa vier hofdum þad heyrt, lietum vier ei af fyrer ydur ad bidia, og vier bidium þad þier upfylleſt med Vidurkienning hans vilia, j allshoattudum andlegum Viisdome og Skilninge.

10. So ad þier ganged Drottne verduglegana, til allrar Þocknunar.

11. Og sieud Avaxtarsamer j ollum godum Verkum, og vaxed j GUds Vidurkienningu, og styrkest j ollum Krapte, epter hans dyrdarlegre Magt, j allre Þolenmæde og Langlundargiede, med Fognude.

12. Og þacker giored Fodurnum, sem oss hefur skapfellega giort, til Arfskiptis Heilagra, j Liosenu.

13. Sa ad oss hefur frelsad af yfervallde Myrkranna, og hefur oss jnn sett j Rijke sijns elskulega Sonar.

14. J hvorium vier hofum Endurlausnena, fyrer hans Blod, sem er Syndanna Fyrergiefning.]

15. Hvor ad er eigenleg Jmind Osynelegs GUds, hinn Frumgietne fyrer allar Skiepnur.

16. Þviad fyrer hann eru aller hluter skapader, þad a Himnum og a Jordu er, bæde synelega og osynelega, bæde Thronarner og Herradomarner, Hofdingiadomar og Valldstietter, alltsaman er þad fyrer hann, og til hans skapad.

17. Og hann er fyrer ollum hlutum, og þad allt stendst j honum.

18. Og hann er Hofud Lijkamans, sem er Safnadarns, hvor ad er Upphafed, og hinn Frumgietne, fra Daudum; Uppa þad hann hafe j ollum hlutum Hofdingia dæmed.

19. Þviad þad hefur so þacknæmt vered, ad j honum skyllde allur Fullkomlegleike byggia.

20. Og aller hluter yrde fyrer hann forlijkter til hans sialfs, Hvort þad er a Jordu, edur a Himnum, þar med, ad hann Fridenn giorde, fyrer Bloded a sijnum Krosse, fyrer sialfann sig.

21. Og ydur, þier sem fordum daga vorud framande, og Oviner, fyrer Skinsemdena j vondum Verkum.

22. Enn nu hefur hann forlijkt ydur medur Lijkama sijns Holldz, fyrer Daudann. Uppa þad hann giorde ydur Heilaga, og ostraffanlega, og Saklausa fyrer sier sialfum.

23. Ef þier blijfed annars j Trunne grundvallader, stadfaster og ohræranleger, af vonenne þessa Evangelij, sem þier hafed heyrt, hvort predikad er medal allra Skiepna, sem under Himnenum eru, þess Þienare eg Pall em ordenn.

II. 24. Eg gled mig j mijnum Harmkvælingum, þær eg lijd fyrer ydur, Og uppfylle a mijnu Hollde, hvad ad vantar a þær Harmkvælingar j Christo, fyrer hans Lijkama, hvor ad er Sofnudurenn.

25. Þess Þienare eg em vordenn epter Gudlegu Predikunar Embætte, sem mier er giefed a medal ydar, ad eg Guds Ord rijkuglega predika skal.

26. Sem

26. Sem er þann hans Leyndardom, hvør hulenn hefur vered fra Upphafe Veralldar, og um æfe, Enn nu openberadur er hans Heilögum.

27. Hvørium Gud hefur viliad kunngiøra þennann dyrdarlega Rijkdom þessa Leyndardoms medal Heidenna þioda (hvør ad er Christur j ydur) sem er vonenn Dyrdarennar, hvørn vier bodum.

28. Aminnande alla Menn og lærande alla Menn med allshoattadre Speke, Uppa þad vier frammsettum hvørn Mann algiørdann j Christo JEsu.

29. Hvar uppa eg erfida og strijde epter Krapte þess sem j mier kroptuglega verkar.

## II. Capitule.

Paulus aminner Colossenses (I) ad þeir lꝍte ecke leida sig afvega med Mælge Fals-kennenda; (II) ecke med Mannlegre Speke; (III) Ne med vana Mannanna.

I. Eg vil ydur vita lꝍta, hvørt strijd eg hefe fyrer ydur, og fyrer þeim j Laodicea, og øllum þeim sem mijna Personu hafa eige sied j Holldenu.

2. So ad þeirra Hiørtu hugsvøludust, og sambundenn yrde j Kiærleikanum, og til allrar audgunar visselegs skilnings, ad þeckia Leyndann dom Guds Fødurs og Christi.

3. J Hvørium hulder liggia aller Fiesioder Vitskunnar og Vidurkienningarennar.

4. Enn eg seige þar af, þad eingenn tæle ydur med lijklegum (a) Rædum.

(a) (Rædum) þær sem koma samann vid Skinsemena, so sem sa Lærdomur um Godverkenn, etc.

5. Þvi þo eg sie ecke þar epter Holldenu, þa em eg þo j Andanum hia ydur, fagnande, þad eg sie ydra skickan og ydra stadfasta Tru a Christum.

6. Lijka so sem þier hafed nu medteked DRottinn Christum JEsum, so lijka ganged j hønum.

7. Og vered jnnrætter og uppbiggder j hønum, og vered stadfaster j Trunne, sem þier erud lærder til, og vered rijkuglega þackuæmer j henne.

II. 8. Siaed til, þad eingenn ræne ydur fyrer Philosophiam, og hiegomlegar tælingar, epter Manna Lærdome, og Veralldarennar Setninge, enn eige epter Christo.

9. Þviad j hønum bigger allur Fullkomlegleike Guddomsins Lijkamlega.

10. Og þier erud (b) fullkomner j hønum, hann sem er Høfud alls Hofdingiadoms, og Valldstiettar.

(b) (Fullkomner) þad er, þier hafed þad allt saman, þegar þier hafed Christum, og þurfed ecke ad meira ad leita.

11. J hvørium þier erud umskorner, med Umskurn oan Handa, fyrer aflogu Syndsamlegs Lijkama j Holldenu, sem er med Umskurn Christi.

12. J þvi, þar þier erud med hønum grefrader, fyrer Skijrnena, j hvørre þier erud uppriisner fyrer Truna, sem Gud verkar, hvør ed hann upp vakte af Dauda.

13. Og hann hefur ydur eirnenn, med hønum Lifande giort, þann tijd þier vorud Dauder j Syndum, og j Yfirhꝍd ydvars Hollds, Og hann hefur oss fyrergiefed allar Synder.

14. Og afskafed þa (c) Handskrift sem mote oss var, hvør j Setningum var hulenn, og oss gagnstædleg var, og hefur hana a burt teked, og a Krossenn neglt.

(c) (Handskrift) þad er, Þar stendur eckert so hardlega a mote oss, sem vor eigenn Samvitska, med hvørre þad verdur uppa oss bevijsad, sem med vorre eigenn Handskrift, þegar Løgmaled openberar oss Syndena, med hvørre vier høfum slijka Handskrift skrifad, enn Christus frelsar oss fra øllu þessu fyrer sinn Kross, og burt drijfur Diøfulenn og Syndena.

15. Og hefur afflett Høfdingiadoma og Vollduga, og til Synis frammleidt openberlega, og giorde eina Sigurvinning af þeim, fyrer sig sialfann.

III. 16. Af þvi lꝍted ongvann giora ydur Samvitsku ueina, j Mat edur Dryck, ellegar med oasett Helgedaga hollð, eda Tunglkomur, edur Sabbath.

17. Hvort ad er Skugge af þvi sem tilkomande var, enn sialfur Lijkamenn er j Christo.

18. Laated øngvann svipta ydur Maalteikninu, af þeim sem epter eigenn Utvalningu ganga, j audmykt og andlegleik Einglanna, hvoria hann sa aldrei, og er til onytis uppbrokadur j sijnu Holldlegu sinne.

19. Og helldur sig ecke vid Høfudeð, af hvoriu allur Lijkamenn fær hialp, fyrer Lide og samkomur, og helldur sier saman, og vegs so til Guddomlegrar stærdar.

20. Sieud þier nu dauder med Christo, fra Veralldarennar Settningum, Hvar fyrer laated þier þa veida ydur med Settningum? Lijka sem ad lifdud þier enn j Verolldenne (hvorier ed seigia.)

21. Eige skalltu a þvi taka, Eige skalltu þvi bergia, Eige skalltu þad aahræra.

22. Hvørt þo allt slitnar þa þad er med hondum haft.

23. Og eru Manna Bodord og kienningar, hvoriar ed hafa yferlit Vitskunnar, fyrer sialfvalenn andlegleik og audmykt, og j þvi þeir þyrma ei Lijkamanum, og giora eige Holldenu sijna Sæmd, til sinnar Naudþurftar.

## III. Capitule.

Paulus talar (I) um Eitt Nytt Lijferne i Idkun allra Godra Dygda; (II) Um Christelega Hus-Stiorn.

I. Erud þier nu upp aptur risner med Christo, þa leited þess hvad þar uppe er, þar ed Christur er sitiande til Guds hægre Handar.

2. Kostgiæfed epter þvi sem þar uppe er, og eige epter þvi sem a Jordu er.

3. Þviad þier erud dauder, og ydart Lijf er folged med Christo j Gude.

4. Enn nær Christus ydvart Lijf mun sig opinbera, þa munud þier eirnenn med honum openberader verda j Dyrdenne.

5. So deyded nu ydra Limu sem a Jordu eru, Hooraner, Ohreinleika, skammarlegann Bruna, Vonda Lysting, og Agyrne (sem er Skurgodadyrkan.)

6. Fyrer hvad ad kiemur Guds Reide yfer Born Vantruarennar.

7. J hvoriium þier hafed fordum Daga geinged, þa þier lifdud j þeim.

8. Enn afleggeð nu allt þetta j fra ydur, Reide, Grimd, Illsku, Lastaner, skiemmeleg Ord af ydrum Munne.

9. Liugied ecke hvor ad odrum, Afklædest hinum Gamla Manne, med sijnum Verkum.

10. Og iklædest hinum Nya, sa sem endurnyast a til Vidurkienningar, epter þess Jmind sem hann hefur skapad.

11. Þar sem er eingenn Griskur, Gydingur, Umskurn, Yferhvod, Utlendur, Schyta, Þræll, Frelsinge, helldur er Christur allt og j ollum.

Pistillenn V. Sunnud. epter Þrettanda.

12. So iklædest nu, so sem Guds Utvalder, Heilager og Elskanleger, hiartfolgenne Miskunseme, Godvilia, Audmykt, Hoglynde, Þoleinmæde.

13. Og umlijded hvor annann, og ef ad nockur hefur Klogumaal mot odrum, þa fyrergiefed þad hvor odrum jnnbyrdis, lijka so sem Christur hefur fyrergiefed ydur, so skulud þier eirnenn.

14. Enn framm yfer allt þetta, þa iklædest Kiærleikanum, hvor ad er Band Algiorleikans.

15. Og Fridur Guds rijke j ydrum Hiortum, til hvors ad þier erud kallader, j einum Lijkama. Vered og þackláter.

16. Laated Christi Ord rijkuglega byggia medal ydar, j allre Vitsku. Læred og aaminned ydur sialfa med Psalmum og Lofsøngvum, og andlegum liuflegum Kvædum, Og syngeð DRottne j ydrum Hiortum.

17. Og allt hvad þier giored med Ord, edur Verk, þad giored allt j Nafne DRottins JEsu, og þacked Gude og Fodur fyrer hann.]

II. 18. Þier Kvinnur, vered ydrum Bændum undergiefnar j DRottne, so sem ad biriar.

19. Pier Menn, elsked ydar Eigennkonur, og vered ecke Beisklundader vid þær.

20. Pier Born, vered hlydug Forelldru-num j øllum hlutum, þviad þad er DRott-ne þacknæmelegt.

21. Pier Fedur, reited ecke ydar Born, so ad þau verde ecke jstødulaus.

22. Pier Pienarar, vered hlyduger j øl-lum hlutum, ydrum lijkamlegum Herrum, ei med Pionustu fyrer Augum, so sem Monnu-num til þocknunar, helldur med einfalldleik Hiartans, og med Guds otta.

23. Allt hvad þier giored, þad giored af Hiarta, so sem fyrer DRottne, og eige fyrer Monnum.

24. Og vited, þad þier munud ødlast af DRottne verdlaun arftokunnar, þvi þier þioned DRottne Christo.

25. Enn hvor Oriett giører, sa mun þad medtaka, hvad hann hefur Oriett giort, og þar gillder eckert Manngreinar aalit.

26. Pier Drottnar, hvad riett og jøfnu-dur er þad audsyned Pienurunum, Og vited, þad þier hafed eirn DRottinn a himnum.

## IV. Capitule.

Paulus bydur (I) ad menn sen Stoduger i Bæna-akallenu, hackloæter, og bidie fyrer odrum; (II) Tale Vingiarulega og Skinsamlega; (III) Talar um nockra Retilynda Kennefedur.

I. Vered stoduger j Bænaakallenu, og vaked j þvi enu sama med Packar-giord.

2. Bidied og eirnenn fyrer oss, So ad Gud upplyke oss Ordsins Dyr, til ad tala Leyndann dom Christi, fyrer hvad eg em bundenn.

3. Uppa þad, ad eg openbere þad sama, sem mier biriar ad tala.

II. 4. Ganged vijslega j mote þeim sem ad eru þar fyrer utan, og skicked ydur j tijdenne.

5. Ydar Ræda sie ætijd livfleg, og med Salltekriddud, þad þier vited, hvornenn þier skulud sierhvorium andsvara.

III. 6. Hvornenn um mig er hattad, þad mun ydur allt kunngiora Tychicus, kiær Broder og trur Pienare, og medþion j DRottne.

7. Hvorn eg hefe þar fyrer til ydar sendt, ad hann skyllde vita, hvornenn ydur fære ad, og þad hann hugsvalade ydar Hiortum.

8. Samt Onesimo þeim trua og kiæra Brodur, hvor fra ydur er, og allt hvornenn hier fer framm, munu þeir kunngiora ydur.

9. Ydur heilsar Aristarchus, minn Sam-bandinge, og Marcus Systrungur Barnabe, um hvorn þier hafed nockra Bifalning med-teked. Ef so er, þad hann kiemur til ydar, þa medtaked hann.

10. Og JEsus sa kallast Just, hvorier ert af Umskurnenne eru. Pesser eru allei-nasta mijner Hialpendur, j Guds Rijke, þeir mier eru huggan vorduer.

11. Ydur heilsar Epaphras, hvor j fra ydur er, einn Pion Christi, og jafnan fyrer ydur strijdande j sijnum Bænum, Uppa þad þier standed fullkomner, og uppfyllter j øllum Guds Vilia.

12. Eg ber honum þad Vitne, ad hann hefur stoora aastundan fyrer ydur, og fyrer þa j Laodicea og Hierapoli.

13. Ydur heilsar Lucas Lækner, minn el-skulegur, og Demas.

14. Heilsed Brædrunum til Laodicea, og Nymphan, og Søfnudenum sem ad er j hans Hyse.

15. Og nær þesse Pistill er lesenn hia ydur, þa tilskicked, ad hann verde eirnenn og lesenn j Samkundunne til Laodicea. Og þad þier lesed þann sem til Laodicea er skrifadur.

16. Og seiged Archippo, tak vara a þvi Embætte sem þu medteked hefur j Drottne, ad þu fullkomner þad.

17. Mijn Kvedia med minne Poals Hende. Vered minnuger minna Fiotra. Naadenn sie med ydur, Amen.

Skrifadur af Rom medur Tychico og Onesimo.

# Formꝏle yfer þann Firra S. Pꝏls Pistil til þeirra i Thessalonica.

Þennann Pistil skrifade S. Pꝏll ut af sierlegre ꝏstseme, og Postullegre umhyggiu, Þvi hann lofar þa i tveimur hinum firstu Cap. Þad þeir hafe Evangelium af hønum med slijkre Alvøru medteked, ad þeir eirnenn fyrer Harmkvæle og Offókn stande þar inne, og eru allstadar vordner øllum Søfnudum eitt ꝏgiætt Epterdæme j Trunne, og hafa lided Offokn af Gydingum, sijnum Frændum og Vinum, eins og Christur og hans Postular, so sem hann sialfur hafde og eirnen hia þeim lided, þeim til Epterdæmes, færande hia þeim eitt heilagt Lijferne. Fyrer hvad hann þackar GUde þad hans Evangelium hefur slijkann Avøxt hia þeim fært.

J hinum þridia, Audsyner hann sijna kostgiæfne og umhyggiu, þad slijkt hans Erfide, og þeirra lofsamleg Uppbirian, verde ecke eydeløgd fyrer Diøfulenn og hans Postula, med Mannanna Lærdomum, Fyrer þvi hafe hann ꝏdur fyrerframm Timotheum til þeirra sendt, slijkt ad kunngiøra, Og þackar Gude, þad enn nu hafe vel til geinged hia þeim, Og æsker þeim viduraukningar.

J hinum fiorda, Aminner hann þa, þad þeir vakte sig vid Syndum, og giøre hvad gott er innbyrdis. Þar til andsvarar hann þeim uppa eina Spurning, sem þeir høfdu fyrer Timotheum lꝏted til hans bera, af Upprisu Frammlidenna, hvørt þeir mundu aller under eins, eda hvør epter ødrum upprijsa.

J hinum fimta, Skrifar hann þeim um þann Sijdarsta Dag, hvørsu snøggt og skyndelega hann skule koma, og giefur þar med nockrar godar skickaner, hinum ødrum ad stiorna, og hvørnenn þeir skulu hallda sig j giegn Lijferne og Lærdome hinna annara.

# Hinn Firre Sancte Pꝏls Pistill til þeirra i Thessalonica.

## I. Capitule.

*Paulus talar um Christendom þeirra i Thessalonica.*

Pꝏll og Silvanus og Timotheus. Þeim Safnade j Thessalonica j GUde Fødur og DROTTne JEsu Christo. Nꝏd sie med ydur og Fridur, af GUde vorum Fødur og DROTTne JEsu Christo.

2. Vier þøckum GUde alla Tijma, fyrer ydur alla, og þeinkium til ydar oaflꝏtanlega j vorum Bænum.

3 Og vier þeinkium ꝏn aflats a ydar Verk j Trunne, og ydvart erfide j Kiærleikanum, og a ydra Þolennmæde j voneune, hvør ad er til vors DROTtins JEsum Christum, fyrer GUd og vorn Fødur.

4. Þvi, Kiærer Brædur, af GUde Elskader. Vier vitum, þad þier erud utvalder af GUde.

5. Þviad vort Evangelium var hia ydur, eige alleinasta j Ordenu, helldur hvørtveggia j Krapte og Heiløgum Anda, og j nærsta mikelle fullvissu, So sem ad þier vited, hvilijker vier vorum medal ydar, fyrer ydar Skulld.

6. Og þier erud vorer Epterfilgiarar vordner og DROTTEns, og hafed Orded medteked, j miklum Motgange, medur Fognude j Heiløgum Anda.

7. So ad þier erud Fyrermind vordner allra Truadra j Macedonia, og j Achaia.

8. Þviad af ydur er Ord DROTtins vijdfrægt Orded, ei ad eins j Macedonia og Achaia, helldur er ydar Tru til GUds utdreifd, j allar ꝏlfur. So ad eige er þørf ydur nockud ad seigia.

9. Þviad þeir sialfer kunngiøra af ydur, hvad vier høfum fyrer inngang haft til ydar, og hvørnen þier erud umsnuner til GUds, j fra Skurgodum, til ad þiona Lifanda og Sannarlegum GUde.

10. Og ad bijda epter hans Syne af Himnum, hvørn hann uppvakte af Dauda, JEsum, sa oss hefur frelsad af tilkomande Reide.

II. Ca-

## II. Capitule.

Hlijdner og Gudhrædder Tilheyrendur eru Rettlyndum Kennefedrum til Storrar Virdingar og Glede.

Af þvi þier vited, Kiærer Brædur, vorn Inngang til ydar, þad hann hefur ei onytur vered.

2. Helldur so sem vier hofdum oadur til forna lided, og Hoadung þolad til Philippen (sem ad þier vited) þo vorum vier samt og oadur alldiarfer, j vorum GUde, hia ydur ad tala Evangelium GUds, j storre Baroattu.

3. Þvi vor Aminning hefur ei vered til Villudoms, nie til Ohreinleiks, nie til Viela.

4. Helldur epter þvi vier erum af GUde reynder, þad oss er tiltruad, ad predika Evangelium, so tolum vier, Eige sem villdum vier Monnum þocknast, helldur GUde, sem vor Hiortu reyner.

5. Þviad vier hofum alldrei neitt sinn med Smiadrunar ordum umgeinged (sem ad þier vited) og logdum oss ei epter Agyrnd; GUd er þess Vottur.

6. Og ei helldur leitudum vier Vegsemdar af Monnum, hvorke af ydur, nie af odrum.

7. Vier hefdum moatt giora ydur Þyngsl, sem Christi Postular; Helldur vorum vier Modurleger hia ydur: Lijka sem onnur Fostra annast Born sijn.

8. So hofum vier Hiartans Lysting af ydur, og vorum Vilinger til ad hlutskipta vid ydur, ei alleinasta GUds Evangelium, helldur jafnvel voru Lijfe, Fyrer þvi, ad vier hofdum ydur oastfolgna.

9. Þier minnest vel, Kiærer Brædur, vors Erfides, og vorrar Mædu, Þviad Dag og Nott erfidudum vier, so ad vier veittum ongvum nein Þyngsl a medal ydar, og predikudum hioa ydur Evangelium GUds.

10. Þess erud þier Vottar og GUd, hvorsu Heilaglega, Riettferduglega og Ostraffanlega vier vorum hia ydur (þier sem Truader erud.)

11. So sem ad þier vited, ad vier hofum hvorn sem einn af ydur, so sem Fader sijn Born, oaminnt og huggad, og þad vottad.

12. Ad þier skylldud verduglega ganga fyrer GUde, þeim ydur hefur kallad til sijns Rijkis, og sinnar Dyrdar.

13. Fyrer þad þockum vier eirnenn GUde oaflatanlega, þad þier, þann Tijd þier Medtokud af oss þad Ord Gudlegrar Predikunar, þa medtokud þier þad ei, so sem Mannanna Ord, helldur (epter þvi þad sannarlega er) sem GUds Ord, þad eirnenn verkar j ydur, þier sem trued.

14. Þviad þier erud Epterfilgiarar vordner, Kiærer Brædur, GUds Sofnudum j Judea, j Christo JEsu, so þad þier hafed þad sama lided af ydrum nafrændum, sem hiner af Gydingum.

15. Hvorier eirnenn DROttenn JEsum hafa lijfloated, og þeirra eigenn Spoamenn, og hafa oss offokt, og þocknast ecke GUde, og eru ollum Monnum motstadleger.

16. Talma oss ad seigia Heidingium þad þeir meige af hialpast, so ad þeir uppfylle sijnar Synder allstadar, Þviad Reidenn er þegar endelega yfer þa komenn.

17. Enn vier, Kiærer Brædur, med þvi ad oss hefur stijad vered j fra ydur um stundar Saker, epter yferlite, og eige epter Hiartanu, þa hofum vier þess framar flytt oss ydart auglit ad sia, af storre þreyan.

18. Fyrer þad hofum vier viliad til ydar koma (eg Poall) twisvar sinnum, Enn Satan hefur hindrad oss.

19. Þviad hvor er vor Von edur Fognudur, edur Korona hrosunarennar? Erud þier þad eige fyrer vorum DROttne JEsu Christo, j hans tilkomu?

20. Joa, þier erud vor Vegsemd og Fognudur.

## III. Capitule.

Timotheus var (I) sendur fra Paulo til þeirra i Thessalonica: (II) Hans Jatning um þa fyrer Paulo.

I. Fyrer þvi hofum vier ecke leingur þad viliad umlijda, og lietum oss þocknast ad vera einsamer til Athenas.

2. Og hǫfum vtsendt Timotheum vorn Brodur og GUds Þienara, og vorn Hialparmann j Evangelio Christi, til ad stirkia og a ad minna ydur j ydvarre Tru.

3. So ad eingenn ydar veiklest j þessum Hǫrmungum. Þviad þier vited, ad vier erum þar til (a) setter.

(a) (Setter) þad er, þad kann ecke ǫdruvijs, til ad ganga.

4. Og þa er vier vorum hia ydur, sǫgdum vier ydur þad fyrer, Þad vier hlytum Motgang ad hafa, so sem skied er, og þier vited.

5. Þar fyrer ad eg gat þad ei leingur lided, þa vtsenda eg, so ad eg mætte reyna ydra Tru, Uppa þad, ad eige mætte skie, ad Freistarenn freistade ydar, og yrde vort Erfide til onytis.

II. 6. Enn nu þad Timotheus er j fra ydur til vor komenn, og hefur kunngiort oss ydra Tru og Kiærleika. Og þad þier hufed til vor alltijd til hins besta, og þad ydur forleinger epter ad sia oss, so sem oss eirnenn epter ydur.

7. Þa urdum vier, Kiærer Brædur, huggader af ydur, j allre vorre Hǫrmung og Naud, fyrer ydra Tru.

8. Þviad nu erum vier lifande, med þvi þier standed j DROttne.

9. Þvi hvoria Þackargiǫrd gietum vier GUde endurgollded fyrer ydur, fyrer allann þann Fǫgnud, sem vier hǫfum af ydur fyrer vorum GUde?

10. Vier bidium Dag og Nott mikelega, þad vier mættum sia ydvart Auglit, og uppfylla, ef nockud brestur a ydra Tru.

11. Enn GUd vor Fader, og DROttinn vor JEsus Christus, greide vorn Veg til ydar.

12. Enn ydur margfallde DROTTinn, og låte Kiærleikann verda fullkomenn jnnbyrdis hia ydur, og vid hvorn Mann (so sem ad vier erum eirnenn vid ydur.)

13. So ad ydar Hiortu sieu stirk og ostraffanleg, j Heilagleik fyrer Gude og vorum Fǫdur, til Tilkomu vors DROttins JEsu Christi, med ǫllum hans Heilogum.

# IV. Capitule.

Paulus (I) bydur ad lifa Heilǫgu Lijferne: (II) Talar um upprisu Hinna Daudu.

Pistillenn II. Sunnud. i Fǫstu.

I. Framar, Kiærer Brædur, bidium vier ydur, og aaminnum j DROttne JEsu, med þvi þier hafed af oss medteked, hvornenn þier skulud ganga, og Gude þocknast, so ad þier æ meir og meir fullkomnare verded.

2. Þviad þier vited, hvad fyrer Bodord vier hǫfum giefed ydur, fyrer DROttenn JEsum.

3. Þviad þad er vilie Guds, ydar Helgun, ad þier umflyed Hooraner.

4. Og hvǫr ydar sem eirn, vite ad eignast sitt Kier, j Helgan og Heidre.

5. Og ecke j Girndarbruna, sem Heidingiar, þeir af Gude eckert vita.

6. Og þad eingenn aasetyrest edur take aagoda fra sijnum Brodur j Hǫndlanenne, þviad DROttinn er hann, sem hefner alls þessa, sem ad vier hǫfum aadur fyrer sagt, og ydur vottad.

7. Þviad Gud hefur ecke kallad oss til Ohreinleiks, helldur til Helgunar.]

8. Hvǫr sem nu forsmaer, hann forsmaer ecke Mann, helldur Gud, sa sinn Heilaga Anda hefur j ydur giefed.

9. Enn af Brodurlegum Kiærleika er ecke þorf ydur ad skrifa. Þviad þier erud sialfer af Gude lærder, ydur jnnbyrdes ad elska.

10. Og þad giǫred þier eirnenn vid alla Brædur, sem j allre Macedonia eru, Enn vier bidium ydur, goder Brædur, þad þier verded enn algiǫrdare.

11. Og kostgiæfed spakferduger ad vera, og ydart eiged ad stunda, Og erfided med ydar eigenn Hǫndum, so sem ad vier hǫfum boded ydur.

12. Uppa þad þier mættud ærlega ganga hia þeim, sem þar fyrer utan eru, og einskis þeirra med (a) þurfa.

a) (Þurfa) þad er, Næred ydur og hialped ydur sialfer, og ligged ei ǫdrum Mǫnnum a Hǫndum, so

sem

ſem þeir Løtu Hoofgangs Mukar, Endur-ſkijrarar, og Landhlauparar, þvi ſlijkt er onytt Folk og hneixlar þa Vautrundu.

Piſtillenn XXV. Sunnudag epter Triuit.

II. 13. Enn vier viliu, Kiærer Brædur, eige dylia fyrer ydur, af þeim ſem ſofa, uppa þad þier ſteud ei hriggver, ſem þeir adrer, ſem ongva von hafa.

14. Þvi ef vier trwum þvi, ad JEſus er daenn, og upp aptur riſenn, So mun Gud og eirnenn, þa ſem ſofnader eru fyrer JEſum, med honum frammleida.

15. Þvi þad ſeigium vier ydur, ſo ſem Ord DRottins, ad vier, hvorier lifum, og epter bliiſum j tilkomu DRottins, vier munum ei fyrre koma enn þeir ſem ſofa.

16. Þviad DRottinn ſialfur mun med hroope og Hofud-Eingelſins Rauſt, og Guds Lwdre ofan koma af Himnum, Og hiner Daudu j Chriſto munu first upp aptur riiſa.

17. Eptera vier, vier ſem lifum og epter bliiſum, verdum til lijka upp numder med þeim ſomu, j Skyenn til mots vid DRottinn j Lopted, og munum ſo med DRottne vera alla tijma.

18. So hugged nu hvor annann jnnbyrdes med þeſſum Ordum.]

## V. Capitule.

Paulus (I) talar um Doms Dag, ad hann mune koma Hvatſkeytlega, og Mønnum ovart: (II) Kenner ad ganga fram i Gudrækne; Elſka Rettlæte vid Naungann, og aminner, ad menn ſeu ſialfer hreinlijfer og oſtraffanleger.

I. Enn af þeim Tijma og Stundu, Kiærer Brædur, er ecke þorf ydur ad ſkrifa.

2. Þviad þier vited ſialfer viſſulega, þad Dagur DRottins mun koma ſem Þiofur um Nott.

3. Af þvi, nær þeir munu ſeigia, þar er Fridur, og hier er eingenn hætta, þa mun Fordiorfunenn ſnogg yfer þa falla, Lijka ſo ſem Soott Jodſiukrar Kvinnu, og eige ſkulu þeir umflyed gieta.

II. 4. Enn þier, Kiærer Brædur, erud ecke j Mirkrenu, ſo ad ſa Dagur grijpe ydur ſem Þiofur.

5. Þier erud aller ſaman Lioſſens Born, og Dagſins Born, Vier erum ei af Nottenne, nie af Mirkrunum.

6. Fyrer þvi latum oſs ei ſofa, ſo ſem hina adra, Helldur vokum og verum ſparlijfer.

7. Þviad þeir ſem ſofa, þeir ſofa a Nottunne, og þeir ſem druckner eru, þeir eru druckner a Nottunne.

8. Enn vier ſem erum Dagſins, ſkulum ſparlijfer vera, j-klædder Brinu Truarennar og Kiærleikſins, og med Hialme Vonarennar til Hialprædeſins.

9. Þviad Gud hefur ei ſett oſs til Reide, helldur þad vier ſkylldum Hialpræded odlaſt, fyrer vorn DRottinn JEſum Chriſtum.

10. Sa fyrer oſs hefur daaed, So hvort ad vier vokum, eda ſofum, ſkulum til ſamans med honum lifa.

11. Fyrer þvi aminne hvor ydar annann jnnbyrdis, og leidriette hvor annann jnnbyrdis, ſo ſem ad þier eirnenn giored.

12. Enn vier bidium ydur, Kiærer Brædur, þad þier þecked þa, ſem erfida a medal ydar, og eru ydor Forſtodu menn j DRottne, og aminna ydur.

13. Og hafed þa þeſs kiærare, fyrer þeirra Verks ſaker, og vered (a) fridſamer vid þa.

(a) (Fridſamer) Hrigged þa ecke, legged þa ecke j Dagdoma, mogled ei a mote þeim, Snotred þa ecke, nie vered ofviiſer upp yfer þeim.

14. Enn vier bidium ydur, Kiærer Brædur, Ad þier aminned Oraadvanda, hugged Iſtodulitla, umlijded Breiſkva, vered Þolennmoder hvor vid annann.

15. Siaed til, þad eingenn giallde nockrum jllt med jllu, helldur ſtunded ætiid epter hinu Goda, bæde jnnbyrdis, og vid hvorn Mann.

16. Vered jafnann glader.

17. Bidied oaflatanlega.

18. Vered þackloater j ollum hlutum, Þviad þad er GUds Vilie, j Chriſto JEſu til ydar.

19. (b) Utſlockved ecke Andann.

(b) (Utſlockved) Enn Þo ad Andarner eige ad laata ſig dæma af Søfnudenum, 1 Cor. 4. Þa eiga Menn

Menn þo ecke ad nidur þriekia þeim edur utſkufa þeim, fyrr enn Menn þeckia þa, helldur ad yfer-heyra þa og reyna, Eins lijka Spaadomana og allann Lærdom. 1 Cor. 1, 9.

20. Spadomana forſmaaed ecke.

21. Enn reyned alla hlute, og bihallded þvi hvad gott er.

22. Fordeſt allt ſem hefur jllt aalit.

23. Enn hann ſem er GUd Fridarens, helge ydur j allann maata, og (c) allur ydar Ande, aaſamt Saalunne og Lijkamanum, meige vardveittur verda, oſtraffanlegur j Tilkomu vors DROTTENS JEſu Chriſti.

(c) (Allur ydar Ande) þad er j øllum pørtum, ſo ſem er j Trunne, Kiærleikanum, Vonenne, Ordum og giørdum.

24. Trwor er hann ſem ydur kallade, hann mun þad og eirnen giøra.

25. Kiærer Brædur, bidied fyrer oſs.

26. Heilſed øllum Brædrum med Heiløgum Koſſe.

27. Eg ſære ydur vid DROTTinn, ad þier laated leſa þennan Piſtel fyrer øllum Heiløgum Brædrum.

28. Naad vors DROTTins JEſu Chriſti ſie med ydur,
AMEN.

Til þeirra j Theſſalonica Firre Piſtill Skrifadur fra Athene.

# Formaale yfer Annann S. Paals Piſtil til þeirra i Theſſalonica.

I Hinum Firra Piſtle hafde S. Paall þeim j Theſſalonica uppleyſt eina Spurning af Doms Deige, þad hann munde koma ſkyndelega og ovart, ſem Þiofur a Naattar þele, Enn ſo ſem þad plagar ad vera, þad ein Spurning elur adra, helſt af raungum ſkilninge, ſo underſtodu þeir j Theſſalonica, þad Domadagur munde þegar fyrer Høndum vera. Fyrer þad ſkrifar hann þennann Piſtil, og forklaarar ſig ſialfann.

J hinum firſta Capitula huggar hann þa med eylijfu Verdkaupe þeirra Truar og Þolennmæde, j allsherjadre Hørmung, og med Straffe Þeirra Offoknara j eylijfum Pijnum.

J hinum ødrum, Kienner hann þad, ad fyrer Domadag hliote aadur fyrre hid Romverſka Rijke under ad ganga, og ad Antachriſturenn upphefie ſig fyrer eirn Gud j Chriſtendomenum, og med følſkum Lærdome og Jardteiknum ville hann hina Vantruudu Verølld, Þar til ad Chriſtur kiemur, og nidur brytur hann, fyrer ſijna dyrdarlegu Tilkomu, og deyder hann fyrerframm med einne andlegre Predikan.

J hinum Þridia, Giorer hann nockrar Aminningar, og ſierdeilis þad þeir ſtraffe þa ſem Jdiulauſer ganga og ſier vilia ecke biarga med eigennlegum Høndum, og ef þeir betra ſig ecke, þa ſkule þeir fordaſt þa. Hvad nærſta hardlega hliodar j giegn andlegre ſtiett a þeſſum Tijmum.

# Hinn Annar Sancte Pauls Piſtill til þeirra i Theſſalonica.

## I. Capitule.

Paulus talar (I) um Þolennmæde þeirra i Theſſalonica, under Kroſſenum: (II) Um Guds Rettlæte yfer þeirra Offoknurum: (III) Ad þeir verde uppfylltir til Chriſti Dijrdar.

I. PAall og Silvanus og Timotheus. Þeim Søfnude til Theſſalonica, j GUde vorum Fødur, og Drottne JEſu Chriſto.

2. Naad ſie med ydur og Fridur, af GUde vorum Fødur, og DROTTne JEſu Chriſto.

3. Vier ſkulum alltiafnt giøra GUde þacker fyrer ydur, Kiærer Brædur, ſem ad verdugt er, þviad ydar Trua vex ed nærſta og jnnbyrdis Kiærleikurenn vex medal ydar allra.

4. So ad vier hrooſum oſs af ydur, j Guds

Guds Søfnude, af ydar Þolennmæde og Tru, j øllum ydar Offsoknum, og Hormungum, hvoriar þier þoled.

5. Hvad og avijsar, þad Gud mune riettferduglega dæma, og þad þier verduger verded til Guds Rijkis, fyrer hvort þier og lijded.

II. 6. Af þvi þad er riett hia Gude, ad endurgiallda þeim Hormung, sem ydur Hormung veita.

7. Enn ydur, þier sem Hormung lijded, hvijld med oss, þa er DROTTinn JEsus mun openberast af Himne, medur Einglum sijns Kraptar.

8. Og med Elldsins Loga, Hefnd ad giefa yfer þa sem ecke þeckia Gud, og yfer þa sem ecke eru hlyduger Evangelio vors DROTtins JEsu Christi.

9. Hvorier Pijsler munu lijda, þa æfenlegu fordiørfun fra Auglite DROttins, og fra hans dyrdarlegre Magt.

10. Þa hann mun koma þad hann Dyrdarlega openberest med sijnum Heilogum, og Dasamlegur med øllum Truudum. Þviad vorum Vitnisburde til ydar, af þeim sama Deige, hafed þier truad.

III. 11. Og saker þess bidium vier eirnenn alla Tijma fyrer ydur, þad vor Gud giore ydur verduga þeirrar kallanar, og uppfylle alla velþocknan Giædskunnar, og Truarennar Verk j Kraptenum.

12. So ad a ydur verde prijsad Nafn DROTTJns vors JEsu Christi, og þier a honum, epter Náad vors Guds og Drottins JEsu Christi.

## II. Capitule.

Paulus (I) talar um Anti-Christ: (II) Skipar ad vera Stødugum i þeirre Sonnu Tru.

I. Enn vegna þeirrar Tilkomu DROTTJNS JEsu Christi, og vorrar samansøfnunar til hans, bidium vier ydur, Kiærer Brædur.

2. Þad þier loated ecke skiotlega snua ydur fra ydru sinne, nie skielfa, hvorke fyrer Anda, eda fyrer Ord, nie Brief, so sem af oss send, þad Dagur Christi sie þegar fyrer Hondum.

3. Loated ongvann villa ydur med neinu mote. Þviad hann kiemur ecke, Nema ad so sie, þad adur fyrre kome þar frafall, og openskoar verde Madur Syndarennar, og Gløtunarennar Sonur, sa sem ad er Motstandare.

4. Og sig forhefur upp yfer allt, hvad Gud edur GudsDyrdkan heiter, so þad hann (a) setur sig j Guds Mustere, so sem Gud, og giefur sig ut þar fyrer ad hann sie Gud.

(a) (Setur) Þesse seta er Rijkisstiorn Antachristi j Christnenne, med hvørre hann kiemur þvi til leidar, ad hans Bodord halldast, framm yfer Guds Bodord og Þienustu, Enn frafalled er þad, ad Menn giefa sig fra Trunne til Mannanna Lærdoms, so sem þar stendur og eirnenn. 1 Tim. 4.

5. Minnest þier ecke þar a, þad eg sagde ydur þetta, þann Tijd eg var enn hia ydur?

6. Og hvad þad enn nu hindrar, vited þier, ad hann skal openberast a sijnum Tijma.

7. Þviad su Vondska hreifer sier alla reidu heimuglega, utan þad, ad sa sem þvi nu jnne helldur, hlytur burt tekenn ad verda.

8. Og so mun þa hinn Vondskufulle openskoar verda, hvorn DROTTinn mun deyda med Anda sijns Munns, og ad ongvu giora fyrer uppbirting sinnar tilkomu.

9. Hvors Tilkoma skier epter Krapte Andskotans, med allshoattudum lygelegum Krapte, Taknum og Stormerkium.

10. Og med allshoattadre afvegaleidslu til Ranglætesins, medal þeirra sem tapader verda, fyrer þad, þeir hafa eige medteked Kiærleikann til Sannleiksins, so þeir hialpadust.

11. Þvi mun Gud senda þeim megnann Villudom, ad þeir true Lygenne.

12. Uppa þad þeir verde aller dæmder, sem Sannleikanum ecke trua, helldur hafa lysting a Ranglætenu.

II. 13. Enn vier skulum þacka Gude alla Tijma fyrer ydur, Elskanleger Brædur af DROTTne, þad Gud hefur utvaled ydur

allt fra Upphafe, til Saaluhialparennar j Helgun Andans, og j Tru Sannleiksins.

14. Par hann hefur ydur j kallad fyrer vort Evangelium, til vegsamlegs Eigenndoms vors DROTTins JEsu Christi.

15. So standed nu, Kiærer Brædur, og hallded þa Settninga, sem þier erud til lærder, sie þad fyrer vor Ord edur Brief.

16. Enn sialfur vor DROTTinn JEsus Christus, og GUd vor Fader, sa oss hefur elskad, og giefed eylijfa huggun, og goda von fyrer Naadena.

17. Hann aaminne ydar Hiartu, og stadfeste ydur j øllum Lærdome, og godum Verkum.

## III. Capitule.

Paulus (I) rædur ad giøra Bæner, til þess, ad Evangelium fae framgang; (II, ad flya Lete og Jdiuleyse.

I. Framar, Kiærer Brædur, bidied fyrer oss, so ad Ord DROTTins hafe sitt hlaup, og vegsamad verde, lijka so sem hia ydur.

2. Og þad vier verdum frelsader j fra Oraadvondum og illgiørnum Mønnum. Þviad Truann er ecke hvørs Manns.

3. Enn sa DROTTinn er trur, sem ydur mun styrkia og vardveita fra illu.

4. Enn vier væntum til ydar j Drottne, þad þier giøred, og giøra munud, hvad vier biodum ydur.

5. Og DROTTinn stiorne ydar Hiørtum, til GUds Kiærleika, og til Þolinmæde Christi.

II. 6. Enn vier biodum ydur, Kiærer Brædur, j Nafne vors DROTTins JEsu Christi, þad þier burttaked ydur j fra sierhvørium þeim Brodur sem otilbærelega geingur, og eige epter þeim settninge sem hann hefur medteked af oss.

7. Þviad þier vited, hvornenn þier skulud oss epterfilgia, Þvi vier vorum ei oskickanleger a medal ydar.

8. Hofum eirnenn ecke Brauded fyrer eckert ut af nockrum teked. Helldur med Erfide Dag og Nott þa hofum vier þionad, so ad vier veittum ongvum ydar nein þyngsl.

9. Ei fyrer þad, so sem ad vier hofum þar ongva Magt til, Helldur þad vier giefum oss sialfa ydur til Fyrermindar, oss epter ad filgia.

10. Og þa vier vorum hia ydur, budum vier ydur þad, ad ef nockur vill eige erfida, sa skal og ecke helldur eta.

11. Þviad vier heyrum, þad nockrer a medal ydar ganga oskickanlega, og erfida eckert, drygiande helldur slenskap.

12. Enn slijkum biodum vier og aaminnum þa, fyrer vorn DROTTinn JEsum Christum, þad þeir erfide med spaklæte, og ete sitt eiged Braud.

13. Enn þier, Kiærer Brædur, þreytest ecke gott ad giøra.

14. Enn ef nockur er ei hlydenn voru Orde, þann teikned upp fyrer Brief, og hafed eckert med hann ad giøra, So ad hann fae Kinnroda.

15. Hallded hann þo ecke sem Ovin, helldur aaminned hann sem Brodur.

16. Enn sialfur DROTTinn Fridarens giefe ydur Frid alla vegu, og med øllum haattum. DROTTinn sie med ydur øllum. Heilsan med minne Hende Paals, hvørt ad er þad merke j øllum Briefum, so skrifa eg. Naad vors DROTTINS JEsu Christi sie med ydur øllum,

AMEN.

Skrifadur fra Athene.

For-

# Formaale yfer Firra S. Pals Pistil til Timotheum.

Þennann Pistil skrifar S. Paall til Fyrermindar øllum Biskupum, hvad þeir eiga ad kienna, og hvornenn þeir eige Christnenne ad stiorna, j allshaattudum Stiettum, uppa þad, ad eingenn Naudsyn sie, þad utaf eigennlegum Mannsins þotta sie Christnenne stiørnad.

J firsta C. ꝓ: bydur hann þad, ad eirn Biskup hallde vid rietta Tru, og Kiærleika, og stande i mote þeim folkum Løgmaalsins Predikurum, hvorier jafnframt Christo og Evangelio, eirnenn vilia framdrijfa Verkenn Løgmaalsins. Og innclykur so j stuttre summu allann Christelegann Lærdom, hvar til ad Løgmaaled þiene og hvad Evangelium er. Og setur sig sialfann til eins huggunarsamlegs Epterdæmis, øllum Syndurum, og harmþrungnum Samvitskum.

J ødrum bifalar hann, ad bidia fyrer allshaattudum Stiettum, og bydur þad Konurnar predike ecke, bere eirnenn øngvann dyrmætann Bunad, helldur ad þær sieu sijnum Bændum hlydugar.

J hinum þridia skrifar hann hvad Biskupar edur Prestar og þeirra Eigennkonur, fyrer Persónur vera skulu, Item, Kyrkiuþienarar og þeirra Kvinnur, og løfar þad, ef nockur gyrnest a þann hætt Biskup ad vera.

J hinum fiorda kunngiører hann um þa Falsbiskupa og andlega Stiett, sem hinum fyrrsøgdum er motstadleg, Og þad þær Persónur munu þar ecke inne vera, helldur þeir sem fyrerbioda Hiuskap og Matarnautn, og med øllu breita þvert a mote, medur Manna Lærdomum, þeirre Eptermind og Epterdæme, sem hann fyrr um skrifad hefur.

J fimta bifalar hann hvornenn til skule ganga um Eckiur og ungar Kvinnur, og hvørium Eckium Menn skule frammfære veita, utaf Safnadarens hialp, og hvørnenn vier skulum froma Biskupa edur Presta j Heidre hallda, og þa straffa sem strøffunar eru verder.

J hinum siotta aaminner hann Biskupana, ad þeir hallde sig vid þad hreina Evangelium, og þvi enn sama med Predikan og Lijferne frammfilge, og firre sig forvitnissømum Spurningum, þær uppbiriadar verda til veralldlegrar hrøosunar, og Rijkdoms ad leita.

# Firre S. Pals Pistill til Timotheum.

## I. Capitule.

Paulus framsetur (I) þann Lærdom um Løgmaaled, og (II) um Evangelium.

I. Paall Postule JEsu Christi, epter bodan Guds vors Frelsara, og DRottins JEsu Christi, sa vor Von er.

2. Timotheo mijnum riettelegum Syne j Trunne. Naad, Miskun, Fridur, af Gude vorum Fodur, og vorum DRottne JEsu Christo.

3. So sem ad eg beidda þig, þad þu blijfer til Epheso, þa eg for j Macedoniam, og bodader þad nockrum.

4. Þad þeir eckert annad kienndu, og giæfu øngvann gaum ad Æfentijrum, og Ættartølum, sem øngvann enda taka, þær meir afla Spurninga, enn betrunar, til Guds j Trunne.

5. Þviad Summa Bodordsins er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, og af godre Samvitsku, og af omeingadre Tru.

6. J fra hvørre sumer hafa vikid, og eru umsnuner til onyts Þvættings.

7. Vilia vera Ritninga Meistarar, skilia þo ecke hvad þeir seigia, eda hvad þeir setia.

8. Enn vier vitum, þad Løgmaaled er gott, ef nockur tijdkar þad riettelega.

9. Vitande þad, ad hinum Riettlaata er eckert Løgmaal sett, helldur Ranglaatum, og Ohlydnum, Ogudlegum og Syndurum, þeim Oheilogu og Oandlegu, Fødurbønum, og Modurbønum, Mannsløgurum.

10. Frillulijfismønnum, þeim sem skømm dryger med Karlmanne, og þeim sem stela Mønnum j burt, og Lygurum, og Meinsærismønnum, og so þad fleyra, sem heilsusamlegum Lærdome motstadlegt er.

 11. Epter

11. Epter dyrdarfullu Evangelio hins Heilaga Guds, þad sem mier til truad er.
II. 12. Og eg þacka vorum Drottne JEsu Christo, sem mig stirkvann giorer, og mig Trulyndann acktad hefur, og sette mig j þetta Embætte.

13. Eg sem var þo fyrrmeir Forsmanare, Offoknare, og Hoadungar madur.

14. Enn mier er Miskunseme yferkomenn, þvi þad giorda eg ovitanlega j Vantru, Enn Naad vors DRottins var þess yfergnæfanlegre med Trunne, og Kiærleikanum, sem ad er j Christo JEsu.

Pistillenn VI. Sunnud. epter Þrettanda.

15. Hviad þad eru vissuleg Sanninde, og dyrmætt verdugt Ord, þad Christus JEsus er komenn j Heimenn, Synduga Saaluholpna ad giora, medal hvorra eg em hinn-stærste.

16. Enn mier er þvi Miskunseme yferkomenn, uppa þad Christus JEsus audsynde a mier sierdeilislega, alla Polennmæde, þeim til Epterdæmis sem a hann skylldu trua, til Eylijfs Lijfs.

17. Enn Gude eylijfum Konge, oforgeingelegum og osynelegum, og alleina Viisum, sie Lof og Dyrd ad Eylijfu, Amen.]

18. Þetta (a) Bodord bifala eg þier, Son minn Timothee, epter hinum firrum (b) Spaadomum yfer þier, ad þu fremier j þeim godann Riddaraskap.

(a) (Þetta Bodord) þad er, ad predika utaf Christo so sem hann seiger hier, ad hann sie komenn j Heimenn.

(b) (Spaadomum) þad er, Sa Lærdomur, sem þu aadur fyrre hefur medteked, hvor ed skrifadur stendur j Spaamønnunum.

19. Hafande Truna og goda Samvitsku, hvorre sumer hafa fra sier skuofad, og a Trunne Skipbrot lided.

20. Medal hvorra er Hymenæus og Alexander, hvoria eg hefe Andskotanum giefed, so ad þeim yrde kiennt, ad Gudlasta ecke meir.

## II. Capitule.

Paulus talar (I) um Bæner fyrer Yfervalldenu, hvoriar aller skule giora: (II) Um Naad JEsu, er aller mege øðlast; (III) Um Guds-Otta Hionanna.

I. So aaminne eg nu, ad Menn umframm alla hlute, giore Boner, Bæner, Fyrerbeidslur, og Þackargiorder fyrer øllum Mønnum.

2. Fyrer Kongum og øllu Yfervallde, Uppa þad vier mættum hafa spakt og rosamlegt Lijferne, j allre Gudrækne og Sidsemd.

3. Þvi slijkt er gott, þar til eirnenn þacknæmt fyrer Gude vorum Frelsara.

I. 4. Sa sem vill, þad aller Menn verde Saaluholpner, og til vidurkienningar Sannleiksins komest.

5. Þviad þar er eirn Gud, og eirn Medalgangare mille Guds og Manna, sem er sa Madur Christus JEsus.

6. Hvor sialfann sig hefur utgiefed fyrer alla til Endurlausnar, þad þetta yrde predikad a sijnum tijma.

7. Hvar til eg em Predikare og Postule settur (eg seige Sannleik j Christo, og lyg ei) Lærare Heidenna, j Trunne og j Sannleikanum.

III. 8. So vil eg nu þad, ad Mennerner bidie j øllum stødum, og upphefie Heilagar Hendur, aan Reide, og (a) Ørvinlunar.

(a) (Ørvinlan) Ad þeir ei møgle vid Gud, nie efe hans Naad j sinne Samvitsku. Phil. 2.

9. Slijkt hid sama Konurnar, ad þær pryde sig j somasamlegum Buunade, med Blygd og hreinferde, ei med Flolldum, Haarfliettan, edur Gulle, edur Perlum, eda Dyrmætum Klædnade.

10. Helldur so sem þad Konunum hæfer, þeim er audsyna GUdhrædslu fyrer Godverk.

11. Ein Kvinna lære j hliode med allre undergiefne.

12. Og eg leyfe ecke neirne Kvinnu ad kienna, ecke helldur þad hun sie Mannsins Herra, helldur þad hun sie þogul.

13. Þviad

13. Þviad Adam er firre skapadur, Epter a Eva.

14. Og Adam vard ei svikenn, enn Konann vard svikenn, og hefur Yfertrodsluna innleidt.

15. Enn hun mun hialpast fyrer Barnburdenn, Ef hun (b) blijfur j Trunne og Kiærleikanum, og j Helgunenne med Hreinferde.

(b) (Blijfur) hvørt helldur Menn lesa, er j trunne, edur, eru j Trunne, gillder eins, Þvi þad er almenneglega sagt um Kvinnurnar, enn ecke under eins um Børnenn, so sem sumer mæda sig hier um til onytis.

## III. Capitule.

Paulus talar (I) um Hegdun Andlegra, hvad þa sialfa snerter; (II) i þeirra Huse; (III) J Guds Søfnude.

I. Þad eru visseleg sanninde, Ef ad nockur gyrnest Biskups Embætte, sa gyrnest agiætt Verk.

2. Enn Biskupe byriar ad vera ostraffanlegum, eirnrar Kvinnu Eigenmanne, Sparneytnum, Hogværum, Sidsomum, Giestrisnum, sem hentugur er til ad kienna.

3. Eingenn Vijnsvelgiare, ei Barattusamur, einskis liotlegs Avinnings gyrugur, helldur Lijnkindarsamur, eige þrattunarsomum, eige Agiørnum.

II. 4. Sa goda fyrersion veiter sijnu Hwse, hvor hlydug Born hefur med allre virding.

5. (Þvi ef nockur kann ei sijnu eigenn Hwse forstødu ad veita, hvornenn ma hann þa Guds Søfnude umsion veita?)

6. Eige nykomnum til Truarennar, so hann upphrokest ecke, og hrape so j Lastarans wrskurd.

7. Hann hlytur og eirnenn ad hafa godann Vitnisburd, af þeim sem þar fyrer utan eru, uppa þad hann hrape ecke j forsmean og snøru Lastarans.

8. Lijka eirnenn skulu Þionarner vera Ærleger, eige Tvijtungader, ongver Vijnsvelger, einskis skiemmelegs Avinnings gyruger.

9. Þeir ed hafa leyndann dom Trwarennar j hreinne Samvitsku.

10. Þa hina somu lꜳte Menn reyna, epter þad lꜳte Menn þa þiena, ef þeir eru ostraffanleger.

11. So og lijka skulu þeirra Eigennkvinnur vera erlegar, ei Lostunarsamar, Sparneytnar, Trulyndar j ollum hlutum.

12. Þienarana, hvorn sem eirn, lꜳt vera eirnrar Ecktakvinnu Eigennmann, sa vel forstendur sijn Born, og sijn eigenn Hwss.

13. Enn þeir ed vel þiona, verdskullda sier sialfum goda stiett, og miked traust j Trunne, j Christo JEsu.

III. 14. Þetta skrifa eg þier, og vona sem fyrst til þijn ad koma.

15. Enn ef mier seinkar, ad þu viter, hvornenn þu skallt umgangast j GUDs Hwse, hvert ad er Søfnudur GUDs lifanda, Stolpe og Grundvallan Sannleiksins.

16. Og auglioslega mikell er sa GUDlege Leyndar domur. GUD er openberadur j Holldenu, Riettlættur j (a) Andanum, Auglystur Einglunum, Predikadur Heidingium, Truadur af Heiminum, Medtekenn j Vegsemdenne.

(a) (Andanum) Heilagur Ande hrosar Christo j Evangelio og Trunne, hvørn ad þo øll Verølldenn lastar og fordæmer.

## IV. Capitule.

Paul: talar (I) um Fals-Kennendur, (II) um Retta Kennefedur.

I. Enn Andenn seiger skilmerkelega, þad a sijdurstu Tijmum, munu nockrer ganga af Trunne, og giefa sig til sviksamlegra Anda, og Diofla Lærdoms.

2. Fyrer þa sem j utvortis Heilagleika tala Lyge, og Brennemark hafa j sijnum Samvitskum.

3. Og fyrer bioda ad giptast, og bioda ad bindast þeirrar Fædu, sem GUD hefur skapad, til medtoku Truudum, medur Þackargiørd, og þeim sem Sannleikenn vidurkienna.

4. Þviad oll GUDs Skiepna er god, og eckert burtkastanlegt, þad med Þackargiørd medtekid verdur.



5. Þvi

5. Pvi þad helgast fyrer GUds Ord og Bænena.

II. 6. Nær þu ert þetta Brædrunum fyrerleggiande, muntu vera godur Þienare JEsu Christi, sem uppalenn ert j Ordenu Truarennar, og Goodum Lærdomum, hia hvorium þu hefur ætijd vered.

7. Enn O-andlegar og gamallra Kierlinga Skroksogur fordast þu. Enn jdka þig sialfann til Gildhrædslu.

8. Pviad lijkamleg jdkan er til lijtels nytsamleg, Enn GUdrækne er til allra hluta nytsom, hafande þessa Lijfs Fyrerheit, og so hins Epterkomanda.

9. Þetta eru visseleg sanninde, og dyrmætt verdugt Ord.

10. Pviad til þess hins sama erfidum vier eirnenn, og verdum Forsmader, ad vier hofum vonad uppa Lifanda GUd, sa sem ad er Frelsare allra Manna, enn sierdeilis Truadra.

11. Þetta biod og kienn.

12. Eingenn forsmæe þijna Æsku, Helldur vertu Fyrermind Truadra j Ordenu, j Breitnenne, j Kiærleikanum, j Andanum, j Trunne j Hreinlijsenu.

13. Vertu jdenn med Lesningu, med Aminningum, med Kienningum, þangad til ad eg kiem.

14. Gleym ecke þeirre Goafu, sem þier er giefenn fyrer Spoadoma, med Handanna Uppalegging (a) Olldunganna.

(a) (Olldunganna) þad er. Presta og Predikara.

15. Jdka þetta og umgack, so ad þinn Frame sie opennber j ollum hlutum.

16. Haf goat a siálfum þier, og a Lærdomenum, og blijf stodugur j þessum greinum. Pvi ef þu gierer þetta, muntu sialfann þig hialplegann giora, og þa sem þier heyra.

## V. Capitule.

Paulus talar (I) um Hegdun Timothei vid Gamla og Unga; (II) Vid Eckiur; (III) Vid gamla Kennefedur; (IV) Vid unga Kennefedur.

I. Gamlann straffa ecke, helldur aminn hañ sem Fodur, Ungann sem Brodur.

2. Alldradar Konur sem Mædur, ungar sem Systur, med ollu Hreinlijfe.

II. 3. Eckiurnar heidra, þær sem riettar Eckiur eru.

4. Enn ef ein Eckia hefur Born, edur Barnaborn, þa loat hana first læra, sijnu eigenn Hwse GUdlega ad stiorna, og Forelldrunum lijkt aptur ad giallda, Pviad þad er vel giort, og þacknæmt fyrer GUde.

5. Enn þad er sannarleg Eckia, sem (a) Einsomul er, og sijna Von setur uppa Gud, og stadnæmest j Bænum og oakalle Dag og Nott.

(a) (Einsomul) Ei hafande ad sorga fyrer neinum, og er alleina.

6. Enn hun sem j Bilijfe lifer, er lifande Daud.

7. Biod þetta, uppa þad þær sieu ostrafsanlegar.

8. Enn ef einhvor ræker ecke sitt, sierdeilis sijn Hiw, sa hefur afneitad Trunne, og er Heidnum verre.

9. Loat ongva Eckiu utveliast, sem er fyrer innann sextiju oara, og vered hefur eins Manns Eigennkona.

10. Og hefur vitnan godra Verka, ef hun hefur Born uppfædt, ef hun hefur Giestrisenn vered, ef hun hefur Heilagra Fætur þveiged, ef hun hefur Hrelldum hialpad, ef hun hefur til allra godra Verka kostgiæfenn vered.

11. Enn ungar Eckiur varast þu, Pvi nær þær taka (b) Lausloatar ad gioraft j giegn Christo, þa vilia þær giptast.

(b) (Lausloatar) þær sem verda of-sælar af Godum Dogum, af þvi þær lifa j Sælld, af Almugans olmusu, ganga framm Idiulausar, og verda latar.

12. Hafande sinn Dom, þad þær hafe hina firstu Tru broted. Enn jafnframt þessu eru þær latar, og læra um Hws ad hlaupa.

13. Enn þær eru ecke alleinasta latar, helldur eirnenn fullar af Mælge og Parfleysu, og tala þad sem ecke hæfer.

14. Pvi vil eg, þad ungar Eckiur giptest, ale

ale Born, Heimelenu forstodu veite, og giefe Mootstandaranum eckert tilefne til aamælis.

15. Þviad þar eru þegar nockrar fraahorfnar, epter Andskotanum.

16. Enn ef einhvor truadur Madur, eda truud Kvinna hefur Eckiur, veite þau þeim somu frammfærslu, og laate Sofnudenn ecke þvingadann verda, so ad þær sem riettar Eckiur eru, mætti gnægd hafa.

III. 17. Þeir Olldungar sem vel forstanda, halldest tvofalldlegs heidurs verduger, sierdeiles sem erfida j Ordenu, og j Lærdomenum.

18. Þvi Ritningenn seiger, * Eige skalltu tilbinda Moolenn a eriande Naute, Og ** Verkamadurenn er sijns kaups verdugur.

* 5 B. Mos. 25, 4. ** 5 B Mos. 24, 14.

19. J mote Olldunge medtak eckert Klogumaal, aan Vitnisburdar tveggia edur þriggia.

20. Þa sem syndga, straffa fyrer ollum, uppa þad hiner hafe otta af.

21. Eg votta fyrer GUde og DROTTne JEsu Christo, og Utvoldum Einglum, þad þu vardveiter þetta, aan eigennlegrar (c) Giedþeckne, eckert gioraande fyrer Vinaattu.

(c) (Gedþeckne) Ad þu giefer ecke upp, eda hlijdrer ecke hia vegna nockrar Sakar, edur nockrar Personu a mote þessum Lærdome, eda stickunum, eins og þegar einn vill raada j sialfs sijns sok, edur epter sijnum eigenn Gied-þotta, edur vill hialpa nockre Personu a mote Riettindum.

IV. 22. Legg eige braadlega Hendur yfer nockurn. Og gior þig ecke hluttakara j annarlegum Syndum. Geym þig sialfann hreinferdugann

23. Hier epter dreck ecke Vatn, helldur jdka lijted Vijn, fyrer þijns Maga Saker, og þad þu optsinnis ert siukur.

24. Sumra Manna Synder eru (d) opennberar, so ad Menn kunna þær fyrerframm ad dæma, enn sumar verda hier eptera opinberar.

(d) (Openberar) Sumra Villumanna og illra Manna athafner eru so openberar, ad þeir med sijnum yferdrepskap kunna ongvann ad svijkia, Sumer kunna ad svikia um stundarsaker, enn loksins verdur þad þo openbert. Eins þar hvert a mot, kienna og lifa sumer Gudlega, so þad er openbert, og giora hvorinn Manne forbetran, Enn sumra Ord og giorder hallda Menn ei ad vera godar, þar til Tijmenn epter-a seirna openberar þad, ad þær hafa þo godar vered.

25. Lijka eirnenn sumra Godverk eru fyrerframm openber, og hinna annara blijfa ecke inne byrgd.

# VI. Capitule.

Paulus talar (I) um Skylldu Þionustu-Mannanna (II) um Heimsku Fals Kennenda. (III) Hvada Svijvirding ad agyrndenn se. (IV) Um Godugl ynde Truarennar. (V) Um Orlæte þeirra Rijku.

I. Þeir Þionustumenn sem under Okenu eru, skulu hallda sijna Drottna j ollum Heidre og Virdingu, uppa þad, ad GUds Nafn, og Lærdomurenn verde ei lastadur.

2. Enn þeir sem truada Drottna hafa, skulu ei forsma þa enu somu (med þeirre oasiynd) ad þeir eru Brædur, Helldur skulu þeir þvi þienugre vera, med þvi þeir eru Truader, og Elskannleger, og Velgiorningsins hluttakarar. Þetta kienn og aaminn.

II. 3. Ef ad nockur kienner Odruvijs, og blijfur ei vid heilsusamleg Ord vors DROttins JEsu Christi, og vid þann Lærdom um GUdræknena.

4. Sa er (a) uppbloasenn, og veit eckert, helldur er (b) siukur af Spurningum og Ordadeilum, af hvorium upp sprettur Ofund, Þrætur, Lastmæle, Misgrunur.

(a) (Uppbloasenn) Sa sem geingur upphrokadur af sijnum eigenn þotta og skeyter ongvum.

(b) (Siukur) Lygenn er jafnaann siuk, og þarf mikellrar hialpar og utleggingar vid.

5. Onytar þrætur, slijkum Monnum sem fordiorfud Hugskot hafa, þeir ed Sannleiknum svipter eru, hvorier þad meina, ad Gudræknenn mune (c) Fiaarafle vera. Forda þier fra þeim sem eru þess haattar.

(c) (Fiaarafle) So, dann Jdia og umsvif, med hvorre Menn kunna ad aabata sig af virding og Gotse og ecke þiena Gudi alleina.

III. 6. Enn þad er mikell Avinningur, hvor hann er GUdhræddur, og lætur sier aanægia.

7. Þviad vier hofum eckert jnnflutt-i þennan Heim, af þvi er þad openbert, ad vier munum eckert j burtu hafa. 8.

8. Enn nær vier hofum Fæde og Klædnad, so látum oss nægia.

9. Þvi þeir sem rijker vilia verda, falla j Freistne og Snorur, og j margar fávijslegar og skadsamlegar gyrnder, þær ed Mannenum dreckia j Fordiarfan og Fordæming.

10. Þvi Agyrnd er Root alls ills, þeirrar sumer gyrntust, og eru Trunne fra-fallner, og giora sier so sialfum margar (d) Pijnur.

(d) (Pijnur) So sem er umsorg, Kvijde, Oroosseme Dag og Nott fyrer Audæfum, So þeir verda alldrei þar af glader, So sem ad Christur samlijker eirnen Rijkedæme vid Þyrne, fyrer soddan Sottar og Umsorgunar Saker.

IV. 11. Enn þu GUds Madur, umfly þvilijkt, og eptersilg Riettlætenu, GUdhrædslu, Trunne, Kiærleikanum, Þolennmædenne, Hogværdenne.

12. Berstu godre barattu Truarennar, hondla Eylijft Lijf, þar þu eirnenn ert til kalladur, og játad hefur goda Jatning fyrer morgum Vottum.

13. Eg byd þier fyrer Gude, sem alla hlute lijfgar, og fyrer Christo JEsu, sa under Pontverskum Pilato vottad hefur goda Játning.

14. Þad þu vardveiter þetta Bodord oansleckunar, ostraffanlegur, allt til auglysingar vors DRottins JEsu Christi.

15. Hvoria Sa hinn Sæle og Alleinasta Volldugur mun auglysa a sijnum tijma, Kongur Konganna, og DRottinn Drottnanna.

16. Hann sem Eirnsamall Odaudleikann hefur, sa sem bygger j Liosenu, þar eingenn kann til ad komast, hvorn eingenn Madur hefur sied, nie sia kann, Honum sie Heidur og æfeunlegt Vellde, Amen.

V. 17. Rijkum þessarar Veralldar biod þu, þad þeir sieu ecke Mikellater, og legge ongva Von uppa þennann fallvalltann Rijkdom, helldur uppa Lifanda Gud, sem oss rijkuglega giefur, allshattad til notkunar.

18. Þad þeir giore gott, þad þeir audgest j godum Verkum, sieu Giafmilder, godviliader.

19. Safnande sier sialfum Siod, til gods Grundvallar, uppa hid tilkomanda, so ad þeir hondle Eylijft Lijf.

20. O Timothee, vardveit þad þier er til truad, Og varast O-andlegt Hiegoma hial, og Kappdeilur fals-frægrar listar.

21. Hvørre ad nockrer framm-hallda, og eru Trunne fravillter. Nadenn sie med þier, Amen.

Skrifadur fra Laodicea, sem ad er ein Hofudborg Landsins Phrygiæ Pacatianæ.

# Formaale yfer Annann S. Pals Pistil til Timotheum.

Þesse Pistell er eitt Burtfararminnes Brief, þarinne S. Pall aaminner Timotheum, þad hann samt aaframm hallde, so sem hann hefur uppbirlad, Evangelio framm ad filgia, hvors og eirnenn vel þorf gioreft, af þvi þeir eru marger sem affalla. Þar til upphefia sig eirnenn Fals Andar, og Lærendur j ollum attum. Fyrer þvi heyrer einum Biskupe til jduglega ad vaka, og erfida j Guds Evangelio.

Enn sierdeilis þa kunngiorer hann j hinum þridia og fiorda Cap: þa haskasamlegu tiid, j mote endingu Veralldarennar, J hvørre þad ed falska andlegt Lijferne, alla Verolldena mun villa, med utvortis segurd, hvar allshattud Illska og Odygd, sijna Breitne underbyrger, so sem sia ma (þvi verr) j þennann tiid, a vorum Andlegum, þennann S. Pals Spadom nærsta noglega uppfyllvann verda.

Annar

# Annar S. Pauls Pistill til Timotheum.

## I. Capitule.

Timotheus verdur aminntur (I) til Hugprydes i sijnu Embætte, og (II) ad hann skelfest ecke vid Pauli Fangelse; (III) Helldur treyste Gude.

I. Pall Postule JEsu Christi, fyrer Guds Vilia, epter Fyrerheitenu Lijfsins, j Christo JEsu.

2. Mijnum elskulega Syne Timotheo. Naad, Miskun, og Fridur, af Gude Fodur og Christo JEsu vorum DRottne.

3. Eg þacka Gude, þeim er eg þiona, j fra Langfedgum mijnum, j hreinne Samvitsku, þad eg oafloatanlega minnest þijn, j mijnum Bænum, Dag og Nott.

4. Og þad mig forleinger epter, þig ad sia (nær eg hugleide þijn Taarafoll) uppa þad, eg uppfyllest sognude.

5. Ihugande þa flecklausa Tru sem j þier er, og aadur fyrre byggde med þinne Ommu Loide, og med þinne Modur Evnike, eg em þess fullvijs þad eirnen med þier.

6. Hvar fyrer eg aminne þig, þad þu uppveker þa Guds Giof, sem j þier er, fyrer uppalegging minna Handa.

7. Þviad Gud hefur ecke giefed oss Hrædslunnar Anda, helldur Kraptarins og Kiærleiksins, og (a) Bindindes.

(a) (Bindindes) þad Ord Bindinde sem Paulus hefur opt um Hond, þijder so miked, sem ad sara skickanlega, Vel, Svinnlega og Skinsamlega med sitt Laatæde.

8. Fyrer þvi skammast þijn ecke, fyrer vors DRottins Vitnisburd, nie fyrer mig hans Bandingia, helldur medþolugur vert Evangelio, so sem ad eg, epter Guds Krapte.

9. Þeim oss hefur hialpliga giort, og kallad med Heilagre kallan, ecke epter vorum verkum, helldur epter sinne Fyrerhyggiu og Naad, hvor oss er giefenn j Christo JEsu, fyrer Veralldarennar tijma.

10. Enn nu openberud er, fyrer Auglysing vors Lausnara JEsu Christi, sa sem Daudann hefur svipt Magtenne, enn Lijfed og Odaudlegleikann j lios leidt, fyrer Evangelium.

II. 11. J hvort eg em settur Predikare, Postule og Lærare Heidenna þioda.

12. Hvors vegna, er eg lijd þetta, Enn eg skommunst mijn þess ecke, Þviad eg veit a hvorn eg true, og em fullvijs, þad hann kann þad ad vardveita, hvad mier er til truad, allt til þess Dags.

III. 13. Blijf þu vid Heilsusamlega Fyrermind þeirra Orda, sem þu hefur heyrt af mier, utaf Trunne og Kiærleiknum j Christo JEsu.

14. Þad hid goda sem þier er tiltruad, þad vardveit fyrer Heilagann Anda, sem j oss bygger.

15. Þu veitst, þad þeir hafa aller frasnuest mier, sem j Asia eru, medal hvorra er Phygellus og Hermogenes.

16. DRottinn giefe Miskun Hwse Onesiphori, þviad hann hefur optsinnis mig endurnært, Og af mijnum Fiotrum hefur hann sier ecke feilad.

17. Helldur þa hann var j Rom, leitade hann mijn sem jnnelegast, og fann mig.

18. HErrann giefe honum þad hann finne Miskun hia DRottne a þeim Deige. Og j hvorsu morgu hann hefur mier þionustu veitt til Epheso, þad veitstu allra best.

## II. Capitule.

Paulus talar (I) um Trumennsku Timothei i hans Kollun; (II) Huggun i Harmkvælum; (III) Guds-Otta i Kijferne og framferde.

I. So vertu nu stirkur, Son minn, fyrer Naadena j Christo JEsu.

2. Og þad þu hefur af mier heyrt, fyrer mar a Vitnisburde, bifala þad truum Monnum, þeim sem til hæfeleger eru eirnenn ad kienna odrum.

3. Enn þu vert herkenn sem godur Strijdsmadur JEsu Christi.

4. Eingenn Strijdsmanna vefur sig j neikvre Sijslan um næring þessa Lijfs, uppa þad hann þockneſt þeim hinum sama sem medtok hann til Strijdsins.

5. Og þott nockur berieſt, verdur hann þo ecke Koronadur, nema hann berieſt riettelega.

6. Enn ſa Akurkallenn sem Akurenn eriar, skal firſtur niota af Avertenum.

7. Merk hvad eg ſeige, Enn DRottinn mun giefa þier ſkilning j ollum hlutum.

II. 8. Haf j minne JEſum Chriſtum, hvor upp aptur er riſenn j fra Daudum, utaf Sæde Davids, epter mijnu Evangelio.

9. Yfer hvorin eg lijd, allt til Bandanna, ſo sem Illvirke, Enn Guds Ord er ecke bunded.

10. Fyrer þvi þole eg allt, ſaker Utvaldra, uppa þad þeir odleſt eirnenn Hialpræded j Chriſto, med eylijfre Dyrd.

11. Þetta er ſannarlega ſatt, Ef vier deyum med, þa munum vier med lifa.

12. Þolum vier, ſo munum vier med rijkia, Ef vier afneitum, þa mun hann eirnenn afneita oſs.

13. Truum vier ecke, þa blijfur hann truſaſtur, þviad hann kann ecke ſier ſialfum ad afneita.

14. Hier um aminn þu þa, og vitna fyrer DRottne, þad þeir hafe ecke Ordaþrætur, hvoriar ongvu nytar eru, nema til frahverfingar þeim sem til heyra.

III. 15. Koſtgiæf, ad audſyna þig Gude riettſkickadann og oſtraffanlegann Verkmann, ſa er riett j (a) ſundurkliufe Orded Sannleikſins.

(a) (Sundurkliufe) Ad hann ecke blande til ſamans Logmaalenu og Evangelio, helldur framm ſilge Logmaalenu mote þeim Illu, hardhnockudu og Uggalauſu, og giefe þa under Verallldlegann riett, edur hanuſære þa, enn hugge þa ſkielfdu, Iſtodulauſu og godu med Evangelio.

16. O-andlegt Hiegoma hial fly þu, þviad þad ſtirker miked til Ogudlegs athæfis.

17. Og þeirra Ord eta um ſig, lijka sem annar Krabbe, medal hvorra er Hymenæus og Philetus.

18. Hvorier Sannleikanum hafa fra villſt, Seigiande Uppriſuna ſkedna vera, og hafa ſo ſumum ſnued fra Trunne.

19. Enn ſtirk Grundvallan Guds ſtendur ſtodug, hafande þetta Innſigle, DRottinn þecker ſijna, og ad Hvor ſa vijke fra Ranglætenu, sem (b) nefner Nafn Chriſti.

(b) (Nefner) þad er, Predikar, Prijſar, aakallar.

20. J ſtoru Hwſe eru ecke alleinaſta Kierenn af Gulle og Silfre, helldur eirnenn af Trie og Leire, ſum til Heidurs, ſum til Vanæru.

21. Og ef ad nockur hreinſar ſig nu j fra þvilijkum Monnum, ſa mun vera heilagt Kier til Heidurs, sem Hwsherrann kann ad handtiera, og til alls gods verks reidubwed er.

22. Fly þu gyrnder Æſkunnar, enn epterfilg Riettlætenu, Trunne, Kiærleiknum, Fridnum, med þeim ollum sem aakalla DRottinn af hreinu Hiarta.

23. Enn faaviſlegar og onytſamlegar (c) Spurningar fly þu, þviad þu veiſt, ad þær ala ecke utan Þraattaner.

(c) (Spurningar) Sem hvorke duga til nockra Sidgiæda, nie til Lærdoms.

24. Enn Þionuſtumanne DRottins tilheyrer ecke ad vera þrætuſomum, helldur vingiarnlegum vid alla Menn, og kienningaſomum, ſa er vonda umlided gietur med Hogvære.

25. Og ſtraffa þa sem þralaater eru, ef ad Gud giæfe þeim eitthvad ſinn yferboot, Sannleikenn ad vidurkienna.

26. Og endurvitkader verda ur Dioful-ſins Snoru, af þeirre þeir faangader eru til hans Vilia.

## III. Capitule.

Paulus talar (I) um þad mikla Gudleyſe hinna Sijdurſtu Tijma. (II) Um Nytſemd og Brukun Heilagrar Ritningar.

I. Enn

I Enn þad skalltu vita, þad a sijdurstu Dögum munu koma hœaskasamlegar tijder.

2. Þvi þar munu verda þeir Menn, sem eru Siergoder, Agiarner, Mœalskaps mikler, Dramblœater, Hœadgiarner, Foreldrunum Ohlyduger, Ohackloater, Oandleger.

3. Ohijrleger, Osættanleger, Lastmœalsaner, Lostasamer, Otamder, Vanartarsamer.

4. Svikuler, Trœassuger, Hrokafuller, þeir ed meir elska Munadarlijsi enn Gud.

5. Hvorier ed hafa yferlit Gudlegs athæfes, enn þess krapte afneita þeir, fordast þu og so slijka.

6. Af þessum eru og þeir, sem lædast hier og hvar j Hwsum, og ad Herfange leida Kvennsvipterrar, hladnar af Syndum, og fara med margvijslegt underferle.

7. Lærande jafnlega, enn gieta þo aldrei til Sannleikssins vidurkienningar komest.

8. Eins oalijka sem þeir Jannes og Jambres motstoodu Moysi, so motstanda þesser eirnenn Sannleiknum, Eru Menn fordiarfads Hugskots, torvellder til Truarennar.

9. Enn þeir munu þad ei leinge fremia, þviad þeirra Fislska mun auglios verda hvorium Manne, lijka sem eirnenn þad hinna vard.

10. Enn þu hefur reynt minn Lærdom, minn vana, mijna Fyreætlan, mijna Tru, mitt Langlundargied, minn Kiærleika, mijna Þolennmæde.

11. Mijnar Ofsokner, mijnar Pijsler, þær ed mier til fiellu j Antiochia og Iconio, j Lystran, hvoria Ofsokn eg leid þar, og utaf øllum hefur DRottinn mig frelsad.

12. Og aller þeir sem Gudlega vilia lifa j Christo JEsu, þeir hliota Ofsokn ad lijda.

13. Enn hiner vondu Menn og Svikarar frammleidast æ til hins verra, þviad þeir villa, og verda villter.

II. 14. Enn þu vert stadfastur j þvi sem þu hefur lært, og þier er til truad, Af þvi þu veitst af hvorium þu hefur lært.

15. Og med þvi þier er kunnug Heilog Ritning, allt j fra Barndome, þa kann hun ad undervijsa þier til Sœaluhialpar, fyrer Truna a JEsum Christum.

16. Þviad øll Ritning af Gude jnngiefen, er nytsamleg til Lærdoms, til Umvandanar, til Betrunar, til Leidriettingar j Riettlætenu.

17. So ad Guds Madur sie algior, til alls gods Verks hæfelegur.

## IV. Capitule.

Paulus (I) aminner Timotheus ad vera kostgiæfenn i sijnu Embætte; (II) talar um sinn Dauda.

I. So vitna eg nu fyrer Gude, og DRottne JEsu Christo, sa sem ad koma skal, til ad dæma Lifendur og Dauda, med sinne auglysing, og med sijnu Rijke.

2. Predika þu Orded, hallt ad, hvørt þad skiedur j haglegann tijma, eda ohaglegann, straffa, ogna, oaminn, med allre Þolennmæde, og Kienningu.

3. Þvi þad mun vera einn tijme þad þeir munu ecke lijda heilsusamlegann Lærdom, helldur munu þeir epter sijnum eigennlegum fysnum samann hrwga sier sialfum Lærendur, epter þvi sem þeim Eyrunn klæa.

4. Og munu Eyrunum j fra Sannleiknum snua, og sier snua til Lyge.

5. Enn þu vert O-druckenn j øllu, lijd Oriettenn, gior verk Gudspiallegs Predikara, frammkvæm þitt Embætte verduglega.

II. 6. Þviad eg verd nu fornfærdur, og tijme minnar burtfarar tilstendur.

7. Eg hefe goda Baroattu barest, eg hefe Hlauped fullkomnad, eg hefe Trunne hallded.

8. Nu hiedan j fra er mier afsijdes lógd Korona Riettlætesins, sem ad DRottinn hinn Riettloate Domare, mun mier, a þeim Deige giefa, Enn þo ei alleinasta mier helldur jafnvel øllum þeim, sem hans Tilkomu elska.

9. Legg kapp a ad koma til mijn snarlega.

10. Þviad Demas hefur mig yfergiefed, elskande þennann Heim, og er burtfarenn til Thessalonicam, Crescens j Galatiam, Titus j Dalmatiam.

11. Lucas er eirnsaman hia mier, Marcum tak til þijn, og haf med þier, þviad hann er mier nytsamlegur til þionustu.

12. Tychicum hefe eg til Ephesum sendt.

13. Þann Mottul sem eg liet epter j Troade, hia Carpo, haf med, nær þu kiemur, og so Bækurnar, enn einkum þad Bokfell.

14. Alexander Smidur hefur audsyndt mier margt vondt, Drottinn umbune honum epter hans Verkum.

15. Fyrer hvorium þu eirnenn vakta þig, þviad hann hefur miog j motstaded vorum Ordum.

16. J mijnu firsta forsvare stod eingenn hia mier, helldur yfergaafu þeir mig aller, Enn ei sie þeim þad tilreiknad.

17. Enn DRottinn stod hia mier, og stirkte mig, uppa þad su Predikan fyrer mig stadfest yrde, so ad aller Heidingiar heyrdu þad, og eg em frelsadur af Gine Lionsins.

18. Enn DRottinn man frelsa mig af ollu illu, og hialpa til sijns Himneska Rijkis, hvorium ad sie Dyrd, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.

19. Heilsa þu Priscam og Aqvilam, og Heimkinne Onesiphori.

20. Erastus bleif til Corintho, Enn Trophimum liet eg epter j Mileto siukann.

21. Haf kapp a, þad þu komer til mijn fyrer Veturenn. Þier heilsa Evbulus og Pudens, og Linus, og Claudia, og aller Brædur.

22. DRottinn JEsus Christus sie med þijnum Anda. Naadenn sie med ydur, Amen.

Hinn annar Pistill til Timotheum, Skrifadur fra Rom, þa er S. Paall var j annad sinn hafdur fyrer Keisarann Nero.

# Formaale yfer S. Pauls Pistil til Titum.

Þetta er eirn stuttur Pistill, enn er þo eirn Kiarne Christelegs Lærdoms, hvar ed allshaattadar Greiner Meistaralega jnne luktar verda, og þar jnne folged er, hvad einum Riettchristnum þarflegt er ad vita, og sier epter ad hegda.

J firsta kienner hann, hvad Biskup, eda Soknarprestur, skal fyrer Mann vera, sem er, hann skal vera fromur, og lærdur vel Evangelium til ad predika, og motstødu ad veita følskum Lærdome Verkanna, og Mannanna Settningum, sem alla tijma strijda j glegn Trunne, og Samvitskurnar ville j fra Christelegu frelse, j fangelse Mannlegra Settninga, so sem skyllde þau giøra oss þacknæma fyrer Gude, hvar til þaug eru þo Oduganleg.

J odrum kienner hann allshaattudum Stiettum, Gomlum og Ungum, Kvinnum og Kørlum, Hwsbændum og Undermønnum, hvørnenn þeir skule sier hegda, so sem þeir, hvøria Christur hefur fyrer sinn Dauda, aflad sier sialfum til Eigenndoms.

J hinum þridia kienner hann j heidre ad hafa Verralldlegt Valld, og þeim Hlydne ad veita. Og ohrærer enn aptur j annad sinn, þa Naad, sem Christur hefur oss afrekad, uppa þad, ad eingenn giøre sier j Hugarlund, ad þad næge til Saaluhialpar, Valldstiettenne hlydne ad veita, Af þvi, ad allt vort Riettlæte er einskis verdt fyrer Gude. Og bifalar hønum sijdan, ad fordast hina Hardsvijrudu, og Villumenn.

# Sancte Pauls Pistill til Titum.

## I. Capitule.

Paulus talar um þad (I) Hverier helst ege ad setiast til ad vera Kennendur i þeirre andlegu Stiett: (II) Hvernenn andleger ege ad vera og hegda sier.

1. Paall, Þion GUds, enn Postule JEsu Christi, epter Trunne GUds Utvaldra, og Vidurkienning Sann:leiksins, til Gudræknennar.

2. J

2. J Vonenne eylijfs Lijfs, hvoria til sagt hefur sa eckert lygur, GUD, fyrer Veralldarennar Tijma.

3. Enn openberad hefur, j sinne Tijd, sitt Ord, fyrer þa Predikan sem mier er til truud, epter Bode GUDs vors Lausnara.

4. Tito, mijnum Riettelegum Syne, epter beggia ockar Tru. Naad, Miskun, Fridur, af GUDe Fodur, og DROTTNE JEsu Christo, vorum Frelsara.

5. Vegna þess liet eg þig epter j Crit, þad þu skyllder fullkomlega skicka þvi, sem eg gafst upp vid, og Olldungana nidur ad setia um Borgernar, so sem eg bifalade þier.

II. 6. So þad, ef nockur er Ostraffanleggur, eirnrar Kvinnu Eigennmadur, hvor ed trulynd Born hefur, ei Ordræmd, þad þaug sieu Ofeydslu Menn, edur Ohlydenn.

7. Þvi Biskupe biriar ad vera ostraffanlegum, so sem GUDs Tilsionarmanne, eige (a) Einsinnadur, eige Reidenn, eingenn Vijnsvelgur, eige Baraattusamur, eige neins skiemmelegs Avinnings gyrugur.

(a) (Einsinnadur) Sa sem ei vill laata sier koma saman vid adra, Vill undan ongvum laata, helldur vill ad adrer laate undan sier.

8. Helldur Giestrisenn, Godlyndur, Sidugur, Riettferdugur, Heilagur, Hreinlijfur.

9. Sa sem fasthelldenn er þess Ords sem visselegt er, og kienna kann, so ad hann sie maattugur til ad aaminna fyrer heilsusamlegann Lærdom, og ad straffa þa sem a mote mæla.

10. Þviad þar eru marger diarfer Hiegoma Þvættarar, og Taalsmenn, eirna-mest utaf Umskurnenne.

11. A hvoriuum Menn eiga Munnenn til ad byrgia, Hvorier ad heilum Hwsum umsnua, og kienna þad sem ecke hæfer, fyrer skiemmelegs Avinnings saker.

12. Nockur vt af þeim, sialfra þeirra Spaamadur, sagde, Critar Menn eru jafnlega Lygegiarner, Jll-kvikende, og Letesamer Magar.

13. Þesse Vitnisburdur er sannur. Hvors vegna þu straffa þa snarplega, uppa þad þeir sieu heilbrigder j Trunne.

14. Og giefe ongvar giætur ad þeim Gydinglegum Æfentijrum, og Manna Bodordum, sem burt snua þeim fra Sannleiknum.

15. Hreinum eru aller hluter hreiner, Enn Saurugum og Vantruudum er eckert hreint, Helldur eru saurug bæde þeirra Hugskot og Samvitska.

16. Þeir seigiast þeckia GUD, enn med Verkunum afneita þeir þvi, med þvi GUD hefur Andstyggd a þeim, og þeir eru til allra godra Verka Oskickanleger.

## II. Capitule.

GUDs-Otte skal Jdkast (I) af Monnum; (II) af Konum: (III) af Andlegum; (IV) af Þionustu-Folke; þvi (V) Su almennelega GUDs Naad typtar þessa þar til.

I. Enn þu tala, so sem þad hæfer, epter Heilsusamlegum Lærdome.

2. Olldrudum, þad þeir sieu sparlijfer, Heidarleger, (a) Hæfelaater, Heilbrigder j Trunne, j Kiærleikanum, j Þolennmædenne.

(a) (Hæfelaater) Allstadar þar sem hier stendur Tuckt edur tucktugur, þad skalltu merkia j þeirre Meiningu, fyrer mannlega, mannrænulega, og sacktmoduga, þvi eg þore ecke ad bruka þad Ord yferburdalega.

II. 3. Lijka eirnenn Rosknum Konum, ad þær hegde sier sem Heilogum hæfer, ecke aalastanarsamar, ecke Vijnsvelgiur, Godar Læremædur.

4. Ad þær kienne Ungum Konum Tucktugum ad vera, og þad, ad þær hafe kiæra sijna Bændur, og elske sijn Born.

5. Og sieu Sidsamar, Skijrlijfar, Umsionarsamar, Godlyndar, sijnum Bændum undergiefnar, Uppa þad GUDs Ord verde ecke lastad.

III. 6. Slijkt lijka aaminn Ungmenninn, þad þau sieu sidsom.

7. Enn j ollum hlutum, set þig sialfann fyrermindan godra Verka, med omeingudum Lærdome, med Æruseme.

8. Med heilsusamlegu og ostraffanlegu Orde, uppa þad, Motstandarenn ovirdest, og eckert hafe þad hann kunne vondt um oss ad seigia.

IV. 9. Þionustumonnunum, þad þeir sieu sijnum Drottnum undergiefner, og þione þad sem þeim er giedþeckt j ollum hlutum.

10. Vere eige svoruger, eige otruer, helldur syne þeim allann godann Truskap, so ad þeir pryde Lærdom Ulds vors Lausnara j ollum Greinum.

V. 11. Þvi heilsusamleg Noad Ulds er auglyst ollum Monnum.

12. Og typtar oss, þad vier skulum afneita Ogudlegu athæfe, og Veralldlegum Gyrndum, og lifa Sparlega, Riettferduglega og Gudlega j þessum Heime.

13. Og vakta uppa þa Sælu Von, og Dyrdarennar auglysing, hins Mikla Ulds, og vors Lausnara JEsu Christi.

14. Sem sialfann sig hefur giefed ut fyrer oss, Uppa þad hann endurleyste oss j fra ollu Oriettlæte, og hreinsade sier sialfum Folk til eignar, þad kostgiæfed være til godra Verka.

15. Þetta tala þu og aaminn, og straffa med allre (b) alvoru. Laat ongvann forsmaa þig.

(b) (Alvoru) þad er, ad þeir meige vita ad þad er Ulds Bod, enn ecke Gaman, og hann vill so hafa þad Alvarlega.

## III. Capitule.

Paulus talar (I) um Virding og Hlijdne vid Yfervallded: (II) Um Rettlætingena og Helgunena. (III) Ad menn skule hafa Vidbiod aa þeim sem hallda vid Falskenning, epter þad þeir hafe vered aaminnter Eitt sinn edur Tvisvar.

I. Aminn þa, þad þeir sien Hofdingiunum og Valldstiettunum undergiefner, og hlyduger, til allra godra Verka reidubuoner.

2. Ongvann lastande, ei Deilugiarner, vere (a) miuker, audsynande alla Hoogvære, vid hvorn Mann.

(a) (Miuker) þad eru þeir, sem snua og upptaka alla hlute j bestu Meiningu.

3. Þviad vier vorum eirnenn fordum-daga Faavijser, Ohlyduger, Afvegageingner, þionande Gyrndum og margvijslegu Vijlijse, og geingum j Illsku og Ofundskap, og hotudum hvor annann.

Pistillenn aa Sunnudagenn mille Nya-aars Dags og Þrettanda.

II. 4. Enn þa birtest Godgyrne og Mannliufleike Ulds vors Lausnara.

5. Ei fyrer Riettlætis Verkanna saker, sem vier hofdum giort, Helldur epter sinne Miskunseme giorde hann oss Saaluholpna, fyrer Endurgietningarlaugina, og Endurnyung Heilags Anda.

6. Hvorium hann hefur vthellt yfer oss rijkuglega, fyrer JEsum Christum vorn Lausnara.

7. So vier Riettlaater yrdum fyrer hans Noad, og Erfingiar Eylijfs Lijfs, epter Voneñe.

8. Þetta er vissilega satt.] Þetta vil eg þu kienner (b) stadfastlega, so ad þeir sem trua a Uld, meige finnast kostgiæfner til godra Verka. Þetta er gott og Monnum nytsamlegt.

(b) (stadfastlega) so ad adrer meige fornema og trua þvi, ad þad er vijst og Alvara, þad þu kienner, og meina ecke, ad þad sie onytur Hiegome, odugaulegt, edur efasamt, so sem nyar edur ovissar frietter, helldur so sem Christur kieunde kroptuglega, enn ecke so sem þeir Pharisei. Math. 7.

II. 9. Enn favijslegar Spurningar og Ættarþulur, Þraattaner og Laganna deilur, fordast þu, þviad þær eru oþarfar og faafeingar.

10. Villumann, epter eina og adra Aminning fly þu.

11. Og vit, þad sa er umsnuenn, sem þesskonar er, og Syndgar, so sem sa er sig sialfann fordæmer.

12. Nær eg sende Arteman, ellegar Tychicum til þijn, þa skunda þu sem skiotast ad koma til

til mijn til Nicopolim, Þvi þar hef eg aasett j Vetur ad vera.

13. Zenam Logvitring og Apollon sendtu af stad med athygle, so ad þa breste eckert.

14. Laat þa sem vorer eru, læra ad laata sig finna kostgiæfna j goodum Verkum, hvar sem þeirra (c) þorf gioerest, so ad þeir sieu ecke Avaxtarlauser.

(c) (þorf) ad Menn kunne ad hafa þa til Embættesins sem ecke sieu onytiungar sem til einskis duga, so sem Munkar og Messu Þienarar.

15. Þier heilsa aller þeir med mier eru. Heilsa þu ollum þeim oss elska j Trunne.

Naadenn sie med ydur ollum,

AMEN.

Skrifadur fra Nicopoli j Macedonia.

# Formaale yfer S. Paals Pistil til Philemonem.

Þesse Pistill audsyner oss eitt Meistaraligt liuflegt Epterdæme Christelegs Kiærleika. Þviad þad siaum vier, hvorsu S Paall j forsvar tekur hinn Faraada Onesimum, og forþyder vid hans Herra, allt hvad hann getur, og skickar sier ei odruvijs, enn so sem sie hann sialfur Onesimus, hvor ed brotlegur hafde orded. Þo gioerer hann þad ecke med Ofrijke, edur kugan, sem hann hefde vel Riett til haft, Helldur yfergiefur hann sinn Riett, hvar med hann naudþrokar, Þad Philemon hliote eirnenn ad laata sinn Riett nidur falla. Lijka aaminnt sem þad Christur hefur giort vid oss hia Gude Fodur, so gioerer eirnenn S. Paall vegna Onesimi, hia Philemone, þviad Christur hefur sinn Riett yfergiefed, og medur Liufleik, og medur Lijtellæte Fodurenn sigrad, so þad hann hefur sinn Riett og Reidi hloted nidur ad leggia, og oss til Naadar ad taka, fyrer Christi saker, sa oss so alvarlega forþijder, og so af ollu Hiarta ad sier tekur, Þviad vier erum aller hans Onesimi, ef vier trunn þad.

# Sancte Pauls Pistill til Philemonem.

Paulus bidur Philemon, ad taka aptur vid Onesimus, og gefa honum hans aavirding kvitta, þvi þesse var Philem: þienare og hafde stroked fraa honum.

Paall, Bandinge JEsu Christi, og Timotheus Broder. Philemon aastsamlegum, og vorum Medhialpara.

2. Og aastvodlegre Appia, og Archippo, vorum Samstrijdara, og Sofnudenum j þijnu Hwse.

3. Naad sie med ydur, og Fridur, af Gude vorum Fodur, og DROTTNE JEsu Christo.

4. Eg þacka mijnum Gude, og minnist þijn jafnlega j mijnum Bænum.

5. Af þvi eg heyre vot af þeim Kiærleika og Tru, sem þu hefur til DRottins JEsu, og vid alla Heilaga.

6. Pad þijn Tru, hvoria vier sameiginnlega hofum, verde Kroptug j þier, fyrer Vidurkienning alls hins Goda, sem þier hafed j Christo JEsu.

7. Enn vier hofum Fognud mikenn og Hugguu j þijnum Kiærleika, Þvi ad Hiortu þeirra Heilogu, eru endurnærd fyrer þig, Kiære Broder.

8. Fyrer þvi, þott eg hafe stora diorfung til þier ad bioda j Christo, hvad þier soomer.

9. Þa vil eg þo fyrer Kiærleiksins saker, einasta bidia þig, Eg sem þesshaattar er, sem er hinn Gamle Paall, og nu Bandinge JEsu Christi.

10. Þa beide eg fyrer Son minn (a) Onesimum, þann eg aled hefe j mijnum Bondum.

(a) Onesimus a Grisku, er so miked sem nytsamlegur a Islendsku, Þar uppa sneider S. Paall sijn Ord, þar hann seiger, hann er þier og mier nytsamlegur þad er eirn Onesimus.

11. Hvor þier var fordum oþarfur, enn nu þier

þier og mier nærsta þarfsamlegur, Hvörn eg sende þier nu aptur.

12. Ad þu villder hann medtaka, þad er mitt eiged Hiarta.

13. Þvi eg villde hafa halldeð honum hia mier, ad hann þionade mier j stadenn þijn, j bondum Evangelii.

14. Enn utan þijns Vilia, villda eg ecki ert giora, So ad þinn gode være ecke neyddur, helldur sialfradur.

15. Maa vera, þad hann sie þar fyrer um stundarsaker fra þier farenn, þad þu hann aptur feinger eylijflega.

16. Nu ei leingur sem þion, helldur framar enn þion, eirn kiærann Brodur, einkanlega minn, Enn hvorsu meir þa þinn? Bæde epter Holldenu, og j DROTTNE?

17. Ef þu helldur mig nu fyrer þinn Medbrodur, þa medtaktu hann sem sialfann mig.

18. Enn hafe hann giort þier nockurt Tion, eda sie þier nockud skylldugur, þad reikna mier til.

19. Eg Paall skrifade þetta med minne Hende, Eg vil bitala. Eg þeige um þad, þu siert mier sialfann þig skylldugur.

20. Minn Kiære Broder, unn mier þess, þad eg endurnære mig hia þier j DROTTne, Endurnær þu mitt Hiarta j DROTTNE.

21. Eg hefe þier ut af traustе þinnar Hlydne tilskrifad, þviad eg veit, þad þu muner framar giora, enn eg seige.

22. Enn jafnframt þessu, reidubu þu mier Herberge, þviad eg vona, þad eg verde ydur fyrer ydra Bon veittur.

23. Þier heilsar Epaphras minn Sambandinge, j Christo JEsu.

24. Marcus, Aristarchus, Demas, Lucas, mijner Hiaalpendur.

25. Naad vors DROTTins JEsu Christi sie med ydrum Anda AMEN.

Skrifadur fra Rom med Onesimo.

# Formaale yfer Firre S. Peturs Pistel.

Þennann Pistil hefur S. Petur skrifad til þeirra Heidenna Manna, sem snuest høfdu til riettrar Truar, og aaminner þa stoduga ad vera j Trunne, og ad vaxa fyrer allshaattada Lyding, og Godverk.

J firsta Cap. stirker hann þeirra Tru med GUdlegu Fyrerheite, og Krapte, þeirrar tilkomande Saaluhialpar, Og bevijsar þad, ad hun sie ei af oss forþienud, helldur aadur fyrerframm af Spaamønnunum bodud, Og fyrer þvi skylu þeir nu j nyu Dagfare, heilaglega lifa, og þvi hinu gamla forgleyma, so sem þeir ed nyfædder eru, fyrer eylijflegt Lifande GUds Ord.

J ødrum kienner hann ad þeckia Hofuded og Hyrningarsteinenn Christum, og þad þeir offre sialfa sig so sem riettleger Prestar GUde, lijka sem þad Christur hefur sig offrad. Og tiltekur sijdan allshaattadar Stietter ad leidrietta.

J firstu kienner hann almennelega, Veralldlegre Valldstiorn undergiefnum ad vera. Enn sijdan sierdeilis þad Þionustumennerner skule sijnum eigennlegum Lanardrottnum undergiefner vera, og þad orietta af þeim lijda, fyrer Christi saker, sa ed eirnenn fyrer oss hefur oriett lided.

J hinum þridia kienner hann, ad Konurnar sieu hlydugar eirnenn lijka þeim Mønnum sem Vantruader eru, og pryde sig heilaglegana. Item, þad Mennerner sieu þolennmoder, og lydingasamer vid sijnar Konur. Da sijdan þar epter til allra, þad þeir jnnbyrdis vere eins hvør vid annan, Lytelaater, Vingiarnleger og þolenmoder, Lijka so sem þad Christur hefur fyrer vorar Synder vered.

J hinum fiorda kienner hann Hollded ad þvinga, med Sparneytne, Vokum, Bindende, Bænahallde, Og med Pijningu Christi ad huggast og stirkiast. Og undervijsan a giorer, þvi Andlega Vallde, hvørnenn Menn skule alleinasta GUds Orde og Verkum framm hialpa, Og hvør eirn vere ødrum þionustusamur med sinne Gaafu, ei undranarsamer, helldur gladværer, þott ad vier hliotum ad lijda nockud fyrer Christi Saker.

J hinum fimmta aaminner hann Biskupana, og Prestana, hvørnenn þeir skulu lifa, og Folked fæda, Og tekur oss vara fyrer Dieflenum, þad hann j sifellu leggst epter oss a allavega.

Firre

# Firre S. Peturs Pistill.

## I. Capitule.

Petrus talar (I) um Þolenmæde Endurfæddra i Motlætingunum; og (II) þeirra Helgun epter JEsu.

I. Petur, Postule JEsu Christi. Þeim Utvølldum Utlendingum, allstadar, j Ponto, Galatia, Cappadocia, Asia, og Bithynia.

2. Epter Guds Fodurs Fyrerhyggiu, fyrer Helgun Andans, til hlydne, og til ædreifingarblodsins JEsu Christi. Gud giefe ydur mikla Naad og Frid.

3. Blessadur sie Gud, Fader DRottins vors JEsu Christi, sa oss hefur epter sinne mikelle Miskunsemd endurfædt, til lifande Vonar, fyrer Upprisu JEsu Christi fra Daudum.

4. (a) Til oforgeingelegrar, ofleckadrar, og Oumskiptelegrar arfleifdar, sem vardveitest ydur a Himnum.

(a) (Oforgeingelegrar) þad er su sem øngvann Otta edur Ugg hefur, ad hun skule fa ending. (Ofleckadrar) su sem ecke er blondud med Sorg edur Olystingum. (Oumskiptelegrar) su sem manne lei dist alldrei, helldur verdur eyliif, hrein, ny og fersk: Verolldarennar glede er þar hvert a mote.

5. Þier sem af Guds Magt, fyrer Truna vardveitter verded til Saaluhialpar, þeirrar sem til=reidd er, þad hun opennber verde a siidurstu tijmum.

6. J hvorre þier munud glediast, þier sem nu litla stund (þo ad þad ætte so ad vera) hryggver erud j margvijslegum Freistingum.

7. Uppa þad, ad ydar Tru rietteleg og miklu Dyrmætare fundenn yrde, enn þad hid forgeingelega Gull (sem j Ellde reynt verdur) til Lofs, Dyrdar, og Heidurs, nær ed nu JEsus Christus mun openberast.

8. Þann þier saud ecke, og þo elsked, Og nu a hann trued, þo ad þier siaed hann ei, So munud þier og eirnenn glediast med Oumrædanlegre og dyrdarsamlegre Glede.

9. Og endalok ydvarar Truar þar fra bera, sem er Saaluhialp Saalarennar.

10. Epter hvorre Saaluhialp hafa leitad og grenslast Spamennerner, sem uppa ydur, af þeirre tilkomande Naad, hafa fyrer spaad.

11. Og rannsokudu a hvorium edur hvilijkum tijma, Andenn Christi sa med þeim var, tilteiknade, og ædur fyrerframm hefur kunngiort, þær Pijsler sem ad j Christo eru, og epterkomande Dyrd, hvorium þad openberad er.

12. Þviad eige hafa þeir sialfum sier, helldur oss, þar jnne þionad, hvad ydur er nu kunngiort, fyrer þa sem ydur hafa Evangelium bodad, fyrer Heilagann Anda af Himnum sendann, a hvad eirnenn Einglarner fysast ad horfa.

II. 13. Þar fyrer gyrded ydar hugskots Lendar, Vered sparneytner, og setied algiørlega ydar Von uppa þa Naad, sem ydur er bodud fyrer openberan JEsu Christi.

14. So sem hlydug Børn, Og haged ydur ecke, lijka sem ædur fyrre, þa þier j Heimsku, epter Gyrndum lifdud.

15. Helldur epter þeim sem ydur hefur kallad, og Heilagur er, Og vered þier og eirnenn Heilager j ollu ydar Dagfare.

16. Þviad skrifad er, * Vera skulud þier Heilager, þviad eg em Heilagur.

* 3 B. Mos. 11. 44.

17. Og med þvi þier ækalled þann Fødurenn, sem æn Manngreinarœalits dæmer, hvørn epter sijnum verknade, þvi haged ydru Dagfare, so leinge sem þier hier ganged, med Ottablendne.

18. Og vited, ad þier erud ecke med forgeingelegu Gulle edur Silfre endurleyster, j fra ydru hiegoma at=hæfe, epter Fedranna uppsetninge.

19. Helldur med dyrmætu Blode Christi, so sem hins O=fleckada og saklausa Lambs.

20. Hvor fyrerhugadur er, fyrer Veralldarennar Grundvallan, enn openberadur a sijdurstum tijmum, ydar vegna.

21. Pier sem fyrer hann trued a Gud, hvor ed hann uppvakte af Daudum, og honum Dyrdena gaf, uppa pad, ad ydar Tru og Von være a Gud.

22. Og giored ydar Saaler hreinferdugar, j hlydne Sannleiksins fyrer Andann til Brodurlegs Kiærleika, sem er aan yferdrepskapar. Og ydur innbyrdes med gloande Kiærleika elsked af hreinu Hiarta.

23. So sem þeir, hvorier endurborner eru, ei af Forgeingelegu, helldur af O-forgeingelegu Sæde, sem er af Orde Guds Lifanda, þad æfenlega blijfur.

24. Pvi allt Holld er sem Gras, og øll Dyrd Mannsins so sem Blomstur Grassens. Grased er uppþornad, og Blomstred er af falled.

25. Enn Ord DRottins blijfur ad eylijfu, enn þetta er þad Ord, hvort a medal ydar kunngiort er.

## II. Capitule.

Petrus talar (I) um Helgun Endurfæddra fyrer Gude: (II) um hlydne vid Yfervallded; (III) um Audsveipne j Þionustu vid Herra og Husbændur.

I. Pvi legged nu af alla Illsku, og allt Svikræde, og Smiadur, og Øfund, og alla Baktnælge.

2. Og gyrnest þeirrar (a) skinsamlegrar hreinnar Miolkur, so sem nyfædd Børn, uppa þad, ad þier þroest, fyrer þa somu.

(a) (Skinsamlegrar) þad er su andlega Miolk, sem er Evangelium, hvort med Trunne medteked er, enn ei med holldlegu sinne, þvi þar med verdur þad sølff og otlear miolk.

3. Ef þier hafed annars smackad, ad DRottinn er liufur.

4. Til hvors þier erud komner, so sem til lifanda Steins, hvor af Mønnum er burtkastadur, enn hia Gude er hann utvalenn, og dyrmætur.

5. Og uppbygged ydur eirnenn sem lifande Steina, til Andlegs Hwss, og til heilags Prestsdæmis, til ad offra aandlegar Offraner, þær Gude þacknæmar eru, fyrer JEsum Christum.

6. Þar fyrer innehelldur so Ritningenn, * Sia þar, Eg legg j Zion, utvaldann Dyrmætann Hyrningarstein, Og hvor a hann truer, sa skal ecke til skammar verda.

* Esa. 28, 16.

7. Ydur, þier sem nu trued, er hann dyrmætur, enn hinum Vantruudum er hann * sa Steirn, sem Uppbyggiendur j burtkostudu, og ad Hyrningarsteine er vordenn.

* Ps. 118, 22.

8. Ad * aasteitingar steine, og Hneixlunar hellu, þeim sem reka sig a Orded, og þar ei a trua, hvar þeir eru uppa setter.

* Esa. 8, 6. cap. 28, 16.

9. Enn þier erud þad utvalda Slekte, Konunglegur Kiennemannsskapur, hin heilaga Piod, Folk Eignundomsins, so ad þier skulud kunngiora Dygder hans, sem ydur hefur kallad af Myrkrunum, til sijns dasamlega Lioss.

10. Pier sem Fordumdaga ecke Folk vorud, og erud nu Guds Folk, og hvorier fordum ecke j Naadenne vorud, enn nu j Naadenne erud.

Pistillenn III. Sunnud. epter Paaska.

11. Kiærer Brædur, Eg beide ydur lijka sem Framande og Utlendinga, ad þier hallded ydur fra Holldlegum Gyrndum, hvoriar j giegn Saalunne strijda.

12. Og hafed goda umgeingne medal Heidenna Pioda, so ad þeir sem um ydur tala, so sem af Illgiordamonnum, siae ydar Godverk, og dyrdke Gud, þegar þad kiemur nu fyrer (b) Dagenn.

(b) (Fyrer Dagenn) Þar verdur umsijder eingenn Dygd nie Odygd hulenn, 1 Tim. 5 Þar er eckert heimuglegt, sem ei skule verda openbert.

II. 13. Vered undergiefner allre mannlegre skickan, fyrer Herrans saker, sie þad Kongenum, so sem hinum ypparsta.

14. Edur Landstiornorunum, so sem af honum utsendum, til hefndar yfer Illvirkiana, og godum til Lofs.

15. Pviad

15 Þviad þad er Vilie Guds, ad þier med Velgiørninge nidur þagged Oviturleik heimsfra Manna.

16. So sem Frelsingiar, og ecke so sem hefdud þier Frelsed, Illskunne til yferhylmingar, helldur so sem Guds Þionustumenn.

17. Giored virding hvorium Manne. Brædurnar elsked. Ottest Gud, heidred Kongenn.

III. 18. Þier Þionustumenn, vered Herrunum undergiefner, med allre ottaseme, ei alleinasta Godum og Spakferdugum, helldur eirnenn þeim sierlunduðu.

19. Þvi þad er Náad, ef nockur fyrer Samvitskunnar saker til Guds, þoler hid illa, og lijdur hid orietta.

20. Þvi hvor hroosan er þad, ef þier fyrer Misgiorda saker Sløg lijded? Enn nær þier umlijded og þoled fyrer Velgiørda saker, þad er Náad hia Gude.]

Pistillenn II. Sunnud. epter Paaska.

21. Þvi þar til erud þier kallader, med þvi ad Christur hefur eirnenn lided fyrer oss, og oss eitt Epterdæmi epterlaated, ad þier skylldud eptersilgia hans Fotsporum.

22. Hvor øngva Synd giorde, eige helldur eru Svik fundenn j hans Munne.

23. Sa ecke formællte j giegn, þa hønum var formællt, eige ognade þa hann leid, Enn hann yfergaf þad hønum, sem riett dæmer.

24. Sa er sialfur hefur vorum Syndum offrad a sijnum Lijkama uppa Trienu, So ad vier j fraa Syndunum deydder, lifdum Riettlætenu, Fyrer hvors Beniar þier erud heilbrigder vordner.

25. Þviad þier vorud so sem * villuraafande Sauder, Enn nu erud þier umvender, til Hirders og Biskups ydvarra Saalna.]

* Esa. 53, 9.

## III. Capitule.

Petrus talar (I) um Athæfe og Sidferde Hiönanna; og (II) allra annra Christenna Manna i Heimenum.]

I. Lijka eirnenn skulu Kvinnurnar vera undergiefnar sijnum Monnum, So ad eirnenn þeir sem ei trua a Orded, verde fyrer Kvinnurnar umgeingne, fyrer utan Ord yferunner.

2. Nær ed þeir sia ydart hreinlijft Sidferde j Ottaseme.

3. Hvor skartseme eige skal vera hin ytre, medur Harfliettan, og Gulle umheingianda, edur Klædaburde.

4. Helldur sa hulde Madur Hiartans (a) ospialladur, med hogværum og kirrlaatum Anda, þad er Dyrmætt fyrer Gude.

(a) (Ospialladur) Ad þær sieu hreinar og riettelega a sig komnar j Trunne.

5. Þviad so hafa eirnenn fordum Heilagar Kvinnur prijdt sig, þær sem a Gud vonudu, og undergiefnar voru sijnum eigenn Monnum.

6. Lijka sem Sara var Abraham hlydug, og kallade hann * Herra, hvorrar Dætur þier erud ordnar, ef þier vel giored, og erud eige so (b) stadlitlar. * 1 B. Mos. 18, 12.

(b) (Stadlitlar) Kvinnurnare eru af Natturunn hræddar og istodulitlar, lata sig snoggt skielfa, Enn þær skulu vera stadfastar og hughraustar og ecke so epter Kvenna sid skielfast, þegar nockur Motgangur kiemur ad Hondum.

7. Lijka eirnenn, þier Mennerner, bued vid þær med skinseme, og giefed þvi Kvennlega so sem þvi breiskvasta (c) Verkfære sijna Heidran, so sem eirnenn Samerfingium Naadarennar Lijfsins, So ad ydart Bænahalld verde ei hindrad.

(c) (Verkfære) Aller Christner Menn eru Guds Verkfære, enn Kvinnurnar eru Veikare enn Madurenn, bæde uppa Lijkamann, og lijka j Sinne og Giede, þar fyrer eiga Menn ad vægia þeim med Skinseme, so ad þar verde ecke osamlynde af, hvar af Bænenn ølldungis forhindrast.

Pistillenn V. Sunnud. epter Trinitatis.

II. 8. Enn ad oalyktan þa vered aller einhugader, Samþoluger, Broþurleger, Miskunsamer, Liufer.

9. Endurgiallded ecke jllt med jllu, edur Skammarord fyrer Skammaryrde, helldur þar j giegn blessed. Og vited ad þier erud þar til kallader, þad þier Blessanena erfed.

10. Þvi hvor hann vill lifa, og sia goda Daga, sa stille sijna Tungu, ad hun tale eckert vondt, og sijnar Varer, ad þær ecke svijke.

11. Hann snue sier fra jllu, og giore hid goda, leite Fridarens, og honum epterfilge.

12. Þvi Augu DRottins lijta til þeirra Riettlæatu, og hans Eyru til þeirra Bæna. Enn Auglit DRottins lijtur til þeirra sem jlla giora.

13. Og hvor er sa ydur giete grandad, ef þier epterfilged hinu goda?

14. Og þott ad þier lijded eirnenn fyrer Riettlætesins saker, þa erud þier þo sæler, hrædest ei þeirra Ognan og skielfest ecke.

15. Enn helged Gud DRottinn j ydar Hiortum.] Vered og jafnlega reidubuner, ansvar ad giefa hvorium Manne þeim sem skials kresia af þeirre Von sem j ydur er.

16. Og þad med Hogvære og Otta, hafande goda Samvitsku, so ad þeir, hvorier af ydur a bak tala, sem af Illgiordamonnum, til skammar verde, þad þeir hafa lastad ydra goda umgeingne j Christo.

17. Þvi þad er betra, ef þad er Guds vilie, ad þier fyrer Velgiordasaker lijded, enn fyrer vondra verka saker.

18. Af þvi, ad Christur hefur eitt sinn fyrer vorar Synder lided, hinn Riettlæate fyrer Rangleata, Uppa þad hann fornfære oss Gude, Og er deyddur epter Holldenu, enn lifande giordur epter Andanum.

19. J þeim sama er hann eirnenn j burt geingenn, og hefur þeim Andonum predikad, j Fiotrunum.

20. Hvorier fordum Daga ei trudu, þann tijd Gud eitt sinn epterbeid, og Þolennmæde hafde a Noa Tijd, nær Orkenn var tilbvoenn, j hvorre faaer, þad er * atta Saaler, hialpudust fyrer Vatned. * 1 B. Mos. 8, 16.

21. Hvort ad nu eirnenn oss hialplega giorer j Skijrnenne, hvor fyrer hitt er tilmindud, Ecke burtteket Holldsins saurleika, helldur (d) Saattmaale godrar Samvitsku vid Gud, fyrer upprisu JEsu Christi.

(d) (Saattmaale) Stipulatio, þad Gud jnnbindur sig vid oss med Naadinne, og vier medtokum þad.

22. Sa sem ad er j Himenenn uppfarenn, til Guds hægre Handar, Og Einglarner og hiner Volldugu, og Kraptarner eru honum undergiefner.

# IV. Capitule.

Petrus bijdur Endurfæddum (I) ad deyda Hollded; (II) Ad Idka Mannkoste; (III) Ad lijda Offokner Þolennmodlega.

I. 1. Med þvi ad Christus hefur nu fyrer oss lided j Holldenu, þa brynied ydur eirnenn med þvi sama Hugskote. Þvi hvor a Holldenu lijdur, sa lætur af ad syndga

2. So ad hann þadan j fra, hvad epterfarande æfe er j Holldenu, life eige Gyrndum Mannsins, helldur vilia Guds.

3. Þviad þad næger, ad vier hofum þann umlidna tijma Lijfdaganna lifad, epter Heidinglegum Vilia, þa vier geingum j Lausung, Lostasemdum, Dryckiuskap, Ofaate, og Ofdryckium, og j herfelegum Skurgodadyrdkunum.

4. Hvad ed þa undrar, þad þier eige med þeim hlauped, j þvi sama oheilsusama Ohoofe, og Gudlastan.

5. Hvorier Reikningskap skulu giora honum, sem reidubvoenn er ad dæma Lifendur og Dauda.

6. Þviad fyrer þad er eirnenn hinum Daudum Evangelium kunngiort, uppa þad þeir dæmder verde, epter Monnonum a Holldenu, enn j Andanum life GUde.

7. Og ender allra hluta tekur ad nalgast.

Pistillenn VI. Sunnud epter Paaska.

II. Fyrer þvi vered Hoffamer og sparneytner til Bænanna.

8. Enn umframm alla hlute, hafed jnnbyrdis gloanda Kiærleik, Þviad Kiærleikurenn (a) hylur eirnenn fiolda Syndanna.

(a) (Hylur) Hvor sem elskar sinn Naunga, hann lætur sig ecke til Reide reittann verda, Helldur umlijdur

dur hann alla hlute, hvorsu miked sem a mote honum verdur broted, þad merker hier ad hylia margfiolda Syndanna. 1 Cor. 13. Kiærleikurenn lijdur allt, og 2c.

9. Vered Giestrisner innbyrdis, an Moglunar.

10. Og þione hvor odrum, hvor eirn med þeirre giøf sem hann hefur odlast, so sem goder Forstiornarmenn margvijslegrar GUds Naadar.

11. Ef nockur talar, tale hann so sem GUds Ord, Ef nockur hefur Embætte, hann þione epter þeirre orku sem GUd giefur, So ad j øllum hlutum verde GUd dyrdkadur, fyrer JEsum Christum, Hvorium sie Dyrd og Vellde, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.]

III. 12. Mijner Kiærustu, Ei skulud þier lata þann (b) Brunann undra ydur (hvor ydur hender, so ad þier reynder verded) so sem ad hendte ydur nockud fraheyrt.

(b) Bruna) Þad er Offsokn su oss reyner sem Elldurenn reyner Gulled.

13. Helldur gledied ydur, þad þier med Christo lijded, Uppa þad þier eirnenn a Opemberingar tijma hans Dyrdar, mættud glediast og fagna.

14. Sæler erud þier, þa þier vanvirdter verded fyrer Nafned Christi, þviad Andenn, sa sem er Dyrdarennar, og Guds Ande, hvijlest yfer ydur, Hia hinum verdur hann lastadur, enn j hia ydur vegsamadur.

15. Enn eingenn ydar lijde so sem Manndrapare, Þiofur eda Illvirkie, eda ſa sem j (c) annarlegt Embætte fellur.

(c) (Annarlegt Embætte) Þennan Lost og Odygd fremur Diøfulenn, allra hellst, j þeim Falschristum, þeir vilia ætijd hafa nockud ad giøra og stiorna, j þvi hinu sama sem þeim verdur ecke befalad, So sem nu giøra Biskupar og þeir Andlegu, þeir stiorna Heimenum. Item, þeir Oeyrdarsomu Predikarar, og þeir sem sletta sier jnn j annarlegt Embætte, hvad ad eru hæskasamleger og skadleger Menn.

16. Enn ef hann lijdur so sem annar Christenn, þa skammest hann sijn ei, enn dyrdke GUd j slijku Tilfelle.

17. Af þvi ad Tijme er, þad Domurenn tiltake a GUds Hwse. Enn byriest hann first a oss, Hvor mun þa ender verda þeirra sem GUds Evangelio ecke trwa?

18. Og ef hinn Riettlaate verdur varla forvaradur, Hvar mun þa hinn Ogudlege og Synduge birtast?

19. Þar fyrer skulu þeir sem lijda, epter GUds Vilia, honum sijnar Saaler a hendur fela, so sem trulyndum Skapara, j godum Verkum.

## V. Capitule.

Petrus talar um Skylldu (I) Olldunganna; (II) Hinna Yngre; (III) og so allra manna.

I. Olldungana, sem a medal ydar eru, aaminne eg, Sam-Olldungur, og Vottur Pijslanna, sem eru j Christo, og hluttakare Dyrdarennar sem openber skal verda.

2. Aled þa Hiørd GUds, sem ydur er a hendur falenn, og giæted vel ad, ei nauduger, helldur sialfviliuger, ei fyrer slæmlegs Avinnings saker, helldur af godum Vilia.

3. Eige so sem þeir yfer (a) Monnonum drottna, helldur vered Fyrermind Hiardarennar.

(a) (Monnum) Cleros kallast hlotnan edur Deilld, Þad einum sierhvorium fyrer hlotnan tildeilest, so kallar hier Petrus Kyrkiusoknarmenn edur Þijnganautæ, Clerum, þad þeirra Soknar preste a hendur faled er. Psalm. 55, 23.

4. So munud þier (nær hinn Ædste Hyrder mun birtast) Ovisnanlega Koronu Dyrdarennar medtaka.

II. 5. Lijka eirnenn þier, hvorier unger erud, vered Olldungunum undergiefner.

III. Allersaman vered hvor odrum undergiefner, og hallded ydur (b) fast vid Lijtellæted, þviad GUd motstendur Drambloatum, enn Lijtelloatum giefur hann Naad.

(b) (Fast) So ad audmyktenn meige hnytast hvor vid adra, og til samans flicttast, Svo ad Diøfullenn kunne hvørke med Slægdum nie Magt ad adskilia hana.

Pistillenn III Sunnud. epter Trinitatis.

6. Fyrer þvi lijtellæted ydur nu under vollduga GUds Hond, so ad hann upphefie ydur a sijnum Tijma.

7. Allre ydar Ahyggiu varped uppa hann, Þviad hann ber umhyggiu fyrer ydur.

8. Vered sparneytner og vaked, þviad ydar Motstandare Dioefullenn geingur umkring, sem greniande Leon, epterleitande þeim hann svelgie.

9. Motstanded hønum ørugglega j Trunne, og vited, ad ydar Brædur, þeir sem j Heimenum eru, hafa þa sømu Anaud lided.

10. Enn sa GUD allrar Naadar, sem oss hefur kallad til sinnar eylijfrar Dyrdar, j Christo JEsu hann sama mun ydur, þier sem um litla stund lijded, fullgiora, tilreida, stirkia, efla, og stadfesta.

11. Þeim hinum sama sie Dyrd og Vellde, fra Eylijfd til Eylijfdar Amen.]

12. Fyrer Sylvanum ydar truann Brodur (ad þvi eg meina) hefe eg fꝏtt eina skrifad ydur til, til Aminningar, og til Vottunar, ad þetta er hin sanna GUds Naad, þar þier jnne standed.

13. Ydur heilsa þeir, sem samt ydur utvalder eru j Babylonia, og minn Sonur Marcus.

14. Heilsed ydur jnnbyrdis med Kiærleiksins Kosse, Fridur sie med øllum þeim sem ad eru j Christo JEsu,
Amen.

# Formaale yfer hinn Annann S. Peturs Pistel.

Þesse Pistill er mote þeim skrifadur, sem þad meina, Ad Christeleg Trua meige æn godra Verka vera. Fyrer þvi æminner hann þa, þad þeir reyne sig fyrer Godverk, og verde so visser uppa Truna, Lijka so sem þad ut af Avextenum þeckiest Tried. Og uppbyriar so þar epter a Evangelium ad prijsa, j giegn Manna Lærdomum, Og þad vier skulum alleinasta þad heyra, enn øngva Manna Lærdoma, med þvi hann seiger, ad þar sie eige nockurn Tijma enn nu neirn Spaadomur, skiedur af Mannsins Vilia.

Fyrer þvi varar hann vid j ødrum Cap. ad vier tokum oss vara fyrer þeim Folskum epterkomande Lærendum er med Verkenn umgangast, og þar fyrer Christo afneita, og straffar þa hina sømu hardlega, med þremur Ognarlegum Epterdæmum, og þa so riettelega afmaalar og til mindar, medur þeirra Agyrne, Drambseme, Trausse, Frillulifnade, Hræsne, so ad þreifa ma a, ad hann meinar hina andlegu Stiett sem nu er, sem alla Verølld hefur med sinne Agyrnd uppsvelgt, og eitt sialfradt, holldlegt, Veralldlegt Lijferne Trassnglega fremur.

J hinum þridia, æviisar hann, þad hinn Efste Dagur mune bradlega koma, og þo ad þad þyke fyrer Mønnum Þusund aar vera, Þa er þad þo fyrer GUde so sem einn Dagur. Og skrifar, hvørnenn þad mune til ganga a sijdarsta Deige, þad ad aller hluter skule med Ellde verda fortærder, hann spaaer og einnenn fyrer, þad Folked mune a þeirre sømu Tijd nærsta Haadgiarnt vera, og utaf Trunne eckert hallda, lijka sem hiner Epicurei.

Enn alls, þa utvijsar hinn firste Cap. Hvørnenn Christnenn skule standa a Tijmum hins skiæra Evangelii. Hinn annar Cap. utvijsar, hvørnenn hun a til reika ad vera a Tijmum Pavanna, og Mannanna Uppsetninga. Hinn þridie Cap. æviisar hvørnenn hiedan j fra mune Folked, bæde Evangelium forsmaa og alla Lærdoma, og ecke neinn trua munu, hvad nu hefur fullannframmgang, þangad til ad Christur kiemur.

# Hinn Annar S. Peturs Pistill

## I. Capitule.

Petrus talar (I) um Krapt Helgunarennar (II) um þaa Heilogu Skrift.

I. Simon Petrus, Þion og Postule JEsu Christi. Þeim sem med oss þa sømu Dyrmætu Tru hafa hloted, j Riettlætenu, þvi sem ad vor GUd giefur, og Lausnarenn JEsus Christus.

2. GUd giefe ydur mikla Naad og Frid, fyrer Kynning GUds, og JEsu Christi vors DROTTins.

3. Af þvi oss eru allshꝏttader hans Gudleger Kraptar veitter (hvørier til Lijfsins og Gudlegs Athæfes hendta) fyrer Vidurkienning þess sem oss hefur kallad, fyrer sijna Dyrd og Dygd.

4. Fyrer hvøria þau Dyrmætu og hin allra stærstu Fyrerheit eru oss giefenn, sem er, ad þier fyrer þad sama hluttakarar vꝛdud Gudlegrar Naatturu, ef þier flyed forgeingelegar Gyrnder Veralldarennar.

5. Þvi hafed þar alla kappsmune a Og audsyned j ydvarre Tru Dygdena, og j Dygdenne Vitsmunena.

6. Og

6. Og j Vitsmununum Hooffsemena, og j Hooffsemenne Polenmædena, og j Polennmædenne Gudrækneua.

7. Og j Gudrækuenne Brodurleganu Kiærleika, og j Brodurlegum Kiærleika almennelegann Kiærleika.

8. Pvi ef þetta er gnoglegt hia ydur, þa mun þad ecke laata ydur vera Lata nie O-avaxtarsama, j Vidurkienningu vors DROTtins JEsu Christi.

9. Enn hann sem þetta hefur ei, sa er blindur, og falmar med Hendenne, og forgleymer hreinsun sinna fyrre Synda.

10. Fyrer þvi, Kiærer Brædur, Legged þess meire Kappsmune a ydra kallan og Utvalning ad stadfesta. Pvi ef þier giored þad, munud þier eige hrasa.

11. Og mun ydur so rijkuglega giefenn jnngangur verda j æfenlegt Rijke vors DROTtins, og Lausnara JEsu Christi.

Pistillenn XXVII. Sunnud. epter Trinit.

12. Fyrer þvi vil eg eige laata hia lijda ad Aminna ydur jafnlega um þetta, þo ad þier vited þad, og erud stirkver j nalægum Sannleika.

13. Pviad eg helld þad tilheyrelegt, so leinge sem ad eg em j þessu Hreise, ad uppvekia, og a ad minna ydur.

14. Pvi eg veit, þad eg mun snarlega mitt Hreise af leggia, so sem vor DROTTinn JEsus Christus hefur mier openberad.

15. Enn eg vil kapps um kosta, þad þier jafnan epter mijna utfor, hefdud slijkt til minnis ad hallda.

II. 16. Pviad eige hofum vier þeim dæma-frodum frasognum epterfilgt, þa vier giordum ydur kunnann Krapt og hingadkomu vors DROTtins JEsu Christi, Helldur hofum vier sialfer sied hans Dyrd.

17. Pann Tijd, hann af GUde Fodur medtok Dyrd og Heidran, fyrer Raustena sem til hans skiede j mikellre Dyrd, a þann hatt, Pesse er minn Elskulegur Sonur, a hvoriuni eg hefe þocknan.

18. Og þessa Raust heyrdum vier af Himnum koma, þa er vier vorum med honum uppa Fiallenu helga.]

19. Vier hofum eitt ofllugt Spaadoms Ord, og þier giored vel, þier hafed þar gaat a, so sem ad þvi Liose er skijn j Mirkvum stad, þar til Dagurenn birter, og Morgunstiarnann upprennur j ydrum Hiortum.

20. Og þad skulud þier first vita, ad einginn Spaadomur j Ritningunne skier af eigenlegre Utleggingu.

21. Pvi þar hefur eige enn nu neinn Spaadomur, epter Mannsins Vilia frammfluttur vered, Helldur af Heilogum Anda til knuder hafa þeir GUds Heilager Menn talad.

## II. Capitule.

Petrus talar (I) um Lærdom Falskennenda; (II) um þeirra Straff; og (III) hverstu þeir leide i villu.

I. Enn þar voru og so Fals Spaamenn medal Folksins. Lijka sem þar munu og eirnenn a medal ydar verda Lygesamer Lærendur, sem jafnframt jnnleida munu haaskasamlegar tvijdrægner, og afneita DROTTne, þeim sem þa hefur endurkeypt, Og munu yfer sialfa sig leida snoggva Fyrerdæming.

2. Og marger munu epterfilgia þeirra forðorfun, fyrer hvoria Sannleiks Vegurenn mun lastadur verda.

3. Og fyrer Agyrne og uppdicktud Ord, munu þeir hondla vid ydur,

II. Hvorra Doms afelle mun ei leinge dvelia, og þeirra Fyrerdæming sefur eige.

4. Pvi ef GUd hefur ei þirmt Einglunum, þeim sem syndgudust, helldur hefur steypt þeim med Hleckium Mirkranna til Helvitis, og ofurgiefed þa, þad þeir til Domsins vardveittust.

5. Og hefur ei þirmt hinne fyrre Verolld, helldur vardveitte Noa, þann Riettlætis Predikara * sialfann attanda, og jnnleidde so Floded yfer Verolld hinna Ogudlegu.

* 1 B. Mos. 7, 1.

6. Og hefur * Borgernar Sodoma og Gomorra

Gomorra ad Øsku giort, umturnad, og fordæmt, setiande þar med þeim Ogudlegu Epterdæme, sem seirna meir koma mundu.

* 1 B. Mos. 19 24, 25.

7. Og frelsade hinn Riettlaata Loth, hvorium sa skammarlegur Lydur alla Meinsemd giorde, med þeirra Saurlegu Lijferne.

8. Þviad, med þvi hann var Riettlaatur, og byggde a medal þeirra, so ad hann hlaut ad sia þad og heyra, Pa kvoldu þeir Dag fra Deige, þa riettlaatu Saalu, med þeirra ranglaatum Verkum.

9. DROTTinn kann þa GUd hræddu ur Freistnenne ad frelsa, enn hina Ranglaatu ad vardveita til Kvalanna a Dag Domsins.

10. Enn eirna mest þa sem Holldenu eptersilgia, j saurugum Gyrndum, og Herradomenn forsma, eru Dristuger, Siergoder, ei skielfandest Tignarvellded ad lasta.

11. Þar þo Einglarner, þeir ed meira Maatt og Krapt hafa, ei bored gieta þann Løstunardom j giegn sier af DROTTne.

12. Enn þeir eru so sem skinlaus Kvikende, hvør af Naatturunne eru þar til fædd, þad þau veidd og slaatrud verde. Þeir lasta þad, hvad þeir eckert afvita, og munu fyrerfarast j sijnu fordiarfanlegu athæfe.

13. Og Ranglætis verdlaun þar af hliota. Þeir hallda fyrer Sælgiæte daglegar Kræsingar, þeir eru Skømm og Løster, bramla af ydar (a) Ølmusu, og brasta vot af ydru.

(a) (Ølmusu) þad er, af Kyrkiunnar rentu og inntekt, hvar þeir giøra eckert fyrer, og spotta ydur þar a ofan, þviad Entryphontes merkia þa sem hafa adra ad Leik og Gamne, sem spotta Menn sem adra Gicke, þeim til skada, og vilia þar til hafa þessa sijna Synd ostraffad.

14. Hafa Augun full Hordoma, og laata ecke varna sier ad syndga, og ginna ad sier lauslyndar Saaler, Hafa j giegnum smoged Hiarta af Agyrne, Bølvad Folk.

15. Yfergiefande riettann Veg, og fara viller, og eptersilgia Veige Balaams Sonar Bosor, hvør ad elskade verdlaun Ranglætesins.

16. Enn hann fieck Straffan sinnar Yfertrodningar, sem var, Ad þad maallausa klifbærelega Dyr talade Mannlegre Raust, og aptrade so Spaamannsins Faavitsku.

III. 17. Þeir eru Brunnar aan Vatns, og Sky af Hvirfilvinde drifenn, hvorium ad vardveitest Mirkranna Dymma ad eylijfu.

18. Þvi þeir tala drambsøm Ord Hiegylliunnar, og teygia fyrer (b) Munadseme til holldlegra Gyrnda, þa hina sem riettelega umflyder voru, og nu vegarviller ganga.

(b) (Munadseme) So sem Pavenn med sorbode Hiónabandsins, hefur uppfyllt Heimenn, med allrahanda Oþocknanlegu Lijferne, og hrædelegum Holldlegum Syndum.

19. Og heita þeim Frelse, sem þeir eru þo sialfer Fortøpunarennar Þionar. Þvi af hvorium sem nockur er yferunnenn, þess Þion er hann ordenn.

20. Þvi first þeir eru umflyder Saurende Veralldarennar, fyrer Vidurkienning Drottins, og Lausnarans JEsu Christi, enn verda sijdan aptur j hid sama vafder og yferunner, þa er hia þeim þad sijdara Orded verra hinu firra.

21. Þvi betra være þeim þad, ad þeir hefdu ecke þeckt Riettlætesins Gøtu, enn þad þeir þecke hana, og umvendu sier j fra þvi heilaga Bodorde, sem þeim er giefed.

22. Sannlega hender þa þad, hvad j sønnum Ordskvide plagar ad seigiast, Ad Hundurenn etur upp aptur sijna Spyu. Og þveiged Svin vellter sier aptur j Saurnum.

## III. Capitule.

Petrus talar (I) um Sijdstu æfe Heimsins; (II) um Komu Christi til Domsins; (III) Hversu ad hiner Trundu skule bua sig mote Komu Christi.

1. Þesse er sa annar Pistill sem eg skrifa ydur, hiner Kiærustu, j hvorium eg uppvek og aaminne ydvart skiært Hugskot.

2. So ad þier hugleided þau Ord, sem ydur adur fyrerframm eru sogd af Heilogum Spaamønnum, og vorn Bodskap, vier sem erum Postular DRottins og Lausnarans.

Pistillenn

Pistillenn XXVI. Sunnud. epter Triuit.

3. Og j firstu þad vited, þad a sidurstu Dögum munu koma (a) Spottarar, hvörier epter þeirra eigenulegum gyrudum munu ganga.

(a) (Spottarar) eru Gudleysingiar, Epicurei, Sadducæi, sem hvörke trua eitt nie annad og lifa so æ̃ framm, epter sijnum eiginnlegum vilia, edur, so sem Petrus seiger, epter sijnum eigenn gyrudum, giora hvad þeir vilia, og þad sem þeir hafa mestu Lysting til, so sem vier siaum fyrer Augunum.

4. Og seigia, Hvar er Fyrerheit hans tilkomu? Þvi þadan j fra Fedurner sofnudu, blifa aller hluter, so sem af Upphafe Skiepnanna vered hefur.

5. Þvi af þvervod vilia þeir eige vita þad, ad himenenn eirnenn var fordum tijd, Þar med þad Jördenn af Vatnenu, og j Vatnenu stood, fyrer Guds Ord.

6. Þo vard sem ꝺadur Veralldenn j þann tijd fyrer þau somu med Vatnsflodenu forðiorfud.

7. So og eirnenn sa Himen og Jord sem nu er, verda fyrer hans Ord sporud, so þad þau Elldenum vardveitt verde, a Dag Doms sins, og fyrerdæmingarennar Ogudlegra Manna.

8. Enn eitt sie ohuled fyrer ydur, hiner kiærustu, þad eirn Dagur fyrer DRottne, er sem Þusund Aar, og Þusund Aar so sem eirn Dagur.

9. DRottinn seinkar ei sijnu Fyrerheite, so sem sumer hallda þad fyrer seinkun, Helldur hefur hann Þolennmæde vid oss, og vill ei þad nockur fortapest, helldur þad hvör Madur snue sier til yferbotar.

II. 10. Enn Dagur DRottins mun koma sem Þiofur um Nott, a hvörium Himnarner munu forganga med storbrestum, enn Höfudskiepnurnar brꝺadna, og Jördenn, og þau Verk sem þar eru inne, munu uppbrenna.

11. Med þvi, ad allt þetta skal nu forganga, Hvilijkum biriar ydur þa ad vera, med Heilögu Athæfe, og gudrækelegum Verkum?

12. So ad þier epterbijded og skunded ad þeirre Tilkomu þess DRottins dagsins, a hvörium Himnarner munu af Ellde forganga, og Höfudskiepnurnar af hita brꝺadna.

13. Enn vier væntum epter nyum Himne, og nyrre Jordu, epter hans fyrerheite, j hvörium ad Riettlæted bygger.

III. 14. Fyrer þvi, mijner kiærustu, med þvi þier skulud þessa vænta, þa kostgiæfed, þad þier fyrer hönum oflëckader og ostraffanleger, j Fridnum fundner verded.

15. Og Þolennmæde vors DRottins halldeð fyrer ydra Sꝺaluhialp.] Sem ydur eirnenn vor elskulegur Broder Pꝺall, eptec þeirre Speke ed hönum er giefenn, skrifad hefur.

16. So sem ad hann j öllum Briefum þar um ræder, j hvörium ad eru sumer hluter þunger ad skilia, hvöriu hiner ofrodu og ostödugu rangsnua, so sem eirnenn ödrum Ritningum, til þeirra eigennlegrar Fyrerdæmingar.

17. Enn þier, mijner elskuleger, med þvi þier þad fyrerframm vited, þa vakted ydur, þad þier ecke fyrer villu Hirdulausra Manna, fraleidder verded, og af-falled j fra ydrum eigennlegum stadfeik.

18. Helldur vaxed j Nꝺadenne, og vidurkienningu vors DRottins, og Lausnarans JEsu Christi. Þeim sama sie Dyrd, Nu og ad Eylijfu, Amen.

---

# Formꝺale yfer þa fyrsta S. Johannis Pistla.

Þesse hinn fyrste Pistell S. Johannis er riettelega eirn Postulligur Pistell, og skyllde, med riettu, strags hans Gudspiollum epter filgia. Þviad lijka so sem hann j Gudspiollunum Trunne framm filger, lijka so mæter hann hier j þessum Pistle, þeim sem sier hrosa af Trunne, enn verkanna, Og kienner margfalldlega, ad Verkenn eige epterblijfe, hvar ed Truenn er. Enn ef Verkenn verda eige, þa er su Trua ecke riettelig, hell-

dur Lyge og Mirkur. Enn þetta sama giører hann eige med Ognan Løgmalsins, so sem S. Jacobs Pistill giører, helldur lockar hann oss til, þad vier eirnenn skulum elska, lijka sem Gud hefur oss elskad.

Hann skrifar hier og eirnenn inne, hardt j giegn þeim Cherintianisku, og j giegn Anda Antachristsins, sem þa þegar j þad sinne upphoof Christo ad afneita, þad hann hefde Holldgan a sig teked, hvad un allra first hefur sinn fullann frammgang, þvi þott vær nu umstunder ecke openskaarlega afneitum med Munnenum, þad Christur hafe Holldgan a sig teked, þa afneita þeir þo þvi med Hiartanu, med Lærdomenum, og med Lifnadenum. Þviad hvor ed fyrer sijn verk og giørder vill fromur og hialplegur verda, hann giører jafnt lijka so miked, sem sa er Christo afneitar. Af þvi, ad Christur hefur þar fyrer Holldgan a sig teked, þad hann oss aan vorra Verka, alleinasta fyrer sitt Blod, Riettlaata og hialplega giørde.

So strijder nu þesse Pistell j giegn badum Portum, sem er j giegn þeim ed a'varlega aan Verkanna villa j Trunne vera, og giegn þeim sem med sijnum Verkum vilia fromer verda. Og helldur oss so uppa þeirre riettu Midgøtu, þad vier fyrer Truna verdum fromer og Syndalauser. Og þar epter, nær vier erum fromer, þa jdkum sialfkrafa Kiærleikann og Godverk, fyrer Guds saker, aan allrar epterleitingar vors Abata.

Hiner adrer tveir Pistlarner eru øngver Lærdoms Pistlar, Helldur Epterdæme Kiærleiksins, og Truarennar, og hafa eirnenn eirn riettann Postullegann Anda.

# Hinn Firste S. Johannis Pistill.

## I. Capitule.

*Johannes talar (I) um Personu og Embætte JEsu; II) um Helgun Truadra JEsu; og (III) um þeirra Veikleika.*

I. Þad er var af Upphafe, hvad vier heyrdum, hvad vier saum med vorum Augum, og hvad vier skodudum, og vorar Hendur a toku, um Ord Lijfsins.

2. Og Lijfed er openberad, og vier saum, og vottum, og bodum ydur Lijfed þad æfenlegt er, hvort ad var hia Fodurnum, og birtest oss.

3. Hvad vier saum og heyrdum, þad bodum vier ydur, so ad þier hefdud samfielag med oss, og vort samfielag sie med Fodurnum, og med hans Syne JEsu Christo.

4. Og þetta skrifum vier ydur, uppa þad ydar Fognudur sie fullkomlegur.

II. 5. Og þetta er Bodskapurenn, hvorn vier heyrdum af honum, og bodum ydur, þad Gud er Lios, og eingenn Mirkur eru j honum.

6. Ef ad vier seigium, þad vier hofum samfielag med honum, og gongum j Mirkrenu, þa liugum vier, og giørum ecke Sannleik.

7. Enn ef vier gøngum j Liosenu, lijka sem hann sialfur j Liosenu er, þa hofum vier samfielag innbyrdis. Og Blodid JEsu Christi hans Sonar, hreinsar oss af ollum Syndum.

III. 8. Ef ad vier seigium, Vier hofum ongva Synd, þa villum vier sialfa oss, og Sannleikurenn er ecke j oss.

9. Enn ef vier vidurkiennum vorar Synder, þa er hann trvor og Riettlaatur, so ad hann fyrergiefur oss vorar Synder, og hreinsar oss af ollu Roanglæte.

10. Ef vier seigium, ad eige hofum vier syndgad, þa giørum vier hann ad Liugara, og hans Ord eru þa ecke j oss.

## II. Capitule.

*Johannes talar (I) um Grundvøll Christendomsins; (II) um hans Kenneteiku; (III) Hindraner; og (IV) Ovine.*

I. Min Barna korn, þetta skrifa eg ydur til, so ad þier syndged eige. Og ef ein hvor syndgar, þa hofum vier Arnadarmann hia Fodurnum, JEsum Christum þann Riettlaata.

2. Og hann same er Forlijkun fyrer vorar Synder. Enn eige einasta fyrer vorar, helldur eirnenn fyrer allrar Veralldarennar.

II. 3. Og þar af vitum vier, þad vier þeckium hann, ef ad vier vardveitum hans Bodord.

4. Hvor

4. Hvor ed seiger, eg þecki hann, og helldur ecke hans Bodord, sa er liugare, og j þvilijkum er eingenn Saunleikur.

5. Enn hvor hans Ord vardveiter, j þeim er sannarlega Guds Kiærleike fullkomlegur. Þar af þeckium vier, þad vier erum j honum.

6. Hvor hann seiger sig j honum vera, sa skal og ganga, lijka sem hann hefur geinged.

7. Brædur, eg skrifa ydur ecke nytt Bodord, helldur gamallt Bodord, þad þier hafed fra upphafe haft. Þad gamla Bodord er þad Ord, hvort þier hafed heyrt fra upphafe.

8. Og enn aptur skrifa eg ydur nytt Bodord, þad sannarlegt er hia honum, og hia ydur, þviad Myrkurenn eru framm hia geingenn, og hid sanna Lioosed skijn nu.

9. Hvor hann seiger sig j Liosenu vera, og hatar sinn Brodur, sa er enn nu j Myrkrunum.

10. Hvor sinn Brodur elskar, hann blijfur j Liosenu, og j hia honum er eingenn hneixlan.

11. Enn hvor sinn Brodur hatar, sa er j Myrkrenu, og reafar j Myrkrenu, og veit ei hvort hann geingur, þviad Myrkurenn hafa hans Augu forblindad.

12. Kiæru Born, eg skrifa ydur þad, ad ydur verde Syndernar fyrergiefnar, fyrer hans Nafn.

13. Eg skrifa ydur Fedrunum, þviad þier þecked þann sem af Upphafe er. Eg skrifa ydur Æskumonnum, þviad þier hafed þann Hreckvijsa yferunned.

14. Eg skrifa ydur Smaabornunum, þviad þier þecked Fodurenn. Eg hefe skrifad ydur Fedrunum, þvi þier þecked hann sem af Upphafe er, Eg hefe skrifad ydur Æskumonnum, ad þier stirkver erud, og þad Guds Ord blijfur hia ydur, og þier hafed þann Hreckvijsa yferunned.

15. Eige skulud þier Heimenn elska, nie neitt þad j Heimenum er. Ef nockur elskar Heimenn, j honum er ecke Kiærleike Fodursins.

III. 16. Þvi allt þad j Heimenum er (sem ad er (a) Fysn Holldsins, og Fysn Augnanna, og Drambsamt Lijferne) þad er ecke af Fodurnum, helldur af Heimenum.

(a) Fysn Holldsins er Saurlijfe; Gyrnd Augnanna er Agyrne og Rijkdomur. Enn Drambsamt Lijferne er Lofgyrne, Volld og Metord, og Hroosan, og vilia mikels metenn vera.

17. Og Heimurenn forgeingur, og hans Fysn. Enn hvor ad Guds vilia giorer, sa blijfur ad eylijfu.

18. Born, þad er hin sijdarsta stund, og sem þier hafed heyrt, þad Antachristur kiemur, Og nu eru marger Antachristar ordner. Hvar af vier vitum, ad þad er hin sijdarsta stund.

IV. 19. Þeir eru fra oss utgeingner, enn þeir voru ecke af oss. Þvi hefdu þeir vered af oss, þa hefdu þeir hia oss blifed. Enn uppa þad þeir anglioser verde, þad þeir eru eige aller af oss

20. Og þier hafed Smurningena af þeim sem Heilagur er, og þecked allt.

21. Eg skrifade ydur ei, so sem þad vissud þier eige Sannleikann, Helldur vited þier hann, og vited, þad eingenn Lyge utaf Sannleikanum kiemur.

22. Hvor er Liugarenn, utan sa sem neitar ad JEsus er Christur? Þad er sa Antachristur sem neitar Fodurenn og Sonenn.

23. Og hvor Sonenum afneytar, hann hefur og ecke Fodurenn, hvor hann vidurkiener Sonenn, hann hefur og Fodurenn.

24. Hvad þier hafed nu heyrt af Upphafe, þad blijfe hia ydur. Ef þad blijfur hia ydur, hvad þier af Upphafe hafed heyrt, þa munud þier hia Sonenum og hia Fodurnum blijfa.

25. Og þetta er fyrerheited, hvort hann hefur oss lofad, sem er Eylijft Lijf.

26. Þetta hefe eg skrifad ydur til, af þeim, hvorier ydur afvega leida.

27. Og Smurningenn, sem þier af honum hafed medteked, blijfur hia ydur, og þier þurfed ei ad neinn kienne ydur, Helldur so sem

su Smurning kienner ydur alla hlute, þa er þad Sanninde og eingenn Lygd. Og sem hun hefur ydur kennt, þa blijsed j honum.

28. Og nu Born, blijfed j honum, Uppa þad, nær hann mun openberast, ad vier hofum Diorfung, og verdum ei fyrer honum ad hneixlan j hans tilkomu.

29. Firsi þier vited hann er Riettvijs, þa vited eirnenn, þad hvor Riettvijsena giorer sa er af honum fæddur.

## III. Capitule.

Johannes talar (I) um Vegsemd þeirra Sann-Christnu; (II) þeirra Egenlegleika, og (III) Freistingar.

I. Siaed, hvilijkann Kiærleika þad Faderenn hefur oss audsynt, Ad vier skulum Guds Born kallast. Fyrer þvi þecker ydur Heimurenn ecke, þviad hann þecker hann eige.

2. Mijner Kiærustu, vier erum nu Guds Born, og þad er enn ei openberad hvad vier verda munum, Enn vier vitum, þa þad birtast mun, þad vier munum honum lijker verda þvi vier munum hann sioa, so sem ad hann er.

II. 3. Og hvoreinn, er þvilijka Von hefur til hans, sa hreinsar sig, lijka sem ad hann er hreinn.

4. Hvor Synd giorer, sa giorer rangt, og Syndenn er hidranga.

5. Og þier vited, þad hann hefur birtst, Uppa þad hann vorar Synder burttæke, og eingenn Synd er j honum.

6. Hvor j honum blijfur, sa syndgar ecke, hvor hann syndgast, sa hefur hann eige sied nie þeckt.

7. Barnakorn, Laated ongvann villa ydur. Hvor Riettvijsena giorer, sa er Riettvijs, lijka sem hann er Riettvijs.

8. Hvor Syndena giorer sa er af Dioflenum, þviad Diofullenn syndgar af upphafe. Þar til birtest Guds Son, ad hann nidur brioте Diofulsins Verk.

9. Hvor af Gude er fæddur, sa giorer eige Synd, þviad hans Saad blijfur hia honum, og hann gietur eige syndgast, þviad hann er af Gude fæddur.

10. Þar af eru auglios Guds Born, og Diofulsins Born. Hvor hann ei giorer Riettvijsena, sa er ecke af Gude, og hvor ei elskar sinn Brodur.

11. Þviad þad er sa Bodskapur, hvorn þier hafed heyrt fra Upphafe, þad vier skulum elska oss innbyrdis.

12. Ecke sem * Cain, sa af hinum Vonda var, og ihel slo sinn Brodur. Og fyrer hvad ihel sloo hann hann? Þvi hans Verk voru vond, og hans Brodurs riettferdug.

* 1 B. Mos. 4, 8.

Pistillenn II. Sunnud. epter Trinit.

13. Undrest ecke Bræður mijner, þo Heimurenn hate ydur.

14. Vier vitum, þad vier ur Daudanum erum komner til Lijfsins, þviad vier elskum Brædurnar.

15. Hvor hann elskar eige sinn Brodur, sa blijfur j Daudanum. Hvor sinn Brodur hatar, sa er Manndrapare, Og þier vited þad Manndraparenn hefur eige Eylijft Lijf hia sier blijfanda.

16. Af þvi þeckium vier Kiærleikann, ad hann hefur sett sitt Lijf ut fyrer oss, Og vier skulum eirnenn setia Lijfed ut fyrer Bræðurnar.

17. Enn nær nockur hefur þessarar Veralldar Audæfe, og sier sinn Brodur Naud lijda, og lykur sitt Hiarta til fyrer honum, Hvornen blijfur Guds Kiærleike hia honum?

18. Mijn Barnakorn, elskum eige med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika.]

III. 19. Þar af þeckium vier, þad vier erum af Sannleiknum, og kunnum ad stilla til frids vor Hiortu, fyrer honum.

20. So þo ad vort Hiarta fordæme oss, ad Gud er meire voru Hiarta, og þecker alla hlute?

21. Þier Astsamleger, ef vort Hiarta fordæmer oss eige, þa hofum vier diorfung til Guds.

22. Og

22. Og hvad vier bidium, þad munum vier af honum odlast, Þviad vier geymum hans Bodord, og giorum hvad fyrer honum þægelegt er.

23. Og þetta er hans Bodord, þad vier truum a Nafn hans Sonar JEsu Christi, og elskum hvor annann, so sem þad hann gaf oss Bodorded.

24. Og hvor hann vardveiter hans Bodord, sa blijfur j honum, og hann j honum. Og þar af þeckium vier, þad hann blijfur j oss, utaf þeim Anda, hvorn hann hefur giefed oss.

# IV. Capitule.

Johannes talar (I) um Falskennendur og (II) um Elsku til Guds og Naunganns.

I. Þier æstsamleger, trued ei hvorium sem einum Anda, Helldur reyned Andana, hvort þeir eru af Gude. Þviad þar eru marger Fals-spamenn, j Verolldena utgeingner.

2. Þar af skulud þier Guds Anda þeckia; Hvor Ande sem vidurkienner, þad JEsus Christus sie j Hollded komenn, sa er af Gude.

3. Og hvor Ande sem ei vidurkienner, þad JEsus Christus sie j Holldenu komenn, sa er ei af Gude, Og þad er sa Ande þess Antachrists, af hvorium þier hafed heyrt, þad hann munde koma, og er nu þegar j Heimenum.

4. Barna korn, þier erud af Gude, og hafed hina yferunned. Þviad sa j ydur er, hann er hinum meire sem j Heimenum er.

5. Þeir eru af Heimenum, fyrer þvi tala þeir ut af Heimenum, og Heimurenn heyrer þeim.

6. Vier erum af Gude, og hvor hann vidurkiennet Gud, sa heyrer oss, hvor hann er ei af Gude, sa heyrer oss ecke, Þar af þeckium vier Andann Sannleiksins, og Andann Villudomsins.

Pistillenn I. Sunnudag ept: Trinitatis.

II. 7. Þier æstsamleger, elskum oss jnnbyrdis, Þviad Kiærleikurenn er af GUde, og hvor hann elskar, sa er af GUde faddur, og þecker GUd.

8. Hvor hann elskar ecke, sa þecker ei GUd, þviad GUd er Kiærleikurenn.

9. J þvi opennberadest Kiærleike Guds vid oss, þad GUd sende sinn eingietenn Son j Heimenn, ad vier skylldum fyrer hann lifa.

10. Þar jnne er Kiærleikurenn. Eige þad vier elskudum GUd, helldur þad hann elskade oss, og sende sinn Son, til Forlijkunar fyrer vorar Synder.

11. Þier æstsamleger, first þad GUd hefur oss so elskad, þa skulum vier eirnenn elska oss jnnbyrdis.

12. Eingenn hefur GUd nockru sinne sienann. Ef ad vier elskum oss jnnbyrdis, þa blijfur GUd j oss, og hans Kiærleike er fullkomlegur j oss.

13. Þar af þeckium vier, þad vier blijfum j honum, og hann j oss, þviad hann hefur giefed oss af sijnum Anda.

14. Og vier sáum, og vitnum, þad Faderenn hefur sendt Sonenn til Heimsins Lausnara.

15. Hvor nu vidurkienner, þad JEsus er GUds Sonur, j þeim blijfur GUd, og hann j GUde.

16. Og vier hofum þeckt, og truad þeim Kiærleika, sem GUd hefur til vor. GUd er Kiærleikenn, og hvor j Kiærleiknum blijfur, sa blijfur j GUde, og GUd j honum.

17. J þvi er Kiærleikurenn fullkomlegur hia oss, uppa þad vier hofum Diorfung a Deige Domsins, Þviad lijka sem hann er, so erum vier eirnenn j þessum Heime.

18. Hrædsla er ei j Kiærleikanum, helldur utdrijfur fullkomlegur Kiærleike hrædsluna, þviad hrædslann hefur Kvol, Enn hvor hann hrædest, sa er ecke fullkomlegur j Kiærleikanum.

19. Latum oss hann elska, þvi hann hefur elskad oss fyrre.

20. Ef einhvor seiger, Eg elska GUd og hatar sinn Brodur, sa er Liugare. Þvi hvor hann elskar ecke sinn Brodur, hvorn hann

 sier,

sier, Hvornen gietur sa GUd elskad þann er hann sier eige?

21. Og þetta Bodord hofum vier af honum, þad hvor hann elskar GUd, hann elske og eirnenn sinn Brodur.]

## V. Capitule.

Joh: talar (I) um Kenneteikn Truarennar, (II) hennar Grunndvöll, og (III) Ender.

I. Hvor hann truer þad JEsus sie Christur, sa er af GUde Fæddur. Og hvor ed elskar þann sem hann hefur fædt, sa elskar og eirnenn þann sem af honum er fæddur.

2. Þar af þeckium vier, þad vier GUds Börn elskum, nær vier elskum GUd, og holldum hans Bodord.

3. Þviad þad er Kiærleikenn til GUds, þad vier holldum hans Bodord, og hans Bodord eru eige þung.

Pistill: I. Sunnud: epter Paaska.

4. Þvi allt hvad af GUde er fædt, þad yfervinnur Heimenn. Og vor Trua er yfervinningenn, hvor Verolldena hefur yferunned.

5. Enn hvor er hann sem Verolldena yfervinnur, utan alleinasta sa er truer, þad JEsus sie GUds Sonur? Þesse er sa sem kiemur med Vatne og Blode, JEsus Christus, Eige med Vatne alleinasta, helldur med Vatne og Blode. Og Andenn er sa sem vitnar, þad (a) Andenn er Sannleikenn.

(a) (Andenn er Sannleike) þar sem Andenn er, þar er eingenn Yferdrepskapur, enn þar er allt riett og satt med honum, hvad hellst hann talar, giörer, eda adhefst; enn hvar Andenn er ecke, þar er yferdrepskapur og lygd.

6. Þviad Þrijr eru sem Vitnisburdenn giefa a Himne, Faderenn, Orded, og Heilagur Ande, og þeir Þrijr eru eitt.

II. 7. Og þrijr eru sem Vitnisburdenn giefa a Jordu, Andenn, Vatned og Bloded, og þesser þrijr eru (b) eitt.

(b) (Eru eitt) Hvar þad eina er, þar er og hin önnur, Þviad Christi Blod, Skijrnenn, og Heilagur Ande, Bevijsa, Vidurkienna, og Predika Evangelium fyrer Heimenum, og j hvörs Manns Samvitsku sem Truadur er, þvi hann formerker, ad hann fyrer Vatn og Anda, hvor ad er utveqadur med Christi Blode, verdur Riettlaatur og Saaluholpenn.

8 Ef vier medtökum Mannanna Vitnisburd, þa er þo GUds Vitnisburdur meire, Þviad GUds Vitnisburdur er sa, þad hann hefur vitnad af sijnum Syne.

9. Hvor hann truer a GUds Son, sa hefur þennann Vitnisburd hia sier.]

10. Hvor hann truer ei GUde, sa giörer hann ad Liugara, Þvi hann truer ecke Vitnisburdenum, þeim GUd vitnar af sijnum Syne.

11. Og þetta er Vitnisburdurenn, þad GUd hefur giefed oss Eylijft Lijf. Og þetta Lijf er j hans Syne.

12. Hvor sem GUds Son hefur, sa hefur Lijfed. Hvor hann hefur ei GUds Son, sa hefur ei Lijfed.

III. 13. Þetta skrifade eg ydur, þier sem trued a Nafn GUds Sonar, So ad þier vited, þad þier hafed eylijft Lijf, og so ad þier trued a Nafn GUds Sonar.

14. Þvi þad er su Diörfung, sem vier hofum til hans, ad ef vier bidium nockurs, epter hans Vilia, þa heyrer hann oss.

15. Og first vier vitum þad hann heyrer oss, hvad vier um bidium, þa vitum vier, þad vier þær Bæner hofum, hvoriar vier hofum beded af honum.

16. Ef nockur sier sinn Brodur syndgast einhvorre Synd, eige til Dauda, sa ma bidia, og mun hann giefa þeim Lijfed sem syndgade, ecke til Dauda. Þar er (c) Synd til Dauda, eg seige ecke ad nockur fyrer henne bidie.

(c) (Synd til Dauda) þad er Synd a möte Heilögum Anda, hvar af Mattheus skrifar. 12. Cap.

17. Allt Rangllæte er Synd, og þar er Synd ecke til Dauda.

18. Vier vitum, þad hvor af GUde er fæddur, sa syndgar ecke, Helldur sa af GUde er fæddur, hann vardveiter sig, og hinn Vonde mun ei snerta hann.

19. Vier

19. Vier vitum þad vier erum af GUde, og þad allur heimurenn liggur j vondu.

20. Enn vier vitum þad GUds Sonur er komenn, og hefur giefed oss þad Sinne, ad vier þeckium þann sem Sannarlegur er, og erum j hinum Sannarlega hans Syne JEsu Christo. Þesse er sannur GUd, og Eylijft Lijf.

21. Barnakorn, vared ydur vid Afgudum, AMEN.

# Hinn Annar S. Johannis Pistill.

Joh. talar (I) um eina Gudhrædda Matronu; (II) Tekur vara fyrer Raungum Lærdome.

I. Hinn Elldre, þeirre Utvaldre Fru, og hennar Bornum, hver eg elska j Sannleika, Og ei alleinasta eg, helldur eirnenn aller þeir sem þeckia Sannleikenn.

2. Fyrer Sannleikans saker, sem j oss blijfur, og j hia oss mun vera ad Eylijfu.

3. Naad, Miskun, Fridur af GUde Fodur, og af DROTTne JEsu Christo, Syne Fodursins, j Sannleika og Kiærleika, sie med oss.

II. 4. Nærsta gladur em eg, þad eg hefe funded medal þinna Barna þa j Sannleiknum ganga, So sem þad vier hofum Bodorded af Fodurnum medteked.

5. Og nu bid eg þig, Fru, eige skrifa eg þier til so sem eitt nytt Bodord, Helldur þad vier hofum haft fra Upphafe, ad vier elskum oss jnnbyrdis.

6. Og þad er Kiærleikurenn, ad vier gongum epter hans Bodorde. Þetta er þad Bodord, eins og þier hafed heyrt af Upphafe, uppa þad þier ganged þar jnne

7. Þvi marger Afvegaleidendur eru komner j Heimenn, sem ecke vidurkienna JEsum Christum j Holldenu komenn vera. Þesse er sa Afvegaleidare og Antachristur.

8. Siaed ydur fyrer, ad vier glotum ecke þvi, hvad vier hofum verkad, helldur so ad vier medtokum fullkomenn verdlaun.

9. Hvor hann yfertredur, og blijfur ecke j Lærdome Christi, sa hefur (a) ongvann GUd, Hvor ed blijfur j Christi Lærdome, sa hefur bæde Fodurenn og Sonenn.

(a) (Ongvann GUd) Athuga, ad fyrer utan Truna a Christum, þa er oll Guds Þionusta til forgiefens, j allre Verolldenne.

10. Ef einhvor kiemur til ydar, og med sier flytur eige þennann Lærdom, þann medtaked ei j ydar Hvs, og heilsed honum eige.

11. Þvi hvor honum heilsar, sa giorer sig hluttakara hans vondra Verka.

12. Eg hefe margt ad skrifa ydur, enn eg vil eige med Briefe og Bleke, Helldur vona eg ad koma til ydar, og Munnlega vid ydur tala, Uppa þad, vor Fognudur fullkomlegur sie.

13. Þier heilsa Born Systur þinnar, hinnar Utvoldu.
Amen.

# Hinn Þridie S. Johannis Pistill.

Joh: talar (I) um Naadvendne Gaji; (II) Um Illmennsku Diotrephis; (III) Um Gudrækne Demetrii.

I. Sa Olldungurenn. Gajo hinum elskulega, hvorn eg elska j Sannleika.

2. Minn Elskulege, eg æske j ollum greinum, þad ad þier vel vegne, og heilbrigdur siert, so sem þad eirnenn þinne Saalu vel vegnar.

3. Eg

3. Eg gladdest nærsta, þa Brædurner komu, og gaafu Vitnisburd af þijnum Sannleika, so sem þu og geingur j Sannleiknum.

4. Eg hefe eige nockurn Fognud meire enn þann, þad eg heyre, þad mijn Born ganga j Sannleikanum.

5. Minn oastudlege, þu giorer trulega hvad þu giorer vid Brædurnar og Giestena.

6. Hvorier af þijnum Kiærleika hafa Vitnisburd giefed, fyrer Søfnudenum. Og þad hefur þu vel giort, ad þu hefur þa fyrer Gude verduglega a Veg leidt.

7. Þvi fyrer hans Nafns Saker eru þeir utfarner, og hafa af Heidingium eckert teked.

8. Þvi skulum vier þess hattar med taka, uppa þad vier sieum Medhialparar Sannleiksins.

II. 9. Eg skrifade Safnadenum til, Enn Diotrephes, sa medal þeirra vill mikels metenn vera, medtekur oss eige.

10. Fyrer þvi, nær eg kiem, vil eg aaminna hann a sijn Verk, er hann giorer, og þvætter med vondum Ordum j giegn oss, og lætur sier ecke þad oanægia, ad hann medtekur eige sialfur Brædurnar, og varnar þeim sem þad villa giera, og utrekur þa af Søfnudenum.

11. Minn Kiæraste, eptersilg eige hinu vonda, helldur þvi hinu goda. Hvor gott giorer, hann er af Gude. Hvor jlla giorer, sa sier eige Gud.

III. 12. Enn Demetrius hann hefur Vitnisburd af hvorium Manne, og af Sannleiknum sialfum, og vier berum eirnenn Vitne, og þier vited, þad vor Vitnisburdur er sannur.

13. Eg hefda vel margt ad skrifa, enn eg villda eige med Bleke og Penna til þijn skrifa.

14. Enn eg vænte, þad eg nnune snarlega sia þig, og vilium vier þa Munnlega vid talast.

15. Fridur sie med þier, Þier heilsa Vinerner. Heilsa þu Vinunum med Nafne.

# Pistillenn til Ebræos.

## I. Capitule.

Mannsins Sonur JEsus er ogso (I) Guds Sonnur; og (II) þarfyrer miklu betre og ædre enn allar adrar Skepnur.

Pistillenn a Joladaginn.

I. Epter þad ad Gud Fordum mørgu sinne og marghaattadlega talade til Fedranna, fyrer Spaamennena.

2. Þa hefur hann a þessum sijdurstu Døgum til vor talad fyrer Sonenn, þann hann sette til Erfingia yfer alla hlute, fyrer hvorn hann hefur eirnenn Verolldena skapad.

3. Hvor, med þvi hann er Liome hans Dyrdar, og riett Jmind hans Veru, og ber alla hlute med sijnu Kroptuga Orde, þa hann hafde giort hreinsun vorra Synda, fyrer sig sialfann, þa sette hann sig til hægre Handar Tignenne a Hædunum.

4. So miklu ædre ordinn Einglunum, sem hann hefur miklu framar þeim erft eitt hærra Nafn.

II. 5. Þviad til hvors Eingels þa hefur hann nockru sinne sagt? * Þu ert minn Sonur, j Dag ool eg þig? Og enn annad sinn, ** Eg mun hans Fader vera, og hann mun minn Sonur vera.

* Psalm. 2, 7. ** 2 Sam. 7, 14.

6. Og enn aptur, sem hann jnnleider þann Frumgietna j Heimenn, seiger hann, * og Hann skulu aller Guds Einglar tilbidia.

* Psalm. 97, 7.

7. Af Einglunum seiger hann ad Sønnu, * Sijna Eingla giorer hann Anda, og sijna Þienara Elldsloga. * Psalm. 104, 4.

8. Enn af Synenum, * Gud, þitt Sæte varer fra eylijfd til eylijfder, Stiornarvondur þijns Rijkes er uppriettur Vondur.

* Psalm. 45. 7, 8.

9. Þu

9. Þu hefur elskad Riettlæted, og hatad Ranglæted, Fyrer þvi hefur GUD, þinn GUD, smurt þig med Vidsmiøre Fagnadarens, framm yfer þijna Hluttakendur.

10. * Og þu DROTtinn hefur af upphafe Jordena grundvallad, og Himnarner eru þijn Handaverk. * Psalm. 102, 26.

11. Þeir sömu munu forganga, enn þu munt blijfa, og aller munu þeir elldast sem annad Fat.

12. Og so sem Klæde muntu þeim umhverfa, og þeir munu umhverfast, Enn þu ert sialfur hinn same, og þijn Aar munu ecke þrotna.]

13. Enn til hvors Eingels hefur hann nockurn Tijma sagt? * Set þig til minnar hægre Handar, Þar til, þad eg þijna Ovine legg til Skarar Fota þinna. * Psalm. 110, 1.

14. Eru þeir ecke aller þionustusamleger Andar, utsender til þionustu, vegna þeirra sem erfa skulu Sæluhialpena?

## II. Capitule.

Rett, Grundvalladur Lærdomur og Sæluhialpleg Þecking a JEsu er hid allra Ypparlegasta og vegsamlegasta af ollu þvi sem Menn kenna og vita.

Þar fyrer byriar oss ad giefa þess framar gaum ad þvi Orde, þad vier heyrum, so ad vier (a) ecke forunst.

(a) (Forunst) Eins og eitt Skip, sem steiter a Grunne, og brotnar j Spon.

2. Þvi ef þad Ord er stodugt orded, sem fyrer Einglana er talad, og hvor yfertrodsla og Ohlydne hefur medteked sijn riettferdug Laun.

3. Hvornenn vilium vier þa umflya, ef vier giætum ecke slijkrar Sæluhialpar? Hvor, med þvi ad hun var first predikud fyrer DROTTENN, þa er hun komenn til vor fyrer þa sem hana heyrdu.

4. Og Gud gaf þeim vitne, med Teiknum og Undursemdum, og marghattudum Kraptaverkum, og med utskiptingu Heilags Anda, epter sinne villd.

5. Hviad hann hefur ecke Einglunum undergiefed þa epterkomande Verolld, þar vier afseigium.

6. Þad vottar enn nockur j einum stad, so seigiande, * Hvad er Madurenn, ad þu minnest hans? Og Mannsins son, ad þu vitier hans? * Psalm. 8, 5. etc.

7. Litla stund hefur þu hann Einglanna (b) þarfnast læted, Med Dyrd og Heidre Koronader þu hann, og setter hann yfer verk þinna Handa.

(b) (Þarfnast) J Ebreskunne hliodar þetta Vers so, þu lietst hann þarfnast Guds um lijtenn tijma, þad er, þu yfergafst hann j þria Daga j hans Pijnu, eins og eingenn Gud hefde hia honum vered, enn hvar Gud er ecke, þar er Fornidran langt fyrer nedan Einglana.

8. Alla hlute hefur þu underlagt hans Footum. J þvi þad hann underlagde honum alla hlute, þa hefur hann eckert epter skiled, þad honum sie ei undergiefed. Enn nu first ad sinne siaum vier ecke, þad honum sieu aller hluter undergiefner.

9. Enn hann sem um stundarsaker hefur Einglanna þarfnast, siaum vier, ad þad er JEsus, fyrer Pijsl Daudans, Koronadur med Dyrd og Heidre, uppa þad, ad hann af Guds Naad, fyrer alla Daudann smackade.

10. Hviad þad sæmde honum, hvors vegna aller hluter eru, og fyrer hvorn aller hluter eru, sa mørg Børn hefur til Dyrdarennar leidt, þad hann Hofdingiann þeirra Sæluhialpar fyrer Pijslena fullkomenn giorde.

11. Med þvi þeir koma aller ut af einum, bæde sa sem helgar, og þeir sem helgader verda, Fyrer þvi blygdast hann ecke þa Brædur ad kalla.

12. Og seiger, * Kunngiora vil eg Nafn þitt mijnum Brædrum, og midt j Søfnudenum þier lof syngia. Og enn aptur.
* Psal. 22, 23.

13. * Uppa hann vil eg mig reida.
* Psalm. 18, 3.

14. Og enn annad sinn, * Sia þar, Eg og þau Børn, sem Gud hefur mier giefed: Nu med þvi ad Børnenn hafa Holld og Blod, þa er hann eirnenn j sama mata þess hlutakare ordenn, Uppa þad, ad hann Magtena tæke fyrer Daudann, fra þeim sem Daudans magt hafde, þad er Dioflenum.
* Esa. 8, 10.

15. Og endurleyste þa, sem fyrer Ogn Daudans hlutu um alla æfe j Prælkan ad vera.

16. Þviad eige neinstadar tekur hann til sijn Einglana, helldur tekur hann til sijn Sæde Abrahams.

17. Par fyrer hlaut hann j øllum hlutum sijnum Brædrum lijkur ad verda, Uppa þad hann Miskunsamur yrde, og trulyndur Biskup fyrer Gude, til ad forlijka Folksins Synder

18. Þviad j þvi sem hann hefur lided, og freistadur er, þa kann hann þeim ad hialpa, sem freistader verda.

## III. Capitule.

(I) Alls Engum Kennenda œ ad hlijda ne heidur syna so sem JEsu; (II) Alvarleg œminning til ad giøra apturhvarf hid allrafirsta.

I. Hvar fyrer þier, Heilager Brædur, hvorier og so kallader erud med Himneskre kallan, giefed giætur ad þeim Sendeboda og Biskupe, þann vier vidurkiennum JEsum Christum.

2. Sa trur er þeim, sem hann hefur fyrer settann (lijka sem Moysen) j * ollu sijnu Huse.
* 4 B. Mos 12, 7.

3. Enn þesse er meire heidrunar verdur enn Moyses, Af þvi, ad sa hefur meire heidran af Hwsenu, sem þad til byr, en Hwsed sialft.

4 Þviad sierhvørt Hws verdur af einhvorium tilbwed, enn sa alla hlute tilbyr, þad er Gud.

5. Moyses var og ad sønnu trur j ollu hans Hwse, so sem Pionustumadur, til Vitnisburdar þess sem sagt skyllde verda.

6. Enn Christur, so sem Sonur yfer sijnu Hwse, hvørs Hws ad erum vier, ef vier annars Trwnadartraustenu, og hrosan vonarennar, allt til enda, fastlega holldum.

II. 7. Hvar fyrer, so sem seiger Heilagur Ande, * J Dag, ef þier heyred hans Rodd.
* Psalm. 95. 8. etc.

8. Pa forherded ecke ydar Hiortu, so sem j Styggdinne skiede a Freistingardeige j Eydemorku.

9. Hvar ad freistudu mijn ydar Fedur, þeir reyndu mig, og soau mijn Verk, j fiorutijge œr.

10. Fyrer þad vard eg reidur þessare Kinslood, og sagde, Jafnlega fara þeir viller med Hiartanu, enn eige vissu þeir mijna Vegu.

11. So eg eirnenn soor j minne Reide, ad eige skylldu þeir koma til minnar hvijldar.

12. Siaed til, kiærer Brædur, þad ei nockur medal ydar hafe vondt vantruad Hiarta, þad fragangande sie Gude Lifanda.

13. Helldur œminned ydur sialfa alla Daga, so leinge sem þad j Dag kallast, ad þar eingenn a medal ydar forherdest, af Svikræde Syndarennar.

14. Þvi vier erum Christi hluttakarar ordner, ef vier annars uppbiriudu Trunadartrauste, allt til enda fastlega holldum.

15. So leinge sem sagt verdur, J Dag, ef þier heyred hans Rodd, þa forherded ecke ydar Hiortu, so sem j þeirre Styggdenne skiede.

16. Þviad sumer, þa þeir heyrdu, biriudu þeir eina Styggd, Po ei aller þeir ed ut geingu af Egyptalande fyrer Moysen.

17. Enn hvorium reiddest hann j fiorutiju Aar? Er ei so? Peim sem syndgudust, hvorra Hræ ad * nidur hrundu j Eydemorku.
* 4 B. Mos 14, 35.

18. Enn hvorium soor hann, þad þeir skylldu ei koma til hans Hvijldar, nema þeim sem vantruader voru?

19. Og vier siaum, þad þeir hafa ecke kunnad jnn ad koma, Vantruarennar vegna.

IV. Ca-

## IV. Capitule.

Þeir ed Trua a JEsum skulu umsijder fa Eina Eylijfa Hvijlld.

Hvi lœtum oss nu hrædast, þad vier forsomum ecke þad Fyrerheit, inn ad koma til hans hvijldar, og eingenn vorra epter verde.

2. Þvi þad er oss eirnenn kunngiört, so sem hinum. Enn Orded Predikunarennar hialpade hinum eckert, sem ecke trudu og þad heyrdu.

3. Þviad vier, hvorier truum, inngongum j Hvijldena, so sem ad hann seiger, *Eg soor j minne Reide, þad eige skylldu þeir til minnar Hvijldar koma. Og ad sönnu, þa hau Verkenn j Upphafe Veralldarennar giordust.

* Psalm 95, 11.

4.*Sagde hann j nockrum stad af hinum siounda Deige so, Og Gud hvijldest a siounda Deige af öllum sijnum Verkum.

* 1 B. Mos 2, 2.

5. Og hier j þessum stad enn aptur, þeir skulu eige koma til minnar Hvijldar.

6. Med þvi þad er enn fyrer Hondum, ad nockrer skuli til þeirrar sömu koma. Og þeir, hvorium þad j firstu kunngiort var, eru þar ecke til komner, fyrer þeirra Vantruar saker.

7. Pa œsetur hann enn aptur eirn Dag, epter slijkann langann tijma, og seiger fyrer David, * J Dag, so sem ad sagt er, J Dag, ef þier heyred hans Rodd, þa forherded ecke ydar Hiortu. * Psalm. 95, 8.

8. Þvi ef Josua hefde þa til Hvijldar leidt, hefde hann ey epter þad af nockrum ödrum Deige sagt.

9. Fyrer þvi er þar enn Hvijld fyrer Hondum Folke Guds.

10. Þviad hvor til hans Hvijldar er komenn, hann hvijlest eirnenn af sijnum Verkum, so sem Gud af sijnum.

11. So lœtum oss nu kapp a leggia, inn ad koma til þessarar Hvijldar, uppa þad, ad eingen falle j þad sama Epterdœme Vantruarennar.

12. Þviad Guds Ord er Lifande og Kroptugt, og hvassara enn Tvij-eggiudu Sverde hvassara, og þreynger sier j giegnum allt þar til þad sundur skilur Sœlena og Andann, og Merg og Bein, og er Domare Hugrenninganna, og Hiartans Hugarlundar.

13. *Og þar er eingenn Skiepna fyrer honum osyneleg, Enn aller Hluter eru nakter og ohulder fyrer hans Augum, af hvorium vier tölum.

## V. Capitule.

Þad Kennemannlega Embætte JEsu Christi er utmœlad.

Med þvi þa vier hofum einn Biskup þann mikell er, JEsum Son Guds, hvor til Himens er farenn, So lœtum oss hallda Vidurkienningunne.

2. Þviad vier hofum ei þann Biskup, sem ei kann sampijning hafa med vorum breiskleika, helldur þann sem freistadur er a allann hœtt, lijka so sem ad vier, þo aan Syndar.

3. Fyrer þvi lœtum oss þar ad ganga med Hugarhreyste, til þess Nœdarennar stols, so ad vier odlunst Miskunseme, og Nœd finnum, a þeim tijma, nær vier þursum Fulltingis vid.

4. Þviad hvor Biskup sem af Monnum tekenn er, sa verdur fyrer Mennena settur, j þeim Hlutum sem Gude til heyra. Uppa þad hann fornfære Goafur, og Helgeoffur fyrer Syndernar.

5. Sa sem samaumka kann, þeim sem fœvijser eru, og viller fara, med þvi hann er sialfur umgiefenn med Breiskleika.

6. Fyrer þad hlytur hann jafnt, lijka sem fyrer Folked, eirnenn fyrer sig sialfann ad offra fyrer Syndernar.

7. Og eingenn tekur sier sialfum þann Heidur til, helldur hann sem kalladur verdur af Gude, so sem * Aaron.

* 2 B. Mos. 28, 1.

8. So hefur Christur eirnenn ecke sig sialfann innsett j þann heidur, þad hann yrde Biskup, Helldur sa sem til hans hefur sagt,

*Þu ert minn Sonur, J Dag Ol eg þig.
*Psal. 2, 7.

9. Sem hann eirnenn enn j ødrum stad seiger, *Þu ert Eylijflega Kiennemadur, epter Skickan Melchisedech. *Ps. 110, 4.

10. Og hann hefur a Døgum sijns Hollds Bæner og Beidne, med Öslugu kalle og Taarafollum, Offrad til þans sem hønum fra Daudanum biarga kunne, og er eirnenn Bænheyrdur, fyrer þad hann vegsamade Gud.

11. Og þott hann være Guds Son, hefur þann þo, j þvi hann leid, Hlydne lært.

12. Og þa hann fullkomnadur var, er hann ordenn øllum, hvørier hønum hlydu ger eru, Orsøk eylijfrar Saaluhialpar.

13. Af Gude Biskup kalladur, epter Skickan Melchisedech.

14. Þar utaf høfdum vier margt ad seigia. Enn þad er þungt, a medan þier so (a) Skilningslauser erud.

(a) (Skilningslauser) Grofer og ofsickanleger, sem ecke kunned ad heyra nie merkia, þo ad þier hafed leinge lært.

15. Og þier sem fyrer løngu skylldud Meistarar vera, þurfed nu vid aptur, þad Menn kienne ydur þa firstu Bokstafe Gudlegs Ords, og þad vier giefum ydur (b) Miolk og øngvann Megnann Mat.

(b) (Miolk) Miolk kallar hann Løgmaalsins Lærdom, hvør ad er einn Barna Age, Enn Petur kallar Evangelium Miolk af þvi ad þad er þeß Nya Testamentesins Barna Fæda.

16. Þviad hvørium vier hliotum Miolk ad gefa, sa er oreyndur j Orde Riettlætesins, þviad hann er Ungbarn.

17. Enn hinum fullkomnum heyrer megn Matur, sem af Sidvana hafa jdkad Sinne, til fragreiningar Gods og Jlls.

## VI. Capitule.

Guds Ande (I) varar oß vid Falle fra þvi Goda; og (II) aaminner oß til Stodugl ynd es j þvi Goda.

I. Fyrer þvi vilium vier þann Lærdom af Upphafe Christelegs Lijfernes, nu kirrann laata, og til algiørfeleikßins griipa, Eige aptur ad nyu Grunndvoll leggiande, Jdrunarennar daudra Verka, um Truna a Gud.

2. Um Skijrnena og Lærdom Handa-uppaaleggingarennar, um Upprisu Framlidenna, og um þann Eylijfa Dom.

3. Og þetta vilium vier giøra, ef Gud vill annars lofa.

4. Þviad þad er omøgulegt, ad þeir sem eitt sinn upplyster eru, og smackad hafa Himneska Gaafu, og Hluttakarar eru vordner Heilags Anda.

5. Og smackad hafa hid Goda Guds Ord, og Krapt epterkomande Veralldar.

6. Ef þeir af falla (og kroßfesta sialfum sier Son Guds aptur, og hann fyrer Skimp hallda) ad þeir skylldu kunna aptur endurnyader ad verda til Yferbotar.

7. Þvi Jordenn sem Regned dreckur, þad optsinnis a hana kiemur, og hagkvæmelegar Jurter ber þeim sem hana yrkia, medtekur Bleßan af Gude.

8. Enn hun sem Þistla og Þirna ber, hun duger ecke, og er Bølvanenne nær, hvør ad sijdurstu uppbrennd verdur.

II. 9. Enn vier treystum, elskuleger, betur til ydar, og þad Saaluhialpenn naanare sie, þo ad vier tølum so.

10. Þviad Gud er ecke Rangláatur, þad hann gleyme ydar Giørninge og Kiærleikans Erfide, sem þier audsyndud j hans Nafne, þa þier þionudud Heiløgum, og enn þioned.

11. Enn vier girnunst, ad hvør eirn ydar audsyne þa somu Kostgiæfne, Vonenne fast ad hallda allt til enda.

12. Ad þier eige ostadfaster verded, helldur sieud epterfylgiarar þeirra, sem fyrer Truna og Þolenmæde Fyrerheited erfa.

13. Þvi þa Gud fyrerhiet Abraham, þa hann vid øngvann annann stærra hafde vid ad sveria, soor hann *vid sialfann sig.
*1 B. Mos. 22, 16. 17.

14. Og sagde, Sannlega vil eg bleßa og margfallda þig.

15. Og hann bar so þolennmodlega Bidlund, og odladest Fyrerheited.

16. Mennerner sveria vid einn ædra enn þeir eru, og sa Eidur giorer enda allrar þrætu, so ad trwott bliifur mille þeirra.

17. Enn þa Gud villde yfergnæfanlega audsyna Erfingium Fyrerheitesins ad sitt Road er eige ostodugt, hefur hann þar til Eid a lagt.

18. Uppa þad vier hefdum fyrer tvær Greiner, þær obifanlegar eru (þvi þad er omogulegt ad Gud liuge) orugt Traust, vier sem Adhvarf hofum, og fastlega holldum þeirre frammbodinne Von.

19. Hvoria vier hofum sem annad fast og orugt Akkere vorrar Saalar,

20. Su eirnenn inngeingur j hid innra Fortialldsins, þar ed Fyrerrennarenn er fyrer oss inngeingenn, JEsus ad Eylijfu Biskup ordenn, epter Skickan (a) Melchisedechs.

(a) (Melchisedech) Er so miked a Norrænu, sem Riettlætesins Kongur, Melchisalem merker Fridarens Kong, hviad Christur giefur Riettlæte og Frid, og hans Rijke er Riettlæte og Fridur fyrer Gude, fyrer Truna, Rom. 1. og 5.

# VII. Capitule.

Guds Aude talar (I) um Melchisedech, er var so sem Einn Skugge og Fyrermindan uppa JEsum; (II) Um þann Levitiska Kennemannskap, er var miklu Oædre en JEsu Kennemannlega Embætte.

I. Enn þesse * Melchisedech var Kongur til Salem, Kiennemadur Guds hins Hæsta, hvor Abraham j mote gieck, þann tijd hann kom aptur fra Slage Konganna, og blessade hann. * 1 B. Mos. 14, 18. etc.

2. Hvorium og so Abraham gaf Tijund af ollu sijnu Gotse. J firstu utleggst hann Kongur Riettlætesins, epter þad er hann eirnenn Kongur Salem, þad er Kongur Fridarens.

3. Utan Fodur, utan Modur, oan Slektis, hafande hvorke Upphaf Daganna, nie endalok Lijfsins, enn hann er samjafnadur Syne Guds, og bliifur Kiennemadur ad eylijfu.

II. 4. Enn giæted ad, hvorsu mikell ad hann er, hvorium Abraham sa Patriarche gaf Tijund af Herfangenu.

5. Og ad sonnu Syner Levi, þann tijd þeir medtaka Kiennemannsskapenn, hafa þeir Bodord * Tijundena inn ad taka af Folkenu, þad er af þeirra Brædrum, epter Logmaalenu, þo ad þeir somu sieu eirnenn af Abrahams Lendum komner. * 5 B. Mos. 14, 28. 29.

6. Enn hann, hvors Kinferde eige nefnt verdur medal þeirra, sa tok Tijund af Abraham, og blessade hann sem Fyrerheitenn hafde.

7. Enn oan alls Motmælis er þad so, ad þad hid Minna, verdur af hinum Ædra blessad.

8. Og hier taka Tijund daudleger Menn, enn þar vottar hann, þad hann life.

9. Og so ad seigia, Levi, sa er Tijundena medtekur, er eirnenn tijundadur fyrer Abraham.

10. Þvi hann var enn þa j Lendum Fodursins, þann tijd Melchisedech gieck honum j mote.

11. Þvi, ef ad Fullkomnan være vordenn fyrer Levitiskann Kiennemannsskap (þvi under þeim enum sama hefur Lydurenn Logmaaled medteked) hvad være þorf framar meir ad seigia, ad annar Kiennemadur skyllde þar koma epter Skickan Melchisedech, og eige epter Skickan Aarons?

12. Þvi hvar Kiennemannsskapurenn umskiptest, þar hlytur eirnenn Logmaaled um ad skiptast.

13. Þvi sa sem þetta er affagt, sa er af odru Slekte, utaf þvi sem eingenn nockurn tijma Alltarenu þionad hefur.

14. Þvi þad er þo openbert, ad vor DRottinn er komenn af Juda, til hvors Slektis Moyses hefur eckert talad af Kiennemannsskapnum.

15 Og so er þad enn liosslegra, ef ad annar Kiennemadur uppkiemur, epter Skickun Melchisedechs.

16. Sa ecke er giordur epter Logmaale lijkam-

liijkamlegs Bodords, helldur epter Krapte Oendanlegs Lijfs.

17. Pvi hann Vitnar, þu ert Kiennemadur ad eylijfu, epter Skickan Melchisedechs.

18. Pvi þar med verdur firra Logmaaled asteked, vegna þess þad var ofveikt, og ecke nytsamlegt.

19. Pvi Logmaaled kunne ecke oss fullkomna ad giora, enn þar jnnleidest ein betre Von, syrer hvoria vier naalægiunst Gud.

20. Og þar ofann a, hvad miked er, ei aan Eids, þviad hiner eru aan Eids Kiennemenn ordner.

21. Enn þesse med Eide, fyrer þann sem til hans seiger,* DRottinn soor, og þad mun ei jdra hann, Þu ert Kiennemadur ad eylijfu, epter Skickan Melchisedechs. *Psalm.110,4.

22. So nærsta miklu betra Testamentis Tilsagnare er JEsus vordenn.

23. Og hiner adrer eru marger, sem Kiennemenn urdu, fyrer þad, ad Daudenn leyfde þeim ecke ad blijfa.

24. Enn þesse, fyrer þvi hann eylijflega blijfur, þa hefur hann Oforgeingelegann Kiennemannsskap.

25. Þar fyrer kann hann og eirnen þa æ tijd Saaluholpna ad giora, sem fyrer hann koma til GUds, og hann lifer æfenlega, og bidur fyrer þeim.

26. Þviad slijkann Biskup skylldum vier hafa, sa sem være Heilagur, Saklaus, Oflecfadur, Syndugum fra skilenn, og Hærre enn ad Himenenn er.

27. Hvorium daglega eige þorf gioerest, so sem hinum odrum Biskupum, j firstu fyrer sijnar eigennlegar Synder ad Fornfæra, epter þad fyrer Folksins Synder. Þvi þad giorde hann einusinne, þa hann sialfañ sig Fornfærde.

28. Þvi þa Menn gioerer Logmaaled til Ædstu Presta, sem hafa Breiskleik, enn þetta Eidsins Ord, þad epter Logmaaled er sagt, setur Sonenn Eylijflega og Fullkomenn.

## VIII. Capitule.

GUds Ande talar (I) um viðtoku þess Nya Testamentes, og (II) um Burttekning þess Gamla Testaments.

I. 1. Þad er nu Summa a þvi sem vier um tølum, vier hofum þann Biskup sem situr til hægre Handar a Tignarstolnum a Himnum.

2. Og er Forstodumadur Heilagra Audæfa, og sannarlegrar Tialldbuodar, hvoria GUd hefur uppreist, og eingenn Madur.

3. Þviad hvor Biskup verdur tilsettur ad offra Giafer og Forner. Fyrer þvi hlytur þesse eirnenn nockud ad hafa, þad hann offre.

4. Og være hann nu a Jordu, þa være hann ei Prestur, med þvi þar eru Prestar sem epter Logmaalenu Giafer offra.

5. Hvorier ad þiona þeirre Fyrermind og Skugga Himneskra Audæfa, so sem þad GUdlega Andsvar til Moysen sagde, þa hann Tialldbuodena fullkomna skyllde, * Sia til (sagde hann) ad þu alla hlute giorer epter þeirre Lijkingu, sem þier er a Fiallenu synd.
* 2 B. Mos. 25, 40.

II. 6. Enn nu hefur hann ædra Embætte odlast, so sem sa ed betra Testamentis Medalgongu madur er, hvort eirnen a Ædra Fyrerheite stendur.

7. Þvi ef hitt firra hefde ostraffanlegt vered, þa hefde Rwms ecke leitad vered hinu odru.

8. Þvi hann straffar þa, so seigiande, * Siaed, þeir Dagar munu koma, seiger DROttinn, þad eg vil yfer Hws Israels, og yfer Hws Juda, giora eitt Nytt Testament. * Jerem. 31, 31.2c.

9. Ei epter þvi Testamente sem eg giorde vid Fedur þeirra, a þeim Deige, þa eg took j þeirra Hond, til ad wtleida þa af Egypta Lande. Þvi þeir blifu ecke j mijnu Testamente, þa villde eg og ecke akta þa, seiger DROTTINN.

10. Þviad þetta er þad Testament, þad eg vil giora Hwse Israels, epter þessa Daga, seiger DROttinn, Mitt Logmaal vil eg giefa j þeirra Hugskot, og j þeirra Hiortu vil eg þad skrifa, og eg vil þeirra GUd vera, og þeir skulu mitt Folk vera.

11. Og eige skal nockur kienna sijnum Naunga nie sijnum Brodur, og seigia, Þecktu DROTTinn, Þviad þeir skulu mig aller þeckia, j fra hinum Minnsta, til hins Stærsta.

12. Þviad eg vil Lijknsamur vera þeirra Vondsku og Syndum, og þeirra Rangslæte vil eg ecke framar j Minne leggia.

13. J þvi sem hann seiger, eitt Nytt, giorde hann þad Fyrra Gamallt. Enn hvad gamallt og alldrad er, þad er nærre sinne Endingu.

# IX. Capitule.

GUds Ande syner, ad Nya Testamented er miklu Heilagra og Vegsamlegra en Gamla Testamented.

Hid Fyrra hafde og ad sonnu sijnar Riettlætingar, GUds Þionustu, og utvortis Heilagleik.

2. Þviad hinn fremre hlutur Tialldbuudarennar var uppgiordur, j hvorium voru * Liosastikurnar, Borded, og Skodunarbrauden, og þetta kallast þad Heilaga.

2 B. Mos. 25, 23, 31.

3. Enn a bak odru Fortialldenu var Tialldbuudenn, su sem kalladest hid Allra Heilagasta, hvar ed hafde þad Gullega Reikelsiskier, og Testamentis Orkena.

4. Alla vega Gull-lagda, j hvorre var Gullkatann, sem * Himnabrauded hafde, og ** Vondur Arons, sem blomgast hafde, og Testamentis spiollden.

*2 B. Mos 16, 33. **4 B. Mos. 17, 10.

5. Enn þar uppyfer voru Cherubim Dyrdarennar, yferskyggiande Naadarstolinn, Af hvoriu nu er ecke neitt sierlegt ad seigia.

6. Pa þetta var nu so til buued, geingu Kiennemennerner jduglegana j þa fremre Tialldbuudena, og afluku GUds þionustugiordenne.

7. Enn j * hitt annad jnngieck einusinne a Arenu, alleinasta Biskupenn, ei aan Bloods, þad hann offrade fyrer sijna eigennlega, og Folksins Foavitsku. * 3 B. Mos. 16, 2. rc.

8. Þar hinn Heilage Ande med merkte, ad Vegurenn til Heilagleiksins, være þa enn ei opinberadur, a medan hid Fyrra Tialldbuudarhused stæde.

9. Hvort ed hiaut j þann sama Tijma fyrerlijking ad vera, j hvoriu Giafer og Fornfæringar offradar voru, og þo ei kunne fullkommenn ad giora epter Samvitskunne, þann sem GUds-þionustuna framde.

10. Alleinasta med Mat og Dryck, og margvijslegar Skijringar, og utvortis Helgedoma, sem allt til Tijma Betranarennar voru uppa lagdar.

Pistillenn V. Sunnud. i Fostu.

11. Enn Christur er komenn, þad hann sie Biskup epterkomande Audæfa, fyrer stærre og algiordare Tialldbuud, þa sem ecke er med Hondum giord, þad er, þa sem ecke er so byggd.

12. Ecke helldur fyrer Hafra Blood nie Kalfa, Helldur er hann fyrer sitt Eiged Blood eitt sinn jnngeingenn j hid Heilaga, og fann Eylijfa Endurlausn.

13. * Þvi ef Uxanna og Hafranna Blood, ** og Askann Kvijgunnar aadreifd, helgar hina Saurugu, til Holldsins hreinsunar.

*3 B. Mos. 16. 14, 15. ** 2 B. Mos. 19, 9. 12. 17. 18.

14. Hvorsu miklu framar mun þa Blooded Christi, sem sialfann sig hefur aan fleckunar, fyrer Heilagann Anda, GUde offrad, hreinsa vorar Samvitskur af Daudum Verkum, til ad þiona GUde Lifanda?

15. Og þar fyrer er hann eirnenn Medalgongumadur hins Nya Testamentis, so ad fyrer þann Dauda sem skiedur er til Frelsunar, ut af þeim yfertrodningum (þær sem under hinu Fyrra Testamentenu voru) þeir sem kallader voru, medtake þann fyrerheitna eylijfa Arf.]

16. Þvi hvar Testamented er, þa hlytur þar þess Daude ad skie sem Testamented giorer.

17. Þviad eitt Testament verdur stadfest fyrer Daudann, ellegar duger þad ecke, medan hann nu lifer sem þad hefur giort.

18. Hvar fyrer hid fyrra var eige aan Bloods tilskickad.

19. Þvi þann Tijd Moyses hafde uttalad ut

ut af øllum Bodordum epter Løgmaalenu, fyrer øllu Folkenu, tok hann Kalfa og Hafra Blod, med Vatne og Purpura, Ullu og Isopo, og støckte a Bokena, og allt Folked.

20. Seigiande, * Þetta Blod er þess Testamentis, hvørt GUD hefur boded ydur.

* 2 B. Mos. 24, 8.

21. Og lijka eirnenn Tialldbudena, og øll Verkfære GUDs þionustugiordarennar, aastøckte hann med Blodenu.

22. Og nærsta þvi aller hluter verda med Blode hreinsader, epter Løgmaalenu, og aan Blods vthellingar skier eingenn Fyrergiefning.

23. So hlutu nu Fyrerlijkingar Himneskra hluta, med slijku hreinsader ad verda. Enn hiner Himnesker sialfer hliota betre Forner ad hafá, enn hinar voru.

24. Þvi Christur er eige inngeingenn i þad hid Heilaga, sem med Høndum er giort (hvørt ad er riett Imind þess hins sannarlega) helldur i Himenenn sialfann, So ad hann auglystest nu fyrer GUDs Auglite fyrer oss.

25. Ecke helldur, þad hann offre sig opt, lijka so sem hiner adrer Biskupar, þeir a hvørlu Aare inngeingu i hid Heilaga, med annarlegu Blode.

26. Annars hefde hann optar hloted ad lijda, i fra Veralldar upphafe, enn nu i endalok Veralldarennar, birtest hann eitt sinn, fyrer sijna Eigenn Fornfæring, til burttoku Syndarennar.

27. Og lijka so sem þad Mønnunum er tilskickad, einusinne ad deya, og epter þad er Dømurenn, So er Christur einusinne offradur, til i burt ad taka margra Synder, Enn i annad sinn mun hann birtast utan Syndar, øllum þeim sem hans vænta til Saaluhialpar.

## X. Capitule.

GUDs Ande talar (I) um Ofullkomlegleika þeirra mørgu Forna i Gamla Testamentenu, og (II) um Fullkomlegleika Eins Offurs i þvi Nya Testamentenu, til Kroptugs Stirkleika (III) i Lijfernenu; (IV) I gegn Syndenne; og (V) i Motgange.

I. Þviad Løgmaaled hefur Skugga epterkomande Audæfa, ecke Lijkneskiuna sialfra Audæfanna. Hvørt aar hliota jafnan ad offrast sama slags Offraner, og þad kann þo ei þa sem offra, fullkomna ad giora.

2. Annars hefde Offred aflagst, hefdu þeir sem i GUDs þionustugiørd voru, ongva Samvitsku framar meir haft af Syndenne, þa þeir voru eitt sinn hreinsader.

3. Helldur skier ad eins fyrer þad, Minning Syndanna hvørt aar.

4. Þviad þad er omøgulegt, fyrer Uxa og Hafra Blod, Synder i burt ad taka.

II. 5. Fyrer þvi, sem hann kiemur i Veralldena, seiger hann, * Offran og Forner villder þu eige, enn Lijkamann tilreidder þu mier.

* Psalm. 40, 7. etc.

6. Brenneforner og Synda-Offur þocknast þier ecke.

7. Þa sagde eg, Sia, Ad eg kiem, first i Bokenne er skrifad af mier, þad eg skule giora GUD þinn Vilia.

8. Enn þar fyrer ofann sem hann sagde, Offraner og Gaafur, Brenneforner og Synda Offur villder þu ei, þær þocknudust þier og ecke (hvøriar epter Løgmaalenu offradar verda).

9. Þa sagde hann, Sia, Eg kiem, ad giora, Gud, þinn vilia. Þar burt tekur hann hid firra, so ad hann innsetie hid annad.

III. 10. I hvørium vilia þad vier erum helgader, einusinne skiednum, fyrer Offran Lijkama JEsu Christi.

11. Og hvør eirn Kiennemadur er til settur, þad hann GUDs þionustugiørd daglega ræke, og optlega sama slags Offraner giøre, hvøriar alldrei kunna Syndernar af ad taka.

12. Enn þesse, þa hann hafde offrad eirne Forn fyrer Syndernar, hvør ed æfenlega gillder, * situr hann nu til hægre Handar GUDs.

* Psalm. 110, 1.

13. Og epterbijdur framvegis, þar til hans Oviner verda lagder til Skarar hans Foota.

14. Þviad med eirnre offran hefur hann ad eylijfu fullkomna giort, þa sem helgader verda.

15. Enn

15. Enn þad vitnar oss eirnen Heilagur Ande, þvi epter þvi hann ꝏdur fyrre hafde sagt.

16. * Þetta er þad Testament sem eg vil þeim giora, epter þessa Daga, seiger Drottinn, Mijn Log vil eg giefa j þeirra Hiortu, og j þeirra Hugskotum vil eg þau skrifa.

* Jer. 31. 33, 34.

17. Og þeirra Synder og Ranglæte vil eg ecke meir j Minne leggia.

18. Og hvar þesse hin sama Fyrergiefning er, þar er eingenn Offran meir fyrer Syndernar.

19. First vier hofum nu þa, kiæver Bræ- dur, Diorfungena til inngangs j hid Heilaga, fyrer Bloded JEsu.

20. Hvørn hann vijgde oss nyann og lifande Veg fyrer Fortialded, þad er fyrer sitt Holld.

21. Og vier hofum eirn Ædsta Prest yfer GUds Hwse.

22. Þa lꝏtum oss þar framm ad ganga med sannarlegu Hiarta, j algiordre Tru, yf- erdreifder j vorum Hiortum, og vidskila vid vonda Samvitsku, og þvegner a Lijkamanum, med hreinu Vatne.

23. Og lꝏtum oss hallda vidurkienningu Vonarennar, og vera ecke Ostadfasta (þviad hann er tryggur sa þvi hefur fyrerheited.)

IV. 24. Og lꝏtum oss athuga oss sialfa jnn- byrdis, med ꝏsysingu til Kiærleiksins og goo- dra Verka.

25. Og eige forlꝏta vorn Sofnud, so sem sumra er Sidur, helldur ad ꝏminna hvor an- nann, og þad þvi miklu framar, so miklu, sem þier siaaed ad Dagurenn er nær.

26. Þvi ef vier motþroanlega Synder drygium, epter þad vier hofum medteked Vi- durkienning Sannleiksins, þa hofum vier on- gva adra Offran framarmeir fyrer Synder- nar.

27. Helldur hrædelegt epterbid Domsins og þess Vanlætingarsama Ellds, sem Mot- standarana svelgia mun.

28. Þegar nockur brytur Moyses Logmꝏl, sa hlytur ad deya utan Miskunsemdar, * fyrer tveggia edur þriggia vitnan.

* 5 B. Mos 17, 6. c. 19, 15.

29. Hvorsu miklu verra straff meined þier sa mune verdskullda sem Son Guds med Fotum tredur, og Testamentis Bloded saurugt reiknar, fyrer hvort ad hann er helgadur, og svijvirder Naadarennar Anda?

30. Þviad vier vitum þann sem seiger, *Mijn er Hefndenn, Eg vil aptur giallda, seiger DRottinn. Og enn annad sinn, DRottinn mun dæma Folk sitt. * 5 B. Mos. 32, 35. Syr. 28, 1.

31. Hrædelegt er ad falla j Hendur Lifanda Guds.

V. 32. Legged j minne þa enu fyrre Daga, a hvorium þier upplystust, og lidud stort Kvalanna strijd.

33. Nockurn part, þad þier sialfer fyrer forsmꝏn og Hormungar erud ordner ad bys- num, og nockurn part, ad þier hafed Lagsmenn vered þeirra, sem so hefur geinged.

34. Þvi þier hofdud sampijning med mij- num Bondum, og Ran ydvarra Andæfa med Fagnade umlidud, vitande ydur ad ha- fa hia sialfum ydur adrar betre og blijfanle- gre Eigur a Himnum.

35. (a) Kasted ecke i burt ydar Trauste, hvort ad miked Verdkaup hefur.

(a) (Kasted ecke) Sleped henne ecke uti Vind.

36. Enn Þolennmæde er ydur naudsyn- leg, so ad þier giored Guds Vilia, og medta- ked Fyrerheited.

37. Þviad enn nu jnnan skams tijma mun koma sa ed koma skal, og mun eige seinka.

38. Enn * sa Riettlꝏte mun af Trunne lifa. Enn hvor sem (b) fra vijkur, a þeim mun Saala mijn hafa ongva þocknann.

* Hab. 2, 4.

(b) (Fravijkur) Sa sem ecke vill stadnæmast, og bijda Strijdsins, helldur snyr aptur a Bak, og leynest j burt.

39. Enn vier erum ecke af þeim sem vikia og fyrerdæmder verda, helldur af þeim sem trua, og Saalenne biarga.

# XI. Capitule.

Guds Ande talar um Krapt og Verkun Truarennar (I) fra Skopun Heimsins til Abraham; (II) Fra Abraham til Moses; (III) Fra Moses til Utfararennar af Egyptalande; (IV) Fra Utforenne af Egyptalande til a Dogum Domaranna, Konunganna, og Spaamannanna.

I. Enn Truenn, er Orugt Traust þeirra hluta sem Madur vonar, og efar ei um þad sem hann sier ecke.

2. Fyrer hana feingu hiner Gomlu Vitnisburdenn.

3. Fyrer Truna underſtondum vier Heimenn (a) giordann vera, fyrer Guds Ord, og allt þad hvad ſynelegt er, * er orded af ongvu.

(a). (Giordann) þad er, Hann er komenn j sitt lag, so ad hann geingur og stendur epter Guds Orde Oasſaanlega, aan hindrunar, og giefur ecke upp.

* 1 B. Mos. 1, 1.

4. Fyrer Truna hefur * Abel Gude meire offran giort enn Cain, fyrer hvoria hann hefur Vitnisburdenn feinged, þad hann Riettlaatur sie, þa Gud gaf vitnan af hans giøfum, Og fyrer hann talar hann, enn þo hann sie laatenn. * 1 B. Mos. 4, 4.

5. Fyrer Truna vard * Enoch burt numenn, ad hann sæe ei Daudann, og vard eige fundenn, af þvi þad Gud tok hann a burt. Þvi aadur fyrre, enn hann var j burt numenn, hefur hann Vitnisburdenn haft, þad hann þocknadest Gude. * 1 B. Mos. 5, 24.

6. Enn aan Truarennar er Omøgulegt Gude ad þocknast. Þvi hvør hann vill koma til Guds, ſa hlytur ad trua þad, ad hann sie, og þad hann mune Endurgialldare verda, þeirra sem hans leita.

7. Fyrer Truna hefur * Noe vegsamad Gud, og Orkena tilbwed, til Hiaalpрædis sijnu Hwse, þa hann medtok Gudlega Bisalning, um þad hvad Menn enn þa ecke saau, Fyrer hvoria (Ork) hann Verolldena fordæmde, og er Erfinge ordenn þeß Riettlætis sem fyrer Truna kiemur. * 1 B. Mos. 6, 8.

II. 8. Fyrer Truna vard Abraham * hlydenn, þa hann kalladur var ut ad ganga, j þad Land, sem hann erfa ſkyllde, Og hann gieck ut, og visse ei hvert hann munde koma.

* 1 B. Mos. 12, 4.

9. Fyrer Truna var hann framande a þvi Fyrerheitna Landenu, so sem a annarlegu, og bio j Tialldbwd, med Isaac og Jacob, sem voru Medersingiar sama Fyrerheitis.

10. Þvi hann vonade uppa þa Borgena, sem Grundvollenn hefur, hvorrar uppbyggingar Meistare og Skapare er Gud.

11. Fyrer Truna medtok og so Sara Krapt, þad hun vard * frioſſom, og fædde, framm yfer Tijma hennar Alldurs. þviad hun hiellt hann Trufastann, sem hafde þvi lofad.

* 1 B. Mos. 21, 2.

12. Fyrer hvad ad marger eru upprunner af einum, þo ad dauens Lijkama være, lijka sem * Stiornur Himens, og so sem Sandur vid Siaafarstrondu, sem otelianlegur er.

* 1 B. Mos. 15, 5.

13. Þesser aller eru j Trunne under Lok lidner, og hafa ei Fyrerheited medteked, helldur af Fiarska til þeß sied, og hafa sig þar vid huggad, og sier nægia laated, og vidurkiennt þad þeir være a Jordu Giester og Utlender.

14. Þviad þeir sem þetta seigia, þeir giefa til ad ſkilia, þad þeir epter einu Fodurlande leite.

15. Og ad sonnu, ef þeir hefdu meint þad, fra hvoriu þeir voru utfarner, hefdu þeir nogann tijma haft aptur ad snua.

16. Enn nu agrnтust þeir annad betra, þad er þad Himneſka. Fyrer þvi ovirdtest ecke Gud, ad nefnast * þeirra Gud. Þvi hann hefur þeim eina Borg fyrerbwed.

* 2 B. Mos. 3, 6.

17. Fyrer Truna * Fornfærde Abraham Isaac, þa hann vard freistadur, og frammgaf hinn Eingietna, þa hann nu hafde Fyrerheited medteked. * 1 B. Mos. 22, 1. etc.

18. Utaf hvorium sagt var, J Isaac ſkal þier þitt Sæde kallad verda.

19. Og

19. Og hann þeinkte, þad Gud kynne og so vel af Dauda upp ad vekia, hvar fyrer hann eirnenn tok hann til Fyrermindunar aptur.

20. Fyrer Truna * blessade Isaac, af þvi hvad epterkomande var, Jacob og Esau.
* 1 B. Mos. 27, 27. 39.

21. Fyrer Truna * blessade Jacob, þa hann deyde, baada Sonu Josephs, og giorde lotning fyrer Toppnum a hans Velldisssprota.
* 1 B. Mos. 48, 15. 16.

22. Fyrer Truna talade Joseph um utgaungu * Israels Barna, þa hann deyde, og Bifalning giörde um sijn Bein.
* 1 B. Mos. 50, 2.

III. 23. Fyrer Truna vard Moyses, þa hann var fæddur, j þria Manude * falenn af sijnum Forelldrum, fyrer þad þau seau, ad hann var ægiætlegt Barn, og hræddust ei Kongsins Bifalning. * 2 B. Mos. 2, 2.

24. Fyrer Truna villde * Moyses ecke leingur, þa hann giördest stor, kallast Dottursou Pharaonis. * 2 B. Mos. 2, 11. 12.

25. Og kiore miklu helldur, med Folke Guds, Omak ad þola, enn ad hafa stundlegt Epterlæte Syndarennar.

26. Og hiellt Vanvirding Christi, fyrer stærra Rijkdom, Enn Egypti Fiesiodu, þviad hann leit a Launenn.

27. Fyrer Truna * forliet hann Egyptaland, og ottadest ecke Kongsins Grimd, þviad hann hiellt sig ad þeim, hvorn hann sæ ecke, lijka so sem ad hann sæe hann.
* 2 B. Mos. 2, 15.

28. Fyrer Truna * hiellt hann Paaskena og Blods uthellingena, uppa þad, ad eg. snerte þa sa sem Frumburdena drap.
* 2 B. Mos. 12, 18. etc.

IV. 29. Fyrer Truna * geingu þeir j gieguum Hafed Rauda, so sem um Þurrlende, hvors eirnenn hiner Egyptsku freistudu, og dreckstust.
* 2 B. Mos. 14, 22. etc.

30. Fyrer Truna * nidurhrundu Muorvegger Jericho, þa er þeir hofdu j siö Daga um kring hana geinged. * Jos. 6, 20.

31. Fyrer Truna vard * Rahab su Hoorkona ei fortopud med Vantruudum, þa hun medtook þa Niosnarmenn vinsamlega.
* Jos. 2, 19. c. 6, 17. 22.

32. Og hvad skal eg meir seigia? Tijmenn verdur mier ofstuttur, nær eg skyllde frammþylia, af * Gedeon, og ** Barach, og † Samson, og †† Jephthe, og * David, og ** Samuel, og Spaamonnunum. * Dom. 7, 19. ** Dom. B. 4, 6. † Dom. B. 15, 20 †† Dom. B. 11, 6. 9. * 2 Sam. 2, 4. ** 1 Sam. 7, 10.

33. Hvorier ed hafa fyrer Truna, Kongarijkenn yferunned, Riettlæted verkad, Fyrerheitenn odlast, Leona Munnana til-byrgt.

34. Elldsins megn utslockt, Sverdsins Eggiar umflyd, Kroptuger orded af (b) Breiskleikanum, Ofluger giorst j Strijdenu, Annarlegra Herbwodum umvellt.

(b) (Breiskleikanum) þeir eru ordner Kroptuger þeirra Kvolum, 2 Cor. 12. Cap. Minn Kraptur er sterkur j þeim veiku.

35. Kvinnurnar hafa sijna Frammlidna af Upprisunne aptur teked. Enn hiner adrer eru Lemstrader, og hafa öngva Frelsan medteked, So ad þeir odludust hina betre Upprisuna.

36. Sumer hafa Haadung og Hwdstrokur lided, þar ofan a Bond og Fiotraner.

37. Þeir eru Steinum grytter, Skammhoggner, j giegnum stungner, fyrer Sverde vegner. Þeir ed um hafa fared j Saudafelldum og Geitskinnum, med Eymdum, med Harmkvælum, med Omake.

38. Hvorra Heimurenn var ecke verdugur, hafa j Eymd geinged a Eydemorkum, a Fiollum, j Giaam og Hellrum Jardarennar.

39. Þesser aller feingu Vitnisburdenn fyrer Truna, og hafa ecke medteked Fyrerheited.

40. Fyrer þvi, þad Gud hefur eitthvad betra ædur til forna um oss fyrerhugad, so ad þeir fyrer utan oss yrde ecke fullkomner giorder.

# XII. Capitule.

Guds Aude bijdur oss ad elska og stunda (I) Polennmæde, og (II) Guds-Otta.

I. Fyrer þvi eirnenn vier, med þvi vier hofum slijkann Hoop Vottanna umkring oss, þa loatum oss afleggia Syndena, þa oss jafnan vid loder og letur, og loatum oss hlaupa fyrer Polennmæde, j þa Orustu, sem oss er tilskickud.

2. Og lyta til JEsum þess Uppbi iara, og Fullkomnara Truarennar, hvor ed þann tijd hann hefde vel moatt hafa Fognud, þolde hann Krossenn, og aktade Forsmoanena ecke, og sette sig til Hægre Handar, uppa Guds Stole.

3. Minnest a þann sem þvilijk motmæle j giegn sier af Syndurunum þolde, so ad þier þreytest ecke, og uppgiefest j ydar Hugskotum.

4. Þvi þier hafed enn ei allt til Bloodsins motstaded j Strijdenu, mote Syndenne.

5. Og hafed nu þegar gleymt þvi Truuadartrauste, sem til ydar seiger, so sem til Barnanna, * Son minn, vird ei lijtils Typtan DRottins, og orvinlast ei þa þu verdur af honum straffadur. * Ordskv. B. 3, 11. 12.

6. Þviad hvorn ed DRottinn elskar, þann agar hann, Enn hvorn þann Son sem hann ad sier tekur, þann stryker hann.

7. Ef þier Typtunena þoled, þa frammbydur Gud sig ydur sem Bornum, þvi hvor Sonur er sa, þann er Faderenn typtar eige?

8. Enn ef ad þier erud oan Typtunar, hvorrar hiner aller eru hluttakarar vordner, þa erud þier Hioaborn, enn ecke Born.

9. Og ef vier hofum haft vora Lijkamlega Fedur, til Typtunarmanna, og þa hrædst, skylldum vier þa ecke miklu meir undergiefner vera hinum Andlega Fodur, so ad vier lifum?

10. Og hiner hafa sennelega foaeina Daga oss agad, epter sijnum Giedþotta, Enn þesse til Nytsemdar, so ad vier odlunst hans Helgun.

11. Enn oll Typtan, nær hun oaliggur, þa þyker oss hun eingenn Glede, helldur Hriggd vera. Enn epteroa mun hun giefa Fridsamlegann Avoxt Riettlætesins, þeim sem þar uti jdkader eru.

12. Fyrer þvi upphefied aptur tregar Hendur og hin þreyttu Knie.

13. Og giored Riettann goang med ydrum Footum, so ad eingenn hrase, lijka sem sa er halltrar, helldur miklu framar verde heilbrigdur.

II. 14. Epterfilged Fridnum vid hvorn Mann, og Helgunenne, oan hvorrar þad eingen kann, DRottinn ad sia.

15. Siaed og so til, þad eingenn forsome Guds Nead, so ad þad eingenn Beiske-Root nockurstadar upp sprette, og Ofrid giore, og þad marger fyrer þa somu saurgader verde.

16. Ad þar sie eingenn Frillulijfis Madur, edur Ogudlegur sem Esau, * sa sem ad fyrer Matar saker, sellde sijna Frumgietuing.
* 1 B. Mos. 25, 33. 34.

17. Og vired, ad hann þar eptera, þa hann Blessunena erfa villde, er hann * votskufadur, þviad hann fann eckert Rwm Jdrunarennar, þott hann hennar med groatande Tarum leitade. * 1 B. Mos. 27, 34. etc.

18. Þviad þier erud ecke geingner til þess * Fialls sem þreifanlegt er, og med Ellde brennur, nie til Þoku eda Mirkurs, og Ovedurs. * 1 B. Mos. 19, 12.

19. Og ei til Lwdrarþyts, og til Raddar Ordanna, * vid hvorre þeir ottudust sem hana heyrdu, þad eige yrde til þeirra Orded talad.
* 2 B. Mos. 20, 19.

20. (Þviad þeir kunnu eige þad ad standast, hvad þar var sagt. Og ef og so Dyr snart Fialled, þa skyllde þad Steinum grytast, eda med Skeyte j Helskoted verda.

21. Og so Ogurleg var su Syn, þad Moyses sagde, Eg em ottasleigenn og skielfdur.)

22. Helldur erud þier komner til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds Lifanda, til Himneskrar Jerusalem, og til Margfiolda margra Þusunda Eingla. 23. Og

23. Og til Samkundu þeirra Frumgietnu, hvorier a Himnum uppſkrifader eru, og til Guds allra Domara, og til Andanna algiorfelegra Riettlaatra.

24. Og til Medalgaangara hins Nya Teſtamentis JEſu, og til Blodſins yferdreyfingar, þad betur talar enn * Abels.

*1 B. Moſ. 4, 10.

25. Siaed til, ad þier aneſt ecke vid þeim ſem vid ydur talar. Þvi ef hiner eru ei umflyder, ſem mootſtoodu, þa hann a Jordu talade, miklu midur þa vier, ef vier mootſtondum þeim ſem af Himnum talar.

26. Hvørs Rødd þann Tijma Jordena biſade, enn nu heiter hann fyrer og ſeiger, * Enn eitt ſinn mun eg hræra ei alleinaſta Jordena, helldur eirnen Himenenn.

* Hagg. 2, 7.

27. Enn ſoddan, Enn eitt ſinn, merker, Ad þad hid hræranlega, ſkal umſkiptelegt verda, lijka ſem annad (a) Smijde, ſo ad þad, hvad ohræranlegt er, ſtodugt blijfe.

(a) (Smijde) Hann meinar Moſis Tialldbud, ſem giørd var med Hondum.

28. Hvar fyrer, med þvi vier medtokum þa ohræranlegt Rijke, þa hofum vier Naadena, fyrer hvoria vier ſkulum Gllde þiona, honum til þocknunar, med Sidſeme og Hrædſlu, Þviad * vor Glld er Eydande Elldur.

* 5 B. Moſ. 4. 24.

# XIII. Capitule.

Glls Ande ſkipar oſs (I) ad lifa Gudrækelega; og (II) ad hallda vid þa Saaluhiaalplegu Kenning um JEſum.

I. Vered ſtoduger j Brodurlegum Kiærleika.

2. Geſtriſnenne forgleymed ecke, Þviad fyrer hana hafa nockrer, þeim ovitande, * Einglunum Herberge veitt.

* 1 B. Moſ 18, 3 ꝛc. c. 19, 2. 3.

3. Minneſt Bandingianna, lijka ſem adrer Sambandingiar, og þeirra ſem Motgongu lijda, ſo ſem þier ed enn nu lifed j Lijkamanum.

4. Hiuſkapurenn ſkal heidarlegur halldenn vera hia ollum, og Hionabandsſængenn oflecked. Enn Frillulijfis menn og Hoorunar menn mun Glld Dæma.

5. Ydart Frammferde ſie oan Agyrne, og laated ydur þad nægia ſem j naand er, þviad hann hefur ſagt, * Eg vil ecke yfergiefa þig nie forſoma. * Joſ. 1, 5.

6. So ad vier dyrfunſt ad ſeigia, * Drottinn er minn Hiaalpare, eg vil eige ottaſt, Hvad ſkyllde eirn Madur mier giora?

* Pſalm. 56. 12. og 118, 6.

II. 7. Þeinked a ydra Læreſedur, þeir ed Glds Ord hafa ſagt ydur, hvorra Aefelokum þa adhygged, og epterfilged þeirra Tru.

8. JEſus Chriſtus, j Giær og j Dag, og eirnenn hinn Same ad Eylijfu. Laated eige umhvirfla ydur med margvijſlegum og framande Lærdomum.

9. Þviad þad er aagiætlegur hlutur ad Hiartad er ſtadfaſt, hvad ad ſkiedur fyrer Naadena, eige fyrer (a) Fædſluna, hvar utaf ongva nytſemd hafa þeir ſem þar med (b) umgangaſt.

(a) (Fædſluna) þad er, fyrer Mannana Løgmaal, ſem kienna um Mat og Klæde, og ecke um Truna.
(b) (Umgangaſt) þad er, villa þiona Glde þar med.

10. Vier hofum eitt Alltare, hvar af þeir ſem Tialldbvodenne þiena, hafa eckert valld til af ad eta.

11. Þvi hvorra Dyra * Blood ſem jnnbored verdur af Edſta Kennemannenum, j hid Heilaga fyrer Synndernar, þeirra ſomu Hræ verda uppbrennd utann Herbvodanna.

* 3 B. Moſ. 4, 5. c. 6, 30. c. 16, 27.

12. Fyrer þvi hefur eirnenn JEſus, uppa þad hann helgade Folked fyrer ſitt eiged Blod, utann Borgarhlids lided.

13. Þvi laatum oſs ut ganga til hans ut yfer Herbvodernar, og bera hans Vanvirding.

14 Þviad vier hofum hier ongvann blijfanlegann ſamaſtad, helldur leitum vier hins tilkomanda.

15. Þvi laatum oſs nu offra fyrer hann * Lofgiordar Offre, Glde alla Tijma, þad er Avoxt Varanna, ſem vidurkienna hans Nafn.

* Hoſ. 14, 2.

16. Gott ad giora, og med adskipta þa forgleymed ecke, Þviad slijk Offur þocknast GUde vel.

17. Hlijded ydrum Kiennefedrum og filged þeim, þviad þeir vaka yfer ydrum Saalum, lijka sem þeir ed Reikningskap þar fyrer giora skulu, so ad þeir giore þad med Glede, enn ecke med Andvarpan, þviad þad er ydur ecke gott.

18. Bidied fyrer oss. Vort Traust er þad, ad vier høfum goda Samvitsku, og kostgiæfum goda Umgeingne ad hafa hia øllum.

19. Enn eg meir enn beide ydur þar til, þvilijkt ad giora, uppa þad eg kiæmest hid allra firsta aptur til ydar.

20. Enn GUd Fridarens, sa sem ut hefur leidt j fra Daudum hinn Mikla Hyrder Saudanna, fyrer Bloded þess Eylijfa Testamentis, vorn DROTTinn JEsum Christum.

21. Hann giøre ydur tilbwna j øllu goodu Verke, til ad giora hans Vilia, og efle þad med ydur, hvad fyrer honum þacknæmt er fyrer JEsum Christum, hvorium ad sie Dyrd, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.

22. Eg aaminne ydur, Kiærer Brædur, halldeð nier þad aaminningar Ord til goda, þad eg hefe stuttlega skrifad ydur.

23. Vited þad, ad sa Broder Timotheus er laus aptur, med hvorium ef hann skiotlega kiemur, eg vil sia ydur.

24. Heilsed øllum ydar Lærurum, med øllum Heiløgum. Ydur heilsa Bræburner af Vallande.

25. Naadenn sie med ydur øllum, Amen.

Skrifadur vor Vallande med Timotheo.

# S. Jacobs Pistill.

## I. Capitule.

Jacob. talar (I) um Þolennmæde i Freistingunum; (II) um Retta Þeckíng a þeim.

I. Jacob, Þion GUds og DROttins JEsu Christi. Þeim Tolf Kinkvijslum, sem sundur dreifdar eru hier og þar, seigest Kiærleg Heilsun.

2. Brædur mijner elskanleger, reikned þad fyrer allann Fognud, nær þier j margvijslegar Freistingar falled.

3. Og vited, þad ydar Tru verkar Þolennmæde.

4. Enn Þolennmædenn mun stadføst blijfa, allt til ènda, so ad þier sieud fullkomner, og algiorder, og j øngvu brest hafed.

5. Og ef einhvorn ydar vantar Vijsdom, hann bidie af GUde, sa er einfalldlega giefur hvorium Manne, og bregdur þar øngvum um, So mun hønum hann giefast.

6. Enn hann bidie j Trunne, og efe ecke, Þviad sa sem efablandenn er, hann er lijka sem Sioafarbylgia, su er af Vinde verdur drifenn og uppæst.

7. Þvilijkur Madur þeinke ecke, þad hann mune af DROTTne nockud ødlast.

8. (a) Efablandenn Madur er ostødugur j øllum sijnum Vegum.

(a) (Efablandenn) Sa ecke er stadfastur j Trunne uppbiriar miked og a margann hatt, og stendur þo ecke fast þar a, 2 Tim. 3. Þeir læra ætijd, og koma þo alldrei til Sannleiksins Kynningar.

9. Enn sa Broder sem lijtelæckadur er, hann hroose sier j sinne Upphafningu.

10. Og hann sem rijkur er, hann hroose sier j sinne Lijtelægingu, þvi lijka sem Blomstur Grassens mun hann forganga.

11. Solenn uppgeingur med hita, þa skrælest Grased, og Blomstred fellur, og þess fagra àalit fordiarfast, Lijka so mun sa Rijke a sinum Vegum uppþorna.

12. Sæll er sa Madur sem Freistingena lijdur, þvi epter þad hann er reyndur, mun hann

hann odlast Lijffins Koronu, hvorre Gud hefur fyrerheited þeim sem hann elska.

11. 13 Eingenn seige, nær hann freistast, þad hann af Gude freistadur verde, þviad Gud er eingenn Freistare til hins vonda, og einskis freistar hann.

14. Helldur freistast hvor eirn, nær hann tilteygest af sinne eigenn Gyrnd, og lockadur verdur.

15. Og sijdan þad Gyrndenn hefur gieted, fæder hun Syndena, Enn nær Syndenn er fullkomnud, fæder hun Daudann.

Pistillenn IV. Sunnud. epter Paaska.

16. Villest eige, Kiærer Brædur.

17. Øll god Giof, og øll fullkomenn Giof, kiemur ad ofann fra Fodurnum Liossens, j hia hvorium er eingenn Umskipting, nie Byting Liossens og Mirkursins.

18. Hann hefur oss fædt epter sinne Villd, fyrer Sannleikssins Ord, Uppa þad vier værum Frumburder hans Skiepnu.

19. Fyrer þvi, Kiærer Brædur, sie hvor Madur fliotur ad heyra, enn tregur ad tala, og til Reide tregur.

20. Þviad Mannsins Reide giorer þad eige, hvad fyrer Gude Riettferdugt er.

21. Þar fyrer aflegged allann Óhreinleik og Illsku, og medtaked Ordet med Hogvære, þad j ydar er grodursett, hvad er kann ydar Saaler hiaalplegar ad giora.]

Pistillenn V. Sunnud. epter Paaska.

22. Vered og eirnenn Giorendur Ordsins, enn eige alleinasta Tilheyrendur, hvar þier siaalfa ydur med a taalar draged.

23. Þvi ef einhvor er Ordsins Tilheyrare og ecke giorare, sa er lijkur þeim Manne sem sijna lijkamlega Asionu j Speigle skodar.

24. Þvi epter þad hann hefur skodad sig, jafnskiott geingur hann burt þadann, og gleymer hvornenn hans yferlitur var.

25. Enn hvor j giegnum skodar hid algiorda Logmaal Frelsesins, og stadnæmest þar jnne, og er ecke Forgleymannlegur Heyrare, helldur giorer þar epter, sa same mun hiaalplegur vera j sijnu Verke.

26. Enn ef einhvor a medal ydar lætur sier þykia, þad hann þione Gude, og temur eige sijna Tungu, helldur forviller sitt Hiarta, þess Guds þionusta er Hiegomleg.

27. Ein Skiær og Ofleckud Guds þionusta fyrer Gude Fodur, er ad vitia Fodurlausra og Ekkna, j þeirra Hormungum, og sig Oflecka dann fra Heimenum ad vardveita.]

## II. Capitule.

Jacobus talar (I) um Manngreinar aalit, og (II) um Munn-Christna.

1. Kiærer Brædur, þier skulud ei meina, þad Truenn a JEsum Christum vorn DROttinn Dyrdarfulla, lijde Manngreinar aalit.

2. Þvi, ef ad j ydra Samkundu jnngeingur Madur, berande Gullbaug, og j kostulegum Klædum, Enn þar kiæme og eirnenn eirn Faatækur j ohreinum Klædnadi.

3. Og þier sæud a þann sem kostulegann Klædnad bære, og segdud til hans, Sit þu hier j godum Sesse, Og til hins Faatæka segdud, stattu þarna, eda set þig hier hia Fotum mijnum.

4. Giored þier þa ecke greinarmun med sialfum ydur, og verded Domarar, j þvi þier giored vondann greinarmum.

5. Heyred til Brædur mijner elskuleger, Hefur Gud ecke utvaled Faatæka þessarar Veralldar, þa j Trunne rijker eru, og Erfingiar Rijkesins, hvoriu hann hefur fyrerheited þeim sem hann elska?

6. Enn þier hafed vanheidrad hina Faatæku. Eru hiner Rijku ecke þeir sem med yfer-gange nidurþrickia ydur, og þeir ed framdraga ydur fyrer Dom?

7. Hæda þeir ecke þad hid Goda Nafn, sem þier erud af kallader?

8. Og ef þier fullkomned þad Konunglega Logmaal epter Ritningunum, * þad, Elska þu Naunga

Naunga þinn sem sialfann þig, þa giored þier vel. *3 B. Mos. 19, 18.

9. Enn ef þier hafed Manngreinaraalit, þa drygied þier Synd, og verded aavijtader af Logmaalenu, so sem Yfertrodslumenn.

10. Þvi þo ad einhvor hiellde allt Logmaaled, og brotlegur yrde j einu, þa er hann þegar alls þess sekur.

11. Þvi hann sem sagt hefur, Ei skalltu Hoor drygia, sa hefur eirnenn sagt, Eige skalltu ihelslaa. Þott þu dryger nu ecke Hoor, enn ihel slær, þa ertu Yfertrodslumadur Logmaalsins.

12. Lijka so taled, og so giored, sem ad þeir er fyrer Logmaal Frelsesins dæmder verda.

13. Enn þar mun Omiskunsamur Domur yfer þann ganga, sem ongva Miskunseme hefur giorda, og Miskunenn hun hrosar sier j mote Domenum.

II. 14. Hvad stodar þad, Kiærer Brædur, þott einhvor seige, hann hafe Truna, og hefur ei Verkenn? Gietur Truann giort hann hialplegann?

15. Enn ef nockur Broder eda Syster være nakenn, og þorf hefde daglegrar Næringar.

16. Og einhvor ydar seige til þeirra, Fared j Fride, giored ydur heitt, og metted ydur, enn giefed þeim eckert, hvad þeirra Lijkamans Naudþurft er, Hvad hiaalpar þeim þad?

17. So og lijka Truann, nær ed hun hefur eingenn Verk, þa er hun Daud j sialfre sier.

18. Enn þar mætte einhvor seigia, þu hefur Truna, og eg hefe Verkenn, syn þu mier Tru þijna ut af Verkum þijnum, og mun eg syna þier mijna Tru af mijnum Verkum.

19. Þu truer ad þar sie einungis eirn GUd? þad giorer þu vel, Dioflarner trua þvi eirnenn, og eru skelfder.

20. Enn villtu vita, þu Hiegoma madur, þad Truann aan Verkanna sie daud?

21. Er eige *Abraham Fader vor, af Verkunum Riettlaatur ordenn, þa hann offrade Syne sijnum Isaac yfer Alltared?
* 1 B. Mos. 22, 1. rc.

22. Þar sier þu, ad Truann hefur samverkad hans Giordum, og fyrer Verkenn er Truenn fullkomleg ordenn.

23. Og Ritningenn er uppfylld, sem ad seiger, *Abraham trude GUde, og þad er honum taled til Riettlætis, og er GUds Vin kalladur. *1 B. Mos. 15, 6.

24. So siaed þier nu, þad Madurenn verdur fyrer Verkenn Riettlaatur, og ei alleinasta fyrer Truna.

25. So og eirnenn Portkonann *Rahab, Er hun ecke af Verkunum Riettlaat ordenn, þa hun medtok Sendebodana, og liet þa um annann Veg ut fara? *Jos. 2, 1. rc.

26. Þvi lijka sem Lijkamenn er aan Andans daudur, so er og eirnenn Truann aan Verkanna Daud.

## III. Capitule.

*Jacob bijdur, ad vier skulum bruka Tungu vora GUde til Dijrdar og Naunganum til Nytsemdar.*

Dyrfest ecke Brædur mijner, hvor Madur Læremeistare ad vera, og vited, þad vier munum þess meire Dom faa.

2. Þvi aller vier briotum margfalldlega. Enn hvor hann verdur ei brotlegur j nockru Orde, sa er algiordur Madur, og kann eirnenn ollum Lijkamanum j taume ad hallda.

3. Siaed, þad vier holldum Hestum j Taume, so ad þeir hlijde oss, og stiornum ollum þeirra Lijkama.

4. Siaed Skipenn, þo ad þau sieu stor, og verde af megnum Vinde rekenn, þa verdur þeim þo stiornad af litlu Stijre, hvert sem sa vill er stijrer.

5. So er og eirnenn Tungann lijtell Limur, og af stad kiemur þo storum Hlutum. Siaed eirn lijtenn Elld, hversu mikenn Skog kann hann upp ad brenna?

6. Tungann er eirnenn Elldur, Verolld full Ranglætis, so er Tungann a medal vorra Lima, og fleckar allann Lijkamann, og uppkveiker alla vora umgeingne, nær hun af Helvijte upptendrud er.

7. Þviad

7. Þviad allar Náttúrur Dyra og Fugla og Höggorma, og Siö-Skrimslanna verda Tamdar og eru tamdar af Mannlegre Náttúru.

8. Enn Tunguna gietur eingenn Manna tamed, hid Ospakláta Illt, fullt daudlegs Eiturs.

9. Med henne dyrdkum vier Gud Fodur, og med henne formælum vier Mönnunum epter Guds Mind giordum.

10. Af hinum sama Munne framgeingur Blessan og Bölvan. Þad skal eige so vera, kiærer Brædur.

11. Utveller nockud Brunnurenn af samre uppráas, sætu og beisku?

12. Gietur nockud, Kiærer Brædur, eitt Fikiu trie bored Vidsmiörs avoxt, Eda Vijnvidur Fikiur? Lijka so kann ecke hinn same Brunnur Sallt Vatn og Sætt ad giefa.

13. Hvør er Vitur og Forsoktur a medal ydar? Hann audsyne med Godre Umgeingne sijn Verk, j Hogværd og Hyggendum.

14. Enn ef þier hafed beiskt Hatur og Práatt j ydrum Hiörtum, so hrosed ydur ecke, og ljuged ecke j giegn Sannleikanum.

15. Þvi þad er ecke su Vitska sem ad Ofan kiemur, helldur Jardleg, Lijkamleg og Diöfulleg.

16. Þvi hvar Hatur og Práattan er, þar er Vanskickan, og aller hluter jller.

17. Enn su Vitska sem ad Ofan kiemur, er first Hreinlijf, þar næst Fridsöm, Hogláat, lætur sier seigiast, full Miskunsemda, og gods Avaxtar, og O-áagreiningarsöm, oan Smiadurs.

18. Enn Riettlætisins Avoxtur verdur þeim j Fride sáadur, sem Fridenn hallda.

## IV. Capitule.

Jacob talar (I) um Svijvirding Holdlegra Gyrnda; (II) Þeirra Deyding; og (III) Stutta Vellysting.

I. Hvadan koma Strijd (a) og Baráattur a medal ydar? Koma þær ecke af ydar Vellystingum, sem strijda j ydrum Limum?

(a) Þad er ecke riettur Máate edur adferd til ad afla Gots og Rijkedæmis, þegar eirn hefur hatur og Ofund a ödrum, plaagar og offæker annann, helldur Strijd, fremur Agyrne og Underferle. og c.

2. Þier erud Agiarner, og odlest þar med eckert, þier hated og ofunded, og vinned þar med eckert, þier slaaest og beriest, og hafed eckert, þvi þier bidied ecke.

3. Þier bidied og odlest ecke, af þvi þier bidied vondslega, sem er þar til, ad þier sooed þvi j ydru Vilijfe.

4. Þier Hoorunarmenn og Hoordoms-Konur, Vited þier ecke, þad Veralldarennar Vinfeinge er Guds Ovinskapur? Hvør Veralldar Vinur vill vera, sa mun Guds Ovin verda.

5. Eda meined þier þad Ritningenn seige til Onytis? Andann þann sem j ydur bygger, hann lyster j giegn Öfundenne.

6. Og giefur Náadena (b) rijkuglega Þar fyrer seiger hann? Gud motstendur Drambláatum, Enn Lijtelláatum giefur hann Náad.

(b) (Rijkuglega) Med Öfund, Agyrne, Strijde og Svikum ydar a millum, odlest þier þad ecke sem þier gyrnest, helldur epterfilged Andanum, so munud þier fáa alla Náad, og yfersliotande Nægd.

7. Þvi vered Gude undergiefner, standed a mote Diöflenum, so flyr hann fra ydur.

II. 8. Náalæged ydur ad Gude, so náalæger hann sig ad ydur. Hreinsed ydar Hendur, þier Synduger, og hreinserdug giored ydar Hiortu, þier Efunarsamer.

9. Vered Vesalleger, syted og harmed, ydar hláatur skal umsnuast j Gráat, og ydar Glede j Hriggd.

10. Læcked ydur fyrer Gude, þa mun hann upphefia ydur.

11. Bakmæled ei hvør odrum, Kiærer Brædur, þvi hvør hann bakmæler Brodur sijnum, og dæmer um sinn Brodur, sa bakmæler Logmáalenu, og dæmer um Logmáaled. Enn dæmer þu um Logmáaled, þa ertu ei Giorningsmadur Logmáalsins, helldur Domare.

12. Þvi einungis einn er sa Logmáalsins Giafare, sem ad frelsa kann og fordæma, Enn hvør ert þu sem annann dæmer?

III. 13. Nu vel, þier sem nu seiged, j Dag

ellegar a Morgun vilium vier ganga j þeſſa edur þa Borg, og vilium þar eitt Aar dvê-liaſt, og Kaupſkap fremia, og Avinning giora.

14. Pier ſem þo eige vited, hvad a Morgun ſkie mun. Þvi hvad er ydart Liif? Ryk er þad, ſem litla ſtund varer, enn ſijdan hvad-nar þad.

15. J ſtadenn hvors þier ſkylldud ſeigia, vilie DRottinn, og ef vier lifum, þa vilium vier þetta edur þad giora.

16. Enn nu hrooſed þier ydur j ydvare Drambſeme. Øll ſoddann Hroſan er vond.

17. Þviad hann ſem kann nockud Gott ad giora og giorer þad ecke, þeim er þad Synd.

# V. Capitule.

Jacob talar (I) um Hegoma og Skamvinnu Auds-ſins: (II) um Þolinmæde i Motgangenum: (III) um Krapt og Verkun Bænarennar.

I Nu vel, þier Audinger, yled og æped, yfer ydar Veſold, ſem yfer ydur ſkal koma.

2. Ydvart Rijkedæme er voldnad, og Klæ-de ydar eru Moljetenn.

3. Gull ydvart og Silfur er forrydgad, og þeirra Ryd mun ydur til Vitnisburdar vera, og mun tæra ydru Hollde ſem Elldur. Pier hafed ydur Siodum ſafnad a ſijdurſtu Døgum.

4. Siaed, Ad launenn Verkamannanna, þeirra ſem ydar Akurlønd hafa uppyrkt, og vered hafa af ydur inne halldenn, þau hroo-pa, og Hauſtyrkiaranna hróop er komed til Eyrna DRottins Zebaoth.

5. Pier hafed kræſelega lifad a Jordu, og ydar Vellyſtingar drygt, og kappaled ydar Hiortu, ſo ſem til (a) Sloatrunardags.

(a) (Sloatrunardags) ſo ſem Menn ſlaatra til Brul-laups edur Hoatijdar; Luc. 15. Hann ſlaatrade fei-tum Kalfe. Matth. 22. Mijner Uxar og Alled Fie eru ſlaatrad.

6. Hinn Riettlaata hafed þier dæmt, og j Hel ſleiged, og hann hefur ei motſtaded ydur.

II. 7. Fyrer þvi vered þolennmoder, kiærer Brædur, allt uppa Tilkomu DRottins. Siaed, þad Akurkarlenn vænter dagiætlegs Avaxtar Jardarennar, þad þolennmodlega umlijdande, þar til hann fær Morgunregn og Kvolldſkura.

8. Vered þier eirnenn þolennmoder, og ſtir-ked ydar Hiortu, þviad Tilkoma DRottins er j nand.

9. Andvarped ecke hvor j mote odrum, kiærer Brædur, ſo ad þier fordæmeſt ei. Siaed, Ad Domarenn er fyrer Dyrum.

10. Taked, mijner kiærer Brædur, til Ep-terdæmis, Spaamannanna Kvaler, og Po-lennmæde, þeir til ydar hafa talad j Nafne DRottins.

11. Siaed, vier prijſum þa ſæla ad vera, ſem lided hafa. Polennmæde Jobs hafed þier heyrt, og ending DRottins hafed þier ſied, þviad DRottinn er Miſkunſamur og Lijknare.

12. Enn framm um alla hlute, Brædur mijner, þa ſveried hvorke vid Himen nie vid Jord, nie nockurn annann Eid. Enn ydar Ord ſie, Joa, þad Joa er, og Nei, þad Nei er, ſo ad þier falled ecke j Hræſne.

III. 13. Lijde nockur a medal ydar, ſa bidie. Er nockur j godu Giede, Sa ſynge Pſalma.

14. Enn ſie nockur ſiukur, ſa kalle til ſijn Ølldungana Safnadarens, og leate bidia yfer ſier, og ſig Vidſmiore ſmyria, j Nafne DRottins.

15. Og Bænenn Truarennar mun frelſa hinn ſiuka, og DRottinn mun vidrietta hann, og þo hann hafe Synder giort, munu þær honum fyrergiefaſt.

16. Jaate hvor odrum ſijnar Synder, og bidied hvor fyrer odrum, þad þier heil-brigder verdid. Þvi þeſs Riettferduga Bæn ma miked, þa hun er alvarleg.

17. Elias var Madur lijka ſo ſem vier, og hann bad Bænar, * ad þad ſkyllde ei rigna, og þad rignde ei yfer Jordena j þriu Aar og ſex Manude. * 1 B. Kon. 17, 1.

18. J annad * ſinn bad hann aptur, og Himenenn

Himenenn gaf Regn, og Jordenn bar sinn Avoxt. *1 B. Kon. 18, 41.

19. Kiærer Brædur, ef ad nockur a medal ydar villest fra Sanleikanum, og umsnyr honum eirnhvor.

20. Sa skal vita þad, ad hvor ed Syndaranum umsnyr j fra Villu hans Vegar, hefur frelsad eina Ond fra Dauda, Og mun nidre byrgia fiølda Syndanna.

# S. Judæ Pistill.

Judas aaminner oss (I) ad vera Stadføstum i Hreinum Lærdome, og Heiløgu Lijferne i gegn Falskennendum, sem (II) verda Storkostlega Straffader.

I. Judas, Þion JEsu Christi, enn Broder Jacobi. Þeim Kolludum, sem Heilager eru j Gude Fodur, og vardveitter j JEsu Christo.

2. Gud giefe ydur mikla Miskun, Frid og Kiærleika.

3. Hiner Kiærustu, Med þvi eg hafda Setning a, ydur ad skrifa, utaf Almennelegu voru Hiaalpræde, virdtest mier Naudsynlegt, med Skrife ad aaminna ydur, þad þier yfer þeirre Tru strijded, sem hinum Heiløgu er eitt sinn giefeim.

4. Þviad þar eru nockrer Menn, þeir jafnframt jnn hafa lædst, utaf hvørium fordum Tijd skrifad er, til soddan strøffunar, þeir eru Ogudleger, og draga Naad Guds vors uppa Þverlynde, og afneita þeim eina Gude, og DRottne JEsu Christo.

II. 5. Enn eg vil aaminna ydur, ad þier eitt sinn viteð, þad DRottinn þann tijd hann frelsade Folked af Egyptalande, ad j * annad sinn glatade hann þeim sem ecke truu du.
*4 B. Mos. 14, 35.

6. Lijka eirnenn Einglana, hvørier ecke geymdu þeirra Hofdingiadom, helldur forlietu sitt Heimele, hefur hann vardveitt til Doms þess hins Mikla Dags, med æfennlegum Bondum j Myrkrenu.

7. So sem eirnenn * Sodoma og Gomorra, og umliggiande Borger, er med sama hætte og þær, uthooraſt høfdu, og epter (a) ødru Hollde geingnar voru, eru settar til Epterdæmis, og þola Kvøl Eylijfs Ellds. *1 B. Mos. 19, 24.

(a) (Ødru Hollde) þad er med Onatturlegum Hætte moote Holldenn ad syndgast, so sem j Sodoma skiede.

8. Slijkt hid sama eru eirnenn þesser Dreymarar, hvørier Holldeð saurga, enn Herrastiettena forsmaa, og Tignenne bølva.

9. Enn Michael sa Høfud Eingell, þa hann vid Diøfulenn þraattade, og vid hann talade um Lijkama Mosis, dyrfdest hann ecke Doms atkvæde Hœadungarennar a ad fella, helldur sagde hann, DRottinn straffe þig.

10. Enn þesser lasta, þar þeir eckert af vita, Enn hvad þeir af Natturunne vita, þar jnne fordiarfast þeir so sem skinlaus Dyr.

11. Vei þeim, þviad þeir ganga * veg Cains, og falla ** j Villudom Balaams, fyrer aavinnings saker, og † fyrerfarast j moglan Chore. *1 B. Mos. 4, 8.
** 4 B Mos. 22, 5. etc. † 4 B. Mos. 16, 1. 31.

12. Þessar Opeckter bramla blygdunarlaust af ydar Ølmusu, fædande sig sialfa aan Otta. Þeir eru Vatnslaus Sky, sem af Vinde um verda drifenn, Þeir eru Ber, Ofriosom Trie, tvisvar Daud, og upprætt.

13. Grimmar Siaafarbylgiur, utlodrande sijnar eigenlegar Skammer, villar Stiornur, hvørium vardveitt er Þokann Myrkranna ad eylijfu.

14. Enn Enoch hinn Siounde fra Adam, hefur eirnenn af slijkum spaad, og sagt, Siaed, DRottinn kiemur med mørg Þusund Heilagra.

 15. Dom

15. Dom ad hallda yfer øllum, og ad straffa alla þa sem Ogudleger eru af þeim, fyrer allar Giørder þeirra Ogudlegrar unigeingne, hvar med þeir Ogudleger voru, og fyrer allt þad harda, sem Ogudleger Syndarar hafa a mote honum talad.

16 Þeir eru Moglendur, og jafnan (b) oatolusamer, þeir ed epter sijnum Gyrndum ganga, og þeirra Munnur talar Hroka yrde, og þeir akta Manngreinar oalit, fyrer Gagnsemdar saker.

(b) (Atolusamer) þad geingur alldrei so til sem þeim lyuder, þeir kunna ad dæma og straffa alla hlute, þeim þyker eckert nogu gott, allt vilia þeir betur vita.

17. Enn þier, mijner elskuleger, vered minnuger þeirra Orda, sem oadur fyrre sogd hafa vered af Postulum DRottins vors JEsu Christi.

18. Þad þeir sogdu ydur, Ad a sijdurstu tijmum munu Spottarar vera, hvorier ganga epter eigenn Gyrndum sijns Ogudlegs Lijfernis.

19. Þesser eru þeir, hvorier Tvijdrægne giora, hvorier Lijkamleger eru, þeir ongvann Anda hafa.

20. Enn þier, mijner Astsamleger, upp byggied ydur, uppa ydra allra-heilogustu Tru, fyrer Heilagann Anda, og bidied,

21. Og vardveited ydur j Guds Kiærleika, Og vænted Miskunar DRottins vors JEsu Christi, til eylijfs Lijfs.

22. Og hallded þennann mismun, ad þier aumked ydur yfer nockra.

23. Og (c) nockra med Hrædslu hialpleiga giøred, og ricked þeim wr Bꝏlenu, og ad Hatre hafed þann Fleckada Holldsins Kyrtil.

(c) (Nockra) þad er, hugged suma, straffed suma, þo med Hrædslu, enn ei med Siergiædis Metnade, so ad þier glætud þeim burt rickt wr hꝏska eylijfs Bruna og Fyrerdæmingar.

24. Enn þeim sem ydur kann ad vardveita utan Vansa, og ad skicka fyrer Auglite sinnar Dyrdar, ostraffanlega medur Fognude.

25. Þeim Gude sem alleina er vitur, vorum Lausnara, sie Dyrd og Majestat, og Styrkleike, og Magt, nu og til Allrar Eylijfdar, Amen.

# Openberan S. Johannis Theologi.

## I. Capitule.

Þad Firsta sem Johannes sa og heyrde a Eyunne Pathmos vidvikiande þeim Sio Søfnudum i Asia.

Þesse er Openberan JEsu Christi, hvoria GUd gaf honum, til ad kunngiora sijnum Þionum, hvad skie skal innann skams, og hann utþydde hana, og sende hana fyrer sinn Eingel, til sijns Þienara Johannis.

2. Hvør vitnad hefur GUds Ord, og Vitnisburdenn af JEsu Christo, hvad hellst hann hefur sied.

3. Sæll er sa sem les, og þeir sem heyra Orded Spadomsins, og vardveita hvad þar inne skrifad er, Þvi Tijmenn er nalægur.

4. Johannes, þeim Sio Samkundum sem j Asia eru. Nad sie med ydur og Fridur, af þeim sem er, og þeim sem var, og þeim sem kiemur, og af þeim Sio Ondum sem eru fyrer hans Stole.

5. Og af JEsu Christo, sa sem er Trur Vottur, og Frumgietningur Framlidenna, og Hofdinge Jardarennar Konga. Hvør oss hefur elskad, og þveiged oss af Syndunum j sijnu Blode.

6. Og hefur giort oss til Konga og Kiennemanna, fyrer GUde og sijnum Fodur. Þeim hinum sama sie Dyrd og Valld, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.

7. Siaed, Hann kiemur med Skyunum, og

og oll Augu munu hann sia, og þeir ed hann j giegnum stunged hafa, og allar Kinkvijsler Jardar munu kveina, Ja, Amen.

8. Eg er A og O, Upphaf og Ender, seiger DROTTinn, sa sem er, og sa sem var, og sa sem kiemur, hinn Almaattuge.

9. Eg Johannes, sem ogso er ydar Broder, og hluttakare j Hormungenne, og Rijkenu, og Þolennmædenne JEsu Christi, var j Eynne sem kallast Pathmos, fyrer GUds Ords saker, og Vitnisburdar JEsu Christi.

10. Eg var j Anda a DROTtins Deige, og heyrde a Bak mier aptur, Raust mikla sem eirnrar Basunu.

11. Hun sagde, Eg em A og O, Firstur og Sijdarstur. Og hvad þu sier þad skrifa j eina Bok, og send þad til Samkundanna j Asia, til Ephesum, og til Smyrnen, til Pergamum, og til Thyatiras, til Sarden, og til Philadelphiam, og til Laodiceam.

12. Og eg snere mier vid, ad sia epter þeirre Raust sem vid mig talade. Og sem eg snere mier vid, sa eg Sio Liosastikur, Gullegar.

13. Og midt j mille þeirra Sio Liosastiakanna, eirn er lijkur var einum Mannsins Syne, sa var klæddur sijdum Kyrtle ofann ad Fotum, og spentur um Bringuna Gullegu Bellte.

14. Enn hans Hofud og Haar voru hvijt sem hvijt Ull, lijka sem Snior, og hans Augu sem Elldsins Loge.

15. Og hans Fætur sem þad Loatun er gloar j Ofne, og hans Rodd s.m mikell Vatns Nidur.

16. Og hann hafde Sio Stiornur j sinne Hægre Hende, og ut af hans Munne gieck hvasst Tvieggiad Sverd, og hans Andlit skein sem kloara Sool.

17. Og sem eg saa hann, fiell eg nidur fyrer hans Fætur so sem Daudur. Og hann lagde sijna Hægre Hond yfer mig, og sagde til mijn, Hrædstu ei, Eg em sa Firste og Sijdarste.

18. Og sa Lifande, Eg var Daudur, og sia, ad eg em Lifande fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen, og eg hefe Lykla Helvijtis og Daudans.

19. Skrifa hvad þu sied hefur, og hvad sem er, og hvad hier epter skie skal.

20. Leyndanndom þeirra Sio Stiarna, sem þu hefur sied j minne Hægre Hende, og þær Sio Gullegar Liosastikur. Þessar Sio Stiornur, eru Einglar Sio Samkundna, og þær Sio Liosastikur, sem þu hefur sied eru Sio Samkundur.

## II. Capitule.

*Johannes skrifar til Engels Samkundunnar (I) i Ephesus; (II) i Smyrna; (III) i Pergamus; (IV) i Thyatira.*

I. Og Einglenum Samkundunnar til Epheso skrifa þu, þetta seiger sa sem helldur þeim Sio Stiornum i sinne Hægre Hende, sa sem geingur midt a mille þeirra Sio Gullegra Liosastikna.

2. Eg veit þijn Verk, og þitt Erfide, og þijna Þolennmæde, og þad þu kannt ecke þina Vondu ad umlijda, og freistader þeirra sem sig seigia Postula vera, og eru þo eige, og þu fannst þa Liugara.

3 Og leidst, og Þolennmæde hefur, og þu erfidader fyrer mijns Nafns saker, og þreytest ecke.

4. Enn þad hefe eg a mote þier, þad þu hinn firsta Kiærleik yfergafst.

5. Minnstu a hvar fra þu ert fallenn, og gior Jdran, og gior þin fyrre Verkenn. Enn ef ei, mun eg til þijn snarlega koma, og þinne Liosastiku j burt hrinda ur sijnum stad, ef þu ecke giorer Jdran.

6. Enn þad hefur þu, ad þu hatar Verk þeirra Nicolaitarum, hvor eg eirnenn hata.

7. Hvor Eyru hefur, hann heyre, hvad Andenn seiger Samkundunum. Hvor hann yfervinnur, þeim mun eg giefa ad eta af Lijfs Trienu, þad midt j GUds Paradijs er.

II. 8. Og þeim Eingle Samkundunnar j Smyrnen skrifa þu, þetta seiger hinn Firste og Sijdarste, sa Daudur var, og er Lifande ordeñ.

9. Eg veit þijn Verk, og þijna Hormung og Fatækt, (enn þu ert Audugur) og Lastan þeirra sem seigia sig Gydinga vera, og eru þo ecke, helldur eru þeir Satans Sofnudur.

10. Hrædstu eckert, af þvi sem þu lijda munt, Sia, Diøfullenn mun nockrum af ydur kasta j Dyblyssu, uppa þad þier freistader verded, og þier munud Hørmung hafa j tiju Daga. Vert trur allt til Daudans, so mun eg giefa þier Korونu Lijfsins.

11. Hvør Eyru hefur, sa heyre hvad Andenn seiger Samkundunum. Hvør hellst yfervinnur, þeim skal eckert jllt skie, af þeim ødrum Dauda.

III. 12. Og þeim Eingle Samkundunnar til Pergamo skrifa þu, þetta seiger sa sem hefur hid hvassa Tvieggiada Sverded.

13. Eg veit hvad þu giører, og hvar þu byr, hvar ad er Andskotans Sæte, og þu helldur vid mitt Nafn, og afneitader ecke mijna Tru. Eirnenn a þeim Døgum er Antipas minn trur Vottur var hia ydur ihel sleigenn, hvar ed Satan bygger.

14. Enn eg hefe lijtenn hlut a mote þier, þad þu hefur þa þar, sem vid * Lærdom Balaams hallda, sa sem kienndefyrer Balac, upp ad setia Hneixle fyrer Israels Born, til ad eta af þvi sem Skurgodum offradest, og Hooraner ad drygia. *4 B. Mos. 25, 2.

15. Lijka so eirnenn hefur þu þa sem hallda Kienningar Nicolaitarum, hvad ed eg hata.

16. Giør Yferbot, enn ef ei, þa mun eg snarlega koma til þijn, og strijda vid þa med Sverde mijns Munns.

17. Hvør Eyru hefur sa heyre hvad Andenn seiger Samkundunum. Hvør hann yfervinnur, þeim vil eg giefa ad eta af þvi folgnu Manna, og eg vil giefa honum godann Vitnisburd, og med Vitnisburdenum nytt Nafn skrifad, þad eingenn þecker, utann sa þad medtekur.

IV. 18. Og þeim Eingle Samkundunnar j Thyatira skrifa þu, þetta seiger Sonur Guds, sa Augu hefur sem Ellds-Loga, og hans Fætur sem Leatun.

19 Eg veit þijn Verk, og þinn Kiærleika, og þijna þionustu og Tru, og þijna Polenmæde, og þiju hin sijdare Verkenn, hinum fyrrum meire.

20. Enn fratt eitt hef eg a mote þier, þad þu lætur þa Kvinnu Jesabel, sem seiger sig Spaakonu vera, kienna og villa mijna Þiona, Hooraner ad drygia, og Skurgoda Forner ad eta.

21. Og eg hefe henne Tijma giefed, þad hun skyllde Jdran giora, fyrer hennar Hooraner, og hun giører ecke Jdran.

22. Sia, Eg kasta henne j Reckiu, og þeim, hvørier med henne Hoordom drygt hafa, j storar Hørmungar, nema þeir giøre Yferboot fyrer sijn Verk.

23. Og þeirra Born vil eg deyda. Og allar Samkundur skulu vidurkienna, þad eg em * Nyrnanna og Hiartanna Rannsakare og eg mun giefa hvørium ydar sem einum, epter ydar Verkum. * Psalm. 7, 10. Jerem. 11, 20.

24. Enn ydur seige eg, og hinum ødrum sem eru til Thyatira, þeir þennann Lærdom ei hafa, og hvørier ecke þeckt hafa Dypt Andskotans (sem ad þeir seigia) eige vil eg ødrum Þunga a ydur kasta.

25. Þo, hvad þier hafed, þad hallded, þar til ad eg kiem.

26. Og hvør sem yfervinnur og vardveiter mijn Verk, allt til enda, þeim mun eg Vallð giefa yfer hina Heidnu.

27. Og hann skal stiorna þeim medur Jaarnvende, og so sem Leirgiørarans Kier, skal hann j sundur mola þa.

28. Lijka sem eg af mijnum Fødur medteked hefe, og Morgunstiørnuna mun eg giefa honum.

29. Hvør Eyru hefur, sa heyre hvad Andenn seiger Samkundunum.

## III. Capitule.

Job: skrifar til Engels Samkundunnar (I) i Sardis; (II) i Philadelphia; (III) i Laodicea.

I. Og þeim Eingle Samkundunnar til Sarden, skrifa þu, Þetta seiger sa sem hefur Sio Anda Guds, og Stiørnurnar Sio. Eg veit þijn Verk, þviad þu hefur þad Nafn, ad þu lifer, og ert Daudur.

2. Vert

2. Vert vakande, og stirk hid annad hvad deya vill, Pvi þijn Verk hefe eg ei fullkomleg funded fyrer Gude.

3. Pvi legg nu j minne, hvornenn þu hefur medteked og heyrt, og vardveit þad, og gior Jdran. Pvi ef þu ei vaker, þa mun eg yfer þig koma sem Piofur, og eige muntu vita a hvorre Stundu er eg mun koma yfer þig.

4. Pu hefur og so faa=ein Nofn til Sarden, er ei hafa saurgad sijn Klæde, og þeir munu med mier ganga j hvijtum Klædum, þviad þeir eru þess verder.

5. Hvor yfervinnur, sa skal med hvijtum Klædum klæddur verda, og eige mun eg hans Nafn utslietta af Lijfs Bokenne, Og eg mun jaata hans Nafn fyrer mijnum Fodur, og fyrer hans Einglum.

6. Hvor Eyru hefur, sa heyre hvad Andenn seiger Samkundunum.

II. 7. Og þeim Eingle Samkundunnar j Philadelphia skrifa þu, Petta seiger hinn Heilage og Sannarlege, sa sem hefur * Lykelenn Davids, hvored upp lætur, og eingenn aptur lykur, hvored aptur lykur, og eingenn upp lætur.

* Es. 22, 22. Job. 12, 14.

8. Eg veit þijn Verk, sia, eg liet fyrer þier opnar Dyr, og eingenn fær þær aptur læsted, Pviad þu hefur eirunn lijtenn Krapt, og hefur vardveitt mijn Ord, og hefur ecke mijnu Nafne afneitad.

9. Sia, Eg mun giefa ut af Satans safnade, þa sem seigia sig Gydinga vera, og eru ecke, helldur liuga. Sia, Eg mun þeim giora, þad þeir skulu koma, og tilbidia fyrer þijnum Footum, og vidurkienna þad eg hefe þig elskad.

10. Med þvi þu hefur vardveitt Ord minnar Polenmæde, mun eg eirnenn vardveita þig a Freistingar Tijmanum, sem koma mun yfer allt Jardrijke, til ad freista þeirra sem a Jordu byggia.

11. Sia, Eg kiem snarlega, hallt hvad þu hefur, so þad eingenn take þijna Koronu.

12. Hvor yfervinnur, þann mun eg giora ad Stolpa j Mustere Gllds mijns, og hann skal ei meir ut ganga, og uppa hann vil eg skrifa Nafn Gllds mijns, og Nafn hinnar Nyu Jerusalem, sem er Borg mijns Gllds, su af Himnum ofann kiemur fra mijnum Gllde, og mitt hid Nya Nafn.

13. Hvor Eyru hefur, hann heyre hvad Andenn seiger Samkundunum.

III. 14. Og þeim Eingle Samkundunnar til Laodicea skrifa þu, Petta seiger Amen, Trur og Sannarlegur Vottur, hvor ad Upphaf er Skiepnunnar Gllds.

15. Eg veit þijn Verk þad þu ert hvorke kalldur nie heitur, eg kiore þu værer annadhvort heitur eda kalldur.

16. Enn med þvi þu ert Volgur, og hvorke kalldur nie heitur, mun eg utskirpa þier af mijnum Munne.

17. Pu seiger, Eg em Rijkur, og hefe allnægtis noog, og þarf einskis, og þu veitst ei þad þu ert Vesæll, Aumur og Voladur, Blindur og Fatlaus.

18. Eg ræd þier, ad þu kauper Gull ad mier, þad j Ellde er hreinsad, so þu Audugur verder, og hvijt Klæde, hvorium þu jklædest, so ad ei auglysest Vanvirding þijns Fatleyses, og smyr þijn Augu med Augnasmyrslum, so ad þu siaer.

19. * Hvoria eg elska, þa straffa eg og typta, þvi vert nu kostgiæfenn, og gior Jdran.

* Ordskv. B. 3, 12.

20. Sia, Eg stend fyrer Dyrum, og klappa uppa, Ef nockur heyrer mijna Rødd, og upplykur Dyrunum, til hans mun eg innganga, og Kvølldverd med honum snæda, og hann med mier.

21. Hvor yfervinnur, honum mun eg giefa med mier ad sitia a mijnum Stole, lijka sem eg yferunned hefe, og seted med mijnum Fødur a hans Stole.

22. Hvor Eyru hefur, sa heyre hvad Andenn seiger Samkundunum.

## IV. Capitule.

Su ønnur Sion Johannis er (I) um Gud sitianda a Einum Stole; (II) og um Einu Gler Sio framme fyrer Stolnum.

I. Epter þad sa eg, og sia, ad Dyr upplukust a Himne, og hin firsta Roddinn, hvoria eg hafde heyrt vid mig tala, sem adra Basunu, hun sagde, Stijg upp hingad, eg vil syna þier, hvad hier epter skal skie.

2. Og jafnsnart var eg j Anda. Og sia, ad Stoll var settur a Himnum, og a Stolnum sat Nockur.

3. Og sa sem þar sat, hann var lijka aalits sem Steirnenn Jaspis, og Sardis, Og eirn Regnboge var kringum Stolinn, lijka aalits sem Smaragdus.

4. Og umhverfis Stolinn voru Fiorer og tuttugu Stolar, og a þeim Stolum satu Fiorer og tuttugu Olldungar, skrydder hvijtum Skrwda, og baru a sijnum Hofdum gullegar Koronur.

5. Og af Stolnum utgeingu Elldingar, Reidarþrumur og Radder. Og Sio Blis med Elld brunnu fyrer Stolnum, hvorier ad eru Sio Andar Guds.

II. 6. Og fyrer Stolnum var Glersior, lijka sem Crystallus. Og midt j Stolnum, og kringum Stolinn Fiogur Dyr, full Augna a Bak og fyrer.

7. Og hid firsta Dyred var lijkt * Leone, og hid annad Dyred lijkt Kalfe, og hid þridia hafde Asioan sem Madur, og hid fiorda var lijkt fliuganda Erne. * Ezech. 1, 10.

8. Og hvort þeirra Fiogra Dyranna, hafde Sex Vænge, allt um kring, og jnnann voru þau full Augna, og hofdu eige Hvijld, Dag og Nott seigiande, * Heilagur, Heilagur, Heilagur er Gud DRottinn Almattugur, sa sem var, og sa sem er, og sa sem kiemur. * Es. 6, 3.

9. Og þa Dyrenn gafu honum Dyrd og Heidran, og þacker, þeim er a Stolnum sat, sa er lifer fra Eylijfd til Eylijfdar.

10. Þaa fiellu framm þeir Fiorer og tuttugu Olldungarner, fyrer þann sem a Stolnum sat, og tilbadu þann sem lifer fra Eylijfd til Eylijfdar. Og snerudu sijnum Coronum framm fyrer Stolenn og sogdu, DRottinn.

11. Þu ert verdugur ad medtaka Dyrd og Heidran, og Krapt; þviad þu hefur alla Hlute skapad, og fyrer þinn Vilia urdu þeir, og eru skapader.

## V. Capitule.

Guds Lamb JEsus (I) medtekur Bokena: (II) er Tilbeded; og (III) Dijrdkad.

I. Og eg sa j Hægre Hende þess sem a Stolnum sat, eina Bok, skrifada jnnan og utan, jnsiglada med Sio Jnnsiglum.

2. Og eg sa sterkann Eingel predika med mikelle Raust; Hvor er verdugur þessare Book upp ad luka, og hennar Jnnsigle upp ad briota?

3. Og eingenn, hvorke a Himnum nie a Jordu, nie under Jordu, kunne þeirre Bok upp ad lwka, nie þar j ad sia.

4. Og eg æpte Ogurlega, ad eingenn fannst þar verdugur þeirre Bok upp ad lwka, og ad lesa, nie þar j ad sia.

5. Og eirn af Olldungunum seiger til mijn, Grat ecke, Sia, þad Leoned sem er af Ætt Juda, Root Davids, hefur yferunned, ad þad opne Bokena, og upp briote hennar Sio Jnnsigle.

6. Og eg sa, og sia, J midid Stolsins og þeirra Fiogra Dyra, og midt a mille Olldunganna, þa stood eitt Lamb, lijka sem være þad slatrad, og hafde Sio Horn, og Sio Augu, hvor ad eru Sio Andar Guds, utsender um oll Lond.

7. Og þad kom og tok Bokena ur Hægre Hende þess sem a Stolnum sat.

II. 8. Og þa er þad tok Bokena, þa fiellu framm þau Fiogur Dyrenn, og Fiorer og tuttugu Olldungar, fyrer Lambenu, og hvor eirn hafde Horpu og Gullkier, full Reykelsis, sem ad eru Bæner Heilagra.

9. Og sungu Nyann Loffsaung, og sogdu, Þu ert verdugur ad medtaka Bokena, og

upp

upp ad briota hennar Innsigle, Þviad þu ert slaatradur, og endurleyster oss med þijnu Blode, ut af alls haattudum Kinkvijsslum, og Tungum, og Folke, og Heidingium.

10. Og þu hefur oss giort fyrer vorum GUde, til Konga og Kiennemanna, og vier munum rijkia a Jordu.

III. 11. Og eg sa, og heyrde Rødd margra Eingla, umhverfis Stolinn, og um Dyrenn, og umkring Olldungana, og þeir voru ad tolu * Tiju Þusund sinnum Tiju Þusunder, og Þusundsinnum Þusunder. * Dan. 7, 10.

12. Og sogdu med haarre Raust, Verdugt er Lambed, þad slaatrad er, ad medtaka Krapt, og Rijkdom, og Vitsku, og Styrk, og Æru, Prijs og Lof.

13. Og allar Skiepnur þær a Himnum eru, og a Jordu, og under Jordu, og j Sionum, og allt hvad j þeim er, heyrda eg seigia til hans sem a Stolnum sat, og til Lambsins, Lof, Heidur, Prijs, og Valld, fra Eylijfd til Eylijfdar.

14. Og þau Fiogur Dyrenn sogdu Amen. Og þeir Fiorer og tuttugu Olldungar fiellu framm, og tilbaadu þann sem lifer, fra Eylijfd til Eylijfdar.

## VI. Capitule.

Lambed opnar þad (I) (II) (III) (IV) (V) og (VI) Insigle.

I. Og eg sa þad, ad Lambed opnade Eitt af Insiglunum, Og eg heyrde eitt af þeim Fiorum Dyrunum seigia, lijka sem med Reidarþrumu Raust, Kom og skoda.

2. Og eg sa, og sia þu, Einn Hvijtur Hestur, og sa þar uppa sat, hafde Boga, og honum vard giefenn Korona, og hann for ut ad yfervinna, og ad hann ynne Sigur.

II. 3. Og þa þad opnade hid Annad Insigled, heyrda eg hid annad Dyred seigia, Kom og giæt ad.

4. Og þar gieck ut annar Hestur, sa var Raudur, og þeim sem þar sat a, vard giefed Fridenn j burt ad taka af Jordu, so ad þeir slaatrudu hvør ødrum, og honum vard giefed stort Sverd.

III. 5. Og er þad opnade hid Pridia Innsigled, heyrda eg hid þridia Dyred seigia, Kom og skoda, Og eg sa, og sia þu, Ad eirn svartur Hestur, og sa þar sat a, hafde Met j sinne Hende.

6. Og eg heyrda a medal þeirra Fiogra Dyra eina Rødd seigia, einn Mæler Hveitis fyrer eirn Pening, og þrijr Mæler Byggs fyrer eirn Pening, og Vidsmiøre og Vijne gior ongvann skada

IV. 7. Og þa þad opnade hid Fiorda Innsigled, heyrda eg Rødd hins Fiorda Dyrsins, seigiande, Kom og sia til.

8. Og sia, og eg sa, eirn bleikur Hestur, og sa þar a sat, þess Nafn hiet Daude, og Helvijte epterfilgde honum, Og honum vard Magt giefenn ad deyda þann Fiorda Part a Jordunne, medur Sverde, og med Hungre og med Dauda, og fyrer Dyrenn a Jordunne.

V. 9. Og þa þad opnade hid Fimta Insigled, leit eg under Alltarenu Saaler þeirra sem Lijflatner eru fyrer GUds Ords saker, og fyrer Vitnisburdarens saker, sem þeir hofdu.

10. Og þær kolludu haarre Roddu, og sogdu, DROTTinn, þu hinn Heilage, og Sannarlege, Hvorsu leinge þa dæmer þu ecke, og hefner vors Blods a þeim sem a Jordu bua?

11. Og þeim sierhvorium einum vard giefenn hvijtur Kyrtill, og til þeirra vard sagt, ad þeir hvijldest, enn um nockra Stund, þar til ad þeirra Samþionar og Brædur kiæme þar til fullkomlega, hvorier eirnenn enn nu Lijflatner skylldu verda, lijka sem þeir.

VI. 12. Og eg sa, ad þad opnade hid Siotta Innsigled, og sia, þa giordest mikell Jardskialfte, og Solenn vard svort sem Hærusecкur, og Tungled vard sem Blod.

13. Og Stiørnur Himens hrundu a Jordena, lijka sem annad Fijkiutrie, nær þad

hristest af Vinde miklum, af fleyger sijnum Fijkium.

14. Og Himenenn veik j burt, sem su Bok er saman verdur vafenn, Og oll Fioll og Eyar hrærdust ur sijnum stodum.

15. Og Jardarennar Kongar og Hofdingiar, og Rijkismenn, og Hofudsmenn, og Magtarmenn, og aller Prælar og Friborner, skyldu sier j Holum og Hellum Fiallanna.

16. Og sogdu til Fiallanna og Biarganna, * Falled yfer oss, og hylied oss, fyrer Auglite þess sem a Stolnum situr, og fyrer Reide Lambsins. * Esa. 2, 19. Os. 10, 8.

17. Þviad hinn mikle Dagur hans Reide er komenn, Og hvor fær stadest?

## VII. Capitule.

Joh: ser (I) Fiora Engla standa a Fiorum Hornum Jardarennar til ad granda Jordenne; (II) Einn mikenn Skara þeirra Manna er þeckudu, og sungu Lof GUde og Lambenu.

Texte sem Pistill a Allra Heilagra Messu.

I. Og epter þad sa eg Fiora Eingla standa, a Fiorum Hornum Jardarennar, og þeir hielldu inne Fiorum Vindum Jardarennar, so ad eingenn Vindur blies a Jordena, nie a Sioenn, nie a nockurt Trie.

2. Og eg sa annann Eingel uppstijga ut af Uppgongu Solarennar, sa hafde Innsigle Lifanda GUds, og kallade hoarre Roddu til hinna Fiogra Einglanna, hvorium giefed er, ad granda Jordenne og Sionum.

3. Og sagde, Granded ecke Jordunne, ei Sionum, nie Trioanum, fyrr enn vier foaum Innsiglad Þiona vors GUds j þeirra Ennum.

4. Og eg heyrde tolu þeirra sem Innsiglader voru, Hundrad, Fiorar og Fiorutijgu Þusunder, sem Innsiglader urdu, af ollum Kinkvijslum Israels Barna.

5. Af Kine Juda, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Ruben, Tolf Þusunder Innsiglader.

6. Af Kine Gad, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Asser, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Nephthali, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Manasse, Tolf Þusunder Innsiglader.

7. Af Kine Simeon, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Levi, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Isaschar Tolf Þusunder Innsiglader.

8. Af Kine Zebulon, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Joseph, Tolf Þusunder Innsiglader; Af Kine Ben Jamin, Tolf Þusunder Innsiglader.

II. 9. Þar epter sa eg, og sia! Ad Skare mikell, hvorn eingenn gat taled, af ollum Heidingium, og Folke, og Kinkvijslum, og Tungumaalum, stood framme fyrer Stolnum og fyrer Lambenu umskrydder hvijtum Skruda, og Palmavidur j þeirra Hondum.

10. Sem kolludu med mikelle Roddu, og sogdu, Heilsa sie þeim sem a Stolnum situr, vorum GUde og Lambenu.

11. Og aller Einglar stoodu umhverfis Stolinn, og kringum Olldungana, og umkring þau Fiogur Dyrenn, og fiellu fyrer Stolnum framm a þeirra Asionur, og tilbaadu GUd.

12. Og sogdu Amen. Lof og Dyrd, og Speke, og Packer, og Heidur, og Kraptur, og Stirkleike, sie vorum GUde, fra Eylijfd til Eylijfdar, Amen.]

13. Og eirn af Olldungunum andsvarade og sagde til mijn, Hvorier eru þesser sem umskrydder eru Hvijtum Skruda? Og hvadan eru þeir ad komner?

14. Og eg sagde til hans, Herra, þu veitst þad. Og hann sagde til mijn, Þesser eru þeir sem komner eru ur miklum Harmkvælum, og sinn Skruda þveiged hafa og Hvijtfaagad hann j Bloode Lambsins.

15. Af þvi eru þeir framme fyrer Stole Guds, og þiona honum Dag og Nott j hans Mustere. Og sa uppa Stolnum situr mun bua yfer þeim.

16. Eige mun þa hier epter hungra nie þyrsta, og eige mun yfer þa falla Soolenn nie nockurskonar annar hite.

17. Þviad

17. Þviad þad Lambed midt j Stolnum mun foodra þa, og leida til Lifande Vatnsbrunna, og GUd mun * afþurka allann Grœat af þeirra Augum. * Es. 25, 8.

## VIII. Capitule.

(I) Su þridia Sion Johannis, er þad Siounda Jnsigle var opnad, og þaa basunade (II) Hinn Firste (III) Annar (IV) Þridie, og (V) Fiorde Engell.

I. Og þa þad opnade hid Siounda Jnsigled, giordest kirrleike a Himnum, nær um halfa Stund.

2. Og eg sa Sio Eingla, þeir geingu fyrer GUd, og þeim urdu Sio Basunur giefnar.

3. Og annar Eingell kom og stood vid Alltared, og hafde Gullegt Reykelsis Kier, og hönum vard miked Reykelse giefed, þad hann giæfe til Bæna allra Heilagra, uppa þad Gyllene-Alltared fyrer Stolnum.

4. Og Reykur Reykelsesins, af Bænum þeirra Heilogu, gieck upp af Hende Eingelsins, fyrer GUd.

5. Og Eingellenn tok Reykelsis Kiered, og fyllte þad med Elld af Alltarenu, og kastade þvi a Jordena, Og þa urdu Radder, og Reidarþrumur, og Elldingar, og Jardskialftar.

6 Og þeir Sio Einglar sem höfdu þær Sio Basunur, höfdu tilbued sig ad Basuna.

II. 7. Og hinn Firste Eingell Basunade, og þa giordest Hagl, og Elldur med Blode blandadur, og fiell nidur a Jordena, og þridiungur Triaanna brann, og allt græna Grased brann upp.

III. 8. Og hinn Annar Eingell Basunade, Og þar foor lijka sem Biarg miked af Ellde brennanda j Sioenn, og þridiungur Siaafarens giordest Blod.

9. Og þridiungur Lifande Skiepna j Sionum drapst, og þridiungur Skipanna fyrerforst.

IV. 10. Og hinn Þridie Eingell Basunade, Og þar fiell stor Stiarna af Himne, og hun logade sem Blis, og fiell yfer þridiung rennande Vaina, og yfer Vatnsbrunnana.

11. Og Nafn Stiornunnar hiet Remmá, og þridiungur snerest j Remmu, og marger dou af Vötnunum, af þvi þaug voru so Römm ordenn.

V. 12. Og hinn Fiorde Eingell Basunade, og þridiungur Solarennar vard sleigenn, og þridiungur Tunglsins, og þridiungur Stiarnanna, so þad þridiungur þeirra vard formirkvadur, og þridiungur Dagsins lyste ecke, lijka eirnenn Nottinn.

13. Og eg sa og heyrde einn Eingel fliuga, midt j giegnum Himenenn, og seigia med hvarre Raust, Vei, Vei, Vei, þeim sem a Jordu bua, framm yfer adrar Radder Basununnar, þeirra þriggia Eingla, sem enn skylldu Basuna.

## IX. Capitule.

Johannes heyrer (I) þann Fimta, og (II) þann Siötta Engel Basuna.

I. Og hinn Fimmte Eingell basunade, og eg sa Stiornu eina falla af Himne, a Jordena, og henne vard giefenn Lykellenn til Brunns Underdiupsins.

2. Og hann lauk upp Brunne Underdiupsins, og þar gieck upp Reykur af Brunnenum, so sem Reykur eins mikels Ofns, og Solenn formirkvadest, og Vedred af Reyknum Brunnsins.

3. Og ut af þeim Reyk komu Eingespretter a Jordena, og þeim vard Magt giefenn, lijka sem þad Scorpionar Magt hafa a Jordu.

4. Og þar vard til þeirra sagt, þad þær skylldu eige granda Grase Jardarennar, nie nockru Grænu edur nockurskonar Vide, utann einasta þeim Mönnum sem eige hafa GUds Innsigle j sijnum Ennum.

5. Og þeim vard þad giefed, ad þær aflijdudu þa eige, helldur þad, ad þær kveldu þa j fimm Manude. Og þeirra Kvol var so sem Kvol af einum Scorpion, nær hann stingur Manninn.

6. Og * a þeim somu Dogum munu Mennerner Daudans leita, og eige finna, þeir

 munu

munu gyrnast ad deya, og Daudenn mun fra þeim flya. Es. 2, 19.* Hos. 10, 8.

7. Og þær Eingesprettur eru lijkar þeim Hestum, sem til Bardaga eru buner, Og a þeirra Hofdum sem Koronur Gulle lijkar, og þeirra Andlit sem Manns Andlit.

8. Og þær hofdu Haar sem Konu Haar, og Tennur þeirra voru sem Leona Tennur.

9. Og hofdu Bryniur so sem Iarn Bryniur, og Þytur þeirra Vængia, so sem buldran af Vognum margra Hesta sem j Bardogum hlaupa.

10. Og hofdu Hala lijka sem Scorpionar, og þar voru Broddar a þeirra Holum, og þeirra Magt var til ad plaaga Menn j fimm Manude.

11. Og hofdu yfer sier Kong, eirn Eingel af Underdiupenu, hvors Nafn er a Ebresku Abaddon, enn a Grisku hefur hann þad Nafn Apollyon.

12. Eitt Vei er umlided, Sia, þar koma enn nu Tvo Vei a epter.

II. 13. Og hinn Siotte Eingell Basunade, og eg heyrde eina Rodd ut af fiorum Hornum Gyllene-Alltaresins fyrer GUde.

14. Sem sagde til hins Siotta Eingelsins, sem Basununa hafde, Leys þu upp þa Fiora Eingla, sem bundner eru vid hid mikla Vatnsfall Euphrates.

15. Og þeir Fiorer Einglar urdu lauser, hvorier reidubuner voru, til Stundar og Dags og Manadar, og aars, ad þeir jhel slæe þridiung Mannanna.

16. Og tala þess rijdanda Hers var tvisvar sinnum Tiju Þusundsinnum Tiju Þusunder, Og eg heyrde þeirra tolu.

17. Og eg sa Hestana so j Syn, og þa sem þar uppa saatu, þad þeir hofdu Gloande og Gular, og Brennesteinlegar Bryniur, og Hofudenn Hestanna voru so sem Leona Hofud, og ut af þeirra Munne gieck Elldur, Reykur og Brennesteirn.

18. Af þessu þrennu er jhel sleigenn þridiungur Manna, af Elldenum, og Reyknum, og Brennesteinenum, er ut af þeirra Munne gieck. Þviad þeirra Magt var j þeirra Munne, og j þeirra Holum.

19. Og þeirra Halar voru Hoggormum lijker, og hofdu Hofud, og med þeim somu giordu þeir skada.

20. Og þar voru enn Menn afgangs, þeir sem eige voru jhel slegner af þessum Plaagum, hvorier ecke Yferboot giordu fyrer Verk sinna Handa, so ad þeir eige tilbædu Dioflana, og Gulls, og Silfurs, og Eirs, og Steina, og Tries* Afgude, sem hvorke sia nie heyra, nie ganga kunna.

*Psalm. 115, 4. 2c. Psalm: 135. 15, 2c.

21. Hvorier eirnenn ongva Yferboot giordu, af sijnum Manndraapum, Fiolkijnge, Frillulifnade og Stulde.

# X. Capitule.

Joh: tok vid Einne kijtelle Bok af hende Engelsens og svalg hana.

Og eg sa eirn annann sterkann Eingel af Himnum ofan koma, hann var Skye umklæddur, og Regnboge a hans Hofde, og hans Andlit var sem Sool, og hans Fætur lijka sem Elldsstolpar.

2. Og hann hafde j sinne Hende Bokarkorn opnad, Og hann sette sinn hægra Foot a Sioenn, og hinn vinstra a Jordena, og hann kallade hoarre Rodd, Lijka sem þad Leon greniar.

3. Og þa hann kallade, toludu Sio Reidarþrumur sijnar Rauster.

4. Og þa þær Sio Reidarþrumur hofdu talad sijnar Rauster, villda eg hafa skrifad þær. Þa heyrda eg eina Rodd af Himne seigia til mijn, Innsigla þu hvad þær Sio Reidarþrumur hafa talad, og skrifa þad ecke.

5. Og Eingellenn, hvorn eg sa standa a Sionum, og a Jordunne, hoof upp sijna Hond til Himens.

6. Og soor vid þann Lifanda fra Eylijfd til Eylijfdar, hvor Himenenn hefur skapad, og hvad þar jnne er, og Jordena, og hvad þar jnne er, og Sioenn, og hvad þar jnne er,

Þad

Þad hiedan j fra (a) eingenn Tijd meir vera skal.

(a) (Eingenn Tijd) Allt hvad Sœluhvlped vill verda skal allt luta under Pavann. Fyrer utan Pavadomenn er eingenn Christenn, Pavenn vill alleina vera Hofuded.

7. Helldur a Dogum Raddar þess Siounda Eingels, nær hann mun Basuna, þa skal fullkomnadur verda leyndur Domur GUds, so sem hann kunngiorde sijnum Þionum, og Spaamonnum.

8. Og Roddenn, sem eg hafde heyrt af Himne, talade aptur vid mig og sagde, Gack hiedan, tak þann opnada Bækling af Hende Eingelsins, sem a Siounum og a Jordunne stendur.

9. Og eg gieck burt til Eingelsins, og sagde til hans, Gief mier Bæklingenn. Og hann sagde til mijn, Tak hann j burt, og svelg hann, og mun hann beiskia þinn Kvid, enn j þijnum Munne mun hann sætur vera sem Hunang.

10. Og eg tok Bæklingenn af Hende Eingelsins, og svelgde hann. Og hann var sætur j mijnum Munne sem Hunang, Og þa eg hafde eted hann, beiskvadest Kvidur minn.

11. Og hann sagde til mijn, Þu hlytur aptur ad spaa Folkenu, Heidingium, og Tungumaalum, og morgum Kongum.

# XI. Capitule.

Joh: fær (I) Einn Reirlegg til ad mæla Guds Mustere, og Alltared med; (II) Ødlast Fyrerheite um Tvo Vitne sem skule spaa.

I. Og mier vard giefenn Reirleggur, lijka sem Stafur, og sagde, Statt upp, og mæl Mustere GUds og Alltared, og þa sem þar jnne tilbidia.

2. Enn þeim hinum Innsta Koor Musteresins kasta þu ut, og mæl hann eige, þviad hann er Heidnum giefenn, og hina Heilogu Borg munu þeir undertroda, Tvo og Fiorutijge Manude.

II. 3. Og eg vil giefa mijnum tveimur Vottum, og þeir skulu spaa, Þusund Tvo Hundrud og Sextiju Daga, jklædder Seckium.

4. Þesse eru Tvo Vidsmiors Trie, og Tveir Liosastiakar, standande fyrer GUde Jardarennar. Og ef nockur vill þeim granda, þa geingur Elldur ut af þeirra Munne, og svelger Ovine þeirra.

5. Og ef nockur vill þeim granda, sa hlytur so Lijflatenn ad verda.

6. Þesser hafa Magt Himenenn aptur ad luka, ad þad rigne ecke a Dogum þeirra Spaasagna. Og þeir hafa Magt yfer Votnunum, til ad umsnua þeim j Blod, og ad slaa Jordena, med allshaattadre Plaagu, so opt sem þeir vilia.

7. Og nær þeir hafa sinn Vitnisburd endad, þa mun (a) Dyred, þad utaf Underdiupenu uppstijgur, hallda Strijd vid þa, og mun yfervinna þa, og þa jhel sla.

(a) (Dyred) Sa Veralldlege Pave; Inf. 12.

8. Og þeirra Lijkamer munu liggia a Strætum hinnar miklu Borgar, hvor ed andlega kallast Sodoma og Egyptus, þar vor DRottinn er krossfestur.

9. Og þeirra Lijkame munu nockrer af Þiodunum, og Kinsloodunum, og Tungumaalunum, og Heidingium, sia j þria Daga, og eirn Halfann, og munu ecke þeirra Lijkame leggia lata j Grafer.

10. Og þeir er a Jordu bua munu gledia sig yfer þeim, og kaater vera, og Giofum sendast jnnbyrdis, þviad þesser tveir Spaamenn kvoldu þa sem a Jordu bua.

11. Og epter þria Daga, og eirnn halfann, foor j þa Lijfsins Ande af GUde, og þeir stodu a sijnar Fætur, og mikell Otte fiell yfer þa sem þa sau.

12. Og þeir heyrdu Rodd mikla af Himne seigia til þeirra, Stijged upp hingad, Og þeir stigu upp j Himenenn j einu Skye, og þeirra Oviner sau þa.

13. Og a þeirre samre stundu, vard mikell Jardskialfte, og tijunde Partur Borgarenner hrapade nidur, og þar urdu j Jardskialftanum jhel sleigenn Sio Þusund Manna

Nøfn, Og hiner adrer hrædduſt, og gaafu Dyrd Gudde Himenſens.

14. Pad annad Vei er umlided, ſia, hid þridia Vei kiemur ſnarlega.

# XII. Capitule.

Hin Fiorda Sion Johannis (I) Sa Siounde Eingell; (II) Ein Olett Kona; (III) Michael ſem er Chriſtus; (IV) Drekenn, ſem er Diøfullenn.

I. 15. Og hinn Siounde Eingell Baſunade, Og þar giorduſt miklar Radder a Himne, ſem ſøgdu, Rijkenn Veralldarennar eru ordenn vors DRottens, og hans Chriſts, og hann nun rijkia fra Eylijfd til Eylijfdar.

16. Og þeir Fiorer og tuttugu Olldungar, ſem framme fyrer Gude ſaatu a ſijnum Stolum, fiellu framm a ſijnar Aſionur, og tilbaadu Gud.

17. Og ſøgdu, Vier þockum þier DRottinn, Gud Almaattugur, þu ſem ert, og hefur vered, og þu ſem tilkomande ert, ad þu hefur medteked þinn mikla Krapt og Rijker.

18. Og Heidingiarner eru reider vordner, og þijn Reide er komenn, og Tijme Frammlidenna, ad dæma, og Laun ad giefa þijnum Pionum, Spaamonnunum og Heiløgum, og þeim er þitt Nafn ottaſt, Smaaum og ſtorum, Og ad glata þeim ſem Jordunne glatad hafa.

19. Og Muſtere Guds vard upp luked a Himne, og hans Teſtamentis Ork ſaſt i hans Muſtere, Og þar urdu Elldingar, og Radder, og Reidarþrumur, og Jardſkiaalftar, og Hagl miked.

II. 1. Og þar birteſt Teikn miked a Himne, ein Kvinna, Solenne umſkrydd, og Tungled under hennar Footum, og a hennar Høfde Korona af Tolf Stiornum.

2. Og hun vard þungud, og kallade, og var Jodſiuk, og hafde miklar Fædingar Hrijder.

3. Og þar birteſt eitt annad Teikn a Himne, Og ſia, Ad mikell Dreke Raudur, ſa hafde Sio Høfud, og Tiju Horn, Og a hans Høfdum Sio Koronur.

4. Og hans Hale droo þridiung af Stiornum Himensins, og fleygde þeim nidur a Jordu. Og Drekenn ſtod framme fyrer Kvinnunne, þeirre ſem fæda ſkyllde, ſo ad nær hun hafde fædt, ad hann uppſvelgde hennar Barn.

5. Og hun fædde eirn Son, eitt Sveinbarn, ſa er ſtiorna ſkyllde øllum Heidingium med Jaarnvende, Og hennar Barne vard burt kippt, til Guds og hans Stols.

6. Og Konann flyde a Eydemørk, hvar hun hafde fyrerbwenn ſtad af Gude, ad hun fædde ſt þar Puſund tvo Hundrud og ſextiu Daga.

Texte ſem Piſtill a Michaelis Meſſu.

III. 7. Og þar byriadeſt eitt Strijd a Himne, Michael og hans Einglar borduſt vid Drekann, og Drekenn bardeſt og hans Einglar.

8. Og yferunnu ecke, þeirra ſtadur vard og eirnenn ei framar meir fundenn a Himne.

9. Og ſa mikle Dreke vard utſnaradur, hinn gamle Høggormur, ſa ſem ad heiter Diøfull og Andſkote, hvør ed alla Veralldarkringluna viller, og hann vard utſnaradur a Jordena, og hans Einglar urdu og eirnenn utſnarader med honum.

10. Og eg heyrde Rødd mikla a Himne, ſeigiande, Nu er Heilſa og Kraptur, og Rijke, og Maattur vors Guds, ordenn hans Chriſts, med þvi hann er utſnaradur, ſem þa aaſakade Dag og Nott fyrer Gude.

11. Og þeir hafa hann yferunned fyrer Lambſins Blod, og fyrer Orded þeirra Vitnisburdar, og þeir hafa ei elſkad ſitt Lijf allt til Daudans.

12. Par fyrer glediet þier Himnar, og þier, ſem þar inne bygged.]

IV. Vei þeim a Jordu bwa, og a Siønum, þviad Diøfullenn kiemur ofann til ydar, hafande Reide mikla, og veit þad hann hefur ſtuttann Tijma.

13. Og ſem Drekenn ſa, þad hann var utſnaradur a Jordena, offokte hann þa Konu ſem hann Sveinenn hafde fædt.

14. Og Konunne urdu tveir Vænger giefner, lijka sem mikellrar Arnar, so þad hun flye a Eydemork, j sinn stad, þar hun fæddest um eirn tijma, og um tvo tijma, og um halfann tijma, fyrer Augsyn Hoggormsins.

15. Og Hogormurenn gusade epter Konunne, ur sijnum Munne Vatne, lijka sem Vatnsflode, so ad hann villde dreckia henne.

16. Enn Jordenn hiaalpade Konunne, og upplauk sinn Munn, og svelgde Floded, er Drekenn gusade ur sijnum Munne.

17. Og Drekenn reiddest Konunne, og gieck burt ad beriast vid þa sem epter voru af Hennar Sæde, þeir ed Guds Bodord vardveita, og hafa Vitnisburd JEsu Christi.

## XIII. Capitule.

Johannes ser (I) Eitt Furdannlegt Dyr stijga up ur Sionum; (II) og eitt annad Dyr stijga up af Jordunne.

I. 18. Og eg stod a Sioafarsande.

1. Og sa eitt Dyr uppstijga ur Sionum, þad hafde sio Hofud, og Tiju Horn, og a sijnum Hornum Tiju Koronur, og a sijnum Hofdum Nafn Hoadungarennar.

2. Og þad Dyr sem eg saa, var lijkt Pardelo, og þess Fætur sem Biorna Fætur, og þess Kiaptur sem Leona Kiaptur. Og Drekenn gaf þvi sinn Krapt og sinn Stol, og mikla magt.

3. Og eg sa eitt af þessum Hofdum, so sem være þad sært til Dauda, og þess hin Banvæna Und vard læknud, Og oll Verallðarkringlann undradest þad Dyred, og epterfilgdu.

4. Og þeir tilbaadu Drekann, þann sem Dyrenu gaf þa Magt, og þeir tilbaadu þad Dyr og sogdu, Hvor er þessu Dyre lijkur? Og hvor kann ad strijda vid þad?

5. Og þvi vard giefenn Munnur til ad tala mikla hlute, og Hoadungar, og þvi vard Maattur giefenn til ad hallda Strijd j Tvo og Fiorutijge Maanude.

6. Og þad upplauk sijnum Munne til Hoadungar j mote GUde, ad lasta hans Nafn, og hans Tialldbud, og þa a Himnum byggia.

7. Og þvi vard giefed ad strijda vid Heilaga, og yfervinna þa. Og þvi vard giefenn Magt yfer allar Kinkvijsler og Tungumaal, og Heidingia.

8. Og aller, sem a Jordu byggia, tilbidia þad, hvorra Nofn eige eru skrifud a Lifande Bok Lambsins, hvort slaatrad er af Upphafe Veralldarennar.

9. Hefur nockur Eyru, sa heyre.

10. Ef einhvor j Fangelse leider, sa mun j Fangelse ganga; Ef nockur jhel slær med Sverde, sa skal med Sverde jhel sleigenn verda. Hier er Poleinmæde og Tru Heilagra.

II. 11. Og eg sa eitt annad Dyr upp stijga af Jordunne, þad hafde Tvo Horn, lijka sem Lambed og talade so sem Drekenn.

12. Og þad giorer alla Magt hins Firra Dyrsins, fyrer þvi, Og þad giorer, ad Jordenn, og þeir sem þar a bua, tilbidia þad Firra Dyred, hvors Daudlegar Under voru læknadar.

13. Og þad giorer stor Taakn, so ad þad giorer eirnenn, ad Elldur af Himne fellur nidur a Jordena fyrer Mennena.

14. Og þad viller þa sem a Jordu bua, fyrer saker þeirra Teikna sem þvi eru giefenn, til ad giora fyrer Dyrenu, Og þad sagde þeim a Jordu byggia, ad þeir giore eina Mind Dyrenu, þvi sem Undena af Sverdenu hafde, og lifande var orded.

15. Og þvi vard giefed ad þad giæfe Mindenne Dyrsins eirn (a) Anda, svo þad Mindenn Dyrsins talade, Og þad giorde, ad hvorier sem hellst ei tilbaadu Mind Dyrsins, þeir verda jhel slegner.

(a) (Ande og Maal) merker) ad þad er Kroptugt, og ecke dandt Likneske, helldur hafande Valdstietter og Lagariett, sem hafa sinn beinann framgang.

16. Og þad giorde alla samann Smaa og Stora, Rijka og Faatæka, Frialsborna og Præla, ad þad gaf þeim eitt audkienningar Teikn j sijna Hægre Hond, ellegar j sijn Enne.

17. So

17. So þad eingenn fær ad kaupa edur selia, utan hann hafe þad Audkienningarmerke, edur Nafn Dyrsins, edur þa tolu Nafnsins.

18. Hier er Speke. Hvor Skilning hefur, sa samanreikne tolu Dyrsins, þviad þad er Mannsins Tala, Og þess tala er (b) Sex Hundrud, Sex og Sextijger.

(b) (Þad er, 666 ár, so neinge stendur sa verälldeger Pavadomur.

# XIV. Capitule.

Johannes ser (I) Lambed a Zions Fialle; (II) Einn Eingel er hafde Eitt Eylijft Evangelium; (III) Einn annann Eingel, er bodade Babylonar Hrøpun; (IV) Þann þridia Eingel, er talade um miklar Plagur þeirra er tilbædu Dijred; (V) Tvo Eingla med Skorpum Sigd.

I. Og eg sa, og sia, eitt Lamb stod a Fiallenu Zion, og med þvi Hundrud og Fiorar og Fiorutijger Þusunder, sem hofdu Nafn Fodurs þess hins sama, skrifad j sijnum Ennum.

2. Og eg heyrda eina Rodd af Himne, so sem Rodd margra Vatna, og so sem Rodd mikellrar Reidarþrumu, og Roddenn sem eg heyrde, var sem Hørpuslagara, þeir ed sla sijnar Hørpur.

3. Og þeir sungu so sem nyañ Loffaung fyrer Stolnum, og fyrer þeim Fiorum Dyrum, og fyrer Olldungunum, og eingenn gát þann Loffaung numed, utan einasta þeir Hundrad og Fiorer og Fiorutiju Þusunder, sem keypter eru af Jordunne.

4. Þesser eru þeir, hvorier eige fleckader eru medur Konum, Þviad þeir eru Meyar, og filgia Lambenu epter hvort þad geingur. Þesser eru keypter ut af Mønnum, Gude til Frumgroda, og Lambenu.

5. Og j þeirra Munne er eckert Fals funded, Þviad þeir eru ostraffanleger, fyrer Stole Guds.

II. 6. Og eg sa eirn Eingel fliuga midt j giegnum Himenenn, sa hafde Æfenlegt Evangelium, til ad kunngiora þeim sem a Jordu sitia, og byggia, og ollum Heidingium, og Kinþattum, og Tungumaalum, og Folke.

7. Og hann sagde med mikellre Rodd, Ottest Gud, og giefed honum Dyrdena. Þviad komenn er Tijme hans Doms, og tilbidied þann sem giort * hefur Himen og Jord, og Sioenn og Vatnsbrunnana.

* Psal. 146, 6.

III. 8. Og eirn Annar Eingell epterfilgde, sa sagde, * Fallenn er hun, Fallenn er hun, Babylon hin Mikla Borg, Þviad hun hefur med Vijne sijns Saurlijfis druckna giort alla Heidingia.

* Esa. 21, 9. Jer. 51, 8.

IV. 9. Og hinn Þridie Eingell filgde þeim epter, og sagde med mikellre Raust, Ef nockur tilbidur Dyred og þess Mind, og medtekur þad Audkienningarmerke j sitt Enne, edur sijna Hond.

10 Sa mun drecka af Vijne Reidennar Guds, sem innblandad og skiært er j Bikar hans Bræde.

11. Og mun kvaldur verda med Ellde og Brennesteine, j Auglite heilagra Eingla, og fyrer Auglite Lambsins, Og Reykur þeirra Pijsla mun uppstijga, fra Eylijfd til Eylijfdar, Og þeir hafa eige neina hvijld Dag og Nott, sem Dyred hafa tilbeded, og þess Mind, og ef nockur hefur medteked Teikn þess Nafns.

12. Hier er Þolennmæde Heilagra, hier eru þeir sem hallda Bodordenn og Truna a JEsum.

13. Og eg heyrde eina Rodd af Himne til mijn seigia, Skrifa þu, Sæler eru þeir Framlidnu sem j DROTTne Deya, j fra þessu. Ja, Andenn seiger, ad þeir hvijle af þeirra Erfide, enn þeirra Verk filgia þeim epter.

V. 14. Og eg sa, og sia, eitt hvijtt Sky, og a þvi Skye sat eirn sa ed lijkur var einum Mannsins Syne, hann hafde Gullkoronu a sijnu Hofde, og j sinne Hende hvassañ Siggd.

15. Og annar Eingell gieck ut af Musterenu, sa kallade med mikellre Raust til þess sem a Skyenu sat, Slaa til med þijnum Siggd, og skier upp, þvi Kornskieru-Tijmenn er komenn,

af

af þvi ad Haustyrkiann Jardarennar er þornud.

16. Og sa er a Skyenu sat sloo til med sijnùm Siggde a Jordena, og Jordenn vard Haustunnenn.

17. Og hinn annar Eingell gieck ut af Musterenu a Himne, sa hafde eirn hvassann Siggd.

18. Og annar Eingell gieck ut af Alltarenu, sa hafde Magt yfer Elldenum, Og hroopade med miklu kalle, til hins sem hvassañ Siggdenn hafde, og sagde, Hogg til med þijnum hvassa Siggd, og snijd af Vijnklasana Jardarennar, þviad þeirra Ber eru fullvaxenn.

19. Og Eingellenn hio til med sijnum Siggd a Jordena, og sneid af Vijnkvistu Jardarennar, og snarade þeim j hina miklu Vijnþrwgu GUDs Reide.

20. Og Vijnþrwgann vard utan Borgar fergd, og Blooded gieck ut af Þrwgunne, allt til Beisltauma Hestanna, um Þusund og Sex Hundrud Akra leingder.

## XV. Capitule.

Su Fimta Sion Johannis (I) um þær Sio Sijdurstu Plaagur; (II) Um Lofsaung Truadra.

I. Og eg sa eitt annad Teikn a Himne, þad var miked og undarlegt, Sio Einglar hofdu Sio enar sijdurstu Plaagur, þviad med þeim somu utendadest Reide GUDs.

2. Og eg sa so sem eirn Glersio Ellde meingadann, og þa sem sigrad hofdu Dyred, og þess Mind, og þess Teikn, og tolu þess Nafns, þad þeir stodu hia Glersionum, og hofdu Horpur GUDs.

3. Og sungu Lofsong Moses GUDs Þienustu Manns, og Lofsong Lambsins, seigiande, Mikel og Undarleg eru þijn Verk DROTTINN GUD Almattugur, Riettvijser og Sannarleger eru þijner Veiger, þu Kongur Heilagra!

4. Hvor skal þig ei hrædast, DROTTinn, og prijsa þitt Nafn? Þviad þu eirn ert Heilagur, Af þvi aller Heidingiar munu koma og tilbidia fyrer þier, þvi þijner Domar eru openberer ordner.

II. 5. Þar epter sa eg, Og sia, þa vard upploked Mustere Vitnisburdarins Tialldbwdar, a Himne.

6. Og ut af Musterenu geingu þeir Sio Einglar, sem þær Sio Plaagur hofdu, klæder hreinu klaaru Lijne, og gyrdter um Briosted Gull-Lindum.

7. Og eitt af þeim Fiorum Dyrunum gaf þeim Sio Einglum Sio Gullskaaler, fullar GUDs Reide, þess er lifer fra Eylijfd til Eylijfdar.

8. Og Mustered vard fullt af Reyk, fyrer Dyrd GUDs, og hans Krapt, og eingenn kunne ad ganga j Mustered, þar til þær Sio Plaagur, þeirra Sio Eingla feingu Ending.

## XVI. Capitule.

Johannes ser ad Einglarner uthella Skaalum GUDs Reide (I) yfer Jordena; (II) J Sioenn; (III) Yfer Vatnsfollenn; (IV) Yfer Solena; (V) yfer Sæte Dyrsins; (VI) yfer Euphrates; (VII) J Lopted.

I. Og eg heyrde Rodd mikla ur Musterenu, hun sagde til þeirra Sio Eingla, Fared burt, og uthelled þeim Skaalum GUDs Reide a Jordena.

2. Og hinn Firste gieck burt, og hellte sinne Skaal a Jordena, og þar urdu jll Kaun og skadsom, a Monnum þeim ed Audkienningarmerke Dyrsins hofdu, og a þeim sem þess Mind tilbaadu.

II. 3. Og sa Annar Eingell hellte ut sinne Skaalu j Sioenn, og hann vard Blood, Lijka sem eins þess Daudur er, og oll Lifande Saal deyde j Sionum.

III. 4. Og sa hinn Þridie Eingell hellte ut sinne Skaalu j Vatnsfollenn, og j Vatnsbrunnana, og þaug urdu Blod.

5. Og eg heyrda þann Eingel seigia, Þu DROTTinn, sa sem ert, og sa sem varst, þu ert Riettlaatur og Heilagur, þad þu dæmer þetta.

6. Þviad þeir uthelltu Blode Heilagra, og Spaamannanna, og Blood hefur þu giefed þeim ad drecka, þvj þess eru þeir verduger.

7. Og eg heyrda eirn annann Eingel af Altarenu seigia, Ja, DROTTINN Almaattugur GUD, Sanner og Riettvijser eru þijner Domar.

IV. 8. Og hinn Fiorde Eingell hellte ut sinne Skaalu j Solena, og henne vard giefed ad giora Mennena heita med Ellde.

9. Og Mennerner brunnu af ofur-Hita, og løstudu Nafn GUDS, sa er Magt hefur yfer þessum Plaagum, Og giordu øngva Yferboot, honum Dyrdena ad giefa.

V. 10. Og hinn Fimte Eingell hellte ut sinne Skaalu yfer Stool Dyrsins, og þess Rijke vard formirkvad, Og af Kvalningu j sundur bitu þeir sijnar Tungur.

11. Og þeir løstudu GUD a Himne, fyrer sijnar Kvalningar, og fyrer sijn Kaun, Og þeir giordu ecke Yferboot fyrer sijn Verk.

VI. 12. Og hinn Siotte Eingell hellte ut sinne Skaalu, j þad mikla Vatnsfall Euphrates, og Vatned uppþornade, so ad tilreiddur yrde Vegur Konganna, ut af Uppgongu Solarennar.

13. Og eg saa ut af Munne Drekans, og ut af Munne Dyrsins, og ut af Munne þess Falska Spaamanns, ganga Þria Ohreina Anda, lijka (a) Poddum.

(a) (Poddur) eru þeir Maalvau sem hia Høfdingium hræsna, og þvætta j giegn Evangelio, enn utrietta þo eckert.

14. Og þad eru Andar Diofulsins, þeir ed giora Teikn, og ganga ut til Konga Jardarennar, og j kringum allann Heimenn ad samansafna þeim til Strijds, uppa þann mikla Dag GUDS Almaattugs.

15. Sia, Eg kiem sem eirn Þiofur, Sæll er sa sem vaker, og helldur sijnum Klædum, so ad hann gange ecke nakenn so ad ei siaest hans Blygdan.

16. Og hann samansafnade þeim j þann stad sem kallast a Ebresku (b) Harmageddon.

(b) (Harmageddon. A Norræun Fordæmdur Strijdsmadur, Bølvadar Strijdsveriur, edur Luckulauser Strijdsmenn, ab Herem & Gad; Jerem. 15, 15.

VII. 17. Og sa Siounde Eingell hellte ut sinne Skaalu j Vedred, Og þar gieck vt Rodd af Himne ur Stolnum, sem sagde, Þad er skied.

18. Og þar urdu Radder og Reidarþrumur, og Elldingar, og þar vard mikell Jardskiaalfte, þvilijkur ad alldrei hefur vered, upp fra þvi ad Menn hafa a Jordu vered, þvilijkur Jardskiaalfte so mikell.

19. Og ut af þeirre hinne miklu Borg urdu Þrijr Partar, og Borger Heidingianna hropudu nidur. Og hin mikla Babylon vard hugleidd fyrer GUde, henne ad giefa Kaleik Vijnsins hans Grimdar Reide.

20. Og allar Eyar flydu, og eingenn Fioll urdu fundenn.

21. Og Hagl stort sem Pund fiell af Himne a Mennena, og Mennerner løstudu GUD fyrer saker Plaagu Haglsins, Þviad þess Plaaga er nærsta mikel.

## XVII. Capitule.

Siøtta Sion Johannis er um þa miklu Hoorkonu.

Og þar kom eirn af Siø Einglonum, sem høfdu Siø Skaalernar, talade vid mig, og sagde til mijn, Kom, Eg mun syna þier Dom hinnar Miklu Hoorkonu, sem a mørgum Votnum situr.

2. Med hvorre Hooraner drygt hafa Kongar Jardarennar, og þeir sem a Jordu bwa eru druckner ordner af hennar Hoorunar Vijne.

3. Og hann flutte mig burt j Anda a Eydemørk. Og eg saa þa Konu sitia a Fagurraudu Dyre, fullu af Nøfuum Haadungar-Orda, hafande Siø Høfud og Tiju Horn.

4. Og Konann var klædd Purpura, og Pelle Raudu, og forgyllt Gulle og Gimsteinum, og Perlum, og hafde j Hende Gullkier, fullt Svivirdingar og Ohreinenda, hennar Hoorunar.

5. Og j hennar Enne skrifad þad Nafn, (a) Leyndardomur, Hin Mikla Babylon, Moder Frillulifnadanna, og allrar Svijvirdu a Jordu.

(a) (Leyndardomur) Þad er su Andlega stora Babylon

6. Og eg sa þa Kvinnu druckna af Blode Heilagra, og af Blode Vottanna JEsu. Og eg undradest miøg þa eg saa hana. 7.

7. Og Eingellenn sagde til mijn, Hvar fyrer undrast þu? Eg mun seigia þier Leyndann doom um Konuna, og um þad Dyr sem hana ber, og hefur Sio Hofud, og Tiju Horn.

8. Þad Dyr sem þu hefur sied, þad (b) var, og er eige, og mun upp aptur koma af Underdiwpenu, og mun so fara j Fyrerdæmingena, Og þeir sem a Jordu bwa, hvorra Nofn ei standa skrifud a Lijfs Bokenne, j fra Upphafe Veralldar, munu undrast nær þeir sia Dyred, ad þad var, og er eige, þo ad þad sie samt.

(b) Þad Romverska Rijke er, og er ecke, þvi þad er ecke þad Heila Rijke, helldur er þad uppkomed fyrer Pavann epter sitt fall.

9. Og hier er þad Hugskot hvoriu Spekenn tilheyrer. Þau Sio Hofudenn eru Sio Fioll, a hvorium Konann situr, og þad eru Sio Kongar.

10. (c) Fimm eru fallner og (d) eirn er, og sa annar er ei komenn enn nu, og nær hann kiemur, hlytur hann (e) stuttann Tijma ad blijfa.

(c) (Fimm) til Austurs j Gricklande.
(d) (Eirn er) þad er Þyskaland.
(e) Stutta Tijma) þad er nu Spanien.

11. Og þad Dyred sem (f) var, og er eige, þad er sa hinn aattunde, og er ut af þeim Sio, og fer j Fordæmingena.

(f) (Var) ei Rom edur Valland.

12. Og þau Tiju Horn þu hefur sied, þad eru (g) Tiju Kongar, þeir ed Rijked enn nu ei medteked hafa, Enn þeir skulu sem Kongar a einum Tijma fa Magt med Dyrenu.

(g) (Tiju Kongar) Þeir adrer Kongar j Ungaria, Bemen, Polonia, Frankarijke.

13. Þesser hafa eina Meining, og munu giefa sinn Krapt Dyrenu.

14. Þesser munu strijda vid Lambed, og Lambed mun þa yfervinna, Þviad þad er DROTTinn yfer ollum Drottnum, og Kongur yfer ollum Kongum, og med honum þeir sem Kallader og Utvalder og Truader eru.

15. Og hann sagde til mijn, Votnenn þau þu hefur sied, þar ed Hoorkonann situr, eru Foolk og Lyder, og Heidnar Þioder og Tungumaal.

16. Og þau Tiju Hornenn sem þu hefur sied a Dyrenn, þau munu hata Hoorkonuna, og munu hana (h) eydelagda og nakta giora, og þeir munu hennar Holld eta, og hana med Ellde brenna.

(h) Þeir hallda med Pavanum og forsvara hann, enn þeir plocka hann samt, so ad hann mun verda nakenn, og missa sitt Gots.

17. Þviad GUD gaf þad þeim j þeirra Hiortu, ad giora hvad hann meinar, og ad giora eins Meining, og ad giefa Dyrenu sitt Rijke, þangad til ad fullkomnad yrde GUDs Ord.

18. Og Konann sem þu hefur sied, er hin mikla Borg, hvor sitt Rijke hefur yfer Kongum Jardarennar.

## XVIII. Capitule.

Joh: ser (I) Einn Eingel er bodar Hrapun Babylonar; (II) Einn annann Eingel sem rædur GUDs Folke ad ganga ut fra Babylon; III) Einn volldugann Eingel kastande miklum Steine nidur i Sioenn, til merkes þar um, ad Babylon skyllde eydeleggiast.

I. Og epter þad sa eg annann Eingel ofann fara af Himne, sa hafde mikla Magt, og Jordenn upplystest af hans Birte.

2. Og hann kallade af Vallde med hvarre Roddu, og sagde, * Hun er fallenn, Babylon hin mikla, og er Dioflanna Heimele ordenn, og Hirdsla allra Ohreinna Anda, og Hirdsla alls Ohreins og haturlegs Fugls.

* Esa. 21, 9. Jerem 51, 8.

3. Þviad af Reidennar Vijne hennar Hooranar hafa aller Heidingiar drucked, og Kongarner a Jordunne, hafa med henne Hooraner drygt, og hennar Kaupmenn eru Auduger vordner af hennar miklu (a) Vellysting.

(a) (Vellysting) Þverud.

II. 4. Og eg heyrde eina adra Rodd af Himne, sem sagde, utganged af henne Mitt Folk, so ad þier verded eige hlutakarar hennar Synda, uppa þad þier faed eige nockud af hennar Plaagum.

5. Þvi hennar Synder na allt til Himens, og GUD minnest a hennar Þvervod.

 6. Giall=

6. Giallded henne so sem hun hefur gollded ydur, og giored henne þad tvøfallt, epter hennar Verkum. Og med þeim Bikar sem hun birlade ydur, birled henne þar j tvøfallt.

7. Hvad miked sem þad hun hefur sig tig-nad, og vidhaft sijna Pverød, so miked jnn-birled henne af Kvolum og Ecka, Þviad hun seiger j sijnu Hiarta, * Eg sit og em Drott-ning, og eige mun eg Eckia verda, og øn-gvann Trega mun eg sia. * Esa. 47. 9, 10.

8. Þar fyrer skulu hennar Plaagur a ei-num Deige koma, Daude, Harmur, og Hungur, med Ellde mun hun brennd verda, Þviad øflugur er DROTTINN GUD, sa er hana mun dæma.

9. Og Kongar Jardarennar þeir sem med henne hafa Hooraner drygt, og j Munadsemd lifad, munu graata hana, og kveina yfer henne, nær þeir sia Reyk af hennar Bruna.

10. Og munu aa-leyngdar standa fyrer Hrædslu saker hennar Kvala, og seigia, Vei, Vei, Babylon hin Mikla Borg, su hin Sterka Borg! a eirnre Stundu er komenn þinn Domur.

11. Og Kaupmenn a Jordunne munu graata og harma med sialfum sier, Þviad þeirra Kaupeyrer vill eingenn kaupa meir.

12. Kaupeyrer Gulls og Silfurs, og Gimsteina, og Perlna, og Silkes, og Purpura, og Skarlaks, og allshaattadann Dyrendes Vid, og allshaattud Kier af Fijlabeinum, og allra handa Kier af dyrmætum Vide, og af Eyre, og af Jarne, og af Marmara Steine.

13. Cinnamom, og Thimian, og Salve, og Reykelse, og Vijn, og Vidsmior, Simi-liu og Hveite, Kvikfie og Saude, Hesta og Vagna, og Lijkame og Saaler Mannanna:

14. Og þad Alldine þar þijn Saala hafde gyrnd a, er fra þier viked, og allt hvad feitt og kostulegt var, þad er fra þier viked, og þu munt ei þvilijkt leingur finna.

15. Kaupmenn þessarar Voru, hvorier af henne auduger ordner eru, munu aaleingdar standa, af Hrædslu hennar Kvala, graatande og harmande.

16. Og seigia, Vei, Vei, hin Mikla Borg, sem med Silke, Purpura og Skarlate var klædd, og med Gulle var yfergyllt, og med Gimsteinum og Perlum.

17. Þviad a eirne Stundu er slijkur Rijk-domur foreyddur. Og aller Skipherrar, og sa Hoopur sem a Skipum handtierar, og Skipveriar þeir a Sionum handtiera, stodu aaleingdar.

18. Og kølludu, þa þeir sau Reykenn af hennar Bruna, og sogdu, Hvør er lijk þessare hinn miklu Borg?

19. Og þeir jusu Molldu yfer Høfud sier og kølludu graatande og harmande, og sogdu, Vei, Vei, su hin Mikla Borg, j hvørre Auduger eru ordner aller þeir sem Skipen høfdu a Sionum, af hennar Voru, Þviad j eirnre Stundu er hun j eyde logd.

20. Gled þig yfer henne Himen, og þier Heilager, Postular og Spaamenn, Þviad GUD hefur ydar Dom a henne dæmt.

III. 21. Og eirn Øflugur Eingell tok upp Stein, storann sem Kvarnarstein, og kastade honum j Sioenn, og sagde, So skal med ei-num Gny utkastast hin mikla Borg Babylon, og ei framar fundenn verda.

22. Og Songmannanna Rodd, og þeirra sem sloa uppa Streinge, og þeirra sem j Pij-pur blaasa, og Basunur, skulu ei framar meir heyrast j þier, og eingenn Embættes Madur, hvørs sem hellst Embættis hann er, skal meir j þier fundenn verda, og Kvernar Hliod skal ei meir j þier heyrt verda.

23. Og Liome Liossens skal ei framar meir skijna j þier. Og Rodd Bruudgumans og Bruudarennar skal ei framar meir j þier heyrd verda. Þvi þijner Kaupmenn voru Hofdingiar a Jordu, Þviad fyrer þijna Fiølkinge foru villt aller Heidingiar.

24. Og Bloded Spaamannanna og Heilagra er j henne funded, og allra þeirra sem a Jordu eru jhel slegner.

## XIX. Capitule.

Joh: heyrer (I) Raust Eins Skara, og (II) Halleluja einnar Raddar: en ser (III) Hvijtann Hest i Himnenum; og (IV) Eian Engel i Solunne.

I. Epter þetta heyrda eg Rodd mikels Skara a Himne, seigiande, Haleluja, Heilsa og Heidur, Dyrd og Kraptur sie Gllde vorum DROttne.

2. Þviad Sanner og Riettvijser eru hans Domar, þad hann fordæmde hina Miklu Hoorkonu, sem ad Jordena med sinne Hooran fordiarfade, og Blods sinna Þiona af hennar Hende hefur hann hefnt.

3. Og þeir søgdu enn j annad sinn, Haleluja. Og Reykurenn geingur upp eylijflega.

4. Og þeir Fiorer og tuttugu Glldungar, og þau Fiogur Dyrenn fiellu framm og tilbaadu Gud, hvor ed a Stolnum sat, og søgdu, Amen, Haleluja.

II. 5. Og ein Rodd gieck ut af Stolnum sem sagde, Lofed vorn Gud aller hans Þionar, og þeir hann Ottast, bæde smaaer og stoorer

6. Og eg heyrde eina Rodd mikels Skara, og so sem eina Rodd margra Vatna, og so sem Rodd megnrar Reidarþrumu, sem sagde, Haleluja. Þviad Gud sa Almaattuge hefur Rijked under sig lagt.

7. Føgnum og verum glader, og giefum honum Dyrd, þviad Brwdkaup Lambsins er komed, og hans Hwsfrw hefur sig tilbwed.

8. Og henne vard giefed þad hun skyllde umklæda sig med hreinu og Fogru Silke (enn þad Silke eru Riettlætingar Heilagra.)

9. Og hann sagde til mijn, Sæler eru þeir sem kallader eru til Kvølldmaaltijdar Lambsins, Og hann sagde til mijn, þetta eru Sannarleg Guds Ord.

10. Og eg fiell nidur fyrer honum, til Foota hans, ad eg tilbæde hann. Og hann sagde til mijn, Sioa til, gior þad ei, Eg em þinn Samþion og þinna Brædra, þeirra sem hafa JEsu Vitnisburd, Tilbid þu Gud, þvi Vitnisburdur JEsu er Ande Spaadomsins

III. 11. Og eg sa Himenenn opnadann, Og sia, eirn Hvijtur Hestur, og sa sem þar sat a, hiet Trwr og Sannarlegur, og dæmer og strijder med Riettlæte.

12. Og hans Augu eru sem Elldsloge, og a hans Hofde margar Koronur, og hann hafde eitt Nafn skrifad, þad eingenn visse nema sialfur hann.

13. Og hann var jklæddur einu Klæde sem med Blode var stadreist, og hans Nafn heiter Guds Ord.

14. Og honum epterfilgde Her sa a Himnum er, a hvijtum Hestum, klædder j hvijtu og hreinu Silke.

15. Og af hans Munne framm gieck eitt beitt Sverd, þad hann slæe þar med Heidnar Þioder, og hann mun stiorna þeim medur Jaarn-vende. Og hann Fottredur Þrwguna Vijnsins Grimmlegrar Reide Guds Almaattugs.

16. Og hann hefur eitt Nafn skrifad a sijnum Klædum og a sijnum Lendum, so laatande, Kongur allra Konga, og DROTTinn allra Drottna.

IV. 17. Og eg sa eirn Eingel standa j Solunne, og hann kallade med mikelle Rodd, og sagde til allra Fugla sem under Himne fliuga, Komed og samansafned ydur til Kvølldverdar hins Mikla Guds.

18. Ad þier eted Holld Konganna, og Landstiornaranna, og Holld Ofsugra, og Hestanna, og þeirra sem þar uppa sitia, og Holld allra Frijborenna, og Þrælanna, bæde Smaarra og Størra.

19. Og eg sa þad Dyred og Konga Jardarennar, og þeirra Lid samansafnast, til ad hallda Strijd vid þann sem a Hestenum sat, og vid hans Her.

20. Og Dyred vard fangad, og med þvi sa Falske Spaamadur, sem Teiknenn giorde fyrer þvi, med hvorium hann villte þa sem Audkienningar merke Dyrsins medtoku, og þa er Mind Dyrsins tilbaadu. Þesser baader urdu Lifande fleygder j Elldsins Dijke, þad med Brennesteine logar.

21. Og þeir adrer urdu jhel slegner med Sverde,

Sverde, þess sem a Hestenum sat, þad ut af hans Munne gieck; og aller Fuglar urdu sad-der af þeirra Holde.

## XX. Capitule.

Johannes ser (I) ad Satan er bundinn, og (II) leystur: hann ser og (III) Einn er sat ꜳ Einum Mik-lum Hvijtum Stole.

I. Og eg sꜳ eirn Eingel ofan fara af Him-ne, sa hafde Lykel Underdiꝏpsins, og mikla Hlecke j sinne Hende.

2. Og hann Hondlade Drekann, hinn gam-la Hoggorm, hvor ad er Diofull og Andsko-te, og batt hann um Þusund ꜳr.

3. Og fleygde honum j Underdiꝏped, og inneluckte hann, og innsiglade þar ofan yfer, ad hann skyllde ei framarmeir villa Heidnar Pioder, þangad til ad utendud yrde Þusund (a) Aar, og epter þad skal hann laus verda um stutta Stund.

(a) Þesse Þusund ꜳr hefiast þa þesse Book giord var, Þviad Tyrkenn kom ed firsta þusund Aarum syþar; þess a mille voru þo þeir Christnu, og rijktu, Diof-lenum ad Þackarlausu. Enn nu vill Tyrkenn hialpa Pavanum ad eydeleggia þa Christnu, med þvi eckert vill annad hialpa.

4. Og eg sa Stola, og þeir settust þar a, og þeim vard Domurenn giefenn, og þeirra Sꜳler, sem Afhofdader voru vegna Vitnis-burdarens JEsu, og fyrer GUds Ords saker, og þeirra sem ecke hofdu tilbeded Dyred, nie þess Mind, og þeir ei medteked hofdu þess Audkienningar Merke j sijn Enne, edur a sij-nar Hendur, þesser lifdu og rijktu med Christo Þusund Aara.

5. Enn hiner adrer Daudu endurlifnudu ecke, þar til ad Þusund Aar fullkomnudust. Petta er hin Firsta Upprisa.

6. Sæll er sa og Heilagur sem hlutdeilld hefur i hinne Firstu Upprisu, Yfer þvilijkum hefur sa Annar Daude Ongva Magt, helldur verda þeir Kiennemenn GUds og Christi, og rijkia med honum Þusund Aar.

II. 7. Og nær þau Þusund ꜳr eru fullkomnud, þa mun Satan laus verda af sijnu Fangelse.

8. Og mun ut ganga ad villa hina Heidnu, j fiorum ꜳttum Jardarennar, (b) Gog og Magog, ad samansafna þeim til Barꜳttu, hvørra tala er sem Sandur j Sio.

(b) Gog edur Tyrkiar, komner af Tartaria, og kal-last þeir Raudu Gydingar.

9. Og þeir uppstigu yfer Vijdd Jardaren-nar, og umkringdu Herbꝏder Heilagra, og hina elskulegu Borg, og þar fiell Elldur fra GUde af Himnum, og sꜳelgde þa.

10. Og Diofullenn, sa þa villte, vard kasta-dur j Gloande Dijke, og Brennestein, þar ed Dyred og sa Falske Spꜳmadur voru, og þeir verda kvalder Dag og Nott, fra Eylijfd til Eylijfdar.

III. 11. Og eg sa mikenn hvijtann Stool, og þann sem þar uppa sat, fyrer hvors Auglite ad flyde Himen og Jord, og þeim var eingenn stadur fundenn.

12. Og eg sa hina Daudu, bæde stoora og smꜳ, standa fyrer GUde, og Bækurnar urdu upp lꜳtnar, Og ein onnur Book vard op-nud, hvor ad er Lijfsins, og hiner Daudu urdu dæmder, epter Skriptenne j þeim Boo-kum, epter þeirra Verkum.

13. Og Siorenn gaf fram þa Daudu sem j honum voru, og Daude og Helvijte gꜳfu þa Daudu sem j þeim voru, og þeir urdu dæmder, hvor epter sijnum Verkum.

14. Og Daude og Helvijte urdu kostud j Elldsins Dijke, þad er sa annar Daude.

15. Og ef nockur fannst ei skrifadur a Lijfs-bookenne, sa vard burtkastadur j þad Elldsins Dijke.

## XXI. Capitule.

Hin Siounda Sion Johannis (I) um Einn Nyann Himen, og Nya Jord og Jerusalem Nya: (II) Um Kvinnu Brude Lambsins, þꜳ Heilogu Jerusalem.

I. Og eg sa Nyann Himen og Nya Jord, Þviad hinn firste Himen, og firsta Jord forgeingu, og Siorenn er ecke meir.

2. Og eg Johannes sa hina Heilogu Borg, þa Nyu Jerusalem, ofan hingad fara af Him-ne, fra GUde, tilreidda, so sem prydda Brꝏdur mote sijnum Manne.

3. Og

3. Og eg Heyrde Rødd mikla af Himnum
seigia, Sia þar Tialldbwd GUds hia Mön:
num, og hann mun hia þeim byggia! Og
þeir munu hans Folk vera, og hann GUd
sialfur medur þeim mun þeirra GUd vera.
4. Og GUd mun þerra oll Taar af þeirra
Augum, og Daudenn mun eige meir vera, ei:
ge Harmur nie Kveinan, nie helldur Pijna
mun meir vera, þviad hid Firsta er forgeinged.
5. Og sa uppa Stolnum sat, sagde, Sia,
eg giore alla hlute nya. Og hann seiger til
mijn, Skrifa þu, þviad þesse Ord eru sonn
og vissuleg.
6. Og hann sagde til mijn, Pad er giort,
Eg em A og O, Upphaf og Nidurlag, Eg
vil þyrstum giefa af Brunne Lifande Vatns,
giefens.
7. Hvor ed yfervinnur, sa mun erfa allt
þad, og eg vil hans GUd vera, og hann mun
minn Sonur vera.
8. Enn þeim Ottafullum, og Vantruu:
dum og Ognarlegum, og Manndrapurum,
og Frillulifnadar-monnum, og Tofrurum,
ogSkwrgodadyrkurum,og ollumLygurum,
þeirra Hlutdeilld mun vera j Dijkenu sem med
Ellde og Brennesteine logar, hvert ad er sa An:
nar Daude
II. 9. Og eirn af þeim Sio Einglum, sem
hafde þær Sio Skaaler, fullar med þær Sio
sijdurstu Plaagur, kom ad mier, og talade vid
mig, og sagde, Kom, eg vil syna þier Kvin:
nuna, Brwdur Lambsins.
10. Og hann leidde mig burt j Anda, uppa
stort og haatt Fiall, og synde mier hina Miklu
Borg, þa Heilogu Jerusalem, Ofan hingad
fara af Himne fra GUde.
11. Og hafde GUds Dyrd, og hennar
Lios var lijkt hinum dyrmætasta Steine, eirn
skiær Jaspis.
12. Og hun hafde mikla og haafa Mwr:
vegge, og hafde Tolf Port, og uppa Portu:
num Tolf Eingla, og Nofn skrifud, hvor ad
eru tolf Kinkvijsla Israels Barna.
13. Af Austre þriu Port, af Nordre þriu
Port,afSudre þriuPort,afVestre þriuPort.

14 Og Mwrvegger Borgarennar hofdu
Tolf Grundvelle, og j þeim somu, Nofn þeir:
ra Tolf Postula Lambsins.
15. Og sa vid mig talade hafde eirn gulle:
gann Reyr, pad hann skyllde mæla Borgena,
og hennar Port, og Mwrvegge.
16. Og Borgenn liggur ferkonntud, Og
Leingd hennar er so mikel sem Breiddenn. Og
hann mællte Borgena med Reyrnum, uppa
tolf Þusund Akraleingder, Enn Leingdenn og
Breiddenn, og Hædenn Borgarennar er eins.
17. Og hann mællte hennar Mwrvegge
(a) Hundrad Fiorar og Fiorutiju Alner, ep:
ter eins Manns Mæling, sem Eingellenn hefur.

(a) (Hundrad Fiorar og Fiorutiju) þad er þycktenn a Murnum.

18. Og Bygging hennar Mwrveggia var
af Jaspis, og Borgenn af skiiru Gulle, eins
skiær og Gler.
19. Og Grundveller Mwrveggia Borga:
rennar voru Prydder med allshaattada Gim:
steina. Hinn Firste Grundvollur var Jaspis,
sa Annar Saphir, Pridie Chalcedonius,
Fiorde Smaragdus.
20. Fimte Sardonichus, Siotte Sar:
dis, Siounde Chrysolithus, aattunde Beril:
lus, Niunde Topasius, Tiunde Chrysopras,
Ellefte Hyacinthus, Tolfte Amethyst.
21. Og þau Tolf Portenn voru Tolf Per:
lur, og sierhvert Ported var af eirnre Perlu,
og Strætenn Borgarennar voru skijra Gull,
so sem giegnum-skijnande Gler.
22. Og eg saa þar eckert Mustere jnne,
þviad DROTtinn GUd Almaattugur er
hennar Mustere, og Lambed.
23. Og Borgenn þarf hvorke vid Solar
nie Tungls pad þau lyse j henne, þviad GUds
Dyrd upplyser hana,og Lios heñar er Lambed.
24. Og þeir Heidingiar sem holpner verda,
ganga j þvi sama Liose, og Kongarner a Jor:
du munu jnnflytia sijna Dyrd j þa hina somu.
25.Og hennar Hlid verda ecke um Dagenn
aptur lukt, þviad þar mun eingenn Nott vera.
26. Og þangad til hennar mun flytiast
Dyrd og Prijs Heidingianna.

27. Og eckert almeñelegt skal þar nockurstadar jnn ganga og þad sem giorer Andstyggd og Lyge, Helldur þeir sem skrifader eru a Lifande Bokenne Lambsins.

## XXII. Capitule.

Johannes (I) ser ærstrauma þeirrar Nyu Borgar med Lyfssins Tre: (II) Honum er skipad ad tilbidia GUd Drottenn: (III) Hann lyktar syna Openberan.

I. Og hann synde mier Hreint Vatnsfall Lifande Vatns, skiært sem Chrystallus, framm fliota af Stole GUds og Lambsins, midt a hennar Stræte.

2. Og hoadumeigenn Vatnsins stod Lijfsins Trie, og þad bar Tolf handa Avoxt, og færde sinn Avoxt a ollum Manudum, og Lausblod Triesins dugdu til Heilsubootar Heidingiunum.

3. Og þar verdur eingenn Bolvan framarmeir, og Stoll GUds og Lambsins mun þar jnne vera, og hans Pionar munu honum þiona.

4. Og hans Andlit sioa, og hans Nafn mun j þeirra Ennum vera.

5. Og þar mun eingenn Nott vera, og eige vid þurfa nockrar Lysingar, edur Lioss Solarennar, Þviad GUd DROTTinn mun sialfur upplysa þa, og þeir munu rijkia fra Eylijfd til Eylijfdar.

II. 6. Og hann sagde til mijn, þesse Ord eru Visseleg og Sonn. Og GUd heilagra Spoamanna DROTTiñ hefur utsendt sinn Eingel, til ad kunngiora sijnum Pionum, hvad snarlega skie skal.

7. Siaed, Eg kem snart. Sæll er sa sem vardveiter Ordeñ Spoadomsins j þessare Bok.

8. Og eg em Johannes, sem þetta sied og heyrt hefur. Og þa eg hafda þad heyrt og sied, fiell eg framm ad tilbidia fyrer Fætur Eingelsins, þess mier synde þetta.

9. Og hann seiger til mijn, Giæt ad, ad þu giorer ei þetta, Þviad eg em þinn Samþion, og þinna Brædra Spoamannanna, og þeirra sem vardveita Ord þessarar Bokar, Tilbid þu GUd.

III. 10. Og hann seiger til mijn, Innsigla ecke Ord Spoadomsins j þessare Book, Þviad Tijmenn er j Noand.

11. Hvor Illur er, sa giore meira jllt, og hvor Ohreinn er, sa sie ohreinn, Enn hvor Riettvijs er, sa giore enn nu Riettlæte, og hvor Heilagur er, sa verde enn Heilagre.

12. Og siadu, Eg kiem snarlega, og mijn Verdlaun medur mier, ad eg gialllde hvorium sem einum, epter þvi sem hans Verk munu verda.

13. Eg em A og O, Upphaf og Ender, Firstur og Sijdarstur.

14. Sæler eru þeir sem hans Bodord vardveita, uppa þad, ad þeirra Magt sie a Lijfs Trienu, og um Hlidenn jnngange j Borgena.

15. Þviad þar fyrer utan eru Hundarner, og Fiolkingis Menn og Saurlifnadar, og Manndrapavar, og Skurgoda dyrdkendur, og aller þeir sem elska og giora Lygena.

16. Eg JEsus utsende minn Eingel, ad hann vitnade ydur þetta j Samkundunum. Eg em Root Davids Ættar, Skiær Morgunstiarna.

17. Og Andenn og Brudurenn seiger, Kom! Og hvor ed heyrer, sa seige, Kom! Og hvor hann þyrster, sa kome, Og hvor ed vill, sa medtake Vatned Lijfssins, giefens.

18. Enn eg vitna fyrer ollum þeim sem heyra Ord Spoadomsins j þessare Bok, Ad ef einhvor setur þar nockud til, þa mun GUd tilsetia yfer hann þær Plaagur, sem skrifadar eru j þessare Book.

19. Og ef einhvor tekur þar nockud fra, ut af Ordum Bokarennar þessarar Spoasogu, þa mun GUd afmaa hans Deilld af Lijfs-Bokenne, og af hinne Heilogu Borg, og af þvi sem j þessare Bok skrifad er.

20. Þetta seiger sa þetta Vitnar, Jaa, eg kem snarlega, Amen. Jaa, Kom þu DROTTInn JEsu!

21. Naad vors DROTTINS JESU Christi sie med ydur ollum,
AMEN.

Ender hins Nya Testamentesins.

